Mag. Joons Þorkels Sonar Widalin
(Fyrrum Biskups i Skal-hollts Stifte),

# Huss-Postilla,

Innehalldande
Gudrækelegar

# Predikanir

yfir oll Hatijda og Suñu-daga
Gudspioll.

## Fyrre Parturen̄n,

Fra fyrsta Suñudeigi i Adventu, til Trinitatis.

Editio X

Bæder Partarner til samans Innbundnir seliast 105. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hiallta-Dal,
Af Joone Joons Syne,
1798.

HINNE

Dijrkeyptu Jesu Christi Brwde

# Christelegre Kyrkiu

GUDS

I ISLANDE,

Minne hiartkiærre Moodur, oska eg Fridar og Heilla af sijnum Unusta.

## Elskulega Mooder!

ÞAd er bæde Guds Bod og vidteked hiaa øllum Piood-
um, ad Børn eru skylldug ad ala Forelldra sijna, ef þau
gieta. Eñ fatækur er eg og vanburda til þess Mood-
er ad ala þig, jafnvel þo ad eingum af Sonum þijnum sie þad skylld-
ara eñ mier, þu ert og ecke i þvi mijns Lids Purfe, þvi Fader þijns
Elskuga og allra hañs Brædra, hefur Enda bunded aa sijn Heit, er
ritud standa hiaa Esajam i fertugasta og nijunda Capitula. Konung-
arner skulu vera þijner Foostur-Fedur, og þeirra Høfdings Kviñur
þijnar Foostur-Mædur. Hvers naaduga Fyrerheitis ad þu ert ordeñ
hluttakande, eins vel og hver Piood i CHRISTeñdoomenum, og i
Krapte þessa Fyrerheites hefr hañ giefed þier, epter Raadstofun Kon-
unga vorra, marga gudhrædda og vijsa Kieñendur og Forstioora, sem
vaka yfer Saalum Barna þiña: Eñ þo eg sie þeirra veikastur, og kuñe
ecke miklu vid þeirra Verk ad bæta, samt veit eg Skylldu mijna ad
þocknast þier i þvi eg kañ og maa, epter þeirre Naad siñ Gud hefur gief-
ed mier. Eg les i Exodi Bookar þrijtugasta og fimta Capitula, ad þeg-
ar Gud baud Moysi ad laata giøra Vitnisburdar Tialldbwdena, þaa
hafe hañ skipad, ad til heñañ skyllde leggia hver eirn epter þvi sem þeir
sialfkrafa villdu, sumer Gull, sumer Sylfur, sumer Kopar og dijrmæt
Klæde og Steina, eñ adrer Geita-Ull og Hrwta-Skiñ, med ødru fleira
sem þar uñgietur og var i miña Gyllde. Medal þeirra sijdurstu reik-

na eg mig, og mä vel reikna, sökum Fäfrædis mijns og Overdugleika, eñ fyrer þvi ad eg veit, ad þiñ Herra älijtur meir Viliañ eñ Mätteñ, þä voga eg ad biooda þier eptersylgiande Predikaner i Packlætis Miñing, ad eg hafe leiged, og ligge eñ nu ä Briooftum þier. Þigg þvi Mooder beñañ lijteñ Skeink af hinum aumasta Þienara þijns Brwdguma, og þijnum Miñsta Syne, sem vill ästunda ad fiñast.

Skälhollte,
Þañ 7. Augusti,
Añó 1717.

Hönum trwr, og þig
af Hiarta elskande
allt til Daudans.

Jon Thorkelsson
Widalin.

## Til Lesarans.

Epter þvi ad vel-edla og vel-eruverdugum Herra Biskupenum, Hr. Steine Jonssyne, hefur naudsynlegrar Ordsakar vegna þocknast, ad läta setia þær Citatiur sem ä Spatiañe stoodu i þeirre skrifudu Book, sem þesse er prentud epter, iñ i Predikanernar, þä vil eg hafa Lesarañ hier med advaradañ, ad nær þessar Predikaner opeñberlega lesnar eru, þä skule hlaupa yfer Citatiurnar, so þær ecke lesnar sien. Citatiur eru ei giørdar til þess, ad þær skule lesast i eirure Predikun, þvi þær uppehallda Lesaranum, og giøra Lestureñ längsamañ, helldur til þess, ad hver sem vill, kuñe ad siä epter þvi sem Citerad er af Ritninguñe, og bera þad samañ, þegar hañ les wt af fyrer siälfañ sig. Þetta synest mier naudsynlegt ad gieta uñ vid þä sem lesa þessa Book. Befalandi alla Lesendur og Heyrendur hier med, Guds heilags Anda Adstod og Upplijsingu.

Og vil alltijd fiñast epter Skylldu miñe,

Skälholite,
Dag 9. Martij,
Añó 1718.

Þeirra viliugur Þienare
J öllu þvi sem mier er af
Guds Alfu tiltrwad.
Jon Widalin.

## Bæn fyrer Predikun.

Þu stoore Konungur allrar Veralldareñar, sem bijr i þvi Lioose er eingeñ fær tilkomest: Vier synduger Ormar skrijdum ä þessare blessadre Stundu upp wr voru Dupte fram ä Skør þiña Foota, til ad fridmælast vid þijna guddoomlega Hätign, er vier med saurugum Verkum og Illgiørdum vorum so þrälega nwedgad hofum allt i frä Barnæsku vorre. Eñ æ oss, Drotteñ! vier erum so vanmegna under Byrde Syndaña, ad þegar vier gyrnunst ad lypta oss upp i Hæderna til þijn, þä draga vor eigeñ Saurende oss nidur aptur. Þu hefur ad søñu fyrergiefed oss margar Synder, og sparad

oss

oss midt i þeim allt a þeñeñ Dag, Eñ vort Hiarta skielfur i oss og kvijder vid þijnu strannga Riettlæte, nær vier til þess hugsum, ad vier þverbrotnar Mañeskiur hofum so langsamlega forsmad þijna Myskunseme, og sialfer ontijtt so marga Kvittun vorra Synda, er vier þeiged hofum, med þverwdarsamlegre Jdkun somu Glæpa og Illgiorda. Hvert skulum vier þa flya undañ þiñe Hende? Þu uppfyller bæde Himen og Jord, eñ þijn Myskunseme er eins stoor og þu sialfur, huñ hefr ollum þeim vel giefest siñ heñar mz bliwgu Hiarta og sundurknosudum Anda leitad hafa, og ef vier siñ erum Hey-Strá, meigum ecke snerta þig, sem ert eirn fortærande Elldr, þa leif oss ad skrijda ad Sonarens Footum, siñ er Holld af voru Hollde, og þvo þær i Tarum vorrar Ydranar. Eñ æ, vor Gud! vier vitum ad hañ er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem kramed er: Hvad kañ þad oss ad gagna ef vort Hiarta er heillt? Ef þad er hardara eñ nockr Steirn? Þvi grátbænum vier þig, fyrer hañs dijru Kvol og bloodugar Under: Sla þu, O Herra! a þeñañ harda Klett med Moysis Sprota, so ad Vatns-Straumarner, ja, eitt breñande Vatns-Flood meige sprettaþar wt af, til ad þvo vorar ohreinar Samvitskur: Lat eirn glooande Anda breña upp allt Sorp añarlegra Þanka wr voru Hiarta, sem er þitt Mustere, so þijn Ord fae Rwm þar iñe. Lat oss ecke heyra þad so i Dag, ad þad fordæme oss a sijdarsta Deige, helldr gief ad þad verde Epterlæte Synda vorra: Lat þess Sætleika burtdrijfa allt Toomlæte og Gaaleyse fra oss, so vier vardveitum þad i goodu og sidsomu Hiarta. Þess bidium vier þig fyrer Jesum Christum þiñ Son mz hñs eigeñ Bæn, seigande, Fader vor, etc.

# Bæn epter Predikun.

O Þu haleita Guddoomsins Þreñing, eirn Gud og sañr fra Eilijfd til Eilijfdar: Vier aumer Syndarar liggium hier flater fyrer Auglite þiñar Hatignar, til ad offra þier Þacklæte vors Muñs fyrer þijnar owtseiglañlegar Velgiorder, er þijn millda Orlætes Hond oss ohacklatum og þverbrotnum Mañeskium audsynt hefur, bæde i andlegañ og lijkhamlegañ Mata: Eñ æ oss, Drotteñ! vier erum so kallder i Bæneñe, ad vier ottast meigum, ad þu villier skirpa oss wt af þijnum Muñe, nema þu vermer vor Hiortu. O vor Gud!

 læs

lát þiñ gooda Anda, bidia aſamt vorum Anda, med oumrædeleaum Andvorpunum, ſo ad þier lijka mætte Foorn Vara vorra fyrer Jeſum Chriſtum. Vier þockum þiñe guddoomlegre Elſku fyrer þitt H. Ord, og þau hæleitu Sacramenta, a hverium þu fooſtrad hefur og nært vorar Sæler, ad ei ſkylldum vier wt af ſofna i Daudanum. O vor Gud! lát vorar illar Athafner, vort Gæleyſe og Opacklæte, alldrei þvi vallda, ad þu ſvipter oſs þeſſare himneſku Gæfu.

Gief ad þitt Ord, ſiñ vier i Dag hofum heyrt og nuuid, meige bloomgaſt i Hiortum vorum, ſo ad þad fære þañ Avort er ſyne ſig, bæde i Ordum og Verkum, ſo þitt hæleita Nafn vegſameſt i oſs, hveria þu virdeſt ad nefna þitt Foolk og Eigeñdoom. O Drotteñ! vort Hiarta er þitt eptir Rietti Skopunariñar, Endurlauſnariñar og Helgunariñar, þad er þijn Kyrkia, eñ Heimuriñ, vort Holld, og Dioſulleñ, gyrnaſt ad feſta ſiñ Foot þar iñe, og æ þvi verr! ad þad tekſt þeim framar, eñ vier giarnañ villdum: O vor Gud! yfirfall þau mz þiñe Magt, og tak þijna Eign af þeirra Hende, ſo ad þijnir Ovinir brixle ecki þijnum Her-Flockum. Þu vollduge Konungur, ſem ert ſterkur og mattugur i Strijde! lát hinn guddoomlega Krapt þiña heilogu Orda verda ſo rijkañ i Hiortum vorum, ad oſs velge vid Syndeñe, ſo ſem añare Opeckt. Gief þu ad Myñing hiña fornu Glæpaña verdi oſs ſo ſkielfileg, ad oſs hrylle vid þeim, ſo ſem añare Ofreſkiu. Gief oſs ad temia vor Hiortu, vora Tungu og Eyru a þad ſem a ad vera ſijdañ vor ædſta Gledi og Eptirlæti i Dijrd Himnaña, ſiñ er þijn Elſka, þijn Jhugan, þijn Lofgiord og Þacklæti fyrer þijnar guddoomlegar Dæſemder a medal vor, og veit ad vier leggium hid meſta Kapp a, ad framkvæma þad i Verkunum, ſiñ vier þeinkium i Hiartanu, tolum mz Muñenum og heyrum med Eyrunum, ad ei gaungum vier i þeirre Blindne, ad hafa Skyn Gudhrædſluñar, eñ afneita heñar Krapte.

O þu ſtoore Konungr Himins og Jardar! vardveittu þiñ Smurda, vorn allra-nadugaſta Arfa Herra og Konung, hanns hæbornu Drottningu, og vorn naduga Arfa-Printz, og allt þad konunglega Hws. Vertu Konungſins Skiolldur og Sool, og eitt orugt Vijge a moote ollum hañs Ovinum. Lát hañs Rijkisſtioorn farſæla verda, og gief honum langa Lijfdaga: Umgyrd hañs Tignar-Stool mz Herſveitum þiña volldugu Engla; Gief Konungenum blijdna, trwa, or-

ugga og rædhólla Underſæata : Læt hañ ſo ſtioorna i þijnu Uñbode, hier a Jordunne, ad hann meige eilijflega med þier rijkia i Himnenum! O Herra Jeſu Chriſte, þu ſem ert hinn mikle Hyrder Sauðaña, fyrer Blood þeſs eilijfa Teſtamentis, vardveittu Kieñendur Ordſins þijna Pienara, læt þa alldrei gleyma þvi, ad þeir eiga þier Reikning ad ſtanda, fyrer þitt dijra Blood, med hvoriu ad endurkeyptar eru þær Hiarder, er þu hefur ſett þa yfir, eñ vert þeirra Vernd og Forſvar, a moote ogudlegum og ohlutvondum Moñum, nær þeir giora Verk ſiñar Kallanar trwlega: Og trod Andſkotañ undir þeirra Fætur. Vor Gud! ſtioorna þu Valldſtietteñe, og þeim er i Doomunum ſitia, upplijs Hiortu þeirra, ad þeir ſkilie Rietteñ, og gief þeim Vitſku til ad Dæma þitt Foolk, med Vilia og Aſtundan ad giora þar epter. Tak ad þier O Gud! Hwsſtiornar Stiettina, læt øll Egta-Hioon elſkaſt iñbyrdes i falslauſum Kiærleika, og uppala ſijn Børn og Hiw i Aga og Umvønd un til Drotteñs, eñ Børnum og Hiwum hlijdeñ og audſveip Hiortu, ad þau ſieu Forelldrum og Hwsbændum undirgiefiñ i øllu þvi er þeim epter Guds Orde og Lagaña Skylldu tilſagt verdur.

O Drotteñ! añaſt þu alla þa ſiñ naudſtadder eru, og bera þijns Sonar Kroſs a Herdum ſier, væg þeim vor Gud fyrer hañs Skulld ſiñ lidid hefur, uppa þad, hañ kyñi ad hiælpa þeim ſiñ freiſtadur er. Uñ alla Hlute fram̃ grætbænum vier þig himneſke Fader, forlæt oſs vorar bloodugar Illgiørder og Synder, fyrer Jeſu Chriſti ſaaru Kvøl og Pijnu. Miñſt þeſs, ad hañ fyrer oſs i Daudañ er wtgiefeñ af þiñe guddoomlegre Elſku, þegar vier eñ þa vorum þijner Oviner. Virdſtu þar fyrer ad gleyma vorum Yfirtrodſlum, fyrer hveriar hañ Fullnægiu giørt hefur, þar vier fyrer hañ og i honum erum Børn orduer; og nær vor Æfi er ad Protum komiñ vor Gud, og vier liggium fyrir Daudans Porte, horfande fram̃ a Veg allrar Verølldar, riett oſs þa þijna milldu Hønd vor Gud, og læt oſs deya med vorn Endurlauſnara i Fadmenum, ſo vier meigum eilijflega med þier og honum lifa. Bænheyr þetta nædugе Gud og Fader fyrer Jeſum Chriſtum, i hverium allar vorar Bæner eru ia og A M E N.



# Fyrsta Suñudag i Adventu, Gudspialled skrifar Matthæus i 21. Capitula.

I Paũ Tijma: Og þa er þeir tooku ad nalgast Jerusalem, og komu til Betphage vid Fialled Oliveti, utsende Jesus tvo sijna Læresveina, og sagde til þeirra: Fared þid i þad Kauptuun sem gagnvart ydur er, og strax munud þid finna Ösnu bundna og Folañ hia heñe, leysed hana og leided til mijn. Og ef einhver seiger nockud til yckar, þa seiged, þad Herrañ hafe þeirra þorf, og jafnsnart mun hañ lata þaug laus: eñ þad skiede so, ad uppfyllteſt hvad sagt er fyrer Spamañeñ, er so seiger: Seiged Doottureñe Zion, sia, þiñ Kongur kiemur til þijn hoogvær, sittande a Ösnu, og a Fola klifbærrar Ösnu. Enn Læresveinarner geingu i burtu, og giordu so sem Jesus baud þeim, og leiddu med sier Ösnuna og Folañ, og lögdu sijn Klæde yfer þaug, og settu hañ þar uppa. Enn margt Foolk breidde sijn Klæde a Veigeñ. Og adrer hiuggu Kvistu af Trianum og dreifdu þeim a Veigenn. Enn þad Foolked sem fyrer þeim gieck, og epterfylgde, kallade og sagde: Hosianna Syne Davids, blessadur sie sa sem kiemur i Nafne Drottenns, Hosiaña i hædstum Hædum!

## Exordium.

EPistlenum til Phil. 2. Kiemst heilagur Paulus þañeñ ad Orde: Vered eins lynder og Jesus Christus, hver þo hann være Guds Mynd, hiellt hann þad ecke fyrer Herfang ad hann Gude jafn var, helldur lijtelækkade hañ sialfañ sig, takande a sig Præls Mynd, og orden Moñum lijkur. Postuleñ seiger, hann hafe þad ecke fyrer Herfang reiknad, þo hann Gude jafn være. Þeir ed Herfang teked hafa, stæra sig þar af, brwka þad til Ofurlætis, giora þar af forkostuleg Sigurmerke, breita vid þa herleiddu sem þeim lijkar: So þad var Maalshattur hiá Grickium, ad hallda þann Hlut fyrer Herfang, er einhver brwkade rijkmannlega. Jesus brwkade ecke þannveg Guds Mynd þo hann være alls radande, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Samt hafde hann ecke Valld sitt vid yfer aumum Manneskium, hveriar hann var komenn ad endurleysa af Myrkranna Vallde, helldur giordest þeim undergiefenn, þolde Mootmæle og allskonar

Konar Hœdungar af Synduronum, er hañ med Audvirdingu þessare endurkeypte vor Syndareñar Prældoome, og hiellt ecke Guds Mynd Hersœng ad vera, so hañ med siñe Pioons Mynd, feinge Herleidinguna ad Hersœnge teked, Ps. 68. Enn afklædt hiñ sterka Hervopnada Diøful siñe Harneskiu, Luc. 11. Og med Hleckium Myrkraña fiotrad, 2. Pet. 2. Þegar Satan took vora Fyrstu Forelldra til Fœnga i Paradijs, og i þeim alla þeirra Epterkomendur, þœ talde hañ þeim Trw um þad, ad ef þau æte af Eplenu, mundu þau Gude lijk verda, Gen. 3. Eñ þau hlydduſt œ hañs Slægdarfullar Fortølur, topudu þvi Guds Mynd, eñ giorduſt Fiandanum lijk hverium þau framar hlijddu enn Gude, og fyrer þetta Raan Guds Myndar, took Jesus uppœ sig Pioons-Mynd, og hiellt þad ecki so sem Raan edur Hersœng þoott hañ Gude jafn væri. Eñ þoott ad vor Frelsari ecke brwkadi sijna Almættes Tign i Mañdoomenum, medañ hañs Lægingar Tijme yferstood hier œ Jordune, þœ hefur hañ samt eitt añad Rijke af Gude og Fodur, sem er hañs vollug Stioornan i christelegre Kyrkiu med Ordenu og Sacramentunum: Þar um talar so David under Guds Persoonu. Eg hefe smurt miñ Konung og sett hañ yfer mitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Eñ þoott ad Guds Rijke kome ecke þañveg, ad þad adgiætt verde, so sem Herrañ seger, Luc. 17. Þœ siœum vier þo nockra Lijking þess edur Skugga i þessa H. Dags Evangelio, þar ed Jesus rijdur inn til Jerusalem so sem eiñ Konungur, ecke einaſta til ad uppfylla Spœdoom Zachariæ, hvers her geted verdur i Gudspiallenu, og þanneñ hlioodar, Zach. 9. Seigied Doottureñe Zion: Siœ þiñ Kongur Kemur Til Þijn Hoogvær, Sitiande œ Ośnu Og œ Fola Klifbærrar Ośnu. Helldur til þess ad afreka og wtvega sijna Christelega Kyrkiu, sem er einn Konunglegur Kennemañskapur, og þad med sijnu egeñ Bloode, hvar um Esajas spœer, Cap. 62. A. þeñañ Hœtt; Siœed Drotteñ hroopar allt til Enda Jardareñar, Seiged Doottureñe Zion, siœ þitt Hiœlpræde kemur. Og sokum þess, Born mijn, ad þetta Hroop hefur og heyrst til vor, sem ad bwum œ Enda Veralldareñar, og oss verdur œsamt ødrum þetta Hiœlpræde bodad, þœ lœtum oss af þessu heilaga Evangelio yfervega i þetta Siñ, hvilijkum ad þessa Konungs Undersœtum byrie ad vera. Gud Fader Myſkunsemdaña gefe oss Nœd sijna þar til fyrer Jesum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Heir munu ecke aller sem til mijn segia, Herra, Herra, inngœnga i Guds Rijke, seger Jesus, Matth. 7. helldur þeir sem giora Vilia mijns Fodurs sem œ Himnum er. Marger munu þeir vera i Safnade Christs hier œ Jordune, sem eins eru lynder og Judar fordum Daga, er sogdu: vier Vilium ecke lœta þeñañ drottna yfer oss, Luc. 19. Þo er Christur allra þessara Konungur, þvi aller vill hañ ad hoolpner verde, og komest til Sannleikßns Vidurkeñingar, 1. Tim. 2. Eñ so sem þad, ad eiñ Konungur, hañ er Konungur bæde þess er hañ lætur under Exe draga vegna

na Glæpa siña so sem hiñs er hañ setur sier ꜳ Hægra Veg; So eru og bæde Vonder og Gooder i Christi Rijke, og hañ drottnar eins vel yfer þeim, til hverra hañ vill segia ꜳ Efsta Dege, Fared frꜳ mer aller Jllgiorda Meñ, Matth. 7. So vel sem hinum, er hañ kvedur þessum Ordum: Komed blessader mijns Fodurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrerbwed i frꜳ Upphafe Veralldar, Matth. 25. Jafnvel þoott ecke lꜳte þesser hverutveggiu sier eins stioorna af Anda Drotteñs. Hvad byriar oss þꜳ her um ad þenkia Guds Born? Eg meina ad lꜳta oss umhugad vera, ad lwka þessum Konunge Skylldur þær sem hañ af oss heimtar, og er sw helsta, ein audmiwk Hlijdne. Jesus baud sijnum Læresveinum, ad fara i þad Kauptwn sem gagnvart þeim var, þar mundu þeir siña Osnu bundna og Fola hiꜳ heñe, þau skipade hañ ad leysa og leida til sijn. Þeim hefde mꜳtt til Hugar koma, ad ei være Skipun þesse svarleg, þeir mundu Arꜳsum mæta, ef þeir tæke so añara Maña Eigur O=adspurt, eñ þeir sꜳst ecke um þad, helldur giora sem þeim boded var. Gior slijkt hid sama Christeñ Madur, lꜳt enkis Bod edur Bañ vera þier jafntskylldt sem þijns Guds, Hlijdne er betre eñ Offur seger Ande Drotteñs, 1. Sam. 15. Heyr hvad hiñ Eingetne Sonur Guds segier, þegar hañ iñkiemur i Heimeñ, Psalm. 40. Offur og Foornfæringar þocknast þier ecke, eñ mijn Eyru hefur þu i gegnum stwnged, Breñefoorner og Synda-Offur villtu ecke, þa sagde eg: Siꜳ eg kem, i Bookeñe er skrifad af mier, þiñ Vilia miñ Gud giore eg giarna. Hver Davids Ord, St. Pꜳll til Hebr. 10. heimfærer uppꜳ vorn Endurlausnara. Hafe nu hiñ Eingetne Sonur Fodursins, vered honum so hlijdeñ, hver þo med siñe Forþienustu hefur sialfum sier eckert forþenad, hvad miklu framar ætter þu Gude ad hlijdnast, sem honum ecke einasta Sꜳl og Lijf skylldugur ert, helldur og þar ad auke Otal Tiju Þusund Punda, Matth. 18. og þau so morg, ad þu alldrei fær honum loked þañ Sijdasta Pening, ef hiñ Stoore Konungur Himens og Jardar, vill Reikning hallda? Hvad þa Christeñ Madur? Muntu ecke um alla Hlute fram skylldur honum ad hlijdnast, sem fyrer þig hefur allt þetta goldeð, so Gud hefur uppgefed alla Skulldena, ad ecke yrde þier kastad i hin Ytstu Myrkur, eñ straffad hañ sem var hreirn og heilagur, og frꜳskileñ Syndurunum? Hebr. 7. Jꜳ, hañ hefur hñs Eyru i gegnum grafed, eins og Þræls þess er ecke villde laus verda ꜳ Fagnadar Arenu, Exod. 21. hvern hañs Hwsboonde mꜳtte festa ꜳ Eyranu vid siñ Dyrastaf, ad hañ være hañs Þræll upp þadañ æfeñlega. Muntu neita honum þiñar Þienustu, er þvilijka Smꜳn hefur lided þier til Frelsis, þar þo Christi Þræll ad vera, er eintoomis Frelse, og hañs Þienusta, er ollu Herradæme ædre: So þad er sañkveded, er sꜳ Guds Madur orte Fordum: Kong miñ Jesu eg kalla þig, kalla þu Þræl þiñ aptur mig, Herra=Tign engva ad Heimsins Sid, helld eg þar meige jafnast vid. Þvi seiger og Paulus: Þier hafed og ecke medteked Þrælkunar Anda aptur til Hrædslu, helldur hafed þier medteked Arfleidsluñar Anda, fyrer hvorn vier kollum Abba Fader, Rom. 8. Eñ ef vier Born erum, þa erum ver og Erfingiar, Jꜳ Erf-

ingiar

ingiar Guds og Samarfar Christi, Rom. 8. Eñ seiged mier: Hvad munu oll Rijke Veralldareñar vera ad reikna vid þad, ad eiga Arfskipte vid hañ, sem Gud ecke alleina hefur gefed Endemork Veralldareñar til Arfleifdar, Psalm. 2. helldur og sett hañ sier til Hægre Handar, Psalm. 110. og muñ leggia alla Ovine hañs til Footskarar honum, 1. Cor. 15. O hversu blind er þa Mañeskiañ? Meñ leggia allt Kapp a, ad komast i Tigeña Maña Þienustu, hvar þo Tiju þioona fyrer eins Lucku a Stundum, so margur maa þioona leinge aadur eñ hañ kiemst til þess sem þo er i siaalfu sier ecke añad eñ Prælddoomur, og i gegnum mikeñ Prældoom brijst Faavitska Mañsins til añars meira, hvar þad geingur optlega miog Andhælis til, so ad þeir sem dyggvaster vered hafa og Drotteñ hollaster, þeir faa hina vestu Utreid a Stundum, eñ þeir eru i Haavegum er a Svikraadum sitia, eñ ad gioraft Hyrdmadur Christi, skeyta faaer um, jafnvel þoott hañs Þioonusta stande ollum til Boda, þar er ei Gydingur nie Grickur, ecke Præll nie Frelsinge, ei Rijkur nie Faatækur, ei Vijs nie Vankuñande fraaskileñ, helldur eru þar aller eitt i Christo Jesu, Gal. 3. Eñ þess er ad giæta, Born mijn, ad sa sem vill gaanga Christo til Handa, hañ skal ecke tvijskipta Hiarta sijnu, helldur gefa honum þad allt. Ecke seige eg þad, ad hver eirn skule ei þioona i þeirre Kallan, hvar til hañ er kalladur, eda undergefeñ skule ei undergefeñ vera, þvi sa sem giorer Verk siñar Kallanar, hañ þioonar Christo sem þad hefur boded, hañ sem Yfervalldenu hlijdnast, hañ giorer og Christi Skipan, er sagt hefur: Gefed Keysaranum hvad Keysarans er, Matth. 22. Og hañ sem leitar Næringar siñar med ærlegu Erfvide, hañ hlijder honum er þad Bodord gaf, J Sveita þijns Andlites skalltu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Hitt segie eg, ad sa sem vill þessa Konungs Þegn vera, hañ leite fyrst Guds Rijkes, og hañs Rettlætes, Matth. 6. og mete eckert af þessu jafnframt honum, miklu sijdur hlijde añara Bode edur Fortolum meir eñ hañs. Seiged mier, hefur ei Gud boded ad Forelldrana skyllde heidra hvad mest af Moñum, og lagt Bolvan vid, ef nockur þaa vanheidrar? Deut. 27. Eñ þo seiger Jesus, Sa sem elskar Fodur edur Moodur, framar mier, hann er mijn ecke verdugur, Matth. 10. Gud hefur skipad, ad Madureñ skyllde yfergefa Fodur og Moodur, og samteingiast siñe Ektakvinu, Gen. 2. Eñ hvad seiger Moyses hier um? Deut. 13. Ef þiñ Brooder, Sonur Moodur þiñar, edur Sonur þiñ, edur Doottur þijn, edur þijn Eigeñ Kona, sem hvijler i þijnu Skaute, edur Vinur þiñ, sa sem er eins og þu, vilia locka þig, segiande: Laatum oss fara og dijrka añarlega Gude, þaa skalltu drepa hañ, þijn Hond skal vera fyrst a moote honum, til ad deyda hañ, og sijdañ alls Jsraels. Nu kyñe eins hverium i Hug ad smyga, hvilijker skulu þa Christs Þegnar vera? Meiga honum ecke þioona nema syndlauser og heilager Meñ? Þad em eg ecke, og giet ecke vered, a medañ eg life i Holldenu, þvi eg em daudlegur Madur, under Syndena selldur, Rom. 7. Og þegar eg vil giora hid Gooda þaa loder þad Vonda vid mig: Hvad skal eg hier til segia? Þo eg sie skylldur Christo ad þioona af ollu Hiarta, þaa get eg þad ecke, þvi þad

Gooda sem eg vil giora, þad giore eg ecke, en þad Vonda sem eg vil ecke giora þad giori
eg. Heyr Christen Madur, Guds Sonur er i Heimen komen til þess, ad kalla Synd=
uga, en ecke Riettlaata til Ydranar, Matth. 9. Være Von aa þvi, ad vier giætum
fullnægt Guds Logmaale, þaa være Christs Forþienusta oss Onaudsynleg. En ecke
hefur Gud sendt han i Heimen til þess, ad vier mættum þess Ohultar syndga, ecke yfer=
giæfer hanns Naad i Christo þar til, ad vier skulum i Syndunum lifa, Rom. 6. helldur
hefur han þar fyrer lided Kvol og Dauda, ad han visse, ad vier mundum med Synd=
enne Guds Naad og Vinaan optlega af oss briota. Þar fyrer seiger Johannes, 1.
Pistl. 2. Born miin, þetta skrifa eg ydur til, ad þier syndgest ecke, en ef nockur synd=
gar, þaa hofum vier Tals=Mannen hiaa Fodurnum Jesum Christum hinn riettlaata.
Enn giæted þess Christner Menn, ad Syndenn er marghaattud: Þar eru Synder sem
verda ad Ovilia, og af Faavitsku, um hvoriar Guds Logmaal so talar, Num. 15. Ef
nockur Saala syndgast Ovitande, Þaa skal hun Foornfæra Ars gamalle Geit fyrer
Syndena, hvilijk var Synd Paals, er hann Ofsookte Guds Sofnud, fyrer þvi seiger
hann, Eg hefe Myskun hloted, af þvi eg giorde þad Ovitande i Vantrw, 1. Tim. 1.
Item Abimelechs, er hugde ad taka Saram Abrahams Hustru Frillu=Take, og visse
ecke ad hun var hans Eigen=Kona, Gen. 26. Adrar skie af Braadræde einu, þa Man=
eskian sem er hneigd til hins vonda, gefur sier ecke Stunder til ad laata Guds Anda
edur Skynsemena vid sig raada, so sem þegar Moyses sloo Helluna Tvisvar, Num. 20.
Þegar David hiet ad farga Nabal, og ollu Kallkyns i hans Hwse, 1. Sam. 25.
Þegar han Foolked talde, 2. Sam. 24. Og þad er þad sem Paulus kallar, Gal. 6 ad
verda yferstijgen af einhverre Hrosun. Nockrar verda og af mannlegum Breiskleika,
hver ad jafnvel Guds Bornum fylger, æ so leinge þau bera epter sier þennan Daud=
lega Lijkhama, og þad eru þeir Giorningar syndugs Mans, sem Holldet og Anden
eru ad glijma um, og geta alldrei sættst þar uppaa, hviad hvort strijder aa moote odru,
Gal. 5. Og þær fædast þegar Anden lætur sigrast af Holldenu, og verda hier jmser=
under, þvi verr, ad sw Synd sem i oss bijr, hvoria Postulen holld nefner, Gal. 5. Hun
verdur optlega sterkare. Þetta verda aa Stundum þrongar Synder, og serdeiles
Guds Bornum nærre Obærelegar, en þo reiknar Gud þær ecke Endurfæddum
Manne til Dauda, þegar þær med hreinnre og alvarlegre Ydran fyrer Lausnarans
Forþienustu bættar verda. Hvar fyrer? Þvi þar er eingen Fordæming hiaa þeim,
sem eru i Christo Jesu, þeim se m ecke epter Holldenu gaanga, helldur epter Andan=
um, Rom. 8. En þeir kallast ecke ad gaanga epter Holldenu, sem med Andanum
leitast vid ad deyda Holldsins Gyrnder, jafnvel þoott tilbere ad þad faae Yfer=Hond,
allt so leinge Menn giefa þvi ecke Taum, þad Menn þioone þvi i þess Gyrndum. Og
þvi seiger David, Psalm. 19. Hver skilur hvad opt hann villest, afleys mig af miin=
um heimuglegum Syndum, og hallt Þræle þijnum aptur fraa Þvermoodskunne, ad
þær drottne ecke i mier, þaa mun eg heill verda.

Nu

Nu eru þar adrar Syndir, sem Madurinñ, ecki einasta giorir med fullum Asetninge, um hvoriar Drotteñ talar, Num. 15. Sw Saal er driiger Syndina med uppriettre Hende, (þad er med æsettu Raade) hun vanvirder Drotteñ, þvi hun forsacktade hañs Ord, og Onijtte hañs Bod, helldur og læta þeir Syndena drottna i sijnum daudlegum Lijkhama, Fyrer utañ alla Baraattu æ moote heñe, og læ Limu sijna heñe til Vopna, hvoria hun brwkar med Sialfskylldu Andskotanum til Þioonustu, eñ Drotne til Strigdar, so sem eirn Handverks Madur sitt Verkfære. Þesser eru þeir, er Jesus kallar Þræla Syndareñar, Joh. 8. Og þañveg eiga ad skiliast Ord Joh. 1. Ep. 3. Er hañ seiger, ad sæ sem driiger Syndena, hañ sie af Dioflenum. Hiñ Agiarne þeinker ecke um añad, Eñ hvornig hañ meige fylla sitt Hws af añars Sveita med Riettu og Raungu. Þioofureñ sem er hañs Stall-Brooder, hyggur ad, Vakeñ og Sofeñ, hvornig hañ Stela meige. Hiñ Dramblaate þenur sig wt sem añad Laarberia Trie, Psalm. 37. Hañ nijtur ei Svefns nie Matar, ef einhvor hañ virder miña, Eñ hañs Þootte bijdur. Hiñ Metorda giarne sparar aungva Illmeñsku til þess ad tilla sier upp i Virdingarnar. Joab svijfst ecke ad taka Lijfed af Abner og Amasa, Og þo med Flærd og Svikum, til þess ad hañ sie Ohultur um Nafnbætur sijnar. Hiñ Ofundsiwke etur sitt eigid Hiarta, hañs Ormur sofnar ecke ef hañ sier ad nockrum gienaur vel, hañ eyrer engvu nema einhvor steite sig, og hefur aungva Skiemtan nema af añara Olucku. Hiñ Bakmæluge fiskar i añara Avirdingum, Hañ leitar smæsmuglega epter þvi sem ødrum yfir siest, Hañ þeinker sig um, Hvorneñ hañ fæe einhvoriu þar lijklega vid auked, og giorer Tiiu Pund af Einu, þvi sem Andskoteñ hefur honum i Hendur feinged. Lygareñ spiñur sitt Verk af sijnum eigeñ Yðrum eins og Konguloveñ, og briitur Heilañ til ad lioostra þvi upp, sem alldrei er Tilhafed. Hiñ Flaarræde grefur eina Grøf Bake brotnu til ad steipa hinum Einfallda þar i. Allt þetta viña þeir ed so eru lynder med Astundan, fyrer utañ allañ Guds Otta, Edur nockra Mootstødu i giegn Andskotans, Heimsins og Hølldsins Vielum. Þesser læta Syndena drottna i sijnum Daudlegum Lykhama. Og þetta er sw Þvermoodskañ er David bidur Gud ad hallda sier aptur fræ, Ps. 19. Ad söñu er þad satt, ad Guds Sonur er fyrer þessar Synder dæeñ, Þvi hañ er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Hvad og audsied er af Dæme Manassis Konungs, 2. Par. 33. Hiñar Bersyndugu, Luc. 7. Ræningians, Luc. 23. Og añara læangtum fleire: Þo er nærsta hætt vid þvi, Brædur mijner, ad slijk Ydne Syndaña sem Madureñ temur sier æn allrar Ydranar, æn alls Otta fyrer Guds strauagu Hootunum, æn alls Asetnings til apturhvarfs, edur og med Hiegoomlegre Raadagiord, ad ætla sier þa ad ydrast, þegar oss gott þyker, sem kañskie seint þyke, edur þegar oss Syndeñ leid verdur, Er mæskie alldrei verde, ad þesse Ydia og iñdruckeñ Vane til Syndsamlegs Athæfis, meige snwast upp i fræleitt Siñe, Rom. 1 Upp i forbrenda Samvitsku, 1. Tim. 4. Um hvoria Paulus talar, Eph. 4. Ad þeir

gꜳnge i Hiegooma sijns Hugskots formyrkvader i Hugsunum, frꜳ skillder Lijfe Guds fyrer þad Þeckingarleise sem i þeim er, Sokum Hardwdar þeirra Hiarta, hvorier þa þeir hofdu mist alla Tilfiñing, gꜳfu þeir sig til Lausungar, ad fremia allañ Ohreinleik med Agyrne, So sem voru Pharao, Judas, Achitophel, og þeir adrer sem Postuleñ kallar sialfdæmda, Tit. 3. Eñ þad seige eg i Guds Stad, og i Umbode hañs Eingietens Sonar Jesu Christi mijns Herra, hvert eg ꜳ Hende hefe, ad jafnvel þoott ad Nꜳdeñ yfergnæfe Syndena, þa er sꜳ aungvañveigeñ Konungsins Christi riettur Þegn, nie sañur Limur hañs Kyrkiu, er vijsvitande og Yorunarlaust framfer i Syndum og Glæpum, med þvi Moote sem ꜳdur hefe eg sagt: Þvi Guds Sonur er til þess i Heimeñ komeñ, ad kalla Synduga til Yorunar, Matth 9. Eñ ecke til þess ad þeir skule syndga uppꜳ Nꜳdena, Til þess ad Meñ skijrest i hañs Nafne til Yoranar, Act. 2. eñ ecke til Athugaleisis nie Undañdrattar, til þess ad þioona honum i Endurnijungu Lijfdagaña, eñ ecke til þess ad giefa Dioflenum hiñ mesta Hluta þeirra, eñ ætla Gude hiñ siidarsta Part Æfeñar, sem eingeñ veit nær þrijtur. eg veit ad þeir sem komu um Ellestu Stund i Vijngardeñ, feingu jafnt vid hina, sem bored hofdu Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. eñ þu hefur kalladur vered um Siottu og Nijundu Stund, hvad veitstu af þvi ad þu muner nꜳ hiñi Ellestu, Muntu kuña Gud fyrer þad, þoott hañ lꜳte þig hafa jafnañ Hlut med þeim til hvorra sagt var: Eingiñ þeirra Maña sem bodner voru munu smacka mijna Kvolldmꜳltijd, Luc. 14. Villtu heimta þad af Konunge Himens og Jardar, Þu sem ecke ert einasta Molld og Aska, helldur Landrꜳdum sekr vid hiñ Lifanda Gud, ad hañ liete kvelia siñ Eingeteñ Son til þess, ad þu þess tryggvar mætter i allre Ohæfu þioona Fiandanum, Hver ad er Guds svareñ Ovinur. Er þad ecke noog, ad hañ hefur lꜳted greptra þig fyrer Skijrnena med Christo til Daudañs (þad er til ad deya Syndeñe) So ad lijka sem Christr er uppvakeñ frꜳ Daudum fyrer Dijrd Fodursins, so kuñer þu ad ganga i Endurnijungu Lijfdagaña. Reyned þar fyrer Christner Meñ, hvort þier erud i Trwñe, 2. Cor. 13. Hvada Lyst þier hafed til goodra Verka, Hvorn Leida ꜳ Syndeñe, Og ef þier fiñed Brest ꜳ slijku, þa giæted ad ydr i Jesu Nafne, Forsmꜳed ecke Rijkdoom hañs Þoleñmædis og Lꜳnglundargieds, helldur giæted þar ad, ad hñs Giædska leider til Yoranar; So ad þier ecke safned ydr Reide ꜳ Dag Reideñar, og Guds Riettlætes Dooms, Rom. 2. Hvor Eyru hefur ad heyra hañ heyre þad, og bidie Fodur Liooxaña, frꜳ hvorium ad kiemur oll good Giof, og oll Fullkomiñ Giof, Jac. 1. ad giefa sier Yoran til Sañleiksins Þeckingar. Jesu Læresveinar logdu Klæde sijn yfer Osnuna, og settu hañ þar uppꜳ, Þeirra Dæme fylgde Foolked, er breidde sijn Klæde ꜳ Veigeñ. An alls Efa hefur þessum til Hugar komed, ad Jesus munde i þad siñ ætla ad upprietta hid Jardneska Israels Rijke, þvi þad var Hꜳttur Gydinga ad breita þañeñ vid þa sem nijlega hofdu Stioorn teked, Hvad siꜳ mꜳ af 2. Reg. 9. Þegar Spꜳmañsins Þienare hafde smurt Jehu til Konungs, þa breidde hvor af hañs Herra Þienurum sitt Klæde under hañ ꜳ þad hædsta af Tropp-

unum

unum, og sogdu: Jehu rijker. Og þo nu ad bæde Læresveinarner og Foolked villtust i þessu, þaa er þad samt skied af Drottne, til ad teikna þar med hanns Konungs Tign, hvorn Gud Fader hefur smurt yfer sitt heilaga Fiall, Psalm 2. Eñ giært ad þvi, Christeñ Madur, ad þesse Konungur Dijrdareñar rijdur hvorn Dag inn til siñar Borgar, sem er Christeleg Kyrkia, og so sem hañ er einn Andlegur Kongur, so er og hañs Rijke Andlegt, þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke Lijkhamleg, seger Paulus, 2. Cor. 10. helldur Kraptur Guds til ad nidurbrioota Gyrdingarnar. Hann kiemur til vor i Ordenu og Sacramentunum, i Krapte siins heilaga Anda, sem straffar i Mañenum Syndena, uppvekur Ydranena, efler Trwna, kveiker Elskuna til Guds, innræter Kærleikann til Naungans, verkar Þolennmædena. Þegar þu, Christeñ Madur, fiñur i Hiarta þijnu nockrar þesshaattar Hræringar, þa vit þad, ad sa Drottnarenn er þar komeñ til sijns Musteris, sem Malachias um̃ spaaer, Cap. 3. Þegar Pharisæi spurdu Drottenn ad fordum Daga, hvenær Guds Rijke kiæme? svarade hann þeim: Guds Rijke kiemur ecke so þess giætt verde, þeir skulu ecke seigia: Sia! þad er þar, edur sia! þad er hier, þvi siaed, Guds Rijke er inne hia ydur, Luc. 17. Gud kiemur ecke i Hiortu Mañanna, eins og Herodes og Bernice fordum, med stooru Yferlæte, P.G. 25. Sia þinn Konungur Kiemur Til þijn Hoogvær, seiger Gudspialled. Þoott Christur bwe i Himnenum, þaa buir hann under eins i sundurknosudum Hiortum, Esa. 57. Jesus sagde fordum vid Nicodemum: Vindurenn blæs, og þu heyrer hanns Þit, enn þu veitst ecke hvadann hann kiemur, edur hvert hann fer, so eru og aller þeir sem af Andanum fædder eru, Joh. 3.

Nu er Endurnijungeñ Dootter Endurfædingareñar, baadar koma af Anda Guds sem verkar i Manninum fyrer Orded: Eñ ecke veit hañ edr skilur med hveriu mooti hiñ Alvitri Gud þad verkar; Verkanena fiñur hañ, eñ Verkunariñar maata skilur hann ecke. Jesus reid einni Ösnu iñ til Jerusalem, og so þocknast Gude a stundum margañ fyrer faafrooda Predikun hoolpeñ ad giora, 1. Cor. 1. Enn þegar hann so vitiar þijn, syndugur Madur, þa breit epter þessu Foolke: Þeir breiddu sijn Klæde a Vegeñ. Enn hvernig fær þu þad epter þeim giort? Þad kienner St. Pall, Eph. 4. Aflegged þann gamla Mannenn, epter hinne fyrre Um̃geingne, sem fordiarfast i Gyrndum Villudoomsins, enn endurnijest i Anda ydar Hugskots. Afklædunst þessum Ilskuñar Ham, og kostum honum fram̃ fyrer Fætur Jesu: Honum byriar þo med ollum odrum hanns Ovinum ad leggiast til Footskarar honum, þvi ecke er þvilijkur Ovinur Christs, nærst Fiandanum, so sm̃ Holdded, hvers Þaankar ad eru Reide og Fiandskapur i giegn Gude. Enn Iklædunst einum nijum Manne, sem epter Gude er skapadr, i Riettlæte og Heilagleika Sannleikans, Eph. 4. Minnunst Elskannleger a þad, ad Jesus Christur Konungur Dijrdarennar, hañ var flettur sijnum Klædum, og hañs blessadur Lijkhami var allsnakinn reirdur vid Stolpann i Þijng-Hwse Pilati, hvar hañ var Hwdstryktur, til þess, ad vier yrdum frelsader fra eilijfum Hwdstrokum i ytstu

Myrk-

Myrkrum, eñ Jklædder nijum hvijtum Skrwda med Paalmavidum i voſkum Hond-um; Apoc. 7. Jaa, Þetta allt hefur hañ Þolad til Þeſs, ad vier mættum honum Jklæd-aſt, ſo ſem Paulus ſeiger, Gal. 3. Skylldum vier Þa ecke leitaſt vid ad deyda vora Jardneſka Limu, ſem er, Saurlifnadur, Ohreinleike, Gyrnd, Jllfyſe og Agyrne, hv-or ad er Afguda-Dijrkan, Col. 3. Sierdeiles Þar Gud hefur oſs ſiaalfur Vopneñ Hendur feinged, hvor Paulus kallar Lioosſens Vopn, Rom. 13. og Guds Alvepni, Eph. 6. Þad ætlar Heimur Þeſſe, ad hañ hafe eingeñ Not Lijfſins, nema hañ life ad Munudum ſijnum, ſvo ſem væru Meñ alleina Þar til i Heimeñ borner, eins og Petur ſeiger, 2. Piſtl. 2. Ad Þeir ſieu eins og Skynlaus Dijr, ſem ana fram̃ epter Þvi ſem Naatturañ bijdur, alleina til Þeſs ſkopud, ad Þau ſlaatrud verdi, nær Þau faungud eru, og er Lijking Þeſſe aagiæt, Þvi ſo ſem Villudijriñ ecke um̃ añad hyrda, eñ ad fylla Mag-añ, og verda Þar fyrer aa ſtundum tæld og lockud, med adſkiliañlegum Veidebrellum, Þar til Þau eckert af vita, fyrr eñ Þau hafa Foot ſiñ i Snoruñe. So eru og Þeir ed um̃ eckert ſkeita, nema um̃ Lijkhamans Eperlæte, Fijſn Augnaña, og Drambſamlegt Lijf-erne, 1 Joh. 3. Þeir giæta ecke ad fyrr eñ Saaleñ uppvaknar i Helvijte og Kvolun-um. Hvad Poſtuleñ greinelega um̃ Þaa ſeiger, er rijker vilia verda, ad Þeir falle i ad-ſkiliañlegar Freiſtingar og Snorur og Gyrnder, heimſkulegar og ſkadlegar, er ſteipa Mañenum i Topun og Olucku, 1. Tim. 6. Eñ Þeir ſem Chriſto tilheyra, Þad eru Þeir ſem eru hañs Trwfaſter Hyrd-Meñ og Læreſveinar, Þeir kroſsfeſta ſitt Holld med Þeſs Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. og hrooſa ſier ecke nema af Chriſti Kroſſe, fyrer hvorn Þeim er Heimureñ Kroſsfeſtur, og Þeir Heimenum, Gal. 6. Þegar Meñ raada eirn Þienara til Viſtar, Þa giora Meñ Skilmaala vid hñ, hvad hñ viña eige, og hvad hañ faa ſkule i ſijn Verka-Laun. So hefur Jeſus giort, Luc. 9. Hañ sag-de fyrer ollum Moñum, ſeiger Gudſpiallamadureñ: Hvor ſem mier vill epterfylgia, hañ afneyte ſiaalfum ſier, og take Daglega ſiñ Kroſs uppaa ſig og fylge mier epter. Hañ ſagde Þad ollum, ſo aller vita meige, hvors Þeir vænta eige i hañs Þienuſtu. Hañ ſeiger daglega, ſo ad Þeir ſem Gud hefur engvañ wtvortis Kroſs aa Herdar lagt, ſkule Þo bera vidbwner ad Kroſsfeſta ſitt eigid Holld, og deyda ſijna Jardneſka Limu, Gal. 5. ſo ad Þañ vante engvañ Chriſti Kroſs, ſem vill under Chriſts Merke ſtrijda, edur gaanga aa Maala med Þeſſum Konunge, Þvi Þad ſtendur Þo O-raſkañlegt um̃ Alldur og Æfe, ad i giegnum margar Hormungar byriar oſs iñ ad gaanga i Guds Rijke, Act. 14. og er hañs Þienuſta Þo Þvi betre, eñ allra añara, ad Þoott hun Þyke hord Ad-gaungu, Þa er hañs Ok ſætt og hañs Byrde liett, Matth. 11. Þvi hañ hiaalpar ſiaalf-ur til ad bera, hañ er Trwr og freiſtar einkis yfer Megn fram̃, 1. Cor. 10. Sætleike Guds Naadar, og Smeckur Epterkomande Farſælldar, deiſer ſo Remu Kroſſens fyr-er Guds Bernum, ad heñar giæter ecke. Eg heyre ad Paulus og Sylas eru glader i Faangelſenu, Act. 16. Poſtularner geingu fagnande wt fraa Raadenu i Jeruſalem; Þegar Þeir Hwdſtrykter voru, Act. 5. Jeg heyre ad Paulus Oſkar, ad Feſtus Lands

Doom-

Doomare og Agrippa Konungur væru eins Meñ og hañ, ad þeim Hleckiunum undanteknum er hañ var bundeñ med, Act.26. hveria haun hefde þo ecke læted fyrer alla Dijrd Veralldareñar, hefde hañ ætt añars hvors æ mis ad fara. Þess Siñis var Pijslarvottureñ Babylas, er beidde ad grafa sig med þeim Hleckium er hañ var leiddur til Aftokustadarens med, so ad ecke vantade hañ sitt Brwdar-Skart i Upprisunne, Evseb.Lib.6.Cap.36.et.49. So lijted ackta þeir sem vel hafa smackad hvad sætur ad Drotteñ er, Ps.34. So lijted ackta þeir hversu med þeñañ forgeingelega Lijkhama er hondlad. Eñ vilie Meñ epter spyria, hvor ad Launeñ sieu i Christi Dijrdar Rijke, þa seiger hann sialfur, Matth.5. Sæler eru þier nær Mennerner hallmæla ydur og Ofsookn veita, og tala i gegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo liwgande, fagned þier og vered glader, þvi ydar Verdkaup er nooglegt æ Himnum. Enn hvada Verdkaup Brædur mijner? Hvilijkt ecke hefur Auga sied, og ecke hefur Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Manns Hug edur Hiarta komed, 1.Cor.2. Þad er þad Verdkaup er Drottenn hefur tilbwed þeim er hann elska. Hver sem nu samanber þa litlu Hormung, er vier þola meigum i Christi Naadar-Rijke, og þaa Ouñrædelegu Sælu, er hann mun lauua oss med i sijnu Dijrdar-Rijke; Hann mun jaata med Postulanum, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ei verdar þeirrar Dijrdar, sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfe, Rom. 8. O Jesu! Unn oss þessarar farsælu Vistar med þier eilijflega. O Jesu! Laat oss vera þar sem þu ert, Joh 17. O Jesu! Virdstu ad þurka oll Taar af þinna Barna Augum, Apoc. 7. O Jesu! Laat vora Hryggd snwast i Glede, Joh. 16. O Jesu! Gief ad hverke Lijf nie Daude, hverke Englar nie Hofdingia Dæme, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur Skepna, kunne ad skilia oss vid þann Kiærleika, sem er i þier, Rom.8. Og læt oss þier alldrei sleppa, þar til þu blessar oss med eilijfre Blessan, og vier þig aptur med eilijfu Hosianna i hædstum Hædum. Bænheyr þad O Herra Jesu! Þier med Fodur og heilogum Anda, sie Lof, Prijs, Magt og Vellde, um Allder Allda, AMEN.

# Annann Sunnudag i Adventu.

Gudspialled, Luc. 21. Cap.

Þañ Tijma. Jesus sagde til sijña Lærisveina: Þar munu skie Teikn æ Soolu, Tungle og Stiornum, og æ Jordu Kvalning Pioода og Orvinglan, Sioor og Bylgiur munu hlíooda, og Meñ munu fyrer Hrædsln uppþorna, og af Epterbijdingu þeirra Hluta, sem ad koma skulu yfer allan Heimeñ. Þvi ad Kraptar Himnañá munu hræraft: Og þa munu þeir siaa Mañsins Son komanda i Skijum med Magt og miklu Vellde; Eñ nær þetta tekur ad skie þa lijted upp og upphefied ydar Hofud, af

 þvi

þviad ydar Endurlausn tekur ad nalægiast. Og hann sagde þeim þessa Epterlijking: Skoded þier Fijkin-Tried, og øllønnur Trie, nær þeirra Alldin tekur wt ad sprijnga, þa vited þier ad Sumared er nalægt. So lijka nær þier siaid þetta skie, þa vited ad Guds Rijke er nalægt. Sannlega seige eg ydur: Pad þesse Kynslood mun ei forganga, þangad til ad allt þetta skier. Himen og Jord munu forganga, enn mijn Ord forganga eige.

## Exordium.

NEG dæme eingvann seiger Jesus, Joh. 8. Hvad er þa þad hann seiger, Joh. 5. Faderenn dæmer aungvann, helldur hefur hann Syninum allann Doom i Hendur feinged. Tvent bar til þess Brædur mijner, ad Drottenn talade þesse Ord fyrer Gydingum, þad eina ad þeir dæmdu umm hann epter ytre Asynd, þar þeir søgdu skommu adur: Þu ber sialfur Vitne umm þig, þinn Vitnisburdur er ecke gylldur, enn hann svarade þessu medal annara: Þier dæmed epter Holldenu, eg dæme eingvann, hann meinte epter Holldenu. Sw var og onnur, ad hann i þad sinn ecke var komenn til ad lata Doom ganga yfer illar Athafner Mannanna, þvi Illgresenu byriade ad vaxa allt til Kornskieru Tijmans, Matth. 13. Enn ei ad sijdur var hann Drottenn komenn til Dooms a Jordu, so sem hann sialfur vottar, Joh. 9. til þess ad þeir sia ande yrdu, er ecke sia, og þeir ed sia, skylldu blinder verda, og er þad audvitad hver ad sie þesse Doomur, og yfer hverium hann gieck, sem voru þverbrotner Gydingar, hverier ei villdu Jesum þeckia fyrer Guds Son, af þvi Kraptaverkinu, er hann giørde a honum, sem Blindur var borenn, Joh. 9. Enn Doomurenn var þesse; Ef þier værud blinder, þa hefdud þier ecke Synd, enn nu seiged þier: Vier siaum, þar fyrer blijfur ydar Synd; Og þoott Doomurenn sie so riettvijs, ad eckert sie riettvijsara, þa er hann þo nærsta þwngur og hrædelegur, þvi hann er Undannfare hinns Ognarlega Dooms, er a hinum mikla Dege alls Holldsmun ann Myskunar ganga yfer alla þa, sem ecke hafa trwad a Drottenn Jesum. Þvi so seiger Guds Sonur, Joh. 3. Hver sem ecke trwer, hann er þegar dæmdur, af þvi hann trwde ecke a Nafn Eingetens Sonar Guds. Þesse hinn strange, enn þo riettferduge Guds Doomur, gieck yfir hinn vesæla Gydinga Lyd ad miklu Leite, þegar þeir høfdu uppfyllt Mælir Syndarinnar: Þess getur Paulus, Act. 28. Er hann straffar Þvermoodsku þeirra, seigiande: Þar fyrer sie ydur vitannlegt, ad Hialpræde þetta er Heidingium gefed, og þeir munu þad heyra. Þessarar miklu Guds Naadar erum vier og Hluttakande ordner, er bwum under hinu ytsta Heims-Skaute; Þennann skielfelega Doom yfer Guds eigenn Foolke, høfum vier og heyrt: Enn giætum ad þvi er Paall segier til Heidingianna, þeirra er vid Christne teked høfdu: Vel! þeir eru fyrer Vantrwna afbrotner, segier hann, enn þu stendur fyrer Trwna.

stær þig ecke, helldur vert Ottasleigeñ, Rom. 11. Satt er þad sem Drottenn seiger, ad hann sem ecke trwer, sie þegar dæmdur, Joh. 3. Enn þvi trwa Menn ecke? Þvi Menn koma ecke til Liooßens. Þvi koma Menn ecke til Liooßens? Þvi Menn elska meir Myrkred enn Liooßed, af þvi ad þeirra Verk eru Vond, Joh. 3. Þad þyker inndællt ad sofa aa Kodda Athugaleysesins, sem Andskotenn dillar sijnum Bornum aa, med hanns gamla Voggu=Kvæde, er þannenn lætur: Hvar er Fyrerheit hanns Tilkomu, 2. Pet. 3. So hefur þad geinged i fraa Upphafe Veralldar, og þar fyrer eru Menn so treger ad vakna vid Guds Orda Baasunu, þar til Daudans edur Doomsins Baasunu Hliood tekur yfer, og ecke er vært ad sofa leingur. Enn Gud vekur sijdann med eilijfu Ope og Tanna Gnijstran i Helvijte. Hver þad heyrer, hann hygge þar ad, og giæte þeß er Paall sagde til þeirra i Athenu Borg, Act. 17. Gud hefur tilsett eirn Dag, aa hveriunı hann dæma mun alla Jardarkrijngluna med Riettlæti fyrer þann Mann er hann hefur fyrerhugad. Þar fyrer vil eg laata mitt Tal vera i þetta Sinn, hvad oß eige ad leida til þeß ad bwa oß under hinn Sijdarsta Dag, sem vær ecke vitum, nema ad Morgne upprenne. Hiaalpa hier til, O þu goode Gud! fyrer Jesum Christum, AMEN.

## Utleggingin.

Þar Munu Skie Teikn aa Soolu Og Tungle Og'aa Stiornum. Þad sijnest undraaded vera, Brædur mijner, ad ecke mune Endurlausnarenn hafa talad þetta so, vegna Læresveinanna edur Foolksins, er honum i þad sinn nalægt var, þvi jafnvel þoott ad þeir til samans hafe i þeirre Meiningu vered, ad hinn sijdarste Dagur munde vera skamt i burtu, so sem siaa maa af sumu þvi, er þeir hafa skrifad epter sig laated, þaa hafa sijdañ morg Hundrud Ar lided allt til þeßa Dags, helldr er þad sagt vegna vor, yfir hvoria lijklegt er, ad Heims Endereñ sie komeñ; Fyrer þvi ættum vier, ecke sijdst med Uga og Andvara ad vænta Tilkomu Drotteñs, þvi ef Herrañs Postular ætludu aa þeim Dogum, ad hun munde so naalæg vera, hversu mikłu nær mun hun þaa vera oß, er so miklu sijdar lifum? Eg hyg ad Teikn þeße flerst er Lucas gietr um̃ i Evangelio, muni ecki fiarlæg Doomenum verda, helldr nærre i sama Vetfaange, þvi Herrañ seiger hier, ad vier munum Þaa Siaa Mañsins Son Komanda i Skijum Himens, og er audsært, ad þeß mune ecke laangt ad bijda, yr þvi ad allt þetta skiedr, um̃ maa skie ei añad verde eñ Fiorbrot Veralldareñar, þegar Himnarner muni med Stoor=Brestum forgaanga, og Hofud=Skiepnurnar af Hita braadna, 2. Pet. 3. Hvad medal añara maa þar af raada, ad Jesus segier, Marc. 13.. Ad um̃ þañ Dag vite engeñ Madr, og ei jafnvel Englar aa Himnum. Eñ ef Teikn þeße skiedu nockrum Tijma fyrr eñ Himen og Jord forgaanga, þaa kuñu þeir ed aa Jordu bwa, ad vita nockud hier um̃, hvad St. Petur fortekur, 2 Ep 3. er hañ seiger: Ad Dagr Drotteñs mune koma sem Þioofur aa Noottu: Eñ Þioofureñ giorer enga Vitneskiu undañ sier, añars være hann ecke Þioofur, so er og Dagur Drottenns, þvi eins og Taal=

Snara mun hañ koma yfer alla þaa sem a Jordu bwa, Luc. 21. Drage þvi eingeñ sig afsañ sig a Taalar, edur meine, ad af þvi ad þesse Teikn sem Lucas skrifar um i Guds spiallenu, eru eñ nu ecke øll framkomeñ, og vier merkium aungva Umbreiting a Soolu, Tungle og stiornum, adra eñ hun vered hefur i fraa Upphafe Veralldar, epter Venjulegu Natturunnar Hlaupe, ad Drottenn mune þar fyrer seinka, so sem nockrer kalla þad Seinlæte seiger Petur, 2. Pet. 3. Helldur er hañ þoleñmoodur vid oss, viliande ei ad nockur fyrerfarest, helldur ad aller snwest til Ydrunar.

Laatum oss ei þvilijkt i Hugkoma, Brædur mijner, þvi þad eru Spottarañа Þanckar, Er hañ seiger ad upp mune rijsa a Sijdurstu Døgum, þeir ed gaanga i sijnum eigeñ Gyrndum, seigiande: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu, 2. P t. 3. Þvi sijdañ Fedurner sofnudu, þa er allt hid sama so sem fraa Upphafe Skopunareñar. Og hañ dylur ecke hvar fyrer ad syndugum Moñum, sem alla Hlute mæla epter Faafræde Spillingareñar og Smaamenum vorum, sem þiootum upp eins og Gusa, eñ lijdum i burt aptur a Augnabragde, Hvar fyrer, seige eg, ad oss þyke so laungt wr verda er hañ talar um þetta sama Efne, seigiande: Eñ eitt sie ydur vitañlegt Elskañleiger, ad Eirn D. gur er fyrer Drottne so sem Þusund Ar, og Þusund Ar so sem Eirn Dagur. Eñ þeir ed þetta ecke samañbera vid Guds Fyrerheit, Þeim þyker so sem ad hañ tefie og sie brygdmaall ordeñ; So er þad og vijst, ad jafnvel þoott ad bæde St. Paall og adrer lijse þvi, ad Heims Endereñ være yfer þa komeñ, 1. Cor. 10. Þa hefur ecke Postuleñ vænt hñs so brædlega, þar hañ seiger, 2 Tess. 2. Þier skulud ecke skielfast fliootlega i Hugskotum ydar, nie trublast, hvorke af Anda nie Orde, nie af Sendebrefe, sem vier hefdum skrifad, eins og Dagur Drottens være nær þvi komeñ: Kañ skie þess vegna, ad einhvor hafe teked sier Orsok af hañs Fyrra Pistle til þeirra, ad skielfa veikar og Istødulitlar Samvitskur, þar ed hañ skrifar: Eg hef ei Þorf ad skrifa ydur um Tijma og Hentugleika, þvi þier giorla vited, ad sa Dagur Drottens mun koma, sem Þioofur a Nottu, Þegar þeir seigia: Þar er Fridur og Tryggleike, þa er þeim skyndeleg Foreydsla nærre, so sem Jood-Soott Þwngadre Konu, 1. Tess. 5.

Laatum oss þvi ecke Andvaralaust lifa, Brædur mijner, þoott Drotteñ dvelie, Þvi Komande mun hañ koma og ecke seinka, Hebr. 10. Eñ vier vitum ecke, a hvorium Tijma ad hañ kiemur, ad Kvollde Dags edur um Midnætte, edur þa Haneñ galar, edur snema morguns, so ad þegar hañ kiemur hastarlega, ad hañ fiñe ydur ecke sofande. Þad eg seige ydur, Þad seige eg øllum, Seiger Drotteñ, Vake þier, Marc. 13. Laatum ecke vora Ydran bijda epter Soolareñar Formyrkvan, þvi þegar hun allra sijdarst tekur ad sortna, mun Ydranar Tijmeñ wte vera, hun hefur so leinge þioonad oss i Heime þessum, So leinge afmarkad til setta Tijma af Gude, og borid Vitnisburd um hanns Vitsku, hañs Dijrd, hañs Giædsku og hañs Almætti, So leinge hefur hun skynid yfer Oguðlegañ Heim þeña, So leinge upprunned yfer Ranglaata og Riettlaata, ad aller hafa haft noogañ Tijma til ad ydrast, og leita Guds nadur eñ þad Sijdarsta Myrkur

byrg-

Lamb Guds, sem burtu ber allar Veralldareñar Synder; Kieñ þu oss ad þeckia vorn Overdugleik; Drag þu Skyluna fra vorum Voþru Augum, so ad vier mættum sia vora Blygdan; Straffa þu Syndena i oss, med saññre Ydran og Angre Hiartans fyrer allt þad Illa, sem vier fra Barnæsku vorre hofum drygt a moote þier, og þa vier erum so nidursleigner i Hiortum vorum, og þijn vollduga Hond er oss so sterk ordeñ, þa riett oss aptur þijna Naadar Hond, ad vier ei sockvum i Diwp Orvæntingareñar, helldur forlaatum oss þar uppa, ad þu siert oss af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Bænheyr þad Herra fyrer þijna Forþienustu, Amen.

# Fioorda Sunnudag i Adventu.

Gudspialled, Joh. 1. Cap.

I Þeim Tijma. Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita, ad þeir skylldu spyria hañ ad, hvør ert þu? Og hañ medkieñdest og neitade þvi ecke. Og hañ medkieñdest, seigande: Eige em eg Christur. Og þeir spurdu hañ enn þa ad, hvad þa? Ert þu Elias? Hañ sagde: Ei em eg. Ert þu þa Spaamadur? Og hañ svarade, Nei, ecke. Þa sogdu þeir vid hann: Hvør ert þu þa? So ad vier meigum Andsvar giefa þeim er oss wtsendu. Hvad seiger þu af siaalfum þier? Hañ sagde: Eg em hroopanda Rodd i Eydemørku, greide þier Gotu Drotteñs, so sem sagde Esajas Spaamadur. Og þeir sem wt voru sender, voru af Phariseis. Og þeir spurdu hañ ad, og sogdu til hañs: Þvi skijrer þu þa, fyrst þu ert ecke Christur, eige Elias, og eige Spaamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg skijre i Vatne, eñ sa stood i Mided hia ydur, hvørn þier þecktud eige. Hañ er sa sem epter mig mun koma, hvør ed var fyrer mig, hvørs Skoo-Þveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara, hinumeigeñ Jordanar, þar sem Johannes skijrde.

## Exordium.

Þessu heilaga Evangelio er Tvennt sem þarf ad athuga. Þad eina ad Johañes seigest ecke Elias vera, enn Jesus seiger þo uñ hann, Matth. 11. Ef þier vilied þad medtaka, þa er hann Elias sa ed koma skal; Og hia Matthæum seiger hann, ad Elias komeñ sie, Matth. 17. Þad er annad, ad hañ neitar þvi, ad hann sie Spaamadur, enn hañs Fader Sacharias seiger þo uñ hann, Luc. 1. Og þu Sveirn munt kallast Spaamadur hiñs Hæsta. Þetta synest hvort odru gagnstæde

vera; Enn þess byriar ad giæta, sem St. Petur seiger: Ad Spꜳdoomarner eiga ecke wt ad leggiast epter eigen̄ Þootta, þvi þeir eru ecke ad mannlegum Vilia til vor komner, helldur hafa Guds heilager Menn tilknwder af heilogum Anda talad, 2. Pet. 1. Og þvi er eingenn Vegur betre edur beirne til ad leggia þꜳ wt, helldur en̄ siꜳlf Ritningen̄. Hiꜳ Malachiam Cap. 4. seiger Ande Guds: Siꜳ eg mun senda Eliam Spꜳmann til ydar, ꜳdur enn kiemur sꜳ mikle og hrædelege Dagr Drotten̄s. Sꜳ Elias er nu Johannes i Raun og San̄leika, hann gieck undann Guds Foolke i Anda og Krapte Eliæ, so sem Engellen̄ spꜳde, Luc. 1. Elias var eirn strꜳngur Vandlætare i Guds Stad. Johannes var og Ydranar Predikare. Elias sagde hinum Ogudlega Achab Konunge til Synda sinna, 1. Reg. 21. Johannes ꜳtalde Herodem Konung, Matth. 14. Elias upprætte ad miklu Leite Afgudadyrkanena wr Israel, 1. Reg. 18. Um̄ Johannem seiger Frelsarenn, Matth. 17. Ad hann mune vidrietta alla Hlute. Elias bodade hiun sanna Guds Veg, 1. Reg. 19. Johannes kom med Veg Riettlætesins, Matth. 21. Um̄ Eliam er spꜳd, Malach. 4. ad han̄ mune snwa Hiortum Fedranna til Barnanna, og Barnanna til Fedran̄a: Og þan̄ sama Spꜳdoom þijder Engell Drottenns uppꜳ Johannem, Luc. 1. Og ad Menn ecke efest um̄ þad, ad Johannes sie Elias sꜳ ed koma ꜳtte, þꜳ skrifar Matth. 17. Ad þegar Læresveinarner sꜳu ꜳ Fiallenu Eliam og Moysen tala vid Jesum, er hann Forklꜳradest, þa hafe hann ban̄ad þeim ad seigia þꜳ Syn nockrum, fyrr enn hann være upprisen̄, enn þeir svorudu: Pharisæi seigia ad Elias eige ꜳdur ad koma; Enn han̄ sagde: Elias ꜳ ad sonnu ꜳdur ad koma og lagfæra alla Hlute. Enn eg seige ydur: Ad Elias er allareidu komen̄, en̄ þeir þecktu han̄ ecke, helldur giordu vid han̄, hvad þeim lijkade. So mun og Man̄sins Sonur verda pijndur af þeim, þꜳ skylldu Læresveinarner ad hann talade vid þꜳ um̄ Johannem, seiger Matthæus. So er nu Johannes sꜳ riette Elias sem koma ꜳtte; En̄ þo ecke eirn og hin̄ same Elias Thesbiter; Og so sem Guds Ande seiger, Hos. 3. Ad þeir mune leita sijns Konungs Davids, sem þo er ei annad enn Christur. So heiter Johannes hier Elias, jafnvel þoott hann ecke Elias være. J odru Lage neitar Johannes þvi, ad hann Spꜳmadur sie. Hier byriar ad athuga, ad Gydingar hafa ꜳn Efa vered i þeirre Villu, ad Gud munde ecke einasta senda Eliam Thesbiter i eigen̄ Persoonu til þeirra, helldur og eirn an̄an̄ Spꜳmann, lijkan̄ Moysi, hvad þeir dreiged hafa af siꜳlfs Moysis Ordum, Deut. 18. Er hann sagde: Spꜳmann mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lijkan̄ mier, honum skulud þier heyra. Hvor Ord alleina eiga um̄ Drottenn Jesum ad skiliast; So sem St. Petur þad wtleggur, Act. 3. Þad mꜳ og rꜳda af Ordum Foolksins, er sagde um̄ Jesum, Joh. 6. Þesse er sannarlega sꜳ Spꜳmadur, sem i Heimenn koma skal; Edur hvad er þad annad, sem stendur, 1. Maccab. 14. Ad Gydingum og Kiennemon̄um syndest ad Simon skyllde vera þeirra Hertoge æfennlega, þar til sꜳ visse Spꜳmadur kiæme. Vilie Menn og grandvarlega athuga Spurn Gydinga, þꜳ er hun

þaan

hañ Veg: Ertu Sa Spamaduren? Hvad talad fyneſt um̃ einhvorn viſſan Spamañ, ſem þeir væntu epter; Eñ ſo ſem Johañes þvi riettelega Neitade, ad hañ være Elias, epter þeirra Meiningu; So kvad hañ og Nei vid hinu mz ollum Riette, ad hñ ſiä Spamadur være, ſem þeir epter væntu, jafnvel þoott hañ være Spamadur hiñs Hæſta, ſo ſem hanns Fader Zacharias ädr ſagt hafde, og meire enn nockr Spamañ ad Chriſti Vitne, Matth. 11. Og er þetta ad ſeigia um̃ Perſoonu Johannis. Enn af hanns Andſvorum, eigum vier Chriſtelega Hoogværd ad læra. Hvar um̃ eg framſeiges tala vil. Þar til ſtyrke Guds Goodur Ande fyrer Jeſum Chriſtum, Amen.

## Utleggingeñ.

Hid Fyrſta Andſvar Johañis, er hann gaf Sendemoñum Gydinga, er þetta: Eige Em Eg CHriſtur. Spurn þeirra var þann Veg. Hvor Ert Þu? Og ſijneſt ſo ſem hann hafe ei viliad bijda epter þvi, ad þeir ſpyrde hann ad, Hvort Hann CHRIſtur være, þvi hann hefr an Efa vitad, ad þeſs hattar munde Erended vera, þar fyrer fortekur hann þad ſtrax, og ſeiger: EIge Em Eg CHRIST ur, og nu þar af ſia, hvorſu annt honum hefur þar um̃ vered, ad eingeñ ſkyllde ſo mikla Hlute um̃ ſig þeynkia, hvar fyrer hann gietr og ecke bundeſt ſijdar i Gudſpiallenu, ad tala ſo Skorennordt hier um̃, ad allet ſkilja mættu, er hann ſeiger: Sa STood i Mided Hia Ydur, Hvorn þier þecktud eige, hañ er ſa ſem epter mig mun koma, hvor og fyrer mig var, hvors Skoo Þveinge eg em ei verdugur upp ad leyſa. Gudſpiallamadureñ ſem þetta ritar, hann hefur ſo morg Ord hier um̃, ſeigande: HAnn MEDkiendiſt Og NEitade Þvi Ecke, Og Hann Medkiendiſt, og ſagde: EI EM EG CHRIST, ur. Og er þad audſært þar af, ad hañ hefur a allar Lunder viliad gyrda fyrer þad, ad eingenn ſkyllde þvilijkar Ofgar i Hug ſier leida, þann Veg hafa aller Guds Elſkendr lynder vered, ad þeir hafa fyrerorded ſig, þa þeir a einhvorn Hatt hafa orded añad hvort ad nalægiaſt Gud, edur og ad þeirra hefur under eins gieted vered og hiñs Stoora Konungs, ſem ollu rædur bæde a Himne og Jordu. Heilogum Johanni var þetta næſta Ættgeingt ad blygdaſt fyrer ſijnum Gude og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimſookte Moodr hñs Eliſabeth Frænd Konu ſijna, er hun var Oliett ad honum, þa ſagnade hun heñe a þeñañ Hatt: Hvadañ kiemur mier þad, ad Mooder Drottenns mijns kiemur til mijn? Luc. 1. Eins var ſialf Maria Skape fareñ, er hun ſagde til Engelſins: Eg em Ambaatt Drottenns, verde mier epter Orde þijnu. Abraham viſſe ei hvad hann atte af ſier ad giora, þegar Drotteñ yrdte hñ Vidtals, þvi ſagde hñ: Eg villde nu giarnañ tala vid Drotteñ Gud, þoott eg ſie Dupt og Aſka, Gen. 18. Eg vil ei þar um̃ tala, hvorſu Poſtular Drotteñs verduſt allre þeirre Lotningu, er adrer ſynduger Menn villdu veita þeim, þa þeir kiendu Jeſum, edur giordu Kraftaverk i hañs Nafne. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs, þa reiſte Poſtuleñ hañ jafnſkioott a Fætur, og ſagde: Statt upp, eg er eirneñ Madur, Act. 10. Þegar Foolked i Lyſtris ſagde ad Guderner væru Moñum lijker ordner, og til þeirra

ofan=

ofañkomner, Act. 14. af þvi ad Paall reiste þañ aa Fætr mz einu Orde, er Foothrumur var fraa Moodur-Lijfe, og villdu hafa fært honum og Barnabæ Foorner, þaa fundur rifu þeir sijn Klæde, stucku inn i Mañ-Þraungena, hroopudu og sogdu: Þier Menn, hvar fyrer giore þier þetta, vid erum Menn, sama Breyskleika og þier underorpner. Jaa, ecke einasta Guds Heilager Menn og Astviner, hafa þañveg blygdast fyrer Gude, sem meir enn skylldugt er, helldur og hafa hanns volldugu Englar hid sama giort. Þad maa medal annara lesa, Apoc. 19. Þegar Engellenn talade vid Johannem, þa skrifar hann aa þeñañ Haatt: Og eg fiell fram fyrer hanns Fætr ad tilbidia hañ, og hañ sagde vid mig: Siaa ad þu giorer ei þetta, eg em þiñ Med Þienare og Brædra þiña, þeirra er hafa Vitnisburdenn Jesu, tilbid þu Gud. Hafe nu Guds heilager Menn og Postular, hafe Johañes Baptista, uñ hvorn Sañleiks Muñurenn vitnar, ad eingeñ sie meire af Kviñunne fæddur, Matth. 11. Hafe hanns blessud Mooder, sem hina mestu Tign hefur af Gude þeiged allra syndugra Mañá, sem borner eru i þeñañ Heim: Hafe Guds heilager Englar, sem eru alldeilis aan Syndar: Hafe þesser, seige eg, so audmykt sig fyrer hañs Haatign og Vellde, hvad miklu framar byriar þier þaa syndugr Ormur, ad audmykia þig under volldugá Guds Hond, sem allur ert i Synd, og ecke eitt Augnablik lifer aan Syndar i hañs Auglite. Hafe Sonureñ giorst Fodurnum hlijdeñ allt til Daudans, jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Ef St. Paall, 1. Cor. 15. seiger: Ad aa sijdarsta Deige, þegar hañ afhender Rijked Gude og Fodr, þa mune hñ (þo epter Mañdoomenum) undergiefenn verda honum, sem alla Hlute giorde honum undergiefna, ætter þu þa ecke ad skamast þijn ad standa uppriettur i hanns Auglite, þu sem optsiñes ert ohlijdugur, þverbroteñ, toomlaatur, og forsmaaer hanns miklu Myskunseme, sem daglega er nij og fersk yfer þier aa hvorium Morgne, Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmijkt sig fyrer Gude? Þvi þeir elskudu hañ. Þvi hafa þeir hann elskad? Þvi þeir þecktu hann. Þvi þecktu þeir hañ? Þvi þeir lærdu fyrst ad þeckia sialfa sig. Hvad þecktu þeir hiaa sialfum sier? Eckert nema Synd og Volæde. Hvad hiaa Gude? Eckert nema Dijrd og Vegsemd. Gior slijkt hid sama og muntu finna, hvorsu ad þu ert minna enn eckert i Guds Auglite. Ber þig samann vid hann, þoott nockud olijkt sie samañ ad bera, og nærsta sundurleitt, gior þad þo, þvi slijkur Samburdur mislijkar honum ecke, ef hann mætte duga þier til ad kannast vid Synd þijna og hanns Dijrdarfulla Haatign, Hvoria þo Daudlegur Madur alldrei kann ad þeckia so sem hun er. Judar spurdu Johannem ad, HVOR ERT ÞU? Ef þu spyr ad hvor Gud sie, þa verdur ei svarad, nema med hanns eigenn Ordum: Gud er eirn Ande, Joh. 4. Þo ecke so sm adrer Andar, helldur Fader Andanna, Heb. 12. Og svo Dijrdlegur, ad honum maa vid engvann Hlut samlijkia, Esa. 40. Um hann verdr ei nær komest ad tala, enn mz þeim Ordum, er undereins medkienna Faafræde vora til ad wtmaala hañs Dijrd, sm er, ad hun sie Omælañleg, Oendañleg, Oransakañleg og Outseigañleg. Eñ spyr sialfañ þig ad, Hvad ert þu? J Forstuñe eckert, og sijdann Leyr

Jard

Jardar, sem Gud skoop hiñ Fyrsta Mañ af, Gen. 2. Gud er eilijfur, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, Apoc. 1. Enn hvor ert þu? Nockurskonar Gufa, er siest um̃ Hrijd, eñ hverfur sijdañ, Jac. 4. Gud er Omælañlegur, hañ uppfyller bæde Himen og Jord. Þad vottar Zophar af Naema, seigiande: Job. 11. Muntu med Huganum gieta komest ad Stærd hiñs Almaattuga, hann er hærre enn Himeniñ, og diwpare enn Helvijte. Enn hvor ert þu? Mæl sialfañ þig, sem ert saarra Foota Leingd, og megnar ecke med allre þiñe Ahyggiu ad auka eirure Alen þar vid, Matth. 6. Gud er alvitur, aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Hebr. 4. Enn hvor ertu? Þu veitst ecke hvad a Morgun mune skie, Jac. 4. Gud er almaattugur, hia honum er eingenn Hlutur Omaattugur, Luc. 1. Eñ hvor ert þu? Þu formaatt ecke ad giora eitt Hvijtt Haar Svart a þijnu Hofde, Matth. 5. Drotteñ er riettlaatur og goodur, seiger David, Psalm. 25. Og so sem hann er i sialfum sier, so er hañ i sijnum Verkum. Eñ hvor ert þu? Þijner Þankar eru vonder i fraa Upphafe, Gen. 8. og so eru þijn Verk, þvi þar er eingeñ sa ed gott giore, og ecke eirn, Psalm. 14. Gud er sañordur, oll hañs Bodord eru Sañleike, seiger David, Ps. 119. Ef vier Otrwer erum, þa er hañ trwr, sialfum sier kañ hañ ecke ad neita, seiger Paall, 2. Tim. 2. Enn hvor ertu? Spyr St. Paal ad, hañ mun svara þier, Rom. 3. Verde Gud sañordur, enn aller Menn Lygarar. Hvad virdest þier nu syndugur Madur? Muntu ecke, þegar þu so helldur Reikning mille Guds og þijn, munt þu ecke (seige eg) fulla Orsok hafa til ad skammast þijn fyrer hanns Auglite, sem þier so miklu maattkare, miklu ædre, miklu betre, miklu riettlaatare er, og i einu Orde ad seigia, hia hverium þu ert miña eñ ecke neitt ad reikna; Og fyrer utañ allt þetta, þa hefur hañ þig so aumañ, so saraadann, so vondann og onoogañ sialfum þier um̃ alla Hlute, upp wr Þrecknum hafed, og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Eñ lijtelæckad hañ, og giort þier ad ollu samlijkañ, Hebr. 2. Ad þvi einu undañteknu er hañ var straffadur fyrer, eñ þu ert frelsadur fraa, sem er Syndeñ, Hebr. 5. Fyrer hvoria hañ er deyddur, eñ þu fieckst Lijfgiof fyrer hañs Dauda. Þvi skyllder þu þa aumastur allra skapadra Hluta Guds a Jordune, skyllder þu (seige eg) stæra þig edur metnast i Hiarta þijnu, so sem værer þu nockud, fyrer utañ Gud, og ei miklu helldur med Audmykt þijns Hiarta, þacka honum þess iñelegar, sem hañ hefur giefed þier meira Vit a ad þeckia þad, og meira til þijn lagt eñ allra annara. Eirn Guds Engeli hefr honum meira ad þacka fyrer hiñ miñsta Dropa hñs Giædsku, er hañ hefur til hañs laat, helldur eñ allar skynlausar Skiepnur, fyrer oll Natturuñar Giæde og Skopun allra Hluta. Eñ þu syndug Mañeskia hefur meira af honum þeiged i hinum minsta Naadar-Mola andlegra Giæda, helldur eñ allar Englana Hersveiter i ollu þvi sem ollum þeim er tillagt, Hvar fyrer? Þvia til þess, ad þu lifa skyllder fyrer Naad Guds, hefur hañ laated Son siñ ecke Englaña, helldur Abrahams Sæde uppa sig taka, Hebr. 2. Og giort þitt Holld sem hann uppa sig took, Englunum so miklu ædra, sem hann hefur framar þeim ædra Nafn odlast, Hebr. 1. og laated hiñ lif-

anda Gud i manlegu Hollde deya manlegum Dauda, so þu mætter gudlegu Lijfe lifa, þvi hefur hann so miklu meira til þinar Upphefdar unned, enn til Englanna, sem Jesum hanns Son hefur meira kostad ad endurskapa þig, helldur enn alla Englana ad skapa, fyrer þvi attu honum so miklu meira ad þacka enn þeir, sem hann hefur meira uppa þig kostad, enn hvar med villtu honum þacka? Ecke etur hann Kiot Hafrana, edur dreckur Blood hrutana Feitu Uxana, Psalm. 50. Offra honum Lofgiordine, og giallt honum þijn Heit., þad er audmiukur Ande og sundurkramed Hiarta, hvort hann mun ecke fyrerlijta, Psalm. 51. Þu kant ad seiga, eg jafna mier ei saman vid Gud, ei hef eg mig upp a moote honum, eg veit, eg a honum allt gott ad þacka; og ef hann vill Doom hallda vid mig, þa hefur hann Valld til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfann Elld, Matth. 10. Þu seiger vel, þvi allt þetta er meir enn satt, enn rannsaka Hiarta þitt vel, hvort Hugur hefur alltijd fylgt Maale; Hefur þu audmykt þig so fyrer þijnum Gude sem byriad hefur, bæde med Orde og Verke? Ef hann er þinn Fader, hvar er þa hanns Heidur? Giæt ad þvi Jesus seiger, Matth. 21. um þann Son, er Fadirenn skipade ad erfida i Vijngardenum, og hann kvad ja vid, enn foor þo hverge, þad er ecke noog ad nalægiast hann med Vorunum, ef Hiartad er langt þar fra. Vier seigiunst aller eiga ad elska Gud framm yfer alla Hlute, og þad er þad sanna Audmyktar Merke ad elska hann, enn Gud naade hvorneñ þad efnt er, þar vier laatum oss a Stundum alla Hlute fyllda vera enn hanns Dijrd. Þegar Hollded og Andskotenn freista þijn til Syndar annar, enn þier kiemur þa i Hug, ad Gud hafe þad bannad, samt hlijder þu Holldenu i þess Gyrndum, og lætur Syndena i þvi drottna, Rom. 6. Er þad ecke ad upphefia sig a moote Gude, og meta framar þess Munad enn hanns Bodord? Hverier erum vier þaa a medann? Ecke Guds Þioonar, helldur Prælar Syndarennar, þvi hvor hann Syndena æfer, hann er Præll Syndarennar, seiger Jesus, Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skelfast hanns Ogurlega Nafn, enn Menn vanbruka þad a Stundum, til ad lwga, stela og svijkia. Hverier erum vier þa? Þeir ad vijsu, fyrer hvorra Skulld Guds Nafn lastad verdur medal Heidingianna, Rom. 2. Vier seigunst vera skyllduger ad hlijda hns Ordi, og giora þar epter, enn Menn daufheyrast þar vid, sitia under eirne Predikun hyrdulauser, og ganga þadann Avaxtarlauser, og sumum maa valla þangad koma, sem þad er um Hond hnft. Hvad erum vier þa? Forgleymanlegar Tilheyrendur, enn ei Giorendur Ordsins, Jac. 1. J Krosse og Mootgange siest allra best Audmyktenn fyrer Gude. Sa audmyker sig riettelega under hanns vollduga Hond, er kysser a Vond Drottens med Þacklæte, þvi hann er hanns sannur Læresveirn; Enn þar vill a Stundum nærsta miog afbera, þar Menn eru Oþolenmooder under Drottens Krosse. Sumer skioota sier undann hanns sæta Oke a allar Lunder med Oleyfelegu Moote, og leita þeirra Bragda er Gud bannad hefur. Er slijkt ad audmijkia sig fyrer Gude? Fiærre fer þvi. Hverier erum vier þaa? Lijker þeim er lijda so sem Þioofar og Mordingiar, edur þeir sem falla inn i annars Embætte, 1 Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmykt fyrer Gude,

ef

Ef vier viliumm eckert Þola hanns vegna? Og so sem vier erum nu skylduger ad allar Lunder ad audmykia oss fyrer Gude vorum Skapara, so vill hañ og ei helldur ad vier skulum forsmaa vora Brædur i Heimenum; Þvi hvor hañ seigest elska Gud, enn hatar siñ Broodur, hann er Liwgare segier Johañes, þvi ef hañ ecke elskar siñ Broodr, hvorn hañ sier, hvorneñ maa hann Gud elska, þann hañ sier ecke, 1. Joh. 4. Nu er eckert Verkfære Kiærleikans handhægra enn Lijtelæted, þvi þad verdur af ollum elskad: Og med þvi dregur Kiærleikureñ alla til sijn, þa sem ecke Kiærleikañ hata, þess vegna segier Paulus um Dygd þessa, Kiærleikureñ er ecke mikelaatur. Hann þijtur ei upp, hañ leitar ecki eptir þvi sem hañs er, 1. Cor. 13. Og Sokum þess ad hann vissi, ad Lijtelæted var Band Kiærleikans, þa bijdur hann Christnum Monnum, ad þeir hafe, hvor annañ sier i Virdingum ædra, Phil. 2. So hefur og Jesus lated ollum sijnum Læresveinum þad Bodord epter, Hvor sem vill stoor vera ydar a mille, hann sie hiña Þienare, Matth. 20. Hefde Johannes vered agiarn Hiegooma Dijrdar, þa hefde hann ecke neitad þvi, ad hañ Elias edur Spaamadur være, þar hañ matte þo hvoru tveggia um sig jaata, þviad þad Eina vitnar Christur, Matth. 11. um hann, en Añ d hañs Fader Zacharias, Luc. 1. sem adr er sagt, og allt Foolked hiellt hañ fyrer Spaamañ, Matth. 21. Eñ hañ villde a moote hvorugu taka, so hñ giæfe Gude einum Dijrdena. Ecke Olijkur i þessu sijnum Herra, hvors Eingell hñ var, Mal. 3. Hvor þa hñ var af hinum Skriftlærda kalladur goode Meistare, Svarade hañ: Hvad kallar þu mig Goodann? Eingeñ er Goodur nema Gud eirn, Marc. 10. Ecke neitade Herrann þvi ad hañ Goodur være, Villde þo ecke þiggia þañ Titil af hañs Muñe, er hañ so kallade epter sijnum Þanka, þad er eins Goodañ og Phariseæi voru, hvoria Foolked kallade Gooda, af þvi þeir gaafu so miklar Olmusur; Enn Saduceos Riettlaata, af þvi þeir gaafu eckert epter, toofu ei helldur neitt Ranglega fraa neinum. Hvar til St. Paall sijnest lijta, Rom. 5. Er hañ seigier, ad valla mune fiñast nockur sa ed fyrer Riettlaatañ deyr, þvi kañ skie einhvor findest sa ed dæe fyrer hiñ Gooda. Þann Veg forsmaade Christus og hanns Eingell Johañes faanijta Virdingu Heims þessa, Og ei var St. Paall odruvijs Lyndur er hañ seiger, 2. Cor. 12. Ef eg hroosade mier, Þa være eg þo eingeñ Daare, Þvi eg skal satt seiga; Eñ eg hlijfest vid þad, so ad eingeñ þeinke um mig fram yfer þad sem hann sier mig vera, edur heyrer af mier.

Johannes seiger hier i Gudspiallenu: GReide ÞJer GOtu DROttens. Ord þau eru tekeñ af Esaiæ Spaadooms Bookar 40. Cap. þar ed so steñdur; Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemorku, Greide þier Gotu Drottens, Og giored slietta Vegu Gude vorum i Obygdeñe. Þegar Meñ ridia eirn Veg og giora hañ færañ, taka Meñ i burtu Stoor-Grijte og allar Ojofnur, so greidt verde um ad fara. Offie og Hreke Veralldar þessarar eru Torfærur þær sem Guds Veg hindra i Mañsins Hiarta. Hvadañ kienn Strijd og Barratta Maña a medal? Hvadañ kiemur Osund og Ulfhwd? Hvadañ vex Agg, Reide og Þræta? Hvadañ uppstijgur Agyrne og Fiedrættur?

Hvadañ framkiemur Mord og Mañslag? Hvadañ er þad ad Meñ Tonlast og Tigglast Innbyrdis, þar til þeir uñ sijder mættu verda uppetner? Zach. 11. Kiemur ecke allt þvilijkt af hiñe bölvudu Drambseme, er Satan iñræter i Mañaña Hiortu? Hvorneñ ma Zions Konungur ad rijda uñ slijkañ Veg, Þegar sa Drotnareñ kiemur til sijns Musteris? Mal. 3. Sem er Mañsins Hiarta. Þeir breiddu sijn Klæde a Veigenn fyrer hann, þegar hañ sijdarst iñreid til Jerusalem, og dreifdu Kvistum Triaña a hñs Gotu, þad var Audmijktar og Fridar-Merke, Þvi ma og i burtu ad ridia Stoor-Grijte Drambsemennar og Offtopans af hñs Leid, ecke med Lijkhamlegum Verkfærum, helldr med Guds Orde, uñ hvort Páll skrifar, 2. Cor. 10. Ad Vopn Herfarar vorrar sieu ei Lijkhamleg, helldur kroptug fyrer Gude, nidurbriootande Hugremningarnar, og allar Hæder siñ ad upphefiast a moote Guds Þeckingu: Eñ hvoriar munu þær Hæder vera? Þad eru medal annara Fioll Drambsemeñar, Þvi eckert mootstrijder sañre Guds Þeckingu meir enn Þeckingarleyse sijns eigeñ Overdugleika, sñ er Mooder Drambsemennar: Þvi seiger Rodd Hroopandans, ad aller Daler skule upphefiast, og oll Fioll og Haalsar nidurþryckiast. Hvad er þad annad eñ þad sem Guds Mooder sijngr i Lof-Kvædenu, Luc. 1. Dramblaatum hrinder hañ af Stoole, enn upphoof Lijtelaata. Og þoott ad þesse Hroopandans Rodd, Spaae sier i Lage uñ Guds Rood i Evangelio, og Lagfæring allra Hluta fyrer Christum, Hvorrar Frumkvodull Johannes var, Þa ma eg þad vel heimfæra uppa þetta Efne, Þvi Faatækum, þad er Andlega Voludum, og Audmiwkum i Hiarta verda Gudspiolleñ bodud, og þad ecke sijdst vegna þeirra Orda er hier standa skomu sijdar i þessum 40. Cap. Esajæ, a þennañ Hatt: Þar er Ein Rodd sem seiger: Predika þu, og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey og allt þess Agiæte so sem Bloom Akursins: Grased uppþornar og Bloomstred fellr af, þa Ande Drotteñs blæs a þad, ja, Foolked er Hey. Hvar er þa seiged mier, hvar er þa allt vort Atgiorfe? og allt þad Meñ dramba af i Heimenum? Er þad Audur og Rijkdoomur? Fallvallt er þad, og giorer margañ vondann, þad aflast med Ahyggiu, eñ tapast med Sorg. Og nema Menn giore so sem Jacob bijdur þeim Rijku, Cap. 1. Ad hroosa sier i sinne Lægingu, þa er þad Volædenu verra. Er þad Metord og Virdingar? enn David seiger Madureñ blijfe þo ecke leinge i Heidrinum, Ps. 49. og Þrældoomur eru þau Reyndar. Er þad gofugt Forelldre og Affspreinge? Eñ vier erum þo aller af Adam komner: Hañ var Utlage Guds wr Paradys: Fyrer hvoria Sok, er oss alkuñugt Gen. 3. Fegurd og Prijde Lijkhamans? Þad er fallvallt, þvi Bloomstrid fellur af seiger Esajas i 40. Cap. Eirn Siwkdoomur fær þvi ollu umbreitt: Þvi þegar þu typtar Drotteñ, þa folnar oll þeirra Fegurd, Ps. 39. Fagur Bwnadur og skrautleg Klæde? Þad sagde eirn af þeim Gomlu, ad være eins og ef Þioofureñ stærde sig af Snoruñe. Þroottur og Styrkleike Lijkhamans? Enn Hestureñ er eñ þa sterkare, þvi skilldu Meñ þa ecke hañ virda. Eñ hiñ Almaattugi hefur ei Lyst a Styrkleika Hestsins, edur a Footleggium Mañsins. Hia Drottne eru þeir aller vel þockader, sem

hañ

hañ ottast og til hanns Myskunar vona, Ps. 147. Hvad er þaa framar, sem Madurenn kuñe so ad metnast af? Kuñaatta og Vijsdoomur er mest tignad i Heimenum, og er hin ægiætasta Guds Giof, eñ so er hañ bestur, ad hañ sie med Guds Otta kriddadur, þad vottar St. Jacob, seigande: Ef nockur er vijs, edur med Skynseme gaafadur medal ydar, þaa auglijse hañ Verk sijn i goodre Umgeingne med skynsamlegu Hooglæte, Cap. 3. Og hvad eru aller vorer Vitsmuner fyrer utañ þetta? Paall seiger, ad þeir sieu Haalfverk, 1. Cor. 13. Og hvad meira er, ad þeir eru einkis verder, og jafnvel skadleger, nema þeim Guds Otte og Kiærleikureñ fylge. Þvi seiger Postulenn enn aptur, 1. Cor. 8. Ef einhvor þykest nockud vita, þaa veit hañ þo enn nu eckert, so sem vita byriar, Eñ ef nockur Gud elskar, hañ er fæddur af honum. Og þoott ad Skynsemeñ og Vitsmunerner sieu ein sw hin besta Guds Gaafa, er hañs Giædska hefur sæmt oss med, þaa verdur heñe med Drambsemeñe so spillt, ad hun verdur Ovite argare, þvi seiger Paulus, 1. Cor. 3. Eingenn ville siaalfann sig, ef nockur þykest vitur vera medal ydar i Olld þessare, hann verde heimskur so hann vitur verde. Þar skilst mier Postuleñ meine, ad hañ skule gæta ad hvad lijted hann veit, so hañ stære sig ecke, þvi Skynseme Veralldar þessarar seiger hañ, er Heimska hiaa Gude, 1. Cor. 3. Nu þo ad allar þessar Guds Gaafur sieu harla goodar, ef þær eru riett brwkadar, þaa er samt þess ad giæta, ad þad er ecke vorteiged, og hañ æ feiaalst, sem þad allt liente, ad taka þad fraa oss æ hvorium Tijma, sem vier þad vanbrwkum. Af ollu þessu siaaum vier, hvad lijted ad þad sie, er daudleger Meñ brwka til Stærelætes, giætande ecke þess, ad Virdingenn eltter þañ, sem hana flijr, eñ flijr fyrer þeim hana ellter, ef ei añarstadar, þaa hiaa Gude. Postuleñ seiger til Gal. 6. Ef nockur þykest vera nockud, þar hañ er þo eckert, hañ viller sitt Hiarta; Eñ ef vier eckert erum, þvi vilia Meñ þaa krefia þess, so sem añarar Vitaskulldar, ad vier sieum virdter af Moñum. Eige seige eg þad, ad þeim skule ei Heidur veita, er Heidur heyrer, Rom. 13. þvi þad er Guds Bod. Hitt seige eg, ad þeir sem vid eiga ad taka, skule ecke una þvi illa, þoott af slijku meige bera æ stundum, þvi sa sem jaatar fyrer Gude, þad hañ eckert sie i hanns Auglite, og þad af Alvoru og Hræsnislaust, þa sie eg ecke ad hañ þurfe meir ad syrgia fyrer Virdingu siñe, helldur eñ hiñ, sem ecke er eñ nu fæddur. Hiaa oss er eckert gott, þvi skylldum vier stæra oss? Hiaa oss er margt illt, þvi skylldum vier ei skamast vor? Oss kañ margt illt til ad falla, þvi skylldum vier ecke jafnañ hrædder vera? Oss kañ siaalfa margt illt ad henda, þvi skylldum vier ecke jafnvel hrædast oss siaalfa og leggia af ad forlaata oss uppaa þad sem eckert er? Ef vier jaatum þad fyrer odrum ad vier eckert sieum, og meinum þad ecke, þaa svijkium vier adra. Eñ ef vier meinum þad og þeckium þad sem vier vel meigum meina og þeckia, eñ hegdum oss ecke þar epter, þaa svijkium vier siaalfa oss. Gud sa sem er allt i ollu, 1. Cor. 15. Hann lijtelæckade sig þinna vegna, syndugur Madur, og þu sem ecke ert neitt i neinu, villt ecke briota Odd af Oflæte þijnu hanns vegna, Gud, seige eg eñ nu, lijtelæckade sig til ad verda Madur, eñ Madurenn vill þo ecke lijtelæcka sig til þess, ad verda eirn Ande

med Gude. Þess meir sem þu audvirder þig fyrer Gude, þess meire verdur hañ i þier, og þess stærre sem hañ i þier verdur, þess verdur þu stærre i honum, þvi Gud moot-stendur Drambl͡atum, eñ Lijtel͡atum gefur hañ Naad, seiger Jacob, Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur ægiætt kallast, þad er alleina stoort og ægiætt i Gude, og fyrer utañ hann, alldeilis eckert. Hvar fyrer Paall seiger: Hver hann hroosar sier, hann hroose sier i Drottne, 2. Cor. 11. Þar fyrer, nær sa Guds Madur hefur upp taled allt þad er adrer reiknudu sier til Gylldis, sem er, ad hañ være Hebreskur eins og þeir, Israels Madur eins og þeir, Abrahams Sæde eins og þeir, Christs Þienare eñ framar eñ þeir, hñ hafe ervidad meir eñ þeir, optar i Hæska vered eñ þeir, þa endar hñ mz þessu Atkvæde: Ef hroosa skal, þa vil eg hroosa af þeim Hlutum er Veikleika mijnum vidkoma, 2. Cor. 11. Og enn framar seiger hañ, Cap. 12. Eg mun miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanum, so ad Mættur Drotteñs bwei mier, þ r fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmaanenne, i Naudunum, i Offsoknunum, i Angisteñe fyrer Christum, þvi þa eg er veikur, þa er eg mættugur. So er þar nu eingenn Rijkdoomur, eingenn Styrkleike, eingenn Heidur, eingenn Fegurd, eingen Skynseme, eingenn Mættur, eingenn Dijrd, eingeñ Prijde nema i Gude alleina, og eckert þad Menn kuñe ad vegsamast fyrer, nema einsomul og hræsnislaus Audmykt fyrer honum. Þvi vil eg enda þetta mitt Tal til ydar Guds Born med Paals Ordum, af Pistlenum til Gal. 6. Þad verde mier ecke, ad eg hroose mier nema af Krosse Drottens vors Jesu Christi, fyrer hvorn mier er Heimureñ krossfestur, og eg Heimenum. Honum Drottne Jesu med Fodur og heilogum Anda, einum og þrennum Odaudlegum Konunge, og alleina Rijkum, sie Lof og Heidur, Kraptur og Styrkleike, Æra og Vegsemd, sogd og swngenn af ollum Tungum Engla og Mañs, nu þiedañ i fra og ad eilijfu, Amen.

# A Joola-Dagenn.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

Þañ Tijma, Og þad bar til a þeim Dogum, ad þad Bod gieck wt fra Keysaranum Augusto, þad Heimureñ allur skyllde Skattskrifast. (Þesse Skattskrift vooſt fyrst upp þa Cyrenius var Landstioornare i Syria). Og þeir fooru aller ad læta Skattskrifa sig, hvor til siñar Borgar. Þa foor og Joseph af Galilea wr Borgeñe Nazareth, upp i Judeam, til Davids Borgar Bethlehem, af þvi ad hañ var af Hwse og Kyne Davids, so ad hañ liete Skattskrifa sig þar mz Mariu siñe Festar-Konu Oliettre. Eñ þad skiede so, þa þau voru þar, ad þeir Dagar fullnudust, ad hun skyllde fæda, og hun fædde siñ Frumgeteñ Son, og vafde hañ i

Reif-

Reifum, og lagde hañ nidur i Jotuna, þviad hun fieck eckert annad Rwm i Giesta-Herbergenu. Og Fiær-Hyrdarar voru þar i sama Bygdarlage uñ Grandana vid Fiær-Hwsen, sem geymdu og voktu yfer Hiørd siñe uñ Noottena. Og siaa þu; Þad Engell Drottens stood hiaa þeim, og Guds Byrte lioomade i kriingum þaa, og þeir urdu miog Ottaslegner. Og Engellen sagde til þeirra: Hyrded þier ecke ad hrædast. Siaaed, Eg boda ydur mikeñ Fognud, þañ er skiet øllu Foolke, þviad i Dag er ydur Lausnareñ fæddr, Sa ad er Christur Drotteñ i Borgeñe Davids. Og hafed þad til Merkis, ad þier munud fiña Barned i Reifum vafed, og lagt vera i Jotuna. Og jafnsnart þa var þar hiaa Englenum mikell Fiolde himneskra Hersveita, sem lofudu Gud og sogdu: Dijrd sie Gude i Upphædum, og Fridur aa Jordu, og Meñum geodur Vilie.

## Exordium.

Skielfelega Ognan munde Veslætu Mannkyne hafa staded af þvi hrædelega Straffe med hvoriu hiñ Riettlaate Gud fargade hiñe Vantrwudu Verolld aa Dogum Noa, nema hanns Giædska hefde giort Saattmaala vid Mañkyned, ad hañ framar ecke villde Endeleggia Jordena med Vatns-Floodenu, og þessu til Merkes sett Bogann i Skijeñ, seigande: Þegar þesse Boge verdur i Skijenu, þaa vil eg minnast aa Saattmaalañ aa mille Guds og allra lifande Skiepna, af øllu Hollde aa Jordinne, Gen. 9. Med þessum Hætte lijste hinn Naaduge Gud Fride yfer Jordunne og þeim þar inne bwa. Og er þad vijst, ad hann hefur lited under eins til þeirra, sem aa hanns Eingietens Sonar Nafn trwa mundu. Fiærre sie þvi, ad Regn-Bogeñ kyñe þvi ad vallda, ad Gud yrde Mañenum Naadugur, ei helldur þurfte hann ad læra miña sig aa þad hañ giora villde, jafnvel þoott Ritningeñ so tale ad Maña Plagsid; Aller Hluter eru opner og nakter fyrer honum, Hebr. 4. Eñ þar Jesus situr til hañs Hægre Handar, og hañ sier þar Liooma sinnar Dijrdar og Jmynd siñar Gudoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Voru Hollde Jklædda, og bidiande fyrer oss; þa maa hann ei añars eñ myñast siña miklu Myskunsemda, sem vered hafa i fraa Upphafe, sijdañ hañ lofade ad Kvinnuñar Sæde skyllde sundur mola Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Bid þier eins Teikns af Drottne þijnum Gude, sagde Drottenn til Achas, hvort helldur þad er nidre i Under-diwpunum edur aa Hædum uppe: Enn hann sagde: Ei vil eg þess bidia, so eg freyste ecke Drottenns; Þa sagde Spaamadureñ: So heyred þier þa af Hwse Davids, Hvort er þad oflijted, ad þier þiaaed Mennena, þad þier einnenn vilied mæda minn Gud? Fyrer þvi mun Drottenn sialfur giefa ydur eitt Teikn; Siaa þu Ein Jomfrw mun Barn Gieta, og eirn Son Fæda, og hann mun

hun

hun kalla Jmmanuel, Esa.7. Þetta er Teikn hinns mikla Guds og Drottens vors Jesu Christi, hvor ad er Engell Sœttmœlans œ millum Guds og Maña, Mal.3. Hañ er øllum til Merkis settur, ecke i Skijum Himens, helldur fœddur af eirure Jomfru, œ medal vor hier œ Jørdunne, til Stadfestu þar um, ad þeir sœe aller Kvittun Syndanna sem œ hanns Nafn trwa, Act.10. Sœl eru þau Augu, er sioa hvad þier sioed, sagde Endurlausnareñ vid sijna Lœresveina, Luc.10. Eñ ecke talade hann alleina um þad, ad lijta sig og heyra med vtvortes Skilningarvitum; Marger sau hann og hneixluduft œ honum, þeir sœu hann, og þar var eckert gyrnelegt œ honum, Esa.53. Þeir sau hañ, og byrgdu fyrer Sioonerhonum, Luc.22. Þeir sau hann, og hræktu i hœns Andlit, Matth. 26. Þeir sau hann, og sau under eins sijna Villd œ honum. Enn so sem Gud sette siñ Boga i Skijeñ til þess, ad hañ være Mœdar-Teikn øllum Moñum; Og hefr hañ þo sialfum sier geimt ad straffa þeirra Ogudl. gt Framferde, sem hañs Nœd forsmœdu, so hafa þeir marger sied Christi Bioons Mynd hier i Nœdenne, er sioa munu hann reidañ og ognarlegañ þegar hañ kiemur i Skijum Himens med Makt og miklu Vellde, Luc. 21. Eñ ef vier vilium vita um hvoria Sioon hann talar, þœ heyrum hvad hann sagde vid Thomas Postula, Joh.20. Af þvi þu sast mig Thoma, þœ trwder þu; Enn Sœler eru þeir sem ecke sioa, og trwa þo. Þad er ad sioa Jesum Christum Guds og Mariu Son, voru Hollde klæddann, med Augum hiñs innra Mañs, oss til Riettlœtis, til Helgunar og eilijfrar Sœluhiœlpar giefinn, 1. Cor.1. Oss, seige eg, sem ad i Syndinni erum gietner, og i Syndiñi fœdder, Ps. 51. Reidennar Born, Eph.2. Og Guds Oviner af Nœtturunne, Rom.5. Þesse Dijrdarfulla Sioon verdur ydur og øllu Mannkyne frambodenn i Lof-Sœung Heilagra Guds Engla þar þeir syngia: Fridur A Jordu, Og Monnum Goodur Vilie.

Og vilium vier œ þessum Hœtijdes Deige, þesse H. Ord nockud gior yfervega, og af þeim Hugleidä, hvorsu gledelegur ad þesse Fridur sie, og hvornenn vier eigum honum ad taka.

Til þessa Eyrendes Framkvœmdar virdest ad hiœlpa oss vor Nijfœdde Jmmanuel, Fyrer Krapt sinnar Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

Hvad nun þvi vallda Brœdur mijner, ad hiner Himnesku Andar eru so glader œ Fœdingar-Noottu Mañkynsins Endurlausnara? Ecke þurftu þeir Frelsis vid, þvi þeir hofdu ecke syndgad. Jesus hafde Abrahams og ecke Englaña Sœdi uppœ sig teked, Hebr.2. Hvad mun þa vallda Gladværd þessare? Guds Sonur er ad sonu þeirra Herra, eirneñ epter Mañdoomenum, hefde hañ beded siñ Fodr, þegar hañ var i siñe mestu Angist staddur vor vegna, þa munde hñ hafa giefed honum meir eñ Toolf Legion Engla, Matth.26. Englar komu og þioonudu honum, þa hañ var hart vær yfergiefenn, og so ad freiga Andskotanum ofurselldur, Þad hann freystadur yrde, Matth.4. Fyrer þvi var þad ecke ad undra, þoott þeir gladst hefdu, ef hinum Nijfœdda

Syn-

Syne Guds hefde nockur Heidur edur Upphefd hlotnast, Enn þad mætte ecke so kalla, þvi Paulus talar so hier umm, Phil. 2. Ad hann hafe lijtelæckad sialfann sig, takande a sig Þioons Mynd, og ordenn Monnum lijkur. Þad Fyrsta hann sa þessa vesæla Heims-Lioos, var hann lagdur i Eirn Stall, Luc. 2. Og skomu þar epter vard hann Landflootta, Matth. 2. Og umm allar sijnar Æfe-Stunder hafde hann ecke þar hann kynne Hofde sijnu ad halla aa, Matth. 8. Þvi sijnest so sem ad hanns Kiorum være ecke so miog ad fagna i þetta Sinn. Hvad þa, Brædur mijner? Vier vitum epter St. Pauls Munne, ad Englarner eru þioonustusamer Andar, wtsender þeim til Þioonkunar, er Sæluhiaalpena erfa skulu, Hebr. 1. Og þott ad vier sieum Vesæler og synduger, þa er þo meire Glede hia þeim i Himnenum, yfer Einum Syndugum, sem Yöran giorer, helldur enn yfer Niju og Nijutiu Riettlaatum, Luc. 15. Þar af er audsært, ad þessar Guds Hersveiter hafa so teked Astfoostre vid oss auma Menn, þott vier sieum þeim ad ollum Edlishættum Olijker, ad þeir glediast yfer sierhvoriu þvi Happe, er nockur af oss hlijtur; Enn ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre, Þvi mundu þeir þa ecke Veniu framar lijsa þessum Fognude, þegar oss a Nætur Tijma upprann su Sool, er alldrei hefur nockur fegre yfer Heimenn skined, Og þegar oss su Heill ad Hondum kom, Af hvorre allra Guds Barna, Rijkra og Fatækra, Hærre og Lægre Stiettar, Nalægra og Fiarlægra, Fæddra og Ofæddra, Tijmanleg og eilijf Heill og Hamingia uppsprettur og framflijtr. Þess gietur Johannes, Cap. 1. Er hann seiger: Ad af hanns Fyllingu hofum vier aller medteked Naad fyrer Naad. Þar fyrer Lioomar hin Guddoomlega Byrte i krijngumm Hyrdarana, so sem Vitnande þar umm, Ad hann være i Heimenn borenn, sem ad er Lioome Fodursins Dijrdar, Og Jmind hanns Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Fra hvorium Lioosanna Fodur, Ad oll Good Giof og oll Fullkomenn Giof kiemur. Jacob. 1. Hvorium og þocknest hefur, Ad i sijnum Syne skule oll Fylling bwa, Col. 1. Ja sialf Guddoomsins Fylling, hvor ed bygger i honum Lijkhamlega, Col. 2. Þad er i hanns Blessudum Manndoome, Er hann af vorn Hollde og Bloode hefur uppa sig teked, Og giort Hluttakande Guddoomlegrar Natturu. Æ! oss auma og synduga Menn, vier siaaum ecke fyrer Blindu Holldsins, hvad miked oss veitt er i Jesu Holldtekiu, Myrkur vors Skilnings sa þad ecke hondlad, So sem þad er. Enn Guds H. Englum er jafnann standa framme fyrer honum, Matth. 18. Þeim er alkunnug Sæla su er ollum Guds Bornum er tilbwenn, hvorre vier tapad hofdum i Adams Falle, þeim eru og ecke Okunnugar Pijsler Fordæmdra, er kveliast munu i Augsyn Heilagra Engla, seiger Johannes i hnns Opennberingum, Apoc. 14. Þvi er ecke ad undra, þo Englarner fagne, þar hinn Annar Adam, sem er Drottenn af Himnum, 1. Cor. 15. var i Heimenn borenn, til ad frelsa oss fra ollum þeim Oskopum, þvi þeir elska Mannkyned, Enn vissu ad i Jesu Fædingu var Monnum giefenn sa Kostur, ad forlijkast vid Gud, og setter verda i hanns Sonar Rijke, Col. 1. Nu er þad vijst ad sonnu, ad vier ecke ad fullu þeckium hvad vier mist hofum, edur hvor Olucka oss bwenn være, nema Guds

Sonur være i Heimenn komenn synduga Menn Sæluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Enn þo mættum vier ad so miklu Leyte þeckia vort Andlegt Volæde, og so miked hefur oss sagt vered af hinne Eilijfu Dijrdar-Vist i Himnarijke, ad ef vier legdum nockurn Hug aa vort Maal, þa mundum vier Allshugar fegner verda, ad vier hofum hana aptur feinged; og rota ollum Arum ad þvi, ad vier sleptum henne ecke aptur ad niju. Eg hefe noog sagt hier umm, þegar eg seige þad med Ordum Esajæ, hvoriu Synder vorar til Leidar koma: Ydar Synder seiger hann; skilia aa mille Guds og ydar, og ydar Rangsætingar vallda þvi, ad hann byrger sitt Andlit fyrer ydur, og vill ydur ecke Bænheyra, Esa. 59. Nu vitum vier þad, ad vier lifum ecke Eina Stund aan Syndar. Heyred hvad David Konungur talar umm allt Holld, Ps. 14. Ps. 5. og 10. og 36. Salomon, Prov. 1. Esajas. 59. Þar er eingenn Riettlaatur, og ecke Eirn, þar er eingenn Skyniande, og eingenn sa ad Gude leite: Aller hafa þeir afviked, Aller til samans eru þeir Onijter ordner, þar er eingenn saa ed Gott giore, og ecke Eirn.

Nu seiger Paall, er hann færer þesse Ord til sijns Maals, Rom. 3. Nu vitum vier ad hvad somm Logmaaled seiger, þad seiger þad þeim sem under Logmaalenu eru, so ad aller Munnar verde tilbyrgder, allur Heimurenn Sakfallenn vid Gud. Enn ef Guds Son være ecke i Heimenn komenn til ad frida fyrer oss, þa værum vier aller under Logmaalenu, og enn þa i vorum Syndum, þvi ad Logmaaled er fyrer Moysen wtgiefed, enn Naad og Sannleikr er skien fyrer Jesum Christum, Sagde Baptista, þegar hann hoof Christnes Boded, Joh. 1. So ad skilia nu Synder vorar aa mille Guds og vor. Seiged mier þa, er þad ecke mikillrar Glede og Fagnadar vert, ad hann er oss i Heimenn borenn, sem heiter Jmmanuel, Esa. 7. Þad er: Gud med oss? J hvors Nafne hinn Naaduge Gud hefur til sinnar Christne talad, þad er til allra þeirra sem aa hanns Nafn trwa, Esa. 54. Þoott ad Fioll þesse hverfe aa Bak aptr, og þesser Haalsar ur Stad hræreft, þa skal mijn Giæska ecke fraa þier vijkia, og Sattmaale mijns Fridar ecke vid þig skilia, seiger Drottenn þinn Myskunare.. O hvorsu Gledelegt er þetta, þegar eirn saraadur Syndare hvors Samvitska vitnar aa moote honum, ad hann hafe eckert annad enn Daudann forþienad, þegar hann, seige eg, hugar til þeirrar Ognarlegu Tijdar, nær Konungar Jardarennar og Hofdingiarner, og hiner Rijku og hiner Volldugu, seigia til Fiallanna og til Biargana, Falled yfer oss, og hylied oss fyrer Auglite hanns somm i Haasætenu situr, og fyrer Reide Lambsins, Apoc. 6. Þess er og ad giæta, Brædur mijner, hvor hann er, sem ad vier vorum missaatter vid, Ofridurenn er ad þvi Leite hrædelegur, sem hann er Volldugur til, sem heriar aa Landed. Hvor er sa Konungur, er þann færer Hernad aa moote odrum Konunge, ad hann eige setie sig nidur og Raadslage, Hvort hann giete mz Tiju Þusundum mætt honum sem med Tuttugu Þusund kiemur aa moote honum? sagde Drottenn vid Læresveinana, Luc. 14. Til ad syna þeim hvor ad være Munur Guds og Manna. Munum vier gieta svarad hinum Riettlaata Gude Einu aa moote Þusund, ef hann vill i Doom vid oss gaanga, Job. 9. Hann er Herrann, vier erum Þrælarner, hann hefur skapad oss,

vier

vier vanskøpum oss daglega, hann hefur oss allt gott giort, vier giorum allt illt æ møote honum. Hañ vegur Fiolleñ æ Vigt, og Hœlsana med sijnum miñsta Fijngre, Esa. 40. Vier megnum ecke ad giøra eitt svart Hœr hvijtt æ voru Hofde, Matth. 5. Hiæ honum er eingenn Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar, Jac. 1. Vier erum ein Vatns-Boola, vier megnum ecke hinum miñsta Vesœlinge hid miñsta Mein ad vinna æn hañs Vilia; Hann hefur Valld til ad kasta Lijfe og Sœlu i eilijfañ Elld, Matth. 10. Hvor vill fæ stadest nær slijkur Herra er reidur? Hvørsu Fagnadarsœll er þæ Bodskapur þesse, ad vier Fridkeypter erum, og i Sœtt komner vid hañ sem allt Valld hefr bæde æ Himne og Jordu? Matth. 28. Og ef vier vilium gœnga nær og skoda, hvør ad sie Mismunur Logmœlsins, sem fyrer Moysen er giefed, Joh. 1. og Evangelii, sem Christur hefr fært oss wr Skaute Fodursins, þæ er þad i morgum Hlutum audsied: Logmœled var med stoorre Ognan og Reidarþrumum wtgiefed, ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerter Fialls-Rœturnar, sagde Gud, Exod. 19. þæ skal þad Dauda deya. Hid fyrsta N. ja Testamentesins Evangelium, er med Lof-Saung heilagra Engla bodad, og almeñelegu Fridar-Bode yferlijst. Allt Fialled Sinai skalf og titrade af Guds Ognan, þar sœust Leiptraner og Elldingar, so ad Moyses, sem var hiñ meste Fullhuge, og so var kuñugur Gude, ad hañ talade vid hañ eins og Madur vid Mañ talar, Exod. 33. Hañ sagde: Eg em hræddur og skiælfande, hvad Paulus tiltekur til Dœmis uñ þesse stooru Undur, Ebr. 12. Eñ hier lioomar Guds Byrte i kríngum Hyrdarana. Og Engelleñ seiger vid þessa Vesœlings Smala-Menn: Otteſt Ecke, Þviad J Dag Er Ydur Lausnareñ Fæddur, Sæ Ad Er CHristur Drotteñ J Borgeñe Davids. Menn hallda ad Englarner hafe geinged æ mille Guds og Moysen, til ad af-henda honum Logmœled, eda ad vijsu æ einhvorn hœtt þioonad ad þessu, þad seiger Stephanus hinn fyrste Pijslarvottur Guds, nærre med berum Ordum Tvisvar siñum, Act. 7. Þad stadfester St. Pœll, Gal. 3. og Hebr. 2. Eñ ei heyrest ad þeir hafe þæ blijdlega til hañs talad, sem ei var Von, þvi Logmœled verkar Reide, Rom. 4. Og er vegna Yfertrodsluñar wtgiefed, Gal. 3. Eg vil ecke fæ mier til Orda þær grimu Hootaner, er Logmœlenu fylgia. Ef þu hlijder ecke Raustiñe Drotteñs Guds þijns seiger Moyses, Devt. 28. Þa skulu allar þessar Bolvaner koma yfer þig og hondla þig: Bolvadur skalltu i Borgeñe vera, bolvadur æ Akrenum, bolvud skal þijn Hyrdsla vera, hvar þijnar Afgœngs Leifar eru, og bolvadur skal þinn Lijfsins Avoxtur vera, þinn Jardar Avoxtur og þinna Sauda, bolvadr skalltu vera nær þu geingur inn, bolvadr nær þu wtgeingur, med ødru fleyra, og allre þeirre Olucku er Logmœlsins Yfertrodsla steyper yfer syndugar Manneskiur og hrædelegt er upp ad telia. O! hvørsu er þad olijkt honum, er sagde: Komed til mijn aller þier sm Erfide drijged og Þwnga erud þiæder, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Hann medtook Tollheimtu-Menn og bersynduga, æt og drack med þeim, Luc. 15. Til ad ævinna þæ til Guds Rijkis, þolde Bryxle og Ámœle vondra Manna, þeirra vegna. Hann ed sagde vid hina bersyndugu Hoor-Konu:

Hefe eingenn fordæmt þig, so fordæme eg þig ecke helldur, gack burt og syndga ecke framar, Joh. 8. So ad þad mæ satt jata, ad hinn naaduge Gud hefur ecke um Skor fram̄ spæd um̄ sinn eingieten Son, Esa. 42. Siaa minn Þioon þann er eg annast, og minn hinn Utvallde, a hvorium eg hefe Velþocknan, eg hefe honum minn Anda giefid, hann mun Doomenn wtflytia medal heidenna Þiooda, hann mun hvorke kalla nie hroopa, og hanns Raust mun ecke heyrast a Strætunum, þann brakada Reyr-Leag mun hann ecke i sundurbrioota, og þañ lijtilegande Horkveik mun hann ecke wtslöckva, hann mun kienna ad hallda Doomenn med Sannleikanum, hann mun ecke moglunarsamur nie hrædelegur verda, so ad hann a Jordu Doomenn uppbyrie, og Eyarnar munu epter hañs Logmaale vænta. Þegar þier nu þetta hvorutveggia samañ bered, Brædr mijner, og ef þier þykest nockru vid Gud seker vera, þaa er lijklegt ad þier munud fiña til i Hiarta ydar, hvorsu gledeleg ad sie Jesu Fæding. Gydingum var Fognudur þesse allra fyrst bodadr, so sim̄ Von var til, so ad Spaadoomarner yrdu uppfylld-er, þess geta þeir St. Paall og Barnabas, Act. 13. er þeir sogdu vid þaa: Til ydar byr-iade fyrst ad tala Guds Ord, enn vær adrer hofum þeis sijdann noted, þar fyrer spaaer Esajas so um̄ Jerusalem: Myrkred mun hylia Jordena, og Dim̄añ Þioodernar, Esa. 60. Eñ Drottenn mun uppreña yfer þier, og hñs Dijrd mun siaast yfer þier, og Heidingiarner munu gaanga i þijnu Lioose. Þvi lijser Engellenn i Samtalenu vid Hyrdarana, þar hañ seiger: Eg Boda Ydur Mikeñ Fognud, Þañ Er Skier Ollu Foolke. Hier er ecke Gydingur nie Griskur edr Schyta, ecke Þræll edur Frelsinge, Gal. 3. Helldr aller eitt i Christo Jesu, Col. 3. Epter hñs Logmaale munu Eyarnar vona, seiger Esajas. 42. Þad eru heidnar Þiooder, so plagar Ritningenn þær optlega ad kalla. Þetta meigum vier bæde ad Raun og Nafne tileinka oss, sem byggium Hoolma þeñañ: Ad sonn hefur Guds eilijf Fyrerhyggia skoted oss wt under hid ytsta Heimsins Skaut, kañ skie og ad morgum þykia meige, ad vier hofum Var-Hluta fared af margre Fullsælu Heimsins, eñ þar a moote hofum vier ecke ad seigia af margre þeirre Olucku og Andstreyme, sem añarstadar i Heimenum plaagar synduga Meñ, so vier erum skyllduger ad vidurkieña, ad Gud hefur vel til vor giort, ef vier kyñum med ad fara. Eñ hvorneñ sem þessu er vared, þaa hefur hañ ecke giort oss afskipta af andlegum Hlutum, sem mest a rijdur.

Stutt Stund er þad, ad vier eigum vid þetta tijmanlega ad bwa, hvort helldur oss geingur med edur moot, enn eins vel er oss Jesu blessud Tilkoma i Hollded bodud og odrum, eins vel hanns Pijna og Daude, eins vel hanns Upprisa, eins vel hañs Uppstigning, eins vel Utsending hinns heilaga Anda, a eingvu af þessu hofum vier nockurn Skort, helldur enn hvor onnur Þiood i Heimenum, og ef eg maa seigia, þaa erum vier betur hier med forsorgader, enn marger, þvi hofum vier eingvu sijdur Orsok til ad fagna og Lof syngia hinum gooda Gude i Hiortum vorum, Col. 3. helldur enn allur Heimurenn, jaa oll Guds Christne, hvar hellst sem hun er i Heimenum, hun maa jaata þad satt ad vera, er Paulus seiger, Eph. 2. um̄ Heidingiana: Nu eru þier i

Jesu

Jesu Christo, sem adur fierre vorud, nalæger ordner fyrer Blood Christi, þvi hann er vor Fridur, hann sem giorer eitt af bædum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur nidurbroted. J kríngum Jerusalems Mustere var eirn Stein-Veggur, þangad leyfdest Heidingium ad koma, enn ecke leingra, so ad Þioonustngiorden ecke saurgud yrde af Oumskornum Monnum, og til þessa lijtur Postulenn i þessum Ordum. Enn sijdann Guds Sonur er i Heimenn borenn, þa er i Christo hvorke Umskurn nie Yferhwd, Gal. 5. Þvi seiger og Paulus aptur: Ad hann afnamd hafe Logmaal Bodordanna, sem var innefaled i Setningum fyrer sitt Holld, so hann giorde i sialfum sier Tvo ad Eirnum nijum Manne, og giorde Frid, Eph. 2. Þetta er medal annars sa Fridur er Englarner boda, Fridur millum Guds og Manna, þvi Gud er Madur ordenn, Fridur millum Himens og Jardar, þvi Gud hefur i Christo alla Hlute forlijkad vid sig, (semiande Frid fyrer Blooded hanns Kross) hvort helldr þeir eru aa Jordu edur aa Himne, Col. 1. Fridur vid Heilaga Guds Engla, hvorra Samnente vier hofdum af oss broted, þvi seiger Paulus, ad vier sieum komner til Fiallsins Zion, og til Borgar Guds lifanda, Jerusalem hinnar Himnesku, og til margra Þusunda Englanna, Hebr. 12. Fridur aa millum Gydinga og Heidingia, þvi þad er i Jesu blessadre Hijngadkomu framkomed sem Drottenn spaer, Zach. 8. Seigiande: A Þeim Dogum skulu Tiju Menn (þad eru marger) af ollum Þioodum og Tungumaalum, þrijfa i Klædafalld Gydingsins, Seigiande: Vier viljum med ydur fara, þvi vier heyrum Gud er med ydur. Þesse er Jmmanuel; hvor ed fyrst var sendur til Fortapadra Sauda af Hwse Jsraels, Matth. 15. Enn hafde þo adra Saude er ecke voru af þvi Sauda-Hwse, er honum byriade og þangad ad leida, Joh. 10. so þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder. Ohvilijk Dypt Audæfanna og Guds Speke; Hier maa þad satt jaata er Petur mz stoorre Undran sagde Fordum, Act. 10. Er Gud sende hann til ad skijra Cornelium og hanns Heima-Foolk: Nu reyne eg i Sannleika sagde hann, ad þar er eckert Manngreinar Alit hiaa Gude, helldur ad sierhvor eirn, af hvorre Þiood sem hann er sem hann Ottast, og fremur Riettvijsena, hann er honum þocknanlegur, Act. 10. Þar fyrer syngia Guds Englar hier i Lofkvædenu: Og MONNum GOODur VJLie; Þad kallar Textenn Velþoocknan. Hvar munde þessa Velþoocknan vera ad finna, Brædur mijner? Ecke hiaa vesælu Mannkyne, allra sijdst aa þeim Dogum, þegar Drottenn kom til sinnar Eygnar og hun þeckte hann ecke, og kiemur þad hier fram sem Johannes seiger, 1. Pist. 4 Cap. J þvi er Kiærleikurenn foolgenn ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hann elskad e oss, og sende sinn Son, ad hann yrde Forlijkun fyrer vorar Synder. Þetta er ecke af Mannlegum Tilverknade skied, þvi aann Christs er Madurenn Andstygd fyrer Gude, helldur fyrer hanns Skulld sem er hanns elskulegur Sonur, i hvorjum honum alleina velþocknast, Matth. 3. Þess hafa hiner ad noted, hverra Holld og Blood hann hefur uppaa sig teked, þvi eingenn hefur umm Alldur sitt elsked Holld hatad, Eph. 5. Þar fyrer er ecke ad undra, þoott Gud hafe Velþoocknan aa þeim, hvoria hans

 Sonur

Sonur skamast sijn ecke Brædur ad kalla, Heb. 2. Og þar ad auke fyrer Trwna a hann, erum ordner eirn Ande med Gude, 1. Cor. 6. Fyrer þvi samfagna nu Guds heilager Englar syndugu Mañkyne, er so brædlega hofdu þesse gledelegu Umskipte feinged, ad verda Guds Børn af Sathans Børnum, Leysingiar Christi af Syndareñar Prælum, Guds Rijkis Erfingiar af Ørsum Fordæmingarennar, Englunum samlijker og þeirra Samlags Menn, af Lags-Mønnum Dioflanna: Eñ so sem ad þeir Himnesku Andar fagna þessu so miøg, sem ádur er sagt, ad þeir boda Frid og Velþocknan Guds yfer Jordunne, so fagna og Christi Læresveinar, og þad Foolked er honum fylgde inn til Jerusalem, þar af, ad Fridur er i Himnenum ordenn: Þar um skrifar so Lucas: C. 19. Og allur Fiollde Læresveinaña tooku til ad lofa Gud mz Fognude og hærre Roddu, fyrer allar þær Jardteikner er þeir sied hofdu, seigande: Blessadur sie sa sm kiemr i Nafne Drottens, Fridur a Himne og Dijrd i Upphædum. Merk þetta vel christenn Madur! Hinn nádуge Gud hefr láted Fridar-Bod gánga um alla Verølldena, og lagt sijnum Postulum uppa, ad auglijsa Forlijkun þessa, 1. Cor. 15. Hvar fyrer þeirra Hlioomur er wtgeingenn um alla Heims-Bygdena, Rom. 10. Eñ Gud næde hvad fáer þeir eru sem vilia fallast a þau Rád, ad minnast vid Soneñ so hañ verde oss ecke reidur, Ps. 2. Gud hefur láted boda Frid a Jordu; Lát þier vera ant um christenn Madr, ad verda þess fulltruggur, ad þar sie og Fridur fyrer þig i Himnenum. Aller Jesu Christi Velgiorningar eru i hñs Fædingu ollum bodner, eirneñ þeim sm Foot-troda Guds Son, og Sáttmaalans Blood almennelegt hallda, mz hvoriu Syndarenn er þo helgadur, Hebr. 10. Gud er ad sonnu Frelsare allra Manna, þvi hñs Sonur hefr fyrer alla lided, þo eirna mest Trwadra, 1. Tim. 4. Þvi þeir einer meiga Frelsesins niota, sem trwa a Nafn eingetens Sonar Guds. Gief þvi ecke upp a Veige þiñar Sáluhiálpar fyrr eñ ad heilagr Ande ber Vitne þijnum Anda þar um, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Eñ hvorneñ mattu þad odlast? Þad skiedur, ef þu giorer eingva Sátt vid hañs Ovine. Ecke vid Diofuleñ, þvi hann er Guds svarenn Ovinur, vier hofum afneitad ollu hñs Athæfe i Skijrnenne, hvoria Petur kallar Sáttmaala goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Ecke einunges þess vegna, ad vier i henne Endurfædder erum, og hofum Styrk Samvitskuñar þar af, ad vier erum sátter vid Gud, og kvitter um Sekt Uppruna Syndareñar, helldur og hiñs añars, ad hun miñer oss a um alla vora Æfe, ad hallda vort Loford af fremsta Megne, og ad flecka ei Samvitskuna mz þeim Verkum, sem Andskotanum eru til Þioonustu, eñ Guds til Styggdar; Ecke vid Hollded, þviad þess Pránkar eru Reide og Fiandskapur i gegn Gude, Rom. 8. Eingeñ kañ tveimr Herrum ad þioona, Matth. 6. Eñ Christr og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2. Cor. 6. Nu eru Holldsins Verk auglioos, þad eru Hoordoomr, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda Dijrkun, Fiolkijnge, Fiandskapur, Prætur, Kappgyrne, Reide, Praattaner, Sundurþyckia, Flockadráttr, Ofund, Mañdráp, Ofdryckia, Ofneytsla, og þessum lijkt, Gal. 5. Ef vier

þessar

þessar Synder æfum, og laatum þær drottna i voru Hollde, þa erum vier ecke Guds Viner, og ecke er hanns Fridr i oss, ecke kunnum vier helldr vid Samvitskuna Frid ad hafa nema hun sofe, og mun hun þo sijdar af illum Draum vakna þegar verst giegnir, þegar Andskotenn kipper Svæflenum undann Hofdenu, og vier erum sijdst bwner til Mootgaungu honum i Daudans harda Strijd, og er þa hætt vid, ad hennar Ormur verde ad þeim Orme sem alldrei deyr, Esa. 56. Jaa, nema vier daglega tokum uppaa oss Guds Herskrwda, og leggium allt Kapp aa ad stockva þessum Dalldar-Flocke, epter þvi sem hvør eirn verdr aasooktur, þaa kunum vier ecke Frid vid Gud ad hafa, ecke Guds Born ad heita, og i eingre Vissu umm Guds Rijke edr Arf Himnanna ad vera, þvi þeir er Christo tilheyra, krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Giored ei helldur Samdraatt vid Heim þennann, ef þier vilied Guds Viner heita, þvi Johannes seiger, 1. Pist. 1. Elsked ecke Heimenn nie þad sm i honum er, ef nockr elskar Heimenn, þaa er ecke Guds Elska i honum. Ecke seige eg ad Menn skule ei hafa Umgeingne vid Heimsens Born, annars mættu þeir fara wt wr Heimenum, 1. Cor. 5. Seiger Paall: Hitt er og riettvijst ad umgaangast fridsamlega vid þaa sem eru af Heimenum, verde þvi aakomed, þvi Paall seiger enn aptur, Rom. 12. Ef þad skie kann, ad so miklu Leite sem i ydar Vallde er, þa hafed Frid vid alla Menn. Og David hæler þvi, ad hann hafe Fridsamur vered, Ps. 120. Jafnvel vid þaa sem Fridenn hotudu, Ps. 119. Hitt seige eg, ad Menn skule eckert Samblende edur Samtok hafa vid þaa i Illskunne og Prettvijsenne, þvi þad er ad færa Hernad aa moote Gude, og verde einhvør af oss til þess kvaddur, þaa eiga Menn ad briota þennann Frid og Ottast eige Mennena, so vier kunum ad hafa Frid vid hann er Saal og Lijf gietur dreped eilijfum Dauda, Matth. 10. Riettvijsenn og Fridurenn kysse hvort annad, seiger David, Ps. 84. Þar seigest vel eingenn vera, sem ecke Fridenn kioose, enn aller vilia þo ecke Riettlæted æfa, eins og hvort kunne annars aan ad vera. Þar sem ecke er Riettvijse, þar er alldrei Fridur, þar sem ecke er hinn sanni Fridur, þar er alldrei Riettvijse. Þad er hinn sanne Fridur, ad hallda Eindrægne mz Gudrækne og goodre Skickun, enn hata Skammer og Klæke. Þegar Verallldarennar Syner eru mektuger ordner, og hafa broted under sig adra, so ad eingenn vogar ad stijga aa þad Straa er þeim mislijkar, þaa hyggia Menn ad þeir sieu i Fride, enn þad er vijst, ad þeir ed odrum hafa raanglega tilgiort, hafa þaa hvad minstann Frid, er þeim sijnest einskis Ofridar Von vera, þvi Fridr þesse helldr jafnann Strijd vid Samvitskuna; og nær þeir hafa eingvann ad beriast vid, þaa beriast þeir vid sialfa sig, soddann Fride eiga oll Guds Born ad hafna, jafnvel þott þad sie nu umm stunder Fridseme kollnd, ad lijda og samþyckia, edur ad minnsta koste laatast ecke sia hinar verstu Skammer og Odygder: Og Hlutseme kollud, ef nockur vandlæter þar umm, enn þad mætte þann einu gyllda, sem hefur Frid vid Gud og Samvitsku sijna, þvi þott hann jafnvel Fridlaus yrde og rækur fraa Monnum, þa hefur hann alltijd Frid-Land i Guds Rijke. Og þott Gud taki hann ei so skiott i burt wr Heimenum, þaa vardveiter hnn hann hinn sama fyrer Heimenum, Joh. 17.

Þad er gott ad vera hlutsaktur med sama Hætte og Noe, Loth, Moyses, Samuel, David, Elias, Esajas, Micheas, Jeremias, Johañes Baptista, St. Paull og adrer Guds Meñ, er hielldu Bryxle Christi stærre Virdingu ad vera, enn Heidur Veralldar þeisarar Hebr. 11. Esaias Cap. 9. Nefner vorn Immanuel Fridar-Hofdingia, eñ þo seiger þesse Fridar Hofdinge, Matth. 10. Meined ecke þad eg sie komeñ til ad senda Frid a Jordu, eg er ei komenn til ad senda Frid, helldur Sverd, þvi eg er komenn til ad setia Manneñ upp i moote Fodurnum, og Moodurena upp i moote Dootturenñi, og Sonar Konuna a moote Moodr Bonda sijns, og Mañsins heima Meñ verda hañs Oviner. Hvor er þa Fridur sa er Drottenn hefur fært oss af Himnum? Þad er Fridur millum Guds og Maña, enn ecke Fridur millum Guds Barna og hanns Ovina, Fridur vid Samvitskuna, eñ ecke vid Syndena, Fridur vid Guds Logmaal, eñ ecke vid Hollded, enn ef nockur af þeim er hann talar um, Matth. 10. Samþycker ecke þessa Fridar Koste, þa er sa hañs Ovinur, og a eingvañ Frid vid þañ sama ad giora, þvi sa sem ecke hatar Fodur og Moodur, Brædur og Systur, fyrer hañs Skulld, hañ er hanns ecke verdugur, Matth. 10. Ad sijdurstu er þetta sa Fridur Guds, sem ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Minn Frid gief eg ydur, Miñ Frid læt eg hia ydur, ecke so sem Heimurenn giefur þa gief eg ydur, seiger Jesus vid Læresveinana, Joh. 14. Þad er soddann Fridur sem giorer oss rijka i Fatæckteñe, frialsa i Prældoomenum, glada i Sorgenne, metta i Hungrenu, Innlenda i Utlegdenne, og um alla Hlute oss sialfum fullnooga, þa vier eckert hofum. Þesse Fridur giorde Job heilbrigdañ i Kromeñe, David riettlaatann midt i Syndenne, hann diktade Loffsaungenn fyrer Paal og Sylas i Myrkvastofuñe, Act. 16. Hañ gladde Christi Postula þa þeir geingu fagnande, og þo hydstrykter wt fra Raadenu, Act. 5. Hañ huggade Mariu under sijns Sonar Krosse, og enn nu i Dag alla þa, er hann bera med henne. Og fyrer þvi, Brædur mijner, ad þesse Fridur er so mikell og so dijr, ad aan hanns er eingeñ Fridur, og þeir ed þeinkia a Himneska Hlute, kuña eingvañ Frid ad hafa, þegar þeir hañs sakna, þoott oll Veralldeñ hlæe a moote þeim. Þa Graatbæne eg ydur fyrer ydar Velferdar Saker, ad Endingu med Ordum Paals, er hann seiger: Vier erum Sendebodar vegna Christi, 2. Cor. 5. og so sem Gud beidde fyrer oss, þa bidium vier i Christi Nafni, sætteft vid Gud. Enn þu Naadarfulle Himneske Fader, sem med dijrmætu Bloode þijns eingietens Sonar, hefur endurkeypt Velferd Saalna vorra, gief þu þijnum Bornum ad elska þig, elskast Innbyrdes, hallda Eindrægne i Andanum, so aller þeckia meige, ad þeir sieu þijns Sonar Læresveinar, Joh. 13. Gief þeim ad hlaupa so Skeid Lijfdaga þessara, ad þeir fæe yferuñed fyrer hañ, sem Heimenn hefur sigrad, so ad þijner Þioonar mætti med Simeone i Fride fara epter Orde þijnu, Luc. 2. Nær þier þocknast ad þeir gaanga skule Veg allrar Veralldar, Bænheyr þad Herra Himneske Fader, Fyrer Jesum Christum, Amen.

# Aunnur Predikun a Joola Dagenn.

Gudspialled, Joh. 1. Cap.

J Upphafe var Ord. Og þad Ord var hia Gude, og Gud var, þad Ord, þad sama var i Upphafe hia Gude. Aller Hluter eru fyrer þad giorder, og an þess er eckert giort, hvad giort er. J þvi var Lijfed, og Lijfed var Lioos Mannanna. Og Lioosed lijser i Myrkrunum, og Myrkurenn hafa þad ecke hondlad. Þar var eirn Madur af Gude sendur, sa hiet Johannes. Hann kom til Vitnisburdar, ad hann bære Vitnisburd af Lioosenu, so ad aller skylldu fyrer hann trwa. Eige var hann þad Lioos, helldur ad hann bære Vitnisburd af Lioosenu. Þad var satt Lioos, hvort ed upplijser alla Menn komande i þennan Heim. Þad var i Heimenum, og Heimurenn var fyrer þad giordur, og Heimurenn þeckte þad eige. Hann kom til sinnar Eignar, og hanns sialfer medtooku hann eige. Enn so marger sem hann medtooku, þa gaf hann þeim Makt Guds Börnum ad verda, þeim sem a hanns Nafn trwa. Eige þeim sem af Bloodenu, eda þeim sem af Holldsins Villd, edur af Mannsins Vilia, helldur þeim sem af Gude eru fædder. Og Orded vard Holld, og bygde med oss, og vier saaum þess Dijrd, Dijrd so sem Eingietens Sonar af Fodurnum, fullann Nadar og Sannleika.

## Exordium.

Daniel Spamadur i sinnar Bookar odrum Capitula, seiger fra þvi, ad Nebucadnezar Konunge hafe giefist Syn nockur i Draume, er hann kvad sijdann ad være horfenn wr Minne sier, og beidde Fiolkijngis-Menn sijna og Spasagnara, ad þeir segdu honum Draumenn, enn þeir tolduft undann Bode Konungs, og svorudu þann Veg: Þar er eingenn Madur a Jordunne, er meige giora þessa Konungsins Skipan, hvar fyrer eingenn Hofdinge edur Drottenn hefur nockru sinne þvilijks krafist af nockrum Spamanne edur Caldæo, þvi sa Hlutur er Konungurenn æsker epter, er so dijrmætur, ad eingenn ma hann seigia Konungenum nema Godenn, hvor ed ecke byggia med Holldenu. Nu jafnvel þoott Spamenn þesser være Satans Þioonar, þa mega þo ecke þvi a moote seigia, ad þesse þeirra Afsokun var gylld a alla Vegu. Enn þess meira sem Heidingiar þesser hofdu til Maals sijns, þess meira hofum vier christner Menn Gude ad þacka, ad hann hefur oss þann i Heimenn sendt, er þad hefur giort, er eingenn Manna giora kunne. Caldæa Lands Vitringum þootte þad Nijungar, ad Kongurenn skyllde leggia þeim uppa þennan Hlut; Enn hinn alvitre Gud hefur giort

eirn nijann Hlut a Jordu, ad Konann hefur umkrijngt Manneñ, Jer. 31. Hvort Spaadoomur þesse eige ad skilliast um Holldtekiu Drottenns edur ei, er eg ecke alldeilis viss um, samt flijgur mier i Hug af þessu, ad þad hefur alldrei um Æfe heyrst, ad nockur hafe under eins Mey og Mooder vered, ad hann sem uppfyller Himen og Jord krepteft i einum Stalle, ad Gud er Madur ordeñ. Margvijslega og a marga Vegu hefur Gud talad vid Fedurnar i Fyrndinne; Enn þad er nijr Hlutur, ad hañ talar vid þa fyrer Sonenn, Hebr. 1. Og ad Gud iklæddur mannlegu Hollde, sa eingietne Sonur Fodursins, sem er i hanns Skaute, hann i eigenn Persoonu opeñberar syndugum Moñnum allañ hañs Vilia og Veg Saaluhialparennar. Spaasagnararner fortooku þad, ad Gud munde byggia med Holldenu; Enn hvad vilium vier þar um tala, Ad ORDED Er Holld Orded, Og Bygde Med Oss? Vier heyrdum þad, saum med Augum vorum og skodudum, og Hendur vorar þreifudu a þvi, seiger Johañes, 1. Pist. Cap. 1. Godeñ eru Moñunum lijk ordeñ, og ofañ komeñ til vor, sogdu Fordum þeir Meñ i Lystris, er Paulus læknade þañ er Halltur var boreñ, og villdu hafa veitt þeim Barnabæ Gudlega Lotning, Act. 14. Enn þeir voru þo ecke nema Meñ, og hvad hellst þeir giordu Undrunarlegt, þad giordu þeir i Nafne Jesu Christi. Enn i Mañdoom Drotteñs er hiñ lifande Gud ofañ stijgeñ, og hefur Bygd sest a medal Mañaña, ja, þvilijkur Gud, af hvors Krapte og fyrer hvors Almætte ad oll Furdu-Verk a Himne og Jordu giord eru. Um þetta allra Helgasta og Daadsamlegasta Efne giefur oss Orsok ad tala vor uppleseñn Texte, hvorium vier vilium gjanga nockud nær, og þoott ad ei meige hinum gooda Gude fullþacka þar fyrer, ad eingeñ er sa medal vor, sem efe um Guddoomeñ Christi nie hanns Holldtekiu; Þa samt af þvi ad þetta heilaga Evangelium fœrer oss a þa Leid, sem liggur til ad tala hier um, þa villum vier af þvi alleina hugleida þad, ad Gud sie Madur ordenn.

Hier til styrke oss goodur Gud med Krapte sijns Anda, Amen.

## Utleggingeñ.

J Upphafe VAR ORD, seiger Gudspiallamadureñ. Eg vil ecke i þetta siñ fara mier til Orda, edur upptelia Meiningar Maña, hvar fyrer hin oñur Guddoomsins Persoona verdur ORD kollud, þo er þad vijst, ad Gydingar nefndu so Messiam a þeim Dogum, og hefur þad ollum kuñugt vered, ma skie þess vegna, ad Ord Fyrerheitesins uppa hañ hlijdde. Ad eg ei tale þar um, ad hiñ mattuge Gud skapade fyrer hañ alla Hlute. Þegar hañ baud þeim ad verda med einu Orde, Gen. 1. edur og hitt, ad hañ Holldenu iklæddur, hefur med Sañleiksins Orde opeñberad oss Fodursins Vilia, Joh. 1. Eñ hvorneñ sem þessu vared er, þa seiger Johañes, ad þetta ORD edur Guds Sonur, hafe vered i Upphafe hia Gude, hvort sem vier nu tokum þetta Ord, UPPhaf, fyrer Upphaf Eilijfdarennar, sem raunar er eckert annad enn sialf Eilijfdeñ, i hvorre ad ei er Fyrr edur Sijdar, helldur eru Þusund Ar hia Gude, so sem eirn Dagur, og eirn Dagur so sem Þusund Ar, seiger Petur, 2. Pet. 3.

Edur vier tekum þad fyrer Upphaf Skopunar allra Hluta, Gen. 1. Þa er þad auds sært, ad Sonur Guds er hönum Sameilijfur, Paulus seiger, 1. Cor. 15. Ad þegar sagt verdur, Ad aller Hluter sieu Christo underlagder, Þa er þad bert, ad sä er undanntekeñ, er honum hefur alla Hlute under lagt. Alijka vil eg hier um segga, nær sagt verdur, ad Guds Sonur hafe vered i Upphafe Skopunar allra Hluta, Þa er audvitad, ad hañ siä fur hefur alldrei skapadur vered, og er þess vegna, og hefur vered fyrer alla Eilijfd. Paulus tekur af Tvijmælenn hier um, er hann seiger: Ad hann hafe vered ädur enn ad aller Hluter voru, Col. 1. Og uppä þad, ad eingeñ leide sier þad i Hüg, ad hañ ecke sie Gude Fodur Sameilijfur, þa seiger David Konungur, Ps. 45. Þinn Velldis-Stoll O Gud! er um Alldur og ad Eilijfu. Eingeñ Efe er ä þvi, ad þetta er um Jesum Guds Son talad, þvi strax epter seiger David, þu hefur Riettlæted elskad, enn hatad Ranglæted, þar fyrer hefur O Gud! þiñ Gud smurt þig med Oleo Fagnadarens fram yfer þijna Hlutakendur, Ps. 45. Og þesse hin somu Ord þijder Paulus til Hebreos, 1. Uppä Jesum, Hvor ed epter Manndoomenum smurdz er med H. Anda, og hvad meira er, ad Drotteñ sialfur er þvi samhlioda, er hann heimfærer uppä sig þau Ord er standa, Esa. 61. Ande Drottenns er yfer mier, Af þvi hann hefur smurt mig seigande: Þesse Ritning er i Dag uppfylld, ad ydur ahevrendum, Luc. 4. Og so eingenn meini, ad þetta sie talad alleina um hina Epterkomande Eilijfd. Þa seiger Micheas, Cap. 5. Þu Bethlehem Ephrata, ert aungvann veigeñ hin miñsta a medal Hertoga Juda, þvi af þier mun framkoma sä Drottnareñ i Jsrael, Hvors Utgängur er i frä upphafe, og fyrer allar Allder. Þegar David bidur Guds Son ad spara sijn fau Ar, Þa finnur hann eckert dijrmætara til ad hræra hañs blessudu Myskunar-Ydur sier til medaumkunar, helldur enn hanns eilijfa Gietnad, þar hañ seiger, Ps. 102. Minn Sterke Gud, Svipt mier ei burtu midt ä mijnum Dogum, af Eilijfum Gietnade eru Ar þijn, ädur enn þu Jordena Grundvallader, og Himnarner eru þijn Handaverk, þau munu forgänga, eñ þu blijfur, allt mun þad so sem Fat fyrnast, og so sem ödru Klæde muntu umbreita þeim, eñ þu blijfur hiñ same, og þijn Ar þrotna ecke. Hvor Davids Ord Paulus til Hebreos, Cap. 1. eñ aptr þijder uppä Drotteñ Jesum og hanns Guddoomlega Natturu, edur þvi munde Esajas Cap. 9. kalla hñ Fodur Eilijfdarennar edur eilijfañ Fodur, Nema Guds Ande hefde skoted honum þvi i Brioost, ad hañ hefde ä samt Gude Fodur vered frä Eilijfu? Ecke hefur Esajas talad þetta af sialfum sier, þvi hañ spaer so Greinelega, ad ä mä þreifa, um þa Hlute er eingenn Madur vita kuñe, Nema Gud være med honum. Eñ eg em viss um, ad ef hañ er Fader Eilijfdareñar, þa er hañ ecke yngre eñ Eilijfdenn, eñ fyrst hañ Eilijfur er þa er lioost þar af, ad hann er Sañur Gud, þess gietur og Johañes hier i Gudspiallenu, er hann seiger: OG GUD VAR ÞAD ORD. Hvor Grein ad epter Ordshætte Ritningareñar merker sama og hañ sagt hefde, Þad ORD var Gud, so sem þegar hñ seiger i ödrum Stad, Andeñ er Gud, þad merker, Gud er Eirn Ande, Joh. 4. Þet-

ta voltar Gudspiallamadurenn med þeim Verkum er eingenn kunne ad giora neina Gud eirn, er hann seiger: ALLer HLuter eru FYrer Þad GJorder. Hvor vill þa þeinkia umm Christ annad, enn hann Sannur Gud sie? Mier koma i Hug þau Ord er sagde Heidenn Madur Pytagoras, ann Efa til þess ad hæda ad Metnade og Ærugyrnd daudlegra Manna, sem þo ecke kunna ad skapa eina Mijflugu, og vilia þo so sem Guder Tignader vera: Ef nockur þeinker sagde hann, þad hann mune Gud vera, þa skape hann eina Verolld lijka þessare, og mun eg hann strax tilbidia. Johannes itrekar þetta aptur, so ad aller meige vœr Skugga ganga hier umm, Seigande: An Hanns Er Eckert Giort Hvad Giort Er. Sie nu eingenn Hlutur ann hanns giordur, þa er þad audsært, ad hann siælfur Ogiordur er og Oskapadur, þvi a millum Skaparans og allrar Skiepnu kann eingenn Madur ad hugsa edur Iminda sier nockurn Hlut, þar eingenn hefur sig siælfann skapad, og Skiepna eingenn hefur giort sinn Skapara; Og so ad vier ei meinum, ad Guds Sonur hafe vered alleina nockurskonar Verkfære i Skøpunar-Verkenu, þa seiger David med lioosum Ordum i þeirre Grein, er eg strax las, af Psalm. 102. ad hann hafe Verolldena Grundvallad, og ad Himnarner sieu hanns Handa-Verk, og ecke einasta hefur hann þessa sijnelegu Verolld skapad, Helldur seiger og Paulus, Col. 1. Fortakslaust, ad fyrer hann, þad er, af honum sieu aller Hluter skapader, sem eru a Himne og Jordu, hvad Sijnelegt og hvad Osijnelegt er, Hvort helldur þad eru Tronarner edur Herradæmenn, edur Yfervolldenn, edur Valldstioornernar, allt er þad fyrer hann, og hanns vegna skapad. Med þessum hinum Sijdurstu Ordum vill Paulus merkiast lata Engla Guds og hinar Andlegu Verur, fyrer utann Gud eirn, allra Hluta Skapara, sem Eirn af ollu Oskaptur er. Nu være þad ad sønnu noog til ad vitna umm Guddoom Frelsarans, ad hann er Eilijfur og allra Hluta Skapare, Enn Johannes lætur ecke kyrt þar med, Helldur seiger hann: J ÞVJ VAR LJJFed, Og LJJfed Var LJoos Mannanna. Med hveriu hann teikna vill, ad allt hvad Lijfs-Anda hefur, Andlegann edur Lijkhamlegann, þad life af þvi sama Lijfe, og af hanns Fyllingu hofum vier aller medteked. Hvørnenn utmaalar Paulus hinn sanna Gud fyrer Athenu Borgar Monnum, er hann foor til þeirra med Christne-Boded? J honum lifum vier, erum vier og hrærunst vier; Act. 17. Enn hvad er þad annad enn þad, sem hinn same Postule vitnar umm Christ? Col. 1. Ad i honum stande til samans edur standest aller Hluter. Þad er vardveitest og stioornest af honum. Þvi seiger og Postulenn, Heb. 1. Ad hann bere alla Hlute med Orde sijns Kraptar. Eg giet ecke bored allt þetta Foolk sagde Moyses vid Gud, Num. 11. Þegar hann villde hafa sig undann þeigenn ad stijra Einsamall Israels Foolke, a hvoriu Ordtæke Ritningarennar eg þad fyllelega alykta, ad sa sem ber alla Hlute med sijnu kroptuga Orde, hann stioornar ollum Hlutum med Gude Fodur og Heilogum Anda bæde a Himne og Jordu, hvad siælfur Drottenn sambycker er hann seiger: Þad sem Faderenn giorer, þad giorer Sonurenn eirnenn med, Joh. 5. sem Von er til, þvi hann seiger berlega, ad Faderenn sie i sier og hann i Fodurnum, Joh. 14. Jo-

hannes

hañs selger, ad LJJFed hafe vered i ORDenu, enn hvilijkt þad LJJF sie, greiner hann sialfur, Joh. 5. So sem Faderenn uppvekur og lijfgar þa daudu, so lijfgar og Sonurenn þa hann vill. Og þoott hann hafe þad med morgum Dæmum sañad, þa er þad samt af hanns sialfs Uppriſu allra kunnugast orded. Adrer Guds Meñ hafa fyrer hanns Krapt uppvaked hina daudu, enn eingeñ hefur sialfañ sig af daudum vaked, nema hann eirn. Þetta vottar hañ sialfur. Þvi sagde hann vid Gydinga. Briooted hier þetta Mustere, enn eg skal þad a þrem Dogum upp aptur byggia, enn hann talade um̃ Mustere sijns Lijkhama, seiger Joh. 2. Og um̃ Saalena seiger hann, þar fyrer elskar Faderenn mig, ad eg læt mijna Saal fra mier, so eg hana aptur take, eingenn tekur hana fra mier, enn eg legg hana fra mier sialfur. Eg hefe Valld til ad leggia hana fra mier, og Valld til hana aptur ad taka, og þessara Orsaka vegna hafa heilager Guds Menn i Ritninguñe yduglega kallad hann GUD, þvi Gud er alleina sa ed Dasemdarverkeñ giorer, Ps. 72. Eg hefe allareidu nockur Vitne þar til leidt af hinu Gamla Testamentenu, og mætte þo enn fleyre telia. Enn Læresveinar hañs og Postular, sem voru uppfrædder af honum, saau hann og skodudu, 1. Joh. 1. atu og drucku med honum, uppa hverra Lærdoom hanns Kyrkia bygd er, þeir ed hañs Vitnisburd hafa med sijnu eigenn Bloode underskrifad, og lated Lijfed fyrer þennann Sannleika, þeir lyka aller einum Munne upp um̃ þetta. Hanns Vitne hafe þier heyrt, er Jesus elskade, sem var Johañes, er Gudspialled ritad hefur. Eñ hañ talar eñ þa framar, 1. Joh. 5. seigiande: Vier vitum ad Guds Sonur er komenn, og ad hañ hefur giefed oss Hiarta til ad þeckia hinn sannarlega, og ad vier sieum i hinum sannarlega, þad er i Guds Syne, hañn er sannur Gud og þad eilijfa Lijf. Rom. 1. giefur St. Paall Gude allra Hluta Skapara þañ Titil, ad hañ sie blessadur um̃ allar Allder: Eñ i sama Pistle Cap. 9. seiger hñ um̃ Jesum Christ, af hverium (hañ meinar Fedrunum) ad Christr er epter Holldenu, hvor ad er Gud yfer ollum Hlutum, blessadr ad eilijfu.

Judas Postule Drottens, hañ endar siñ Pistel med þessum Ordum: Gude alleina vijsum Frelsara vorum, sie Dijrd og Makt, Kraptur og Vellde, bæde nu og um̃ allar Allder. Þeim somu Ordum sem Guds Eingieteñ Sonur hefur skipad oss syndugum Monnum ad kvedia Gud vorn Fodur i Drotteñlegre Bæn, Matth. 6. Med þeim somu avarpar hañ hier vorn Frelsara, hvad hañ munde ecke giort hafa, nema hañ vilde hafa honum Gudlegañ Heidur veittañ. Drotteñ Gud þiñ skalltu tilbidia og honum einum þioona, selger Moyses, Devt. 6. og 10. Og med þessum somu Ordum rak Jesus Diofuleñ burt fra sier, er hann freistade hañs, og sagdest munde giefa honum oll Rijke Veralldar, ef hañ fielle fram̃ og tilbæde sig, Matth. 4. Hvar af audsært er, ad einsomlum Gude, eñ eingvum odrum tilheyrer soddañ Lotning. Eñ hvad seiger St. Paall um̃ Jesum, hañ seiger ad i hañs Nafne skule oll Knie sig beigia, bæde a Himnum og a Jorduñe, og under Jorduñe, Phil. 2. Og so Meñ vite ad hier er eingeñ undantekeñ, þa seiger Postuleñ, Hebr. 1. J. Davids Orda Stad, ad aller Englar Guds

ſkule hann tilbidia. Enn ef þad ſkulu Englarner giora, hvørlek ed ſiá ydugleg á Guds Fodurs Auglit á Himnum, Matth. 18. Þvi munu þá ecke ſkylldar til þeſs hinar Oœdre Skiepnur? Þegar Johannes villde hafa tilbeded Engelinn, þann er talade vid hann, Apoc. 19. Þá varnade hann honum þeſs, og ſagde: Siá til, ad ei giører þu þetta, tilbid þu Gud. Enn er hann fiell til Foota Guds Syne, þá aptrade hann honum ecke, helldur lagde ſijna Hægre Hond yfer hann, ſeigiande: Ottaſt ecke, eg em hinn Fyrſte og Siidarſte, Apoc. 1. Og hvad opt var Drottenn vor tilbedenn, jafavel i ſinne Anaud hier á Jordunne. Hin Canaaniſka, Matth. 15. Maria Syſter Lazari, Joh. 11. Hundrads Hofdingenn, Matth. 8. Og adrer miklu fleire tilbádu hann, og hann audſijnde þar med, ad honum Guddoomlegur Heidur tilheyrde, ad hann vard vid ollum þeſſum jafnſkiott og þeir beiddu. Ræningenn ſem med honum kroſsfeſtur var, tilbad hann daudvona, ſiálfann komenn ad Dauda, Luc. 23. Þá ſynde Jeſus fyrer Alvoru ad hann Gud var, þvi hverſu mætte hann einum Stoorbrota Manne Himnarijked giefa, nema hann ſiálfur ætte þeſs Valld á Himnum. St. Stephanus Frumburdur hanns Pijſlarvotta, hann tilbad hann midt i Andarſlitrunum, og var hann þá fullur af H. Anda, ſem Lucas vottar, Act. 7. Heyrt hafde hann med hvilijku Kalle ad Jeſus lietſt á Kroſsenum, er hann ſagde: Fader i þijnar Hendur fel eg minn Anda, Luc. 23. Enn hann giørde þeſs eingann Mun og hinns er hann ſagde: Herra Jeſu medtaktu minn Anda. Hvar fyrer? Þvi hann viſſe ad Fader og Sonur voru eitt, og Sonurenn Fodurnum ad allre Tign, Dijrd og Mætte ſamjafn epter Guddoomenum. Heidingiar þeir ed af Gude eckert viſſu, og voru án hanns i Heimenum, Eph. 2. þeir ſkopudu ſier adſkiliannlegar Meiningar umm God ſijn, er þá Hofdu þo ecke ſkapad, og meintu ad eirn være odrum undergiefenn, enn þvilijkt er eckert umm Jeſum ad þeinkia. So eilijfur, ſo almáttugur, ſo alvitur ſem Faderenn er, ſo er og Sonurenn, ſo ſem hinn heilage Athanaſius Lærefader hefur oſs þad kiendt i ſinne Trwarjátningu. Jehova vor Gud, Jehova hann er eirn ſeiger Moyſes, Deut. 4. Enn ef ecke er nema eirn Gud i Verunne, og þad er ádur vottad ad Jeſus ſie Gud, hvernig má hann þá honum minne vera? Og þvi ſeiger Poſtulenn til Hebr. 1. Ad hann ſie wtþryckeleg Mynd hanns Perſoonu. Eg er Jehova, þad er mitt Nafn, og mijna Dijrd vil eg eingum giefa ſeiger Drottenn, Eſa. 42. Være nu ecke Guds Sonur Fodurnum ad ollu jafn, og være þetta Nafn ecke Guddoomlegrar Veru, i hveriu ad eru Þriár adgreindar Perſoonur, þvi munde Gud þá ſiálfur Giædſkunnar Brunnur, hafa openberad ſijna Dijrd med þeſſu Nafne, þeim ſem oll Sáluarennar Velferd á þvi rijdur ad vita á hvern þeir eiga ad trwa, og hallda eingvann honum jafnann? Enn hann hefr ſkipad oſs ad trwa á Sonenn. Hvi munde hann ſeigia vid Moyſen? Exod. 3. Eg mun vera ſá eg vera mun, og þad ſkalltu ſeigia Sonum Iſraelis: Sá ed vera mun, ſende mig til ydar: Þvi munde hann ſeigia fyrer Munn Eſajæ? Eg er Jehova, og fyrer utann mig, er eingenn Gud, Cap. 45. Munde nockud Guds Eingietenn Sonur, ſá ed er i Fodurſins Skaute vanheidra ſinn Fodur þar med, ad giora ſiálfann ſig honum jafnann, nema hann viſſe þad

være so? Þvi seiger hañ þaa, Apoc. 1. Eg em Alpha og Omega, Upphaf og Ender, sa sem er, og saa sem var, og saa sem koma mun, hiñ Almaattuge; Þvi munde hañ seigia vid Philippum, er hañ beiddest epter ad meiga siaa Fodurenn? Philippe, saa sem sier mighñ sier Fodurenn, trwer þu ecke ad eg em i Fodurnum, og Faderenn i mier? Joh. 14. Þvi munde sialfur Faderenn kalla hañ sijnu Nafne? Edur mun hañ sijna Dijrd odrum giefa? Þvi seiger hann þaa Jer. 23. Eg vil uppvekia David eitt Riettlaatt Sæde, saa ed mun rijkia sem Konungur, og þad skal honum vel-luckast, og hañ skal fremia Log og Riettinde aa Jordu, aa hañs Dogum mun Juda hoolpenn verda, og Israel Ugglaus bwa: Þad mun vera Nafn hanns, er hañ mun nefna hañ med, Jehova vort Riettlæte: Þvi mun hañ aptur itreka þetta i 33. Cap. seigande: A þeim Dogum mun Juda hoolpeñ verda og Israel tryggelega bwa, og saa ed kallar, hañ mun vera Jehova vort Riettlæte? Mun ei þetta vera hann, sem oss er af Gude giordur til Riettlætes, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar? 1. Cor. 1. Hvar fyrer mun Gud Allsheriar enn framar seigia um sinn Son, Hos. 1. Enn eg skal Myskuna Hwsenu Juda, og frelsa þaa fyrer Jehova þeirra Gud, og ei vil eg frelsa þaa med Boga edr Sverde edr Strijde, Hestum edur Riddara Lide. Meñ þreifa aa þvi, ad þetta er i Jesu af Nazareth fullkomnad og framkomed. Hann var alenn i Faatækt, Luc. 2. Hann uppoolst i Armood, hann hafde ei þar hañ mætte Hofde sijnu ad halla, Matth. 8. Hañs Rijke var ecke af þessum Heime. Ecke strijddu hanns Þienarar fyrer hann, Joh. 18. Hañ skipade Petre ad slidra Sverded, Matth. 26. J sijnu mesta Yferlæte reid hann eirnre Osnu iñ til Jerusalem, Matth. 21. hvadann hann var eins og Oboota-Madur til Gaalgans wtleiddur, og hanns bestu Viner og Villdar-Menn eru deydder hañs vegna allañ Dageñ. Eñ þo er i ollu þessu Volæde Rijke Guds Sonar i hañs Barna Hiortum stærra orded eñ nockurt Konungs Rijke hefur um Æfe vered. So eg maa þad satt jaata, er Severus Sulpitius seiger, Lib. 2. Histor. Sacræ, um Draap Guds Barna under Diocletiano Keysara. Vier hofum alldrei frægare Sigur usied, eñ þaa vier ecke urdum med Tiju Ara Offsookhum sigrader. Munde nu ollu þessu vera spaad um Jesum, edr hañ nefndur þvi Nafne, sem Gude einum er eigeñlegt, og eingum odrum maa aan Syndar til-leggiast, nema hann være eirnrar Veru med Gude Fodur, og honum samjafn ad ollu? Zacharias ecke af sialfum sier, ecke af eigeñ Hugbode sijnu, helldur fullur af Heilogum Anda seiger um Johañem, Luc. 1. Og þu Sveirn munt nefnast Spaamadr hiñs Hæsta, eñ þad er kuñugt ad Johañes var Fyrerreñare Jesu, og Engill undañ hañs Auglite sendur, Mal. 3. Eñ ef hañ er hiñ allra Hæste, hverneñ maa þaa nockur honum hærre vera? Ef hañ seiger sialfur: Eg em hiñ Fyrste og Sijdarste, Apoc. 1. Hver kañ honum þa fyrre ad vera? Og hvad hallded hefur vered um Messiam aa Hiervistar Dogum Drottens, þad kieñer Johañes Cap. 5. Seigande: Þess meir sooktu þeir epter ad ȷ enda hñ, ad hñ ecke einasta braut Hviildardageñ, helldr sagde Gud ad vera siñ eigeñ Fodur, giorande sig jafnañ Gude, hvad hañ med þessum Ordum giorde: Miñ

Fader

Fader erfidar allt hijngad til, og eg erfida, sem villde hann sagt hafa: Miñ Fader er ei bundenn vid Sabbatz Dagenn, ad hañ ei stioorne ollum Hlutum bæde a Himne og Jordu, epter Villd siñe, so lækna eg og þa siwku, epter þvi Vallde sem eg hefe: Og ma þvi ecke a moote seigia, ad þesser ranglatu Meñ toludu riett i þessu. Paulus er skoreñorder uñ þetta Efne, þegar hañ eggiar Christna Meñ a Hoegværd og Lijtelæte, seigiande: Vered eins lynder og Jesus Christus var, hver þoott hann Guds Mind være, hiellt hñ þad ecke fyrer Herfang Gude jafn ad vera. Og hefe eg so mz nockrum Rokum vitnad fyrer ydr, ad Jesus er Gud eilijfr, Almattugur, alls Heidurs verdugur, og Fodurnum ad ollu jafn epter Guddoomenum, ecke þess vegna, Brædur mijner, ad eg þurfe nockrum i þessum Safnade ad telia Trw hier uñ, þvi þad jata aller med Hiarta og Muñe, helldur ad eg i stuttu Maale audsyne wt af þessu H. Evangelio, hvilijkur hañ sie, er vort auma Holld og Blood hefur uppa sig teked, hvar uñ Johañes framar talar med þessum Ordum: Og ORDED Vard HOlld Og Bygde Med Oss. Hvor Ord ecke eiga þañ veg ad skiliast, so sem ad Guddoomureñ sie i Mañdoom umbreittur, hia Fodur Liossaña er eingeñ Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar, seiger Jacob Postule Cap. 1. Enn þar hañ nefner Fodur Liossaña, þa meinar hañ Gud: Eñ þad er adur vottad, ad Jesus Christur sie sañur Gud, þar fyrer er þvi langt fiærre, ad hañ kuñe hiñe minstu Umbreitingu underorpeñ ad vera, og þoott ei være añad til Vitnis hier uñ, þa eru Johañes eigeñ Ord er hier standa skomu sijdar i Evangelio: Vier Saaum Hanns Dijrd, Dijrd So Sem Eingietens Sonar Af Fodurnum. Enn nær sau þeir hana? Ad sonnu i Kieñinguñe, i Kraptaverkunum, i Skijrnenne, eñ ecke sijdst þa hñ forklaradest a Fiallenu, Matth. 17. Og var þad hinn same er þeir hofdu eted og drucked med, 1. Joh. 1. So er þa ecke Guddoomureñ umbreittur i Mañdoom, helldr hefur Guds Son Manndoomlega Natturu uppa sig teked, so sm Paulus til Hebreos Cap. 2. Ad Orde kiemst: Ad hann hafe ecke Englanna, helldur Abrahams Sæde a sig teked, teiknande þar med, ad hann hafe Manndoomeñ teked i Samfielag og Eining siñar Guddoomlegu Personu, og i þessum Ordum: ORDED Vard HOlld [...] venjulegr Ords-Hattur Ritningareñar: So seiger Gen. 2. Adam vard ad lifande Saalu, þegar Gud blies lifande Anda i Mañsins Naser, ecke þad ad Lijkhameñ umbreittest i Saal, helldr teiknast mz þessu Orda Tiltæke, hin allra nakvæmasta Eining a millum Saalar og Lijkhama, hver miog so er þessare lijk, þvi so sem Saal og Lijkhame verda ad eirnre Persoonu, so urdu og tvær Natturunnar i Christo, eirn Gud og Madr, þegar hñ Holld og Blood uppa sig took, þetta vitnar allvijda H. Ritning, bæde i Spadoomunum i gamla Testamentenu, sem og i Medkieñingu þeirra er sau og skodudu hñ, og hverra Hendur a honum þreifudu, 1. Joh. 1. og sau þo hañs Dijrd, so sem Eingietens Sonar af Fodurnum. Hiñ fyrste Vottur i gamla Testamentenu er sialfr Gud, er hann sagde ad Kvinnunnar Sæde skyllde i sundurmola Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hvilijkt ad sie þetta Kvinnunnar Sæde, þad vijtnar Esaias Cap. 9. med þessum

Ordum:

Ordum: Eitt Barn er oss fædt, og eirn Sonur er oss giefenn, hvers Hofdingia Doo-
mur er aa hanns Herdum, og hanns Nafn er undrunarlegur, Raad, Hetia, Kraptur, ei-
lifur Fader og Fridar Hofdinge. Siaed hier, Brædur mijner: Hann sem fæddur er,
hann sem Spaamadurenn Barn kallar, hann nefner hann under eins Fodur Eilijfdar-
ennar, af hveriu liooft er, ad hann er bæde Gud og Madur. Og ad þetta sie meint umm
Jesum af Nazareth og ecke annad Barn, vottar Esajas Cap. 7. Sia þu ad ein Jom-
frw mun Oliett verda, og mun Son fæda, og hann mun hun kalla Immanuel, þad er
Gud med oss. Þetta seiger Luc. Cap. 1. frammkomed ad vera. Morg onnur Vitne mætte
hier til leida, ef þad Tijmenn leifde, enn i hinu Nija Testamentinu eru ecke færre. Hinn
sterkaste Vottur er Thomas Postule, hver ed ecke villde trwa fyrr enn hann took aa, enn
þegar hann liet sijna Fijngur i Naglaforenn, og sijna Hond i hanns Sijdu, þaa æpte
hann upp af Fagnade, og sagde: Drottenn minn og Gud minn, Joh 20. St.
Paall sem var i Pridia Himen uppnumenn, og heyrde þar Oumrædeleg Ord, 2.
Cor. 12. Hann kallar hann hinn mikla Gud, og Frelsara Jesum Christum, Tit. 2. og
hinn same seiger: Ad hann sie giordur af Sæde Davids epter Holldenu, Rom. 1.
Mannsins Sonur sem talade vid Nicodemum, seigest vera aa Himne, Joh. 3. Og apte
seiger hann vid Gydinga, Joh. 8. Þier leitest vid ad deyda mig, eirn Mann sem seige
ydur Sannleikann, og sialfur seiger hann, þegar hann hafde sialfr aptur teked Saalu
sijna, Ande hefur ei Holld nie Bein, so sem þier siaed mig hafa, Luc 24. Vier vitum ad
ecke fædest af Manne nema Madur, enn Lucas seiger, ad Maria hafe fædt sinn Eingietenn
Son, hvar fyrer ad Postulenn til Hebræos skrifar, ad hann sie hluttakande Holldз og
Bloods eins og Smaa-Bornenn, Heb. 2. Paall seiger enn aptur, Col. 2. Ad i honum
bwe oll Fylling Guddoomsins lijkhamlega, þad er Reyndar fullkomlega og sannarlega.

I Foornum Gamla Testamentesins bioo Gud so sem i Skugga epterkomande
Giæda, Hebr. 10. I Christo hofum vier sialfann Lijkhamann, Col. 2. Og hann bijr i hon-
um eins og Saal Mannsins bijr i hanns Lijkhama. Kraptur Guds bioo i hanns Spaa-
monnum og odrum helogum, enn ecke vard hann ein Persoona med þeim, hvad lioost er
þar af, ad Guds Ande veik fraa þeim aa stundum, enn Guddoomurenn Christi hefr all-
drei Manndoomenn vid skila orded, fraa þvi fyrsta Augnablike Gietnadarins, og mun
helldur alldrei verda umm alla Eilijfd. Þvi Engellenn er hann bodade Moodur hanns
Gietnadenn, Luc. 1. Seiger ad hann mune drottna yfer Hwse Jacobs ad eilijfu, þad er
ad hann skule alldrei hanns Konungs Tign afleggia, hvor honum þo ecke er odruvijse med-
deilld, enn fyrer Ibwd Guddoomsins. Jaa þoott hinn grimme Daude sundurslite Saal
og Lijkhama i Pijnunne, þaa mætte hann þo ecke leysa þad Band Einingarennar, sem var
mille Guddooms og Manndooms, þvi hversu mætte hann af sialfum sier, og af eigenn
Kroptum upprijsa ella? Eige veit eg hvort neckurt Vitne er sterkara edur lioosara umm
Guddoom og Manndoom Christi i eirnre Persoonu, helldur enn St. Paals. 1. Tim. 3.
Er hann seiger: Þad er mikell Leyndardoomr Gudhrædslunnar (þad er Christenndoom-

ſijns) ad Gud er opennberadur i Holldenu, riettlættur i Andanum, er ſiedur af Englunum, er predikadur Heidingiunum, er trwad i Heimenum, er uppnumeñ i Dijrdenne. Hvad er þetta Br. M. ad Gud ſie riettlættur i Andanum? Kann nockur ad riettlæta þann riettlæta i Iſrael? Enn þeſs er ad giæta, ad þetta Ord, þad er ad vidurkienna ſannañ og riettlætañ ad vera. So ſkrifar Luc. Cap. 7. Ad allt Foolked og Tollheimtumennerner hafe riettlætt Gud, þad er prijſad hañ og medkient ſannañ Gud ad vera, i Andanum, ſeiger Poſtuleñ, þad er epter Guddoomenum, ſo ſeiger Petur, 1. Piſt. Cap. 3. um̃ Chriſt, ad haim ſie deyddur epter Holldenu, enn lijfgadur, þad er, lifande epter Andanum þad er Guddoomenum, og med ſama hætte ſeiger Paulus, Rom. 1. ad hann ſie auglijſtur Guds Sonur i Mætte epter Anda Heilagleikans, ſo er þa Meiningeñ, ad i Chriſti Hollde hafe Guddoomureñ ſo auglijſt ſig, ad Menn hafe jatad og þeckt, ad Gud hafe i honum bwed. Er ſiedur af Englunum, hvert helldur þad eru Poſtular Drotteñs, ſem opt verda Englar kallader, Mal. 2. Apoc. 1. edur og Guds Englar, ſem gyrnaſt ad ſkignaſt inn i þennañ Leyndardoom, 1. Pet. 1. Pa eru hverutveggiu þeſſer fullnooger til Sanninda. Er predikadur Heidingium, er trwad i Heimenum; Þeſſe Ord ſijna oſs, hvad hiner fyrſtu chriſtner Menn hafe hier um̃ hallded, og hvernenn Drotteñs eigenn Poſtular hafa Chriſtum predikad. Uppnumenn i Dijrdenne; Hañ ſem þeir viſſu doo a Kroſſenum, af daudum uppriſeñ, hann ſem at og drack med þeim, a hverium þeirra Hendur þreifudu, 1. Joh. 1. hañ ſaau þeir til Himens faranda, med Guddoomlegre Dijrd. Og Skyed took hañ i burt fra þeirra Augum, Act. 1. O! hvilijk Dypt Audæfanna og Guds Vitſku. Hier maa allur Engla og Mañа Skilningur i hyna meſtu Undran falla. Þetta er ſaa Leindardoomurenn, ſem hulenn er fyrer Vitringum, enn nu er opennberadur Smælingium, Matth. 11. Hver vill wtſeigia hanns Gietnad? Eſa. 53. Hañ er fæddur af Fodurnum fyrer allar Allder, hver vill þad wtſeigia? Hañ er gieteñ af heilogum Anda i Tijmanum. Hver vill þad wtſeigia? Hañ er fæddur af Meyu eirnre, hver vill þad wtſeigia? Oſs fallaſt Hendur af Forundran, þegar vier heyrum ad Moyſis Stafur verdur ad Hoggorme, Exod. 7. Þegar Arons Vondur bloomgaſt, Num. 17. Þegar Soolenn ſtendur kyrr, Joſ. 10. Þegar hun geingur um̃ nockur Strik til Baka aptur, 2. Reg. 20. Þa Biorgenn klofna i ſundur, Matth. 27. Þa Vatned ſkipteſt i Tvo Hlute, og ſtendur eins og Mwr-Veggur, Joſ. 3. Þegar Elldureñ breñer ecke og giorer eingvañ Skada þvi ſem i hann er kaſtad, Dan. 3. Og er þad þo Ender allrar vorrar Undrunar, ad vier ſeigium þad ſie ecke undarlegt, þoott hann ſem Natturuna ſkapad hefur, giete um̃breitt Natturunnar Hættum. Enn hvad ſkulum vier um̃ þad ſeigia, ad Gud Natturuñar Madur verdur? Og hañ ſem var fyrer allar Allder, hlijder Tijmans Logmaale? Ad Skapareñ fædeſt af Skiepnunne? Og hañ ſem Himen og Jord taka ecke, verdur i Moodur Lijfe iñelucktur? Þeſſe Gietnadur, þeſſe Fæding eru ſo furdanleg, ad þegar Kraptur hins Hærſta yferſkygger riett-trwada Saalu, þaa gietur hañ ſlijka Hlute vid

heñe,

heñe, ad Muñureñ fær þeim ecke wtklaked, og lætur ser nægia þar med, ad allt Tilefne þessa Stoorundrunarlega Furdu-Verks, er iñefaled i hanns Almætte, hanns Giædsku, hanns Vitsku og Omælanulegre Myskunsemie, er þad giort hefur. Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, uñ Allder Allda, AMEN.

# Annann Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 23. Cap.

Þañ Tijma sagde Jesus til Gydinga Foolksins og Hofdingia Kienemañaña: Siaed, Eg sende til ydar Spaameñ, Spekinga og Skriftlærda, og nockra af þeim munud þier Aflijfa og Krossfesta, og suma munud þier Hwdstrijkia i Samkundu Hwsum ydar, og af añare Borg i adra munud þier þaa ofsækia, so ad yfer ydur kome allt Riettlaatt Blood sem aa Jordena wthellt er, i fraa Bloode Abels Riettlaata, allt til Bloods Sachariæ Sonar Barachiæ, hvorn þier drapud aa millum Musteris og Altaris. Sañlega segie eg ydur: Ad allt þetta mun koma yfer þessa Kynslood. Jerusalem! Jerusalem! þu sem afllijfar Spaameñena, og grijter þaa er til þijn eru sender, hvørsu opt hefe eg viliad samañsafna Son, um þijnum, lijka sem Hænann samannsafnar Ungum sijnum under Vænge sier, og þier hafed ecke viliad? Siaed, Ydar Hws skal ydur i Eyde laated verda. Þviad eg seige ydur: Ad þier munud eige siaa mig upp fraa þessu, þangad til þier seiged: Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DROTTEñs.

## Exordium.

Þegar Meñ athuga aa eina Sijdu Guds Owtseigiañlegañ Heilagleik, hañs Riettlæte og hañs Almætte: Og so añars Vegar, ad Heimureñ er nidursockture hid Vonda, 1. Joh. 5. hvar ed sialf Giædskañ lijted añad sier, helldur eñ þad sem heñe er gagnstædelegast, sem er Illskañ og ogudlegar Athafner syndugra Mañа, þa meigum vier med Blygdun vors Andlitis medkienna þad satt ad vera, sm Moyses seiger, Num. 14. Drottenn er Þoleñmoodur og miog Myskunsamur, fyrergiefande Synder og Misgiorder. Nu þoott ad oll Verolldenn ætte i einu Hlioode ad prijsa þessa Guds Giædsku, þa mætte þo synast, ad hann hefde hvad mest auglyst hana sijnu Foolke aa Gamla Testamentesins Dogum, þvi uñ þaa maa jaata þad satt ad vera, sm David seiger: Ad Gud hafe ecke so giort ollu Foolke, Ps. 147. Eñ hvoriu launade sw þverbrotna Kynslood sijnum Gude? Hann klagar sialfur yfer þeim fyrer Moyse,

Num. 14. Ad þeir hafe Tiju sinnum mogiad að moote sier i Eydemorkuñe. Hañ setje Mynning sijns Nafns a medal þeirra, Exod. 20. Þar var hañs Elld-Stoo og hñs Bwstadur, Esa. 31. Enn þeir tooku vid Tialldbwd Molochs, og vid Stiernu Guds þeirra Remphan, Act. 7. Þeir uñvelltu hanns Skickan, og yfergæfu Guds Bodord fyrer Mañа Setninga, Matth. 15. Eñ afliifudu hañs Spamеñ, sem til þeirra voru sender. Allra sijdarst sende hann þeim Soneñ, og sagde so sem Jesus kieñer i Epter lijkingunne, Matth. 21. Þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum, eñ þad villde ecke so til ganga; Þeir sögdu: Þesse er Erfingenn, latum oss rада hañ af Dögum: Ja, vier vilium ecke lata þennañ drottna yfer oss. So hafa þeir og sialfañ Guds Eingieteñ Son a Krossenn uppheingt, hañs Þienara og Postula af Lijfe teked; Forsmad þeirra Kienningar, og eckert Ogiort lated þad Gude kuñe til Stygdar ad verda; Hvar uñ Jesus þeim brixlar hier i Evangelio, og under eins fyrerseiger, hvad stoorkostleg Hefnd ad fylgia mune a epter so langvaranlega Forsmаn Guds og hanns Heilögu Orda, þegar þeir hofdu uppaused Bruñ Mysknnarennar og uppfyllt Mælingu Syndanna: Þvi Drottenn er eirn Hegnare, eirn vandlætande Gud, Ja, eirn Hegnare er Drottenn a sijnum Mootstödu Mönnum, og sa ed ei mun gleyma þvi a sijnum Ovinum, seiger Nahum Spamadur. So er nu oll sw Olucka komenn yfer þessa vesælu Þiood, sm Gud og hanns Spamenn hafa fyrer sagt, af þvi ad þeir ecke þecktu siñ Vitiunar Tijma, Luc. 19. Og þeirra Hws er þeim i Eydelated; So sem Drottenn spaer hier i Gudspiallenu; Enn þeir wtreckner uñ alla Verolld, hafa hvorge blijfannlegann Samastad, nema þad er þeir þiggia verda af þeim er þeir sijst villdu. Nu hofum vier sied þeirra Ofarer, Brædur mijner: Enn giætum ad þvi, ad hvad sm skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Ei sijdur þetta Heilaga Gudspiall, enn hvort annad; So ad vier wt af Gydinganna hrædelegu Dæme latum oss uñhugad vera ad leita Drottenns medann hann er Nalægur, Esa. 55. ad ei sollum vier i nockurt syndsamlegt Andvarleysi, þvi ef Gud þyrmde ecke hinum Natturlegu Kvistunum, þa er Uggvænt ad hann oss ei þyrme, Rom. 11. Eg hefe i Guds Nafne ætlett i þetta sinn, ad tala uñ þa Hlute wt af Gudspiallenu, sm oss kunna ad hvetia til ad rækia Guds Heilaga Ord, og laga vorn Lifnad þar epter, so ad ei kome yfer oss þær straungu Hootaner, sm rætst hafa allt of-mióg a hanns Foolke Gydingum.

O Drottenn hialpa hier til i Nafne Jesu Christi þijns Eingietens Sonar, og gief þijnum Bornum Nаd Heilags Anda þar til, Amen, J. Jesu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þad er vidteked hia ollum gudhræddum Moñum, ad Meñ hallda þad fyrer stoora Synd ad fara illa mз Guds Gaf, sm hñ hef giefed oss til Notkunar og Lijfs Uppehelldis, og sa er ei þeirra verdugur, sm ecke hyrder þær og medtekr mз stærsta Þacklæte og Lofgiord vid Skaparañ; Eñ Ord Drottenns er eingeñ almeñleg Guds Giof: þad kostade hñ eilijfa Vijsdoom ecke nema sa Ord ad skapa

Hiñ-

Himen og Jord af eingu Efne, Gen. 1. Af hvoriuu hañ allt til þessarar nálægrar Stundar giefr allre Skiepnu sitt Foodur. Eñ i Synda-Fallenu giordest Vanmattureñ so mattugr, ad hiñ Goode Gud vard ad taka til Almættes sijns, so þad endurskapad yrde sm̃ Syndeñ og Diofulleñ hofdu vanskapad, og þad kostade hañ so miked, ad opeñbera oss siñ Vilia og Veg Saaluhiaalpareñar, ad þad eilijfa ORD Fodursins, Joh. 1, Hiñ Eingietne Sonur Guds, sm̃ er i hũs Skaute, hlaut Þioons Mind a sig ad taka og gioraſt oss ad ollu lijkur, Phil. 2. ad Syndeñe frateknu, ja, ad þola hier i Eymdum vors Hollds allskonar Volæde og Vesolld. Hvad virdist ydur þa Born Drotteñs? Hvilijk Skom̃ er þad einum Synda Þræl, ad troda under Fætur sier hina dijrmætu Perlu, Matth. 13. sm̃ Drottenn Dijrdareñar hefur kostad so miked uppa, ecke sialfum sier til nockurra Nota, helldur honum til Lækningar, til Myskunar og Syndalausnar, sm̃ var hanns Ovinur og Barn Reideñar? Rom. 5. Eg vil ecke fa mier til Orda, um̃ Postula Drottenns Jesu, hvorier ed uppfyllt hafa Leifar Christi Harmkvæla a sijnu Hollde fyrer hanns Lijkhama, sm̃ er Sofnudureñ, so sm̃ Paall um̃ sig ritar, Col. 1. Ecke i þeirre Meiningu, ad hid allra miñsta vante a Christi Pijsler til ad frida fyrer syndugt Mannkyn hia Gude, so ad þeir edur nockr añar þyrfte ad bæta hũs Forþienustu upp, helldur hiñs vegna, ad Guds Sonur hefur ecke einasta lided oss til Forlijkunar, helldur og til Epterdæmis, so sm̃ Postuleñ til Hebreos. 12. vottar. Þa hafa þesser Guds Meñ ad Dæme sijns Herra lided allskonar Hormungar, og ad Sijdurstu Daudann, til ad byrta Guds Sofnude (hvorn Paulus hier nefner Christi Lijkhama) hũs Evangelium, og ad syna þeim bæde mz. Orde og Epterdæme hina riettu Leid til Himnarijkis. Nu fyrst hin eilijfa Myskunseme hefr audsynt oss so stoora Giædsku, oss sm̃ bwum a Torfu þessare, so ad seigia wtlæger fra allre Verolldu, ad vier og meigum reiknast a medal hañs Safnada, þa verum ecke so oþacklater edur rænulauser, ad vier forsmaum þeñañ dijra Doom sm̃ Guds Astviner hafa vared bæde Fie og Fiorve til ad wtbreida um̃ Verolldena, so ad þesse Jesu Christi Sendefor hefur og naad til vor, hvoria þeir ecke þecktu, edr vissu, hvort vier mundum nockurn Tijma Mañeskiur verda, edr ei, helldr giordu þeir þad alleina wt af Hlijdne og Elsku vid siñ Herra, og heitum Kiærleika vid alla þa sm̃ a hũs Nafn trwa mundu, þvi sokum þess, ad þeir hofdu Vitnisburd H. Anda i Hiarta sijnu um̃ þad ad þeir væru Guds Born og elskudu hñ, og þecktu ad Mootlæte þessara Tijma var ei verdt þeirrar Dijrdar, sm̃ Gud hefr sijnum tilbwed i eilijfu Lijfe, Rom. 8. þa villdu þeir kosta Lijfe og Velferd til þess, ad sm̃ flester kynnu heñar niootande ad verda. Epterdæme hiñs H. Stephani hvors signadre Miñing ad þesse blessade Dagur helgadur er, þad heyrdum vier af Pistlinum sm̃ nijlega var sungenn fyrer Altarenu. O Herra Gud! hvilijk var hũs Rokseme, hanns Vandlæte, hanns Þolennmæde, þar ed hann ad Dæme sijns Frelsara, beidde fyrer þeim sm̃ hann villde hafa a Guds Veg snwed; þegar hann stood fyrer Daudans Dyrum, vard honum þad fyrst ad Veige, ad bidia Ovinum sijnum Myskunar, Luc. 23. og sijdann ad fela

sinn Anda sijnum Frelsara i Hendur: So kiæra hafde þesse Guds Astvinr, bæde sijna og þeirra Velferd. Þad er og kunnugt af St. Paals Pistle til Romveria, Cap. 9. ad hann seiger: Eg æskte siaalfur ad vera wtrekenn fraa Jesu Christo fyrer Brædur mijna epter Holldenu, og ad Postulenñ hafe ecke talad þetta fyrer Sidasaker, helldur af fullre Alvøru, og ef eg maa seigia af nockurskonar Elskuñar Ofbode, lijku þvi sm̃ Christo krijste til þess ad laata heingia sig fyrer Syndarañ, þad votta þau Ord er hann skrifar strax ædr aa þeñañ Haatt: Eg seige Sañleika i Christo, og lijg ecke, ad samvitande mier Samvitsku miñe fyrer H. Anda; af hveriu audsært er, hvad lijtels hañ meted hefr sijna Velferd hiaa añarra, uppaa þad hañ feinge Vitnisburdeñ Jesu Christi wtbreidt, þeim til Syndalausuar og Saaluhiaalpar er hañ bundu, ofsooktu og hroktu fraa eirnre Borg i adra, fraa einum raangláatum Doomara til añars, og mætte hier uppaa morg oñur Dæme finna, ef þad Tijdinn leifde. Eñ þu sm̃ ætlar þier med þessum Guds Englum somu Vist ad hafa i eilijfre Himnarijkis Dijrd; Giæt ad siaalfum þier, ad þu ecke ad litlu hafer þañ dijrmæta Hlut, er þeir hafa so mikils meted, og þegar þu heyrer Johañem haalshoggvenn, Matth. 14. Jacob med sama Hætte lijflaatenn, Act. 12. Petur krossfestann, og allar Guds Hetiur med smaanarlegum Dauda af Dogum teknar, fyrer þetta Sañleiksins Ord, og hina mestu Goodgiord, sem eingvañ Maka hefr, þa ber samañ hvad fraaleitt ad sie þessu, Toomlæte og Hiaarœna sumra Maña, þeir ed lifa aa vorum Dogum, og allar Stunder þykia iñdælle eñ þær, er þeir eiga Guds Eyrende og Verk sinnar Saaluhiaalpar ad giora. So laangt er fraa þvi ad þeir hafe sig epter nockud gott ad nema, af þeim sem til þess eru setter, edur laate sier um̃hugad vera, ad Børn þeirra edur Hiw lære þad er þeim kann til Sid-Boota og Saalar-Nota ad gagna, jafnvel þoott þvi sie nærre aa hverium helgum Deige yferlijst, ad aan Guds heiløgu Orda Þeckingar, kañ Madureñ sijdur ad lifa andlegu Lijfe; helldr eñ lijkhamlegu, fyrer utañ Fædsluna. Þad vottar Jesus er hũ sañfærde Andskotañ fordum Daga mz Moysis Ordum, seigiande: Madureñ lifer ecke af einusamañ Braude, Devt. 8. helldr af sierhveriu Orde þvi er framgeingur af Guds Muñe, Matth. 4. Hvad vill hier af verda, Børn mijn? Nema ad saa er andlega daudur, sem ecke hefur Foostur Saalu siñe i Guds Orde, jafnvel þoott hañ life fullur og feitur i Lijkhamanum. O Jerusalem! Jerusalem! Þu Sem Aflijfar Spaameñena Og Grijter þa Sem til Þijn eru sender, seiger Jesus. Ad søñu giörer þad eingeñ medal vor; Eñ hvad giora þeir ed forakta Spaadoomana og þær Kieñingar sm̃ þar wt af eru? Þaa vantar eckert nema Tækifæred til ad giora hid sama. Jesus griet yfer Børgeñe er hañ saa hana og sagde: Ef þu visser hvad til þijns Fridar heyrde, þaa munder þu aa þessum þijnum Tijma þar Vaktan aa hafa, eñ nu er þad huled fyrer þijnum Augum, Luc. 19. Mun hũ eñ nu ecke i Dag seigia hid sama i sijnu heilaga Orde, vid alla hyrdulausa, sm̃ ecke vita ad giora Grein aa Trw siñe, edr skynia meir hvad Christeñdoomur er, eñ blindr Madur kañ um̃ Lite ad dæma? þetta munu Ofgar þykia; eñ eg maa spyria, ef Meñ vita þad almeñelega,

þvi

Þvi haga þeir sier ecke þar epter? og ef Meñ þad ecke vita, þvi legaia þeir ecke allañ Hug a ad naa þvi, aan hvers þeir kunna ecke Guds Born ad heita, ecke Hunnarijke ad erfa, og ecke eilijfar Helvijtis Pijsler ad umflya? Eg vil ei tala uñ þad, hversu hyrdulauser ad marger eru i þvi, ad laata Born og Ungdoom læra ad lesa Guds Ord, sem þo er eitt ngiætt Medal til ad naa Grundvellenum i hinum sanna Christeñdoome, og so miklum Froodleik i Guds Orde, sem næger til Saaluhiaalpar: Ecke er ad dyliast vid þad, ad marger Unglingar eru so tornæmer, ad þeir faa ecke teked allt þad af einum Predikunar=Stool, sem þeir þurfa til andlegs Uppheldis. Sæded ber ecke Avoxt þoott þvi sie kastad i Jordena, nema þad rotne, 1. Cor. 15. ei helldr Guds Ord i Mannsins Hiarta, nema Menn smellti þad med ydugleg re Umþeinkingu: Ad þessu giæta Menn ecke, og ætla þad sie noog, ef Guds Ord þijtr uñ Eyrunn i Kyrkiunne, og jafnvel þoott sumer medtake þad med Fagnade, uñ stundarsaker, Luc. 8. þaa hefr þad ecke alltijd so mikla Root, ad þad fære Avoxt, nema þad sie nært og vokvad med sijfelldre Astundan.

Gud skipade Israel, ad þeir skylldu brijna sitt H. Logmaal fyrer Bornum sijnum, þaa þeir sætu i sijnu Hwse, Deut. 6. Enn ef so þootte miked varda uñ Logmaaled, sem er nockurskonar deydande Bookstafur, 2. Cor. 3. Og eingvann kañ af sialfu sier hoolpeñ ad giøra. Hvad skal eg þaa seigia uñ Ord Evangelij, sem er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. Skyllde þad ecke med allre Astundan Kostgiæfa? Edur seiged mier, Bræedur mijner, er þad so lijted, ad vier meigum þessarar Guds Saasu med Fride og Frelse niota, fyrer hveria Guds Eingieteñ Sonur hefur Lijf sitt laated, og hañs Heilager Pijslarvottar epter hann, til ad stadfesta hañs Vitnisburd hiaa Mañaña Sonum æfennlega, iñ til þess hañ kiemur? So er nu Guds Heilagt Ord dijrmætt, so er þad til Saaluhiaalpar Naudsynlegt, edur riettara ad seigia omissande. Nu vil eg þess hier gieta, ad þetta tijmanlega Lijf, þad er Eymdum og Andstreime vafed: Madurenn af Kvinnunne fæddur, er fullur Eymda og faarra Lijfdaga, Seiger H. Job. 14. Og jafnvel þeir sem Heimurenn lætur vel, ad þeir una þo ecke a allann Haatt vel vid. Hvar siñ, hvar skulum vier faa annad betra Raad vid slijku, enn i Guds heilaga Orde? Morg eru Manna Mein. Eirn hefur Fullsæln Fiaar, eñ er þo Oheill ad Lijkhamans Burdum: Ecke gietr Gots edur Gardar bætt honum þad, Guds Ord verdur ad hugga hañ i hañs Veikleika, so ad þoott Saal og Lijf vanmegnist, þaa lære hann samt af þvi ad vona a Drotteñ, Ps. 73. Maaskie hañ sie og heilbrigdur, enn a Osundar=Meñ, þaa epter honum sitia, og laata hann ecke i Fride, hverke Noott nie Dag, eckert stodugt Raad finnur hann vid þvi i veralldlegum Munum, edur hiaa siñe Skynseme, þoott hañ sie allvitur, þvi vorer Vitsmuner eru Haalfverk, 1. Cor. 13. Guds Ord skal kienna honum ad varpa allre sinne Ahiggiu uppaa Gud, hann mun þvi vel til Vegar koma. Kannskie hañ vante og hverke Heilsu, Metord nie Vinsællder, enn þa er honum nærsta hætt ad ecke falle hann i Andvaraleise, nema hann lære ad þeckia sig af Guds Orde. Verda maa hann gyrnest meira enn hann a, so sem þad giarnañ

naň fylger Audlegdenne, Þad er verra eň Vanheilsa Lijkhamans, Þvi Þad er neckurs-konar Siňisveikia, vid Þvi giefur Guds Ord hønum Rad, ad eckert hafe haň iň i Heimenn bored, mune Þvi eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Lære Þvi ad vera rijkur af goodum Verkum, og medbijta hinum naudÞurftuga, ef hann vill riettelega Aud sinn brwka. Kannskie og haň sæke tijmannlegaň Munad i Audlegd sinne, og seigie med hinum rijka: Et og dreck Saala mijn, Þu hefur til margra Ara samanusafnad, Luc. 12. Enn Guds Ord minner hann aa, ad hafa sijna Unadsemd i Drottne, hann mun giefa honum Þad hanns Hiarta gyrnest, Ps. 37. Annar er heill Heilsu sinnar, enn hefur Skort aa Lijkhamlegre Atvinnu og Veralldar Munum, Hønum seiger Guds Ord, ad Þegar haň hafe Þad haň kuňe ad eta og drecka og klædast med, skule haň ecke framar Umsorga edur fyrer Morgundeigenum Umhyggiu bera, Matth. 6. So ad hvern Kost mannlegs Lifnadar sem vier tokum, Þaa er Guds Heilagt Ord Boot vid ollum Meinum, so sem Paulus vottar ad Gudhrædslaň sie til allra Hluta nytsamleg, 1. Tim. 4. Þetta vil eg nu ecke sagt hafa i Þeirre Meiningu, ad Þad sie noog ad heyra Guds Ord og læra Þad, so ad Menn kunne Greiner Ritningarennar, og adra Fræde utaňad, Þvi Guds Rijke er ecke foolged i Ordum, helldur i Krapte, 1. Cor 4. Þad er ecke noog ad hrosa Guds Heilogum Pijslarvottum, enn lifa Þo ecke epter Þeirra Dæme edur Kienningu, Þad geingur næst Þvi ad uppbyggia Leide Spaamaňaňa og prijda Grafer riettlaatra, og seigia: Hefdum vier vered aa Dogum Fedra vorra, villdum vier ecke hafa vered Þeirra Stallbrædur i Lijflaate Spaamaňaňa, Matth. 23. Þvi so sem ad Paall seiger, Rom. 2. Ad ecke Heyrendur Logmaalsins sieu Riettlaater, helldur Þess Giorendur mune Riettlaater verda; So kallar og Christur Þaa sæla, sem ecke alleina heyra Orded, helldur Þa sem vardveita Þad, Luc. 11. Enn ad vardveita Orded, Þad er ad lifa Þar epter. Forgiefens vardveita Meň Orded i Hiartanu, nema Þeir laate Þad siaa i Lijferneňu, Þvi af Þeirra Avoxtum skulu Þeir Þeckia Þaa, seiger Herrann, Matth 7. Gud lætur rigna hid sama Regn yfer Korn-Akurenn og Þyrnebwskenn, enn yfer Korned til Þess ad Þvi verde samaňsafnad i Hloduna, eň Þyrnireň verdur uppbrendur, Matth. 13. Og Þo er Doggenn hin sama; Siaae hver einn til, hveria Root hann hefur i Hiarta sijnu, til ad taka aa moote hinne himnesku Dogg, sem ad er Guds Ord, giæte sier hver ad, hvad laangt ad Þesse Vokve siigur, og i hvada Jord hann fellur. Doggeň er good, Orded er gott, allt Þaangad til Þad kiemur i vondt Hiarta, og verdur Þar Ilmur Daudans til Daudans, 2. Cor 2. Og Þeim til Fordæmingar sem eingvaň Avoxt færa, nema Þyrna og Þystla, sem til einskis annars duga, enn ad wtkastast og i Ellde brennast, Heb. 6. Enn eg veit ecke hvert hun hefur i gooda Jord falled, nema Avexterner Þad auglijse, Matth. 5. So lijse ydar Lioos fyrer Moňum, ad Þeir siaa ydar Goodverk, og dyrke ydvarn Fodur sem aa Himnum er. Ecke var ad aalasa Gydingum fyrer Þad, ad Þeir ecke kynnu Ritningarnar. Paulus seiger um Þaa, ad Þeir hafe haft ad sonu Vandlætingu Guds, enn ecke epter Skynseme, Rom. 10. Þeir voru bæde Skriftlærder og

Løgvitringar, enn þo kallar Jesus Phariseos blinda, blindra Leidtogara, og ad þeir gleyme þvi sem mest er i Løgmaalenu, Doomenum, Trwne og Myskunsemenne, Matth:23. Saducæi þoottust og Spekingar vera, og villdu þreyta Spurningar vid Christ, enn Drotten sagde vid þa, þier villest og vited ecke Ritningarnar, Matth. 22. Spekingar Gydinga sem lifdu a Christi Døgum, voru i þeirre Meiningu, ad þeir alldrei kynnu ad forgaanga edur illa fara, þvi þeir være Abrahams Syner, Joh. 8. Enn Johannes kiende þeim þad laangtum ødruvijs, þegar þesser hverutveggiu komu til hanns Skijrnar, þa sagde hann, Matth. 3. Þier Nødru Kyn, hver hefur kient ydur ad umflya tilkomande Reide? Þar fyrer giored verduga Avoxtu Ydranenne, og seiged ecke med sialfum ydur, vier høfum Abraham fyrer Fødur, þvi maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinum þessum. Forfedur þessa Lijds hielldu miked uppa hid Fyrra Mustered, er Salomon Konungur liet byggia, og meintu ad þad alldrei skyllde falla, af þvi ad þeir ecke riett skylldu Guds Fyrerheit, þvi seiger Drotten Gud fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 7. Setied ecke Traust ydar a falska Hlute, seigiande: Mustere Drottenns Mustere Drottenns, helldur vanded Vegu ydar og Giorder ydar, og giored riett a mille eins Mañs og annars, þegar þier steled, myrded, drijged Hoor, sveried falsklega og dijrked Baal, skylldu þier þa koma og standa fyrer mier i þessu Hwse, sem kallad er epter mijnu Nafne, og seiged: Vier erum ohulter, so ad þier giored allrahanda Svijvirdingar? Þessa Mæling siña Fedra uppfylltu Israels Syner a Christi Døgum: Þad er alkuñugt af Josepho, þeirra eigen Sagna Meistara, hversu kappsamlega þeir hielldu uppa Mustered, og so leinge þad stood, villdu þeir ecke þijdast under hid Romverska Valld. Þar fyrer var þad ein Høfud Sok hia þeim, ad tala hid miñsta i giegn þessu Guds Hwse, þad sijner oss Dæme Christi, Matth. 26. Dæme Stephani, Act. 6. Dæme Pauli, Act. 21. Hverier aller voru fyrer þetta hardlega aaklagader; Eñ ecke ad sijdur seiger Jesus hier i Gudspiallenu: Ydar Hws Skal Ydur i Eyde Laated Verda. Þad er, ad hiñ vollduge Gud villde þar ecke leinge iñe bwa: Þad took til snemma ad rætast, þegar Fortiallded mille Musteresins og hins allra Helgasta rifnade i sundur i Pijnuñe Christi, Luc. 23. Voru og ecke miøg morg Ar til þess, ad Josephus skrifar, ad nockru fyrer Eydelegginguna hafe Rødd heyrst i Musterinu, seigande: Forum burt hiedañ. Nu vil eg miñast a þad Drotten seiger vid Juda, Jer. 7. Fared þier til mijns Stadar, sem var i Silo, hvar eg liet mitt Nafn fyrst bwa, og siaed hvad eg hefe giort vid hañ fyrer. Illsku mijns Foolks Israel: Þar fyrer, af þvi ad þier giored nu øll þesse Verk, seiger Drotten, og ad þier heyred ecke þa eg tala til ydar fra Morgne til Kvøllds, þier gegned mier ecke þegar eg kalla, þa vil eg giora vid þetta Hws, sem kallad er epter mijnu Nafne, uppa hvørt þier treysted, og þeñañ Stad, hvern eg hefe giefed ydur og ydar Forfedrum, so sem eg hefe giort Silo.

Nu vil eg seigia i Guds Stad, Bræदur mijner, gaanged þier til hiñar sijdare Jerusalem, og skoded alla þa Olucku sem yfer hana er komeñ, og hversu Spaadoomur Herr-

aňs Christi er rættur a heñe, ad ei munde þar Steirn yfer Steine vera, Luc. 19. Christur seiger: Ydar Hws Mun Ydur i Eyde Lated Verda. Hvar fyrer? Þvi þad ecke var framar Guds Hws, þad vottar hañ sialfur skomu siþar er hañ sagde: Skrifad er, Mitt Hws er Bæna-Hws, enn þier hafed giort þad ad Ræningia Bæle. Christeňs Maňs Hiarta er i Endurfædingune uppbygt til þess ad vera Guds Mustere, vited þier ecke seiger Pall, 1 Cor. 3. ad þier erud Mustere Guds? Og eñ aptur seiger hñ, ydar Lijkhamer eru Mustere H. Anda, Cap. 6. Hvad verdur þa, Br. M. Þegar Guds Mustere verdur saurgad? Þad verdur Ræningia-Bæle, þegar þad med illum Hugreñingum Ordum og Giordum, sem af Hiartanu framkoma, verdur giort ad Satans Herberge, mun þad þa framar vera Guds Kyrkia? Þess være oskande, ad ecke hende christna Meñ þad sama og Gydinga, ad þeir reiddu sig ofmiog uppa þad, ad þeir væru skijrder, geinge til Altaris, heyrdu Guds Ord i Kyrkiuñe: Allt þetta giordu Gydingar epter þeirre Þionustu, sem i Gamla Testamentesins Dogum tijdkud var. Þad er ad soñu Gude ad þacka, ad færster a medal vor adhafast þær Skamer, sm þeim er brixlad um: Færer sla Meñ i Hel, færster leggiast mz Kvinu sijns Naunga, þeir eru nu ecke helldr so marger miog, sem fundner verda ad opeñberum Þioofnade, eñ verda ma ad margur læte sierhvad af þessu ogiort, annadhvert af þvi ad hañ er ecke so Skape farinn, meir helldur eñ af Trwñe og Elskuñe til Guds, og Kiærleikanum til Naungans, edur og ad vær ottunst Mennena, og aňadhvert Straff edur Amæle af þeim, og er slijkt eingenn Dyggd fyrer Gude. Jseñ breñer ecke, af þvi hann er kalldur, og Vatned reñur ei afrañ þa þad er stiblad upp, so og hefr sa eckert Hroos fyrer Gude, sem af Nattuřuñe er sidsamur, og ecke hneigdur til Stoor-Glæpa, og hefur þo sierhver eirn so miked illt i sier, ad hañ gietur med þess Aftæte Gud drijdkad, þad munde sierhvor eirn fiña, ef hañ geinge nockud skarplega i Riett vid sialfañ sig, og liete sier ecke nægia Skriftargaang Phariseærans, eg þacka þier Gud, þad eg em ecke so sem adrer Meñ, Luc. 18. Þeir voru Sidprwder Meñ i wtvortis Hæattseme, og lifdu Hardlijfe, eñ þo heyrum vier þeirra Vitnisburd, Matth. 23. Af honum sem visse hvad med Mañenum bioo, Joh. 2. Og so sem þeir þoottust ecke þurfa Christs Forþienustu vid, so ottast eg ad Meñ ydrest nu ecke nema stoorra Klækia, enn giore sma Syndernar ad hinum stærstu Syndum, og kasta þeim ydrunarlaust uppa Guds Sonar Hrygg, þvi hañ hafe noogu breidt Baked ad bera þær. Þad hafde sa goode Herra, er hañ var Hwdstrijktur fyrer mijna Skulld, sm veit mijns Herra Vilia, eñ giore hañ ecke, og hefe þvi morg Slög forskulldad, Luc. 12. Þad hafde hñ þegar hañ bar siñ Kross wt af Jerusalem miña vegna, sm læt so illa vid, ad taka hñs Kross uppa mig og fylgia honum epter, er hañs þvi ecke verdugur, Matth. 10. Þad hafde hañ þegar hañ bar mijnar Synder uppa Tried, og liet sitt Lijf i fyrer þær a hinum smanarlega Krossens Galga fyrer mig, sm ad so tregt veiter ad krossfesta mitt Holld mz þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Eñ ad hñ vilie taka i moote þeim Syndunum og kasta þeim i Hassins Diwp,

sem

sem eirn helldur ecke fyrer Synd, og ecke þecker hañ þad fyrer Synd, jafnvel þott hañ meige þad vel þeckia af Guds Heilögu Orde, ef hann giæfe sier Stunder til ad rañsaka Guds Villa og sitt Framferde, þvi hefur hañ ecke lofad og aungvu umheited, ad þær kvittast skule fyrer hanns Dauda, nema Meñ þeirra af Hiarta ydrest. Eg tala um þær, sem Eirn veit og man, þvi um hinar Ovitannlegu, hverra Fiollda eingenn veit, Ps. 19. vil eg ei odruvijse tala enn ad eirn Syndare lææte sig af Hiarta angra þad, ad hñ gietur ecke i þessu Hollde Eitt Augnablik Syndlaust lifad. O Herra Gud! þu hiñ Heilage og Riettlææte, hvor kañ ad vita, hvad opt hañ syndgar? Aller Heilager hliota þig Fyrergiefningar ad bidia, Ps. 32. A þeim Deige, nær Reikningsskapureñ skal halldast, hvad munum vier þa ecke ohreiner Ormar? Gud vertu oss Syndugum Lyknsamur, og hiælpa oss O Herra fyrer þijna Giædsku, sem ecke villt Syndarans Dauda, ad vier lærum ad þeckia vorn Saurugleik, og sporna vid Syndunum, so vier mættum inz alvarlegre Ydran og þijns Sonar Bloode afþvegner, vera visser um Fyrergiefning vorra Afbrota, ædur eñ vier förum burt hiedañ. Pad veite goodur Gud fyrer Jesu Blessadar Under og Forþienustu, Amen.

# Pridia Dag Joola.

Gudspialled, St. Joh. 21. Cap.

Pañ Tijma, Sagde Jesus til Peturs: Fylg þu mier epter. Petur snere sier vid, og leit þañ Lærisvein epterfylgianda, sem ad Jesus elskade; Sa er og um Kvölldmaaltijdena hafde a hanns Briooste leiged, og sagt: Herra, Hvor er sa er þig Forrædur? Pa ed Petur leit nu þeñañ, seigier hañ til Jesu: Herra, hvad skal þesse? Jesus seiger til hañs: Ef eg vil hann blijfe til þess eg kiem; Hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter. Pa gieck sw Ordræda a medal Brædrana; Pesse Lærsveirn deyr ecke. Og Jesus sagde eige til hañs, hañ deyr eige, helldur ef eg vil hañ blijfe til þess eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Pesse er sa Læresveirn, er um þetta ber Vitne, og þetta skrifade, og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.

Exordium.

Næerst sialfum Drottne Jesu Christo, og þeim Astgiöfum sem hiñ Goode Gud hefur i honum giefed vondre Mannesku, þa er eingeñ þvilijk, so sem Raad og Skilningur, er hann hefur. Saaler vorar prijddar med, þar ad greina oss fra Villu-Diirunum, Grösunum, Eykunum og ödrum Skiepnum a Jordunne. Eg veit ecke i hvoriu Madureñ være betre eñ Hesturenn, neima ad hann stioornadest af Skynsemenne, og hvad meira er, ad ein Vitstola Mañeskia, hvoria Gud hefur med

Hæsiñu straffad, hun er ollum odrum Skiepnum midur a sig komeñ, hvad oss sem Heilvita erum fyrer Guds Þolennmæde, ætte ad þriista til þess ad brwka Diirgrip þennann til Lofs og Diirdar honum, er hann oss giefed hefur. Eñ Gud næde, ad þar vill vera stoor Brestur a hia all-morgum og hia flestum, og eg ma seigia hia ollum nockud; So ad David hefur nooga Orsök til ad taka Syndugum Moñum Vara fyrer, ad ecke liikest þeir Hestum og Mwlum, hvorium Meñ verda Beitsle og Bitel i Muñ ad leggia, Psalm. 32. Og samt þykiunst vier aller noogu Vitrer, og erum noogu framvijgder i þvi Skada ad giora, i þvi ad dæma um adra eñ ecke um siælfa oss, i þvi ad leita epter þvi sem vort er, enn ecke añars, þvert a moote Postulans Bode, 1. Cor. 10. So þad geingur Oliikt þvi er hann i odrum Stad seiger, ad Meñ eru Born i Skynsemenne, eñ ecke i Hreckviisseñe, 1. Cor. 14. Eg meina i hiñe riettu Vitsku, sem Ritningeñ so kallar, og þar i er foolgeñ, ad þeckia Gud og siælfann sig, og velldur þad þvi, ad Meñ lata sier vera so añt um þad, ad hniisa um añara Manna Hættu, ad Meñ giefa sier ecke Stunder til ad rannsaka siina eigeñ, hvoriu þo eckert er þarfara i voru Sæluhiælpar Verke, og er þesse Spilling Nætturunnar so riik i Mannlegu Hollde, ad Grein af heñe hefur þrwnged sier wt, jafnvel hia Guds Astvinum. Dæme hofum vier a hinum Heilaga Petre i upplesnu Gudspialle; Eñ uppa þad ad Meñ vita skyllde ad þviliikt er Synd, ja ein Synd sem margt Illt af sier leider, sem siidar-mun sagt verda; Þa ætalde Drootteñ þeñañ siñ Læresvein nærsta hardlega og roksamlega fyrer þetta. Nu þoott ad Skap-Lostur þesse sie ecke hinn minnste Avoxtur Spillingareñar, þa vite Meñ þo, ad Gud er so Viis, og so Mættugur i Breisklei kanum, ad þar er eckert i Nætturu Mañsins so Illt, ad hañ kuñe ecke Gott af ad giora, þvi ad Tilhneigingarnar voru i Ondverdu goodar og af Gude skapadar, Vanbrwkuneñ giorer þær Skadlegar; Eñ þegar þær verda hreinsadar fyrer Endurnijungu H. Anda, þa kuña þær eñ nu allar Gude ad þioona til Vegsemdar, og Endurgietnum Mañe til Sæluhiælpar. Þar fyrer, ad so sem Forvitnenn er Skadleg og Hæskasamleg, ef heñe er beitt i þeim Hlutum sem Gud hefur bannad, so er hun þorf og Gagnleg, sie hun brwkud til þeirra er hann boded hefur. Eg vil um hvortveggia tala med fæum Ordum, epter þvi sem Gud giefur Naad til.

Hvar til hann styrkia virdest med Krapte siins Anda i Jesu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

Naa leider gott af Forvitnenne seiger Ords Hættur gamall: Vier hofum nockrum siñum heyrt, ad þær Syndernar er vier miñstar holldum, þær kuña ad verda ad þeim stærstu, velldur þad þvi ad Meñ bidia Gud ecke miog rækelega Fyrergiefningar a þeim-eins og ad hñ sie skylldug til ad hallda oss þad til gooda, sm vier ecke misvirdum a siælfum oss, og geing þad eins til um þetta, og um litla Skeinu a Liikhamanum, þa er vier forsinnum, ad hun verdur optlega ad Liifs og Lima Tioone, sie ecke

vid

vid giort ; Enn þad maa kuñugt vera, ad þesse Okostur er ecke halldeñ fyrer neina Synd af mørgum, og þo kañ ſkie fyrer Dyggd, fyrer Adgiætne, fyrer Koſtgiæfne, fyrer Framſyne, og hiner ſem hana ecke æſa, fyrer Oþocka Raadleyſingia. Være nu þetta eingeñ ſtoor Synd i ødru, þaa er hun þo i þvi, ad hun ecke er halldeñ fyrer Synd, þvi eins kañ ein lijtel Synd ad fordæma Mañeñ fyrer Guds ſtraanga Doome, ſo ſem ein ſtoor, og verda þær þo þijngſtar ſem alldrei verda þecktar nie med alvarlegre Ydrañ afþveignar: Þad ſyner oſs Dæme Phariſæans og Tollheimtumañſins, hver ed foor riettlaatare heim aptur i ſitt Hws, Luc. 18. Nu er þeſſu þo ecke ſo vared um Forvitnena, ad hun ſie lijtel Synd, og hafe Men ecke añad til Dæmis, þaa ſkiņunſt epter þvi, hverneñ Synden fyrſt iñ kom i Heimeñ. Paall ſeiger oſs þad hafe ſkied fyrer eirn Mañ, i hverium aller ſyndgudu, Rom. 5. Med hveriu Moote var þad? Ritningeñ greiner um þad nooguſkijrlega hverneñ Diofulleñ ſveik vora Fyrſtu Forelldra, ſem er, ad þau ſkylldu ſaa Gyrnd til ad þeckia hid illa, og forſmaa Guds Bodord i þvi ad vita hverneñ Epled ſmackade, og ad verda Gude lijk, Gen. 3. Seiged mier Br. M. er ecke af þeſſare Forvitne komeñ oll Synd, og Daudeñ ſem er heñar Verdlaun, iñruñeñ til allra Maña? Rom. 5. Bid eg ydur þvi ad athuga, ſem chriſtner heita vilied, ad ef Agg, Reide, Þræta, Ofund, Agyrne, Drambſeme, Mañdraap, Hoordoomur, Frillulifnadur, Afgudadyrkan, Gudlaſtan, Gal. 5. og adrar Skamer ſem ſteipa Syndarañum i eilijfa Glotun, ef þetta ſeige eg, eru Okoſter halldner ydar a medal, hvert ad Forvitneñ ſem eg hefe ſynt, og eñ þaa fraamar ſkal ſyna, ad ſie Mooder alls þeſſa, ſie goodur Koſtur, edur ſo lijtel Synd ſem hun af Almeñinge halldeñ er. Ad ſoñu er þad ſatt, ad vier i eingvañ Maata eigum vorum Fyrſtu Forelldrum ad aalaſa, þvi þau bruukade Gud til þeſs Medals, ad vier ſem nu lifum, kyñum ad verda hluttakande hañs Giædſku. Þo verdur þvi ecke mootſagt, ad þeſſe þeirra Forvitnis Synd, hun var hin ſtærſta Synd, ſem af Mañkynenu hefur frameñ vered, allar Synder ſm ſijdañ giorſt hafa, þær eru ad ſoñu a moote Gude giordar, þo Meñ fremie þær vid Naungañ, eñ þeſſe ſtefnde riettlijnis a Guds dijrdarfullu Haatign; Allt hvad Meñ nu ſyndga, þad ſyndga Meñ af Breiſkleika edur Illſku Naatturuñar, hverrar Þaankar eru vonder i fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ þau voru heiløg ſkøpud, og bar þau voru ſo dijrdleg ſkøpud, þaa gaatu þau audvelldlega hallded Guds Bodord. Eg maa ei ſaa mier þad til Orda, ad þau ſteiptu ollum ſijnum Epterkomendum i tijmañlega og eilijfa Ogiæfu hier med, þvi Guds oumræddeleg Giæðſka ſm hefur fyrergiefed þeim, hefur giefed mier og øllum ødrum Stoor-Syndurum noog Medal i ſijns Eingieteñs Sonar dijrmætum og ſaklauſum Dauda, til ad faa þetta endurbætt oſs til Saaluhiaalpar og Myſkunar. Enn hitt vil eg bidia ydur ad hugleida, hvert ad Gud, ſem vegna ſijns Riettlætis ſtraffade ſo hardlega þeſſa Synd Forvitnena, a vorum Fyrſtu Forelldrum, hvert hañ ſeige eg, mune kalla hana gooda a oſs, ſem valla køllum hana Synd ad vera. Nu ſo ſem ad þeſſe Synd var i Upphafe Orſøk til allrar Mañſins Olucku, ſo er hun eñ nu til hverrar

Syndar, ef Menn riett ad gæ; Af henne sprettur allt Ranglæte moote Gude, moote sialfum ofs og moote Naunganum. Andskotenn sagde i Fyrstu vid Konuna: Gud veit ad nær sem þid eted af Eplinu, þa munu upplwkast Augu yckar, ad þid verded so sem Gud er, skyniande Gott og Illt, Gen. 3. Hier af kiemur Forvitne sw, ad Meñ vilia ecke lata sier nægiast mz þad sm̃ Gud hefur opeñberad ofs i sijnu H. Orde til Saluhialpar, hverneñ vier eigum ad trwa, hverneñ vier eigum christelega ad lifa, helldr giora sier adskiliannlegar Grillur um̃ Guds Fyrerhyggiu, um̃ hañs Veru, um̃ þær Priar Persoonur, um̃ þau heilogu Sacramenta og margt añad, sem Guds Speke hefur ei umt syndugum Moñum grant ad þeckia, og hefur þo allt þetta so berlega auglijst hverium heilvita Mañe sem ecke forsmaer Uppfrædinguna, ad hañ mai þar vel vid una og hoolpeñ verda, eñ þeir sem þa vilia forvitner vera, þeir hafa lært þad af Fiandanum, ad lata sier ecke nægiast med Guds Giof, helldur eyda goodum Gafsum og Tymanum, sem Gud hefr giefed til ad rækia sijna Saluhialp, og ad kieña odrum, til þess ad skygnast iñ i Guds Leyndardooma, og hid oransakañlega Diwp hanns Guddoomlegrar Speke, liker Bethsemitum, hverier af Forvitne skignduft iñ i Orkena, og urdu þar fyrer af Gude slegner morg Þusund Maña, 1. Sam. 5. So eru og marger af hinum, mz Blindne slegner, þvi Drotteñ hefur hondlad þa i þeirra Slægvitsku, og hañ veit ad Prætur Vitringaña eru Hiegoome, 1. Cor. 3. Eins og Gud, sa sem vill ad aller Meñ verde saluhoolpner, 1. Tim. 2. hefde ecke giort þetta lioosara, hefde hann vitad þad munde Mañeskiuñe vera hagañlegra til Salar-Nota: Og þañeñ er nu Forvitnenn þeim skadleg, er sig hyggna og lærdasta kalla, hvar af oll Vantrw, oll Hiatrw, Afgudadijrkun, Mañasetningar, ja, allar Trwar-Villur og Andskotans Evangelium er iñkomed i Heimeñ, og hver vill þa seigia ad Forvitneñ sie ein lijtel Synd? Og þañeñ vanvirda Meñ nu Gud med þessu er vier Speke kollum, og syndgar so Forvitneñ ein midt a moote honum, eñ ei giorer hun þad miña a moote sialfum ofs og Naunganum, þoott ecke eigum vier so Sok þar a, þar vier erum ecke vorer eigenn Herrar, Gud a alla Sokena, samt lender Skadeñ hia ofs, honum kuñum vier eckert Illt ad giora med Forvitneñe. Vær komustum ei leingra þar mz, eñ hiner er ætludu ad byggia sier Turn upp under Himeniñ, Gen. 11. Sialfum ofs er hun verst, og so Naunganum. Þegar Diofulleñ hafde smeigt þvi iñ hia Konuñe, ad ovirda Gud, þa flaug henne þad strax i Hug ad vita hverneñ Epled smackade, og ad locka Manneñ til Syndareñar, Gen. 3. So giorer hñ eñ i Dag, þegar hñ fær þvi koted i Hug Mañsins, ad akta Gud lijtels, af þvi hñ skilur ecke allt hüs Raad, og þar kiemr ei strax Hefnd yfer vondar Athafner, þa hefur hñ bwed sier Rwm i hañs Hiarta, til ad forvitnast um̃ þad, er hñ skilia kañ, sem er um̃ Hage Naungans. Eingeñ a meire Plagu eñ sa, er þessum Siwkdoome er underorpeñ. Hvor er vesælle eñ sa, hvers Hiarta ad Diofulleñ hefur mz Agyrne iñteked? Eñ mun nockud hiñ agiarne gieta vered an Forvitne? Hañ spyr alla Vegana epter þvi, hverneñ odrum gange, hvad um̃ þeirra Eigur lijde, hver-

iar Utriettingar þeir hafe, ecke til þess ad samfagna þeim, ef þad er vel, edr ad sampijnast, ef það er illa, helldur ad hann meige svæla under sig sem einhvorn Hætt Eigur þeirra, edur hindra þeirra Utvegu fier til Abata, takest honum þad ecke, þa leggst hann uppa Sængena eins og Achab. 1. Reg. 21. Og uner ecke vid nema han fae Naboth i Hel komed. Ofundena aletur Forvitnenn af sier, og hun fooſtrar hana. Eingenn ofundar annan fyrer þa Hlute sem hann ecke af veit, enn þad er Plaga hins Ofundsiwka, ad hann gietr ei lifad, an þess ad forvitnast um Hage sijns Naunga, jafnvel þoott eingen Dreps Soott sie honum þvilijk, so sem ef honum lijdur vel, og lijde honum illa, þa er honum þad ad sonu em Stundar Glede, en helldur þo jafnan Spurnum fyrer, hvert þad mune ecke midur vera, og sie þad ei, lijkar honum illa. Eins er hann og Andskotenn, honum þyker vænt um Mootgang Manneskiunnar, enn samt er þo hann eins vesæll. Hinn Dramblaate er forvitenn, þvi hann er ærugiirugur, hann spyrst fyrer, hvert nockrum sie meire Lotning veitt enn sier? Og finne hann Brest þar a, þa eyrer hann þvi ecke betr, en Haman, þa Mardocheus ei villde heidra hann eins og adrer, Esth. 5. Og er þetta ein stoor Olucka, ecke einasta þeim sem verda fyrer Skadanum og Ofbeldenu, helldur og hinum, er ala þessa Ovætte i Hiarta sijnu; og ma þan med riettu Dioful-Odan kalla, sem af þessum þremur Andskotans Englum er plagadur, þvi hver þeirra hefr heila Sveit Diofla, þad er Skamma og Lasta, og er Forvitnenn þeim so handgeingen, ad þeir verda ad brwka hana til allra sina Utriettinga i Satans Eyrende um. Hvor er su Olucka Manna a medal, sem Reidenn og Heiptræknenn ecke af Stad kome? Sundurþyckia, Tvijdrægne, Mord, Mannslag, Strijd og Bloods Uthellingar, mun þad ecke allt af henne koma? Enn hvad seiger hinn vijse Seneca hier um? Vilier þu ecke heiptrækur vera, þa vert ei hnijsenn. Þad er margra Manna Hættur, ad þeim er mikel Forvitne a ad vita, hvad um þa er talad og radslagad, enn slijkt er stoor Prældoomur og sævijsleg Ordsijke, þviad soddan Men skal alldrei vanta eirn Hræsnara, eirn Ligara, sa ed bere i Eyru þeirra falskar Sogur Roog og Bakmælge, hvert ad aflar stoors Orooa i Hiartanu, en hialpar eckert til Eyrindana Framkvæmdar, og lætur optlega þan, er giefen er fyrer slijku, taka uppa sig Oþarfa Mædu og Umhyggiu, og þoott Men forsvare slijkt med þvi, ad Men hlioote ad forvitnast um Raadagiorder Ovina sina, þa er þad einkis vert, þvi Forvitnen, hversu forviten sem hun er, skal alldrei sa ad vita Helmingen af þvi sem satt er, og þoott hun feinge, þa vill þad afla Mannenum laangtum meire Okyrrleika i Hiartanu, helldur en Vareigdar edur Framsyne, og er Þusundsinnum betra, ad kosta þeim Tyma, er Men brwka til Hiegoomlegrar Forvitne, og til ad vita hvad hver Her-Kiellingenn um hann talar, ad brwka hann, seigie eg, til Kostgiæfne og Astundunar i sijnu Kalle og Embætte, og ad varpa sine Ahyggiu uppa Drottenn, Ps. 55. Þvi hitt mætte æra, ecke einunges Ostoduaan, helldur og þann sem annars være noogu radsettur, þar Verolldenn er full af Hreckvijse, Otrw og Oþackslæte, og er eingenn Vijsdoomur lakare, Ja, eingenn Heimska heimskare enn sw, ad vilia

allt

allt þetta vita: Þad er eins og ef nockur hefde Ynde af þvi, ad hafa Mok vid Ofreskiur og ecke vid Manneskiur. Hvad giorum vier oss i Lund? Munum vier ætla þad, vier munum med Englunum bwa, edur Heilogum Monnum, og vitum vier ecke ad þeir eru flester sem unna sialfum sier best? Torsookt mun þad, ad venia Illskuna og Varmenskuna af þvi aldeilis. Þar fyrer, þoott ad nockr være so fiolkunnugur, so sem i Skrok Sogum seiger, ad hann kynne ad giora sier eirn Speigel, i hverium hann sæe alla Bakmælge, Roog, Lijge, Aaustur, Raadagiorder, vondar Osker, Vanþacker, imislega Dooma um vorar Athafner og Lijfernesháttu, suma sanna suma logna af þeim, sem þo eru jafnvel miklu verre enn vier villdum vera. Ef einhver, seige eg, sæe þetta i einum Speigle, og horfde þar i litla Stund, þa munde honum ofbiooda, sierdeiles þeim, er miklu aa vid adra ad skipta, og kasta Speiglenum i burt, ef hann heilvita være, og yrde þvi hvad fegnastur ad hann alldrei optar i hann lite, nema hann villde verda eins og Ismael, ad hanns Hond være aa moote hverium Manne, og hvers Manns Hond aa moote honum, Gen. 16. Ulfur af Manne, og eins og Nebuchadnezar, Stallbrooder Varganna, Dan. 4. Og þesser Hlutir er Menn leitast so mjog eptir ad vita, eru þo optast eins og Pytur i Skooge, hann varer ei leinge, eins renn Lijgenn aptr þegar sonnu mæter, og være þa betr heima seted, enn fared, til ad Mannspilla sier og hefna aa odrum þeirra Hluta sem dodna af sialfum sier, eins og Sveppurenn þegar hann er fullvaxenn, og breite Menn odruvijs, þar ala Menn Illgyrne annara med Forvitnenne, og Grunsemenne er henne fylger ævallt so sem Skuggenn Lijkhamanum, þvi þad er Hæske ad erta Illt Skap og Samvitskur vondra Manna, hverier ed laata opt af, ef þeir meina ad Strakskapurenn sie dulenn, enn ætle þeir ad hann uppvijs sie, þaa drijfa þeir Illt wt med Illu, so framt þeir megna, þar þeir vita ad þeir ecke eiga til goods ad giora. O! hvad miklu betra er Raad Salomonis i þvi, ad laata sem Menn siae ecke Oriettenn, og safna so Gloodum Ellds yfer Hofud Ovin sijnum, til ad fæe hann aa rietta Leid. Tvær Dætur hefur Forvitnenn, sem Mekleika vid eins og Smaa-Born edur Hvelpa medann þær ungar eru, enn þegar þær vaxa upp i Mannsins Hiarta, og hafa leinge sogied Moodurena, þaa verda þær skiæder Griper, þad er Grunsemenn og Trwgyrnenn, so lijkar Systur, sem þær eru skilldar til. Saa ed misgrunar hvern Mann, gietur alldrei nockurn trwann aatt, þviad þess trwrre og dyggvare ad eirn er, þess helldur gremst honum þad, ad honum sie illa trwad, þar ed hann ecke til þess vinnur. Medal annara sijner oss þad Dæme Isbozeths Israels Konungs, 2. Sam. 4. Hver ed miste bæde Rijked og Lijfed fyrer þad, ad hann misgrunade Abner um Legord med Rispa, Frillu Sauls Konungs Fodur sijns; 2. Sam. 3. Þegar Maagur Samsons tortryggde hann um, ad hann munde ætla Doottr sinne Einlæte, þaa olle hann þvi, ad Samson uppbrende Philisteanna Akur-Lond, med Refunum, Jud. 15. Og so skiedur þad tijdt, ad nær eirn ærlegur Madur er misgrunadur, tekur hann sier uppaa Ress-Ham, og gioreft ad þeim sem hann er ætladur ad vera. Þusund maa finna Dæme til þess, bæde i Ritningunne og annarstadar, og þar ad auke, er

hun

hun ills Hugar Vite, Þvi seiger Plautus Skrælld um̃ Mooðurena, að Þar sie eingen̄ forvitenn, nema að hann sie under eins illgiarn: Enn Chrysostomus, að eirn gooður Maður ætle skialldann oðrum illt, og skialldann ætle sær goods af oðrum sem er vondur sialfur, Þetta er hveriu Orde sannara, og sannast hier hið fornkveðna, að margur ætlar mig sig, og mætulega dyggvan̄. Og so sem að hann, eð hefur Sær eða Or-kunnst a Lijkhamanum, han̄ hryller við ef nockur kiemur Þar nærre, Þoott alldrei snerte han̄ Það, so ætlar hin̄ grun̄same alls ills til allra, jafnvel Þeirra sem honum eckert illt giora vilia, eður giora kunna, af Þvi han̄ er sialfur sier ills meðvitande. J einu Orde að seigia: Hun giører eirn Konung að Tyran̄a, eirn Hwsbonda að Boðle, eirn Piénara að Drotteñs Svikara. Hun er Skattarspiller millum Hioona, millum Feðgina, millum Brædra, millum goodra Vina, og eru til Þess oþriootande Dæme, og dagleg Reynsla kienner Það, og er Þo Trwgyrnenn hælfu verre. So Það er sem i Forn-Vijsunne stendur: Aungvum að trwa ecke er gott, ollum hælfu verra. Eg veit ecke hvert að Andskotenn a nockurt særbeittara Pijslarfære, enn Trwgyrnena, hun er tvijeggiað Sverd, og skaðar beggia vegna, bæde Þan̄ sem trwer ollu, og hinn sem löged er a. Rænka ma við Þvi, að Eva trwde Hoggormenum, og Adam henne. Fyrer Talhlijðne Potiphars mætte hinn saklause Joseph i Varðhallde gista i morg Ar, Gen. 39. Fyrer Talhlijðne Davids tapade Mephibozet hælfum Akrenum, 2. Sam. 19. Og var hann Þo Sonur hanns besta Vinar. Fyrer Trwgyrne Assveri Konungs hafðe allur Jsrael nærre Þvi Lijfeð mist, Est. 3. Og auk Þessa, Þa gietur ecke hin̄ Talhlijðne hiar Þvi sneidt, að vera allra Þeirra Narre sem að honum liwga, hversu vitur sem hann annars er, Þvi eingenn er trwgiarn nema hann sie og mælugur, enn Mælgenn er Teikn Heimskunnar, Þess gietur Salomon, Prov. 29. seigiande: Sæstu mælugann Mann, betre Von er a einum Vitfyrring en̄ a honum. Og aptur Cap. 17. að jafnvel eirn Heimskinge ef hann Þeiger, sie vitur hallden̄, allt Þetta kiemur nu af Forvitnenne sem aður er sagt, og hefe eg nu so wtmælað Þetta Skrijmsle að nockru Leite; En̄ Þo hverge nærre so sem hun reindar er.

En̄ nu viliu vier i hin̄e sijðare Greinen̄e skoða, hvernen̄ vier kun̄um að giora Þeñan̄ Okost að hinum besta Man̄koste fyrer Naad Guds og Aðstoð H. Anda. Það er vitan̄legt Brædur mijner, að hin̄ fyrste og beinaste Vegur til allra Dyggða og Man̄kosta er sæ, að Þeckia sialfan̄ sig. En̄ sæ sin̄ Forvitnena brwkar til Þess að ran̄saka sitt eiged Hiarta, sijn Orð og Athafner, han̄ mun sijður skignast um̄ an̄ara Efne, og er Þarlijkast að han̄ kvittur verde við alla Þa Okoste og Oroða, er eg upptalde i hinum fyrra Parteunm, so sem Maður ecke fær sieðan̄ sin̄ Yferlit i Þvi Vatne, sem er af Vindenum uppblæsed, helldur nær Það lygnt er, so er og omogulegt, að sa kun̄e sialfur sig að Þeckia eður ran̄saka, sem eckert an̄að giorer, enn að forvitnast um̄ an̄ara Hage. Það eru dijrmæt Orð, sem Frelsaren̄ talade forðum, Matth. 7. Þu Hræsnare, drag fyrst wt Bialkan̄ wr Þijnu Auga, og sia til sijðan̄, að Þu fær wtdreiged Flijsena wr Þijns Brooðurs

Auga. Þar er i mañlegre Næatturu nockurskonar Þootte, ad vier metum sialfa oss meir enn adra, hann kiemur a feingu meir eñ þvi, ad vier rañsokum añara Hættalag meir eñ vort eiged, mæ þad þo vita sierhver eirn, ad hversu sem hañ vera þykest Kostum bwreñ, Þæ er hañ þo ecke ollum betre, og hender oss i þessu þad sama og Stiornu-Meistarañ fordum, ad æ medañ hañ var ad siæ epter Himen Tunglunum og goonde uppi Lopted, fiell hañ i Grifiu eina sem vard fyrer Footum hañs. Eñ vited þad Br. M. ad allur Vijsdoomur, so sem ad þeckia Stiarnaña Gæang, Næatturu Grasasla, Steinaña, Fuglaña, Fiskaña, þad er Fæavitska hiæ þvi ad þeckia sialfañ sig, og þess er ollum þeim unt sem Gud hefur giefed heila Rænu; Þad er ecke i odru foolged, eñ ad bera siñ Lifnad samañ vid Guds Vilia, sem bæde er iñskrifadur i vor Hiortu, Rom. 1. og oss christnum Moñum þræalega opeñberadur i hañs heilaga Orde, enn þvi gleymum vier, og telium oss þad til Agiætis sem lijtels edr einkis er vert, edr vanbrwkum þad sm mikels er vert, enn hvad er þad þo er vier kuñum ad virda so mikels æ oss, ad vier forsmæum adra? Þad eru añadhvert Luckuñar Giæde edur Næatturuñar edr Næadareñar. Eg vil eirn Formæala hafa fyrer ollu þessu, og þann sem Pæall, 1. Cor. 4. hefur fyrer þeim, er stærdu sig af Andans Gæafum. Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer, og fyrst þu hefur þad þeiged, þvi stærer þu þig þæ, so sem þu hefder þad ecke þeiged? Um Luckunnar Giæde, Aud og Metord vil eg fæatt tala, þad er Almeñinge kuñugt, ad eingenn verdr af þeim ægiætare, marger verre, og er dæarlegt ad hrokast upp af þvi sem hlotnast kañ hinum versta Manne, og hid sama mæ seigia um Næatturuñar Gæafur, þoott þær sieu goodar; Þær eru wtvortis eda iñvortis. Utvortis er Afl og Frijdleike, eñ um Hreistena er þad ad seigia, ad Asneñ og Uxeñ eru eñ þæ sterkare, og sieu þeir betre fyrer þad, þæ mætte sæ ofunda þæ, sem odrum fremur þykest, fyrer Aflsmuna Saker. Eñ hvad Frijdleikanum vidvijkur, þæ eru Rooseñ og Liliañ miklu fegre, eñ hin vænsta Jomfrw, þvi Lausnareñ seiger, Matth. 6. Ad Salomon i allre siñe Dijrd hafe ecke so skrijddr vered sm hær, og er þo vitañlegt, ad Gud hefr meira lagt til hiñs liootasta Mañs, og hverneñ sm þvi er vared, þæ er þad oviturlegt, ad þeckia ecke sialfañ sig af Metnade þess Hlutar, sm eirn Kville gietr i burt fræ oss teked, og Elleñ ad vijsu ræner alla þa er heñar bijda, enn Daudeñ annars. Innvortis Giædeñ er Gud hefr prijdt oss mz, eru Vitsmunerner, þeir eru hinn ægiætaste Hlutur, ef þeir eru til goods brwkader, og þo allra hellst til ad þeckia Gud og sialfañ sig, enn sæ er þad giorer, honum er ecke hætt vid ad forvitnast um añara Maña Rædslag edur Hættseme, hann hefr noog ad giora, ad rañsaka hvad hañ hafe hvern Dag Gude æ moote broted, og þeinkia sig um, hverneñ hann meige sæ þad kvitt hiæ honum, og leidriett framveigis. J þessu og odru þvilijku skylldu Meñ æsa Forvitnena, Br. M. i Stadeñ þess ad hnijsa epter Næungans Hættum, honum til Meins, en sialfum oss til einkis Frama, og verdr hun þa ad hiñe bestu Mañprijde og Vegr til allra goodra Dyggda. Næadareñar Giæde eru hinar andlegu Dyggder, Trwreñ, Voneñ, Þolinmædenn og Kiærleikureñ, sm er mestr af þessum,

seiger

seiger Pall, 1. Cor. 13. Og so þeir Avexter sem hier af spretta. Meñ vilia vel seigia, ad slijkt giete Meñ ecke vanbrwkad, þvi þad sie Guds Anda Verkan i oss, eñ giætum þeis, ad so sem Gud kañ ad giora gott af Illu, so kañ Andskoteñ ad giora Illt af Good. Eg heyre ad Paulus i hinum Fyrra Pistle til Corinthios og hinum Þrem Fyrstu Capitulum, deiler a þa Christnu i Corintho, vegna þess, ad þeir stærdu sig af Andlegum Giædum, eg heyre ad Phariseanum var þad til Ranglætis reiknad, ad hñ sagdest ei vera so sem adrer Menn, Luc. 18. Hvad olle þvi, Br. M? Vanþecking a sialfum sier, eñ Forvitneñ uñ Tollheimtumañeñ, er hañ þocktest vita syndugre sier ad vera, sem þo foor Riettlætur framar honum i sitt Hws. Þad er ad soñu meste Daraskapur, ad vilia stæra sig af Luckuñar og Natturuñar Giædum, so sem ædur er sagt, eñ þo er sa eñ meire, ad hroka sier upp af þvi sem Natturleger Kraptar ecke i oss verka, helldur kiemur an þeirra Riettlijnis fra Gude, og er su vijsust Von, ad hañ svipte hñ sijnum Gaafum, er so illa med þær hondlar. Þu seiger: Hañ tekur ecke þad Gooda fra Manneñum, þvi þad er honum þocknanlegt: Eg jata þad satt ad vera, eñ þad sm Guds Nad hefur verkad gott med oss, þad er ecke leingur gott, þegar Madureñ tilreiknar sier Guds Giorning, eñ þad giora aller þeir, ed odrum betre þykiast, og ecke forvitnast uñ sialfa sig, hvad miked þa vante a þa Skylldu er þeir eiga honum ad giallda, og kalla sig gooda af þvi, ad adrer verre eru, ad þeirra Hyggiu. Mun nu ecke Gud reidast slijku, þegar hañs Gaafur eru hañveg til Metnadar brwkadar? Jw, meir eñ hinum er vier kollum Stoor-Syndara. Vier siaum i Epterlijkinguñe, Matth. 25. Ad Punded var teked fra honum sm ecke villde leggia þad a Mangarans Bord; hvad eigum vier þa ad ætla uñ hañ sem fer so illa þar mz, ad i Stadeñ þess, ad hñ ætte ad þioona Gude med þvi i Audmijkt sijns Hiarta, þa slæst hañ i Lid med Fiandanum, er var i Ond verdu hinum bestu Gaafum prijddur, eñ þess gielldur hañ eñ i Dag, og mun ad eilijfu giallda ad hañ upphoof sig a moote honum er hañ hafde so Dijrdlegañ skapad, so mum og aller þeir ed honum i þessu epterfylgia. Hvor hefur meire Guds Dijrkare vered eñ Salomon? 1. Reg. 11. Og þo vard hañ straffadur med Fausiñu. Var ecke Jehu hiñ meste Vandlætare vegna Guds yfer Achabs Hwse? 2. Reg. 9. Þo vard hñ ofurselldur i fraleitt Siñe, 2. Reg. 10. Giorde ecke Judas Kraptaverk med hinum Lærisveinunum? Matth. 10. Og þo eru hañs Afdrif Moñum kuñug. Og kañ þad eckert þvilijkum Moñum ad gagna, hvad leinge og hvorsu vel sem þeir hafa Gude þienad, þvi nær þeir hvad bester vera þykiast, og ætla sier einskis Aboota vant, þa verda þeir eins og Sma-Born, þau er rijsa þad sialf i sundur er þeim vænst uñ þyker, so verdur fyrer hinum, ad þeir hafa þess eingeñ Not, er þeir hafa þo ma skie kostad miklu Erfide til, þegar þad skijn of-fagurt i þeirra Augum, af þvi þeir ecke forvitnast uñ sialfa sig, edur hugleida, ad þoott þeir giordu allt þad þeir ættu ad giora, þa ættu þeir samt ad kalla sig Onijta Þioona, Luc. 17. Og ecke einasta missa Meñ Launeñ hier fyrer, so sem Endurlausnareñ seiger uñ þa ed giora Goodverkeñ sier til Hroosunar, ad þeir hafe sijn Laun-

utteked, Matth. 6. Helldur verda Meñ og þar fyrer eilijflega straffader, þvi eingeñ mun þvilijkur Reikningskapur mæta oss i Doomenum, so sem Misbrwkun Guds Nadar. Eñ i Sañleika þa er eingeñ heñar Misbrwkun stærre eñ sw, ad brwka hana þvert a moote þvi, sñ hun er oss giefeñ til, þad er til ad audmiukia oss og lijtelæcka, eñ ad prijsa Fodr Lioosaña, fra hvorium ad øll good Giof og øll fullkomeñ Giof kiemr, Jac. 1. Uñ allt þetta talar Drotteñ Gud med skielfelegum Ordum, Ezech. 18. seigiande: Ef hiñ Riettlaate i burtu snijr sier fra sijnu Riettlæte og breiter vonslegana, og lifer epter øllum þeim Svijvirdingum, sem hiñ Ogudlege giorer, skyllde hañ lifa? Ja, allt hanns Riettlæte sem hañ giort hefur, skal ecke i Minne leggiast, helldur skal hann deya i øllum hañs Misgiordum og Syndum, sem hañ giort hefr. Eñ eingenn er meire Synd, eckert Ranglæte meira, eñ ad ræna Gud þvi sem er alleina hañs, þad er hid gooda sñ hñ hefur verkad med oss, eñ brwka þad til ad forsmaa adra. Sijaum þvi til, ad Andskotenn ræne oss ecke, 2. Cor. 2. Og forvitnunst uñ Hage vora, hvort ad vier fiñum i Hiarta voru Potta nockurn, þad vier sieum betre i vorum Augum, enn adrer þeir ed vier kollum verre, þvi þoott þad vera kuñe, þa er þad ecke oss ad þacka Helldr þeirre Guds Naad, sñ med oss er, 1. Cor. 15. Og ef vier finnum soddann Hugrenning, þa drepum hana strax mz Jhugan vors eigenn Overdugleika, og laatum so þennann Veikleika Nattúrunnar verda Orsok til ad blygdast fyrer Gude, af hvers Naad vier erum þad vier erum, 1. Cor. 15. Og þad er ecke oss ad þacka, Pott ei sie hun ydiulaus i oss. Og þegar vier nu holldum Reikning vid sialfa oss, þa berum oss ei samann vid hina, sñ vonder eru. Mun þad nockud Boot fyrer þig, þott annar sie verre? Pad heiter so sñ hinn Latinske Ordshattur seiger: Ad hinn Glamskigne drottne a medal hinna Blindu: Helldur, vilier þu i Mañ-Jofnud fara, þa ber þig samann vid Enoch, sem var uppnumenn, Gen. 5. Vid Noa Riettlætesins Predikara, 2. Pet. 2. Vid Abraham Fodur Trwadra, Rom. 4. Vid Moysen, er var hinn þolinnmoodaste Madur a Jordunne, Num. 12. Vid Eliam, 2. Reg. 2. Vid Johannem Baptistam, Matth. 11. Vid St. Paal, hvor þo er so miog Ahyggiusam uñ Velferd sijna, og eckert treyster sijnu Riettlæte, Phil. 3. O Herra Gud! Hier kiemr mier i Hug þad, er Petur seiger, 1. Pet. 4. Ef hinn Riettlaate verdur naumlega hoolpeñ, hvar mun þa byrtast hiñ ogudlege og Syndareñ? Ef St. Paall þootteft vid þurfa, ad verka sijna Saaluhialp med Ugg og Otta, Phil. 3. O hvad hrædder og skialfande mættum vier þa vera, sñ Daglega iñdreckum Ranglæted, so sem Jordeñ Vatned, Job. 15. Og þvi kalla eg þad Oska-Raad ad vera, sñ hañ giefur Corinthu Borgar-Moñum, 2. Cor. 13. Ransaked sialfa ydur, seiger hañ, hvort þier erud i Trwñe, Proofed sialfa ydur, þecked þier ydur ecke, ad Jesus Christus bijr i ydur, nema þier sieud ræker ordner. O hvad stoor þorf er syndugre Mañeskiu a slijku i Utlegd þessare, Vited þier ecke, Brædur mijner, ad Daudeñ stendur jafnañ fyrer Dyrunum, og ad hvors eins Dauda-Dagur, er hñs Dooms-Dagur? Ja, þat vite þier, þvi eru Meñ þa so oforvitner uñ sitt Haattalag i Andlegum Efnum?

Margur

Margur ætlar þad, kann skie, ad ef Samvitskañ ecke nagar hañ eda klagar um̃ neina Stoor-Glæpe, ad hañ hafe Vitnisburd Andans um̃ þad, ad hañ sie Guds Barn, Rom. 8. Eñ þvi er ecke so vared alltijd, þvi eingeñ er so heilagur, ad hañ ecke hafe nooga Orsök til ad afbidia Synder sijnar og grꝏta þær fyrer Gude. Þeckingarleysed og Syndunum og Toomlæted i þvi ad ransaka sitt Hiarta, þad velldur þvi, ad Samvitskañ finn so lijtt til þeirra, og sefur hun þa, og maa þad aungvañveigeñ gooda Samvitsku kalla. Eirn Stoorbrota Madur, sem af Hiarta ꝏngrar sijnar Illgiorder, er mikilu betur ꝏ sig komeñ eñ hiñ, sem hvorke er Heitur nie Kalldur þvi Gud vill skirpa honum wt af sijnum Muñe, Apoc. 3. Og hvad miklu betur var fared hiñe Bersyndugu, sem ad laut Bak til ad Footum Jesu, og þvode þær i sijnum Taarum, og þerrade mz Hꝏr Lockum sijum, Kyste þær og smurde med dijrmætu Salve, Helldur eñ Hræsnaranum, er sagde i Hiarta sijnu: Ef þesse være Spaamadur, þa munde hañ vita hvor su Kona være, Er snerter hañ, ad hun Bersyndug er? Mun ecke þesse Sialfbyrgingur hafa skamast sijn, þegar Drotteñ sagde? Heñe fyrergiefst miked, af þvi hun elskade miked, og hañ sagde til heñar: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Þijn Trw giorde þig hoolpna, far i Fride. Eg kañ ecke añad ad seigia, eñ ad þetta var stoor Skeinkur, og þesse Smyrsleñ voru betur launud, helldur eñ þoott hañ hefde giefed heñe oll Rijke Veralldarennar. Eñ eg vil hier um̃ seiga, so sem Paall um̃ sig talar, þess vegna hefur hñ mier myskunad, seiger hañ, ad hañ sijnde ꝏ mier alla Stærd Myskunar siñar, þeim til Dꝏmis, er ꝏ hann trwa mundu, 1. Tim. 1. Aller eigum vier hins sama Von og Koiña þesse, ef vier lꝏtum oss af Hiarta ꝏngra Syndernar, eñ þad kann ecke ad skie, nema vier smꝏsmuglega ransökum hin innstu Fylsne vors Hiarta, og er þesse Forvitne, sm̃ eg ꝏdur sagt hefe, hin Fyrsta Trappa til Himnarijkis, þvi af Ransooknenne kiemur Þeckingenn, af Þeckingunne Ydranenn, af Ydranenne Fyrergiefningenn, af Fyrergiefningunne Elskann, sem er hin Einasta Root allra Dygda og Mannkosta, er i Guds Augum kunna ad skarta. Hristed wt, Hristed wt ydar Hiörtu, O þier hin Astlausa Þiood! seiger Drottenn Gud hia Zephoniam.

Þad er ecke noog ad Menn jꝏte almennelega Synder sijnar fyrer Gude mz Munnenum, seigande: Eg hefe allskins Synder giort, til Orda og Verka og vondra Hugrenninga, og kannskie ad Hugur fylge þo lijtt Mꝏle ꝏ stundum, enn vier eigum ad leita grandgiæfelega epter þeim, og rekia upp allann vorn Alldur, þad frekasta vier til munum, allt i frꝏ Ungmeñis Arum, allra hellst, nær vier gaungum til Alltaris, hvar vier eigum ad fridmælast vid Gud, i hanns Sonar Kvolldmꝏltijd. Ecke er þad helldr noog ad vier hofum Einusinne ydrast Syndanna, og sierdeilis þeirra er oss mætte hellst Minne til reka, helldr eigum vier ad lꝏta oss þær ꝏngra, so opt sm̃ þær oss i Hug koma, so opt sm̃ vier heyrum þær i Guds Orde straffadar, so opt sem vier heyrum þær af odrum drygdar; Og þa munum vier sijdar þykiast upp yfer þeim i Hiarta voru. Vier eigum ecke ad gleyma þvi so fliott, ad Gud hefr teked oss i Saatt aptur, þvi þad heiter ad

vilia ecke aptur snwa mz Utlendingenum og giofa Gude Dijrdena, Luc. 17. Ef vier gleymum ecke drygdum Syndum, þaa vill Gud þeim gleyma, enn gleymum vier þeim, þaa er hætt vid ad hann minnest þeirra, sierdeiles þar ecke er trwtt um̃ ad oss kunne optar ad verda hiner somu Glæper, edur ad miñsta Koste, ad oss lange aptur til Katlanna i Egypta-Lande, Num. 11. Og þoott alldrei være, þaa vitum vier þad, ad Petur afneitade Christo einusinne, enn alldrei optar; Þo seigia Christenndooms Sogurnar, ad so opt sem hann epter þad heyrde Hanann gala, hafe hann beisklega grææted. Enn Gud naade oss auma Menn: Hvad opt hofum vier nu afneitad vorum Skapara mz Petre? Er þad ecke ad afneita Gude, ad elska Skiepnurnar? Jaa, Syndena framar enn hann, ad vilia eckert lijda hanns vegna, ad vilia ecke læta a moote sier hina minstu Hollds Lyst hanns vegna, ad leggia ecke ad eins hanns ogurlega og dijrdarfulla Nafn vid Hiegooma, helldr hafa þad ad Haade, ef eg mætte so seigia, ad vanbrwka ecke einasta Hvijldar-Dagana til adskiliañlegra Synda og Lasta, helldr hafa Leida a Guds Orde, hafa þad i Fijbl'skapar-Maalum, hugsa allt añad nær þad er kient og predikad, og fylla Hiartad, sem er Guds Mustere, 1. Cor. 3. med sauruga Þaanka, þaa sem þad er vant til, so Guds Ord hefur ecke Rwm þar iñe? Er ecke þetta ad afneita Christo miklu verr eñ St. Petur? Þvi hann giorde þad af Otta, enn vær giorum þad ad raungrlausu, enn faa heyre eg gaanga wt og græta med honum, faa tæraſt þegar Haneñ galar i Guds H. Orde, so vier meigum jæta, ad jafnvel vor Ydran hefur stoor Synd vered, þvi hun hefur enn nu ecke þraungad oss til ad krossfesta Hollded edur læta af Syndunum. O vei! O vei! Hversu langt erum vier þa fraa Guds Veige, enn vitum þo ecke nær sagt verdur, gior Reikningskap þinnar Raadsmensku? Luc. 16. Og kiemur allt þetta af Forvitneslleysenu um̃ vora eigeñ Hage. Þu seiger vel, ef eingeñ yrde saaluhoolpeñ nema sa sem være eins og Petur og Paall, þaa yrdu faaer hoolpner; Þu seiger satt, þvi Endurlausnareñ svarade þeim er spurde hañ ad, hvert þeir mundu ei faaer verda, sem hoolpner yrdu? a þeñañ Haatt: Kieppest vid ad gaanga iñ um̃ hid þraungva Hlided, þvi þeir eru marger sm̃ þar vilia iñgaanga og komast þad ecke, Luc. 13. Eñ hvad um̃ þad? Sieu þeir nu faaer, sem satt mun vera, ad reikna þaa hinum sm̃ tapast, er þad Gagn fyrer þig, muntu hafa nockra Skiemtan af þeirra Selskap i Helvijte? Jeg jæta þad, ad þeir munu og marger saaluhoolpner verda, sem ecke eru Peturs edur Paals Lijkar. Þad syner oss Epterlijkingeñ um̃ Penings Gialldad, Matth. 20. Enn trw mier til, ad eins miked heimtar Gud af þier, epter þeirre Naad sm̃ þier er giefeñ, so sem af Petre edur Paale. Drottenn er goodur Reiknings-Madur, hann heimtar eins miked af þeim sem hann hefur Eitt Pund i Hendur feinged, so sem tiju, epter þvi sem Tala reñur til, Matth. 25. Þad kienner oss Epterlijkingeñ um̃ Sæded er fiell i gooda Jord, ad sumt fære Hundradfalldañ, sumt Sextugfalldañ og sumt þrijtugfalldañ Avoxt, Matth. 13. Þar fyrer maattu ohætt hallda þad fyrer vijst, ad þoott ecke siertu so heilagur sem Enoch, Gen. 5. so fulltrwa sem Abraham, Gen. 15. so þolennmoodur sem Job, Job. 2.

so

so heitur i Bænenne sem Elias, Jac. 5. so hreirn i Lijfernenu sem Baptista, Matth. 11. so brennande i Eiskune sem Petur, Joh. 21. so alvarlegur og rokſamur i Gudrækneñe sem Paull, þa samt ef þu leggur alla Astundan a, ad þioona Gude (epter þeirre Naad sem þier er giefeñ) i Heilagleikanum, i Trwñe, i Þoleñmædeñe, i Bæneñe, i Eskuñe, i Alvorugiefnenne, i Kiærleikanum, þa ertu Guds Barn: Enn hier uñ byriar þier yduglega ad forvitnast Kvolld og Morgna, og ad mæla þijnar Athafner med þeirre Naad, sem Gud hefur þier lient, hvert ecke gietur þu meiru afkastad, og þar sem þu brest finnur, ad ydrast þess af Hiarta, og bidia Gud ad fylla þad abrestur, giorer þu so, þa muntu finna Vitnisburd Andans uñ þad, þu siert Guds Barn, Rom. 8. þa ertu iñsigladur med Anda Fyrerheitesins, Eph. 1. til Dags Endurlausnareñar, Eph. 4. og hvert helldur þu lifer eda deyr, og med hveriu Moote hinum Naaduga Gude þocknast ad lata þig gialda hina sijdurstu Skulld, a Sioo edur Lande, i Ellde edur Vatne, i Svefne edur Voku, þa ertu Drottens, Rom. 14. og eingenn fær þig teked af hañs Hende, Joh. 10 helldur þo þu deyer, muntu samt lifa og med honum eilijflega rijkia, þar sem ad er Gnoogt Fagnadarens og gledelegt Lijferne til Fodursins Hægre Handar, Ps. 16. Þad veite oss Goodur Gud i Nafne sijns Eingietens Sonar Jesu Christi, og giefe oss þar til Styrk Heilags Anda, AMEN.

# Sunnudagenn mille Joola og Attadags.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

OG hañs Fader og Mooder undrudust þad, hvad af honum sagdest: Og Simeon blessade þau, og sagde til Mariu Mooður hañs: Siaa þu, Þesse er settur til Falls og Uppriſu margra i Israel: Og til Merkes, hveriu i moote mun mælast. Og sialfrar þiñar Ond mun Sverd i giegnum smiwga, so ad auglioos verde Hugskots Hiortu margra. Og þar var þa Anna Spaa-Kona, Dootter Phanuels af Kyne Asser, hun var og komeñ til siña Ara, og hafde lifad i Sio Ar med sijnum Eignar Manne fra Meydoome sijnum. Og þesse Eckla hafde nær Fioora Vetur uñ Attrædt, hvor ed eige gieck wr Musterenu, þioonande Gude Nott og Dag, med Fostum og Bæna-Hallde. Þesse gieck samstundis þangad ad, og prijsade Drottenn, og sagde af honum til allra þeirra sem Endurlausnarennar bidu til Jerusalem. Og er þau hofdu allt fullgiort epter Logmaale Drottens, sneru þau aptr i Galilæam til Borgar sinnar Nazareth. Enn Sveirnenn voox upp og styrktest i Anda, fullur Vijsdooms, og Guds Naad var med honum.

Exor-

# Exordium.

Gud leit allt þad er hann hafde skapad, seiger Ritningenn, og siꜳ, þad var allt harla gott, Gen. 1. Stoort er þꜳ Volæde Manneskiuñar er Andskoteñ hefur fært yfer hana med Syndenne, ad hinar bestu Guds Skiepnur snwast heñe til hinns mesta Mootgꜳngs opt og tijdum. Elldurenn er hiñ þarfaste Hlutur, eñ hversu opt verdur hann oss ad skada? Vatned i sama Mꜳta, og þo hliootum vier optlega Tioon af þvi: Jafnvel þær Guds Gꜳfur sem i siꜳlfum sier ecke eru skadvænar, þær snwast oss til hinns mesta Ohagnadar fyrer Misbrwkun vora. Ill Medferd ꜳ Gotze og Peningum hefur steipt morgum Dꜳra i Olucku, Metordeñ hafa margañ blindad, og siꜳlfa Skynsemena hefur margur Veralldar Sonur so Vanbrwkad, ad honum hefde þarfara vered, ad hafa sinnings Boonda vit, enn ad falla so hraparlega ꜳ sijnu eigenn Bragde, so sem þeir giora er Paulus seiger, 1. Cor. 3. ad Gud hondle i þeirra Slægvitsku: Um allt þetta kiennum vier Fiandanum og Uppruna Syndenne, ad vijsu ecke um Skor fram, af þeirre Root er oll sw Olucka sprottenn er synduga Menn daglega plꜳgar, bæde i andlegann og lijkhamlegann Mꜳta. Enn samt er oss þad vitannlegt, ad hinn myskunsame Gud hefur so bætt Rꜳd vort i Sendingu sijns Eingietens Sonar, ad oss mꜳ jafngooda kalla, nema vier spillum þvi aptur ad nyju; Þvi Guds Sonur er i Heimenn komenn til ad nidurbriota Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. Enn hier er Grꜳtlegt til ad vita, ad þad Hiꜳlpræded sem hinn gamle Simeon so miog fagnade, og sagde: Ad Gud hefde tilreidt fyrer Auglite allra Þiooda, Luc. 2. Þad vill so fꜳum gagna, og so fꜳer af hverre Þiood hafa þess Not, og sw Frelsan er Gud giorde sijnu Foolke, Luc. 1. verdur morgum ad enn stærra Þrældoome, Lækningenn ad Eytre, og siꜳlf Heilsu-Giofenn ad Vanheilsu, fyrer Vanræktar og Þvermoodsku þeirra Saker, er ecke þeckia siñ Vitiunar Tijma. þess gietur St. Pꜳll er hann seiger um sig, 2. Cor. 2. Vier erum Christi sætur Ilmur i Gude, bæde i þeim sem hoolpner verda, og hinum sem tapast, þessum ad sonnu Ilmur Daudans til Daudans, enn hinum Ilmur Lijffsins til Lijffsins. Og hvad er þad annad er Simeon hier talar i Gudspiallenu: Ad Christur sie settur til Falls og Upprisu margra i Israel? Eg vil þesse Heilogu Ord nockud gior hugleida, og af þeim yfervega. 1. Hverium Drottenn sie settur til Falls. 2. Hverium hann sie settur til Upprisu.

Hier til styrke hinn nꜳduge Gud med Nꜳd sijns Anda i Jesu Nafne, AMEN.

# Utleggingeñ.

Þesse Er Settur Til Falls seiger Texteñ. Hver er þesse? Þad er hañ sem Esaias umspꜳer Cap. 28. med þessum Ordum: Siꜳ eg set Grundvoll i Zion, eirn Stein, eirn wtvalenn Stein, (so sem Petur þad wtleggur, 1. Pet. 2.) Eirn dijrmætañ Hyrningar-Stein, eirn fastañ Grundvoll, sꜳ sem trwer hañ mun ecke flijta sier; Þad er eirn og hiñ same sem David kvedur um, Ps. 118. Seigande: Sꜳ Steirneñ sem

Upp-

Uppbyggendur hafa forsmaad, hann er ordenn ad Hofde Hyrningar, af Drottne er þad, og er undarlegt fyrer vorum Augum. Ad þessu sie so hattad, vottar sialfr Drottenn, Matth.21. Er hann heimfærer þennan Davids Spaadoom uppa sialfan sig, og þa sem ad lijflietu Sonenn, er Faderenn sende, þegar þeir hofdu adur lijflated hanns Pioona, þvi hn seiger strax epter i sama Capitula vid Gydinga: Þar fyrer mun Guds Rijke fraa ydur teked verda, og giefed Piood þeirre er færer Avoxt þar af; Er þvi audraaded hverier þeir sieu, sm ad Guds Sonur er til Falls sett, sem eru fyrst Gydingar, þeir Mordingiar er Konung Dyrdarennar af Dogum riedu, 1.Cor.2. og ei skipudust vid Kienningar hans heilagra Manna og Pijslarvotta epter hans Himnafor, jafnvel þoott þeir sæu Teikn og Stoormerke, med hverium Drottenn styrkte Christne-Boded, so og eru þad aller þeir sm enn nu i Dag ganga i þeirra Footspor, og krossfesta Guds Son ad niju, Hebr.6. med Vantrw og gudlausu Framferde: Þeim er Zions Hyrningar-Steirn til Falls settur; Enn med hvoriu moote er hann þa settur? Villde Gud nockud ad þeir skylldu detta umm hann sem falla? Langt er fraa þvi, hann vill ad aller Menn hoolpner verde og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, 1.Tim.2. Kom nockud Sonurenn i Heimenn til ad fordæma Heimenn? Eingvanveigenn, helldur til þess, ad Heimurenn hefde Lijfed fyrer hann, Joh.3. Var ecke Steirn þesse so audsær, ad nockr þyrfte ad detta umm hann? Ad sonu var hn so audsien, ad eingenn þurfte umm hann ad rasa. Borg sw er aa Fialle stendur, gietur ecke dulest, Matth.5. Villdu þeir ei trwa sialfum honum, þaa maattu þeir samt Verkunum trwa er hann giorde, Joh.10. Hvernenn er hann þa til Falls settur? Þar til svara eg: Ecke til þess, ad neirn skyllde falla, helldur aller uppriisa, David kiener oss þad i þeim Ordum er eg strax umgat, þar hann seiger, Ps. 118. Ad Uppbyggendur hafe forsmaad þennan Stein, og þesse somu Ord Davids brwkade St. Petur til ad sannfæra mz hinn gudlausa Hofudprestanna Flock er fordæmde Jesum, Act.4. seigiande: Þesse er sa Steirn, er þier Uppbyggendur hafed ad eingvu haft, hver ordenn er ad Hofde Hyrningar, og ecke er i neinum odrum Hiaapræded. Og þeir skipudust þo ecke meir vid þesse Sannyrde, enn so, ad þeir hootudu þeim, ad ei skylldu þeir kienna edur tala i þessu Nafne framar, jafnvel þoott þeim alkunnugt være, ad þeir Petur og Johannes hefdu skommu adur i Jesu Nafne giort þann heilbrigdann sem halltur var borenn, Act.3. Og er ecke ad undra, þoott Guds Sonur være þess hattar Monnum til Falls settur, fyrer þeirra Hardwdar og Þvermoodsku saker.

Latum nu Juda fara, Brædur mijner, þeir hafa sinn Doom med sier, og sijn Laun wtteked, enn giærum ad sialfum oss, ad ei verde Jesus oss til Falls edur til Asteitingar. Vier vitum hveriu Christur svarade Johannis Lærefveinum, er hann giorde þaa fraa sier til ad spyria Drottenn ad, hver hann være? Fared og seiged Johanni (sagde hn) Hvad þier heyred og siaed: Blinder faa Syn, hallter ganga, lijkþraaer hreinsast, dauser heyra, dauder uppriisa, og Fatækum verda Gudspiallenn bodud, og sæll er sa sem ecke hneixlar sig aa mier, Matth.11. Þetta hofum vier allt samann heyrt, og eing-

eñ efár um̃ Drotteñs Kraptaverk, mz hverium hañ auglijste þad hañ sañur Gud være. Eñ hvert ad vier samt og ædur ecke hneixlunst á honum sumer hverier, þad þyrfte nockud framar ad ransaka. Einhver mun spyria, i hveriu hneixlunst vier á honum? So spurdu og Judar fordum Daga, Mal. 1. J hveriu forsmáum vier þitt Nafn? Drotteñ svarade: Þier offred Ohreinum Mat á mijnu Altare, þo spyried þier, hvar med saurgum vier þig? Hann svarar: J þvi ad þier seiged, Drotteñs Bord er foraktañlegt, þvi nær þier offred hinu blinda, er þad ecke illt? og nær þier komed fram med þad hallta og siwkal, er þad ecke illt? Ber þetta Hertoga þijnum, muntu hiá honum velþockadur verda? Seiger Drottenn Zebaoth. Sama er á Briefenu gooder Viner; Foorner gamla Testamentesins eru afmáadar med þeirre einu Foorn er hinn ædste Prestur hefur einusinne iñbored i þad allra helgasta, Heb. 9. Samt eigum vier Gude lifanda Foorner ad færa, þad er sialfa oss og vora skynsamlega Þioonustu, Rom. 12. Eñ þegar vier iñgaungum i Mustere Guds, dauder i hinum verstu Syndum og Glæpum ydrunarlaust, forsmáum vier þá ecke Guds háleita Nafn? Hneixlunst vier þá ecke á Christo? Þegar Meñ gánga oforhugsader til Guds Bords, ecke reyna og proofa sialfa sig, ecke giora Greinarmun á millum Lijkhama Drotteñs og añarar Fædu, 1. Cor. 11. Ecke ransaka siñ Lifnad so þeir meige ydrast, ecke reyna hvert þeir eru i Trwñe, 2. Cor. 13. Ecke hafa fullañ Asetning til ad betra sinn Lifnad, hallda Menn þá ecke Bord Drotteñs foraktanlegt, saurga Meñ þad þá ecke? Seiged mier i Drottens Nafne, seiged mier, er ecke þvilijkt ad hneixlast á Christo, edur seiger ecke Paulus, ad sá ed þvilijkt giorer, hann sie sekur vid Holld og Blood hañs, 1. Cor. 11. Hvad er ad hneixlast á Christo, ef ei er þetta? Þegar Meñ ecke hyrda um̃ ad læra hiñ sañа Christeñdoom, so þeir fáe kient hañ Bornum sijnum og Hiwum, og eru so blinder, blindra Leidtogarar, Matth. 15. Og þo reka Meñ þetta blinda Fie iñ fyrer Drotteñs Altare, til ad eta og drecka sialfum sier Doom, miklu lijklegra til ad verda þar Satans Foorner enn Guds Offur, nema hann vilie meire Myskun á giora: Seiged mier, offra Menn þá ecke hinu blinda? Er ecke þad ad hneixlast á Christo? Þegar Meñ vilia under eins þioona Gude og Mañona, Matth. 6. Sitia i Kyrkiuñe, eñ Hiartad er wt á Biwgardenum edur hiá Akneytunum, Luc. 14. Hallta Meñ þa ecke á báдar Sijdur mz Prestum Baals? 1. Reg. 18. Er þad ecke ad offra þvi hallta og veika? Er þad ecke ad hneixlast á Christo? er seiger: Eingenn kañ tveimur Herrum ad þioona, Matth. 6. Bioodum þetta einhverium Veralldar Hofdingia, komum med oþveignum Hondum fyrer hañs Bord, giolldum honum einhvern vanneta Grip i Skylldir sijnar, svorum honum wtaf, nær vier eigum Tal vid hann, reinum til hvert hañ þyggur þad vel af oss og þo viliumm vier heimta slijkt af hinum stoora Konunge Himens og Jardar. Þetta er ad vijsu ad hneixlast á Christo, ad ottast hañ, sm̃ ecke kañ nema Lijkhamanum ad granda, enn hyrda ei hvad vier giorum vid Gud, sem Lijfe og Sálu gietur kastad i eilijfañ Elld, Matth. 10. Eg spyr, hvar fyrer hneixludust Judar á Christo? Þvi

hañ

hañ var Faatækur. Guds Faatæker eru enn nu hiaa oss: Þeir eru Jesu Limer, Ef þeir under eins eru Andlega Volader. Enn hvad er tijdara i Heimenum, eñ ad Ovirda Faatækañ, og ecke einasta ovirda hann, helldur og ad taka fraa honum þad lijted sim̃ hann aa, og ad brwka hanns Sveita til ohoofs og Metnadar? J Lofum Klæda þiña er Blood hinna þurfande Saalna, seiger Drottenn, Jer. 2. vid Juda. Þad maa eg heimfæra til þeirra, er selia hiñ Volada fyrer eirn Skoo, Amos. 2. so ad þeir sialfer, þeirra Syner og Dætur, gaanga so sem velbwnar Haller og utskorner Pijlaarar, Ps. 144. Er ecke slijkt ad hneixlast aa Jesu? Hvor ed kallar hina Faatæku sijna miñstu Brædur, Matth. 25. Og vill reikna þad vid sig giort ad vera, sim̃ þeim er giort. Hvad var fleira til þess ad Gydingar hneixludust aa Drottne? Þad, ad hann ecke hroopade nie hafde miked um̃ sig, og eingeñ heyrde Rodd hañs aa Strætunum. Es. 42. So aasælest og Heimureñ hina spoku og kyrrlaatu og forsmaaer þa, hæder ad þeim, kallar þa Opocka og Heimota, Þeir ed ecke bere Mañskap edur Vitsmune til ad hallda Virdingu siñe, og brioota Ok hins Dramblaata af Haalse sier: Er ecke þetta ad hneixlast aa Christo? Hvor ed ecke kom i Heimeñ til ad laata sier þioona, helldur til ad þioona odrum, Matth. 20. Hvad er þad eñ þa framar sim̃ kom Gydingum til ad hneixlast aa Guds Syni? Þad, ad hañ rak Eyrende sijns Fodurs so skoruglega, og vandlætte um̃ Glæpe og Vantrw Ogudlegra Maña. Ecke mun Dioefuleñ vanta þa eñ i Dag, sem ad fylge þeirra Footsporum i þessu. Hvor vandar so um̃ illar Athafner Mañanna, ad ei sie honum aa Haalse leiged? Hvor er saa, er hañ þycker vegna Guds og hañs Dijrdar, ad ei sie hañ Hlutsamur kalladur og sturle Jsrael? 1. Reg. 18. Ef nockur vill styrkia Maalefne Eck-nañar og hins Fodurlausa, þaa giora þeir samdraatt aa moote honum, sim̃ einge~ Fæda Ykker Lostæt, utann hun sie tekenn fraa Munne hinns Volada og Underþryckta.

Hvor er saa, ef hañ vill hallda gooda Skickun i Hwse sijnu, ad ecke laste hañ Jllkvittner Meñ og hate? Og jafnvel þoatt ad þeir sem vilia hlijda Gude i þessu og vardveita Samvitsku sijna Oflleckada, þott þeir, seige eg, giore allt þetta epter Skylldu sijns Embættis, þaa uppvekur þo Dioefulleñ þeim Andskota epter sijnu eigeñ Nafne, so þeim tekst ecke Guds Verk ad giora. Simeon spaaer um̃ Christ, ad hañ mune settur verda so sim̃ Teikn, þad er moote mælest; Þad er epter mijnum Skilninge so sim̃ Eitt uppsett Teikn, er Meñ plaga ad skioota aa. So var og Drotteñ, wr þvi hañ iñgieck þad Kieñemañlega Embætte. Oll Satans Born giordu sier ad Skylldu, ad vega ad honum, hvar sem þeir kuñu med Ordum og Verkum, so sem lioost er af Æfe Sogu hañs, er Gudspiallameñerner hafa oss ritad epterlaated. Soddañ Eitt Teikn eru aller hañs Læresveinar, aller hañs Epterfylgiendur i Lærdoomenum og Vandlætenu: Þess gietur sialfur Christur, Esa. 8. Þegar Spaamadureñ beid epter hvad Gud villde seigia, er hañ hafde byrgt sitt Andlit fyrer Hwse Jacobs: Siaa, hier er eg og þau Born, er Drottenn hefur giefed mier. Vier erum so sem nockurskonar Teikn og Merke hiaa Jsraels Foolke, Hvorn Spaadoom ad St. Paall til Hebræos Cap. 2. Heimfærer til

Christum og hns Barna, og er þad vijst, ad ecke er Læresveirnenn framar enn Meistarenn, hafe þeir Hwsboondann kallad Beelzebub, hvad munu þeir ei giora vid hanns Heimamenn? Matth. 10. Nu er þad ad sonnu gledlegt ad þola fyrer hanns Saker, er lofad hefur noogum Launum a Himnum, Matth. 5. Enn hitt er þeim Bol sm Christi eru, ad þeir Erfida til Onijtis, jafnvel þott ad þeirra Embætte sie Drottens, og þeirra Maalefne þeirra Guds, Esa. 49. Fyrer hinna Priootsku Saker, er hneixlast a Christo og lijkast er ad hann mune til Falls verda. Siaalfrar Þinnar Ond Mun Eitt Sverd i Giegnum Gaanga, sagde Simeon vid Guds Moodur, Teiknande an Efa þar mz, Harma þa er henne mundu til Handa bera wt af Mootmælum þeim, Offooknum og Pijslum er hann i Anda saa, ad Drottenn munde þola verda, aadur enn hann feinge oss Synduga leyst fraa eilijfum Pijslum. Ein Riett-trwud Saal, er Christi Andleg Mooder, þad vottar St. Paall til Gal. 4. Sona korn mijn, med hveria eg brongdwenn er, þar til Christur myndast i ydur aptur ad niju. Mun ecke þesse Jesu Mooder kienna i Brooste, Nær hun sier Drottenn aptur ad Niju Krossfestann, Ebr. 6. Fyrer Augum sier, af Bornum Vantrwarennar, med hinum verstu Syndum og Glæpum, þeim til Olucku, sem eins vel og hun eru med Guds Bloode Endurkeypter, Og fær þo ecke vid þvi giort, helldur enn Maria vid Pijslum Sonar sins, Illsku þeirra vegna, sm ad hneixlast a þeim: Enn þeir hlæia þar ad, og þad Angur, sem Guds Born kvelur fyrer þeirra Ogiæfu Saker, hafa þeir ad Skimpe og Athlaatre, þad liggr þeim liett i Skape, þoott ad Menn fæest um þetta, og seigia: Ad þar siaae ecke meira Bann a sier enn þeim er laata sier þeirra Olucku til Hiarta gaanga. Seiged mier i Guds Nafne, seiged mier: Er ecke þvilijkt ad Hneixlast a Christo? Og er nu so nockud hier um talad.

Nu vilium vier i Sijdara Partenum læra, hvornenn hann sie til Upprisu settur. Til Upprisu margra seiger Textenn. Oss er kunnugt med hveriu Moote ad Johannes Skijrare hoof sinn Lærdoom: Giored Ydran sagde hann, þviad Guds Rijke er naalægt, Matth. 3. Vidlijka Formaala hafde St. Petur fyrer Judum, er hann i fyrstu bodade þeim Heilsugiof þessa, þa þeir spurdu ad, hvad þeir giora skylldu: Svarade hann þeim: Giored Ydran, og sierhvor ydar laate skijrast i Nafne Drottens Jesu Christi til Fyrergiefningar Syndanna, Act. 2. So er þaa Christur þeim til Upprisu settur, sem ydrast Syndanna, og trwa ad þær verde sier i hanns Nafne tilgiefnar. Ein alvarleg Ydran er hin Fyrsta Trappa til þessarar Upprisu, epter þad ad Menn hafa þeckt Veg Sannleikanns, enn fyrer þvi ad Ydranenn verkar ecke i Mannsins Hiarta, nema vier þeckium Syndena, þaa er einsætt ad læra Guds Vilia af hanns Logmaale og Orde, ecke alleina til ad laga sinn Lifnad þar epter, helldur og til ad þeckia hvad oss er Aboota vant, sm vier fyrer vijst vita meigum ad all-miked er, og fleira enn vier þeckia kunnum edur upp ad reikna. Enn þoott ad eingenn vita kunne hvad opt hann fellur, Ps. 19. Samt eigum vier mz hinu mesta Athygle ad hallda Daglegt Ransak um sialfa oss og vora Lijfernis Haattu

til

til þess, ad vier þeckium Syndena og heñar Liootleik, so þar af vaxe Angur og Trege i Hiarta voru, enn fyrer þvi ad þetta Hiartalag tekur eingeñ af siꜳlfum sier, þꜳ vill þar til ydugleg og alvarleg Bæn, ef Ydraneñ ꜳ so heit ad vera, ad hun Gudelijke, þvi hañ nægiest ecke mz Hiegooma nockurn, Hiartad ꜳ ad brꜳdna og klockna fyrer Gude, ef hañ ꜳ Syndena burt ad taka; ecke duger soddañ Ydran miked sem hann um talar hiꜳ Jeremiam, Cap. 3. Seigande: J ollu þessu sneresꜳ ecke til mijn hin frꜳfallna Syster Juda af ollu Hiarta, helldur voru þad ei neina Lære heñar, seiger Drotten. Eckert kañ þad ad duga hiꜳ Gude, sem hañ ecke siꜳlfur mz oss verkar, þvi af siꜳlfum oss til megnum vier eckert gott ad framkvæma, neina vor Hryggd sie epter Gude, so sem Pꜳll ad Orde kiemst, 2. Cor. 3. þꜳ er hun Ovijt, soddañ Ydran vill hañ skirpa wt af sijnum Muñe, þvi hun er volg, Apoc. 3. Þad er agiætt sem Nicephorus Calistus skrifar epter hinum gooda Keysara Theodosio, er hañ sagde, ad þad være eingeñ Undur, þoott nockur dæe, þar hañ være Madur, eñ þad være eins Guds ad kalla þañ aptur til Lijfsins mz Ydraneñe sem eitt siñ daudur være; Þvi er hier af audsied, ad Menn skulu þyggia Ydranena med Bæn af Gude, so vel sem allt añad, ef hun ꜳ honum ad þocknast, og mꜳ þad ecke hindra nockurs Mañs Alvorugiefne i Ydraneñe, þoott ei sie hañ sier hiña verstu Klækia og Bodorda Brota medvitande. Noog er þad til ad koma wt Tꜳrunum ꜳ einu Guds Barne, ad þad gietur ecke eitt Augnablik syndlaust lifad, ef Giorder vorar ættu ad stikast ꜳ Guds Riettlætes Mæle-Swru. Eitt Hiarta sem elskar siñ Gud er hægt ad bleita, þad ꜳngrast meir af sijnum Ofullkomlegleika, helldur enn hinn gudlause af Miñingu allra siña Skaña og Odꜳda. So ad David i ollum sijnum Heilagleika hañ væter sijna Sæng i Tꜳrum alla Noottena, Ps. 6. vegna siña Avirdinga, þar hiñ Ogudleꜳe Manasses fiñr eckert til siña Stoor-Glæpa, fyrr eñ hñ er beygadur i þwngum Jꜳrn-Vidium, 2. Par. 33. Nu þoott ad sꜳ hafe miklu afloked, sem hefur straffad siꜳlfañ sig, med alvarlegum Trega fyrer Syndena, þvi þad ꜳ heima hiꜳ þeim er Postuleñ seiger: Ef vier dæmum siꜳlfa oss, þꜳ verdum vier ecke dæmder, 1. Cor. 11. Samt er þad ecke noog ad lꜳta sig ydra Syndaña, neina Menn treyste þvi fullkomlega, ad hiñ nꜳduge Gud mune sier uppgiefa alla Skulldena, fyrer Jesu blessada Forþienustu: Ydranenn kastar Syndarꜳnum nidur fyrer Guds Fætur, til ad audmykia sig under hañs vollduga Hond, eñ Trwen reyser hañ upp aptur, og giorer hañ þess full oruggañ, ad hañ hafe frijañ Tilgꜳng til Nꜳdar-Stoolsins, Hebr. 5. hversu sem hañ sie hinum verstu Syndum hladeñ, og þad ecke fyrer nockurs Mañs eigeñ Verdugleik, Vett edur Atgiorfe, þvi Gud er heilagre, vollldugre og riettlꜳtare enn so, ad nockurt af þessu edr einhver añar veralldlegur Hlutur meige fꜳ hñ kreinkt edur yfervalad, helldur skiedur þad alleina af hañs skiærre og einsamalle Goodgyrne og Myskun, fyrer þad Lausnar-Gialld er hañs Eingieteñ Sonr hefur ad soñu wtlagt fyrer alla Verolldena, enn þeir einer munu Not af hafa sem ꜳ hanns Nafn trwa, Act. 10. Af Ydraneñe og Trwñe framkiemur Elskañ til Guds, ef þær eru añars so sem þeim vera

byriar. Ydranenn syner oss vorn Overdugleik, og hvernenn vier hofum med Syndunum unned til hinna bitru Helvijtes Pijsla : Enn Trwenn Guds Giædsku og Oransakañleg Myskunar Ydur, i Þvi ad uppgiefa þau morgu Tiju Þusund Punda, sin vier ecke einasta einusinne, helldur Ar epter Ar, verdum hinum gooda Gude skyllduger um, hvad ef vier yduglega hugleidum og samañberum i Hiarta voru, þa kunnum vier ei ad fara a mis vid þad, ad þar af kvikne ein breñande Elska til hañs, er so vel giorer til vor overdugra, og fyrergiefur oss margar Synder, og hun er hin einasta Root allra Dygda og Mañkosta, og jafnvel Logmalsins Uppfylling, so sem Paulus um Kiærleikann vottar, Rom. 13. Þvi þad er vijst, ad sa sem elskar nockurn, hañ skirrest vid ad stiggia hann, og verde honum þad ovart, þa angrar hañ þad af Hiarta, og uner illa Hag sijnum, nema hañ faae komed sier aptur i samt Lag og naad hañs Vinattu er honum þyker inndællt ad elska. So eru og Guds Born lynd, verde þau yferstijgeñ af nockurre Hrosun, þa standa þau bratt upp aptur til ad fridmælast vid Gud : Þad sie eg a David, Ps. 38. Þad sie eg a Petre, Matth. 26. og odrum fleirum, hverier, er þeir hafa ratad i nockurn Glæp, hafa þeir ecke Frid edur Roo haft, fyrr enn þeir hafa sættst vid Gud, hvern þeir af Hiarta elskudu. Enn ecke er þess ad dylia, Born mijn good, ad þeir sem eru i miklum Kiærleika vid Gud, og ordner eru eirn Ande med honum, i Cor. 6. Þeim er miklu vandara enn odrum i slijku.

Faderenn heimtar meire Elsku af Synenum enn af Þrælnum, jafnvel þott sijdur giore hañ Barned Arflaust, helldur eñ Þrælen, utlægañ ur Hwsenu : Þad mætte ætla ad margur hefde meira til uñed vid Gud eñ Moyses, þegar hañ sloo tvisvar a Kletteñ, Num. 20. Enn fyrer þvi ad hañ var Gude so handgeingeñ framar odrum, þa vard hañ straffadur. Margur Konungur hefur lated telia Lands Foolked, til ad vita hver hañs Makt være, og hvad hann mætte reida sig uppa. Þo vard þad David til Syndar reiknad, 2 Sam. 24. Ja storrar Syndar, af þvi hañ i þad sinn hafde meira Traust a Mañ-Aflanum eñ a Gude, er þo so optlega hafde barest fyrer hñ, og lagt hñs Fiandmeñ ad Velle. So skulum vier og meina um hañ sem Gud hefr eitt siñ ad sier reked, honum veiter hægra ad bera Avoxt eñ hinum, sem enn þa hefur ecke noted þeirrar Nadar, og viñur hañ þvi til meire Hegningar, Luc. 12. ef hañ af-bregdur. So er þesse Elskañ til Guds, sem af Ydraneñe og Trwñe framkiemur, nockurskonar Sæde, hvar af allar goodar Dygder spretta, sem adur er sagt : Og af henne kiemur hin nija Hlijdne og Umbaat Lifdaganna, an hverrar bæde Ydraneñ og Trweñ daudar eru og maktarlausar, þvi þad er eingeñ Ydran sem lofar Mañenum aptur ad ganga til somu Synda, og þad er ecke hin saña Trw sem ei verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Hvar um St. Jacob noogu skoreñordt talar i sijns Pistels 2 Cap. Og þesse er hin andlega Upprisa, hin fyrre Upprisa. Sæll er sa sem hefur Hlutdeild i heñe, seiger Guds Ande i Openberingar Bookeñe 20. Cap. Og hefe eg nu so med nockrum Rokum sagt, hvernig Christur sie til Falls settur, og hverium til Upprisu. Gud giefe ad hins sijdara

meige sem flester nióotande verda. Giórest þvi eige Stall-Brædur Gydinga, er þeñañ Hyrningar Stein forsmaadu, hver sem yfer hañ fellur, þann mun hañ sundur brióota, og yfer hvern sem hann fellur, þañ mun hann sundurmola, Matth. 21. O! þier faavijsu Born Veralldarennar! O þier Paafuglar þessa vonda Heims! Torvelldara mun ydur verda ad beria Høfdenu vid þennann Stein, eñ St. Paale ad spyrna aa moote Broddunum, Act. 9. Hañ hefur fyrer ydur og allra Maña Skulld, Hoggormsins, þad er Dioefulsins Haus i sundur molad, Gen. 3. Munud þier vera sterkare eñ ydar Høfdinge sem er Gud Veralldar þessarar, og drottnar i ydur Bornum Vantrwareñar? Eph. 2. Ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerter Fialls-Ræturnar, þaa skal þad Dauda deya, sagde Gud vid Moysen, Exod. 19. under þad hann wtgaf sitt H. Løgmaal; Eñ þegar sаа Steirneñ sem einusiñe er af Fiallenu wtskoren og sundurbraut Jarned og Leireñ, Gulled og Silfred, Dan. 2. Þegar hañ, seige eg, i añad siñ dettur yfer Gudlausañ Heim þeñañ i hañs sijdare Tilkomu, munu þaa Fiolleñ hylia ydur fyrer hñs Reide? Apoc. 6. Munud þier þaa stadest i hañs Auglite, sem jafnvel hin mektugu Konga Rijke hefur i sundur broted; Edur vited þier ecke, ad þier Leyr og Aska erud? Jaa, breisk Leirkier, sm optlega detta sundur af sialfum sier, auk helldr ad þier kuñed ad bwa vid þeñañ fortærande Elld. Gud er eirn mektugr Konungr, Himineñ er hanns Haasæte, Jordeñ er Skør hanns Foota, Act. 7. Og nær hann drepur Fætenum vid Bwfu þessare, vid þessare Madkaveitu, hvar iñe vier synduger Ormar skrijdum hver um añañ þverañ, þa titrar hun og skielfur, eins og Lauf-Blad fyrer Vinde: Munud þier þaa stadest gieta hañs Tilkomu Dag? Mal. 3. nær hañs Reide tekur til ad breña allt til nedsta Helvijtis, Deut. 32. Þvi forsmaaed þier þaa hanns Riettende, þvi hallde þier hanns Sendeboda fyrer eina Skoo-Þurku, og þvi hafa hanns Ord ecke Rwm i ydur? Þvi jafnvel þoott ydr meige hitna i Brióoste um Stundarsaker, þegar Guds Reidarþruma slær um Eyru ydar af einum Predikunar-Stool, þaa er þo Snióoreñ leingr aa Steinunum þegar Regned ofann kiemur, Jer. 18. helldur enn Miñing hanns ognarlega Nafns hiaa ydur. Þvi vanvirded þier hanns Sacramenta, þvi hneixled þier hañs Vesælinga, þvi forsmaaed þier hanns volada, þvi ræned þier hinn Faatæka, þvi hamled þier Riettenum ad hafa siñ Framgaang, þvi hefied þier hiñ raanglaata, og nidurdreped hinum Saklausa, þvi hallded þier inne Sveita Daglaunarans, þvi giored þier allt þetta, og ætled Gud mune ecke færa ydur under siñn Doom fyrer þessar bloodugu Skamer og Illgiorder, ef þier seigest ecke hneixlast aa Jesu? O þier Eitur Ormar og Nødru-Kyn! Vered þo ecke argare eñ Pharisæi og Skriftlærder sem komu til Johañis Skijrnar, Matth. 3. og spurdu til ad þier faaed umflwed tilkomande Reide. Giored Ydran, medann Guds Rijke er naalægt. Leited Drottens medann hann er ad finna, Esa. 55. og minnest vid Sonenn, ad þier eige fyrerfarest aa Veigenum, þegar hanns Reide tekur til ad breña. Sæler eru aller þeir ed leita Athvarfs hiaa hønum seiger David: Jaa, Sæler erud þier sem eckert Athvarf hafed i Heime þessum, þvi Drottenn er ydar Hlutskipte. Sæler

erud

erud þier sem alla Hlute hafed yfergiefed, og jafnvel siaalfa ydur, þvi þier skulud faa Hundradfalldt aptur og erfa eilijft Lijf, Matth. 19. Sælir erud þier sem forsmaaed allt Yferlæte og Skarkala Veralldarennar, þvi þier leited ad þvi sem þar uppe er, Col. 3. Sæler erud þier, nær þier alla Hlute þola vilied fyrer Guds Saker, þvi ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum, Matth. 5. Sæler erud þier midt i Hormungunum, midt i Araasunum, midt i øllum þeim Raunum sem ydur til Handa bera, þvi Guds Kraptur fullkomnast i ydar Breiskleika, og þaa þier veiker erud, þaa erud þier maattuger, 2. Cor. 12. Sæler erud þier nær Heimurenn kallar ydur Afrak og Hreinsun Veralldar, þvi þaa erud þier dijrmæter i Drottens Augum, þier skulud sia ydar Glede nær þeir munu til Skammar verda seiger Drottenn, Esa. 66. Þad sem Heimsins Børn troda under Footunum, þad er Guds Haasæte aa medal vor. Eins ydrande Syndara Hiarta, Esa. 57. Eins Guds Vesalings Saala, er hanns Himen aa Jordunne. Mørg Skwr rigner þadann ad sonnu yfer þennann Taaranna Dal, enn aller þeir Dropar falla i Guds Siood, Ps. 56. Hann telur þaa og geimer so sem annad Fwlgu-Fie, hann grefur ecke þetta Pund i Jordu, helldur skilar þvi aptur med Yfermaata miklum Avexte, þegar þad verdur uppskored med Glede, sem hier var i Taarunum nidursaad, Ps. 126. Hid Naatturlega Regned kiemur fraa Himnum ofann, og frioofgar Jordena, so hun ber Avoxt. Taar hinna Andlega Voludu i Heime þessum koma fraa Gude, þau færa þann Avoxt er safnadur verdur i Bindine Guds Barna, i hinne stooru Endurfædingu sem Lausnarenn umgietur, Matth. 19. Ef eg leige nockurs Manns Jord under Bw mitt, þaa krefur hann mig Landskulldar hvert Ar, og þad þess vegna, ad hann ætlar mig ecke fullvedia, edur maa ecke siaalfur missa. Enn þvi er ecke so vared fyrer hinum stoora Akur-Manne, Gude allsheriar, Joh. 15. Eg vil allshugar feigenn byggia honum Hiarta mitt, laate hann Ploog Logmaalsins, Ploog Ydranarennar, Ploog Hormunganna ganga umm þennann Stoorgrytes Akur so sem hann vill, laate hann Gudlaus Villu-Dijr Heims þessa spora hann i sundur og Footum troda, so sem honum Blessudum lijkar, þad er mier fyrer minstu, þegar eg veit hann er mier naadugur, og eg maa allrijd missa so miked sem hann vill laata mig missa, þvi einkis freistar hann yfer Megn framm, 1. Cor. 10. Og þoott mier þykia meige, so sem hann svare mier ecke hvers Ars Rentu, sem þo ecke er, þaa maa eg þo vita, ad hann er bæde trwr og fullvedia, og er eg þess fulloruggur ad hann mune umm sijder Endurgiallda mier hina liettu Byrde Hormungarennar, sem varer umm Augnablik, med yfergnæfannlegrar Dijrdar Eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4. Hverrar niootande ad verda, unne og veite øllum Guds Børnum hin haaleita Guddoomsins Þrenning, hverre ad sie Lof og Dijrd, Vellde og Kraptur umm Allder Allda, A M E N.

# A Nijaars Dag.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

I Þann



Þañ Tijma. Epter þad ad Atta Dagar voru lidner, og þad Barned skyllde umskierast, var hans Nafn kallad JESUS. Hvad er kallad var af Englenum, adur enn þad hann var gietenn i Moodur Kvide.

## Exordium.

Komed og skoded Verkeñ Drotteñs seiger Skalldeð, Ps. 66. Hvad vyrdeuglegur hann er i Verkum sijnum vid Mannaña Sonu. Til þessa vil eg einneñ hafa kvadt ydur, Brædur mijner, a þessum Hatijdis Deige. Hvernen Guds dijrdarfulla Almætte daasamlega stioornar Arenu oss til Nota; Þad heyrum vier i hinum 74 Psalme, þar David seiger: Þiñ er Dagurenn, þijn er einneñ Noottenn, Lioosed og Soolena hefur þu tilbwed, Jardarennar Enda hefur þu afmarkad, Sumar og Vetur hefur þu skapad; Hier yfer laatum vier nærsta lijted, Born mijn. Gud giæfe ei finduft þeir ed mogla þegar þesse hñs Raadstofun er ecke epter vorum syndugum Vilia. Hvar fyrer? Þvi þad skiedur daglega, og vier hofum þess Not a hverre Stundu, og þyker þad Skyllda Guds ad svipta oss ecke þvi hann eitt sinn gaf. Jeg heyre ecke ad Jonas hafe þackad Gude fyrer Lundeñ a medañ hann stood, enn reidur vard hann þaa hann visnade, Jon.4. Munde ecke hinn blinde verda allshugar feigenn, mætte hann hid blessada Lioos Soolareñar Augum lijta? Enn hinum heilskigna þyker þad lijtels verdt. Hversu laungar þann er oinæder, epter Vatnenu? Þad sie eg a Konunginum Dario, er hann drack hiñ sætasta Dryck Afe siñar wr Hest-Farenu; Enn þo ecke sydur af Epterlijkinguñe, um hiñ rijka Mañ, er hann æskte eins Vatns Dropa af Fijngre Lazari, þaa hann vaknade upp i Helvijte og Kvolunum, Luc 16. Hvorn hñ mun þo lijtes metid hafa, þegar hann liek sier ad allre Fullsælu Veralldar. Jeg tek hina almeñelegustu Hlute, sem miñst eru af Moñum virdter, til ad syna vort Oþacklæte vid Gud, i stadeñ þeirra Hluta, er hanns Millde ollum jafnt veiter; vondum og goodum, rijkum og fatækum, Stund epter Stund, Dag epter Dag, Ar epter Ar. O minn Gud! Hverju skulum vier þier gialllda? Eckert hefur snaudur fyrer ad giefa. Hverin skulum vier svara? Ecke einu a moote Þusund, Job. 9. Hvad skulum vier af oss giora? Bagt er þaangad ad flya, sem Hond þijn nae oss ecke, Ps. 139. Vier villdum ad sonnu giefa þier alla oss med Saal og Lijkhama, enn þad er allt þitt, þu hefur oss þad adur giefed. Gud naade þad vier hofum teked þijna Limu, og giort þaa ad Satans Limum: Lied þaa til Verkfæra Ranglætenu, og Syndeñe til Ibwdar, Rom. 6. So vier mættum kvijda þvi, ad hiñ heilage i Israel munde laata þvilijkum Saurendum wtkasta edur þau i Ellde brenna. Eitt hofum vier til Raads epter, sem er Forþienusta þijns Eingietens Sonar. Vier hofum Ohlijdnger vered, Dan.9. Hañ var hlijdugur allt til Daudans, Phil.2.

Wier hofum Logmaaled broted, hañ er komeñ til ad uppfylla Logmaaled, Matth. 5. Vier erum Oumskorner i Hiortum og Eyrum, Act. 7. Hañ hefur umskierast laated, so hañ umskiere Israels Hiartä og hañs Sædes Hiarta, Devt. 30. Logmaaled lijser Bolvan yfer þeim sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Logmaalenu, Devt. 27. Eñ Guds Eingieteñ Sonur hefur Bolvan Logmaalsins uppaa sig teked i sinne Umskurn, þvi Paulus seiger: Ad saa sem umskierast lætur, hañ sie Skulldunautur alls Logmaalsins, Gal. 5. Eñ þo hoñ Logmaaled uppfyllte, þaa hefur hañ samt Logmaalsins Bolvan þolad, hañ eirn sem giorde allt þad i Logmaalenu skrifad er, hann einsamall er aa moote Logmaalenu ad sialfs sijns Vilia daaeñ. Hañ eirn sem aatte alla Hlute: Hañ betalade þad hañ rænte ecke, Ps 69. Og hann sem er Gud blessadur um Allder, Rom. 9. Hañ er so sem oñur Bolvan uppheingdur. Laated þvilijkañ Guddoomsins Kiærleika upprycka ydar Hiortum i Himenenn um stundarsaker fraa jardneskum Hiegooma, til ad umskierast med Christo, af hvers allra helgustu Umskurn, er oss bodud verdur i þessu Evangelio: Vier vilium læra ad umskierast i andlegann Maata, Eph. 4. Vil eg þvi laata Tal mitt vera þar um i þetta sinn; Hvernenn hinne andlegu Umskurn haattad sie. Drottenn umskier þu Hiortu vor med Sverde Andans; So þetta vel luckest, fyrer Jesum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Ef þu vardveiter ecke Logmaaled, þaa er þijn Umskurn ordeñ ad Yferhwd, seiger Paall, Rom. 2. Ad soñu talade hañ þad Gydingum til Blygdunar: Enn þo maa hier af siaa, ad hin ytre Umskurn mune ecke hafa einhlijt vered til Saaluhiaalpar. So sem þad var nu fyrer Gydingum, so er þad og fyrer oss, Brædur mijner, þvi ecke meigum vier vænta oss betre Kosta eñ hiner naatturlegu Kvisterner, Rom. 11. Ecke eru aller þeir full-christner, sem opennberlega eru skijrder, helldur þeir sem fyrer Skijrnena eru med Christo greptrader til Daudans, og lifa i Endurnijungu Lijfdagaña, Rom. 6. Þacker og Lof sieu eilijfum Gude, sem fyrer Vatns-Saaeñ i Ordenu hefur endurgieted oss i Christo til lifande Vonar, 1. Pet. 1. Eñ þar fyrer hefur hañ endurgeted oss, ad vier skylldum Gude lifa eñ Syndeñe deya. Þar skal koma eirn Dagur seiger Drotteñ fyrer Muñ Jeremiæ Cap. 9. ad eg skal heimsækia alla Oumskorna, sem eru i Umskurneñe. Þar af ræd eg, ad margur mune hafa bored þetta Teikn aa sijnum Lijkhama, sm ecke hefur haft þess mikel Not i sijnu Hiarta, ecke sijdur eñ nu. Munu ecke allmarger giefast þeir, er hroosa sier af Gudhræsluñe, enn afneita þo hennar Krapte, 1. Tim. 3. Margur mun skijrdur med Vatne og Anda i fyrstu, sem illa lijdur ad laata sig med Christo fyrer Holldsins Deydingu umskiera. Aller Heidingiar eru oumskorner seiger Drotteñ; Jer. 9. Eñ Israels Hws er Oumskored i Hiarta. Þar er ad ottast fyrer, ad Gud hafe eñ nu i Dag Orsøk til ad seiga: Ad Tyrkiar og Tartarar sieu Oskijrder, eñ marger þeir ed sig christna nefna, sieu Oskijrder i Anda, edur ecke umskorner þeirre Umskurn, er Paulus um talar, er hann seiger: Þier erud umskorner þeirre


Uni-

Umſkurn, ſem ecke er med Hondum gior, hvor ad er Umſkurn Chriſti, Col. 2. Þad er Deyding Holldlegra Gyrnda, fyrer Chriſti Dauda, Chriſti Uppriſu og Chriſti Anda. Nu verdur i Skriftenne fierdeilis gieted um Andlega Umſkurn a Tveimur Lijkhamans Portum. Baada nefner Stephanus Pijſlar-Vattur Drottenns, ſeigiande: Þier hardſvijrader og Oumſkorner i Hiortum og Eyrum, þier mootſtanded jafnann Heilogum Anda, Act. 7. Hiartad kallar Ritningen Mannſins Hugſkot og Krapta Saalarennar, er þvi fylgia, þad vill Gud laata Umſkiera ſier til Ibwdar. Af Hiartanu wtgaanga vondar Huxaner, Manndraap, Hoordoomur, Frillulijfe, Þioofnadur, LIwgvitne Laſt-Mælge, Matth. 15. Þetta Illyrme ber ad wthreinſa wr Hiartanu, ef Gud ſkal þar inne bwa fyrer H. Anda. Synder og Glæper eru Dioſulſins Fooſtr, hvor hann gieted hefur vid ſpilltre Mannſins Naatturu, fyrer Samþycke Viliians, enn hverſu maa Guds Eingieten Sonur, ſem er Lioome hanns Dijrdar og Imynd hanns Guddoomlegrar Perſoonu, Ebr. 1. eiga Sess vid Dioſulſins Dætur? Hann hefur Trwloſad ſier hreina Brwde, þa ed hvorke Fleck nie Hrucku hefde, Eph. 5. Þvi er ei Von ad hann vilie i ſama Herberge lijda þeſſar Helvijtis Ambaatter. Nek wt Ambaattena med hennar Syne, þvi Sonur Ambaattarennar ſkal ecke erfa med Syne hinnar Friaalſu ſeiger Ritningenn, Gal. 4. Syner Ambaattarennar eru Holldſins Verk, þau byriar wt ad reka i Eydemorku, aaſamt Mooduren̄e, eda ad minnſta Koſte, ad temia hana, ſo ad Agar drottne ecke yfer Sara, nie Iſmael offæke Iſaac, Gen. 21. Ef þijn Hond eda þinn Footur hneixlar þig ſeiger Jeſus, Matth. 18. þaa ſnijd hann burt og ſnara honum fraa þier, þad heiter ad Umſkieraſt i Andlegann Maata. Ecke hefur Gud Þocknan a þvi ad nockur meide edur hamle Lijkhama ſinn, eins og Baals Preſtar, 1. Reg. 18. Og þoott hann hefde, þa være ſaa Footur edur Hond betur af-hoggven, ſem ætlar ad draga Mannenn til Helvijtis, betra er þau rotne hier a Jordunne, enn ſvijde eilijflega i Helvijte. Enn þeſs þarf ei vid þar er Sverd Andans, Hebr. 4. ſem af ſnijdur ſo ecke a ſier, þad giorer Svida um Hrijd, enn þad bæter eilijflega, þad verkar Hrygd um Stundarſaker, enn epter a giefur þad Fridſamlegann Avoxt Riettlæteſins, Hebr. 12. Þier gieted ecke under eins drucked Chriſti Kaleik og Dioſulſins, ſeiger Paall, 1. Cor. 10. Hefde Guds Heilagleike gietad lided Andſkotans Saurende, munde hun ecke hafa vered wtſnaradur af Himne; Gud villde ecke lijda Satans Naalægd i Himnarijke, eige helldur i ſijnu Rijke hier a Jordunne, ſem er i Guds Barna Hiortum. Guds Rijke er inne hiaa ydur, ſeiger Frelſarenn, Luc. 17. Enn hvor hann Synden̄e þioonar, þad er, hvor hana lætur drottna i ſijnum Lijkhama, hann hefur giorſt Andſkotans Madur, enn raaded Þegn undann Gude. Þvi ſeiger Paulus, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hvorium þier liaaeſt i Prældoom til Hlijdnis, þeſs Prælar erud þier er þier hlijded, hvort helldur Synden̄e til Dauda, edur Hlijdnen̄e til Riettlætis? Laated ei villa ydur; Eg vil þioona Gude i Verkunum, enn hvad mier flijgur i Skap, ſæ eg ei vidgiort. Þad er ad vijſu ſatt, Fuglarner verda ad ſoonu ad flivga yfer Hofuded, þad er baagt ad banna,

 enn

eñ ecke þurfa þeir ad hreidra sig i Hꜳrenu. Eg vll þioona Gude i Verkunum seiger þu: Hvad þa? Ætlar þu ad þioona Syndeñe i Hiartanu? Siꜳ þa til ad þu fꜳer ei sama Vitnisburd og Phariscæi, ad hid Ytra siertu fagur, eins og Daudra Maña Graf-er, eñ Iñvortis fullar mz allskonar Oþeckt, Matth. 23. Þegar Hiartad er gott, þa er meire Von ꜳ ad allt sie gott, þvi Gud ꜳlijtur Hiartad, 1. Sam. 16. Goodr Madr af goodum Fiesiood sins Hiarta, fram̃ ber Gott, seiger Hiartnaña Rañsakare, Matt. 12. Eingenn kann ad seigia: Mitt Hiarta er hreint, eg em klꜳr af Syndenne, Prov. 20. Hitt kann eg af Alvoru ad giora, ad bidia Gud ad skapa i mier hreint Hiarta, Ps. 51. Hvad ef ecke tekst ad ollu Leite vegna þeirrar Syndar sem i mier bijr, Rom. 7. þa tekst þad fyrer Jesu Blood, sem hreinsar mig af ollum Syndum, 1. Joh. 1. Þvi hann er komeñ til ad kalla Synduga eñ ecke Riettlꜳta til Yđranar, Matth. 9.

Eg hafde nærre þvi sagt, ad Davids Synder hefde betre vered eñ Phariscæanna Riettlæte. David drijgde ecke Syndena med þvi Hiartalage, ad hun skyllde Vel-giord heita, helldur af Mañlegum Veikleika; Eñ allt Phariscæaña Riettlæte, var ecke nema Synd, þvi Goodverk þeirra fram̃komu ecke af Hiarta, helldur til þess ad byrtast fyrer Moñum, Matth. 6. Og þo villdu þeir þad skyllde fyrer Gude gillda. Sa Gud sem lætur þeim alla Hlute þiena til Gooda, er hañ elska, Rom. 8. Hañ liet Davids Synd honum fyrer Bestu verda, 2. Sam. 12. Eñ Phariscæanna Riettlæte snerest þeim jafnañ i Synd, so sem allt þad, er ecke fram̃kiemur af Trwñe, Rom. 14. ꜳn hverrar Omøgulegt er Gude ad þocknast, Hebr. 11. Eingenn seiger oss betur eñ Moyses hvorneñ Mañsins Hiarta um̃skored verdur, Devt. 30. Drottenn mun um̃skiera þitt Hiarta, so ad þu elsker Drotteñ Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þinni, ad þu lifer. Elskann til Guds, er þad Verkfære, sem best afsnijdur Synder og Leste. Hinn Agiarne vinnur alla Hlute fyret Rijkdoom. Hvad sparar sa Heiptræke til þess, ad hann fꜳe sijnum Ovin fyrerkomed? Lijtils hefur margur Daud-añ aktad fyrer Metorda Saker, og þvi skyllde þa ecke Gud vera so sterkur i þeim er hñ elska, so sem Andskotenn i Bornum Vantrwarennar, Eph. 2. Sa sem elskar Vin siñ, hann kostar Kapps um̃, ad giora sem mest epter Giede hanns. Aller Hluter eru sam-eigennleger Vina ꜳ millum, ef þad er Falslaus elska. Elskañ samteinger alla Hlute, so ad Skynlauser og jafnvel dauder Hluter teingiast sijn ꜳ mille, þess vegna, ad hvers Nꜳttura ꜳ vid añañ. Ef þetta Elskuñar Logmꜳl, er nu so rijkt i Nꜳtturu Hlutaña, þvi skylldi þad ecke hverium Mun framar ꜳ millum Guds og Mañsins, sem eptir hanns Mynd er skapadur? Eingenn Efe er ꜳ þvi, ad sꜳ sem fyrst være komenn i fullkomenn Kiærleika vid Gud, hann telde eingvann Hlut epter sier ad giora hñs vegna, hann giæfe sig og allt sitt alleina Gude, so hñ mætte hañ eirn ꜳviña, og hann yrde eitt mz honum, og allt hvad Gud bijdur, og odrum virdest þrongt ad vera, þad yrde honum sæt Byrde, og þvi seiger Pꜳll, Rom. 13. Ad sꜳ sm̃ elskar, hafe Logmꜳled uppfyllt. Gud er Kiærleikurenn seiger Johannes, 1. Pist. 4. Cap. Og sꜳ sm̃ er i Kiærleikanum, hañ

er i Gude og Gud i honum. O Herra Gud! Hvilijkt er þetta? Hverneñ mæ sa skora sig undañ nockrum Hlut, ad þola Guds vegna, i hvorium Gud bijr? Kann sa um̃ Æfe illa ad fara sem er i Gude? Fellur hañ i Synd nockra, þa er Guds styrkve Armleggur nálægur ad reisa hañ, Ps. 145. Ef hañs Hiarta fordæmer hñ, þa er Gud Mættugre hñs Hiarta, 1. Joh. 3. Ef Vondskufull Heimsins Epterdæme ætla ad villa hñ, þa er ei Guds Fijngur honum fiarlægur til ad benda honum a hiñ rietta Veg: Og ef Satan fer a Heindur einum med Her Freistinganna, þa hefur hañ þañ ad Vistum med sier, sem ad er trwr, og aungvañ lætur freistast yfer Megn fram̃, 1. Cor. 10. Þvi alijkta eg so, ad eckert sie kroptugra, eckert agiætara og eckert heilnæmara Medal til ad um̃skiera Mañsins Hiarta, enn Elskañ til þess eilijfa Gooda, sem er hinn Lifande Gud. Eg gat og þess fyrer skom̃u, Brædur mijner, ad Meñ ættu sijn Eyru i Andlegann Máta ad um̃skiera. Eyrun eru Dyr Hiartans, i giegnum hvor margt geingur, Bæde Illt og Gott, Sæll er sa sem þessu fast helldur, enn wtskwfar hinu. Paulus varar oss vid, ad eingenn fwl Ræda wtgange af Muñe vorum, Eph. 4. Hun a ecke helldur ad ganga inn um̃ Eyrunn. Þad er gomul Assokun þeirra sem tamt er ad heyra Lijte og Skam̃er um̃ siñ Naunga: Eg giet ei byrgt fyrer Eyru mier, enn kannske færre mundu illa tala, nema þig fiiste ad heyra. Eg vil vera sataladur hier um̃, þvi bagt mun vera ad temia Muñ hiñar prettvijsu Kynslóodar, er Hoggorma Eitr fooled hefur under Tungurootum sier, Hvar hiñ gamle Dreke, er kallast Dioful og Andskote, Apoc. 12. Hefur sier Hreidur bwed, og lagt þar Eggium þeim, wr hverium um̃ sijder mun kvikna sa Ormur er alldrei deyr, Esa. 66. Nema Tungañ adur um̃skorenn verde. Alleina vil eg tala um̃ þad fyrer Guds Bornum, hvort ad sie hid hellsta Medal til ad um̃skiera Eyrun i Andlegañ Máta, þad er Guds lifanda Ord, sem er hárhvast Sverd, wtgangande af hañs Muñe, sem ad skrijddur er Bloodlitudu Klæde, Konungur Konungaña og Drotteñ Drottnaña, Apoc. 19. David kallar þad Lystelegañ Gras-Haga, Ps. 23. Eñ Gud náde, hvad tregt er Moñum þo þangad komed? Paulus nefner þad Krapt Guds til Sáluhialpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. Eñ þar er ad Ottast fyrer, ad þad verde hinum Vantrwudu, Guds Kraptr til Fordæmingar, þvi Endurlausnareñ seiger, Joh. 12. Þad Orded sem eg tala, mun fordæma þa, og sañast hier ecke siðst, ad þad er eins og Tvijeggiad Sverd, er skier a bádar Sijdur, þa ed hialpast til Ydrunar, hina til eilijfrar Refsingar. Matur er Mañsins Meigeñ, seiginn vier, eñ hvad er Sálenn ef hun misser Guds Ord? Eins og St. Páll talar um̃ Eckiuna þa ed i Gyrndum lifer, hun er lifande daud, 1. Tim. 5. Frilla Diofulsins er hun og Helvijtis Elldsneyte. Hvad velldur nu þessum Leida, Born mijn? Þad sama er eg talade i Ondverdu um̃ hinar Almennelegu Guds Gáfur, af þvi Guds Ord er so nægt i Heimenum nu orded, þa vegnar þvi eins og Elementunum, ad þad er foraktad. Eg sie a medann Mennerner urdu ad fara med Christne Boded i giegnum Hwdstrokur og Krossfestingar, þegar Paulus var

haalshøggvenn, Petur krossfestur, Jacobus med Bein-Brote lijflaaten, Laurentius steiktur aa Rist, þaa urdu þeir glader ad þeir maattu lijda nockud fyrer Jesu Nafns Skulld, þaa vard Guds Ord Monnum sætara enn Hunaang og Hunaangs-Eimur, Ps. 119. Þaa fannst margur sa er keypte þaa dijrmætu Perluna, sem Endurlausnarenn talar um, Matth. 13. Fyrer alla Aleigu sijna. Enn nu þyker þvi ollu illa vared sem Gude er giefed. Þu villt kannskie seiga, þaa være Raad ad giefa upp ad predika Christum um Hrijd, og munde Menn þaa epter honum laanga eins og aa fyrre Døgunum; Eg villde ad eg giæte oriett til sumra Manna Þaanka, enn þvi er verr, ad eg hygg ad nockrer mune finnast þeir ed giarna mundu hafa Umskipte aa Svijnunum og Christo, med Gergesenis, Matth. 8. Þvi heyrt hafa Menn Skrijtne þeirra er laata sier um Munn fara, ad eige sie þeim Matur i Messunne. Þu talar vel, være Guds Ord i burtu teked, þaa mundu Menn leita þess mz Angist: Munde þad og ecke gott Raad, ad Gud tæke Soolena af Himnenum um nockra Daga, so feinge Menn Vit aa, ad þacka Gude fyrer hennar Gagnseme? Þad maa eige seiger þu, þvi þaa mundu aller Menn wt af deyia, og einginn lifde til ad giora Gude Þacker, þar David seiger, Ps. 6. Þeir þacka ecke Gude, sem i Grøfena eru ofannfarner. Jeg jaata þad satt ad vera; Enn munder þu leinge lifa i Gude, ef hanns Ord væru i burt tekenn? Eige hygg eg þad, þvi Frelsarenn seiger, þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Hvar fyrer? Af þvi ad Saalenn hefur eckert Lijf fyrer utann þau. Enn trw mier til, ad þu sem snerer Bakinu vid Guds Myskunar Fadme aa medann þu maatter niota hanns Orda, þu munder verda illur Apturhvarfs til ad leita hanns, þaa hann er ecke leingur ad finna. Þu seiger: Soolenn maa eige burtu hverfa, so Mennerner mættu lifa; Enn ef þu mætter sofa aa medann, þaa hygg eg þad litlu skipta. So þyker þier og nu sem i Syndunum sefur aa eingvu rijda, þoott Sool Riettlætesins burtu lijde og ætte alldrei apturkvæmt, enn þad munde annad heita, þaa þu uppvaknar i Sal Myrkranna, hvar þeir ellda Saalum ogudlegra Manna. Þeck þvi Giædsku Guds, aumur Madur, og kannast þar vid, ad eins og hann lætur hid fagra Lioos Heimsins renna upp yfer raanglaata og riettlaata, Matth. 5. Til þess ad Mannkyned meige lifa, jafnvel þoott sumer þar eckert i þyggia vilie, so vill hann eirnenn ad hin fagra Byrte Evangelii, sem er Lioos aa Vegum vorum, Ps. 119. Skijne i christelegre Kyrkiu, þoott þad verde af morgum forsmaad, uppaa þad ad eingum tape hann af þeim hann aadur þeckte. Og þesse er Orsøkenn, hvar fyrer hann ecke sender Hwngur sinna Orda i Landed, Amos. 8. Ord Christi bwe rijkuglega aa medal ydar, ad þier kienned med allre Vitsku, og aaminned sialfa ydur med andlegum Dicktum, Psalmum og Kvædum, syngiande Drottne i ydar Hiortum, seiger Paall, Col. 3. Þesse var Iþroott hinna fyrstu Christenna Manna, i stadenn hvers ad Diofullenn hefur innfært i Heimenn, Brixl, Hæd, Kieskne, Kaamarleg Ord og fiblslegt Hial, sem christnum soomer ecke, Eph. 5.

So er eg hræddur um, Brædur mijner, ad ef St. Paall mætte lijta upp af Grøf sinne, og sia sig um i henne, sem nu Christine nefnest, þaa munde hann ecke vijda finna Jesu

Christi

Christi Tryggda-Pant, Eph. 1. Sem hañ hefur heñe epterlꜳted, og kallast H. Ande, og hann munde snarara þeckia hana fyrer Andskotans Frillu, helldur enn Brwde hiñs Krossfesta. Edur hvar fiñast Meñ nu þad, sem hañ vottar um sig og sijna samchristna ? 1. Cor. 4. Þegar oss er formællt, þꜳ blessum vier, þegar vier ofsookter erum, lijdum vier þad. Lꜳngt mun vera ad leita epter Dæme Stephani, Act. 7. Og Jacobs Postula, hverier ed beiddu fyrer þeim, er þꜳ aftooku. Mig ugger og, ef Jacob mætte hverfa aptur i Heimeñ, þꜳ munde hañ kalla sumra Christeñdoom Dioffla Trw, þvi so seiger hann i sijns Pistils Cap. 2. Þu trwer ad Gud sie eirn; þvi trwa og Diofl-arner og skielfast þar af. Og Gud giæfe þar findust ei þeir, sem ad nockru leite eru verre enn Diofiarner; þeir giora ecke epter þeirra Trw; þvi þeir hafa ecke Von Fyrer-giefningarennar; þar þeir eru wtrekner frꜳ Asioonu Guds eilijflega, og med Myrkrañá Hleckium fiotrader, 2. Pet. 2. Enn þoott Gud wtbreide bꜳdar Hendur, Esa. 65. Þoott hann hroope, þu hefur drijgt Hooraner med morgum Elskuga, kom samt aptur til mijn seiger Drottenn Gud, Jer. 3. Þoott hann lꜳte Dogum optar heyra : Eg vil ecke syndugs Mañs Dauda, helldur ad hann snwe sier og life, Ezech. 33. Þoott hañ lꜳte almennelega wtberast : Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar Jllsku-Breitne frꜳ Auglite mijnu; komed sijdann og eigunst Log vid. Þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood, þꜳ skulu þær Snioohvijtar verda, og þo þær sieu eins og Purpure raudar, skulu þær verda hvijtar sem Ull, Esa. 1. Þoott vier meigum so tijtt heyra, ad þegar hinn Ogudleige snijr sier frꜳ ollum sijnum Syndum, er hann giort hefur, og vardveiter Guds Bodord, og giorer Doomeñ og Riettvijsena, þꜳ skule hañ lifa og ecke deyia, Ezech. 18. Allra hañs Misgiorda skule ecke miñst verda; samt lætur ecke Jllvirkinn af, og Foolked snijr sier ecke til hañs; er þad typtar, Jer. 8. So þad mꜳ satt jꜳta, er David talar um hiñ ogudlega, Ps. 14. Ad hann seige i Hiarta sijnu þar er eingeñ Gud. Þvi hrædduft Menn, ad Gude mislijkade ogudlegt Athæfe, þꜳ munde ecke so mikell Offe, Rꜳnglæte, Hardydge, Lygar, Bakmælge, Roogur, Agg, Reide, Þræta, Agyrne, Þioofnadur, og allra handa Andskotans Þioonusta drottna so freklega i Heimenum, ad jafnvel sumt af þessu være fyrer Dyggder hallded. Hvad mun nu þessu vallda, Born mijn ? Annad enn þad, ad Meñ tilbyrgla Eyruñ fyrer H. Guds Orde. Paulus kallar Ord Guds Sverd Andans, Eph. 6. Þad er sꜳ beitti Knijfur, med hverium vor Eyru eiga ad umskierast, enn þesse Benenn svijda miog so hinum gamla Adam, og þoott hañ meige þau ꜳ Stundum þola, þꜳ hafast þau so illa, ad þar svellr um til eilijfs Dauda. Hann hallar sier aptur ꜳ Kodda Syndanna, til ad samañhrwga sier Lærendum, epter þvi sem Eyrunn klæia, 2. Tim. 4. Hann er eins og Zippora var fordum, er hun mꜳtte naudug umskiera sinn Son, Exod. 4. Þegar Moyses kiemur med Knijfeñ, þꜳ kalla Meñ hañ Blood-Brwdguma, edur Bloodgijrugañ Mañ, giæt-ande ecke ad þvi, ad Gud er wtfarenn i Bræde siñe til ad deyda, ef ecke er vid giort. Gud baud sijnu Foolke, Exod. 21. Ad ꜳ siounda hveriu Are, skylldu þeir hallda eitt Hvijl-

dar-Ar, og ä medal añara Bodorda sette hañ, ad ä þvi Are skyllde änaudugu Foolke Lausn giefast, eñ sä er ei villde Frelse þiggia, hann mätte hanns Herra taka, og setia Al i giegnum Eyru honum, og festa vid Dyr edur Dyrustaf, og skyllde hañ vera hañs Þræll upp þadann æfennlega. Exod. 21. Ecke einasta ä hveriu Siounda Are, helldur ä hverium Siounda Deige eigum vier þann Kost, ad leysast af Andskotans og Syndareñar Þrældoome, þvi þad er Meining alls Evangelii, sem oss predikad er, ad vier sieum frijälser vid Syndena, ecke til þess ad lifa i henni, helldur ordner Gude handgeingner, til þess ad deya frä Syndunum, so sem Päll seiger, Rom. 6. Þier erud frelster af Syndenne, ordner Þioonar Riettlætesins. Enn ef nockur vill ei Lausn þyggia og lætur sig festa ä Eyrunum vid Port Helvijtanna, Andskotanum til eilijfs Þrældooms, þä er audsært, ad hanns sijdara verdur argara hinu fyrra, 2. Pet. 2. O Herra Gud! mier kiemur i Hug, hverneñ Guds Eingieteñ Sonur vijkur þessare Logmäls-Grein til sijn, Ps. 40. Er hann seiger til sijns Himneska Fodurs. Offur og Foornfæringar villder þu ecke, enn Eyru mijn hefur þu i giegnum stwnged, teiknande med þessare Þrældooms Mynd hina allra herfelegustu Anaud, er hañ þolde fyrer Þræl Syndareñar, þar hañ, sem allt Valld er giefed, bæde ä Himne og Jordu, Matth. 28. Kom i Heimeñ, ecke til ad läta sier þioona, helldur ad hann odrum þioonade, Matth. 20. Þar hañ hafde verre Kior eñ Hræ-Kvikinde Jardareñar, og Fuglarner under Himnenum, Matth 8. Hver þo ecke lætur eirn Titling ä Jordu detta än sijns Vilia, Matth. 10. Þar hann fieck eckert Rwm i Giesta-Herbergenu, Luc. 2. sem uppfyller bæde Himen og Jord, þar hañ vard Maña-Þurfe, sem uppfyller alla vora Naudþurft epter Rijkdoome siñar Dijrdar, Phil. 4. Og hañ bar siñ Kross, sem ad ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Þetta giorde hann seiger Päll, þegar hann mätte vel Sælu hafa: Og þo vill Syndarenn ecke liä honum Eyru sijn til þess, ad hañ meige eilijflega med honum rijkia, enn ä þo añars Vegar eingvañ añañ Kost, nema pijnast eilijflega. Gud näde þad, ad vier erum ecke olijkt ä oss komner, og Cicero skrifar um Catadupos, hverier ad bwa vid Fossana i Añe Nilo, þad þeir heyre verr enn adrer Menn. So gierer Nidur Verralldar þessarar oss dausa, so vier gietum ecke giætt ad Drotteñs Raustu. Johañes seiger i hañs Opeñberana Cap. 1. Ad Rodd Mañsins Sonar er til hañs talade, hafe vered so sem Lwdurs-Hlioomur. Nærsta fagurt mä Gledskapur Veralldareñar läta i Eyrum synþugra Manna, ad vier fäum ecke fyrer honum adgiætt Raustu Brwdgumans er hann so hätt kallar: Hvad velldur þessu? Þvi Eyruñ eru so tom ä hitt, ad Menn þeckia ecke hvert frä odru. Mijner Sauder þeckia mijna Raust, seiger hiñ goode Hyrder, Joh. 10. Hvad vill hier ä epterfylgia, Born mijn? Þeir sem ecke þeckia hanns Roddu, þeir eru ecke hanns Sauder. Hvad mun fyrer þeim liggia? Hvad vill Doomareñ seiga ä hinum mikla og strænga Deige? Ecke þecke eg ydur, fared frä mier aller Illgiorda Menn, Matth. 7. Þä mun Saudunum skipad verda ä Hægre Hlid, enn Hofrunum ä hina vinstre, Matth. 25. Aller villia ad sonu i Sauda-Flock-

num

num vera, enn þeir sem ecke villdu þeckia Hyrdersins Raust i Nꝍdeñe, þeir muñu verda med Hosrunum Arf ad taka i Kvoleñe. Hver sem elskar mig og vardveiter miin Ord, til hañs mun eg koma og miñ Fader, og Vistar-Veru hiꝍ honum giora, seiger Endurlausnareñ, Joh. 14. Hvad ꝍgiæt ad sie þesse Sambwd; veit eingenn nema sꝍ ed smackad hefur, hvad sætur ad Gud er. Enn hvar eiga Meñ ad fꝍ þennañ Smeck nema i hũs Orde? Þar verdr Jesus Christus frañreiddur til andlegrar Nautnar, um̃ hveria hann sialfur þann Veg talar, Joh. 6. Hver sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudañ smacka ad eilijfu. Lwked þvi upp Dyrum ydar Eyrna Guds elskuleg Born, so Konungur Dijrdarennar meige inngꝍnga i ydar Hiarta, Ps. 24. lꝍted þær ecke læstar honum, so hañ læse ecke aptur fyrer ydur Himnenum, dreped ei Hende ꝍ moote frañbodeñe Nꝍd, og bægest ecke til Vandræda vid hũ, sem ydur elskade ad fyrra Bragde. Hañ hefur sitt Lijf i Daudañ giefed til þess, ad þier sꝍ kyñud hũs gledelega Raust ad heyra, þvi eingeñ hefur um̃ Alldur Gud sienañ, sꝍ Eingietne Sonur Fodursins hefur oss þad opeñberad, Joh. 1. O hvad vitstola er þꝍ Mañeskiañ, sem tredur þañ Dijrgrip under Footum, er wtvegadur er med Guds eigenn Bloode. Þeinked til þess, ad hann lꝍngade epter ad lijda Helvijtis Pijsler ydar vegna, lꝍted ydur eirneñ lꝍnga epter honum, so þier kuñed þær somu ad uñflija, enn eilijflega med honum lifa. O þu eilijfa Ord Fodursins Herra Jesu Christe! þu sem ert sætare enn Hunꝍng, frijdare enn Soolenn, gledelegre enn Englanna Saungur, ꝍhrær þu vor dofiñ Eyru, upplwk voru Hiarta, endurnija vorn Anda, so oss leidest um̃ sijder Endeme þessa vonda Heims, enn giore swsa ad renna epter þier, þu eilijfa Glede, lꝍt þijn fagnadarrijku Ord vera Epterlæte Sꝍlna vorra, so ad vier hofum vora Lysting i Logmꝍle þijnu Dag og Noott, Ps. 1. Og begar vor Augu sioꝍ ecke leingur, vor Eyru heyra ecke leingur, og vor Tunga gietur ecke talad leingur, ad vier þꝍ verduger ꝍlyktast mættum hiñ fagra Saung, heilagur, heilagur, heilagur ertu Drottenn Gud Zebaoth, Esa. 6. Eilijflega ad heyra i þijnu Rijke, hvar eingeñ Noott er, Apoc. 22. Og eingenn Um̃skipte Liossins og Myrkursins; Þad hænheyre Gud Fader Myskunsemdanna, fyrer hid dijrmæta Blood sijns Eingietens Sonar, og sende oss þar til Nꝍd sijns Anda, AMEN.

# Sunnudagenn mille Attadags og Prettanda.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

DEger Herodes sꝍ þad, ad hañ var gabbadur af Vitringunum, vard hañ reidur, og sende wt, og liet drepa oll Svein-Born til Bethlehem, og i ollum heñar Endemorkum, tvævetur og þadañ af yngre, epter þeim Tijma, sem hañ hafde wtspurt af Vitringunum. Þꝍ uppfylltest hvad sagt er fy-

er Jeremiam Spaamañ, sem seiger: A Hædum hefur heyrst Kall mikillrar Kveinunar, Ops og Ylfrunar, Rachel æpte Sonu sijna, og villde ecke huggast láta; Þviad þad var med þeim wte.

## Exordium.

Neidest enn syndged ecke seiger Paulus, Eph. 4. Læted eige Soolena undergaanga ydar Reide. Mun nockud Postulenn giefa Moñum Leife til ad reidast med þessum Ordum? Edur er þar nockur riettferdug Reide til? Þvi maa ei neita ad þad sie riett, ad hata þaa sem Gud hata og hanns Riettinde; So seigest David hata Samkūndu hinna illgiornu, Ps. 26. og Ps. 139. Seiger hann enn aptur: Mun eg ei hata þaa Drottenn, er þig hata, og hafa Leida aa þeim er reisa sig upp aa moote þier? Med fullu Hatre hata eg þaa, og þeir eru vordner mier ad Ovinum. Þaa syner Madureñ ad hañ elske Gud af Alvoru, ef hann giarnañ stendur af sijnum Riette, enn þycker Guds vegna; Og þad er ad vijsu sw Reide er fylgia aa hveriumm christnum Mañe, enn þo eirna mest þeim sem yfer adra eru i Guds Stad setter. Ritningenn giefur Moysi þann Vitnisburd, ad hañ hafe vered hinn þoleñmoodaste Madur aa Jorduñe, Num. 12. Og eige fiñst þad ad honum hafe ruñed i Skap, þoott Israels Born so optlega settu sig upp i moote honum. Miklu helldur beidde hañ Gud fyrer þeim nær þeir hofdu syndgast, jaa, hañ villde hafa mist sijna Velferd fyrer þeirra, er hann sagde vid Gud, Exod. 32. Munt þu fyrergiefa þeim sijna Synd? Añars drag mitt Nafn wr þeirre Book er þu skrifad hefur; Og er þad þo alkuñugt, hvorsu aakaflega hañ reiddest, er hañ kom ofañ af Fiallenu, og saa Afgudadijrkun Foolksins. Vidlijkt er Dæme St. Paals, er hann æskte sier ad vera wtrekeñ fraa Christo fyrer Brædur sijna epter Holldenu, Rom. 9. Og er þo kuñugt af Giorninga Book Postulaña, hversu hañ vandlætte vegna Guds uñ þaa somu. So og eru kuñug Dæme Phineæ, Num. 25. Samuels, 1. Sam. 15. Jonathans, 1. Sam. 14. Davids, 1. Sam. 17. Ezechiæ Konungs, 2. Reg. 18. Nehemiæ, Nehem. 13. Og annara Guds Manna, sem hafa teked sier þad nærre, er þeir hafa heyrt edur sied Gud Dijrdarenar vanvirdtann af nockrum, hanns heilaga Nafn lastad, edur hañs Bodord under Footum trodeñ; Og er Gude valla nockur Hlutur þægare, sem audraaded er af þeirra Straffe, sem i þvilijku hafa toomlaater vered, ad þeir hafa maatt bera þeirra Synder, er þeir hafa sied i gegnum Fijngur vid, so sem lioost er af Dæme Eli Kiennemañs, er hann stie fram yfer Glæpe Sona siña, 1. Sam. 3. Sauls Konungs, er hann þyrmde Amalechita Konunge, 1. Sam. 15. Og Achabs, þaa hann vægde Konungenum af Syria, 1. Reg. 20. Nu þoott ad þessu sie so vared, þaa hygg eg ad eige sie Postulans Meining i þessu, ad hañ epterlaate Mannenum ad reidast, edur tale uñ þess haattar Reide, er eg saniſtundes umgat, þvi hann bijdur i þessum Ordum: Ad Sooleñ eige skule undergaanga Mannsins Reide, hvad so er ad skilia, ad Madur ei skule ersa leingur eñ til

Kvollds

Kvollds þad honum er aa moote giort. Enn Gudlegt Vandlæte og Hatur aa Løstum og Odygdum aa alldrei vid oss ad skilia; Þvi meinar Postulenn hier, ad Menn skule temia Reidena, þoott hun kunne ad sliwga i Mannsins Hiarta, og hverke læta hana naa so mikelle Yfer-Hond, ad hun framkome i Orde nie Verke, na enn þaa siidur ale Foolskuna i Hiartanu, so hun verde ad Hatre; Hvad þvi velldur ad Manneskiann verdur Ulfur af Manne, Þræll Syndarennar af Christi Læresveine, og Diofulsins Barn af Guds Barne. Dæme uppaa þess hættar Reide hofum vier aa hinum grimma Herode i upplesnu Evangelio, vit af hveriu vier hugleida vilium i þetta sinn. 1. Hvad skadlegur og dærlegur Løstur ad Reidenn sie. 2. Hvernenn vier eigum ad stilla hana.

Hinn goode Gud virdest nædarsamlega ad framkvæma þetta Eyrinde hiaa oss, med Adstod siins H. Anda i Jesu Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

HEg Er Herodes Saa Ad Hann var Gabbadur Af Vitringunum, Vard Hann Reidur, seiger Textenn. Hver var hin fyrsta Orsøk til hanns Reide? Þad var Metorda Gyrndenn. Strax sem hann fieck ad heyra af Kiennemanna Hofdingiunum og Skriftlærdum Liidsins, hvar Christur munde fædast, skaut Diofullenn honum i Briost ad lijflæta þad nijfædda Konungs Efne Jesum, þad syner oss Samtal hanns vid Vitringana, og so Avijsan sw, er þeir feingu af Guds Alfu i Svefne, ad hversa aptur til baka i sitt Fodur-Land umm annan Veg. Meiningenn var sw, ad hann kynne ad stadfesta sinn Tignar-Stool og sinna Nidia epter sig. Hvernenn Metorda Gyrndenn sie i fyrstu til komenn, er audsært af Falle Satans, og Falle vorra fyrstu Forelldra, af hveriu oll Olucka er innrunnenn til allra Manna, og aa medal annara Reidenn. Og fyrst Moodur enn hefur giort oss Adams Nidium so stooran Skada, þaa er audvitad, ad Doottur enn er henne lijk, nema verre sie. Hver er sw Olucka i Heimenum, er Reidenn ecke af Stad koine? Hun er Verkfære allra Lasta og Odyggda. Hun er eins og ein Pwta, sem liser epter hvers Manns Villd, so þioonar Reidenn ollum Skommum, þegar aa þarf ad hallda. Hver drap Abel, þegar Cain ofundade hann? Gen. 4. Hver kveikte Elldenn i Balachs Nosum, er hann villde mootstanda Guds Foolke? Num. 24. Hvor kom Eliab til ad atyrda sinn Broodur David, er hann forsmaade hann? 1. Sam. 17. Hver rak Saul til ad ofsækia sinn Doottur-Maag, 1. Sam. 19. og ad drepa Kiennemennena i Nobe? 1. Sam. 22. Hver framkvæmde Achabs vondann Asetning? 1. Reg. 21. Hvad brwkade Haman til ad svala Drambsemenne med? Est. 3. Hvernenn fieck Joab Metordum sijnum hallded? 2. Sam. 3. og 10. Nema med Reidenne? Og var þad honum þo ecke nema Stundar-Fridur: Ollu þessu kom Reidenn af Stad, og er hun so eirn almennelegur Bodull allra Skamma og Odyggda. Eg veit ad bæde Aristoteles og Cicero skrifa, ad hun sie Brijne Hugprijdennar, og ad eingenn vinne nockurt Stoorvirke, nema reidur sie: Þad gietur valla satt vered, og eige kiemur þad samann vid sialfa þaa, er þeir selgia ad Hugprijdenn skule vera aa Skynsemenne grundvollud. Enn saa sem reidur er,


hann

hañ er vitlaus,og þvi seiger Horatius, ad hun sie nockurskonar stutt Æde,teiknande þar med,ad eingenn sie Munur þess,sem reidur og hiñs sem vitstola er,nema ad Reidenn varer skiemur , Æded leingur : Og eru þo Dæme til þess,ad sumer hafa bwed so leinge ad Heiptenne,ad þeir alldrei hafa orded heilvita aptur. Heipteñ er eitt Andskotans Reidar-Slag , Gen. 4. Hun afmyndar alla Mannsins Lime og Lide, hun kveiker Bæl i Augunum,hun hleiper Bloode i Nasernar,Boolgu i Kinnarnar,Æde og Stioornleyse i Tunguna , Deyfu fyrer Eyrun, hun lætur Mañenn gnijsta med Toñunum,slwga med Hondunum, æda med Footunum, hun skiekur og hrister allañ Lijkhamann , og aflagar , so sem þegar Hafid er uppblæsed af Stoorvidre. Og i einu Orde ad seigia : Hun giorer Manneñ ad Ofreskiu og ad Holldgietnum Diofle i Augum þeirra sem Heilvita eru,og ef hun so af skræmer Asynd Mannsins fyrer odrum Monnum,hvornenn mun hun þa ecke afmynda Sælena i Guds Auglite? Seigied mier,Hvilijkur Diofull mun þar inne bwa, sem Alit Mannsins verdur hid Ytra so afskræmt? Hvilijkur Elldur mun vera i þvi Hiarta,er hann lyster sig þannenn wt i hvorn eirn Lid og Lim ? Þad er ollum Lioost, ad eckert styrker og efler Sambwd Mannaña i Heimenum,meir enn Kiærleikurenn, þvi hann er Band Fridarens , Eph. 4. Hañ bindur samann Hiortu Mañaña,og hann samteinger og vidhelldur Christi Lijkhama,sem er hañs Kyrkia hier a Jordunne. Enn hvad seiger Salomon, Prov. 18. Hvor gietur þolad eirn reidañ Mañ? Hvar af audsied er,ad hañ sem Reidegiarn er,hañ er Ohæst til Samneytis annara Maña,og Ohæfur til ad vera Christi Limur og hañs Kyrkiu. Hvad er hañ þa? Andskotans Limur og þeirra Stall-Brooder, sem tolnast og tyggiast innbyrdis, þar til þeir uñ sijder verda uppetner, Gal. 5.

Eg hefe nockrum siñum heyrt a Tal þeirra,er seigia: Meñ verda ad reidast,og læta til sijn taka,añars verda Meñ forsmader,og ad hvor Madur giore sier dællt vid þann sem eckert Siñe hefur,þvi sie þad Hofdingsskapr og Stoormenska ad reidast akaflega, so ad þeir hrockve undañ er einum mootþægia. Ecke rætest þetta avallt,so vel fare,þvi añadhvort reidest eg vid Of-Meñe mitt,edur vid miñ Jafningia,edur vid mier minne Mañ. Reidest eg vid þañ sem er meire Mættar eñ eg,þa er eg diarflegur,og reise mier Hurdar-As uñ Oxl,þvi so seiger Syrach: Þrætta ei vid þañ,sm er rijkare þier. Sie hañ miñ Jafninge, þa vite Meñ,ad eckert er þvilijkt Fool,ad ecke eige sier Jafningia. Og þegar Meñ beria Tveim Steinum samañ,þa er vansied hvor þeirra fyrre brotnar. Sie hañ Miñemattar, þa giore eg sialfum mier Oriett, ad eg spille mier a honum, sm eg giet alltijd nad Jofnude a Reide laust,og ef mig kostar þad Omak nockurt,þa vil eg þo huxa,ef eg være Hugprwdur,ad þad sieu Smæmuner ad wthella Reide siñe yfer þañ,sem eingva Mootstodu gietur veitt,og þvi kalla eg sælla og Samvitskubetra ad folgia Rædum þeirra Salomons, Prov. 25. og Pals Postula, Rom. 12. Ad safna Gloodum Ellds yfer Hofud Ovinar sijns med Goodgiordum,so hañ skammest sijn og rodne af Blygdan,ad hañ hafe mier illa tilgiort,er ecke meir ræke hañs Moot-

giorder

giorder enn so, ad eg giefe honum ad eta, nær hañ er Hwngradur, og ad drecka nær hañ er Þyrstur, og hvor sem odruvijs kieñer, hañ framfylger so Kappsamlega Satans Evangelio medal Maña ña, so sem Guds Pijslar-Vottar Christi Lærdoome, þeir ed bleßudu nær þeir lastader voru, og þoldu þad ad þeir voru ofsookter, 1. Cor. 4. Eg vil eige fꜳ mier þad til Orda, hvørn Skada Meñ giora siꜳlfum sier med Reideñe. Sa sem giarn er til Reide, hann er jafnañ Siñisveikur. Eingeñ er so var i Um̃geingne siñe, ad hann giete giort honum til Mꜳta, og eru þeir þo færster af oß, er so regle nidur Athafner sijnar, ad ecke verde adfunded, enn hann sem Reidur er, hann er eins og Elldur i Sinu. Hvad sem ecke er epter hanns Skape, þad grijpur hañ eins og Elldureñ Tundred, og þar fyrer utañ spiller Reideñ Heilsu Lijkhamans, ecke all-lijted, þvi seiger hinn Vijse: Vandfijsneñ og Reideñ stitter Dagana, og slijta Elleñe, Syr. 30. Eg vil ei tala um̃, Hvorsu opt ad hun spiller Gotse og Formegun Maña. Hiñ Reidegiarne er eins og sꜳ er bijr i Strꜳ-Hwse, hañ kañ ad vera fullrijkur ad Morgne; Eñ ef Elldureñ grijpur þad, verdur hñ Hwsgꜳngs-Madur ad Kvollde. Skam̃a Stund verdur Hond Hogge seigeñ, seigium vier. Hvad margur hefur giort þad i Bræde siñe, ꜳ Einu Augnablike, sem hañ hefur ydrast epter alla sijna Æfe? Þad er valla Mañ-Kostur þvilijkr sem ad hafa Valld ꜳ Tungu siñe, og þad er so Naudsynlegt, ad St. Petur seigier, 1. Pist. 3. Hvor sem vill elska Lijfed, og sıꜳ gooda Daga, hañ hallde Tungu siñe frꜳ Illu. Eñ þad er honum Omogulegt sem Reideñ er, þvi hañ hefur eckert Valld ꜳ neinum sijnum Lim, auk helldur Tunguñe, er Jacob seiger bꜳgara sie ad temia, eñ alla Nꜳtturu Dijraña, Fuglanna og Fiskanna, Jacob. 3. Nu þoott ad þad sie noogu stoor Olucka, sem allareidu er upptaled, þa er þo ecke bwed þar med: Reideñ er ad soñu kollud stutt Æde, eñ ecke er þad hiꜳ ollum. Hiꜳ allmorgum snijst hun upp i Hatur, og eingeñ hatar sꜳ añann, ad hañ hafe honum ecke fyrst reidur orded. Fꜳum þeim sem reidast, þyker Reide sijn Rꜳngløt vera, og med soddañ Moote verdur hun ad Hatre i Mannsins Hiarta, og swrnar þar iñe til þeß hun skiem̃er Kiered, og er þa illa fared med Guds Mustere, 2. Cor. 6. Þegar þad er giort ad soddañ Diosla-Bæle, Hvar Andskotenn iñe rijker mz Sio Ondum sier verre, Luc. 11. Þvi Heipteñ er alldrei Einsomul, Ofund, Drambseme, Roogur, Lijge, Bakmælge, Agg, Þræta, Tvijdrægne, og margt annad Illþijde fylger heñe giarna. Pꜳll seiger i þeim Ordum er eg i Ondverdu las fyrer ydur: Lꜳted ecke Soolena undergꜳnga ydar Reide, med hvoriu hann tekur oß Vara fyrer, ad þoott oß henda kyñe ad reidast, þꜳ skulum vier þo ecke lꜳta Reidena ad Hatre verda. Enn strax þar epter seiger hañ: Giefed ei Dioflenum Rwm, Eph. 4. Og bender oß til mz þeim Ordum: Ad þar sm̃ Andskoteñ er Hwsboonde, þar mune þetta hañs Hyske med honum Samsæte eiga, og er þeim Mañe vijst Helvijte, so slioott sem Aundeñ skreppur wt af Kroppnum, sem af þeßum Þwkum er kvaleñ, nema hañ hreinse ꜳdur Sꜳlu sijna mz heitre Ydran, og er rꜳdlegt ad ætla ecke til, ad Daudañs Beiskia skule þad giora, þvi vandhitt er ꜳ, hvort þar

verdur Toom til þess, ef so kann til ad bera ad hñ kome ad Skyndingu. Eñ stoor Scaꝛ þursa mikla Grædslu. Þetta Groom er ecke so fliott wtþveiged, er so leinge hefr bw-ed uñ sig i Mannsins Hiarta. Eñ hitt er vijst, ad so sem þeir aller saa Kvittun Synda siña, er fyrergiefa wt af Hiarta sijnum Broodur hñs Misgiorder, nær þeir heñar leita af Alvoru i Nafne Jesu Christi; So verda og hinum sijnar Synder aptur halldnar, er ala Hatur til Naungans, og Gud vill þaa ecke heyra, þoott þeir wtbreide sijnar Hendur, Es. 1. og bidie morgum Ordum: Hvar fyrer? Þvi þoott ad ei sieu Hendur þeirra fullar af Bloode fyrer Otta Saker, þa er þo Hiarta þeirra. Og hygg eg saa bere ecke laangt af Mordingianum, sem Hrædslann fyrer Straffenu alleina hamlar ad slaa sinn Broodur i Hel. Verda maa ad Cain hefde laated Abel lifa, Gen. 4. Og Joab, Ashael, og Abner, 2. Sam. 2. og 20. Hefdu þeir Ottast Boduls-Oxena. Og hefe eg nu ad nockru Leite sagt hvorsu skadleg ad sie Reideñ og Heiptræknenn, enn ecke er hun sijdr Daarleg og Heimskuleg. Hvorier eru giarnaster aa Reide? Þad eru Born, þad eru vesæler Menn og Heimskier; Þar uñ talar Salomon, Prov. 12. Hinn Faavijse hleiper fram̃ Reide sinne, enn saa er vitur er hann læst ecke sia Oriettenn. Seigied mier þier Babilons Giædingar, þier Veralldarennar Phaetontes, (*) Sem vilied dansa aa allra Maña Hofdum, og soopa allt þad er ydur mislijkar i burtu med hinum snarpa Reidennar-Vende. Vilied þier laata hallda ydur lijka þessum? Þier seiged: Margt stoor og vitur Hofdinge, hefur vered hneigdur til Reide, þad er þess verr, þa hafa þeir miog so nidurdreped Tign siñi. Homerus skrifar uñ Agamemnon, er Gricker nefndu Konung Konungaña, af þvi hañ var fyrer Lide þeirra i Trojumaña Bardogum, ad þa hañ hafe vered i goodu Skape, hafe hañ vered Godunum lijkur ad Millde og Vijs-doome: Eñ þegar Reideñ took hañ, Grimmare enn hin verstu Varga Dijr. Siaaed þo hvad hid Heidna Skaalld dæmer hier uñ: Godunum eignar hañ Vitskuna og Millde-na, enn Reidena Vorgunum. Þad er og riett dæmt, þvi eingeñ kañ meir Gude ad lijk-iast, enn mz Giædskuñe. Þar fyrer sagde Drottenn: Vered Myskunsamer, lijka sm̃ ydar Fader er Myskunsamur, Luc. 6. Og eckert lætur verr aa einum Konunge, sem er nærstur Gude, enn Reideñ. Þeim er ollum framar hroosad, sem stioornad hafa mz Riette og Myskunseme, enn hinum, er rijkt hafa med Hardydge og Ofbellde, jafnvel þo þeir hafe aatt Rijki meira eñ hiner. Alexander hiñ stoore, hefde eñ þa stærre vered, hefde hañ Clitum Parmenionem og Calistenem Odrepna laated, helldur eñ þoott hañ hefde broted under sig allañ Heimeñ, þvi var þad aagiætt er hñs Skolameistare Ari-stoteles skrifade honum til (er hañ heyrde ad Reideñ og Offeñ tooku til ad aflaga Gieds-mune hanns) aa þennañ Haatt: Þeir sem reidast, þeir reidast sier meire Moñum. Eñ þar er eingenn stærre enn þu, þvi byriar þier ecke ad reidast. Siaaed hvort Reidenn

og

(*) Eins og Phaëton (so sem Skaaldeñ dikta), þaa hañ villde eiñ Dag stijra Vagne Soolarennar, og var sm̃ hærst komeñ i Lopted, fiell hraparlega til Jardar; so meiga aller Offa Meñ, er hvorke þeckia Gud nie sialfa sig, kallast Veralldareñar Phaëtontes.

og Foolskann giorer nockurn meire Mann, ef riett er aalitid? Alldeilis ecke, þvi hun giorer þann sem annars være mikell Madur, ad Kvikinde Veralldar og Athlæe skynsamra Manna. Þvi var þad viturlega talad af Cicerone fyrer Julio Keysara: Ad sa eine Dagur, er hann gaf Marcello Lands-Vist, hann giorde hann frægare enn allar hanns Sigurvinningar. Kalla Menn þad ecke hinn mesta Daaraskap ad farga sialfum sier, enn hinn reide er Byfluguñe lijkur, þegar hun stijngur, þaa stijngur hun sialfa sig i Hel, og skilur Lijfed epter i Saarenu. So giorer og optlega, saa ed lætur Reidina fyrer sig raada, drepe hann ecke sinn Ovin, so hann verde aptur drepenn, þaa drepur hann þo gott Mannord sitt, hann drepur gooda Samvitsku, Jaa, Saalena ef til vill, ef hann mellter Reidena med sier þar til hun woldnar i Hiartanu. Saa sem dreckur oforvarandes nockud banvænt, hann maa sia til hvernenn hann faae þvi ælt upp aptur, þad fyrsta hann verdur þess var, annars er Daudenn vijs; So er og i þessu, hende nockurn þaa Avirding, ad hann reidest Broodur sijnum, þaa siae hann til ad hann faae Heiptina aa Braut reked, þad fyrsta hn verdr heilvita aptr, og kiemr til sialfs sijns, annars myrder hann Saalu sijna, hann myrder eirn Mann i Hiarta sijnu, so opt sem hann minnest med Heiptrækne aa þad sem vid hann var afgiort: So opt sem hann æsker Hefndar yfer sijnum Ovin; So opt sem hann fagnar yfer þeirre Hefnd, er hann allareidu feinged hefur yfer sijnum Naunga. Þvi ef Christur seiger; Ad saa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hafe allareidu drijgt Hoor med henne i sijnu Hiarta, Matth. 5. Þaa er lijklegt, ad Heiptenn mune ecke hafa meira Frelse i Himnenum, helldur enn oleifeleg Elska, þoott hverutveggia sie Andstygd fyrer Gude. Seiged mier, hvada Daaraskapur er þaa þad, ad spilla so Vinaattu hanns med Foolskunne, sem sagt hefur: Nema þier fyrergiefed Monnunum þeirra Misgiorder, þaa vill minn Himneskur Fader ecke tilgiefa ydur ydar Synder, Matth. 6. Ad Menn naa henne ecke aptur, fyrr enn Menn hafa sættst vid Broodur sinn, og være þaa betur heima seted enn fared. Øllum þyker miked fyrer ad bidia forlaats aa Avirdingum sijnum, og enn þaa meira, ad laata undann honum sem oss hefur tilgiort. Þetta verdur þo ad vera, ef Menn skulu hallda Guds Vinaattu. Christur bidur ecke fyrer þær Syndernar, sem hann veit ad hanns Fader ecke tilgiefur. O! Gud naade oss, hversu illa er honum þaa fared, sem Guds Sonr vill ecke bidia fyrer, þvi kalla eg þad hinn mesta Daaraskap, ad fremia þad i Braadræde, fyrer hvert Menn annadhvert skulu missa Guds Ast i Himnenum, edur og Virdingu sijna hia Monnunum. Enn eg hefe allareidu sijnt, ad saa verdur annadhvert ad giora sem Helptrækur er, og være þaa betra alldrei ad reidast, edur ad minsta Koste laata Reidena ecke faa so miked Valld yfer sier, ad hun briootest wt umm Munnenn edur Hendurnar. Og hefe eg so nockud talad umm þad, hvad skadleg og daarleg ad Reidenn sie. Nu vilium vier sijdann heyra med hveriu Moote Menn faae henne best i Taume hallded.

Þad er ad tala yfer sig, ad seigiast vilia edur kunna Reidenne aldeilis fraa sier ad hrinda. Fordillð Heidenna Spekinga er þad, enn ecke Pecking Christenna Manna aa sialfum

sier

sier. Pad er eins ohægt, og einhver seigia villde, þad hann kynne alldungis ad deyda Spilling Natturun̄ar so hun hreifde sier alldrei, og er þad alldeilis omogulegt, so leinge vier berum epter oss þennan̄ Daudlega Lijkhama. Pad er og ecke Riettvijst, alldrei ad reidast: Reidast eigum vier Syndum og Glæpum, reidast eigum vier sialfum oss, nær vier fremium eitthvad af slijku. Reidast eigum vier og vandlæta fyrer Guds Saker, þvi er þad hverke mogulegt nie gagnlegt Reidena alldeilis burt ad taka, enn ad setia Skordur vid hen̄e, ad sem minnst gange hun yfer Maal Hooglætesins edur kreinke Samvitskuna, þar um̄ a christen̄ Madur ad laata sier hugad vera, og er þad hid fyrsta, ad vier ydugleg hugleidum hvad skadlegur og daarlegur Lostur ad Reidenn sie, hvar um̄ eg nockud talad hefe i hinum fyrra Partenum. Par næst er þad, ad Menn varest þeirra Selskap er oss mest kun̄a ad egna til Reide, edur sialfer eru med þessum Skap-Lost plaagader, þar um̄ talar Salomon, Prov. 22. Vert ecke Vinur reidens Man̄s, og gack ecke med hinum galda, ad þu lærer ecke han̄s Vegu, og hneixler Saalu þijna. Par ad auke ad Menn varest þær Orsaker, hvar af Reidenn plagar giarnann ad kvikna i Man̄sins Briooste. Og er þad hid fyrsta, ad vier ecke bwum yfer neinum illum Asetninge. Hvad þesse Blood-Hundur Herodes hafe i Sin̄e haft, er af Gudspialls-Historiun̄e augliooft, sem var ad Lijflaata þad saklausa, nijfædda Konungs Efne Jesum, ecke so af Reide edr illu Skape i Fyrstunne, so sem af Metorda Gyrnd, sem adur er sagt: Enn er han̄ saa ad þesse han̄s illur Asetningur hafde ei Framgaang, þaa kveikte Diofullenn Foolskuna i han̄s Hiarta, so hann liet myrda þesse saklausu Born: Ecke var þetta hid fyrsta Bragd Satans vid han̄, adur hafde han̄ laated af Dogum raada sijna eigen̄ Sonu, Alexandrum og Aristobulum, er þeir voru rægder vid han̄, so sem ad sætu þeir honum epter Rijkenu, og þo an orsaka, so sem af Sogunum raada ma. Þetta er alltijt i Heimenum, saa sem ecke kiemur fram̄ sinne illre Fyrerætlan, hann reidest eingum Hlut so miog, sem þvi, so hann gietur ecke afrek̄ad: Pad saa Menn a Pharaone, er han̄ fieck ecke hallded Israel a moote Guds Vilia, Exod. 14. Pad sijner oss Dæme Sauls Konungs, er han̄ gat ecke David fyrer komed, 1. Sam. 22. Achabs Dæme, er hann ecke fieck svælt under sig Nabots Vijngard, 1. Reg. 21. Gydinga, er þeir feingu þvi ecke raaded vid Postulana, ad laata af ad predika wt af Jesu Nafni, Act. 5. Daarlegt er þannenn ad vilia strijda vid hinn almaattuga. So blindar nu Reidenn þann, sem illt hefur i Sinne. An̄ad hvert trwde Herodes Spaadoomunum, edur han̄ trwde þeim ecke. Ef han̄ þeim ecke trwde, hvad droo han̄ þaa til þess, ad fremia þetta gudlausa Mord? Og ef han̄ þeim trwde, þaa var þad Gloopska ad vilia beriast vid Gud, enn þad saa han̄ ecke, fyrer Heiptcn̄e, og þessare Fooltsku velldur nu illur Asetningur. Vondskann er Frilla Diofulsins, og eitt frioossamt Kvikinde: Ein Illska gietur Þusund adrar af sier, og er Reiden̄ og Heiptræknēn Foostur-Mooder allra þeirra. Vakte þvi hver Christenn Madur Hiarta sitt, og laate þar einga syndsamlega Gyrnd in̄e drottna, helldur bidie Gud ad skapa hreint Hiarta i sier, Ps. 51. Þaa mun

honum

honum sijdur verda hætt vid Reideñe. Ad soñu er þad máñlegt ad reidast, þegar eirn hefur gott i Siñe og sær þvi ecke framkomed fyrer añara Illsku Saker, ( sem optlega kiedur) og er þad skylldt gudlegre Vandlætingu, enn þo skulu Meñ ecke giefa þann Taum Reidenne, ad Menn trode Guds Bodord under Footunum, þvi ei mä illt giera, so ad gott framkome, Rom. 3. Giorum helldur Skylldu vors Embættes med Þolennmæde, enn felum Gude Avoxtenn ä Hendur. Eñ hitt er vijst, ad þess verre sem Asetningurenn er, þess stærre verdur Reideñ og oriettvijsare, ef Asetningureñ ødlast ecke sinn Framgäng: Þad velldur þvi, ad ef eirn hreckvijs Madur gietur framkvæmt Gyrnd sijna, þä fagnar hañ i Hiarta sijnu, ä medañ honum þyker vænt um Skommena, hefur og marga, sem eins eru skapefarner og hann, hroosande þvilijku, og kalla þad vel giort, og þoott ecke sieu þeir, þä vantar eirn Maktar-Mañ alldrei eirn Hræsnara, sem gyller þad fyrer hañs Augum, sem honum reyndar þykia Klæker ad vera. Eñ bere af þvi, ad hann näe Fyrerætlan sinne, þad gremst honum, þvi hann veit ecke einasta ad Illmennska sijn er i Lioos komeñ, helldur þar ä ofañ verdur hañ spiadur og lijttur af hverium Mañe, so sem sä ed took til ad byggia og gat þad ecke fullendad. Þad sijner oss Dæme Mordingians Herodis, er hann sä ad hann var gabbadur af Vitringunum, þä vard hann æfareidur. Eingeñ Hlutur er sä, er so miøg upperte illt Skap, so sem Forsmäanenn, og ecke einasta þä sem vonder eru, helldur og gooda Menn, ef þeir eru añars nockud stoor-hiartadir, og þess vegna, er þad hid añad Rääd ä moote Reidenne, ad lijta ecke stoort ä sig, helldur ad eignast Saal sijna i Þoleñmæde epter Bode Lausnarans, Luc. 21. Þvi fyrer utañ þad, ad Drambsemeñ spiller Mannkostunum vor Mäta, hversu vel sem eirn er ad sier um marga Hlute, þä giora aller Menn sier ad skylldu ad kiesia hañ sem mikellätur er, og þykest ødrum betre, og gietur hañ so ecke ä mis vid þad fared, ad eige bere honum margt Reide Efne til Handa, og þvi er gott ad temia sier nockurskonar Mañvdleika, og um alla Hlute fram Kiærleikañ, um hvern Paulus skrifar, 1. Cor. 13. Kiærleikureñ er þolennmoodur og goodgiarn, Kiærleikureñ øfundar ecke, Kiærleikureñ gierer eige illmannlega, eige þijtur hañ upp, hann er eige Osit samur, hann leitar ecke epter þvi sem hañs er, hann er eige þwnglyndur, hann þeinker ecke illt, og er i þessare gullvægu Mäls-Grein allt þad innebunded, sem afstijra mä Reide og Fiandskap, enn efla Frid og Eindrægne Manna ä medal. Verolldeñ kieppest nu um Stunder vid, ad tilla sier sem hærst, og sä er lijttur af morgum er þad giører ecke, so sin hafe hañ eige Vit ä, ad hallda Virdingu siñe, nema hañ trode sier fram. O hvad betra er og chultara, ad setia sig i hiñ ytsta Sess, epter Lausnarans Räde, Luc. 14. Þä mun Virdingeñ sialfkrafa epterfylgia þeim er so giora. Eñ hañ sem tillier sier ä þä Troppu sem hann er eige vaxeñ til ad stijga uppä, hann mä vel taka sier Vara, ad ei þurfe hann ad briioota Odd af Oflæte sijnu, og ef so kann til ad bera, þä er eingeñ oñur Von ä honum siñ hefe giort miked af sialfum sier, eñ ad honum gremiest þad, og hañ kieppest vid ä allar Lunder ad fä Hefnd þar yfer, er honum þvi illa

fared hvern Veg sem þad tekst. Nær hann Hefndenne, þaa stelr hann henne fraa Gude, er seiger: Mijn er Hefnden, eg vil endurgiallda, Rom. 12. Enn bere af þvi, verdur hann lijtt-ur af sijnum Lijkum, Veralldarennar Börnum, hver ed forsmaaer þaa er Guds Syne fylgia i þvi ad forsmaa Orietten. Hversu miklu betra er þa ad hafa i fyrstunne snided sier Stack epter Vexte, so ecke þurfe þeir ad snijda hann upp aptur er þu sijdst villder, þar til hann verdur maatulegur, eda kannskie oflijtell, og sagt verde til þijn: Gief þessum Rwm, Luc. 14. Þoott eige sie hann heidarlegreen þu, sem þu maatt vijkia fyrer, þvi er raadlegt ad hafa sig i Hoofe, ef Menn vilia ei giefa sialfum sier nie ödrum Orsök til Reide og Fiandskapar. Menn skulu ei helldur vera allt of granuskygner epter Oriett-enum, edr gloggver i þvi ad leggia þad wt aa vondann Veg sem oss er tilgiort, þad kann margt ad vera giort af Faavijse, af Braadræde, af Trauste til Vinaattu vorrar, af Otta, af annara Fortolum, er saa reiknar sier ad vera til Smaanar giort, sem er allt of-vitkvæmur, hverium sijn Virding er saarare, enn þoott hann være skorenn eda brend-ur, og reidest þar fyrer optlega ofyrersyniu, enn villde kann skie alldrei reidst hafa, þegar hann finnur Sannleikann, og hefr i Bræde sinne annadhvert giort stærre Oriett edr þolad, helldr enn Tilgiorden var i Fyrstunne, enn skamast sijn ad jaata sijdann ad hann hafe fared villt, þoott hann þecke þad nær honum er Reidenn runnin. Og þoott einhver o-virde nockurn af aasettu Raade, þaa er þad vijslega sagt, er Salomon skrifar, Prov 12. Ad hann sie vitur sem lætur sem hann eige siae Oriettenn, þvi Orietturenn er eins stoor, so sem hann er af honum metenn er hann lijdr. Eingenn reidest, nema hann ætle sig vanvird-tann aa einhvern haatt. J öllu þessu er eckert betra Raad, enn ad giefa Reidenne Stunder og wthella henne ecke strax sem hun tekur eirn, þvi Bidenn kann margt ad auglijsa, og Protenn i Hiartanu kann ad siatna aa medann, og saa sem vijs er, hann giorer so, þad er heilnæmt ad pretta sialfann sig i slijku, og þegar Menn reider eru, ad ætla sier ad bijda betre Tijma til ad hefna sijns Vansa, enn aa medann kann eitthvad ad skie, eg kann ad deya, og skal mig þaa alldrei ydra þess ad eg hafe slept Hefndenne. Hann kann ad deya sem mier tilgiorde, og giet eg þaa eige helldr ydrast þess, ad eg tilgaf honum, hverium eg þo giar-nann vil samfagna i Himnarijke; Og verde hverugt af þessu, þaa kann skie hann ydrest, og fære mier aptur Virdingu mijna mz Avexte, þaa hefe eg vel beded og teked Hlut aa þur-ru Lande. Verde eige helldur þad, þaa hefe eg Toom til ad hugsa mig um, hvernenn eg fae þad bætt, er eg lided hefe, med sem minnstum Skada beggia ockar: Alleina er ad vakta sig fyrer þvi, ad Heiptenn snwest ecke upp i Hatur, ef Menn geyma Reidena, sem þeim er hætt vid, er ecke ottast Gud, og hverium ad sol er sijn eilijf Velferd fyrer Vird-ingu Heims þessa. Guds Börn giora þad ecke, sem Himnarijked erfa vilia, þau laata Soolena ecke undergaanga sijna Reide, nie giefa Dioflenum Rwm, Eph. 4. Enn hver-nenn sem öllu þessu er vared, þaa fæ eg alltijd Toom til þess, ef eg hepte Reidena, medann hun er sem braadust, ad hugsa um hvad betra sie ad lijkiast mijnum Frelsara, sem Moot-mælenn þolde, Ebr. 12. og drottna so mz honum eilijflega, helldur enn ad vada uppe med Heimenum, og fyrerfarast so med honum og öllu þvi sem i honum er, 1. Joh. 2. Þvi

Þvi vil eg brwka Rad hiñs gamla Platonis, er hañ baud þeim sem reidur være ad skoda sig i Speigle, a medañ hañ være hvad grimastur og munde hañ hrædast sialf-ann sig; Enn eg villde skoda mig i minne Mollo og Ösku, þegar nockud fra lide, ef eg giæte stillt Brædena, medann hun er sem mest, og skoda þar hvad lijted eg a under sialfum mier, eg sem er eitt Bloomstur, er solnar strax sem Ande Drottens blæs a þad, Es. 40. Ein Vatns-Boola, sem þijtur upp af Vindenum, ein Gufa, er siest um Stundarsaker, og hverfur sijdann, Jac. 4. og mun eg þa bradlega skamast mijn, og þeinkia helldur a Vesølld mijna, enn Hefndena yfir honum, sem ecke hefur kañskie meira syndgad enn eg a moote Gude, sem bada ockur skapad hefur, og i hvers Hende ad stendur beggia ockar Giæfa og Ogiæfa. Eg vil alleina gledia mig af þvi, ef hon-um þocknast ad lata mig þola Oriett sinna vegna, Matth. 5. Enn eg aumka minn O-vin, ad hann ecke þeinker hid sama og eg vil þeinkia. So hugleided nu þetta, Drottens Børn: Aller þier sem elsked ydar tijmanlega Velferd; þier sem elsked ydar Sala-hialp, og aller þier sem Gud elsked, giefed ydur Stunder til ad þeinkia um hvad skad-legur Hlutur ad Reideñ sie, hversu skamviñ ad sie sw Glede, er sa hefr af Hefndenne, er hana tekur fra Gude. Lated ydur i Hug koma, ad Saler ydar bwa i Hey-Hwse, þvi allt Holld er Hey, seiger Raust Predikarans, sem hroopar i Eydemorku, Es. 40. Hversu fliott kann þad ad verda til Ösku brendt, þegar i þvi kviknar af Heipteñe, og hvar erum vier þa? Hvad verdur af þeim, er sialfur hefur eydelagt þad Herberge, er Gud fieck Salu hañs til ad bwa i? Nema ad Guds Reide Elldur tekur vid Ösk-uñe og brennur i heñe alle til nedsta Helvijtis, Devt 32. fra eirnre Eilijfd til añarar. Vert þvi snarlega samþyckur þijnum Mootstodu Manne, a medañ þu ert enn þa a Veige med honum, ad ecke ofurselie hann þig Doomaranum, enn Doomareñ Kval-aranum, og verder þu so i Dijblissu kastadur. Sañlega seige eg þier, þu munt þadann ecke wtfara, fyrr enn þu hefur gollded hinn sijdarsta Pening, Matth. 5. Sem alldrei verda mun um alla Eilijfd. Þar fra vardveite hinn myskunsame goode Gud, alla þa sem a hanns Myskun og Giædsku treysta, fyrer Jesu Christi Forþie-nustu, AMEN.

# A Prettanda Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

NAer ed Jesus var fæddur i Bethlehem a Gydinga Lande a Døgum Herodis Konungs. Sia þu, þa komu Vit-ringar af Austuralfu til Jerusalem, og sogdu: Hvar er sa nijfædde Konungur Gydinga? Þviad vier høfum sied hañs Stiornu i Austur-Veige, og erum komner ad tilbid-ia hañ. Eñ er Herodes Konungur heyrde þad, skielfdest hañ og øll

Jerusalem med honum. Og hañ liet samañsafna øllum Kieñemaña Høfdingium og Skriftlærdum Lijdsins, og forheyrde af þeim, hvar Christur skyllde fædast. Enn þeir søgdu honum: J Bethlehem á Gydinga Lande. Þviad so er skrifad fyrer Spámanneñ: Og þu Bethlehem á Gidinga Lande, ert aungvañveigeñ hin miñsta á medal Hofdingia Juda, þviad af þier mun koma Hertoge sá ed stioorna skal yfer mitt Foolk Jsrael. Þa kallade Herodes Vitringana Heimuglega til sijn, og spurde þá Jnelega ad, á hvørium Tijma þad Stiarnann hefde byrtst þeim, og vijsade þeim til Bethlehem, og sagde: Fared þier, og spyried Vandlega ad Sveinenum, og nær þier finned hann, þa kunngiored mier þad aptur, so ad eg kome einneñ ad tilbidia hañ. Sem þeir høfdu nu hlijdt Konungenum, fooru þeir af Stad. Og siá þu, ad Stiarnañ sem þeir høfdu sied i Austurálfu, gieck frañe fyrer þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppe yfer, hvar ed Barned var. Enn er þeir sáu Stiørnuna, Glødduist þeir af miklum Føgnude, og geingu i Hwsed inn, og fundu þar Barned, med Mariu Moodur þess, fiellu fram og tilbádu þad. Og ad uppluknum sijnum Fiársioodum, Offrudu þeir þvi Giafer, Gull, Reikelse og Myrru. Og feingu Avijsan i Svefne, ad þeir kiæme ecke aptur til Herodem; Og fooru so añañ Veg aptur i sitt Land.

## Exordium.

Sneñá taka Børn til Meina, seiger Ords-Háttur vor Gamall, og er hann sannur. Madurenn fædest til Eymdanna, eins og Neistarner upp i Lopted fliwga, Job. 5. Fullur Hormunga og skárra Lijfs-Daga, Cap 14. Allar Skiepnur Guds er hañ giort hefur oss til þarfinda, þær eru ad nockru Leite sialf-færar, skomu epter þad þær wtkoma af Moodur-Lijfe, þeim hefur Gud og Náttúrañ tillagt af siálfum sier, hvad þau skulu hylia sig med og vardveita fyrer Kullda og Jll-Vidrum: Madureñ fædest Nakeñ i Heim þennann. Þau fædast þeigiande af Moodur-Lijfe: Mañeskiann med Ope og Tárum, so sem kvijde hun vid þvi, ad henne byriar ad gánga i giegnum Tárañá Dal, á medañ hun nær Lijfe ad hallda. Jordenn er Dijrañá Sæng edur Sioorenn Fiskañá, nær þau wtklakeñ eru. Mañeskiann má ecke Lijfe hallda, nema hun á alla Vegu sie nærd og fooftrud. Þesse er Upprune vor, hverium þo á stundum eckert þyker sier omáttugt, nær vier drøgunst á Legg, er þetta þo hiñ minnste Hlute Mannlegra Eymda er vier þolum á Omalga Alldre vorum. Og er þad ecke ad undra á oss, Hvorra Fodur sagt var i Ondverdu, ad i Sveita sijns

And-

Andlitis skyllde hañ sijns Brauds neyta, og næra sig af Jorduñe med Erfvide alla sijna Daga, Gen. 3. Hañ hafde til þess uñed, og vier sijdann sem af honum komner erum. Eñ þad eru Undur ad hiñ Aňar Adam, sem er Drotteñ af Himne, 1. Cor. 15. Hañ skule vid sama, og eñ þa miklu lakare Koste bwa, jafnvel þoott hañ sie epter Holldenu af Adam komenn; Þad heyrum vier þo i þessa Dags Evangelio, þar Konungur Himens og Jardar, mæ Svikum og Offsooknum hiñs Grima Herodis mæta. Valla var hañ fyrr i Heimeñ borenn, enn ad Andskotenn uppfyllte Hiarta þess Gudlausa Konungs, til ad wtslokva Lioos Heimsins, og aflijfa hañ sem ollum giefur Lijf og Anda. Og fyrer þvi ad þesse Umsætur Herodis voru Upphaf Drottenns Hormunga, er hañ þola mætte strax i Inngaungu þessa Natturlega Lijfs, þar sæ Refur med Slægdarfullre Underbyggiu, leitade so freklega epter ad vita hvar Drottenn være fæddur, allteina til ad ræda hañ af Dogum, sm̃ Raun gaf sijdañ Vitne um̃; Þa vil eg tala framvegis um̃ þeirra Kior i Heimenum, sem honum vilia epterfylgia i þessum Taranna Dal inn i hanns Dijrd, og þad i Tveñu Lage. 1. Vil eg ræda um̃ Guds Barna Mootlæte, hvad þarflegt þad sie. 2. Um̃ Guds Adstod i Mootlætenu.

Hinn Goode Gud stiorne Tungu minne og Hiortum ydar med Naad sijns Anda, sier til Lofs og Dijrdar, fyrer Jesum Christum, A M E N.

## Utleggingeñ.

Drottenn Jesus sagde vid Læresveina sijna, Luc. 18. Hvor sem ecke medtekur Himnarijke so sem Ung-Barn, hñ kañ ecke ad iñgaanga i þad. Eñ eg vil seigia, Brædur mijner: Nema þier giorest eins og Ung-Barn, þad er Maria lagde i Jotuna, þa fæed þier ecke iñgeinged i Guds Rijke. Hier med vil eg ecke þad meint hafa, ad nockur af oss Adams Bornum, kuñe so fullkomeñ, so Heilagur, so Riettlaatur ad vera, sm̃ hñ er ecke visse af Synd, 2. Cor. 5. Helldur so sem Drotteñ seiger, Luc. 6. Vered Myskunsamer, lijka sem ydar Fader er Myskunsamur, og er þo syndug Manneskia laangt fra þvi, ad jafnast vid Gud i Myskunsemeñe, so vel sm̃ ollu odru, helldur bijdur Frelsarenn oss, ad breita epter honum sem mest verdur. So eigum vier Drottne Jesu ad lijkiast i ollum vorum Lijfernis Haattum, ad so miklu Leite sm̃ oss er mogulegt i þessum Daudlega Lijkhama, og þad ecke sijdst i Krossburdennm. Hvornenn hanns Fæding, hanns Uppfoostur og allur hanns Alldr, var Fatækt og Eymdum hladeñ, er oss alkuñugt af Gudspiallamañaña Bookum. Meinum þvi ecke, Brædur mijner, ad vier munum sleppa hiæ ad drecka af Læknum mz Christo, Ps. 110. hier i Utlegdeñe, ef vier vilium nijtt Gledennar Vijn mz honum drecka i Guds Rijke, Matth. 26. Miñest þess Ords er eg sagda ydur, seiger Jesus vid Læresveinana, Joh. 15. Ecke er Þrællenn fyrer Herra sijnum. Hafe þeir mig offsookt, þa munu þeir ydur eirnenn offsækia, hann hlaut þann Kaleik af ad drecka, er hañs Fader hafde honum æskeinktañ, so ad Ritningenn uppfylltest, Joh. 18. Vier skulum og Ritninguna uppfylla, Matth. 26. med þvi ad drecka hanns Kaleik, hvor ed seiger: Ad i giegnum margar Hormungar byrie oss inn ad gan-

ga i Guds Rijke. St. Petur bijdur oss, Act. 14. ad vier skulum hugga oss þar vid i Mootgængenum, ad vorer Brædur i Heimenum hafa þvilijkt ad lijda. Enn hvad miklu helldur ættum vier ad hressa Gied vort þar vid, ad þetta er oss med siaalfum Guds Syne sameigeñlegt, hver ad er Hofundur og Fullkomnare Trwarennar, Heb. 12. Þvi seiger Paall. 2. Cor. 1. Ad so sem ad Christi Pijsler ysergnæfe til sijn, so ysergnæfe og sijn Huggun fyrer Christum. Vitringar þesser, er Gudspialled umgietur, þeir offrudu hönum nijfædda Jesu, Gull, Reykelse og Myrru. Allt vóru þetta Konunglegar Gaafur. So var hann fatækur, sem allt Sylfur og Gull aa, Jordena og allt hvad i Jordunne er, Ps. 50. Ad hañ mætte þetta þiggia af framande Moñum, eñ þvilijks einkis krefur hañ nu af oss, þar hañ er iñgeingeñ i sijna Dijrd, utañ hvad vier skylldugir erum ad hiaalpa hañs naudstoddum Limum, mz þvi siñ Gud oss læarad hefur, um hvoria hañ seiger, Matth. 25. Hvad þier giordud Einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, þad giordud þier mier. Hvors kresz hann þa af oss? Ernrar sannrar og lifande Trwar, þad er þad Gull, sem vier eigum Gude Himnaña Kongunge ad bioóda, eñ hun reyneſt hvad meſt i Hormunguñe. Þad er hægt ad trwa Gude nær allt ad Oskum geingur. Valla vitum vier hvort vier riett-trwader erum, fyrr enn i Mañ-Raununum. Þad orkar ecke aa Hreisti Kappañs fyrr eñ aa Hoolmenum. Eige vita Meñ hvorsu ad Stijrimadureñ er forsiaall nema i Olgu-Sioonum og Andvidrenu: Og eige hversu dyggur ad Hyrdereñ er, fyrr eñ hañ sier Ulfeñ koma. So reyneſt og Trweñ vor i Mootlætenu. Þad er sem Elldur, er Gull þetta skal reynaſt i, og so sem Gulled smellteſt i Elldenum, eñ tapar ecke Þijngd siñe ef þad goot er, eñ Heyed og Haalmeñ breñer hañ upp: So reynaſt Guds Born i Mootgængenum, Styrkiaſt, eflaſt, vidurkveikiaſt og leidriettaſt; eñ i sama Mootgænge kollſteipaſt Veralldareñar Born, tortijnaſt, eydeleggiaſt, orvænta og falla i Vijl og Efaseme, hiner þacka Gude, lofa hañ og prijsa, kyssande aa hañs Fodurlegañ Hyrtingar-Vond, mz allre Audmykt og Trwfaſtre Von, hvor ed alldrei lætur til Skammar verda, Rom. 5. Þesser laſta Guds H. Nafn, mogla, leita allra añara Medala eñ ad snwa sier til hañs sem þa typtar. Hier um talar St. Petur ægiætis vel, 1. Pet. 1. seigande: Þier erud glader, jafnvel þoott þier um litla Stund ef vid þarf, hrygder verded mz adskiliañlegum Freiſtingum, so ad Reynsla ydvarrar Trwar verde Gullsins Reynslu dijrmætare, hvort ed forgeingur, og verdur þo i Ellde reynt, til Lofs og Heidurs og Dijrdar i Opeñberan Jesu Christi. Med Reykelsenu verda teiknadar Bæner Heilagra i Opeñberunum hiñs heilaga Johañis, Cap. 5. og 8. Eñ Gud næde oss, hvorsu ad vier kallder erum i Bæneñe. J Medlætenu giorer Madureñ Gud af siaalfum sier, þegar allt ad Oskum geingur, og þykeſt Einskis Þurfe vera, eñ veit ecke þad hañ er fatækur og voladur, ber og nakeñ, Apoc. 3. Meñ seigia, þar er Fridur og Trygglejke, eñ vita ei nær eñ Ogiæfañ bradlega yfer þa kiemur, so sem Joodsoott Olietta Konu, 1. Teſſ. 5. Gud næde þañ siñ Bænarlaus er i vondre Verolldu þessare, betra er nakeñ ad gaanga i Orustu, og Maal-

laus

laus fram̃ fyrer Doomarann, helldur enn bænarlaus fram̃ ad gꜳnga i Heimenum. Enn þetta Reikelse tendrast ecke betur af neinum Hlut, enn af Ellde Mootlætinganña. Þvi seiger David, Ps. 34. Hiner Riettlꜳtu kølludu til Drottens, og hann bænheyrde þꜳ, og frelsade þꜳ af øllum Hørmungum þeirra. Menn fꜳ ecke Elld af Stꜳlenu, nema Menn slꜳe þvi vid Tinnuna, og so læra Menn ad þreyta vid Gud med heitre Bæn i Mootgꜳngenum, so sem Von er til, þvi hann sem heitt skal bidia, honum skal miked ꜳ þvi liggia, er hann bidur um̃. Vier erum soddann Sialfsbyrgingar, þegar Verolldeñ lætur epter oss, ad vier þykiunst oss um̃ alla Hlute full-nooger vera, so sem eckert hefdum vier ad þiggia af Fødur Lioosaña, frꜳ hverium þo kiemur øll good Giøf, og øll fullkomeñ Giøf, Jac. 1. Mootlæted hlijtur ad verka i oss Hitañ og Alvørugiefnena i Bæneñe, þvi añars erum vier kallder og dofner i þvi ad bidia Gud. Ecke hefde hin Canaaniska þreytt so vid Drotteñ med Bæneñe, nema heñar Dootter hefde vered so þwnglega plꜳgud, Matth. 15. Ecke hefde Samkundu Høfdingeñ leitad Christs, nema Dootter hanns hefde andast, Matth 9 Og Konungsmadureñ hefde vel heima seted, hefde eige Vanheilende hanns Sonar reked hann af Stad, Joh. 4. Og þoott ad oss daglega ligge so miked ꜳ Guds Adstod, ad vier erum aller uppꜳ hana komner, þꜳ sia Meñ þad samt ecke fyrr eñ i Mootgꜳngenum. So kveiker nu Gud þetta sitt Upplyftingar-Offur med Ellde Mootlætinganna hier ꜳ Jørdunne, so þad verde eirn Sætleiks Ilmur fyrer honum i Himnenum. Fyrer Myrruna hafa Lærefedur christelegrar Kyrkiu, og medal annara Gregorius hinn mikle viliad skiliast lꜳta Deydingu Holldsins, af þvi ad hun beisk er, eñ giefur þo af sier Ilm miøg sætañ. Eingeñ Foorn er Gude þeckare enn þesse, næst Trwnne ꜳ Christum, og hun verkar ecke i Mañenum, nema fyrer Trwna, enn þo allra hellst i Mootlætenu. Þegar hinn gamle Adam tekur til ad verda fullur og feitur, og giørast lauslꜳtur, so sem Moyses sagde um̃ Israel, Devt. 32. Þꜳ leggur hinn alviise Gud vid hann Krossens Beitsle, so hann tameñ verde og krossfestur med Christo. Þad er, ad hin illa Gyrnd sem i oss bijr, verde afmꜳd med Krossgaungune epter vorum Frelsara. Hañs blessada Holld vard so vanburda ꜳ Krossenum, ad hann gat dꜳed og lꜳted sijna Sꜳlu frꜳ sier. Eñ hann vard lijfgadur aptur epter Andanum, so sem Petur seiger, 1. Pet. 3. Þad er epter Guddoomenum: Þad skiede til þess, ad hann til-legde vorum Anda þañ Styrk, ad hid syndumspillta Holld, giæte dꜳed i oss, enn vier epter Andanum lifad, vard so hiñ same Hlutur, sem aflade honum mannlegs Veikleika, Orsøk til gudlegs Kraptar i oss, og hefur Jesus alldrei meira Almættis-Verk framid, enn þegar hann sem veikastur var. So verda og þeir sem af Andanum fædder eru, styrkvaster i Gude, þegar Hollded deydest og hiñ gamle Madur er sem veikastur. Þetta vottar St. Paall er hann seiger, 2. Cor. 4. Alla Tijma berum vier um̃ kring Deydingu Drotteñs Jesu i Lijkhamanum, so ad Lijf Jesu verde og augliooft i vorum Lijkhama. Seiged mier, Br. M. Kañ nockurt Hlutskipte, nockur Heidur, nockurt Rijke þvilijkt ad vera, so sem ad kallast, og ad vera Guds Barn?

Oll

Oll Veralldareñar Metord eru Prældoomur hia þvi Nafne. Madureñ bliifur ecke leinge i Heidrenum seiger David, Ps.49. Hversu hia Volld edur Virdingar sem einhver hefur, enn þetta Hlutskipte ma eingeñ af oss taka. Vier erum teiknader i hañs Hondum, Es.49. Af hvers Hende eingenn fær oss slited, Joh.10. Enn hvad seiger Postuleñ til Hebræos, Cap.12. Hvern Drottenn elskar, hañ agar hañ, og hañ typtar hann Son, er hann ad sier tekur. Ef þier Ogunena þoled, þa mun Gud tia sig ydur eins og Bornum. Þvi hver er sa Sonur, er Faderenn ecke pandlæte um̃, eñ ef þier erud fyrer utann Aga, hvers aller Hluttakendur eru, þa erud þier Hia-Born og ecke Syner. Hier afræd eg þad, ad Krosseñ Christi ma reiknast Pantr Arfleifdar vorrar, og eitt Tryggda-Merke, sem Guds Sonur hefur sett uppa siina elskulega Brwde, og so sem Feste-Peningur þess Bwstadar, sem Guds Born hafa i hañs Rijke heima teked, þvi hier hofum vier ecke stadfastann Samastad, helldur væntum eins añars, þar sem vor Borgar-Riettur er, sem er a Himnum̃, Phil.3. Þad er þad Merke, er St. Pall um̃ talar, Gal.6. Er hañ seiger: Ad Heimureñ sie sier krossfestur, og hañ Heimenum. Hiedann af (seiger hann) giore mier eingeñ Onad, þvi eg ber Teikn Jesu Christi a mijnum Lijkhama, þar fyrer er Mootlæted alldrei so þrongt, og eingeñ Hormung so mikil, ad sw Hugguñ ecke yfergnæfe, ad vier eigum vissa Arf-Von i Guds Rijke, medañ vier berum Christi Kross med Þoleñmæde. Þar um̃ talar St. Pall, Rom. 8. Sialfur Andenn ber Vitne vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, enn ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, ia, Erfingiar Guds, enn Samarfar Christi, ef vier lijdum med honum, ad vier eirneñ med honum dijrdleger verdum. Hañ seiger enn aptr: Ad ef vier vonudum a Christ alleina i þessu Lijfe, þa værum vier vesælaster allra Manna, 1.Cor.15. Eg vil og þad segia, ad vier værum allra Mañа fatæksaster, ef vier dijrkudum Gud fyrer Epterlæte þessa Heims alleina, eins og hañ hafi ecke añad Þusundsiñum meira og betra fyrerbwed þeim, er hann elska. Reidunst þvi ecke, Br. M. Þoott vier siaum hinum ogudlega vel ganga, Ps.73. Enn Guds Born Hormungar lijda. Þoott Gud hafe a stundum margt lated epter elskendum siinum, þa er þad reyndar ecke so eigeñlegt Christeñdoomenum, ad þeim lijde jafnañ vel, sm̃ eru Christi Þegnar. Ogudleger hafa eckert a Himnum; so hafa og Guds Born eckert i Heimenum, og þoott þeim falle Rijkdoomur til, þa festa þau ecke Hiartad vid hañ, Ps.62. Hier um̃ aminner St. Petur nærsta heilnæmlega, 1.Pist.4. med þessum Ordum. Elskañleiger! (seiger hañ) skielfest ecke so sem Okuñuger af Reinslu þeirre er frasti vid ydur kiemur af Elldenum, til ad freysta ydar, so sem hefde ydur nockud oveniulegt tilfalled, helldur glediest af þvi, ad þier erud Hluttakendur Hormunga Christi, so ad þegar hanns Dijrd opinberast, ad þier glediest þa fagnande. Þegar Skyenn hafa nockra Stund byrgt fyrer Soolena, þa skijn hun hvad fegurst. Þess meira sem vier lijdum hier fyrer Christi Saker, þess helldur munum vier fagna, nær vier skulum med honum dijrdleger verda, Rom.8. Sa kann alldrei huggadur ad verda, sem eige harmade. Ma

saa nockud Sigrenum hroosa, sem eige bardest? Gud kann ecke ad afþerra þau Taarenn i eilijfu Lijfe, er alldrei voru wthellt i þessu. Lijtum þvi ecke til nærverande Þrellingar, hver ad er skamvinn, helldur til epterkomande Farsælldar, sem er eilijf, vitande þad, ad Mootlætingar þessara Tijma, eru ei verdar þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun opennber verda i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Oa hin lietta Hörmung, er vær hier lijdum, aflar oss ouñrædelegs Þwnga eilijfrar Dijrdar, 2. Cor. 4. Hveria Gud oss giefe fyrer Forþienustu Sonarens, Amen.

Hvad þvi sijdara vidvijkur, er eg hiet uñ ad tala, þaa stendur hier i Gudspiallenu, ad Vitringar hafe komed wr Austurveige, og fært Barne þessu Gaafur. Þetta sijner oss Guds almattugs fodurlega Umhyggiu og Forsioon fyrer sijnum Bornum, midt i Mootgaangenum, midt i Orbyrgdeñe, og iannast aa þessu medal añars, ad Jesus hefur oss til Epterdæmis lided, 1. Pet. 2. Hinn alskygne Gud, fyrer hvers Augum ad aller Hluter opner og nakter eru, Hebr. 4. Hann visse vel hvad laa fyrer sijnum Eingietna Syne, og hversu hanns Hond hafde aasett ad plaaga hann vorra Synda vegna, Es. 53. med laangre og mædusamre Reisu, og laangre Utlegd i Egyptalande, og þad strax sem hann i þennañ Eymda Dal borenn var, samt liet Gud hañ ecke alldeilis hiaalparlausañ, helldur sende þessa okiendu Menn af fiarlægu Lande, til ad bæta hanns Naudþurft, og hanns faatækrar Moodur. Tvent hefur hinn goode Gud med þessu Almættis og Myskunar Verke wtriett. Hid fyrra, ad hann synde ad þetta Hiaalpræde tilheyrde heidnum Þioodum, Es. 49. Hverier ad voru aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Riette, Eph. 2. Þad Foolk er sat i Myrkrunum saa Lioos miked, Esa. 9. Þvi eige er lijklegt ad þesser vijsu Menn hafe duled þad fyrer Londum sijnum er þeir saau og heyrdu, hvar epter sijdann fylgde Christne-Boded medal annara Þiooda. Hann sende þessa framande Menn so sem i Umbode Heidingiaña, til ad hylla þennañ nijfædda Konung yfer sig, til þess ad hañ drottna skyllde til ytstu Veralldareñar Endemarka, Ps. 2. O hversu ættum vier þessu ad fagna! hverier eige vorum Guds Foolk, 1. Pet. 2. eñ hañ hefur þo kallad sitt Foolk. Hversu ættum vier ad prijsa hañs Riettlæte yfer hañs eigeñ, og hañs Myskunseme yfer oss, sem vorum añarleger, ad hiner nattúrlegu Kvisterner eru af-brotner, enn vier innplantader, sem vorum ville-Vijnvidur, Rom. 11. Hañ rak sinn Eingieteñ Son i Utlegd aa Egypta-Land, strax aa omaalga Alldre, eñ hañ hefr flutt Vijn-Vid af Egypta-Lande aptur, af þvi Þrældooms Hwsenu, og Groodursett hann i þvi Landenu er hann villde giefa þeim, Ps. 80. Þad maa og heimfæra uppaa oss, hverra Fedur ad voru Syndareñar og Diofulsins Anaud undirokader, er þeir geingu til maal-lausra Skwrgoda, 1. Cor. 12. Alldrei kunnum vier nooglega ad mikla og upphefia hanns guddoomlega Speke og fodurlega Forsioon, ad hann med þessu Vitringanna Dæme synt hefur, ad saa være i Heimeñ boreñ, sem er vor Fridur og giorer eitt af baadum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur afbroted, Eph. 2. þar hañ afmaad hefur Ovinskapeñ, hvert ad var Logmaal Bodordaña,

sem var iñefaled i Sétningunum fyrer sitt Holld, so hann giorde tvo ad einum nijum Manne og semde Frid, so þar er nu af Gydingum þeim ed trwdu, og Heidingium, er mdur ecke trwdu, orded eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Þetta var hid allra mesta Myskunar Verk, vid þa er voru hinum saruustu Eymdum vafder og mesta Salar Voda; Enn so ad Guds fodurleg Giædska liete oss vita, ad honum og umhugad være um Lijkhame vora, þa sier hann sijnum elskulega Syne, hvor ad i Volæde aleñ var, hann sier honum Farborda med þessu moote sem adur er sagt. Herra Gud, hann kom til sinna eigenn, og hanns eigeñ medtooku hann ecke, seiger Johannes, Cap. 1. Arla syndu þad Gydingar; Hanns Mooder fieck eckert Rwm i Giesta Herbergenu, til ad fæda i Heimenn Himens og Jardar Skapara, nema eirn Stall, Luc. 2. Enn framande Menn þeir ed eckert af Gude vissu, þeir koma um langa Vegu til ad færa honum Giafer. An Efa hefur hinn goode Gud þetta giort medal añars til þess, ad þau eige skylldu Naud lijda a Floottanum i Egypta-Land. Mattugur var hañ ad sia þeim borged med odru moote. Hann gát lated hvert Hey-Stra a Jorduñe ad Gulle verda. Þad var ecke meira Krapta-Verk, ad leida þennañ litla Hoop i giegnum Eydemorkena, an allra Medala til Egypta-Lands fra Canaan, helldr eñ morg Þusund Israels Sona wr Egypto inn i Canaans Land, og forsorga þa um heil fiorutijger Ar i Eydemorkuñe. Eñ Gud villde hier med sijna bæde Moodur hañs og Fooſtur-Fodur, sem og ollum þeim, er þetta Evangelium sijdañ heyrt hafa og a hañs Nafn trwa, ad jafnvel þoott hann Konungur være, þa være hañs Rijke ecke af þessum Heime, Joh. 18. Og so ættu aller þeir lynder ad vera, sem honum villdu til Handa ganga, ad lata sier nægia, 1. Tim 6. sinn deilldañ Verd, bæde i Medlæte og Mootlæte. Og þegar vier hofum þad vier skulum fædast og klædast med, ad vier latum oss þa nægia ef Gud vill so vera lata: Uppa sinn Eingieteñ Son hafde Gud lagt alla Byrde Synda vorra, Esa. 53. Sw Anaud took til strax i Voggu, añars hefde hann ecke i Armood fæddur vered, og Landflootta orded, eñ ef honum var so umhugad um hañ, þa er hañ reidur var Syndareñar vegna, ad hañ þetta giorde, ad hañ sende honum Engla til Þioonustu, þa hañ freistadur var, Matth. 4. Ad hañ sende honum Engil af Himne i hañs bitra Dauda-Strijde, Luc. 22. Þvi villtu þa orvænta um Guds Adstod i Mootganngenum, sem i honum og fyrer hañ ert settur vid Gud, Col. 2. Og Jesu Christi Samarfe ordeñ? Eru ecke oll vor Hofud-Haar taleñ? Mun þa eitt af þeim falla a Jordu an vors Fodurs Vilia, þar slijkt ma ecke eirn Titling henda? Matth. 10. Og hversu dijrmætare erum vier þo Titlingunum, sem med Guds Bloode erum endurkeypter, Act. 20. Eñ ef Guds Vilie verdur a oss, hveriu hofum vier þa ad kvijda? Er hañ fatækur ad hañ giete ecke hialpad? Edur hardsvijradur ad hañ vilie ecke? Þvi moglum vier þa strax sem ecke er fyrer Augunum þad sem eta skal? Hvar fyrer þijngia Meñ Hiortu sijn med Sorgum þessarar Næringar? Luc. 21. Þvi hripsa þeir Naungans Braud wt af hañs Muñe, sm Vallded hafa, strax sem þa vantar?

Þvi sviikia hiner med adskiliañlegum Undañsfotum og Rangsleitne er Yfervalldenu eiga Tolla og Tijunder ad giallda? Þvi hallda Meñ Daglaunarans Sveita inne? Þvi prettast Meñ a iñbyrdes i Kaupum og Solum? Allt hetta er af hinum vonda, og giora þad nockrer af þvi, ad þeir eru so lynder: Adrer þess vegna, ad þeir hyrda ecke uñ þoott ad þeir brwke Leifar Eckuñar, og Arf hiñs fodurlausa til Ohoofs og Ofmetnadar, enn flester þess vegna, ad þeir vantreysta Gude, enn hvad miklu betra er ad brwka Davids Raad, Ps. 55. og varpa siñe Ahyggiu uppa Drotteñ, þvi hañ mun þvi vel til Vegar koma. Hann kann ad giefa Vatn af Helluñe þegar hañ vill, Exod. 17. Hann gietur sadt sitt Foolk med Manna, Exod. 16. nær honum þocknast. Hann gietur synt Agar Brunneñ a Þurlendenu, nær hun til hanns kallar, Gen. 21. Hann gietur forsorgad Jonas i Hvalfiskfins Kvide, Jon. 2. og jafnvel laated Hrafneñ þañ grædugasta Hræfugl, færa Eliæ Fædslu, 1. Reg. 17. Eñ Vantrwen seiger ad Gud giore ecke Jardteikner eins og a Eliæ Dogum. Eg jaata þad, þess þarf og ecke vid; Gud hefur so leinge synt oss Giædsku sijna og Almætte, ad vier mættum vel trwa, þoott ecke siaaum vier Teikn og Stoormerke; Eñ þo vil eg þad seigia: Ad være þar til Eliæ Trw, Eliæ Bæn, og Eliæ Kiærleike, þaa er Eliæ Gud eirn og hiñ same, ef honum þætte Krapta-Verkaña vidþurfa. Enn mier synest eige þurfa Jard-Teikner til þess, edur ad umbreita Natturunnar Hattum, ad Gud vardveite þaa sem honum treista, og hañ i Anda og Sañleika akalla, og siaee þeim Farborda, bæde þaa illa og vel geingur, þvi þess hefur alldrei Mis-Brestur orded fraa fyrstu Heims Skopun, allt til þessa Dags. Þad Ord stendr stodugt seiger Postuleñ, 2. Tim. 2. ad þecker Gud sijna. Eda vill nockur skrifa honum fyrer, med hveriu moote hañ hiaalpa skal? Seig mier, hver mindade þig nær þu eingeñ varst? Ps. 139. Hver forsorgade þig i Moodur-Lijfe? Hver leidde þig wt þadañ? Hvor gaf þier Alldur og Vort, Maal og Vit? Giorder þu þetta sialfur? Eda hiaalpader þu nockud þar til med þiñe Ahyggiu? Seig mier: Er þaa ecke Lijfed meir eñ Fædslañ? Og Lijkhameñ meira eñ Klædnadureñ? Matth. 6. Hver lætur Grased a Jorduñe vaxa? Seiger ecke Jesus ad þad verde ad Akur-Kallenum sofanda, Marc. 4. Hver plantar Trien i Skoogenum? Hver lætur Saudena fielga a Jorduñe? Hver framleider Fiskana af Sioonum? Hver giefur Regned a Jordena i hagstædañ Tijma? Paall sagde Gud giorde þad til Vitnisburdar uñ sialfañ sig, Act. 14. Være þier eirneñ rignt i Verolldena i Dag, og þu sæer ad allt þetta skiede, munder þu ecke kalla þad Kraptaverk? So verda Guds Almættes Verk, eirn almeñur Hlutur hiaa oss, i hverium vier þo ecke hid miñsta skilia kuñum. Hañ lætur mig þo margt Mootlæte þola, seiger þu: Þvi maa eg hwngra og þyrsta? Þvi hañ vill kieña þier, ad Madureñ lifr ecke af einusamañ Braude, helldur sierhveriu Orde sem framgeingur af Guds Munne, Matth. 4. Þvi em eg siwkur og saar? Til þess, ad Lijkhamans Vanheilsa verde ad Andans Heilbrygde. Þvi misse eg þad Gud mier adur laanad hefur? So þu ecke fester Hiartad þar vid, Ps. 62. Þvi verdur mijnum

kiærustu Vinum og Adstodar Moñum i burtu svipt? So ad Gud sie þiñ beste Vinur, og þu lærer ad þeckia, ad hiaa honum einum er Hiaalpeñ, Es. 43. þa oll mañleg Hiaalp er wte. Hlusta þvi til þess er Eliphas Temanites sagde vid Job, af hanns Bookar Cap. 5. Sañlega er saa Madur sæll er Gud typtar, fyrerlijt þu ecke Straffan hiñs Almaattuga; Hañ hreller siaalfur og læknar. Hañ slær, eñ hañs Hendur græda. Af sex Hormungum mun hañ wtryckia þier, og i hinne siøundu skal eige snerta þig hid vonda. J Hwngrenu mun hñ frelsa þig fra Daudanum, og i Strijdenu af Sverdsins Hende. Vel er þad satt sem Postuleñ seiger, Hebr. 12. Ad oll Typtañ medann hun aaliggur, þyker hun Sorg og eingeñ Glede vera, eñ hun giefur þo epter aa fridsamlegann Avoxt Riettlætesins. Þar fyrer geingur þad Guds Bornum, so sem h. ñ uñ sig jaatar, 2. Cor. 4. Vier hofum þeñañ Fiesiood i Leyr-Kierum, so ad Yferburder Kraptarens sieu af Gude og ecke af oss. Jollu þiaawist vier, enn verdum þo eige ad þreyngder, vier efunst, enn orvæntum eige, vier lijdum Offsookn, enn verdum eige Yfergiefner, oss verdur nidurvarpad, enn vier fyrerforunst þo ecke, hvar fyrer, Brædur mijner? Þvi ad oss hender eige nema mañleg Freistne, 1. Cor. 10. Þad er soddañ Mootlæte sem Monnum er bærelegt, eñ hañ er trwr, og freistar einkis yfer Megn fram, so ad margur Lazarus, saa ed liggur fyrer Dyrum hiñs Rijka, fullur Kauna, Luc. 16. Hañ er betur til Frids, eñ eirn Veralldar-Sonur, hvorn Agyrndeñ daglega plaagar, hvorium Øfundeñ slijtur, hvorn Reideñ breñer, hvorn Hofmoodureñ uppblæs, so hañ hefur eige Frid nema einhvor steite, hvar ed aa moot Guds Vinur hroosar sier af Hormungunum, vitande ad Hormungeñ verkar Poleñmæde, eñ Poleñmædeñ Reynsluna, eñ Reynslañ Vonena, eñ Voneñ lætur eige til Skamar verda, Rom. 5. Þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum fyrer heilagañ Anda sem oss giefeñ er, Rom. 5. Jaatum þad þvi satt ad vera er Jacob seiger, Cap. 5. Sæll er saa Madur er Freistinguna þoler, þvi nær hañ reyndur verdur, mun hañ odlast Coronu Lijfsins, hvorre Drotteñ hefur heited þeim er hañ elska. Hennar niootande ad verda, unne oss Myskunsamur Gud, Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrer Son siñn JESUM, AMEN.

# Fyrsta Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

J Þañ Tijma. Og þaa ed hann var toolf Ara gamall, fooru þaug upp til Jerusalem, epter Sidveniu Haatijdar-Dagsins. Og er þeir Dagar voru lidner, og þau fooru Heimleidis, vard Barned Jesus epter i Jerusalem, og hanns Forelldrar vissu þad ecke. Eñ þau meintu þad, ad hañ være hiaa Selskapnum, og voru so komeñ eina Dag-Ferd, og leitudu hañs medal Frænda og

Kuñ-

Kuñingia. Og þa ed þau fundu hañ ecke, geingu þau aptur til Jerusalem, og leitudu ad honum. Eñ þad skiede so epter Priia Daga, ad þau fundu hañ i Musterenu, sitiande midt a mille Lærefedraña, heyrande þeim og adspyriande þa. Eñ aller þeir er hañ heyrdu, undrudust yfer hañs Skilninge og Andsvorum. Og er þau saau hañ, hnickte þeim vid. Eñ hañs Mooder sagde til hañs: Son minn, Þvi breitter þu so vid Ockur? Sia þu, Fader þiñ og eg leitudum Harmþrwngeñ ad þier. Og hañ sagde til þeirra: Hvad er þad þid leited ad mier? Vissud þid ecke, ad mier byriade ad vera i þeim Hlutum sem mijns Fodurs eru? Eñ þau underſtoodu ecke þetta Ord, sem hañ mælte til þeirra. Og hañ foor med þeim ofañ, og kom til Nazareth, var þeim og hlijdeñ. Eñ hañs Mooder geimde øll þesse Ord i sijnu Hiarta. Og Jesu jookst Alldur og Vitska, og Naad hia Gudi og Mønnum.

## Exordium.

Hvor sem ecke medtekur Himnarijke sem añad Ung-Barn, hañ mun ecke iñgaanga i þad, seiger Endurlausnarenn, Marc. 10. Hvad skulum vier hier til seigia, Br. M.? Jeg ætla ad Hollde og Bloode mune þetta Ofgar þykia, og er þess øll Von, þvi þau erfa sialf ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Er þar fyrer lijklegt, ad þau mune ecke kuña mikla Grein a þeim Hlutum, er til Guds Rijkis heyra. Hvorneñ kañ Madureñ ad endurfædast þa hañ er gamall? Hvort gietur hañ horfed aptur i siñar Moodur-Kvid, og fædst so ad nyju? Sagde Nicodemus: Joh. 3. Og slijkar Tølur mun Holld og Blood telia sier: Skal eg æpa aptur eins og Ung-Barn, og verda Vitfyrringur eins og Ung-Barn, og laata ollum laatum eins og Ung-Barn? Eda eru Himnaña Dyr so þraungvar, ad eg verd ad skrijda a fioorum Footum iñ i Guds Rijke eins og Ung-Barn? Þraungvar eru þær ad soñu, christeñ Madur, og þad so miog, ad hægra er Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur eñ Rijkum Mañe iñ i Himna-Rijke, Matth. 19. Og Leideñ er þaangad so þraung, ad marger vilia hana gaanga og gieta þad ecke, ad Vitne Christi, Luc. 13. Enn ecke er þad Meining vors Frelsara, ad þad sie Vegur til Himna-Rijkis ad gaanga i Bernsku edur i Ungiæde, helldur eñ hitt ad Mañenum byriade aptur ad hverfa i Kvid siñar Moodur. Paulus seiger oss best hvornenn þvi hagar, med þessum Ordum: Vered ecke Born i Skilningenum, helldur i Hreckvijseñe, 1. Cor. 14. Saa er alltijd noogu Vitur, er sier lætur stioorna af Anda Drottenns; Hiñ er saavijsare eñ Nauted og Asneñ, Esa. 1. sem mootstendur Heilogum Anda. Þier þyker þad vesalmañlegt ad æpa eins og Barn, enn ecke þootte þad David, sem ad taaradest fyrer Gude um allar Nætur, Ps. 6. Ecke Ezechias Konunge, sem tijste eins og Tranañ, og kurrade eins

og Otwkeñ, Esa. 38. Ecke Manasse, sem giorde heita Yðran fyrer sijnar Synder, 2. Par. 33. Og voru þesser eingeñ Lijtel-Menne. Ecke Petre, sem gieck wt og griet Beisklega, Matth. 26. Og ecke hiñe Bersyndugu, er þvoode Jesu Fætur i Tarum sijnum, og þerrade med Haar-Lockunum, Luc. 7. Þesser breittu epter Smaa-Bornunum, og þanneñ ætla eg ad flester hafe geinged iñ i Himna-Rijke. Gud naade vort Eymdar-Stand, hier i Heimenum; Þegar vier vorum Omaalga Born, og vissum eingeñ Deile Goods edur Jlls, þa var Himna-Rijke vort: Enn nær vier drogunst aa Legg, gioraſt sumer Helvijtis Ellde-Brandar. Gott er ad sonnu ad vaxa ad Alldre, og under eins ad Vitsku og Naad hiaa Gude og Monnum, eins og Barned JESUS. Enn hvad Jllskunne viðvijkur, þa ætla eg gott sie ad fara alldrei af Barns Alldre; Þvi kalla eg þann heppenn, sem ecke veit af fleire Odygdum ad seigia, enn hann er fæddr med, jafnvel þo allt sie hollolegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Enn þad maa þo ad miklu Leite bæta med christelegum Aga og Uppfrædingu, aan hvorrar syndumspillt Nattura, er eins næm aa þad Jlla, so sem Tundred tekur aa mote Elldenum. Um þetta vil eg nockud framar tala wt af þessu H. Evangelio, er vier vilium i tvo Hlute deila. 1. Um Skylldu Forelldranna vid Bornenn. 2. Um Barnanna Skylldu vid Forelldrana. Enn þu sem ordenn ert Hluttakande Holldsog Bloods, eins og Smaa-Bornenn, Herra Jesu Christe; Stioorna þu Hiortum vorum, so oss swsa giore ad fylgia þijnu Blessudu Dyggda Dæme, og send oss þar til Naad þijns H. Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hid Fyrsta sem Forelldarner aa Bornunum skylldugeer um, þad er lijkhamleg Forsorgun, Fot og Fæde, þad tieñer sialf Nattturañ; Himen og Jord hroopa þad daglega. Aller Hluter hafa Forsorgun af þvi sem þeir eru fædder af; Villu-Dijreñ aa Morkeñe, þau grimu Leoneñ, og hinar Olmu Byrnur afrækia ecke sitt Fooſtur. Tried hefur siñ Vokva af Rooteñe, og Ormum Jardareñar giefur hun sijna Fædu, og vier erum sialfer komner af heñe i Ondverdu, og oll sijn Born hefr hun fyrer Allmættis Krapt Drotteñs foostrad, allt til þessa Dags; Þacker sieu honum ad eilijfu, sem hana daasamlega frioofgar, med Feite Vagnleidar siñar, Ps. 65. Þetta er ad soñu skylldugt og naudsynlegt, eñ þo er þad hiñ miñste Partr, jafnvel þoott sumer þykest ollu hafa afloked, þegar so er giort. Þad er þo Halfverk, nema miña sie, þvi betra er ad kasta Afkvæme sijnu wt aa Morkena, enn ad laata þad uppalast i ollum Odyggdum, Diofleñum til Þioonustu. Hvad er þaa framar? Hvad heyrum vier af Forelldrum Jesu? Þegar Hañ Var Toolf Ara Gamall, Hofdu Þau Hañ Upp Til Jerusalem. J Exod. 34. C. stendur, ad Drotteñ hafe giefed þetta Bodord: Þrisvar aa Are hvoriu skulu aller þijner Karlmenn mæta fyrer Auglite Drotteñs Guds þijns: Þessu Bode voru þau Joseph og Maria hliidug, og toldu ecke epter sier ad reisa um laangann Veg, allt fraa Nazareth i Galilæa upp til Jerusalem. Merk hier hvad fyrst

ꜳ ad vera i christelegu Uppelde, sem er Otte Drottens. Þad sem fyrst kiemr i Kiered, þad lyktar þad leingst af, seiger hinn Romverske Ordshꜳttur. So eru og Bornenn, þad fyrst er hiꜳ þeim innplantad, þvi hallda þau leingst, enn eckert er þvilijkt, sem Otte Drottens. Hann er eins og Sæded þad Menn i Jordena leggia, þad kann eige annad, enn ad bera sier lijkann Avoxt: Þar fyrer ꜳ þad ad vera þitt fyrsta Verk, christenn Madur, ad innræta hiꜳ Barnenu Elskuna til Guds; og mun allt annad gott med minna Erfide ꜳ epter fylgia: Læknisdooma giefa Menn inn ꜳ toomann Maga, og hallda þad gott til Heilsubootar. Vier fædunst i þennann Heim sivoker af Syndenne, þvi i Syndenne em eg alenn seiger David, og i Syndenne hitnade minne Moodur med mier, Ps. 51. Enn hver mun þvilijk Lækning þar vid, sem Elskann til Guds? Læt þinn Son drecka hana inn med Moodur-Mioolkenne, og muntu afla honum andlegrar Heilbrygde, og þad ꜳdur enn allt annad innkiemur; ꜳdur enn hid unga Hiarta saurgast af Heimsins Ohreinendum, af vondre Umgeingne og illum Dæmum, ad þad sie þa fullt af Elskunne til Guds og Dygdanna, so þꜳ Satan kiemur og ber ad Dyrum med Hamre Lastanna, þꜳ verde hann snarlega brotenn ꜳ Bak aptur, af þeim sem honum er yfersterkare, Luc. 11. Lastadu Blygdunarlaust, þar mun alltijd eitthvad vidloda, seigia hin hreckvijsu Diofulsins Born, sem tamt er ad bera illt i Hofdingianna Eyru, til ad afla Fiandmonnum sijnum Ohocka. Brwka hid sama vid Barn þitt med odrum Hætte. Tala jafnann um Gud, hvad goodur hann sie, og hversu volldugur, ad hann hafe Himen og Jord skapad, hvad miked gott hann Monnunum veite, hvernenn hann þꜳ dꜳsamlega forsorge, hversu goodur hann sie þeim, sem hann ottast, hvad dijrdlega Vist hann hafe tilbwed þeim med siꜳlfum sier, er hann elska og nockud lijda i Heime þessum hanns vegna, hversu ꜳgiæt Giof ad sie Jesus Christus, og hvernenn hann hafe eirnenn Ungbarn giorst fyrer Mannanna Hiꜳlpræðis Saker. Tala þetta fyrer Barnenu christenn Madur, þad er sw hreina og skynsamlega Mioolk, sem ad Petur um talar, 1. Pet. 2. Ad vier skulum gyrnast, so ad vier voxum til Sꜳluhiꜳlpar, og trw mier til, þad mun eige ꜳvaxtarlaust verda, jafnvel þoott Bernskann sie rijk i Ungdoomsins Hiarta, Prov. 22. Þvi af Munne Smꜳ-Barnanna og Briooستmylkinganna hefur hann sier Lofed tilreidt, Ps. 8. Þetta mꜳ einfalldlegt þykia, þad er þo þad ꜳn hvers einginn hefur vitur orded. Eg skammast mijn ecke ad tala þad til Guds Barna, sem Moysi þootte eingenn Mijnkun ad tala til Israels Sona, edur hvad seiger hann? Devt. 6. Þesse Ord sem eg bijd þier i Dag, skalltu leggia uppꜳ Hiarta þitt, og brijna þau allt jafnt fyrer þijnum Bornum, og ræda um þau nær þu situr i þijnu Hwsi, og binda þau til Merkis ꜳ þijna Hond, og skrifa þau ꜳ þijna Dyrustafe, og þau skulu vera þier Minningar-Teikn fyrer þijnum Augum: Hvar um talade Moyses þetta? Um Guds Logmꜳl sem þo deyder, 2. Cor. 3. Hvad miklu framar mꜳ eg þad seigia um Ord Evangelii, sem er Lijf og Ande, Joh. 6. Og fyrer þvi, ad allt Logmꜳlid er i tveimur Bodordum innefalid, sem er ad elska Gud af ollu Hiarta, og Nꜳungann sem siꜳlfann sig, Matth. 22. Þꜳ undervijsa Barnenu strax ꜳ

unga

unga Alldre, hvernenn aller sieu ordner eirn Madur i Christo, Gal. 3. Enn hann sie Hofudeð, Eph. 1. Hvad skammarlegt þad sie, ad eirn Limurenn forsmæer annann, edur ad þeir toñlest og tyggest iñbyrdis, þar til þeir mættu um sijder verda uppetner: Ja, hvaða Merke hinn goode Jesus hefur sett uppaa sijna Læresveina, ad aller skule þeckia þaa þar af, ad þeir elske hver annann, Joh. 13. Brijn fyrer Syne þijnum christelegar Dyggder og gudrækelegt Athæfe, Hoogværdina, Kiærleikann, Myskunsemina, Þoleñmædena, Riettvijsena, Goodfijsena, Sparsemena, Hugprijdena. Afmaala þær so sem Drottenns Engla i hanns Augum, so ad hann faae Elsku til slijkra Hluta, og hafe þaa kærare enn allt añad, og þecke hversu Gud hafe þaa kiæra er slijkt ydka, og hverneñ ad aller agiæter Hluter, sem Menn hafa mestar Mætur aa i Heimenum, plage slijkre Atferd epter ad fylgia, so sem er Heidur, Metord, Astsæla, og annad stundlegt Epterlæte, er Gud veiter morgum af sijnum Vinum: Eñ kuñe odruvijse ad falla, þaa sie Dyggdeñ sijn eigenn Verdlaun i þessu Lijfe, og hafe Fyrerheit eilijfrar Sælu i Himnarijke. Laat hann sem allra seinast naa Odyggdernar ad þeckia, enn elska alldrei. Drep þeirra Nafn wt i hanns Eyrum, og gior Lestena ad Skrijmslum og Ofreskium, leid honum fyrer Sioon er þeirra Straff og illar Utfarer, er þvilijkt adhafast, og ad hann mune slijkann Kost eiga, nema hann giallde varhuga vid: Med soddann Fortolum er christelegt og skynsamlegt ad hræda ungar Mañeskiur, eñ eige med Grijlum, Draugum og Formum. Upphaf Vitskunnar er Otte Drottins, Ps. 111. Enn ecke ad hrædast Fiendur og Pwka, hveria þeir alldrei sied hafa er hvad mest þar um rausa. Umfram alla Hlute vert sialfur hinn skæraste Dyggda-Speigell fyrer þijnu Afkvæme. Laat ekkert liott sioost i Fare þijnu, hvad hinn unge kuñe epter ad henda. Bornenn trwa Forelldrunum eins og Gude, og meina þad sie allt gott sem þau giora. Laat ecke Hlijdne Undergiefnennar glæpast aa Agne Illskunnar. Fyrer eingum aa meire Blygdun ad bera, eñ fyrer einum Ungling. Þad er betra ad giora Lioott eitthvad i Hofdingians Auglite enn Barnsins. Hvar aa þinn Sonur gott ad læra, ef hann sier eige til Fodursins añad eñ þad illt er? Munt þu, sem Lutum ert hladenn, hafa gietid hann so næmañ aa Dyggdernar, ad hann lære þær sialfkrafa, er hann sier alldrei fyrer sier nema Odyggder? Kuñe þig þvi mannlegt ad henda, so sem opt skiedur, þaa tak þier Vara fyrer, ad hinn unge Madur vite sem minst þar af, þvi eg vil helldur ad Ovinur minn siae Illt til mijn, helldur eñ Sonur minn; þegar eg giæte ad hversu þwng ad Guds Hond vard yfer Jerobo-am Syne Nebat, sem ad kom Israel til ad syndga, 1. K. B. 14. Þad er og ecke noog, ad þu vardveiter sialfañ þig, vakta og Barn þitt fyrer vondum Selskap, þvi illt Samtal spiller goodum Sidum, seiger Postulenn, 1 Cor. 15. Og lijted Swrdeig sijrer allt Deiged, 1. Cor. 5. Ec sie hier i Gudspiallenu, ad Joseph og Maria leitudu ad Jesu aa medal Frænda og Kunningia, sem voru Gudhræddder Menn, enn ecke medal Illþijdis. Hvar fyrer? Þvi hann var ecke þesshattar Selskap vanur. Þau fundu hañ og i Musterenu, sitiande midt aa mille Lærifedraña, eñ ecke wte aa Strætum

medal

medal Gæfunga. Eingenn kann um̃ þad Hogum ad hyggia, hvad vondur Selskapur giorer, þad geingur tregt ad venia vonda Nætturu œ hid gooda, hitt er liett ad temia gooda œ hid vonda. Juda hefde kañskie ecke vered hluttakare i Mansale (*) Josephs, hefde ecke spillt honum Selskapur Brædra sinna, Gen.37. Dina hefde hallded Æru siñe, hefde hun ecke komed i lauslœtar Hendur, Gen.34. Paulus hefde ei ofsookt Guds Christne, nema hann hefde œdur vered drucken̄ af Swrdeige Pharisœaña, Matth.16. Þoott ad þvier sieum gietner og fœdder i Syndeñe, þœ er þo Barnanna Hiarta lijkt hreinum Pappir, þar ed aller Hluter verda ritader œ. Ef þad er gott, þad blijfur, er þad illt, þad er ecke helldur so liett wt ad skafa, so ecke œ siœe. Um̃geingne hreckvijsra Maña er heimuglegt Eitur, eitt Nætur-Þiooft, ein Mord Pijla, ein Drep-soott sem i Myrkrunum lœdest, Ps.91. Eitt Hoggormur i Barme, og Rotnan i Beinunum, Prov. 12. Hallt þvi hinum ungu Arum frœ slijkre Olistan. Barned sam-þycker þad kañskie ecke strax sem þad heyrer, enn trw mier til, ad eitt vondt Ord grefur meir um̃ sig i Hiartanu eñ Flijsen̄ i Holldenu; Ef nockur stijngur Fijngrenum œ Vax-ed medañ þad er blautt, þœ verdur þar Hola epter, og hun varer þegar þad hardnar, tekst og ecke helldur i burt nema þad sie brædt aptur. So er og Barned. Þad eitt ungur numde, þad kañ hañ gamall. Gietur og kañskie ecke gleymt þo hañ villde; og þo hañ kyñe, þœ er betra heillt eñ bœtt. Lat þvi sem minnst verda Spiollen̄, so eige þurfe ad endurbœta. Þar er Stoorlœte nockurt i flestra Maña Hiortum, Jer. 17. Þvi Mad-uren̄ er drambsamt Dijr. Þad er ad soñu skadleg Tilhneiging, kañ þo til Gagns ad koma, sie heñe vel stioornad, lat þiñ unga Son lœra ad forsmœ þad sem illt er, og vir-da þœ ad eingu sem ecke vanda sialfa sig, þad Stoorlœte er skadlaust, þvi Postulenn seiger um̃ þœ sem lœtast Brædur (þad er christner) vera, eñ eru þo Heidingiar i Hiar-tanu, ad med þvilijkum skulu Meñ ecke Matar-Nautn hafa, 1.Cor.5. Ad þessu undañ-geingnu, þœ venied og Born ydar til Ydne og Astundunar. So sem Lete og Omeñska hefur aflad morgum mikellra Lasta, so hefur Ydne og Elium margañ Osooma i burtu teked. Hofdinge þeirra Athenuborgar-Maña Solon, hañ sette fordum Daga, ad sa sem ecke hefde kient Syne sijnum neitt Handverk, hañ skyllde ecke eiga skiled af hon-um Fooftur i siñe Elle. Eg kann ecke ad seigia, ad þad være christelegt, hitt seige eg, ad þad var gagnsamt, þo eg valla vite hvad sœ er Forelldrunum skylldugur um̃, sem er uppalen̄ i Lete og Omensku, so hañ gietur ecke feinged sier Atvinñu, þœ hañ er fullþroska. Og þoott aller fœe ei til þess komest, ad setia Born sijn til Menta, þœ vited, ad œrlegt Erfide er Gude eins þœgt, þvi hiœ honum er hverke Þræll nie Frelsinge, helldur aller eitt i Jesu Christo seiger Postulen̄, Gal.3. Þad være eige gott ad aller være Herramen̄, eg œtla þœ yrdu aller Bœndur, hvad Verollden̄ eige þoler fyrer Mañaña Jllsku saker: Bonden̄ vid Orfed er eins þœgur Gude þegar hañ giorer Verk siñar Kallanar, so sem Doomaren̄ i sijnu Sæte, edur Presturen̄ fyrer Altarenu. Jesus varsecke til Booka



(*) Man er Þræll, ad selia Mansale, er ad selia i Þrældoom.

settur,Þvi sogdu hañs Oviner, hvadañ kiemur honum Frœde þesse,Matth.13. Er hañ hefur þo ecke aa Bækur lært? Þad skiede af Guds asettu Rade, so eingeñ kyñe ad seigia,Þad hañ hefde sijna Speke af Moñum. Eñ Timburmaññsins Son, Marc. 6. var hañ kalladur,og sialfur Smidur nefndur. Þvi er audvitad,ad hann mune ecke ydiulaus vered hafa i Ungdoome sijnum,helldur numed Þad sama Handverk,þo mæla sumer epter Bornum sijnum,ad læra ad leita sijns Brauds i Sveita sijns Andlites, vitande ecke Þad ad sa sem uppelst ydiulaus, hañ er nærst Þvi ad deyia ærulaus; Þvi Þegar hañ kañ eckert ad viña,hvad gietur hann añad giort eñ ad hlaupa med Þioofsnum til ad stela,og verda sijdañ dreigeñ i Gaalgañ til ad haanga? Margt mætte hier uñ framar tala, eñ eg læt hier vid bijda i Þetta siñ, og vil ihuga framveiges,hvad Borneñ eru aptur aa moot Forelldrunum skylldug. Og Hañ Foor Ofañ Med Þeim, Og Kom Til Nazareth, Var Þeim Og Hlijdeñ seiger Texteñ. Hvilijkt er Þetta Br: M. Skapareñ hlijdnast Skiepnuñe,Gud Mañenum,Herrañ Ambaatteñe. O! miñtu Herra Jesu, Hvilijk er Þioons Mind þesse? Þad er ecke uñ Skor frañ talad,ad Þu lided hefur oss til Epterdæmis, 1. Pet. 2. Merke Þad aller Þeir ed under Forelldra Vallde eru,og añara sem i Forelldra Stad setter eru,hversu ovidurkvæmelegt Þad er, ad briootast aa moote Þeim sem vier ecke einasta eigum sialft Lijfed,helldr og Foostur og Upphellde ad Þacka. Þier Born,vered hlijdug Fedrum ydar i Drottne seiger Paall Eph.6. Þvi Þad er riettvijst; Heidra Fodur þiñ og Moodur,Þad er hid fyrsta Bodord med Fyrerheite,ad Þier vel vegne, og Þu siert laanglijfur aa Jorduñe. Hvar fyrer seiger hann i Drottne? Þvi ecke einasta vegna Forelldrañа, helldr og Guds vegna aa Þeim ad hlijda. Gud er allra vor Fader,Eph.4.Og nu Þvi allra fegursta Nafne hefr hñ auglijst sijna Elsku til vor Mañаña. Hañ kuñum vier ecke ad sia og lifa,Exod.33. Þvi hefr hañ sett Forelldrana i siñ Stad,ad vier skulum dijrdka sig med Hlijdneñe vid Þaa.

Hiñ fyrsta Heidur og Lotningu, hefur Gud sialfum sier skiled af Mañenum, Þau eru iñebundeñ i hiñe fyrre Bodorda Tobluñe. Þad allra fyrsta i Þeirre sijdare,hefur hañ læted vera Þad fioorda Bodorded, so sem Hlijdneñ vid Forelldrana være sa Hlutur er umfram adra være mest verdur, Þetta er hid einasta Bodord med Fyrerheite,og er ecke Olijkinde, ad hin almaattuga Speke sem leikur vid Mañаña Born, Prov.8. Hafe Þad giort i Þeirre Meiningu, ad Ungdoomureñ sem alla Hlute viñur fyrer fogur Loford, enn ecke hefur Vit aa odrum Dyggdum eñ Hlijdneñe,sem er Root hiña,skyllde hafa eitthvad Þad ad gaangast fyrer,sem inn i Auguñ geinge,eñ Þoott ad Gud hafe hier tijmannlegre Blessan heited , Þaa vite Meñ,ad hitt er eige fraaskiled , helldur Þar sem Þetta stundlega endar , Þar tekur hid eilijfa vid. Sæll er sa sem misser nockud af Leingd Lijfdaganna , til ad naa sem fyrst inn i Rijke Himnañа,Þvi leinge ad lifa er leinge ad syndga , Þad maa og ecke leinge kallast sem einhvern Tijma skal Enda taka , bregdest Þvi Leingd Lijfdagañа hier aa Jorduñe,Þaa bregdst hun ecke aa Lande lifande Mañа. Ohlijdne er Galldra-Glæpur seiger Skrifteñ,1.Sam.15.

Hvar

Hvar fyrer? Eda hvad er Galldur ? Þad er Afguda-Dijrkan, enn sa hiñ ohlijdne giorer sialfañ sig ad Gude: Þvi seiger Paulus, Rom.13. Ad sa sem mootstande Valldstioorneñe, hañ mootstande Gude, enn hann ed Forelldrunum mootstendur, hañ giorer hid sama. Þad er næsta merkelegt sem ad sagde Jeremias Spaamadur, vid Sonu Jonadabs Sonar Rechab, Jer.35. Þegar Israel atte ad utleidast i Herleidinguna med Kviñum og Bornum; Þaa sagde Spaamaduren i Guds Stad, til Rechabs Sona; Af þvi þier hlijddud Bodorde Jonadabs Fodur ydar, og þier giored sem hañ baud ydur, vardveitande oll hañs Bodord, þar fyrer seiger Drotteñ allsheriar: Þar skal ecke uppræetast eirn Madur fyrer Jonadab Syne Rechabs, ad eige stande hann frame fyrer mier alla Tijma. Og ad Menn vite, ad Hlijdneñar Fyrerheit nae leingra enn til Israels Sona, þaa voru Rechabitar framande Menn, og ecke af Israels Sonum, og var þanneñ Fyrerheited teked fra Bornum Fyrerheitesins, enn giefed þeim er eige hofdu Fyrerheit. So sia Menn nu, ad þar er eckert Mañgreinar-Alit hia Gude, helldur a ollu Foolke og Tungumaalum, sem giorer hañs Vilia, hefur hañ Þocknan, Act.10. Og so sem Gud hefur i Naad siñe blessad Hlijdnena vid Forelldrana, so hefur hann og i siñe Grimdar-Reide Ohlijdnena straffad. Hrædeleg eru þau Ord er Drotteñ talade vid Samuel, 1.Sam.3. Um Sonu Eli, þaa þeir træssudust a moote sijnum Fodur: Eg skal giora eirn Hlut i Israel, ad hver þad heyrer, hanns Eyru skulu klijngia þar vid. Eg hefe svared Eli Hwse: So sannarlega sem eg lifе, ad Eli Hwss Misgiord skal ecke forlijkud verda med Saufum edur Foornfæringum ad eilijfu. Og hversu margur hafe hier fyrer straffadur vered, er oflaangt upp ad reikna. Fyrer þetta miste Ruben sijna Frumgietningu, Gen.49. Fyrer þad hieck Absalon i Eikeñe, 2. Sam.18. Fyrer þad vard Canaan, Sonur Cains bolvadur, Gen.9. Þad sama utriette Neronis Hond til ad amyrda sialfañ sig, og adrer hafa med odru moote hegnder vered. Og hvad vilium vier laangt leita? Giætum ad Oskopum þessa auma Lands: Þar Sonureñ skipar Fodurnum. Fadereñn þorer ecke ad tala i midt Hoof vid Soneñ. Fadereñ vinnur Bake brotnu, Sonureñ sefur a bæde sijn Eyru. Fodureñ hungrar og þyrster; Soнureñ er fullur og feitur. Fadereñ hefr einga Roo fyrr eñ hañ hefur klaked þvi upp, sm hañ gieted hefr, eñ Sonureñ vill laata Fodurnum vera veitt i ollu þvi hañ lætst giora, hvad þo eingañveigeñ er, þvi Fadereñ þiggur eckert af Synenum, þoott hañ ale hañ. Hiñ giorer eige meira eñ giallda aptur þad honum laanad var. Ecke þarf eg ad seiga, ad fyrer þetta kome Hefnd Drotteñs og Reide yfer Land vort, þvi þetta er naog Hefnd i sialfu sier, þar þesser, sem so eru uppalder, gannga heilbrigder Bæa a mille, þad eru vorer Olmusu Meñ, og vier fædum þaa i Guds Nafne: Þad eru þeir ed utsiuga Hws Eckna og fodurlausra, og þeir ed drecka añara Guds Barna Sveita, jafnvel þoott þeir eige i sijnum eigeñ ad næra sig af Jordune, Gen.3. Solon var eitt sinn adspurdur, hvar fyrer hañ hefde eingar Vidlogur haft vid Fodur-Draaped? Enn hañ svarade: Ad hañ

hañ hefde alldrei þeinkt til þess, ad þad munde nockrum i Hug koma. Eg medkieñe og þad, og þacka Gude fyrer, ad hañ hefur vardveitt Land vort fraa so skielfelegre Olucku i laanga Tijma, jafnvel þoott þess Dæme sieu annarstadar. Enn saa ed formæler Fodur og Moodur, Prov. 20. Saa ed hæder Fodareñ eñ foraktar Moodurena, Prov. 30. Hañ sem med illu einu launar alla þaa Mædu og Pijnning, siñ hañs Forelldrar hafa uppaa hañ kostad; Hann sem med ogndleau Athæfe, Skomum og Lostum kvelr þad Brioost, fyrer hveriu hañ borenn var, so þ tta hefur marga gudhrædda Forelldra til Dauda dreiged: Mun hann vera laangt fraa Fodur-Morde? Og so sem þad maa hin stærsta Glede vera ad siaa sitt Afkvæme framgaanga i Guds Otta, so hlijtur þad ad vera hin mesta Hiarta-Sorg og Hugar Angist ad siaa sijna eigeñ Saalu illa fara. Bornenn eru kveikt af Forelldrañа Veru; Enn eingeñ hefur um̃ Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur foostrar hann þad og nærer, Eph. 5. Zelevchus Hofdinge þeirra i Locris, er hañ hafde þad i Log leidt, ad saa sem tæke med añars Mañs Ekta-Konu, skyllde Augun missa, þaa hente þad hañs eigeñ Son, hvar fyrer hann liet stijnga wt hanns þad eina Auga, enn sitt annad, til ad fullnægia Logmaalenu. Þad auglijste og Psamenites Egypta-Lands Konungur, þegar Born hañs voru svijvirdt og illa wtleikeñ, þaa griet hañ ecke helldur enn Steirn, enn þegar hañ saa Vine sijna til Lijflaats leidda, þaa taaradest hann miog so, og er hañ var ad Orsokiñe spurdur, svarade hañ þvi: Ad i Mootgaange Vina siña skylldu Meñ graata, enn Barnaña Olucka være stærre og saarare eñ so, ad hun tæke nockrum Taarum: Og allt mun helldur skorta, enn ad þvilijkt finnest eñ nu i Dag, jafnvel aa medal vor. Hvad synest þier þaa christeñ Madur? Hvilijkur Ogiorn-ingur er þad, ad saalga þeirra Hiarta, med Ohlijdne og illu Athæfe, er so heitt elska, af hverra Saalu, þijn Saala so fast haanger, so siñ Jacobs af Benjamins? Gen. 44. Þad var i Logum haft hiaa Athenu Moñum, ad saa sem ecke villde Forelldrana forsorga, hañ skyllde ærulaus vera. Eg kañ ecke ad seigia þad oriettvijst, þvi þar er eingrar Æru Von hiaa honum, sem ecke vill uña þeim Lijfs Uppheílldes, sem honum hefur til Lijfsins hiaalpad. Þar fyrer, Born mijn, giæted ad ydur fyrer Guds saker, og leided ecke yfer ydur tijmañlega og eilijfa Olucku, med Ohlijdne og Forsmaan Forelldrañа. Þier kalled aller Gud ydar Fodur, sem aa Himnum er, eñ hañ vill ecke þess Fader heita, sem foraktar sijna Forelldra, þvi elske hañ ecke siñ Fodur, hvern hañ sier, hversu maa hann Gud elska, þañ er hann sier ecke? 1. Joh. 4. O Herra Jesu Christe! Þu sem Fodur-num hlijdeñ giordest allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Gief þu ad vier fyrer þijnar, og þijns og vors Himneska Fodurs saker, verdum so allre mañlegre Skickan undergiefner, 1. Pet. 2. Ad þu vilier oss þeckia fyrer þijn Born aa hinum efsta Deige, nær þu kiemur ad endurgiallda sierhverium einum epter sijnum Verkum, 2. Cor. 5. Sier i lage bidium vier goode Gud; gief Bornunum hlijded Hiarta, og vernda þau fraa vondre Verolld þessare, so þau elske þig, elske Forelldrana, elske Yferbodarana, elske Dyggder og Mannkoste, og i einu Orde ad seigia;

Ad

Ad þau vaxe og þrooest ad Alldre, Vitsku og Naad hia Gude og Moñum. Bæn heyr þad fyrer Jesu Forþienustu, AMEN.

# Aññann Sunnudag epter Prettanda.

Gudspialled, Joh. 2. Cap.

J Þañ Tijma. Þar giordest Brwdkaup i Cana Galileæ, og Mooder Jesu var þar. Eñ Jesus og hañs Læresveinar voru og bodner til Brwdkaupsins. Og er þabraut Vijn, sagde Mooder JEsu til hañs: Þeir hafa ecke Vijn; Jesus sagde til heñar: Þu Kviña, hvad hefe eg med þig? Mijn Stund er eñ ecke komeñ. Mooder hañs sagde til Þioonustu-Mannaña: Hvad helldst hañ seiger ydur, þad giored. Eñ þar voru sex Stein-Kier sett epter Veniu Ebreskra Maña Hreinsunar, og hvert eitt took tvo edur þriaa Mæler. Jesus sagde til þeirra: Fylled upp Kiereñ af Vatne, og þeir fylltu þau allt aa Barma. Og Jesus sagde til þeirra: Helled nu aa, og færed Kiæmeistaranum, og þeir færdu honum. Eñ þaa Kiæmeistareñ smackade Vatned, þad ad Vijne var orded, og hañ visse ecke hvadañ þad kom; Eñ Þioonustu-Meñerner sem Vatned jooßtu, vissu þad; Þaa kallade hañ aa Brwdgumañ, og seiger honum: Aller Meñ giefa i fyrstu hid gooda Vijned, og nær þeir taka ølvader ad gioraft, þaa þad hid liettara; Eñ þu hefur geimt hid gooda allt til þessa. Þetta er hid fyrsta Jard-Teikn sem Jesus giørde til Cana i Galilæa; Og hañ opeñberade sijna Dijrd. Og hañs Læresveinar trwdu aa hañ.

## Exordium.

Eg hefi trwlofad ydur einum Mañi Christo, ad eg fære ydur honum hreina Meyu, seigir St. Paall, 2 Cor. 11. Hvor skylldi hafa vogad ad koma so Ordum ad þeirre Einingu sem er aa milli Guds og Maña, hefdi ecki Guds Ande fyrstur lagt þad i Muñ sijña heilagra Maña? Og er þad þo ecke ad undra, þvi Ordeñ eiga epter Hiutunum ad lijkia. J Leindardoom Holldtekiuñar vors Frelsara, er Gud samteingdur mañlegre Nattúru, þad Himneska vid hid Jardneska, þad Eilijfa vid hid Daudlega, þad Synelega vid hid osynelega, hid Skapada vid þad oskapta og þad med so sterku Bande, ad ecke maa adskilia, og þar ad auke eru þeir sem Gud elska, eirn Ande med Christo. Þennann orannsakannlega Leindardoom hefur hinne Eilijfu Speke þocknast ad Jardteikna med Sambwd Daudlegra Manna, þar

Madur og Kona samannkoma i ærlegum og heilogum Ektaskap. Nu þott ad himneskra og jardneskra Hluta kuñe valla nockur Jøfnudur ad huxast, auk helldur talast edur giorast, þa er þo Einingeñ a mille Guds og Maña, miog so lijk einum christelegum Ektaskap: Beggia Høfundur er hiñ almattke Gud; Hverttveggia hefur Kiærleikureñ samteingt, so sem hrein Elska fester gudhræddra Hioona Saaler eina vid adra, so hefur Jesus af eintoomre Elsku og Kiærleika ofannstijged i vort auma Holld, og giørst Safnadarens Høfud, eins og Madureñ Kvinnuñar, Eph. 5. Og Paulus talar eñ þa nær þessu i sama Capitula, seigande: Vier erum Limer hiñs sama Lijkhama, Holld af hañs Hollde og Bein af hañs Beinum, og med sømu Ordum wtskijrde vor Fader Adam þær Teingder, sem Naatturañ baud hønum ad være a mille hañs og vorrar fyrstu Moodur, er hañ sagde: Þesse er Holld af mijnu Hollde, og Bein af mijnum Beinum, Gen. 2. Þar fyrer itrekar Paulus eirnig, hina fyrstu Hioona-Vijgslu, Eph. 5. med þessum Ordum: Af þeim tveimur skal eitt Holld verda. Vor Herra telur alleinasta eina Orsøk til þess, ad Egta-Foolk skilia meige, Matth. 5. Sem er Hoordoomureñ. So skilst eige Christur vid nockra synдugs Mañs Saalu, þa er hann hefur sier eitt sinn festa, nema hun take fram hia hønum, Heimenn, Hollded og Dioful eñ; Og þo seiger hin eilijfa Myskunsemenn, Jer. 3. Sia þeir plaga ad seigia: Ef Madur lætur Konu sijna eina, og hun geingur ad eiga annañ Mann, mun hann hverfa ad henni aptur? Mun ecki þad Land magnlega saurgast? Eñ þu hefur Hooraner drygt med morgum Elskuga. Snw þo aptur til mijn seiger Drotteñ Gud. Egtaskapurenn er af Gude innstiptadur, til ad fiolga Mannkynenu i Heimenum, þad baud Gud i ondverdu, er hann sagde; Vaxed og margfalldest, og uppfylled Jordena, Gen. 1. Þad itrekade hann epter Flooded vid Noa, Gen. 9. Og þess sama Ords Almættes Krapur er enn nu nijr og ferskur, og mun verda allt til Enda Veralldar. Jesu Brwdur er eirneñ nærsta friooßom, margra Barna Mooder, hennar Uñusta Sya, er a henne farsællega rætt, ad hin einsamla hefur fleyre Børn eñ hun sem Manneñ hefur, Esa. 54. Hann hefur med H. Guds Orde otal Barna vid henne gieted, 1. Pet. 1. Hver nu standa umhverfis hanns Bord a Himnum, Ps. 128. So sem Paalma-Vidar Kvister a Vatns-Bockum plantader, Ps. 1. Þess gietur Jacob Postule, Cap. 1. Hann hefur sialfkrafa gieted oss med Orde sijns Kraptar, ad vier sieum nockurskonar Frumburder hanns Skiepnu. Þessu hroosar Brwdgumeñ, Esa. 8. Seigande: Sia med mijn Børn sem Drotteñ hefur giefed mier. Þar yfer fagnar Brwdureñ, Esa. 49. Med þessum Ordum: Hver hefur giered þessa? Jeg var Obyria, burtflutt og ad Herfange tekeñ; Hver hefur uppaled þessa? Jeg var yfergiefiñ og einsømul. Hvar voru þesser? Christeleg Kyrkia elur Fiollda Barna, þvi hennar Uñuste er alltijd hiñ same, og hañs Ar taka eingañ Enda, Ps. 102. Hañ er sa Madur Zemach under hverium eilijflega grær, Zach. 6. Hvers Ande ad lijfgar, Gydinganna Samkunda er ein Obyria, þvi hun hefur sleiged sinn

Mañ

Mann i Hel, enn fadmar hinn af gamla og wtdauda Moysen, hvers Bookstafur ad deyder, 2. Cor. 3. Nu fyrst hinum eilijfa Gude hefur þocknast ad teikna so hæleita Hlute med Hioonabands Sam=Vistenne, þa giætum þess, Brædur mijner, med hvad mikelle Æru og Virdingu, ad oss byriar ad vanda þa heilogu Stiett. Þar um vileg nockud framveiges tala wt af þessu heilogu Evangelio.

Enn þu sem oss hefur trwlofad þier i Naad og Myskunsemi, eilijfe Sonur lifanda Guds: Upplijs þu Hiortu vor, so ad þetta vort Aform farsællega luckest, og gief þar til Naad þijns Heilaga Anda, AMEN.

## Utleggingen.

HAnn Giordest Brwdkaup J Cana Galileæ, seiger Textenn: Og JESU MOoder Var Þar. Sumer hafa tilgieted ad þesse Brwd=Hioon hafe vered Ætt=Menn Guds Moodur, og nockrer hallda ad Brwdgumenn vered hafe Johannes Postule, þvi hann eirn skrifar þetta, og þeiger þo um Nofnenn, so sem Plagsidur hanns er, nær hann umm sialfann sig eitthvad merkelegt skrifar. Um þetta er eckert viist, rijdr og a eingu. Hitt er audrcaded, ad hier hafa Gudhræddar Persoonur bwed Raadahag sinn, þvi ecke hefde Jesu Mooder att Sess vid þau ella, og er þad af þessu ad læra, ad Menn take Gudhrædda Menn til Raadaneitis med sier, þegar slijkt a ad byria, enn ecke hlaupe til slijkra Efna fyrer Raad fram, ecke helldur hlijdest a Fortolur þeirra, er annad hvert sialfer ecke vita Footum sijnum Forraad, edur fyrer eigenn Gagnsmuna Saker steipa einum oreyndum og Faakiænum i þa Grifin sem hann maa Æfenlega gista og alldrei blijdann Dag sia. J Ektaskapar Maalum er þad eins og i Strijdenu, þar mau eige villast tvisvar. Sa sem eitt sinn fiell i Valenn, hann reis alldrei upp sijdann, og hann sem byriar sinn Raada=Hag, maa bwast vid ad tebla vid slijkann Kost allann sinn Alldur, er hann teked hefur. Jeg heyre ad Jesu Mooder var hier ad Heimbode, og hanns Lærisveinar. Enn hvad seiger hann sialfur? Matth. 12. Sa sem giorer Vilia mijns Foodurs sem a Himnum er, hann er minn Brooder, Syster og Mooder, þad eru þeir ed Ottast Gud og elska. Slijkum eiga Guds Born epter ad leita. Eingenn er þvilijk Heimann=Fylgia sem Otte Guds og ærlegt Upphellde. Abraham liet Eleazar sinn Þienara sveria sier vid Gud, ad hann skyllde aunga taka Syne sijnum til Ekta af Canaans Dætrum, Gen. 24. So miked þootte honum a þvi rijda, ad Born sijn ecke skylldu draga Ok med Ogudlegum, 2. Cor. 6. Drottenn Allsheriar lagde rijkt a vid sitt Foolk, ad eige skylldu þeir teingiast þeim Gudlausu Þioodum, er hann rak wt wr Canaans Lande, Deut. 7. Þad bar til þess, ad eige skylldu þeir villa Hiarta þeirra fra Gude, og temiast a alla þa Ohæsu, fyrer hvoria hiner voru wt drifner, eda asamt þeim verda fyrer Guds straungu Hefndar=Hende, er alla reidu var wtriett til ad hvolfa hinum fulla Mæler Syndanna yfer þeirra eigenn Hofud. Syner Verralldar þessarar spyria fyrst allra epter Audæfum og Rijkdoome, so sem oll er Von til. Þvi hvar þeirra Fiesioodr er, þar er Hiarta þeirra, Matth. 6. Nu maa þo ecke slijkar Guds Gaafur lasta, þegar

þad

þad eru hanns Gaafur, og ecke Braud hinns Volada, Sveite Daglaunarans, edur Hws Eckiuñar, eñ eg sie þo aptur aa moot, ad Heimureñ mun fyrerfarast med ollu þvi sem i hønum er, 1. Joh. 2. Og hvør eru þa þess Not sem eirn hefur sett fyrer siñ Gud og ædsta Hiartans Traust? Þad er fliott til ad svara: Hañ er Gudlaus og Huggunarlaus, og auk þessa, þoott vier skylldum epter Mañlegum Plagiid tala, þa jaata eg þad satt ad vera, sem hañ sagde Fordum: Eg vil helldur Mañeñ sem Peningeñ brestr, helldur eñ Peningeñ þañ er Mañeñ vantar, þvi hvad skal Audureñ þeim Arga, edur Bogeñ þeim er eige kañ ad nijta hañ? Þad være eins og ad kaupa margar Hørpur handa þeim sem ecke kañ aa Hørpu, eda Bækur fyrer þañ sem ecke hefur lært aa Book. Audur er goodur þeim er kañ ad brwka hñ, hinum er hñ eins og røgum Mañe laangt Vopn, enn einaeñ veit þa Kunst nema sa sem Gudhræddur er, og giører sier Vine af hinum gamla Raanglætis Mamona, þa er medtaka hañ i Eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. Og i stuttu Maale ad seigia, sa er einasta Auds verdur sem Audeñ forsmaaer, ecke þad hañ fyrerlijte Guds Gaafur edur kaste þeim aa Glædur, helldur fester ecke Hiarta sitt þar vid, og lætur ecke Mamon drottna yfer sier, helldur drottnar yfer hønum. Og fyrst þessu er so vared, þa er ecke ad slægiast til Audsins sem aa ad vera Prælleñ, helldur til Guds Otta sem aa ad vera Herrañ. Adrer eru giefner fyrer Ættum og gøfugu Forelldre, þad er ad søñu aagiætt, þvi tijdar ber þad vid, ad gooder koma af goodum, og Stoormeñe hafa betre Raad til ad ala upp Børn sijn ef þeir vilia vel, helldur eñ Smælingiar. Þo er allt holldlegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Og aller eigum vier til Adams ad telia, og ecke taka Meñ alltijd Dygdernar i Arf. Jeg vil helldur ad eirn giøre Abrahams Verk, eñ ad hañ sie Abrahams Sonur, þvi lijtt gagnar þeim gøfugt Affspreinge, sem meir er til Mynkunar Ætt siñe, eñ hun kyñe ad vera hønum til Sooma, og nærst er þad hvørium sem sialfur er hañ. Þeir sem þa hafa miña Vit, þeir gaangast fyrer Lit, og so ætla eg allmarger binde þad Sattmaal, sem eingeñ maa riwfa so ad Skøpum fare, nema Daudeñ. Fagurt Gots er þad ad søñu eñ nærsta fallvallt, þvi allt Holld er Hey, og allur þess Bloome so sem Gras Akursins. Þegar Guds Ande blæs þar aa, þa visnar þad, Seiger Rødd Hroopandans i Eydemørku, Es. 40. Lijtell Kville, eitt oforvarandes Tilfelle, ein Mij-Fluga, sem er hid miñsta Kvikende, kañ ad eyda Mañsins Frijdleik og hañs Styrk, so þar er ecke epter af. Dygdenn er ein, so sem hiñ gamle Cicero sagde, sm̃ er med diwpum Rootum nidur fest, hvør alldrei veikiast kañ, og alldrei wr Stad ad hrærast, og ef hañ hafde so miked Traust aa Dygdeñe, sem þo kuñe ecke ad meta hana ødruvijse, helldur eñ aňar Heydinge: Hvad dijrt ætter þu þa Christeñ Madur Gudhrædsluna ad kaupa, sem er til allra Hluta Nytsamleg? 1. Tim. 4. Giefed mier þessa sagde Samson hiñ sterke, þvi hun þocknast mijnum Augum, Jud. 14. Þad var diwpvitur Roksemd fyrer Doomarañ i Israel. Dalila þocknadest og so hañs Augum, enn hañ vard aňars var, þegar hun olle þvi, ad hann blindadur var aa þeim sømu Augum, er komu hønum til ad gyrnast hana, Jud. 16.

Og maa af hanns Dæme læra þad, ad so verde aa svinnum sem osviñum; enn hverneñ sem honum er fared, þaa ætla eg ad margur enn nu i Dag gyrnest þad er hañ glæpest aa, og sañe so sijdañ Ordskvid Salomonis Konungs, er best visse af sijku ad seigia, ad vond Kona sie eins og Reykur i Augunum. Epter ollu þessu spyria nu heidnar Þiooder, Matth. 6. Og þeir sem eins eru lynder; Enn hvert nockur elskar Gud, edur ræker sinn Christeñdoom, edur hefur Jesum ad Heimbode, þar spyria fæer epter af oss, sem þo læatunst christner vera, og eg hefe ovijda heyrt adspurt i Lande voru, hvert eirn sem leitar Konfangs, ottast Gud, hvert hann ræke hanns Bodord, hvert hañ giefe Olmusu nema fyrer Fordilldar Skulld, hvert hann være riettsijn, aastundunarsamur i sinne Kallan edur eige, hvert hann hefde Siñe edur Hiarta til ad voga nockru Omake edur odrum Munum uppaa sijna og annara Velferd, eda hefde adrar christelegar Dyggder til ad bera. Enn hvert hañ rijkur være, kynne vel ad hræsna fyrer Moñum, kyñe ad koma so Aru sinne fyrer Bord, ad hañ giæte aa einhvern haatt slopped mijnekunarlaust fyrer Almuga, kynne vel ad hylia Ulfeñ under Saudar-Giæruñe, og i einu Orde ad seiga, stela, svijkia, liuga og ræna, under Hylmingu Gudrækneñar og Hoogvætesins, þar hefe eg heyrt nærre þvi med berum Ordum uñtalad, og so er fared Christendoomenum hiaa allmorgum. Være þaa eige betra ad taka Jesum til Raads og Heimbods med sier, sem allt Valld er giefed, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Hver ed allt stundlegt Epterlæte kañ ysergnæfañlega ad veita Astvinum sijnum, epter þvi sem hañs alvitra Raad sier þeim best haga, og ef hañ þad ecke veiter, þaa veiter hañ þad sem er ollu ædra, ollum þeim sem hann ottast, sem er sialfur hann og hañs Vinaatta, sem alldrei bregost, þoott Himen og Jord forgainge. Þad var stoor Virding ad Jesu Mooder og hañs Læresveinar voru ad Veitslu þessare, enn þad tekur yfer, ad Meñ heyra i Evangelio, ad Jesus hafe hier sialfur vered. Abraham vard gladur vid ad hann saa Dag Mañsins Sonar, Joh. 8. Og þeckte hañ þo valla. Eñ hvilijkt er þetta? Ad Jesus Christus Sonur Guds lifanda, Matth. 16. voru Hollde iklæddur, sañur Gud og sañur Madur, hañ virdest ad prijda Samkomu þessa mz siñe Naalægd.

O minn Herra Jesu! Hvad er þo Madureñ þess, ad þu minnest hañs? Eda Mannsins Sonur ad þu vitier hañs? Hinn riettlaate þess raanglaata; Hiñ odaudlege þess dauDlega, og Konungur Dijrdareñar Þioons Syndareñar? Eñ allt hefur þu þetta giort miñ Herra, til þess ad kieña Bornum þijnum, hverneñ þau eige ad byrja þad Saattmaal, sem þu hefur viliad laata vera Lijking þiñar guddoomlegrar Elsku, til vor aumra Maña. Ecke er Jesus einasta naalægur þessum Brwdhioonum, helldur eiga allar christnar Manneskiur þañ sama Kost sm̃ honum vilia til sijn biooda: Þoott Jesus sie oss ecke naalægur sijnelega, so sem hañ var aa Dogum siñar Holldsvistar, þaa eiga þo oll gudhrædd Hiortu Kost aa hañs Naalægd, þvi hañ hefur sialfur lofad, Matth. 28. Ad hañ vilie vera hiaa oss allt til Veralldareñar Enda. Ecke hefur hañ þad einasta sagt til Læresveinañá, hellDr til allra þeirra sem aa hañ trwa mundu, þvi Post-

vlanna Dagar þrutu laungu fyrer Veralldarennar Enda, helldur maa hier umm ætla þad sama sem Drottenn sagde fordum til þeirra: Þad eg seige ydur, þad seige eg øllum, Marc. 13. Biood Jesu med heirre Bæn til þijns Brwdkaups, christenn Madur, og mun hann ad vissu verda þinn Giestur. Riett-trwad Hiarta þarf eige leinge ad leita ad Jesu, þad er hanns Kyrkia, 1. Cor. 6. Og mun Drottnarenn ecke tefia ad koma til sijns Musteris, þegar hann til þess kvaddur er, Mal. 3. Eitt harmþrwnged og sundurknosad Hiarta fyrerlijtur hann alldrei, þvi þad er sw Foornenn sem hønum lijkar; Ps. 51. Þad eru þær Vister, er hønum skal fagna med, og hanns Þegnskyllda hiaa Mannanna Børnum. Sie þvi Jesus hinn fyrste og sijdarste Giestur til allra vorra Brwdkaupa: Þar sem hann er, þangad vill Faderenn og H. Andi koma, og Vistarveru hiaa þeim giora, Joh. 14. sem Guds Syne hafa til sijns Brwdkaups boded. Adrer Viner og Giester yfergiefa oss og kannast valla vid oss epter aa, sierdeilis ef nockud skyllde aa þeim ligg-ia, so ad Vinskapurenn er wte, þegar af er Kønnunne. Þeir hafa Matar-Ast aa oss, enn einga adra Flest-alker. Enn Jesus yfergiefur alldrei þaa, er hønum treysta. Snarara kann Faderenn ad giefa Synenum Høggorm fyrer Fisk, og Stein fyrer Braud, Luc. 11. helldur enn Gud kunne ad neita þeim umm goodar Gaafur, er hann med riett-trwudu Hiarta þar umm bidia. Helldur kann Moodurenn ad gleyma sijnu Barne, Avexte sijns Kvidar; Es. 49. Helldur enn Jesus kunne þeim ad gleyma, sem hann elska. Og fyrst þesse Giestur er so eagiætur, sem nu er sagt, þaa sieu øll christenn Egta-Hioon alvarlega aamint umm, ad skicka sier so i sijnum Egtaskap, ad þau fæle ecke i burtu fraa sier, so milldann, so giædskurijkann og so volldugann Herra. Paulus leggur Heilræde hier til, Eph. 5. Seigiande: Þier Menn, elsked Egta-Konur ydar, so sem Christur Søfnudenn, og gaf sig sialfann wt fyrer hann. Omøgulegt er ad sønnu daudlegum Mønnum, ad vera so fullkomnum i Elskunne hver vid annann, so sem Christur hefur vid oss vered, þo kunna Menn ad breita epter hanns Elsku, so miked sem møgulegt er. Mier þyker lijklegt, ad faa sem tijdt hugsar til þess, hversu kiæra ad Jesus hafde hanns Saalu, þegar hanns Saala vard hrygg allt i Daudann, Matth. 26. til ad wtvega syndugum Saalum eilijfa Glede, hann mune tyrrast vid ad hata sitt eiged Holld, Eph. 5. Og afrækia þad sem aa ad vera ein Saala med hønum. Enn Gud naade, hvad faaer hugsa hier til! Og hvad olijkur er sumra Manna Egtaskapar Underbwningur og Sambwd Christi Elsku til sinnar Brwdar? Losta og Laatæde taka marger til Raads med sier, þegar so vegsamlegann Raadahag skal byria, þeinkiande lijted umm þad, hvert þeir giete veitt sier og sijnum ærlega Forsorgun, eda hvert þeir bere Vit og Menningu til ad ala Børn sijn upp i Guds Otta og goodum Sidum. Allt of-marger hlaupa samann med litlu meire Ahyggiu, enn Hestar og Mwlar, og þegar Gyrndenn er slockt umm stundarsaker, þaa yfergiefur hvert annad, edur lifa i Hioonabandenu eins og Vargar: Frillulifnadur er slijkt, og ecke ærlegur Egtaskapur, og þoott þad kallest so fyrer Mønnum, þaa er Guds Doomur ødruvijse enn Mannanna Doomar. Saa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hefur

alla-

allareidu drygt Hoor med henne i sijnu Hiarta, seiger Lausnarenn, Matth. 5. Þar af ræd eg, ad sa sem eckar Konu sinne Einlæte (Edur Kona sem seigenn villde vera vid Mannenn skilenn) þau hafa allareidu yfergiefed hvert annad. Saa sem illa med henne lifer, hann hefur tapad hinum betra Hluta Egtaskaparens sem er Eining Hiartnanna, og i sundur slited þad, sem Gud hefur skipad ad eitt skyllde vera, Gen. 2. Christur gaf sitt Lijf i Daudann fyrer sijna Brwde, Eph. 5. Ad sönnu er þad valla heimtande af syndugre Natturu, ad hun so heitt elske; þo eru þess mörg Dæme annarstadar i Heimenum, ad margur vogar Lijf nu fyrer Kvinnu og Börn. Enn hvad giora Menn i þessu ydiulausa Lande? Þad sama sem Salomon seiger um Letingiann: Eg vil enn þaa sofa lijted, og enn nu dotta nockud, og enn þaa leggia mijnar Hendur samann litla Stund, þangad til Orbyrgdenn kiemur, so sem eirn Ferda-Madur, og Skorturenn eins og einn Hetia, Prov. 6. Konurnar hafa og Bodord af St. Paale i þessum sama Capitula, sem eg adur umgat. Hann seiger: Konurnar vere sijnum Mönnum undergiefnar so sem Drottne, þvi ad Madurenn er Konunnar Höfud, so sem Christur Safnadarens. Þar fyrer, so sem Söfnudurenn er undergiefenn Christo, so eiga og Konurnar ad vera sijnum Mönnum undergiefnar i öllu. Med Elsku a slijkt ad vera, Br. M. Enn eige med Ofbellde. Madurenn er ad sönnu Konunnar Höfud og Herra, Gen. 3. Enn hans Herradæme a ad vera innefaled i Elsku og ecke Ofrijke. Höfuded sier fyrer Lijkhamanum til þess ad honum vel vegne, enn ecke meide sig edur steite. Hiner adrer Limerner wtrietta þad sem Höfuded aalycktar, Enn þad a so fyrer ad sia, ad eige sie til Skada nie Hindrunar. Stioorne Menn Konum eins og Christur Söfnudenum, hann rædur alldrei nema til Farsælldar, þeim sem vilia laata sier af hans Anda stioorna. Enn sw Manneskia, sem ecke vill hans Raadum hlijda, hun kann ecke ad heita hans Brwdur. So giet eg eige helldur kallad þaa Egta-Konu, sem ecke vill fara ad goods Manns Raadum. Ecke helldur þann Egta-Mann, sem illa rædur, ef hann hefur betur Vit a. J Moysis Logum bannade Gud, ad nockur Kallmadur skyllde færa sig i Kvenna Bwning, og ad ein Kona skyllde bwa sig eins og Kallmadur: Þetta er lijklegast, ad hinn alvitre Konungur hafe sett til ad hallda gooda Skickun medal sijns Foolks, og til ad afstijra Lauslæte og hneixlissamre Umgeingne millum Karla og Kvenna. Enn þo kynnu Menn þess til ad giera, ad (a medal annara) være hier mz teiknad, ad eirn Kallmadur skyllde ecke laata þad Valld, er hann epter Guds Bode hefur yfer Konunne, og Konann eckert Valld take sier til, yfer Mannenum; þvi ein Kona sem vill raada fyrer Boonda sijnum, hun tekr uppaa sig Kallmanns Bwning, og eirn Egta-Madur er so mioog vellteft wr sijnu Boonda-Sæte, ad hann lætur Konuna fyrer sig raada, hann bijr sig Kvenna Bwninge, og maa ei framar Hwsbonde kallast, og er hvertveggia þetta ad umhverfa Guds Skickun, þvi hvertveggia hefr hann bannad; er þad þvi ein Andstygd fyrer honum. Þetta seige eg ecke þess vegna, ad eige sie þad soomasamlegt hverium Manne, ad þeckiast holl Raad goodrar Konu. Hefde Pilatus hlijdt Konu sinne, þaa hefde hann ecke giorst sekur i Bloode hins riett-

ta, Matth. 27. Aurelianus Keysare gaf þann Vitnisburd Zenobiæ Drottningu, ad med hennar Rœdum og Fylge, hefde Odenatus hennar Hwsboonde Persana sigrad. Munde þad skada David ad hann hlijdde Abigael? 1. Sam. 25. Edur Joab Rœde Kvinnuñar i Abel-Beth-Maacha? 2. Sam. 20. Þvi seiger og Salomon, Prov. 14. Ad ein skynsom Kona bygge Hwsed: So kann og opt til ad bera, ad Kvinnañ sie framar viteboreñ enn Madureñ, og er þœ eingenn Mijnkun ad fallast œ Rœd hennar, enn þar fyrer œ hun ecke ad hefia sig upp yfir Manneñ. Eirn Þienare kann ad skynia margt framar enn hanns Herra, samt er hann þo ecke Herra.

Þad kañ og opt ad henda sig, ad eirn Rœdgiafe sie vijsare enn hanns Konungur, samt er hañ þo ecke nema Rœdgiafe; So er og ein Kona alldrei nema Kona, hversu sem hun er vel ad sier uñ alla Hlute, hun kiemst alldrei hœrra eñ ad vera Hofud-Prijde Boonda sijns, eins og Salomon talar uñ goodar Konur; Vilie hun meira vera, þœ smœnar hun bæde sig og hañ, og heiter hun þœ Rotnan i hañs Beinum, Prov. 12. sem er eingeñ Æru-Titill. Gud hefur Hlútunum nærsta vijslega hagad; Mañinum hefur hañ giefed Afl og Vitsmune, Konuñe Fegurd og Blijdlæte, hverutvegge eiga so sijnar Gœfur ad brwka ad Gude þocknest. Kallmadureñ œ ad brwka Styrkleika siñ til Erfidis, enn ecke til Ofstopa, Vitsmunena til Forsioonar, og ecke Hreckvijse. Konañ Fegurd sijna til ad þocknast Mannenum, þvi þad hefur Gud skapad i Nœtturuñe, enn eige til Lauslætis, þvi þad hefur Diofulleñ innfært i Heimeñ. Blijdleika sinn til ad œvinna Mañsins Giedsmune, enn ecke til ad svijkla hañ til vondra Verka, eins og Jessabel, 1. Reg. 21. Jeg itreka enn þœ aptur hina fogru Pœls Samlijking uñ Christum og Sofnudeñ, þvi hverge er christelegum Egtaskap meire Virding gior, enn i heñe; Þvi þoott Sonur Guds lifanda hafe virdt oss þess, ad kalla oss sijna Brwde, þœ er hanns Dijrd eingu ad minne, helldur ollu meire i allra þeirra Hiarta sem hañ elska; Hanns Brwdur hefur og alla sijna Æru og Virdingu þar af, ad hun er hañs Brwdur, og elske hann eirn og virde, og þar fyrer utañ hefur hun einga. Konañ hefur og einga Æru þegar hun ovirder Manneñ. Pœll seiger, Eph. 5. Ad sœ sem elske sijna Egta-Konu, hann elske sialfann sig, og sama er uñ Konuna ad seigia, þegar hun Manneñ virder, giorer hun sialfre sier Virdingu, og sw þad ecke giorer, hun rijfur Guds Skipan, og setur Skorena upp i Beckenn: Þvilijkt Hioonaband er ecke ollu skickanlegra, helldur enn ef einhver geinge œ Hofdenu. Salomon seiger, ad ein þægeleg Kona, sie Corona Mannsins, Prov. 12. Og er þad i þvi mest innefaled, ad hun blijdenn sie, og giore honum allt til Sooma. Þeir sem nu Jesum vilia hafa med sier ad Heimbode, þeir skulu med slijku Skape gœnga ad eigast, þœ mun alltijd velfarnast og alldrei illa, þœ mun Christi Ok sœtt finnast og hañs Byrde liett, Matth. 11. Ef honum þocknast ad speña sijn Born fyrer siñ Ploog. Romveriar sem og Grickar hafa nefnt Hiooneñ med sama Nafne sem Akneyte þau er draga eitt Ok. Nauteñ verda þvi so von þegar þau samsveitast, ad eitt hiœlpar odru til, og eitt hegdar sier so i sijnu

Erfide vid añad, ad Ploogureñ kuñe sem liettast æfram ad gænga. Sæmum til christner Meñ, ad eige sieum vier lakare eñ þau Viñu-Dijreñ er Gud hefur sett oss yfer, og giefed oss til ad lietta under vort Erfide, med hvoriu vier eigum ad næra oss af Jorduñe, þar hañ hefur so miklu meira til vor lagt eñ þeirra, ad fyrer utañ hiñ fagra Lijkhama er hañ hefur oss giefed, og hina Skynseindarfullu Saal er honum stioornar, þaa hefur hañ endurkeypt oss med sijnu eigeñ Bloode, Act. 20. Høfum Raad Jesu Moodur, er hun sagde til Þienaraña: Hvad Hellst Hañ Skipar Ydur Þad Giored. eñ hvor eru þa hañs Raad? Paall seiger oss þad, Gal. 6. Eitt bere añars Byrde, og þa munud þier uppfylla Christi Logmaal: Þad hefur ad søñu Postuleñ ollum sagt, eñ ecke sijdst Hioonuuum. Þa mun hin Almaattuga Orlætis Hond er sedur allar lifande Skiepnur, bæta allañ vorn Brest, og snwa ollu Vatne Mootlætingaña i sætt Vijn Gledeñar. Og þegar Verolld þesse hætter ad dryckia oss med Vijne sijns Munadar, og þad tekur til fyrer Yferburde Þeckingareñar Drotteñs vors Jesu Christi ad smacka oss illa, þa vier fiñum einga Huggun i Heimenum, og hañ dryckiar oss med Galle og Edike eins og vorn Brwdguma, Matth. 27. Þa mun Jesus giefa hid gooda Vijned, þa mun hañ drecka oss til af Nægdargiædum sijns Hwss, Ps. 36. Þa mun hañ laata oss smacka Sætleik Epterkomande Alldar, hvor ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Hvors niootande ad verda hier i Naadeñe, og sijdañ eilijflega i Dijrdeñe, oss uñe og veite Gud Himneskur Fader, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar Jesu Christi, AMEN.

# Þridia Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

A Þañ Tijma. Og þaa ed Jesus gieck ofañ af Fiallenu, Fylgde honum margt Foolk epter. Og siaa þu, ad Lijkþraar Madur kom, tilbad hañ og sagde: Herra, ef þu villt, þaa gietur þu mig hreinsad; Og Jesus riette wt Hondena, æhrærde hañ og sagde: Eg vil, vertu hreirn; Og jafnsnart vard hañs Lijkþraa hrein. Og Jesus sagde til hañs: Siaa þu til, ad þu seiger þad eige neinum, helldur far þu og syn þig Kieñemoñunum, og offra þeirre Gaafu, er Moyses baud til Vitnisburdar yfer þeim. Eñ þa ed Jesus gieck iñ i Capernaum, kom til hañs Hundrads Hofdinge nockur, bidiande hañ og sagde: Herra! Þioon miñ liggur Limafallssiwkur heima, og kvelst þwnglega. Jesus sagde til hañs: Eg vil koma og lækna hann. Og Hundrads Hofdingenn svarade og sagde: Herra! Eg em þess ei verdugur, ad þu gaanger iñ under

mitt Þak, helldur seig þu eitt Ord, og mun minn Þioon Heilbrygdur verda. Þviad eg em Madur Yfervalldenu undergiefenn, hafande under mier Strijds-Foolk, og nær eg seige þessum: Far; þa fer hann, og ødrum; Kom þu, og hann kiemur, og Þræle mijnum; Gior þetta, og hann giører þad. Enn þa Jesus heyrde þetta, undradest hann, og sagde til þeirra er honum epter fylgdu. Sannlega seige eg ydur: Ad þvilijka Trw hefe eg ecke funded i Jsrael. Enn eg seige ydur; Þad marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Jsaac, og Jacob i Rijke Himnanna, Enn Rijkesins Syner munu verda wtrekner i hin Ytstu Myrkur, þar sem vera mun Oþ og Gnijstran Tannanna. Og Jesus sagde til Hundrads-Høfdingians: Gack þu hiedann, verde þier epter þvi sem þu trwer. Og hans Þioon vard heill aa þeirre somu Stundu.

## Exordium.

Valla er nockur sa Vitnisburdur i Heilagre Ritningu, er so kroptuglega votte, ad Gud og Madur eru samteingader i einne Persoonu Drottens vors Jesu Christi, sem þau Ord, er skrifud standa i Pistlenum til Col. 2. Cap. Þar Postulenn seiger: Ad i Christo bwe oll Fylling Guddoomsins lijkhamlega. Nærstu bermæltur hefur Paulus vered um Leindardoom Holldtekiunnar vors Frelsara i þessare Maals-Grein, þvi hvar Guddoomsins Fylling bijr, þar bijr Gud allur, og allur hanns Kraptur, hanns Almætte, hanns guddoomlega Speke, hanns Riettlæte, og hanns mikla Myskunseme, og allt annad sem mannleg Hyggia kann ad giora sier i Lund um Guds oransakanlega Veru, og þar Gud bijr lijkhamlega, þar bijr hann so sem Saalenn i Lijkhamanum; og so sem Saaler vorar eru samteinadar Lijkhamanum; So ræd eg af þessum Postulans Ordum, ad Gud hafe samteingdur vered Christi manndoomlegre Naatturu, og þvilijka Ordshaattu maa fleire lesa i Sende-Brefum hins heilaga Paals og annara Guds Manna. Nu þo ad vor Frelsare hafe allmarga Votta sinnar guddoomlegu Haatignar, og hennar Jbwdar i voru Hollde, þa hefur hann samt enn þar framar viliad stirkia þesse Sanninde um sinn guddoomlega Krapt, med Tæknum og Stoormerkium, hvor eingenn kunne ad giora nema Gud, sem alleina Daasemdar Verkenn giorer, Ps. 136. Þetta ætte ecke ad minnsta Leite ad stirkia Trw vora, Brædur mijner, i Eymda-Dal þessum, þvi hann er Gud sem vort Hold og Blood hefur uppaa sig teked, Gud er i Hollde voru freistadur aa allann Haatt lijka so sem vier, þo an Syndar, Hebr. 5. Gud kann ad sampijnast vorum Eymdum, Gud hefur vorar Sioukdooma bored, og vorum Orkunnslum aa sig hladed, Esa. 53. Gud er pijndur i voru, og þo i sijnu Hollde, fyrer vorar, enn ecke sijnar Synder. Gud hefur med sij-

nu

nu eigeñ Bloode Christiñenn endurleyst, Act. 20. Gud hefur giefed oss siñ Lijkhama til Naudtiar, og med Bloode sijnu hefur hañ dryckiad oss, Joh. 6. Gud hefur i voru Hollde lideð, og i þvi sama er hañ iñgeingeñ i sijna Dijrd, Luc. 24. Og hefur sett sig til Kraptarens Hægre Handar, Hebr. 1. J þessare Trw ætte oss ad styrkia medal annara, þad heilaga Evangelium er vier strax heyrdum lesed; J hveriu vor Blessade Endurlausnare med Tvofolldu Kraptaverke auglyste sinn Guddoomlegañ Mætt og Vellde; Eñ sökum þess, ad eg fyrer vijst veit ad þar er eingeñ af ydur, sem efast hier um, og eg hefe þeñañ Formæla talad, læangtum helldur til Uppvakningar i Þacklæte nu vid Guds Sonar ommræðelega Giædsku, helldur eñ til ad telia nockrum Trw um þaa Hlute sem aller jaata saña ad vera, og eingeñ Tvijmæle leika æ i nockurs Manns Hiarta; þa vilium vier helldur, æ þessare hælfre Stundu ihuga, hvorneñ vier eigum þessar Guds Dæsemder og Velgiorninga oss i Nit ad færa. Og skulum vier þvi alleinasta i þetta siñ oss fyrer Hendur taka hid fyrra Kraptaverked, um Lækning hiñs Lijkþraa, og þar af yfervega: 1. Hvad Skadsamlegur og Vidurstyggelegur Siwkdoomur ad sie hin Andlega Lijk-Þraa, SYNDEñ. 2. Hvornenn vier eigum af henne heiler ad verda. Enn þu goode Meistare Jesu! sem vor Krænkdæme hefur bored; Tala þu eitt Ord oss til lijknar hiaa þijnum Himneska Fodur, ad hann sende oss siñ Anda til þessa Verks, og munum vier Heilbrygder verda; Bænheyr þad O Herra! fyrer þitt Dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hier stendur i Upphafe Gudspiallsens, þegar Jesus var komeñ af Fiallenu, hafe honum mætt Lijkþraar Madur. Ollum er oss kuñugt, hvorsu skædur ad er þesse Siwkdoomur, þar hañ smijgur i giegnum Ædar og Synar, Holld og Bein, eins og nockurskonar Eitur, og er so ad seigia alneñeleg Rotnan Lijkhamans. Hvar fyrer Aaron sagde Fordum Daga, Num. 12. (Er hañ bad fyrer Systur þeirra Moysis og sijna, Mariam, þa hun hafde moglad sialf og giñt hañ til ad mogla æ moote Gude og Moyse, og vard þar fyrer mz Lijkþraa sleigeñ): Alijt mig miñ Herra sagde hñ: Eg bid, legg ecke æ ockur Giolld Syndareñar, mz hvorre vid hofum dærlega breitt og syndgad. Jeg bid, ad eige verde þesse lijk Hræe þvi, hvors hælfur Lijkhame er uppeteñ þa þad wtgeingur af Lijfe siñar Moodur. So banvæn sem nu Lijkþræeñ er, þa er þo Syndeñ hælfu verre; bæde Sæalu og Lijkhama hefur heñar Spilling iñteked, eingeñ Limur Lijkhamans, eingeñ Tilhneiging Sæalareñar er su, ad eige strijde i giegn Gude. Augun hlaupa epter siñe Fysn og Drambsomu Lijferne, 1. Joh. 2. Muñureñ bijr yfer Hoggorma Eitre, Rom. 3. Hendurnar wtrietta Meñ til ad ræna og stela, til ad slaa og deyda. Fæturnar eru skiooter til ad hlaupa hiñ breida Veg, sem til Glotunareñar liggur, Matth. 7. Eyrun daufheyrast vid Drottenns Orde, Ps. 58. Enn klæia epter nijum Lærdoomum, 2. Tim. 4. Epter Roog og Bakmælge, epter Naungans Ohroodre, og nælega ollu þvi, er Menn vilia þat Illt i bera. Nasernar hitna af Foolsku, þeg-

ar vier siꜳum þañ, er vjer þykunst eiga nockrar Heipter ad giallda, edur ef einhvor virder þetta fꜳnijta Rik og Ösku nockru miña, helldur eñ heñar Mikelæte hlijda þyker, þegar Luckuñar Svipvinde hefur hvirflad heñe uñ Stundarsaker i Lopted upp til ad blinda þeirra Augu, er oss samfara verda uñ Eymda-Dal þeñañ, edur mæta oss i honum, veit þo ei nær eñ þad fellur aptur ꜳ Jordena, hvadañ þad kom, og verdur Footum troded, þegar Vedrenu slotar, sem þo litlu ꜳdur numde vid Skyenn, og fꜳvijsum Moñum þootte, siñ ad fære ꜳ Vængum Vindaña, Ps. 104. Næst Gude yfer Himen og Haudur. Skynsemeñ er aflogud, so þegar Holldeð rædur fyrer hana, þa er hun Ovinꜳtta i giegn Gude, Rom. 8. Viliennn er hꜳlfu verre, þvi hañ kiepper i moote Andanum, Gal. 5. Og af Hiartanu framkoma illar Huxaner, Agg, Reide, Þræta, Mord, Mañdrꜳp, Hooraner, Matth. 15. og añad þvi uñ lijkt. So er þesse vesæla Tialldbwd ecke añad eñ eitt Hospital daudsiwkra Lima, sem af Andskotanum og Syndeñe eitrader eru. Þad jꜳtar Esajas Cap. 1. Þar hañ seiger: Ad allt Hofuded sie siwkt, allt Hiartad sie veikt, frꜳ Hvirfle og allt til Ilia, sieu ecke nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote. Adrar Sootter verda flestar med einhvoriu moote læknadar, eñ Lijkþrꜳenn ecke, hun skilur eige vid Lijkhamañ fyrr eñ Lijkhameñ skilar Sꜳleñe. Jweñ i Grofeñe, er Eydelegging heilbrygdra Lijkhama: Hañ mꜳ kallast Uppbygging þeirra, sem rotna lifande, þvi sielegre er ein Molldar-Hrwga, enn Lijkþrꜳ Mañeskia. Syndeñ er i eingu betre, nema midur sie; Hun skilur eige vid oss, æ so leingi vier berum epter oss þeñañ daudlega Lijkhama, þvi þoott vier sieum fyrer Guds Almættis Krapt i heilagre Vatns-Laug Endurfædder, samt grær þo alldrei ad heilu, uñ hid gamla Mein Adams Spillingar, og hid eitrada Hoggormis Bit. Andeñ er ad sonnu reidubwenn, enn Holldeð er veikt, Matth. 26. Og þau tvo berast Bana-Spioot epter, so eins Lijf er añars Daude; Þoott vier sieum greptrader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, Rom. 6, þa lifer þo Neiste Syndareñar i Molldeñe, sem optlega vekur hinn gamla Adam ꜳ Fætur aptur. Þad geingur eins uñ vorn Eymda-Hag i þessu Lijfe, eins og Josua skrifar uñ Israels Sonu, Jos. 23. Þa þeir forsoomudu ad wtreka hina Canaanisku epter Guds Bode, ad Gud hafe lꜳted þeim epter nockra af þeim Þioodum, er hañ formællte, þeim til Asteitingar, þad er þeim til Mootlætis: So er þad og fyrer oss, sem geingner erum yfer uñ Jordan epter Jesu, þad er i giegnum heilaga Vatns-Laug, til ad byggia i þvi fyrerheitna Landenu, sem er Rjike Guds Sonar. Þar verdur þo alltijd nockud epter oss til Asteitingar, hellst af þvi vier erum toomlꜳter ad stockva þeim O-Alldar Flocke, sem Gud hatar, eins og Israel i Canaan, so ad hier uñ hafa eirveñ heilager kvartad, og medal añara St. Pꜳll, Rom. 7. Þar hañ seiger: Ad hid Vonda lode vid sig, þa hañ vilie giora hid Gooda, Nu er þañ Veg Syndeñe vared, Br. M. Og þad mꜳ uñ hana seigia, sem Hañibal sagde Fordum uñ Romverja og þeirra Borg: Ad bꜳgt munde Ulfum þeim fyrer ad koma, nema Skoogureñ hoggveñ være, er þeir plogudu ad flija i; So verdur og eige helldur Syndeñ afmꜳd,

Fyrr

fyrr en̄ Þetta hen̄ar Hreise er nidurbroted, og er med soddan̄ moote Þess Kostur betre sem daudur er, helldur en̄ hiñs er sig kallar ad lifa, allt eins og hiñs Lijkþraa. Pad syneſt mier St. Paall sampyckie, Þegar han̄ seiger: Ad Dauden̄ sie siñ Abate, og ad hn̄ gyrneſt ad leysaſt hiedan̄ og vera med Christo, Hvad han̄ kallar miklu betra, Phil. 1. En̄ i Þvi maa Lijkþraen̄ kallaſt Heilbrygde hia Synden̄e, ad hun skilur vid Man̄en̄ i Daudanum en̄ Synden̄ fylger ollum Þeim epter Daudan̄, sem ecke verda med Jesu Bloode afÞvegner i Þessu Lijfe, so Þeirra Reikur mun uppstijga um̄ alla Eilijfd, Apoc. 14. Þeirra Elldur ecke slokna, og Þeirra Ormur ecke wt af deya, Es. 66. Lijkþraen̄ er afskræmelegur Sivkleike, hun eyder Mannsins Fegurd, so adra heilbrygda Menn stuggar Þar vid, og Þeir fordaſt Þeirra Nalægd, jafnvel Þeir sem af Christelegre Medaumkan hræraſt Myskunar yfer Eymdum Þeirra. Þar fyrer baud Gud, Levit. 13. Ad soddan̄ Man̄eskiur skylldu hilia Asioonur sijnar. Ecke er Synden̄ betre, ef vor Augu væru so skign, ad vier sia mættum hen̄ar O-mynd. Vier hofum Vidbiood a Þeim lijkþraau, af Þvi vier erum ecke aller eins af Gude plaagader, en̄ vor andleg Illsku Kijle og Graptrar-Mein kyssum vier in̄byrdis og laatum vel yfer Þeim, nema Þau hafe ſt so illa, ad Fraadæme sieu slijkra vanheilinda, og ber Þad til Þess, ad aller vier erum med slijku Marke brender, sumer meira, sumer miña, Þvi eingen̄ er sa ed gott giore, og ecke eirn, Ps. 14. Gud giæfe vier mættum skynia hvad illa ad vorar Skam̄er lijta wt i hanns Auglite, Þar hann fyrer Þeirra Skulid vill snwa vid oss Bakenu, og ecke Andlitenu: Hvad seiger Gud hia Esajam Cap. 1. um̄ Man̄an̄a Guds Þioonustu? Laated af ad offra Hiegoomlegum Gaafum, Reykelsen̄ eru Andstygd fyrer mier. Og Komu sijdar, ydar Tunglkomu Haatijder og hin vissu Helgehollden̄ hatar mijn Saala, Þær eru mier mædusamar, og eg em Þreyttur ad bera. Sie nu Þan̄en̄ vort Gudrækis Verk i hanns Augum sumrahvorra, hvilijkar muu Þa vera hinar verstu Syndsr og Glæper, sem ad hroopa i Himenen̄? Vier vorum ad son̄u skapter epter Dijrdlegre Guds Mynd, en̄ Illyrme Klækia og Laſta hefur upp eted vorn Andiegan̄ Frijdleik, og Holldswe Syndaren̄ar hefur spillt voru Atgiorfe. Mætte oss Þvi til Hugar koma, ad skijla Lijkþraa Asioonu vorrar, sem i Guds Auglite er Osijn orden̄, Þar Asiaana hin̄s fegurſta a medal Mannanna Sona, Ps. 45. Jesu Christi, sem er Jmynd Guds Dijrdarfullrar Persoonu, Heb. 1. Hun̄ var byrgd medan̄ han̄ var sleigenn fyrer vora Skulld, Marc. 14. Hvoria Andskoten̄ sleiged hefur med Andlegum Kaunum. O! Hvad naadugur ertu lijknsame Gud, ad Þu so vægder syndugum Mon̄um, ad Þeir im Þin̄ Kross a Herdum bera, voru adgreinder fraa Þeim, sem hid sama hofdu forÞienad, en̄ Þijna Heilogu Engla lætur Þu ecke vykia fraa oss, helldur Þioona oss og a Hondum bera, jafnvel Þegar vier sem verst wt lijtum i Þijnu dijrdarfulla Auglite. Þinn Eingieten̄ Son hefr Þu wtreked fraa Auglite Þijnu vor vegna, han̄ er Madkur og ecke Madur orden̄, Ps. 22. Han̄s Alit var andstyggelegra en̄ an̄ara Man̄a, Esa. 53. Þetta var Þin̄ trwe Þioon, sem var hlijdugur allt til Daudan̄s, ja, allt til Krossens Dauda,

Phil. 2. Enn til vor wtbreider Þu brádar Hendur allann Dageñ, Esa. 65. sem ohlijduger erum og gierer oss i honum þijn wtvaleñ Born, Englunum samlijk, Matth. 22. Ja, samlijka hanns dijrdarlegum Lijkhama, Phil. 3. Lijkþráer Meñ hafa illa lyktande Anda, er og þess oll Von, þviad allur nátturlegur Vesse Lijkhamans er spilltur. Þvilijk er Synden, og þo ollu verre, jafnvel þott ad vier finnum þar ecke til, hverier samdauna eru ordner hennar Ylldu. Paulus talar so um̃ hana i Davids Orda Stad, Rom. 3. Ad þeirra Barke sie ein vijd-openn Grof. Enn um̃ Grafer framlidenna talar so Herrann, Matth. 23. Ad þær sieu hid innra fullar med daudra Manna Bein og allskins Óþeckt. So er og þeim Manne háttad, er grafed hefur Sálu sijna i syndugum Kroppe, sialfa dauda i Syndunum, og varpad ofañ á hana fwlum Leyr Syrnda og Lasta, hun aflar vidurstyggelegrar And-Fijlu i Guds Auglite, þeim er láta hana drottna i sijnum daudlegum Lijkhama, Rom. 6. Og keifa heñe ad elldast þar iñe. Heñar Straff breñur allt til nedsta Helvijtes, Devt. 32. Eñ heñar Reme uppstijgur fyrer Guds Hásæte. Er þetta sá Fadmur, sem vier eigum Brudgumanum ad bioda, þá hann frambrunar af Fijlabeins Holleñe? Ps. 19. Er þad sá Koss, sem vier eigum ad fagna med, þeim Vorunum á hveriar Nádeñ er wthellt? Ps. 45. Er þetta sw Fegurd, sem hann á ad gángast fyrer, i hvers Auglite, ad ecke Himnaña Himnar eru hreiner, Job. 15. Og hvad á þesse Andardráttur skylldt vid harmþrungeñ og sundurknosadañ Anda, er Konungur Dijrdareñar vill ecke fyrerlijta? Ps. 51. Vier bwum oss i Skart, hver fyrer odrum, og leggium Kapp á þad, sumer fyrer Hæversku Skulld, enn sumer til Lauslætis: Enn fáer hyrda um̃ þad, hvert þeir hreiner sieu i Guds Augum. Vei, vei ydur Skriftlærdum og Pharisæis seiger Lausnareñ, Matth. 23. Þier ed hreinsed þad ytra af Kierunum, enn hid innra er fullt af Ráne og Óhæfu. Þu blindur Pharisæus, hreinsa fyrst hid iñra af Bikarnum og Diskinum, so þeirra ytre Partar hreiner verde. Þessa ættu Guds Born ad giæra, og þvo daglega Kám Syndaña af Hiarta sijnu med heitre Ydran og Jesu Bloode, þá være þess meire Von, ad vier yrdum ecke so andram̃er fyrer Gude. Og þo margt meige nu fleyra hier um̃ tala, þá vilium vier láta þetta so sagt vera um̃ Skadseme Syndareñar, enn hugleida framveiges, hverneñ vier eigum oss Ráda ad leita, so hun ecke kvelie oss i eilijfre Hel-Sóott: Hvar frá Gud vardveite oll sijn Born i Jesu Nafne, Amen.

Nu fyrst ad þesse andlega Lijkþrá Syndeñ, er so skadlegur, so hrædelegur, so vidurstijggelegur, og so bañværn Siwkdoomur, sem nu hefe eg sagt, og þier munud aller med mier saña, og þad sem yferrekur, ad hun er so lángviñ, ad hun mun alldreige yfergiefa oss, fyrr eñ vier hana yfergiefum, þá er einsætt ad leita þess Medals sem alleina vid henne á, ádur enn vier erum so yferkomner, ad ecke er Von til Apturbata. Hvad vilium vier þá hier til giora? Hvad giorde þesse lijkþráe Madur? Þegar vor blessade Endurlausnare, kom ofañ af Fiallenu, mætte hann honum og bad: Herra, Ef Þu Villt, Þá Gietur Þu Mig Hreinsad. Hañs Bæn var rietskickud, af þvi

hañ

hañ bad Ahñ Lijkhamans Heilbrygde, þaa beidde hann med Fororde. Vier þurfum ecke þañeñ ad bidia moste Syndeñe, þvi vier eigum fyrer Saalum ad sia, hveriar hañ hefur med sijnu dijrmæta Bloode endurleyst, Act.20. Hvar fyrer skylldum vier med Fororde bidia, þar vier vitum hañ vill vier hreiner verdum, og hañ hefur svared vid sitt Lijf, ad hann ecke vilie syndugs Manns Dauda, helldur ad hann snwe sier og life? Ezech. 33. Og þar fyrer er hañ i þennañ Heim komeñ, ad aller þeir sem aa hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Þesse aume Madur jatade sijñ Veikleika fyrer Drottne. Gior slijkt hid sama, Barn Guds, drag ecke Dulur aa þijn Afbrot fyrer Gude, og fegra ecke þijna Illsku i hañs Auglite. Þeynk helldur þad sama sem David, þegar hañ sagde, Ps.32. Eg jatade Drottne mijna Misgiord, og þaa fyrergafstu mier þad. Christur hefur algiorla vitad, ad þesse Madur var lijkþraar, adur eñ hañ kallade til hañs; þoott hañ ecke hefde vered audkiendur af sijnum Bwninge, þaa mun hañs Guddooms Speke ecke sijdur hafa þeckt hañs Meinlæte, helldr eñ heñar, sem gieck bak til vid hañ, Luc. 8. Og valla þorde ad snerta Falld hanns Klæda. Laat þier af þessu til Hugar koma, ad honum mune ecke okuñug þijn andleg Lijkþraa, enn aa medañ þu þeiger, þaa er eingenn Von ad hann wtriette Hendena. Holld-Fwañ og Daudeñ i Saarunum, er ad soñu liootur Asyndum, eñ ecke mun þad lijta betur wt i Læknarans Augum, þoott hañ sie strokeñ yfer med Purpura-Farfanum. Hugsa til þess, hvad lijted þad gagnade vorum fyrstu Forelldrum ad skijla sier med Fijkiu-Blodunum, Gen. 3. Þaa Naatturañ baud þeim, ad þau nakeñ væru, miña mun þier þad gagna, ad draga Sky Hyrduleysesins fyrer Skom þijna, þvi þoott ad bæde Diofulleñ og þitt eiged Holld giete svæft þig um Stund, þaa munu þid ecke stijnga Israelis Vaktara Svefn-Þorn, þviad ecke syfiar hañ, Ps.121. Og hañs Auga sier hvad i Myrkrunum er huled, Syr.23. Adam vard feigeñ ad þiggia Skiñ-Kyrtileñ af Gude, Gen. 3. til ad hylia sijna Blygdun med, og ad veria syndugañ Lijkhama sinn fyrer Kullda og tijmannlegu Froste. Þu munt og verda ad kaupa eirn nijañ Klædnad, af hinum odrum Adam, 1.Cor. 15. So ad Blygdan þijns Klædleysis ecke opiñberest, Apoc.3. Og ad þu ecke breñer i eilijfum Ellde. Dyl þvi ecke þijn Afbrot fyrer Gude christeñ Madur, þaa mun hann þau hylia, og lypt Skyluñe af þijnum Syndum, so mun hann draga hana fraa sijnu Auglite, þvi eingañ þann sem til hanns kiemur, vill hañ fraa sier reka, Joh.6. Þegar vier vilium ecke sia edur þeckia vor Lyte, þaa sier Gud þau hvad best, þvi vorar heimuglegar Synder setur hañ fyrer sijnu Auglite, Ps. 90. Eñ þegar vier siaaum, þaa sier hañ þær ecke, þvi hañ h fur hrited, ad kasta þeim i Hafsins Diwp, Mich.7. Og miñast þeirra ecke ad eilijfu. Verum þvi ecke so einfallder sem Fiskureñ, hver ad vænter sier einkis Voda, þegar hañ hefur Hofuded faled, þvi þoott vier stijngum vor Augu wt, nær oss ofbiooda vorer Klæker, þoott vier villdum seigia Fiollunum hylied oss, og Haalsunum hrinied yfer oss, Apoc. 6. Þaa skorter Gud ecke Beinskeyte til ad rama vorn syndugañ Kropp, þegar hann hefur spañad sinn

 Boga,

Boga, Ps. 7. Þvi aller Hluter eru berer og nagter fyrer hans Augum, Heb. 4. Þegar hinn lijkþrææ beidde, þaa dvaldest þad ecke leinge fyrer, ad Jesus bænheyrde hann, riette wt Hondena og sagde: Eg Vil Vertu Hreirn. Þad var goods Þocka Merke hiaa Persa Konunge, ad rietta ad einhveriuin sinn Velldes-Sprota, hvad lesa maa umm Esther Drottningu, þegar hun gieck fyrer Konungenn Assverum, Esth. 5. Hver er þijn Velldis-Spijra, þu Konungur Dijrdarennar? Þad er þijn Almættis Hond, sem allt verkar, i hveria Faderenn hefur allt Valld giefed, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Af hverre eingenn kann ad grijpa Saude þijna, Joh. 10. Hun er eige stutt ordenn, ad hun kunne ecke ad hiaalpa, Es. 59. Hun er eige apurlokud, þad hun vilie eige myskuna, hun er eige aflvana, so hun megne eige ad frelsa: Þad er Guds sterka Hond, og wtriettur Armleggur, Devt. 4. Þad er Hond Guds, i hverre ad eru Filsne Jardar, og Styrkleike Fiallanna, Ps. 95. J hverre aller heilager eru, Devt. 33. Jaa, i hverre ad er øll lifande Saal, og allra Manna Ande, Job. 12. Þegar Syndarenn stijngur Hendenne i sinn eigenn Barm, og dregur hana wt aptur hvijta af Lijkþraa, eins og Moyses, Exod. 4. Mun hann þaa þora ad drepa Hende sinne aa Odd hins almaattuga Velldis-Sprota, eins og Esther? Fiærre sie þvi, ad nockur bere minna Traust til ad mæla vid Fodur Myskunsemdanna, enn hun hafde aa Konunge hinum mikelaata. Hann hafde hana ad Herfaange teked, Esth. 2. Enn Jesus hefur oss af Herleidingunne wt þrifed. Hann kvadst fws ad skipta med henne Konungs-Rijkenu, Esth. 5. Þad kunne hann ecke morgum ad biooda, nema hann giæfe upp sialfur Tignar-Nafned. Enn Jesus hefur øllum seiga laated, sem hann elska: Komed blessader Børn mijns Fodurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrerbwed fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. Og er þo sialfur Konungur ad eilijfu, og hans Rijkis-Stooll varer umm Alldur og Æfe, Ps. 2. Hann hefur ad fyrra Braade riett oss sijna Hond, þaa hann trwlofade oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Riettum honum aptur vorar Trwar-Hendur, og trwlofunst honum i Elsku og Undergiefne. Hann rietter ad oss sinn og vorn Tryggda-Pant, sem er heilagur Ande, Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Hvern hann hefur sendt oss af sijnum Fodur. Drepum ecke Hendenne vid þvilijkre Sæmd, og mootstondum ecke Heilogum Anda, so eige verde Guds Rijke fraa oss tekid, og ødrum giefed, Matth. 21. Eg Vil Vertu Hreirn, sagde Jesus, enn hvad seiger Gud vid oss? Es. 1. Þvoed ydur, Hreinsed ydur, taked ydar illa breitne fraa Auglite mijnu, komum sijdann og eigunst Log vid, þott ydar Synder sieu raudar sem Blood, skulu þær verda hvijtar sem Snioor, og þoott þær sieu raudar sem Purpure, skulu þær Ullhvijtar verda. Hvor sem sialfur vel vill, hann þarf ecke ad efast umm Guds Vilia. Gud gaf sinn Son i Daudann til þess vier kynnum ad hreinsast, þvi skyllde hann þa ecke vilia oss hreina? Þar hann er allareidu wtgiefenn. Þad velldur einasta vorum Saurendum, ad vier vilium ecke hreiner vera, þyker helldur vænt umm, ad vellta oss i Endeme Syndanna, og gleymum þvi a medann, ad i hina Himnesku Jerusalem maa eckert saurugt inn koma, Apoc. 21.

Hier

Hier stendur i Evangelio; Ad Jesus Gieck Ofañ Af Fiallenu. Hvad munde vor Herra þar ad hafast? Hañ talade fyrer Foolkenu, þa ꝏgiætu Predikun sĩ skrifud er hiꝏ Matth. Cap. 5. 6. 7. J hvorre medal añara ad standa þesse blessudu og Huggunarfullu Ord: Bidied, og mun ydur giefast, leited, og munud þier fiña, knijed ꝏ, og mun fyrer ydur upploked verda. Þvi hvor sem ad bidur, hañ mun medtaka, og hvor sem leitar mun fiña: Er þar nockur Madur af ydur, ef Sonureñ bidur hañ um̃ Braud, ad hañ giefe honum Stein? Ellegar ef hañ bidur um̃ Fisk, ad hañ riette ad honum Hoggorm? Þar fyrer, Ef þier sem vonder erud, kuñed ad giefa goodar Gꝏfur Bornum ydar; Hvar fyrer mun ecke miñ Himneske Fader giefa þeim gott, sem hañ þar um̃ bidia? Ny fyrst Sañleikſins Muñur hefur þañeñ talad, þvi skyllde eg efast um̃, ad hann vilie mig lijkþrꝏann hreinsa, fallenn reisa, villtann leidrietta, og harmþrwngeñ og sundurknosadann endurnæra? Enn epter þvi eg sie ad Jesus, þegar hann gieck ofañ af Fiallenu, þa stadfeste hann allt þad hann sagt hafde, med þessum tveimur dijrmætu Krapta-Verkum: So veit eg ad skylldann bijdur mier, sem er hiñ vesælaste Ormur, er skrijdur ꝏ hañs Foot-Skor, ad sañа mijna Vidurkieñingu, med alvarlegre Vidleitne þeirra Verka og Athafna, er hañ hefur skipad ad dijrka sig med; Sierdeilis þar eg heyre hañ seiger i þessare somu Predikun: Ad þeir mune ecke aller sem til sijn seige: Herra Herra iñgꝏnga i Guds Rijke, Matth. 7. Helldr þeir sem giöre Vilia sijns Fodurs, þess sem ꝏ Himnum er. Þvi so sem eirn goodur Lækner nægest ecke þar med, ad giora hinn siwka heilbrygdann, helldur tekur honum Vara fyrer þeim Hlutum sĩ hañs Heilsu kunna framveigis ad skada, sierdeilis þeim, af hvorium hann veit, ad hann hefur hast sijn Vanheilinde, so ad ecke falle hann aptur i somu Soott.

So Giædskurijkur þykest eg vita ad minn Heilsugiafare er, ad hañ alvarlega vill, ad eg fordist alla þa Olifian, sem hann veit ad mijna Sꝏlu kreinkt hefur, so ad ecke verde mitt hid sijdara argara hinu fyrra, 2. Pet. 2. Þad kienner mier hañs Lyknarfulla Alhlutan, þa hañ frelsade Hoor-Konuna frꝏ Afellis Doomenum, og sagde: Kona, hefur nockur fordæmt þig? Eñ hun kvad Nei vid; Og hañ ꝏlyktade med þessum Ordum: So fordæme eg þig eige helldur, gack hiedañ og syndga ecke framar, Joh. 8. Drotteñ seiger til þessa Lijkþrꝏa Mañs: Far Og Syn Þig Kennemoñunum, offra þijna Gꝏfu þa er Moyses hefur boded til Vitnisburdar yfer þeim. J Levit. Bookar 14. Cap. stendur, ad þeir sem hreinsader voru af Lijkþrꝏ, skylldu offra tveimur Fuglum, hvorra añar ꝏtte ad slꝏtrast, enn hinn dijfast i Blood þess slꝏtrada, og sijdann laus giefast og burtu fliwga. Þetta minner mig ꝏ ad þeinkia þar um̃, ad Guds Eingieteñ Sonur er minna vegna fyrer utann alla Verdskulldan slꝏtradur, og ꝏ Krossens Alltare foornfærdur, Gude til eins Sætleiks Jlms, Eph. 5. Eñ mier er dijft i hañs Blood, og þar fyrer em eg laus giefeñ, sem hann Lijslꝏted hefe, og i burtu flogeñ; Samt veit eg þo mijna Skylldu, ad eg ad nockru leite skal skijrast þeirre Skijrn, sem hann kijrst hefur, Matth. 20. Þad er, ad miñ gamle Madur ꝏ med honum ad krossfestast,

Rom. 6. Hvar enn Sꜳla mijn sær uppfloged til Himna, og inngeinged i hañs Dyrd, a Land lifande Maña, Ps. 116. Hvert ad koma, og þar eilijflega med honum ad fagna, bæde mier og øllum Guds Børnum, veite og giefe myskunsamur og goodur Gud, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar, og Nꜳd heilags Anda, AMEN.

# Fiorda Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

Og er Jesus stie a Skip, fylgdu hañs Læresveinar honum epter. Og siꜳ þu, ad mikell Okyrleike giørdest i Siooñum, so ad Skiped lꜳ under Afølllum: Eñ hañ svaf. Og hañs Læresveinar geingu til hañs, vøktu hañ upp, og søgdu: Herra! hialpa þu oss, vier forgaungum. Eñ Jesus sagde til þeirra: Hvad hrædest þier lijtel-truader? Þꜳ reys hañ upp, hastade a Vindeñ og Siooeñ, og þar vard Logn mikeð. Eñ Meñerner undrudust, og søgdu: Hvilijkur er þesse? Þviad Vindur og Sioor hlijda honum.

## Exordium.

Jñ ogudlege Heimur þesse, hvers Høfdinge ad Satan nefnest, Joh. 14. hañ synest miøg so vel kuña ad samlijkiast vid Hafed. Sioorenn er ein ostødug Høfud-Skiepna; Þegar hann er sem hlijdastur, veit ecke fyrre til a stundum, enn hañ umhverfest nærre i Augnablike og rijs Fiøllunum hærra. So er og eckert i Heimenum stadfast, þegar hañ fladrar uppꜳ nockurn, eins og þioofgiefenn Hundur, þꜳ er Guds Børnum af honum Skadeñ vijs, og jafnvel hañs eigeñ Børnum optlega. Þvott ad Satan og hañs Viner hate Gud mest, og þꜳ, sem sitt eru med honum, þꜳ er hañ þo i sialfum sier sundurþyckur. Ecke elskast hanns Þioonustu Meñ leinge innbyrdis, þegar þar er ad kieppa um̃ þad, sem þeir hafa giørt sier ad Gudum. So sem Christi Þienarar eru vidkvæmer nær þeirra Høfud er meidt, so er og Diøfulleñ i siñe Kynslood. Þegar Laban vantade sijn Skurgod, þꜳ rann hañ jafnskiott epter Jacob, Gen. 31. Þvott hañ være hañs Mꜳgur, og so er Heimur þesse innbyrdis, þegar hann mꜳ siꜳ a Bak einhvers þess, sem Drambsemenn og Fijsn Augnaña hafa fest siñ Trwnad a, þꜳ rijfur hann Vinskapeñ, jafnvel vid þꜳ sem hann lietst hafa hvad kiærasta. Joab er ecke leinge Vinur Amasæ, 2. Sam. 20. þegar hañ ottast hañ mune tapa nockru af Virdingu siñe, eige helldur ræker Absalon Brodernid vid Am̃on, 2. Sam. 13. þegar Heiptrækneñ blæs hañ upp. Midt a medal þessarar hreckvijsu Kynsloodar, verdur hiñ litle Hoopur Christi ad bwa, og mæta adskiliañlegum Arꜳsum og Hneixlunum: So ad i Villu mættu leidast, ef skie

kynne,

ke, jafnvel utvallder, Matth. 24. So sem Noe og hanns Hyske var i hinne vantrwudu Verolld, Gen. 6. So sem Loth var i Sodoma, Gen. 19. Abraham i Gerar, Gen. 20. Israel i Egypta-Lande og Chaldæa, Exod. 1. So eru Guds Viner i Olld þessare. Hvad er hier til Raads, Brædur mijner, so vel fare? Og Menn sieu visser um, ad þeir eige lijde Skipbrot aa Saalu sinne? Eitt veit eg sem alldrei skal bregdast, þad kienner Drotteñ oss hiaa Matth. 7. Þegar hañ aadur hafde teked sijnum Læresveinum Vara fyrer Fals-Spaamonnum, seigande: Hver sem heyrer þesse mijn Ord, og giorer epter þeim, honum vil eg lijkia vid einn Forsiaalann Mann, þann er bygde Hws sitt aa Biarge, eñ þar giordest Regn og Vatns-Flooden komu, og Vindarner bliesu og fiellu yfer þad Hws; Enn þad datt ecke, þvi þad var aa Biarge bygt. Þetta Biarg er Drottenn Jesus; Þad er saa Hyrningar Steinneñ i Zion, Esa. 28. Sem Gud hefur bygt sijna Christne aa; Hver sem yfer hann bygdur er, hann mun alldrei kollsteipast, helldur stodugur blijfa. Læresveinar Drottenns tooku til ad veikiast i Trwnne þegar hann svaf, enn Vedred took ad hefia Siooeñ, so þeim laa vid ad forgaanga: Þaa tooku þeir þad til Raads, ad þeir voktu hann, og gaafu honum til Vitundar Neyd sijna. Christne Guds er lijk einu Skipe, sem velltest i Olgu-Sioo Veralldar þessarar, hun hefur Christum jafnañ iñañ Bords. Tokum þvi sama Raad og Læresveinarner hier tooku, þegar Sioorenn, þad eru Armaaser, Fiandskapur, Illkvittne, Hneixlaner, Lastmæle og allskonar Ohlutvendne þessarar vondu Veralldar tekur til ad gaanga aa þetta Drottenns Skip; Hvers aller þeir hafa sier ad vænta, sem hiaa honum hafa Fär teked, so þeir meiga finna til þess er Paulus um sig talar; Ad þar sie Baraatta hid ytra, enn Strijd hid innra, 2. Cor. 7. Vil eg þvi af þessu H. Evangelio og Dæme Læresveinanna tala alleina um þaa Hlute, sem eiga ad giora oss fulltrwa um hanns Adstod i ollum vorum Naudsynium.

Hiaalpa oss hier til naaduge Gud og Fader med Krapte þijns Anda, Fyrer Sonarens Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hefs maa allvijda giæta i Æfe Sogu Drotteñs vors, ad þegar hañ hafde einhveria merkelega Predikun flutt, þaa stadfeste hann Kieñinguna med einhveriu Krapta-Verke. So giorde hañ þegar hañ gieck ofañ af Fiallenu, hvar hann hafde talad Eyrende Rijkesins fyrer Foolkenu, Matth. 5. og hañ læknade hiñ lijkþraa. So giorde hann og hier, þar hañ allañ Dageñ hafde kient Foolkenu med þeim fogru Epterlijkingum, er skrifadar standa, Matth. 13. Um Illgresid, um Mustards-Korned, um Sædreiged, um Perluna og um Fiesiooden, og adrar fleyre. Enn strax aa epter fylgde þetta dijrdlega Kraptaverk, er Gudspialled umgietur, Marc. 4. Nu var þad ecke alleina giort fyrer Læresveinana, Br. M. helldr hefr og Guds Ande þvilijkt Stoormerke uppteikna laated oss til Lærdooms, ad vier sem hofum teked vid Trwnne aa Drottenn Jesum, og erum i hañs Nafne skijrder, vier skulum læra ad treysta honum

i ollum

ollum vorum Naudsynium. Þesse var nu Adferd Drottens, bæde aa hans Hiervistar Dogum, so og strax epter hanns Himnafor, leinge fram epter Efe Christnennar. Þvi skrifar Marcus, Cap. 16. um Postulana ad þeir hafe geinged wt, predikande allstadar, ad Drottne samverkanda og Orded styrkiand a, med epterfylgiande Teiknum. Enn þvi var unsjafut teked af Heimenum, so sem auglioost er af Giorninga Book Postulanna. Þetta dyrdlega Krapta-Verk skiede i Næviſt hanns elskulegra Læresveina. Matthæus skrifar, Cap. 13. Ad margt Foolk hafe safnast ad honum, so hann blessadur vard ad stijga aa Skip fyrer Man-Þraungenne, en Foolked saat i Fiorunne og heyrde aa. Flester munu þeir hafa vered i þessum mikla Hoop, sem meir hefur fijst ad heyra Maal Snylle hans helldr en ad skilia edur geyma Krapt Ordana; þad ræd eg af þvi, ad einigenu spurde hann epter Meiningu Epterlijkinganna, nema hans Læresveinar, hvad honum aan Efa nuslijkad hefur, sem Von var; þvi sagde han vid þaa: Ydur er unnt ad vita Leyndardoom Himnarijkes, enn þeim er þad ecke giefed, Matth. 13. So er og Kyrkiu-Gaanga vor aa stundum. Aller flyckiast til ad heyra eins Mans Predikun, sem talar snialt, enn rootfesta þo ecke nær i Hiartanu þann heimuglega Krapt, sem bijr i Ordenu, helldr en þoott eirn Ovite talade, so þeir fære Avoxt þar af, og giorest saner Christi Læresveinar. Drottenn giorde þetta mikla Krapta-Verk fyrer so faaum, af þvi þar voru so faaer sem gaafu miken Gaum ad Predikunine; han talade fyrer Mwga Mans af Skipenu, so aller heyra maattu og skilia Guds Veg, hefde þeim verid um þad hugad, og þad skiede nærre Lande; enn Kraptaverked giorde han og i Skipenu, midt aa Sioonum, þar faaer voru hiaa honum innanbords, og eige nema þeir sem logdu uppaa Hiartad, þad hann talad hafde. Þar fyrer, Barn Guds, vilier þu vera fullviss um Adstod Guds i Sioo Rootte Verralldar þessarar, þaa sia til fyrst, ad þu siert Christi sannur Læresveinn. Heyr hans Ord, og laat þier vænt um þad þykia, ecke einasta umstundarsaker, helldur geym þad i Hiartanu; Stunda epter ad faa þess riettann Skilning, laga þinn Lifnad þar epter, fær þar af Avoxt i Þolenmæde, Luc. 8. So þegar And-Vidre Hormunganna mæter þier, ad þu siert þa viss um, ad þu hafer Guds Son innan Skipsborda, þaa maattu vera þess fullvruggur, ad Drotten er ollum þeim naalægur, sem hann aakalla, Ps. 145. Þad er hid hellsta aa einu Skipe, ad þvi sie vel stijrt, sierdeilis i Olgu-Sioonum. Lijkhamer vorer eru Skip Saalarennar, hveriu hun stioornaa, so hun naae Hofnenne um sijder aa Lande Lifande Manna, Ps. 116. A hinu fyrerheitna Landenu. Gief honum ecke ofmikenn Taum, þrælka han eins og St. Paall, ræk Hoilded ad sonnu, en þo ecke so ad þu leyfer þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Laat ecke Saalu þinne verda þad sem Palinuro vard, þegar han sofnade vid Stijred, þaa datt han wtbyrdis. Eins kan Saalu þinne ad verda, utan þu vaker og bidier, so þu faller ecke i Freistne, Matth. 26. Og ef hun kann ad sofna, sem optlega skiedur, þaa sia til ad þu hafer Jesum i Skutnum, ad han vekie þig, nær hann sier þu ætlar ad forgaanga. Saala þijn sefur opt þo Lijkhamans Augu vake. Drottenn sofnade epter naattur-

leguſt Hætte, þvi hañ var ad allre Hegdan fundenn ſo ſem Madur, Phil. 2. So hañ kyñe ad ſampijnaſt þijnum Eymdum, Hebr. 5. Samt vakte hañs Guddoomur, þvi hann er Iſraels Vaktare, hver ed ecke ſefur og ecke ſifiar hann, Pſ. 121. Og þar hañ nu i voru Hollde ſitur til Kraptarens hægre Handar, Marc. 16. Þa hefur hañ vakande Auga yfer ſiñe Chriſtne, hveria hann endurkeypt hefur med ſijnu eigeñ Bloode, Act. 20. Ia, a ollum heñar Limum, ſem hañ þecker fyrer ſijna Læreſveina; bid þvi med Skaalldenu: Vak þu miñ Ieſu, vak i mier, vaka lat þu mig eins i þier, Saaleñ vake þa ſofnar Lijf, ſie hun ætijd i þiñe Hlijf. Þegar þu ſo giorer, og þad af Hiarta, og ſtundar epter ad hallda þier vakande i hañs Þionuſtu, og lætr ecke Satan dilla þier a Kodda Syndaña, þa mattu vera fulltrwa þar uñ, ad Svefn-Læte Veralldareñar ſkulu alldrei æra þig, þoott hun velltest uñ, og berie Hæl og Hnacka. Dioſullenn, ſem er hennar Hofdinge, ſkal alldrei reiſa ſo mikla Olau i heñe, ad þier ſie hætt vid ad forganga; þad kiennamier hanns Fyrerheit, er ſagt hefur: Otteſt ecke, eg hefe Heimenn ſigrad, Ioh. 16. Þad ſeiga mier hañs Ord, er ſagde: Hofdinge þeſſa Heims er dæmdur, og med mig hefur hann eckert, Ioh. 14. Hafe hañ eckert med hañ, ſo hefur hann ecke helldr mz þa ſem i honum eru, og hañ i þeim, þeir ſm eru Limer hañs Lijkhama, og hvad meira er, ad þeir eru ordner eirn Ande med honum. Þvi ſeiger Iohannes, 1. Ioh. 5. Hvad ſem af Gude er fædt, þad yfervinnur Heimeñ. Hvad vill ſa ottaſt ſem hefur ſoddann eirn Fodur? Unglingum ſetia Meñ Fiarhallds-Meñ, og þykeſt ſa goodu bættur ſem odlaſt þañ einhvern ſem er fullvedia, og liiklegur til ad giora honum riett, og forſvara hañ fyrer Rangsleitne ormadvandra Maña, jafnvel þo þad gange misjafnt til medal vor Mañanna, ſamt lata aller ærleiger Meñ ſier vera uñ þad hugad: Eñ hverneñ ſem þvi er varid, þa eru aller þeir ed Gud ottaſt hañs Omagar, og er þeim miklu betur radſtafad, helldur eñ hinum vollduguſtu Heimſins Girdingum og Villdar-Monum. Seiged mier: Hvad ſkal eins Manns Fulltrwe hafa til ad bera, nema Mattenu og Viliañ? Uñ hverugt kuñum vier ad efaſt hia Gude. Matteñ ſiaum vier i þeſſa Dags Evangelio, þoott ecke være annad til, ſem þo fleira og ſtærra er, eñ ad allar Engla og Maña Tungur fæe þad uñ allar. Allder upptaled. Hañ Haſtade A Vindeñ Og Sioveñ, Og Þa Vard Strax Logn Miked, ſo þeir ſogdu: Hvilijkur Er Þeſſe Ad Vindur Og Sioor Hlijda Honum? Eingeñ Hlutur er Gude omogulegre eñ añar, Luc. 1. Þad koſtar hañ ecke meira, ad ſteypa allre Verolldeñe uñ Koll, eñ ad drepa eirn Titling, hañ hefur alldrei haft miked fyrer neinu i allre ſiñe Rijkis-Stiornan, nema þvi, ad leyſa Syndarañ wr Helvijte, og þo giorde vorum Frelſara Elſkann til ſijns Ovinar þetta Ok ſo ſætt, ad hañ langade til ad drecka þañ Kaleik er hañs Fader ſkeinkte honum, Luc. 22 og acktade ecke Forſmanena, ſeiger Poſtulenn. Gud giæfe ad Elſkañ til hañs kyñe ad giora oſs hañs Byrde ſo lietta. Og þar ed oll Guds Skiepna, er ſo eckert i hñs Hende, þa ma eg fullireyſta, ad hñ ſm eige þurfte ad tala nema eitt Ord til hiñs brwſanda Hafs, honum mune eige vera uñ Megn, ad vardveita mig hiñ veſæl-

asta Orm sem liggur a hañs Footskor, i Olgu Heims þessa. Hann talar til Siaf-ar-Hassins: Hijngad skalltu komast og ecke leingra, hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Þvi mun honum veita hægt ad drepa Ossañ i hinum dramblaata, so þar verde Logn mikid, edur og ad slaa honum Hogg vid Eyra, Ps. 3. so hañs Stad-ur fiñest ecke meir, ef honum so lijkar. So mikels Mattar er nu þesse stoore Konung-ur Himens og Jardar, hver vill þrijsa mig af hañs Hende, Joh. 10. Kann nockud Oxeñ ad giora, nema heñe sie beitt, eda Sogeñ ad vtrietta, nema heñe sie stijrt, eins mikid kuña Meñerner mier ad giora, nema Gud leife þeim, þvi vil eg seigia med David nær Heimureñ hatar mig: Drotteñ er mitt Lioos og mijn Heill, fyrer hverium skal eg ottast? Drotteñ er Verndare mijns Lijfs, hvern skal eg hrædast? Ps. 27. Enn þad hañ leifer, skal mier kiærkomed vera, hañ agar mig þvi hañ elskar mig, Heb. 12. Hañ typtar mig þvi hañ vill leidrietta mig, hañ særer mig þvi hañ vill græda mig, Os. 6. Og er þad Daaraskapur fyrer mig, sem læst avijta Vin miñ, ef honum yfersiest, sem strijke Barn mitt, nær þad giorer þad sem eige byriar, sem læt skiera og breña eitt fwed Saar a mijnum Astmañe, so hañ heill verde, ad eg skule ecke taka hinu sama af Hende Drotteñs. Þar fyrer skal eg eige helldur efast um̃ Viliañ, þad lære eg og af þessu Gud-spialle. Læresveinarner voktu Drotteñ, og þad med Uum̃kvortun nockurre, og Mis-trauste a hañs Almætte. Þvi Marcus skrifar Cap. 4. Er hann seiger fraa þessu mik-la Kraptaverke, ad þeir hafe sagt: Meistare, þu hyrder ecke um̃ þad, ad vier forgaung-um. Hvad var þetta ad seigia vid hañ, hvers Almætte þeir vel mattu þeckia? Hver ed so morg Kraptaverk hafde giort þeim asiaande. Samt vard hañ sliootare til ad hialpa þeim, og ad hasta a Vindeñ og Siooeñ, helldur eñ til ad atelia þaa fyrer þessa Efaseme og Trwarleysu. Þetta hender oss optlega nær vier bijdum epter Drottne a Þurrlendenu seiger David, Ps. 63. Vier meinum hañ sofe þoott vier vitum ad hañ sofe ecke, vier kollum ad hañs Hond sie stutt ordeñ, þo oss sie alkuñugt af Guds Orde, ad hun ecke einasta kallast hin sterka Hond Drotteñs, og vtrietiur Armleggur med miklum Undrum, Deut. 4. Helldur og hin millda Hond Drotteñs, sem giefur ad vier samañsofnum, og þaa hañ upplijkur heñe, sediunst vier af Giædum, Ps. 145. Og þoott vier sieum nu so tvijlraader og efasamer, eige ad sijdur er hañ oss hvad nærstur, þegar vier ætlum hañ fiarlægañ vera. Þegar Joseph liet sem hañ ætlade ad taka Benja-min i Vardhalld, þaa gat hañ valla Taarum hallded, þegar hañ ottade Brædrum sijnum mz siñe Reide, þaa fieck hañ þo ecke leynt sier fyrer þeim, Gen. 45. Ætlum ecke ad Fader Myskunsemdaña mune sijdur naadugur vera, edur kieña i Briooste um̃ sijn Born, þoott hañ typte þau þeim til gooda, þvi hañ straffar, eñ ecke af Hiarta, Thren. 3. hañ burtrekur, eñ ecke eilijflega. Ohætt er þvi, alldrei steiper Drotteñ nockrum þeim sem hiñ allra miñsta Trwar-Neista geimer i Hiarta sijnu so diwpt nidur i Afgrunn Hormungaña, ad þeir aldeilis orvænte sier Naadar hañs, jafnvel þoott þeir sieu a stundum laangt leidder, þvi lijtt logande Hor-Kveik mun hañ ecke wtslockva, Es. 42.

Gud

Gud straffade Synder vorar um̃ skamt med Oaran nockurre, þar epter vitiade hann vor med Land-Plagu, hver ed took fra oss vora kiærustu Astvine, og hid besta Foolk, munde oss þa ecke þykia horfa til Vandræda? Hvilijk Audn var þa i Landenu, so ad þeir sim̃ holldlega voru siñader, tooku til ad efast um̃, ad vier mundum hier leinge Bygdum hallda. Eñ hversu hefur hin millda Hond Drottenß sijdañ coronad Ared? Hversu hafa hañs Footspor af Feite droped? Ps. 65. Med þvilijkre Argiædsku hefur hañ blessad oss, so ad vier ecke einasta hofum eingañ Skort lided, helldur flester bwed vid betre Kost eñ nockurn Tijma adur? Er ecke þetta sijnelegt Almættis og Giædsku Merke Drottenß? Hvert skylldum vier leita i Hormungeñe, nema til hañs, sem so vijs, so mattugur og giædskurijkur er? Eg vil taka mier Orsok af þessu dijrdlega Kraptaverke, til ad tala nockud vid ydur, sem um̃ Siooeñ fared, og leited Næringar ydar i Hafsins Diwpe. Hversu opt hefr hiñ goode Gud vardveitt ydur i Lijfs Hæskanum? Hvad tijtt hafed þier matt seigia med David, Ps. 18. Hañ sende wt af Hædeñe og sookte mig og droo mig upp wr miklum Votnum. Drotteñ hefur optlega giort Furduverk a ydur, þegar Daudans Bond hafa um̃krijngt ydur, Ps. 18. Og þier meintud þier ætludud ad forganga, þa hefr hañ þo rickt ydur upp wr Daudans Porte, Ps. 9. og frelsad ydar Saaler wr Heliu. Þar er eige laangt a ad miñast, vier lifum eñ nu sem eige erum miog til Ara komner, og munum þad, ad Drotteñ hefur a sama Deige kollvarpad sumum, eñ suma hefur hañ vardveitt undrunarlega og olijklega fyrer Maña Sioonum, og þetta optar eñ einusiñe, ecke þar fyrer ad þeir sem tijndust, hafe syndugre vered, eñ hiner sim̃ afkomust, meir eñ þeir sim̃ Turneñ fiell yfer i Siloa, edr þeir ed Pilatus slaatrade i Galilæa voru sekare eñ adrer, Luc. 13. Helldur til ad sijna Riettlæte sitt a þeim sim̃ hañ burt took, oss sim̃ ?num til Epterdæmes og vorum Epterkomendum, eñ Naad sijna a hinum, er hañ sparade, so hañ mz bædum Hondum leidde oss þverbrotnar Mañeskiur til Yðrunar, ad eige sofnum vier oss Reide a Dag Reideñar, og Guds Riettlætes Dooms, Rom. 2. Eñ Gud næde hvern Avoxt þad færer. Eg giet ecke þvi hroosad, ad aller þeir ed voga Lijfe sijnu wt a Siooeñ, take Jesum i Baat med sier; Og eg þore ad seiga, ad valla drijgia sumer Meñ fleire edur meire Synder, Gude til Stygdar, eñ nær Menn þiggia hina mestu Blessan af hañs Orlætis-Hende, so ecke er ad undra þoott hañ meige lykia heñe aptur stundum fyrer oss og skamta oss wr Hnefa, sem Meñ plaga ad seiga, ja, þoott hañ straffe oss mz Skipreikum og Mañ-Tioone, til ad typta oss lijfada Kaalfa. Alkuñugt er þad ollum Monnum, hvilijkt Framferde, hvada Muñ-Sofnudur, Giaalijfe, Straakskapur, Lijge, Raan og Pioofnadur, ad æsdur er i þvilijkum Selskopum, med laangtum meire Frekiu og Oskamfeilne eñ añarstadar, so hañ þykest goodu bættur, sem verst gietur laated, og þad þyker Kallmenska og Snille, ad vera fremstur i Flocke nær Meñ slijkt adhafast. Þegar þier rooed til Fiskiar, laateft þier bidia Gud fyrer ydur, enn hvad mikell þar fylge Hugur Maale, er af þvi audsært, er þier taled og giored, sumer hverier, nær þier erud under

Vad ſeſter, þá formæled þier ydar Veidarfærum, ydar Verkfærum, ydar Lagsmoñ-
um, þegar ecke er allt epter Villd ydar. Og þar þier ættud ad bidia Gud ad bleſſa i
ſeige þier ad Andſkoteñ ſkule taka. So ſáer nu Fiandmadureñ Illgreſenu, Matth.
13. bæde á Sioo og Lande. Þegar Gud ſender ydur þad á Aunguleñ, er ydur ecke
lijkar, forſmáed þier þad, blooted þvi, og kaſted þvi aptur i hañs Náadar-Fadm; ſem
hañ er þá hvad meſt ad wtbreida til ydar. O! þier ráangſnwner og þeckingarlauſer
Syndarar. Láate Drotteñ ſiñ Vind bláaſa á Siooeñ, ſo ydur þyker hætt vid Lijf-
Tioone, þa kalled þier ad ſoñu til Drottenns, ſem og vera á, eñ giæted ad, hvort þad
mune eige kuña ad eiga heima hiá ydur allmorgum, ſem Drotteñ ſagde vid Juda,
Jer. Cap. 2. Þegar Neydeñ yfergeingur, þa ſeiga þeir: Upp þu og hiálpa oſs; Eñ
hvar eru þa Guder þijner, ſem þu hefur giort þier? Biood þeim upp ad ſtanda, láat
ſiá hvort þeir kuña ad hiálpa þier i Neydeñe, þegar ſo til ber fyrer ydur. O! þier
Gudlauſer Meñ. Hvar er þa Andſkoteñ, er þier ſo tijdt ákalled, og bidied ad taka
bæde ydur og ydar Stallbrædur? Hvar er hañ þa? Mun hann nockud hiálpa ydur
wr Neydenne, þegar þier ligged under Afollum? Mier mun ſaklauſt vera ad á-
varpa hañ med ſomu Ordum og Elias talade um̃ Jeſſabels Baal fordum Daga:
Kalled hátt, þvi hañ er eirn Gud og hefur miked ad giora, 1. Reg. 18. Veit eg ad
hañ hefur Rijke ſo miked i Heimenum, ſem Gud liær honum til ad ſtraffa med Synd-
er Mañaña, eñ helldur mun hañ uppæſa Siáfar-Hafed þeim til Skada, ef hann þo
hefur þad Valld, eñ eige mun hañ haſta á Siooeñ nie Vindeñ; Þa Magt gaf hiñ
Almáttke Konungur Syne ſijnum, og ecke Fiandanum, ſiñ er Fáange og Utlage Guds.
Einſkis er af honum nema Ills Von, þvi hañ rædur ecke fyrer odru. Enn þegar þier
ſo kalled til Guds i Neydenne, munud þier gieta haft fullt Trauſt á honum, ad hann
wtrycke ydur þadann, Pſ. 91. Nær þier þannenn leited Atvinnu ydar. Eckert Fyr-
erheit hafed þier þar um̃, nema þad, ad á hverum Tijma, ſem hinn Ogudleige ſnijr ſier
frá ſijnu ogudlega Athæfe, þa ſkule hanns Synda ecke ad eilijfu miñſt verda, Ezech.
18. Og ſtendur þad ad ſoñu oraſkad um̃ alla Æfe. Eñ giæted ad, þier ſm̃ ſo ogud-
lega lifad hafed, hvort ydur mune ecke fyrr koma til Hugar, þegar þier rated i Lijfs-
Háſka nockurn, ad ſorga fyrer þeſſu auma Lijfe, hvert þier þo ſkulud einhvorn Tijma
miſſa, helldur eñ ad befala ydar Sáaler Skaparanum af Alvoru: Orſok þa hefe eg
til ad efaſt hier um̃, ad þar eru ſo ſáer, ſem Gud hefur ſijndt Daudann, ad þeir life
betur epter enn ádur. Eñ hvad er ſoddañ? Gud er náalægur ollum þeim ſm̃ hañ ott-
aſt, eñ eg kañ ecke ad ſeiga, ad þeir otteſt hann, ſm̃ hañ eitt ſinn hefur leyſt ur Heliu, og
eru þo eingu betre ſijdann. Þegar Gud giefur odrum meira enn ydur, þa ofunded þier
þa. Þier erud ráangeygder, af þvi hann er goodgiarn, Matth. 20. Þier ſpilled Veid-
um þeirra, ef þier gieted, og i þvi reke þier Satans Eyrende, þvi hann leitaſt vid ad
koma þvi til Vegar, ad Mannekiann hafe ſm̃ minnſt Gagn af Orlæte Drottenns.
Ecke giorde ſo Petur og Fielagar hanns, er Drottenn gaf þeim hina miklu Bleſſan, er

Lucas skrifar um̃, Cap. 5. Þeir bentu sijnum Fielogum, ad þeir kiæmu og hiælpudu þeim, og meddeilldu þeim af þeirre Guds Blessan, er þeir feinged hofdu: Enn eg hore ad seigia, ad nockrer af ydur eru so Lynder, ad þeir nærre þvi helldur sockva vilia eñ uña sijnum Næbwa nockurs af þvi þeir hafa of-miked. So og forsmæed þier hina adra, sem miña er veitt, so sem være þad ydar Atburdum ad þacka, og þier mætud skamta ydr wr Guds Hende þad þier vilied, eg giæted lijtid ad þvi, sem Pæll seiger: Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer, 1. Cor. 4. Sumer af ydur trwa a siñ Fiske Galldur, og hefur þa Andskotenn sijndt Kunst sijna i Hiarta ydar, þegar hann kiemur ydur til ad dijrka sig og þacka sier fyrer Guds Gæfur. Ecke giorde þad Petur. J Þijnu Nafne Vil Eg Netenu Utvarpa sagde hañ til Jesum, Luc. 5. Eñ þegar þier brwkєed Runer og Ristingar, med hvorium þier þo miña enn eckert fæed wtriett: Kasted þier þa ecke Netenu wt i Fiandans Nafne? O! Miñ Herra og Gud, eg giet ecke noog-lega dæadst ad þiñe Þoleñmæde, ad þu setur ecke Krook i Naser Andskotans, Ezech 29. eins og Hvalsins i Egyptalande fordum, og lætur þa draga Diofuleñ uppa Aungleu-um, er so bæda þitt Nafn, ad hann gleipe þa lifande, eins og Jordeñ Core, Datan og Abiram, Num. 16. Læred af Petre ad fiska gooder Menn, hann er hinn beste Formad-ur, þott hann sæte wte alla Noottena og feinge eckert, þa mæglade hann ecke, helldr sagde: Epter Þijnu ORDE Vil Eg Netenu Utkasta. Ecke orvænte hañ, þott Drotteñ liete hañ bijda epter sier, eñ þegar hañ blessade hann, þa fyrervard hann sig og gaf Gude Dijrdena. Ecke giora þeir so, er hroka sier upp af Guds Læne, so sem væru þeir þess verdugre eñ adrer. Fordest slijkañ Dæraskap, ef þier vilied vera visser um̃ Guds Ad-stod i Hæskanum; Taked med allre Hiartans Audmykt a moote hañs Blessan, hvort helldur hun er mikel edur lijtel, og siæed ecke Ofsioonum yfer þeim, sem hañ hefur meira giefed. Forsmæed og ecke hina, er hañ miña lænar, helldur sie hvor ænægdur med siñ deilldañ Verd, og giallde Gude skylldugar Þacker þar fyrer; Hyrded og Faung ydar skynsamlega, og onijted ecke Guds Gæfur. Ef þier ovirded þær og legged ad litlu, nær þier nægter hafed, þa ovirded þier Skaparañ, sem þær giefed hefur. Vered og miñuger Kiærleikans, ad þier gleymed ecke hinum Volada og Þurfa-Mañenum, og sijned Þacklæte ydar vid Gud, ecke einasta med Orde, helldur og Verke, 1. Joh. 3. Vid hanns Fatæka naudstadda Limu. Ecke fæed þier honum betur launad, eñ med soddann moote, þvi jafnvel þott ad Madurenn sie vesæll til þess, ad hann kunne Gude nockud aptur ad giallda, þa vill þo Mañsins Sonur a hinum effsta Deige seiga: Hvad þier giordud einum af þessum hinum miñstu, þad giordud þier mier, Matth. 25. Eñ um̃ alla Hlute fram̃, þa feled Gude a Hendur Sæl og Lijkhama, nær þier draged wt a Diwped til ad leita ydar Næringar: Hugleided, ad þar eru valla tveir Þum-lungar a mille Lijfs og Dauda, hvilijkur Vode er þad þa og Sælar-Hæske, ad trwa so ostodugum Hlut fyrer Sælu siñe sem Hafed er, nema Meñ sieu þar um̃ ædur full-visser, ad hvort þeir lifa eda deyia, þa sieu þeir Drotteñs, Rom. 14. Sa sem wt a

Siöeeñ ser, þad er eins og gange hañ i Ortusin, hañ er ecke viss um ad nær Landenu aptur; Eñ þoott ad hinum Almattuga Gude ñe ecke um Megn ad vardveita sijna, eins vel a Siöo og Lande, þa mætte mier þo til Hugar koma, ad vanda mig hvad mest, og leita Drottens Hialpar þegar eg sie Hæskañ fyrer Augunum. Eg hefe um þetta Efne nockud langtala vered og þad fyrer þvi, ad eg hygg þess vel vid þurfe, þvi margur er odæll, hyrdulaus og ohlutvandur, skeitande ecke um, nema ad fylla Kroppenn, og gilldet einu þoott Saalenn svellte, og vona eg ad Guds Börnum mune þad ecke oþægt vera, er eg hier um sagt hefe: Hiner verda sijnu fram ad fara, er heilsusamlegar Aminningar ad eingu hafa, og velldur þo ecke sa ed varer, þoott ad verr fare, þeir munu ad komast Raunenne, er þad forsmaa, nær Uppskieru Tijmenn kiemur. Og vil eg so aptur hverfa til hinns, er eg i ondverdu hoof um ad tala, sem var, ad Menn skylldu varpa allre sinne Ahyggiu uppa Gud, Ps. 55. Og honum alleina treysta, þa vier rotum i Neyd einhveria edur Mootlæte. Ad sönu er oss ecke bañad, miklu helldur leist ad leita Mañana Hialpar nær oss aliggur, þvi Meñerner eru skapader hvor odrum til Adstodar, og hafa Guds Bod um þad ad styrkia hvor añañ innbyrdis, Gal. 6. Gud nade, ad þvi er a eingvañ Veg so epterfylgt sem byriade; Eñ ef vier þetta riett athugum, þa dregur mañleg Hialp oss so skamt a Veg a Stundum, suma vantar Efneñ, adra Viliañ, nockrer eru langt fra oss, og naa eige til vor þoott villdu, nær i Raunerner rekur, eñ Gud brestur alldrei Mattenn, alldrei Viliañ so sem adur er sagt, og Meñ skulu eige þurfa ad senda langt epter honum, þvi hañ er nalægur ollum þeim sem hñ akalla, Ps. 145. Hier ad auke er sumum vorum Meinum so hattad, ad eingeñ mañlegur Kraptur gietur raaded Boot a þeim, eñ þar er ecker þad Bol, sem allra Meina Grædare kuñe eige ad lækna. Vel kuña Meñerner ad hialpa Lijfe voru optlega, enn þo so ad hañ vilie hafa oss hoolped i þad siñ, annars ecke, þvi oll lifande Saaler i hañs Hende, Job. 12. Eñ þad skilur Guds og Maña Adstod, ad þoott hañ deyde, þa Lijfgar hañ eilijflega. Þvi þad skal skie, sagde Lausnareñ, Joh. 11. Ad hvor sem trwer a mig, þoott hañ deye, þa skal hann samt lifa. Giætum og þess, Brædur mijner, ad þoott vier af Moñum Lidveitslu þiggum, þa kiemur hun samt fra Gude. Edur hvadañ er þad ad oss kiemur Hialp a Stundum, þadañ sm olijklegast er, og vier væntum heñar sijdst fra? Ecke var Moyses, þa hañ var Landflootta, Exod. 2. til þess lijklegur, ad leida Jsrael wt af Egypta-Lande. Gedeons Ætt var hin miñsta a medal Manasse, og hañ miñstur medal siña Brædra, Jud. 6. Þo sende Gud hañ til ad frelsa Jsrael af Hende Madianitaña. Hañ sende okienda Menn af fiarlægu Lande, til ad færa Syne sijnum Vega-Neste, er hañ var eñ þa i Reisum, Matth. 2. Hann sende honum eirn framande Mañ Simon af Cyrenia, til ad béra Krosseñ med honum, Matth. 27. Hañ sende Nicodemum og Joseph af Arimathia, til ad giora hañs Utfor heidarlega, Joh. 19 Eingenn Madur kañ um þad Hogum ad hyggia, hvorneñ Gud fer ad hialpa, þegar hañ er nadugur; Hañ kañ ad giefa Jsrael Vatn af Helluñe, Num. 20. Hann

gietur

gietur sendt Eliæ Fædslu med Hrofnunum, 1.Reg.17. og mettad margar Þusunder Manna med fáum Braudum og Fiskum, Joh.6. Og eg veit ad þar er nærre eingenn af oss, sem til Ara erúm komner, ad eige hafe hann einhvern Tijma reint soddann undrunarlega Guds Adstod, ef vier hefdum Vit á epter ad taka, og tilreikna þad Gude sem hanns er; Enn sumer trwa á Mátt sinn og Meigenn, og þykiast sialfer afreka alla Hlute, jafnvel þoott eg ætle ad hinum mektuga Himnanna Konunge verde lijted fyrer þvi ad giora oss Þrauternar so þwingar, ad mannlegur Kraptur náe skamt til ad kasta þeim af sier, þad hefur hann optlega synt.

Hvad vard wr þeim sim̃ Konungum sim̃ Abraham hrakte med nockrum Hwskollum sijnum, Gen.14. Hvad vard af ollum Risunum i Canaans Lande, sem hrucku undann Josua? Jos.12. Hvad vard wr Pharao er hañ treyste á sijna miklu Makt og sagde: Hver er Jehova, ad eg skylldi hlijda honum? Exod.5. Hvad vard wr hinum sterka Goliath, er David rotade hann med Steins Hoggenu, 1.Sam.17. Nockrer treysta á Vijsdoom og Framsyne, enn þad er og Hiegoome. Hvad stodudu Absalon Achitophels Klookende? 2.Sam.16. Edur Adonia Joabs Slægvitska? 1.Reg.1. Bꜳda þꜳ sloou þeirra eigenn Þretter um̃ Hꜳlsenn. Hvar fyrer? Þviad Gud var ecke til Rꜳdaneytis tekinn. Sumer giora þennann fallvallta Mamon ad sijnu Athvarfe, 1.Tim.6. og vilia alla Hlute mz honum wtrietta, eñ þad er eitt veseellt Traust. Guds Gꜳfa er hann ad sonnu, ef hann er riett feingenn, annars ecke. Enn einasum mꜳ hann duga nema Drottenn hiꜳlpe, og allra sijdst mꜳ hann Sꜳlunne gagna, nema þeirra sem giora sier Vine af honum, er medtaka þꜳ i eilijfar Tialldbwder, Luc.16. og eru þar fyrer rijker i goodum Verkum, 1.Tim.6. Enn hvernenn sem ollum þessum er hꜳttad, þꜳ er hinum þo verst fared, er so lijtt treysta Gude sijnum, ad þeir meina ad Hofdingia og Verolldar Mañа Gunst mune duga þeim framar enn Ast hiñs mikla Allsheriar Drotteñs, er ollu rædur bæde á Himne og Jordu, og giora þvi margar oleifilega Hlute þeim i vil, enn moote honum, og ætla ad þeir mune kunna ad bera Skiolld fyrer sig, er þo ecker eiga under sialfum sier, þegar Drotteñ er reidur. Ofarer þeirra er so hafa breitt, mꜳ allvijda lesa i Ritninguñe; so sem þegar Drotteñ reiddest Juda Konungum, er þeir leitudu Hiꜳlpar til Syrlands og Egyptalands Konunga, og kioru helldr ad vera þeirra Naudungar-Meñ, eñ ad lꜳta Drotteñ rijkia yfer sier, og heita hañs Frelsingiar. Þvilijkt skylldu oll Guds Born varast, helldur leita hañs i allre Neyd, til hvers þeim er varpad i frꜳ Moodur-Lijfe, Ps.22. Og haga so Lijferne sijnu, ad hañ þecke þꜳ fyrer sijn Born, sijna Ast-Menn og Brædur sijns Eingietens Sonar Jesu Christi. Heyred þar fyrer Ord Drotteñs, af Esaiæ Spꜳdooms Bookar, 33.Cap. Hver hañ geingur i Riettvijsenne og talar hvad Riett er; hver hann hatar Rꜳngindeñ og Agyrndena, og helldur sijnum Hondum frꜳ þvi ad þyggia Skeinkingar, hver hann tilbyrger sijn Eyru, ad ecke heyre hañ Mañdrꜳp, og lykur Augu sijn til, ad eige siꜳe hañ þau Illsku Poreñ; Sꜳ mun i Hædunum bwa, og

Biorg-

Biorgeñ munu hañs Virke og Verndar Hlijf vera; hanns Braud mun honum giefast, sitt Vatn mun hann vijst hafa. Enn þu Doomare allrar Veralldarennar, sem i Himnenum bijr, vertu Sool og Skiolldur þinna Barna sem a þig vona, og láat þau alldrei verda hinum skæda Mordingia Dioflenum edur hanns Limum ad Herfange; laat þau bijda epter þier med þolennmæde, og sleppa þier ecke þar til þu blessar þau og innleider i þijns Sonar Dijrd. Bænheyr þad naaduge Fader fyrer hanns Forþienustu, Amen, i Jesu Nafne, AMEN.

# Fimta Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 13. Cap.

A Þañ Tijma. Adra Epterlijking sagde Jesus fraam fyrer þa, og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Manne, hver ed sæde goodu Sæde i Akur sinn; Enn þa Menn svafu, kom Ovinur hañs og sæde Illgrese med i bland Hveitenu, og gieck i burt. Eñ er Grased spratt upp og bar Avøxt, þa auglystest og Ill-Gresed. Enn Þioonustu-Meñerner geingu til Hws-Fodursins og sogdu honum: Herra! sæder þu ecke goodu Sæde i Akur þinn, hvadañ kiemur honum þa Illgresed? Og hañ sagde til þeirra: Fiand-Madurenn hefur þad giort. Þioonustu-Mennerner sogdu þa: Villtu ad vier forum og wtlesum þad? Og hann sagde nei, so ad þier uppræted eige Hveited under eins, nær þier wtlesed Illgresed. Læted hvertveggia vara allt til Kornskurdarens; Og a Kornskieru-Tijmanum skal eg seiga til Kornskurdar-Mañaña: Lesed fyrst samann Illgresed, og binded þad samann i Bindene til ad brenna þvi. Enn Hveitenu samannsafned i mijna Korn-Hlødu.

Exordium.

ÞAd eru hrædeleg Ord sem Esaias Spaamadur talar til Gydinga, Cap. 6. Er hann seiger: Heyred avallt, skiled ecke, siaed avallt, og þecked þo ecke. Gud vere oss lijknsamur! Hvilijkt er þetta skielfelega Straff? Hvad er vesæla enn ad hafa Skilningar-Vitenn af Gude þeiged, og hafa þo ecke Not af þeim til þeirra Hluta sem þau eru til giord? Þad er ad vera lijkur þeim Skwrgodunum er David umtalar; ad þau hafe Munn og mæle ecke, Naser og lykte ecke, Hendur og þreife ecke, Fætur og gange ecke, Ps. 115. Og er þo ecke ad undra þott soddañ Straff kiæme yfer þa sem þessa Mannleiñinga, þessa dauda Hlute, Stocka og Steina giordu sier ad Gudum, og dyrkudu þa i stadenn hinns lifanda Guds, sem bæde þau og alla Hlute skapad hefur: Þvi David seiger hier strax epter: Ad þeir ed giora þau, sieu lijker þeim. Enn

þess er ad giæta, Børn mijn, ad Spaadoomur þesse Esaiæ, hefur ætt sier leingre Alldur, enn um hans Daga, þvi þegar Drottenn Jesus framsette fyrer Foolked Epterlijkinguna um Sæded er fiell i fernslags Jord, Matth. 13. Og Lærisveinarner spurdu hann ad, hvar fyrer hann talade i Epterlijkingum til þeirra: Þaa vijkur hann þessum Spaadoome Esaiæ til Gydinga er lifdu aa hans Dogum og forsmaadu Evangelium Rijkesins, er hann bodade þeim, seigande: Þar fyrer uppfyllest aa þeim Spaadoomur Esaiæ, er seiger: Ad heyrande mune þeir heyra og ecke skilia, og siaande mune þeir siaa og ei þeckia. Ecke er sw Meining Frelsarans, ad Gud vilie ecke unna þeim Skilnings sinna heilogu Orda og Riettinda, þvi hann vill ad aller Menn hoolpner verde, og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Helldur seiger Esaias, og Drottenn epter honum Orsokena til þessarar andlegu Deifu og Blindne i sama stad med þessum Ordum: Hiarta þessa Foolks er hart orded, og þeir heyra þvnglega med Eyrunum, og lykia Augunum aptur, so þeir siaie ecke med Augunum, og heyre ecke med Eyrunum, og skilie med Hiartanu, ad þeir snwe sier og eg lækne þaa, Es. 6. Hvar af audsært er, ad Sokenn er hiaa Monnunum, og ecke hiaa Gude. Drottenn sette fram margar Epterlijkingar i þessum sama Capitula, og medal annara þaa ed samstundis var upplesenn, enn eingenn var saa ed spurde hann epter hennar Þijding, nema alleina hanns Læresveinar. So lijted ocktudu þeir þessa Guds Giof, þar fyrer var þeim ecke unt ad vita Leyndardoom Himnarijkes. Ecke þarf eg þessa fogru Epterlijking fyrer ydur wt ad skijra; hinn stoore Biskup, 1. Pet. 2. med þaa vel-lærdu Twnguna, Esa. 50. hefur þad so velgiert med faaum Ordum, ad ecke er Aboota vant, þar hann svarade Læresveinunum þanenn, Matth. 13. Saa er saade hinu gooda Sæde, er Mannsins Sonur, enn Akurenn er Heimurenn, enn hid gooda Sæded eru Rijkesins Syner, enn Illgresed eru Syner hins Vonda, enn Ovinurenn er saade þvi, er Diofullenn, enn Kornskurdar-Tijmenn er Ender Heimsins, enn Slaattu-Mennerner eru Englarner. Þar fyrer so sem Illgresinu verdur samansafnad og i Ellde uppbrendt, so mun og verda aa Heims Endernum. Mansins Sonur mun senda Engla sijna, þeir ed munu samansafna wr hans Rijke ollum Hneixlunum, og þeim ed yfertroodu Logmaaled, kastande þeim i Ellds-Ofnenn, þar mun verda Oop og Tannagnijstran; þaa munu Riettlaater skijna eins og Sool i Rijke sijns Fodurs. Hver Eyru hefur ad heyra, hann heyre. Þesse er Utskijringenn, Brædur mijner; og er þad Maala sannast, ad hun er so ægiæt, ad Gydingar hefdu vel maatt forvitnast nockud framar um Skilning Epterlijkingarennar, so sem Læresveinarner giordu, hefdu þeir lagt nockurn Hug aa sitt Maal. Enn þess er ad giæta, Born Guds, ad fyrst ad Spaadoomur Esaiæ naade til Gydinga sem lifdu aa Christi Dogum, meir enn 700. Arum sijdar, og var þaa af honum stadfestur; þaa er audvitad, ad hann eirnenn nær til vorra Daga sem nu lifum, þvi so sem þad ad Guds Rijke er til vor komed fraa Gydingum, sokum þess Þeckingarleysis sem i þeim var, Eph. 4. So eru og til vor komnar allar þær Vidlogur og Hootan-

er, sem aa þeim munu ad fullu hrijna, er giora sig þess enn nu i Dag overduga, og forsmaa Guds Son og under Footum troda, Hebr. 10. Nu fyrer þvi ad eingenn Þörf er ad vtskijra þessa Predikun Herrañs, framar enn giort er, so sem aadur er sagt: Þaa vil eg kvedia ydur þeim dijrmætu Ordum er hañ endar þessa syna Utleggingu med: Hver Eyru Hefur Ad Heyra, Hann Heyre, og alleina tala um̃ þaa Hlute af Gudspiallenu, er oss vekia meige til ad þeckia vorn Vitiunar Tijma.

Hiaalpa oss þar til O þu goode Gud! med Naad þijns Anda, fyrer Jesum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

FRelsáreñ seiger i ondverdu Gudspiallenu: Ad Himmarijke Sie Lijkt Manne nockrum Er Saade Goodu Sæde i Akur Sinn. Af hañs eigen Utleggingu Er audsied, ad Sæded merker hier annad eñ i nærst fyrerfarande Epterlijkingu, þar merker þad Guds Ord, enn hier Mennena, sem Guds Ord eiga ad heyra. Þessu gooda Sæde, saade Drottenn strax i Upphafe Skopunar. Gott Sæde voru þau Adam og Eva, þegar Gud saade þeim nidur i Alldengardeñ. Margt hefur þar Gras fagurt vered, mörg fogur Eik, og margur bloomlegur Avoxtur, þo eingenn nærre til lijka vid þau, þvi Madureñ var epter Guds Mynd skapadur, seiger Ritningeñ, Gen. 1. Vaaru þau þess vegna laangt af öllum skopudum Skiepnum aa Jordunne: Enn jafnskioott kom þar Fiandmadureñ, Gen. 3. og stack þeim audlegann Svefn-Þorn, so þau tooku nidur fyrer sig, og virdtu meir þaa Skiepnu Guds, sem þeim var miklu dæDre, helldr enn sialfa sig, epter slægdarfullre Diofulsins Aeggian. Sijdann hefr hann alldrei vantad Sæde til ad spilla Guds Akre med. Strax var þar eirn Mördinge i Adams Hwse, Gen. 4. Og þoott ad Gud sette hann wt fraa þeim litla Safnade sinna Barna, sem þaa var aa Jordunne, þaa varde þad ecke leinge, þar til Ovinurenn saade aptur Illgresenu aa medal Hveitesins, og kom Guds Sonum, sem voru þeir af Nidium Adams, er Guds Otta giættu til ad elska Mannaña Dætur, sem voru Cains Afspreinge; hvar af vox þad Illgrese, fyrer hvert ad Gud upprætte hina vantrwudu Verolld, Gen. 6. Þegar honum i þad sinn virdtest Kornskieru-Tijmeñ komenn vera, og ecke var epter nema Illgrese eitt aa Jorduñe, ad fraateknum Noa og hañs Hyske, og þo var þar eirn Spottare, eirn ohlijdeñ Sonur i hañs Hwse, Gen. 9. So ad epter Flooded, þegar þar voru ecke nema aatta Kornstaanger i Guds Akre, þaa var þo eitt Illgrese aa medal þeirra; Og er framlidu Stunder, kiæsde þetta Andskotans Saad-Verk so Hveited, ad þeis giætte valla, og þad so miög, ad þad ætlade ad vaxa upp i Himineñ, þegar þeir bygdu Turneñ Babel, Gen. 11. Og ætludu sier ad taka Raadeñ af hinum almaattuga, so ad eige skylldu þeir adskiliast, og so hefr þad jafnañ geinged fram epter Olldunum. Þegar Gud kallade Abraham af Ur i Calldea Lande, Gen. 12. Og uppfrædde hañ sialfur þeirre himnesku Speke, þaa saade hiñ alvitre Hws-Fader goodu Sæde i Canaans Lande, þo spratt þar upp strax eitt Illgrese, eirn Raad-Fugl Ismael, Gen. 21. Eirn

Offookuare, ein Ambaatt, sem ad vænvirdte Hws-Moodur siina, Gen. 16. J Kvide Rebecku voru twær Piooder, og sea meire offookte þañ miña, Gen. 25. Esau gudlaus Madur hiñ frooma Jacob, Gen. 27. Og þo var ecke Jacobs Hws fyrer utañ Illgrese; Þar var ein lauslæt Dootter, Gen. 34. Þar voru tveir Mordingiar, Gen. 34. Þar var eirn Sonur, er fleckade siins Fodurs Sæng, Gen. 35. Þar voru niju Brædur, er selldu siñ eigeñ Broodur Mañsale, Gen. 37. Læangt er soddañ allt upp ad telia. A medal Christi toolf Læresveina var þar eirn Drottenns Svikare, Joh. 6. Þegar Akur hañs Christne var sem bloomlegastur, so ad aller Hluter voru sameigeñleger med þeim tewudu, og þeir selldu Eigner siinar, og bæru fram fyrer Fætur Postulanna, Act. 4. Þæ skaut Diofullenn þar strax Illgresenu inn, þegar Ananias og Saphira leindu af Jardar-Verdenu, Act. 5. Hverneñ Simon hiñ fiolkuñuge, Act. 8. Spillte Guds Christne, er lioost bæde af Postulaña Giorningum og odrum Christenndooms Sogum. Og hversu miøg Paulus kvartar um Vanskickunena i Drotteñs Kvølldmaaltijd, 1. Cor. 11. So og skamarlegt Samræde med nakomnum sier, er hañ seiger, ad ecke heyrest jafnvel medal Heidingiaña, 1. Cor. 5. Þad mæ alkuñugt vera af hañs Briefum til Safnadarens i Corintho. Fyrst nu ad Diofulleñ fieck slijku til Vegar komed æ medañ Gud talade sialfur vid Meñena, eins og Madur vid Mann talar, æ medañ hanns Eingieteñ Sonur, voru Hollde iklæddr, flutte Eyrinde siins himneska Fodur hier æ Jorduñe, medañ heilagur Ande med siinelegum Krapte og Jardteiknum augliiste sitt Guddooms Allmætte i Moñunum og æ medal Mañaña, þæ ætlunst ecke til ad hañ mune nu sijdur verka i Bornum Vantrwareñar, Eph. 2. Þar vier meigum glogglega vid þad kañast, af þeim Lostum og Skomum, er daglega i Vext fara æ medal vor, ad Satan er ofañ komeñ, hafande Bræde mikla, Apoc. 12. Þvi mætte oss vera umhugad, ad þeckia vorn Vitiunar-Tijma, er oss so optlega bodadr verdr i Guds H. Orde, og vilie Meñ ecke Guds Vitiunar-Tijma þeckia, þæ þeckie Meñ þo Andskotañs, þvi sijdañ Christne hoosst i Lande þessu, hygg eg hañ alldrei hafe meira Rijke hast vor æ medal i sumum Hlutum, eñ nu um Stundir. A ollum Olldum hefur hañ sad Illgresenu æ medal Hveitesins; eñ þo hefur þad optast vered og vijdast, ad Skomeñ hefur Skom heited, og Dyggdeñ Dyggd, jafnvel hiæ þeim, sem ecke hafa Dyggdena elskad nie hatad Skomena: Eñ nu heyrest mier, ad Meñ hroose sier af Lostunum, og setie Dyggdaña Nafn uppæ þæ. Jsmael er tekeñ til ad offækia Jsaac, og Agar ætlar ad reka Sara wt wr Hwsenu. Abimelech er fareñ ad drepa hina skilgietnu Brædurnar, Jud. 9. So hañ Frillu-Sonureñ meige einsamall rijkia. Agyrndeñ er Frañsiine kollud, Drambsemeñ Hofdingsskapur; Hræsneñ Vitska, þegar Menn brioota Rietteñ, kalla Meñ þad ad byggia hañ; þegar Meñ sleppa Skalkum og Illrædes-Moñum ohengdum, þæ nefna Meñ þad Kiærleika og Myskunseme. Hyrduleyse og Toomlæte i siinu Kalle og Embætte, heiter Spekt og Fridseme. A Dogum Christi onijttu þeir Guds Logmaal med siinum Setningum, Matth. 15. Þa hofdu þeir ecke Log

Book nefnil. Moysis Logmaal. Eñ þess være oskande, ad ecke onijttu Meñ nu Konungsens Log mz sijnum eigeñ Þootta, nær þeim rædr so vid ad horfa. So falsar nu Andskotenn Guds Stedia a medal vor, og setur hanns Mynd og Yfirskrift a svikenn Maalm, og þetta verkar hann mz Slægd og Kunnaattu so mikelle, ad so sem Illgresed er vandþeckt fraa Hveitenu, adur enn þad er fullvaxed, Matth. 7. So þeckia Menn ecke þessa Ulfa, fyrr enn Sgudar-Giærann er af þeim dreigenn, og þeir bijta Hofuded af Skomeñe, so hun fær ecke leingur dulest. Veit eg ad FiandMadureñ brwkar Einfelldne og Hugleyse margra til slijkra Hluta, og er þad noogu Illt, þvi grætlegt er til þess ad vita ad Ferkærnskan og Otteñ fyrer þvi sinneckert er, skule so drottna i Verolldenne, ad smær añadhvort vite hvad þeir eiga ad giora, edur þore, þoott vita meige, eñ hvoruenn sem þvi er vared, þa villda eg þess oska, ad þegar Drotteñ lijtur af Himne ofann yfer Mañaña Sonu, Ps. 14. Ad hñ hefde þa ecke Orsok til ad klaga eins og Jeremias Cap. 5. Er hañ seiger: Nu vel, sa aume Flockureñ er skynlaus, vitande ecke neitt af Drotteñs Veige, og af sijns Guds Riettendum. Eg vil gaanga til hiña volldugu og tala vid þa, þeir munu vita af Drotteñs Veige, og sijns Guds Riettendum; Eñ aller samañ hofdu þeir Oked broted og Togeñ i sundur slited. Hvar fyrer kiemur nu oll þesse Olucka? Þvi hefur Fiandmadureñ so mikeñ Framgaang? Er hann sterkare enn Gud? Fiærre sie þvi, hañs Sonur hefur einusinne rænt hañ siñe Harnesku og sijnum Vopnum, a hvor hann treyste, Luc. 11. Hvad þa? Hvor er Orsokenn? Þviad Meñ vilia helldur liaa Limu sijna til Ibwdar Syndenne, helldur enn Riettlætenu til Verkfæra, Rom. 6. Gud vill laata erfida i sijnum Vijngarde, Matth. 20, Þar fyrer vill margur hafa sig undann þeigenn ad liaast honum til Þioonustu, jafnvel þoott ad þeim sieu Launeñ vijs a Himnum, er honum till Handa gaanga, enn þad er indællt ad giorast Verk-Þræll Andskotans, þvi hañ leggur Kodda under Hofud Syndarans, Ezech. 13 Þoott Meñ fyrer vijst vite, ad hann laune med Ellde og Breñesteine, Apoc. 14. Med Ope og Tañagnijstran, Matth. 13. So sem Drotteñ adkvedur sijdarst i Utskijringu þessarar Epterlijkingar. Þegar Meñ Svaafu, Kom Fiandmadurenn Og Saade Illgresenu Medal Hveitesins, seiger i Textanum. Ecke er med þessu meint ein Stiett helldur enn oñur, eñ alleina Tækefære þad sem Ovinureñ brwkade til ad saa Illgresenu nidursaad i Akurenn, þad var Svefn-Tijmeñ. Samt maa eg taka mier Orsok hier af til ad tala þar um, ad eg hygg oss verde nockud svefnsamt allnorgum i baadum þeim Stiettum, sm Yfer-Raadeñ hafa, so ad Fiandmañenum þar fyrer optlega giefest Tækefære til ad spilla Guds Akre med Illgresenu. Taked fyrst til a mijnum Helgedoom sagde Drotteñ vid Jerusalems Engla, er hann baud þeim ad slaa þa alla sem ecke teiknader voru, Ezech. 9. Eg vil fyrst taka a oss sem berum Aarons Skrwda, Hvorneñ mun lijda um hinar smaau Kornsteingurnar i Guds Akre? mun þar ecke vanta a stundum þann heilnæma Vokva, er þær eiga ad spretta af, so ad þeim kynne fafnad ad verda i Bindene Guds Barna, þegar Uppskieru Tijmeñ kiemur? Eg hygg

ad i þessu sie mikell Brestur hiaa allmorgum, hvad Gud nædarsamlega lagfære, og giefe þeim ad ydrast er i þessu er, so miog ad boota vant. Eñ seiged mier, hvad giora þeir ed þañeñ breita? Sofa þeir ecke? Mun ecke Fiandmadureñ hafa nooga Orsök til ad saa Illgresenu þegar so til geingur? Þad er hægt ad giora Hveited ad Illgrese, enn ad laata Hveited aptur hversa til sinnar fyrre Náttúru, þegar þad er einusinne orded ad Illgrese, þad heyre eg sagt ad sie omögulegt, so er þvi og vared i Guds Akre, margs Ungmennes Náttura kann ad vera good, enn þvi velldur Fiandmadureñ, og þeir sem eiga hier um ad hyrda, nær þeir forsooma sitt Verk, og giefa honum Rúm, ad hun venst a þad illa sem er audnæmt, þvi hun heyrde lijted af þvi gooda, og dregst so Unglingurenn a Legg, ad bægt kann vera vid ad giora, venur so adra epter sier, nær hann er gamall ordenn, so ad þesse Drepsoott smijgur so Mann af Manne, þar til hun spiller heilum Akre. Þeir sem eta þetta Illgrese, sem hier gietur um i Evangelio, verda blinder edur Glaamskigner; Hvad munu þeir verda sem uppalast med þeim er so eru uppalder? Blinder af blindum Leidtogurum. Og þetta sia nockrer af vorum Kieñemonnum og leggia þar ecke til. Sofa Menn þaa ecke? Mun Satan forsooma þetta Tækefære? Eg vil ei tala um þad, hversu lijted ad sumer af oss vanda Kienninguna af Predikunar-Stoolnum; Finnast munu þeir, ed ætla sig vel hafa reked Guds Erende, ef þeir fylla upp Eyru Tilheyrendanna med Hoareiste nockru og Mælge, þeirre er hverge a heima, enn giæta ecke ad þvi hvert hinn sturlade finnur Huggun þar i, hinn saarvijse Leidrietting, hinn dofne og hyrdulause Uppvakning, hinn ogudlege og saa ed forsmaaer Gud og hanns Riettinde, þad sem honum tilheyrer, sem er, Hooturn Guds-Reide, og eilijfrar Fyrerdæmingar.

Hvert aller þesser finna þad i eirnre Predikun, þad athuga sumer ecke so gaumgiæfelega a stundum; Þegar Menn hripsa eitthvad wt wr eirne Book til ad giora Assokun sijna, giætande ecke miög smaasmuglega ad, hvert þad gagnade ad tala a þeirre Tijd, edur i þeim Sofnude, sem honum er a Hendur faleñ til Umöñunar, samt þvo Meñ Hendur sijnar fyrer Foolkenu, og kalla sig saklausa af Bloode hiñs riettlaata, Matth. 27. sem þo ecke hrijn a þeim er tapast, sokum Faafrædis þessara Vesælinga. Eñ hañ sem i Guds Stad er settur, forsoomade ad giefa hañs Hiwum i riettañ Tijma þad sem byriar, Luc. 12. Og ætlar ad Gud mune ecke krefia þess af siñe Hende sijdañ, Ezech. 33. Jafnvel þoott hiñ faafroode meige deya i sijnum Syndum, nema Gud vilie meire Myskun a giora, vegna hañs Toomlætis er honum a ad undervijsa, og ámiña Forelldra og Hwsbændur ad giora Skylldu sijna, þar sem hañ fær ei sialfur tilkomest. Seiged mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Mun Ovinureñ ecke færa wt siñ Reit i Guds Akre vid allt þetta? Eg vil ei faa mier til Orda, hversu ad margur Leigulide er ragur i þvi ad straffa Odyggder og Glæpe hiaa þeim sem eru nockurs Maals metande, ein Maaltijd Matar, eirn Bikar aafeings Dryckiar, eitt Hundrads Virde edur minna a stundum, hyggr af allar Synder hinns gudlausa, hiaa þeim er so eru lynder, laun-

ande so skamarlega sijnum Velgiorda Mønum, ad þeir pretta þa um Gagn Saalar siñar, og hañ mesta Velgiorning er þeir kuñu þeim aptur ad sijna, sem er ad seiga þeim til Synda sinna, so vanhelga þeir Gud fyrer eirn Miolhnefa, so sem Drottenn ad Orde kiemst, Ezech. 13 Og þoott eckert af þessu i mille kome, þa helldur Ottenn fyrer Ofrijke þess volldugra, mörgum af þeim er sig kalla Uñbodsmeñ Christi, so i Taume, ad þeir ecke þora Muñenum upp ad luka, hveriar hellst Skamer og Klæke sim þeir horfa a, O! vei, O! vei, seiged mier i Guds Nafne, seiged mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Mun ecke Fiandmadureñ hlæa ad þessu, nær Guds Þienarar draga hañs Ploog so kuppsamlega, og fiña ad þad meige um vorar Tijder seigia, er Drotteñ sagde fordum um Hyrdarana i Juda: Aller þeirra Vokumenn eru blinder og vita alls eckert, mallauser Hundar eru þeir, og kunna ecke ad giellta; Þeir eru later, liggia og sofa giarna, Es. 56. Og þesser hiner grædugu Hundar, kunna þo alldrei sadder ad verda; Og þetta hid sijdarsta velldur, ad Meñ eru so spaker i þvi ad umvanda vid adra i Guds Stad. Balaks Fiemuner orka þess, ad Asnann verdur fliotare til ad seigia satt, helldur eñ Spamadurenn sim a henne situr, Num. 22. So þegar eirn Hofdinge fær ecke ad heyra Sañleikañ af Preste sijnum, sem a og ma seigia honum til Syndaña, ann allrar Misvirdingar, þa verdr hañ a stundum ad heyra þad af Fiandmañe sijnum, af hinum miñsta Þienara, af einum Boonda, sem giorer Skom til Kiennemeñsins, er þetta ætte ad giora sier til Forsvars hia Gude, enn hinum til Saalar-Bata og eingrar Mijnkunar, nema hañ þyckest meire Madur enn David, er þolde Nathan Spamañe Sañyrdeñ reydelaust, 2. Sam. 12. Og ef hañ heyrer þad af eingum af þessum, þa mun hñ þad heyra af Doomara alls Hollds a sijdarsta Deige. Og þoott Meñ sieu nu so spaker vid Hofdingiana, og þa hvorra Valld Meñ ottast, þa vantar Meñ ecke sumahveria a stundum, ad bruka sijns Embættes Myndugleika vid Lijtelmagnañ, ecke til ad leidrietta hañ, edur til ad vandlæta i Guds Stad, helldur til ad otta Mønum med þvi Vallde er vier hofum til ad leysa og binda Syndeña a Jordu, Matth. 16. Og til ad hefna sijn a þeim er Meñ þyckiast varhendt eiga, Gud veit ad eg lijg ecke, ad þesse munu Dæmeñ giefast, og þo fleire eñ eitt. Eñ eg bid ydur, ad þier athuged, þier sem þetta adhafest; Eg bid seige eg i Guds Nafne, ad þier athuged, hvad skielfeleg Hædung ad þetta sie, og hvorsu ad Blood Drotteñs Jesu, þad dijra Sættmaalans Blood mune hroopa i Himenenn, þegar þad er so Amennelegt hallded af einum Synda-Þræl, er næst ad þessu Guds Umbode, sem fyrer þeirra og allra Maña Synder er krossfestur; Seiged mier þier Vaarar: Mun Gud hafa nockrum umboded ad foottroda þañeñ sitt eiged Blood? Hvers miñste Drope ad er dijrmætare, eñ ad Himen og Jord meige i nockurn Samjofnud koma. Þessu vil eg hafa viked til þeirra er setia eirn Vesæling wt fra heilogu Altaresins Sacramento fyrer litlar edur aungvar Saker, og optlega þær er þeir sialfer þyckiast vid hann eiga. Vited þier ecke, þier Hræsnarar, ad þvilijk Utsetning er eitt Drotteñs Reidar-Slag til þess ad straffa med Gudlausa Meñ,

og

og hans Nafns Forsmænara. Þo skamest þier ydar ecke ad taka ydur þad i Hond til ad slaa þaa med, er ydur er illt i Skape vid. Hversu vel hafe þier geymt ydar Herra Bodords? Er hann seiger: Blessed þaa er ydur bolva, giored þeim gott er ydur ofsækia, Matth. 5. Ad þier sieud Born mijns Fodurs sem aa Himnum er. Enn þegar þier brwked hans dijrdarfullu Stgormerke til ad refsa þeim er þier þykest eiga Hefnder ad gialda, hvers Syner erud þier þaa? Ecke hans er skipade ad lijda Illgresed til Kornskieru Tijmans, helldr hins, sem er Mordinge Saalnana, Joh. 8. Ecke hans sem gieck i krijng, giorde gott og græddе alla, Act. 10. Helldr hanns er geingr um krijng sin greniande Leon, leitande ad þeim, er hann fæe uppsvelgda, 1. Pet. 5. Þegar Drottenn Jesus gieck um Samariam fordum Daga, þaa sende han undann sier Læresveinana, ad tilreida sier Herberge i Borgene, enn Bæar-Menn villdu ecke taka vid honum, þvi hann hafde han Snid aa sier, sm villde han reisa til Jerusalem; Enn Samaritani hotudu alla þaa, er sooktu helgar Tijder þanngad, þaa reiddust þeir Jacobus og Johanes, og sogdu: Meistare, villtu ecke ad vier seigium ad Elldr kome af Himne og fortære þeim, eins og Elias giorde; En han blessadur snerest vid, straffade þaa og sagde: Þier vited ecke hvers Anda þier erud, þvi Mansins Sonur kom ecke ad han tortijnde Saalum Manana, helldr ad hann þær hoolpnar giorde, Matth. 9. Þetta giordu þeir Johanes og Jacobus af Einfelldne og oforsu Vandlæte vegna Drottens, og þo aatalde han þaa so hardlega; Enn af hverium Anda giored þier. þetta? Ecke Guds, helldur Andskotans. Seiged mier: Er ecke þad ad kalla Elld af Himne, ad bana Monnunum hina kroptugustu Lækning Saalar sinar, og steipa þeim so til Helvijtis, ad so miklu Leite, sem i ydar Vallde stendur? O! þier skynlauser Vargar; Læted af soddann Æde, nema þier sialfer vilied þola Bræde Drottens um alla Eilijfd, i þvi Dijke sem rijkur af Ellde og Brenesteine, Apoc. 21. Vakned upp og sofed eige leingur; Giored Ydran, þviad ydar Hiarta er ecke riett fyrer Gude, Act. 8. Hver Eyru hefur ad heyra han heyre. Eg villde og faatt eitt vid ydur talad hafa, þier Veralldar Hofdingiar, med ydar goodu Leise: Munu þeir ecke finast ydar aa medal, er Svefn-Hoggvene aa i Doomara Sæte, edur nær Menn eiga ad giora Verk sinnar Kallanar, sem Gud og Konungurenn hafa þeim aa Hendur faled; Eg vil eige tala um þad, hversu Menn leita sier Fordilldar i ad spilla Stefnum og Vitnum, þvert aa moote Logmaalenu, nær Monnum rædur so vid ad horfa, ad wtleggia Logen epter þvi sm Menn þykiast vid þurfa i þad sin, og aka þeim eins og Seglum epter Vedrenn. Þau munu Dæme giefast, ad ein og hin same Doomare hefr i einne Sok dæmt epter einu Logmaale, og þvert aa moote hinu jama i odru eins Maale, ecke fyrer nockr olijk Atvik edur Hattalag Sakana, helldur alleina epter þvi, sm han hefur unad þeim til, sem hafa vered fyrer Doome hans. Seiged mier: Er ecke þetta ad sofa? Þyker ydur ecke Von aa ad Akur Fiandmansins groe vid þetta. Hversu oblijsner eru Menn i þvi ad tradka Maalunum og þoott eg segde blygdunarlauser, þaa segda eg ecke osmiked, þvi Menn giora þad so ber,

lega aa stundum, ad þad er øllum heilvita Moñum auglioost, ad Meñ setia þær Flækiur i Dooma sijna, sem eirn Tals-Madur, edur saa sem ætte ad veria Hofud sitt, skyllde ecke añarstodar þora ad brwka sier til Forsvars. Eg vil eige saa mier til Orda um̃ opeñ bera Riettar-Neitun, hvorsu Slægvitrer Meñ eru i þvi ad skioota Maalum aa Frest, aan allra Orsaka, so ad hiñ Faatæke og Einstædinguren̄, og jafnvel aa stundum þoott hañ sie Maals-metande, ef Doomaren̄ er honum mootfallen̄, þeir neydast til ad standa af Riette sijnum, og þeim leidest edur hafa ecke Efne aa, ad sækia hañ framar, og vilia helldur giefa epter Sok sijna, eñ spilla Tijdeñe, og voga Gotze og Omake uppaa þañ Riett, sem Meñ eiga ad sækia i þvilijkar Hendur. Hvad syneſt ydur nu gooder Meñ? Mun ecke Skaalkuren̄ og hiñ ogudlege vaxa vid allt þetta, og æfa sonnu Skam̃er ottalaust: Og þegar honum so hrockur yfer, sokum Raangsleitnis þeirra, er Riettenum eiga ad stijra, þa kallar hiñ ohlutvande, ad Gud hafe Þocknan aa sier, af þvi hañ lætur hañ vaxa til Kornskieru-Tijmans; Eñ þeir sem Gud hefur um̃ boded, forsooma ad taka Hneixled og hid Vonda i burtu wr Israel, Deut. 17. Þegar nu so ber vid, þa kalla eg ad Rietturen̄ sofe, af þvi eingeñ er til ad vekia hañ: Er ecke slijkt ad raada Dioflenum Verk-Þræla til Handa i siñ Akur? Sem ad miklu sijdur forsooma hañs Verk, eñ hiner er Guds Ploog eiga ad draga, og være gott ef hier med være kyrt laated. Enn þess være Oskande, ad ecke lidu Menn alleina hinar verstu Skam̃er og Ohæfu, helldur og tæke þær ecke i Forsvar; So sem er Vanskickun og Ol-Æde under Guds Orda Heyrn, Gudlastaner, Vanbrwkun hañs dijrdarfulla Nafns, til ad skiem̃a siñ Naunga med, og margt þvilijkt fleira, sem heidvirdur Madur mætte skom̃ast sijn ad nefna, enn sumer ecke blygdast vid ad forsvara, edur ad miñsta Koste nærre ostraffad laata, so þad sem añarstadar i Christnum Londum, er med Utlegd, edur og ødrum̃ þwngum Alogum straffad, þvi sleppa Meñ hier alldeilis, edur og laatast straffa þad so sem litla Yfersioon eñ eingann Stoor-Glæp. Eg hefe lesed i Guds Mañs Rite, er lifde fyrer Hundrad Arum hier i Lande, hvors Saal nu lifer i Himnenum, eñ Miñingeñ er agiæt aa Jordune: Hañ seigest hafa talad vid eirn Mañ, er sagt hafe: Ad hañ ecke villde sveria raangañ Eid, þoott honum sex Hundrud giefen̄ være, eñ hefde hid fiounda vered i Bode, þa munde kañskie hafa ruñed aa hañ tvær Grijmur, skrifar þesse Guds Madur. Þetta var ad sonnu ein Hofud-Skom̃, er hañ talar um̃; Eñ ecke hygg eg Meñ þurfe ad kaupa soddañ nu um̃ stunder sumstadar, þad mun faast okeipis, ef Doomaren̄ er velviliadur, þeim er aaliggur, sierdeilis ef ecke liggur vid nema Guds og Konungsins Riettur. Seiged mier: Mun þad ecke eiga hiaa þeim heima, er so þreita, sem Drottenn seiger vid Juda, Ezech. 16. Ollum Skiækum verdur Fie giefed til, eñ þu hefur giefed þijnum Fylgiu-Moñum Peninga. Er ecke þetta ad sofa? Er þad ad undra, ad þunnskipad er i Guds Akre af Hveite-Staungeñe, nær so til geingur, og þott Guds Þienarar kvarte hier um̃, og fære jafnvel slijkt under Log aa stundum, epter Skylldu sijns Embættis, þa faa þeir eingu aa orkad, mæta helldur Araasum þar fyrer, og eiblygdost

hiner

Þiner þar vid, þoott þeim sie hier um̃ brixlad, helldur slaa vid þui Hnackanum, so sem Menn plaga ad seiga, og giora eins og Salomon seiger um̃ Skiækuna, ad hun striwke sier um̃ Andlited og seige: Eg hefe eckert illa giort, Prov. 30. Þeir blygdast þar vid ad soñu um̃ Synndarsaker, eñ reka ei ad siidur Fiandans Erende, so sem ad hefdu þeir Valld sitt og Veitslur af honum þeiged, eñ ecke af Gude nie Konungenum. Þyke nu nockrum so sem ad þetta hitte a sig, þaa mun sa giesa Hliood af sier sem akiemur, eñ margt af þessu er almeñara og kuñugra, eñ ad hier þurfe mørg Vitne ad leida. Eg finn þad ecke med þui ad grafast þar epter, þetta er yfer allt seiger Drotteñ um̃ Klæke Gydinga, Jer. 2. Bref og Doomar Maña skulu þad satt giora, er eg ritad hefe, og sialfer þeir ed æsa þvilijkt, nunu þad þeckia, þoott eige vilie þeir ad giora, nema þeir sieu forbrender i Samvitskum, og hafe mist alla Tilfiñingu: Nema hiñ graaduge Hræ-Fugl Dioffulleñ hafe rigna lated i Augu þeim heitum Saur, eins og Titlingarner i Augu hiñs gamla Tobiæ fordum Daga, Tob. 2. Sagañ seiger, ad hañ hafe lækradur orded med Galle Fiskiarens, þegar þui var ryded a hañs Augu, þaa datt Hreystred af þeim, Tob. 11. Enn eg veit ecke hvad þessum mune til Lækningar verda, fyrst Guds Blood sær þess ei orkad, og ecke þad beiska Gall og Edik, er honum var bored, Matth. 27. Þegar hañ kvaldest fyrer þessar þeirra og allrar Veralldareñar Synder. Eg veit ecke hvad þeirra Augum mune uppliwka, nema hin stæka Svæla Helvijtis Ellds, hun mun liwka þeim upp ad vijsu. Añara Maña Augu skiemer Reikureñ og sliosgar þaug, eñ þessa mun hin eilijfa Svæla heilskigna giora, ad þeir so loksins siae hver añars Skom, sem hafa giort Sambaud a moote Gude og hañs Christe, og ecke villdu upplaata sijn Augu a moote hañs Riettlætis og Naadar-Geislum, medañ þeir plaagudu hañs Utvalda i Rijke sijns Fodur, sem er Hofdinge þessa Heims: Og þad er um̃ þaa riett sagt er Seneca skrifar um̃ Claudium, ad hañ ecke þeckt hafe ad hañ daudur var, fyrr en hañ sa Lijkfor sijna. Seiged mier nu i Drotteñs Nafne, seiged mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Er ecke þad ad vera Saadmadur Fiandmannsins, og spilla Guds Kornekru af øllum Kroptum? Hver Eyru hefur ad heyra, hañ heyre. So heyre þier nu Ord Drotteñs sem i Landenu bwed, þier sem hanns Umbod er a Hendur faled. Heyred þier sem standed fyrer Altare hiñs allra hærsta, hvad hañ bijdur ydur, af Ezechielis Spaadooms Bookar 33. Cap. Eg hefe sett þig fyrer Vord yfer Israels Hws, nær eg seige til hinns ogudlega, þu skallt Dauda deya, og þu varar hañ ecke vid, og seiger honum þad ecke, so ad hiñ ogudlege kuñe ad vakta sig vid sijnu ogudlegu Athæfe, so ad hañ meige lifa, þaa skal hiñ ogudlege deya fyrer siña Synda Saker, eñ hañs Bloods vil eg krefia af þiñe Hende. Og so ad þier kuñed mz þess meira Frelse og Myndugleika, og betre Samvitsku ad straffa, oana og aminna i Guds Stad, þaa haged Lijferne ydar so sem Christi Þienarar og Raadsmeñ hañs Leyndardooma, 1. Cor. 4. Giefande eingum nockra Hneixlan, so ad vor Þioonusta verde ecke lostud, helldur i øllum Hlutum hegdum oss, so sem Guds Þioonustu-Menn, epter Bode St. Paals, 2. Cor. 6.

Heyred þier hiner volldugu i Landenu, og þier sin Gud hefur Sverded i Hendur feinged, heyred þier Ord Drottens, læred gott ad giora, leited epter Riettenum, giored riett hinum underþryckta, læted hin munadarlausa Logum na, og taked ad ydur Mälefne Eckiunar, Es. 1. Hallded Doomen og Riettvijsena, frelsed hinn underþryckta af Hende Offookuarans, og sturled ecke hinn framanda, Fodurleysingian og Eckiuna, og giored eingum Ofrijke, seiger Drottenn Zebaoth, Jer. 22. Hyxed ecke med ydur, ad nær þier þessar Guds Aminningar ad eingu hafed, ad hann mune þa vera kiffur ydur, þoott hann þeige, Ps. 50. Og læte ydur vaxa til Kornskieru Tijmans, þvi hann mun straffa ydur og tala vid ydur under Augun; nema þier ydrest af Hiarta. Læted af illu og læred gott ad giora. Vandlæted i Guds Stad, og uppræted Hneixled og hid vonda wr Israel, Devt. 22. Annars mun þad heita fyrer ydur: O! þier af Moysis og Aarons Hwse, hver sem mig forsmaaer, þann vil eg forsmaa, 1. Sam. 2. Þijn Saala skal vera fyrer hanns Saalu, 1. Reg. 20. Þier erud Guder kallader, og aller erud þier Syner hins hæsta, gooder Menn, enn þo munud þier deya so sin Mannestiur, Ps. 82. Heyred þetta til samans andleger og veralldleger, heyred hvad Drottenn seiger ad Alijktun i Utleggingunne, ad Illgresenu mune verda kastad i Eldsofnen, þar mune verda Oop og Tannagnijstran. Ef þeirra Doomur verdr so strangur, sem fyrer ydar Vanræktar saker tapast, hvilljkur mun þa ydar Doomur verda, nema þier giallded varhuga vid. O! þier christner Menn, O! þier sem med Guds Sonar Bloode erud endurkeypter og i hans Dauda skijrder, Act. 20. Giefed Giætur ad sialfum ydur og allre Hiordenne, sem Gud hefur afrekad med sijnu eigen Bloode, hver i sin Stad, Punded er stoort, Reikningskapuren er mikell, Guds Blood er dijrt, hans Reide er þwng, Doomaren er strangur, Lijfed er stutt, Dauden er vijs, Helvijte er heitt, eilijfden er laung, og þier vited ecke nær ed Hwsboonden kiemur; Enn i hveria þa Att sem Eiken fellur, þar liggur hun, Eccles. 11. Læted ydur þvi ecke villa med ogudlegum Heimsins Dæmum, bered ydur eige saman vid þa sem þier kalled ydur verre, þeirra Fordæming verdur ecke ydar Afsbotun, þvi hver eirn mun sijna Byrde bera, Gal. 6. Nema þier ætled ad ydur mune þar fyrer verda roorra i Helvijte og Kvolunum, ad adrer sæta þijngre Hefndum en þier þykest hafa tilunned. Satt er þad ad sonu, ad Guds Riettlæte mun skamta Hegninguna epter Tilverknadenum, og vega Straffed wt epter Þijngd Syndanna, en giæt þess, ad ollum mun verda þar obærelegt, og so sem ad utvallder i Dijrd Himnanna munu ei ofunda hver annan, þoott eirn skijnegra en annar, so munu eige helldur fordæmder hafa neina Roo af þvi, þoott eirn kveliest meira en annar: Mæl þvi ecke Vondsku þijna saman vid hans, sem forþienad hefur heitara Helvijte, helldur gior Ydran aa medan þar seigest en þa i Dag, Heb. 3. So ei komer þu i þann Kvala Stad, Luc. 16. Helldur skijna meiger eins og Sool i Rijke þijns Fodurs. Þad veite hin goode Gud, ollum þeim sem under hans Merke strijda, i Utlegd þessare, fyrer Jesum Christum, AMEN.

A Hreint-

# A Hreinſunar Hatijd Mariu.

Gudſpialled, Luc. 2. Cap.

N Þeim Tijma. Þa Dagar heñar Hreinſunar fullnuduſt epter Moyſis Løgum, høfdu þau hañ til Jeruſalem, uppa þad þau a Hendur fæle hañ Drottne, ſo ſem ſkrifad er i Løgmale Drotteñs, ad allt hvad Kallkyns var, þad er fyrſt opnade ſiñar Moodur-Kvid, þa ſkyllde kallaſt Drottne helgad. Og ad þau giæfe Offred epter þvi ſem ſeigeſt i Løgmale Drotteñs, tvær Turtil-Dwfur, eda tvo Dwfn-Unga. Og ſia, ad Madur var þar i Jeruſalem, ſa ed Simeon hiet, og þeſſe Mañ var riettlatur og gudhræddur, bijdande epter Huggun Iſraels, og heilagur Ande var med hønum. Simeon hafde og Andſvar feinged af heilogum Anda, ad hañ ſkyllde ecke Daudañ ſia, neina hañ ſæe adur fyrre Chriſt Drotteñs. Og hañ kom af Andans Tilladan i Muſtered, og þa Forelldrarner høfdu Barned Jeſum i Muſtered, og giørdu fyrer hønum epter Sidveniu Lagaña, og hañ took hañ þa upp a ſijna Armlegge, lofade Gud og ſagde: Drotteñ! lat nu þiñ Þioon i Fride fara, epter þvi ſem þu hefur ſagt, þviad mijn Augu hafa ſied þitt Hialpræd, þad þu tilreidder fyrer Auglite allra Þiooda. Eitt Lioos til Uppbyrtingar heidnum Þioodum, og til Dijrdar þijns Foolks Iſrael.

## Exordium.

MArger Veralldar Høfdingiar, ſem og adrer vijſer og gooder Menn hafa ſier oſkad, ad þeir mættu lifa ſo leinge i Heime þeſſum, ad þeir feinge bunded Enda a Fyrerætlan ſijna; enn þad hefur þeim miſjafnt tekeſt. Auguſtus Keiſare er ſagt ad optlega hafe talad þad vid Vine ſijna, ad hañ villde lifa meiga, þar til hañ hefde ad fullu ſkipad Rijkis-Stioorneñe i þvi Roomverſka Vellde; Og verdur ecke a moote þvi ſagt, ad hønum tookſt þad ad miklu Leite. Eige verdur þvi helldur neitad, ad i þeſſum Aſetninge var mikel Hugprijde. Hinn ſtoore Solimañus Tyrkiaña Høfdinge, æſkte ſier ad deya ecke fyrr, enn hañ hefde uñed Høfud-Staden i Keyſarans Rijke, enn Gud liet þad ecke epter hønum, Daudeñ vañ a hønum adur eñ hañ fieck Borgena uñed, Og hender þetta marga þa ſem alleina vilia lifa til þeſs ad ſeilaſt a adra, og wtrietta gijrugar Hendur til þeirra Hluta ſem eige eru þeirra. Vijſenda Mañaña Oſk er ſwo giarnañ, ad þeir mættu lifa ſo leinge, þar til þeir hefdu aſloked Erfide ſijnu, Skriftum og Bookum, og ødru þvi er þeir fyrer Stafne hafa;

Og er i slijku twent ad skoda: Eitt er nockurskonar ærlegur Metnadur, og elska goods Nafns og Riktes epter sig daudann, hvad ecke er Lasts vert, þvi hun hefur morgum komed til Ydne og Astundunar. Annad er Vilie og Asetningur til ad kieña odrum, og sierdeilis Epterkomendunum, sem loflegt er og mikellrar Hroosunar verdt, þvi þad ber epter sier Elsku og Hugþocka mikeñ til Mañkynsins, hveriu eckert er aagiætara, eckert Gude þeckara, og ef eg maa so ad Orde komast, eckert Gude lijkara, þvi hann elskar oll sijn Handaverk. Eñ hverneñ sem ollu þessu er vared, þaa er eitt naudsynlegt, og eitt er þad gooda Hlutskipted, sem eingenn maa af þeim taka, Luc. 10. Er þad hafa wtvaled, sem er ad hafa so lifad, so trwad og so tilreidt sig, aadur enn Madur geingur Veg allrar Veralldar, Jos. 23. Ad hañ sie fullviss þar um̃, ad hann i Fride fare af þessum Heime. Þvi prijsa eg Hlutskipte hinns gooda og gamla Simeonis; Ecke so miog i þvi, ad honum hlotnadest ad siaa Heimsins Skapara og Endurlausnara med sijnum Augum, so sem hann hier seiger i Lof-Saungnum, og ad taka hann uppaa Armlegge sijna, so sem hitt, ad hann wt af fullu Trauste um̃ Guds Naad og eilijfa Vist med honum; saung so ad seigia þenna gledelega Lof-Saung yfer sialfum sier: Nu Lætt Þu Drottenn Þioon Þinn J Fride Fara Epter Orde Þijnu, Þviad Mijn Augu Hafa Sied Þitt Hialpræde. So þad maa kalla, ad hanns Lijk-Psalmur, og Fædingar og Fagnadar Diktur Endurlausnaranum tilkvedenn, være eirn og hinn same. Sæll er saa Kvidur er þig bar, og þaug Brioost er þu mylkter, sagde Kvinnañ fordum vid vorn Herra; Enn hann svarade henne: Hvad um̃ þad; Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau, Luc. 11. Þetta kiemur mier til þess, ad mier þyker meir koma til þess, ad Simeon beid med Þoleñmæde epter Huggun Jsraels, og ad heilagur Ande var med honum, helldur eñ hiñs, ad hann saa Jesum, og took hañ i Faang sier, aadur eñ hañ skylldest vid þetta Lijf; Þvi eingeñ er þvilijk Sæla og eingeñ Styrkur i Daudanum so mikell, so sem ad hafa sied Jesum med Trwareñar Augum, og fadmad hañ med heñar Ormum; Þad kienner hañ sialfur er hañ sagde vid Thomam: Af þvi þu saast mig Thoma trwder þu; Enn sæler eru þeir sem ecke siaa og trwa þo, Joh. 20. Þeña Kost eiga aller þeir ed Ord Guds heyra, i hveriu Jesus Christus hiñ krossfeste er oss fyrer Augum afmaaladur, Gal. 3. Saa sem epter þvi geingur, hann mun med Simeone allshugar feigenn og gladur skiliast vid hreckvijsa Verolld þessa, og kalla Daudañ sinn Abata. Og fyrer þvi ad þessa gooda Manns er minnst i Gudspiallenu, er strax var uppleset; Þaa vilium vier af honum læra, hverneñ vier eigum fridsamlega ad lifa, so vier kunnum i Fride hiedann ad fara. Þar til hialpe hinn naadarfulle Gud, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar Jesu Christi, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hvad Maña ad Simeon þesse vered hafe greiner ecke Ritningeñ um̃; þeir ed skrifa ad hañ hafe Kiennemadur vered, færa eckert til sijns Maals, þad er elge

helldur

helldur lijklegt, ahars munde Gudspialla-Madurenn ecke hafa þagad um̃ þad helldur eñ um̃ Zachariam Fodur Johañis Skijrara, Luc. 1. Lijklegre er þeirra Meining er ætla ad hũ vered hafe Sonur Hillelis er Gydingaña Meistarar seiga ad verid hafe Læresader Gamalielis, hvor ed sagde hina roksamlegũ Meining sijna um̃ Christne-Boded, er Olldungarner hielldu Raadstefnu um̃ Postulana og þeirra Lærdoom, Act. 5. Þetta er ad sõñu ecke vijst, enn ef so er, þa var þad ecke ad undra þoott Gamaliel framar ødrum Eigndest i þeña Lærdoom, þar hañ hefur aan Efa heyrt af sijnum Meistara, ad Huggun Jsraelis, epter hvorre hũ beid, munde ecke fiarlæg vera, hvad hañ ræded hefur af Spaadoomum þeim er voru af Messia, er þa tooku marger frem̃ ad koma. Meistarar Gydinga hofdu marga Læresveina, Joh. 4. Sem siaa maa af Christo og Johañe, Luc. 10. So hefur og aan Efa Simeon haft fleire eñ færre, og er þad vijst, ad hañ hefur ecke sijdst talad fyrer þeim um̃ þessa Hofud-Grein Trwareñar, er hlioodade um̃ Messiam og hũs Tilkomu, þvi ecke hefur hañ vered saa einaste er vænte epter hinum sanna Messia med Ahyggiu so mikelle; Þad seiger oss Lucas i þessum sama Capitula, af hvorium Gudspialled er teked, þar hañ skrifar ad Anna Dootter Phanuelis af Kyne Asser, hafe talad af honum til allra þeirra er Endurlausnareñar bidu til Jerusalem, hvörier aan Efa vered hafa af Skoola Simeonis edur hañs Lijka. Hvar af oss sie þad kieñt, ad Meñ velie til ad uppfræda Born sijn, ecke einasta vijsa Menn og lærda, helldur sidsama og Gudhrædda, þaa ed undervijse þeim i Otta Drotteñs, og temie þeirra ungu Ar aa Riettvijse og Gudrækne, ef þeir vilia ad þau life so i Heime þessum, ad þau sieu viss um̃ ad deya riettlaatra Maña Dauda, Num. 23. nær þau leysast hiedann. Þad stendur hier i Gudspiallenu um̃ Simeon, ad hañ hafe Riettlaatur Madur vered. Ecke meinar Ritningeñ hier, ad hañ hafe af sialfum sier vered fullkomlega Riettlaatur, þad er ecke hiaa mannlegum Kroptum ad finna. Aller vier meigum seiga med Job, Cap. 9. Vilie eg riettlæta mig, þa fordæmer minn Muñur mig. Ef eg seige mig saklausann, þaa syner hañ ad eg er raanglaatur. Vilium vier fyrer Gude riettlaater vera, þa meigum vier kasta fraa oss, bæde voru Riettlæte og voru Raanglæte. Riettlætenu i þañ Maata, ad Madur treyste ecke aa þad, helldur reikne þad Þreck ad vera, so hañ avviñe Christum, og fiñest i honum, hafande ecke sitt Riettlæte, sm̃ er af Logmaalenu, helldur þad sem er af Trwñe aa Jesum Christum eins og Paulus, Phil. 3. Eñ Raanglætenu þess vegna, ad Trweñ er daud aan Verkaña, seiger Jacob, Cap. 2. Og Gud er heilagur, honum lijkar ecke ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Hvad ecke er i þeirre Veru sagt, ad Madurenn giete alldeilis afklædst þessum vonda Syndareñar Ham, aa medañ hañ lifer i Holldenu, helldur aa hañ af fremsta Megne ad leitast vid ad krossfesta hiñ gamla Mañeñ, Rom. 6. Judar seiga i Skrok-Sogu siñe eirnre, ad þegar Noe giorde Sonu sijna fraa sier til ad byggia Verolldena, þa hafe hañ feinged þeim i Hendur nockrar Reliqvias edur Meniar hiñs gamla Adams, Fodur vor allra, kannskie lijkar þeim ed Papistar hafa dyrkiast epter sijna helga Meñ, og eru i miklu Gillde hiaa þeim. Sannvijsleg er Saga þesse

ad sönu, eñ þo miñer hun mig aa ad hugleida med Trega nockrum, ad Forfadereñ Noe,
sem var Riettlaatur Madur, Gen. 6. Og Riettlætesins Predikare, 2. Pet. 2. Til hvors
ad aller Menn i hiñe seirne Verolldu eiga Kyn sitt ad rekia, hañ hefur oss epterlaated
nockrar Leifar hiñs gamla Adams, er vier daglega finnum i vorum Limum, so ad
Paulus seiger; Hollded gyrnest imoote Andanum, og Andeñ i moote Holldenu, og þetta
er hvört aa moote ödru, so ad þad þier vilied jafnvel ecke giöra, þad giöre þier, enn ef
þier leidest af Andanum, þa erud þier ecke under Logmaalenu, Gal. 5. enn ef vier ecke
erum under Logmaalenu, þa erum vier Riettlaater, og þañenn var ad sonnu hiñ gamle
Simeon Riettlaatur. Eñ ecke meinar þo Gudspiallamadureñ hier þetta Riettlæte, od-
ur þad oss verdur fyrer Lausnarans Forþienustu til reiknad, helldur merker þetta Ord
Riettlaatur i þessum Stodum, þad sama og vier kollum goodañ Mañ og raadsvinnañ,
þañ er vandar Ord sijn og Giörder, bæde fyrer Gude og Mönnum, og so merker þad
vijda i Ritningunñe. Vertu froomur og riettvijs seiger David, Ps. 37. Þvi slijkum
mun ad sijdurstu vel gaanga. Hiñ Riettlaate sa ed framgeingur i Einfelldne sijns
Hiarta, mun laata farsæl Born epter sig seiger Salomon, Prov. 28. Þessa Riettvijse
aa hvör Christeñ Madur ad temia sier, añars er hañ ecke Christeñ; um̃ hana hefur marger
Heidinge vel talad, og hana so tamed sier, ad lijted hefur sijnst. Aboota vant fyrer Mañ-
a Auglite, hvar med þeir hafa giört Skom̃ til christeña margra hvörra, þeir ed eingañ
elska nema sialfa sig, og hyrda eckert um̃ hvörneñ þeir ansælast lijtelmagnann. Aristo-
teles seiger: Ad hun sie hin kostulegasta Dygd, og allar Dygder sieu i heñe fooignar,
þad er og satt, þvi aan heñar meiga þær ecke Dygdaña Nafn bera. Vitskañ og Fram-
sijneñ er Hreckvijse, ef ecke fylger heñe Riettvijseñ. Hugprijdeñ er eitt Boduls-Sverd,
nema hun stioornest af Riettvijseñe. Orlæted hvört aller Meñ elska, þad er þo Gloop-
ska og Athlæe Maña, ef þad vantar Riettvijsena. Sa sem eys wt Fiemunum sijnum
til onijtis, edur giefur þeim er sijst skyllde, enn lætur Þurfamañenn og Daglaunarañ
missa, Mun hann ecke ofvinnur og Daare kalladur? Sparsemenn er ein agiæt Dygd,
enn þo er hun best mz Riettvijsenne. Sa sm̃ sparar ödrum þad þeim byriar ad giefa,
hañ er kargur og ecke sparsamur, og ef hañ sparar sialfum sier þad sm̃ Lijkhameñ vid
þarf, þa er hañ sialfs sijns Obocke, ef hñ giörer þad af Kiergiu einne, og ecke til ad tem-
ia sitt Holld, ad hañ þess betur faae Gude þioonad, eins og Paulus seigest þrælka siñ eig-
enn Lijkhama; Eñ hitt er loflegt og Gude þægt, ef nockur sparar Lijkhama sijnum, jafn-
vel leifelegt Epterlæte fyrer hañs Saker. Eingeñ Dygd er agiætare eñ Myskunsem-
enn, mz henne kunna synduger Meñ allra mest ad lijkiast Gude Skapara sijnum, Luc. 6.
Enn ef hun er aan Riettlætis, so Menn vægia þeim sm̃ Gud bijdur ad straffa, þa er hun
ein Svijvirding og mesta Glæpur i Auglite hinns Hærsta Doomara. Og i einu Orde
ed seigia: Riettvijseñ er sw Mælesnwra, aa hvöria ad stikast eiga Ord vor og Giörder.
Veit eg ad einhvör kañ ad seigia; Eg ber ecke Vitsmune til þess, ad sia og þeckia hvad
riett er, hvörneñ maa eg þa giöra þad? Mier kañ optlega ad skiootast i slijku. Þar til

swara eg : Ad hellst er þad i Doomum og ødrum Vandrædum, ad Meñ þurfa so mikillrar Skynseme med, og er þeim raadlegt, sem eru sier Faavitsku sinnar medvitande, ad þeir sieu þar fraa, og ecke trode sier inn i Doomara Sæte, edur hlaupe til þess mikla Vanda, eins og lijfadur Hestur til Bardaga, sem þo margur Daare giorer, enn hverneñ sem þvi er vared, þaa er þad almeñelegt, ad margur giorer verr enn hañ veit, eñ øllum kann yfer ad siaast, þad er mannlegt, og maa þad hver Madur ødrum jaata; eñ i daglegre Uñgeingne, i Kaupum og Sølum, i Uñtale uñ Naaungañ, i Spekt og Kyr-Læte vid hann, i þeirre Virdingu, sem Meñ eiga ad sijna Forelldrum og Yferbodurum, þaa er eingenn heilvita Madur sø faavijs, ad hann ecke nockurn Veigeñ vite hvad hann aa ad giora, ef hañ giefur sier Stunder til ad athuga þad. Og hvad uñ gillder, erum vier ecke aller noogu vidkvæmer og grañskigner, til ad þeckia þad, sem oss siaalfum er aa moote broted? Eñ þessa Hugreñingu skylldum vier brwka, nær vier eigum nockru vid adra ad skipta, þvi hier ætla eg duge sw aagiæta Regla, sem Frelsarenn hefur oss epterlaated. Hvad þier villed ad Meñerner giøre ydur, þad giøred þeim eirneñ, Matth. 7. Og saa sem hana hefur jafnañ fyrer Augum sier, hann mun sijdur syndga. Eñ þetta forsmaaer nu Heimur þesse og þyker i þvi litell Vijsdoomur vera, samt ætlar hañ sier ad deya Simeonis Dauda, jafnvel þoott þeim verde ad Skyndingu i burtu svipt, aa medañ þeir hvad mest eru ad æfa Svik, Prette, Fiedraatt, Underferle, Fiandskap, og allra handa Raangsleitne, eins og ad þvilijkra sie Himnarijke. Enn eg seige ydur i Uñbode Guds, fyrer hveriu̇m eg stend, ad nema þier giøred Ydrañ, legged af Ligar og Prette, Agyrnd og Underhyggiu, og adra þvilijka Løstu, sem mootstrijda Riettvijseñe, þaa munud þier ecke iñgaanga i Guds Rijke. Þetta kieñer mier Jesus Christus, hver siaalfur er alls Hollds Doomare, og rædur fyrer Himnenum, er hann sagde, Luc. 18. Hver hann ecke medtekur Guds Rijke so sem Ungbarn, hañ mun ecke inngaanga i þad. Vered ydur nu samann vid soddañ eitt Barn, og rannsaked hvert þier erud þvilijker i Goodlyndenu og Einfalldleikanum, og ef þier kuñed ad fiña þess nockurn Mun, þaa vited, ad þier erud eins laangt fraa Himnarijke, þar er ei vid ad dyliast, nema þier villed reingia Ord Drottenus. Seiged mier, hverier munu sitia til Bords med Simeone, med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnaña, Matth. 8. Þad seiger David oss i Psalmenum 15. Med þessum Ordum : Drottenn, hver mun bwa i þinne Tialldbwd? Hver mun stadnæmast aa þijnu heilaga Fialle? Hann saa ed framgeingur flecklaus, og giører Riettvijsena, og talar Sannleikann wt af Hiarta, hver ed ecke bakmæler med sinne Twngu, og Naaunga sijnum eckert illt giører, og leggur ecke sijnum Naaunga neitt lastlegt til, hver ed einckis aktar hiñ ogudlega, enn i Heidre hefur hinn gudhrædda, hver ed helldur þad er hañ sver sijnum Naaunga, hver hann giefur ecke Fie sitt wt uppaa Okur, og tekur ecke Mwtur yfer þann saklausa, hver ed þetta giører, honum mun vel vegna æfeñlega. Hier siaaed þier, hverier ad verda mune Bord-Giester i Lambsins Brwdkaupe. Ydur hefur fyrer laungu boded vered, laangt er sijdann Hwsboondeñ

hiet

liet seiga: Mijner Uxar og aled Fie er slatrad, allt er til reidu, komed til Brwdkaups-ins, Matth. 22. Rannsaked nu sialfa ydur, hvert ad þier erud frijdder Brwdkaups Klæde, ef hann kann ad koma um Midnætte, þad er, nær ydur minnst varer. Eg veit þier seiged, ad Gud hafe morgum Syndernar fyrergiefed, o ja, þad er satt, eñ þo þeim einum, sm þeirra hafa ydrast wt af Hiarta, lated af illu og lært gott ad giora, Es. 1. Þetta vited þier hin rangsnwna Kynslood, enn merked þad þo ecke, samt uppeted þier þo Guds Foolk, og aled sialfa ydur, enn Drottenn akalled þier ecke, Ps. 14. So snwed aptur i Guds Nafne, snwed aptur, eg grætbæne ydur fyrer hid dijra Blood Jesu Christi og ydar Velferdar saker, leited Fridarens, og fylged honum epter, Ps. 34. Ottest Drottenn og giored Riettvijsenq, Act. 10. So Gud sære Velþoocknan a ydur, og burtkaste ecke eilijflega. Og er þad so sagt um Riettlæte Simeonis.

J annann Mata stendur hier um Simeonem, ad hañ hafe gudrækenn vered. So sem ad oll su Skyllda, er vier eigum Manunganum ad sijna, og oss er fyrerskrifud i hiñe fijdare Bodorda-Toblunne, hun er i Riettvijseñe iñefalenn. So er og hin er vier eigum Gude ad gialda, og oss boden er i hinne fyrre, i Gudrækneñe foolgenn. Hañ var gudhræddur Madur seiger Lucas, hañ brwkar þad Ord er merker Guds Dyrkara, þañ ed tæker hañs Bodord, ecke so af Otta, so sem af Elsku og Virdingu. Þañeñ a og christeñ Madur syndur ad vera, þoott þad sie ecke omijtt at hrædast Gud, af þvi hañ er riettlatur, og strangur Vandlætare, Exod. 20. Þa er þad eige fullkomeñ Guds Dyrkun. Otteñ duger til þess ad reka Syndarañ til Guds, þegar hañ hugleider þad, ad hañ hafe hañs Reide forþienad. Eñ Jhugan Guds fodurlegrar Giædsku, hañs Speke, hañs Þolenmæde, uppvekur Elskuna i Mañsins Hiarta, sem lætur oss verda eitt med Gude, og kveiker soddann Unadsemd i vorre Saal, ad Meñ forsma alla Hlute jafnvel hia Krosse Drotteñs, eins og St. Paall, Phil. 3. So eg ma seiga; ad Otteñ er Fader Gudhrædsluñar, enn Elskañ til hañs er Mooder ad heñe. Otteñ gietur hana i fyrstunne (þvi seiga gudlauser Menn, ad Ottenn hafe Gudena giort) enn Elskann tekur vid heñe, elur hana og nærer i Hiarta Mañsins, a medañ hun er ecke fullburda, eins og ein Mooder sitt Foostur, þar til hun kiemur i Lioos, og auglijser sig i goodum Verkum, og smamsamann vex hun eins og añad Ungmenne, epter fullkomnum Mælet Christi Alldurs, seiger Paulus, Eph. 4. So ad þvilijk dasamleg Skiepna Heilags Anda, skijn so sem eitt Lioos a medal hinnar hreckvijsu Kynsloodar, so sem ein Sool a Himnenum, ecke eins og Sool Ezechiæ Konungs, hver ed gieck til baka, 2. Reg. 20. Ecke eins og Sool Josuæ, hver ed stood kyrr, Jos. 10. Helldur eins og Sool Davids, hver ed gledur sig af ad hlaupa sinn Veg, Ps. 19. Þvi sa ed Gud elskar, honum þyker iñdællt ad giora þad honum lijkar, og lætur sier jafnañ i þvi framfara. Cicero wtmalar Gudræknena þañeñ, ad hun sie Riettvijse a moote Gude, hañ sagde vel þvi hañ sagde allt þad hañ visse edur vita kuñe, og var ecke meire Von a heidnum Mañe, og hefur hañ þo eñ þa talad christilegar (ef eg ma so seiga um eirn Heidingia)

i odrum Stad hier um̄, þar hañ seiger: Ef Gudhrædslañ er i burtu tekeñ, þa gietur þad eige odruvijs orded, enn ad allur Trwskapur og allt Samneyte Maña ꝍ medal, og hin kostulegasta Dyggd Riettvijsenn fare og i burt; Þetta er vijslega talad, þvi ſꝍ ſum ecke Gud ottast, sem ad i Augnablike gietur kastad honum i Afgruñ Helvijtis, hañ mun eige verda miog hlijfenn vid siñ Jafningia, þad ſꝍ Meñ ꝍ hinum Gudlausu Satans Prælum, er seigia i Hiarta sijnu: Þar er eingenn Gud, Ps. 14. Hvorke hallda þeir Ord nie Gierder, og eingum hlijfa þeir, sem þeir ſꝍ Hond yfer. Til þessa eru Dæme, jafnvel i Lande voru, ecke miog gomul, og er hier af audsært, ad þad er dagsatt er hins same skrifar, ad Gudleysed take allann Trwskap i burt wr Verolldenne, og spilli so Sambwd Maññana, ad ecke er vært i Heimenum ꝍn þess ad Menn ottest Gud, og þetta Valld Guds er so rijkt ꝍ medal Mannaña, ad jafnvel Afguda-Dyrkun Heidingiaña, sem voru ꝍn Guds i Heimenum, Eph. 2. hefur þvi vallded, ad þeir ecke uppatu hver annañ. So eg vil hier um̄ seiga, vidlijkt og Aurelius Alexander Keysare svarade þeim, er villdu giora Samkundur christenna Maña ad Dryckiu og Legu-Kofum, ad miklu betra være ad Gud þar med einhveriu Moote dyrkadest, eñ ad þar skylldu brwkast til slijkra Odꝍda. Þad var roksamlegt og konunglegt Svar af heidnum Mañe, so vil eg seigia, ad betra er, til ad hallda Samvist Maññana vid i Heimenum, ad dyrka Gud med einhveriu moote, þegar eige eru til þess brwkadar hinar verstu Synder og Glæper, sm̄ Dioful leñ lætur sier þioona med, helldr eñ hafa einga Trw ꝍ honum, þvi þad munde giora Verolldena ad Herbwdum Madianita, hvar eirn ryckte Sverde ꝍ moote sijnum eigeñ Broodur og Lagsmañe, Jud. 7. Satt er þad sem Johañes seiger, ad hver sem ecke elskar siñ Broodur, hvorn hañ sier, hvorneñ kañ hñ Gud ad elska, þañ hañ sier ecke? 1. Joh. 4. Eñ eg þore og ad seiga, ad hañ sem ecke elskar Gud, sm̄ hefr skapad hañ, endurleyst og helgad, hverneñ gietur hañ siñ Broodur elskad? Þvi bægt mun oss sem vonder erum, og under Syndena selldar, Rom. 7. ad elska Ovine vora, blessa þa er oss bolva, giora þeim gott sem vid oss Misgiora, Matth. 5. Nema vier giorum þad fyrer Guds Saker, og verdur þvi Otteñ og Elskañ til Guds undañ ad gꝍnga, og sie hun alvarleg, þꝍ er einsætt ad hitt ꝍ epterfylger, þvi ſꝍ sm̄ hañ elskar, hañ vardveiter hañs Bodord, 1. Joh. 5. Og er þetta eitt af þeim hellstu sem nu sagda eg, ad elska Ovin siñ. Hvad sem nu Heidingiar ritad hafa um̄ Gudhrædsluna, er alltsamañ goodra Giallda verdt, og dugar ad vijsu til þess, ad sijna oss christnum Moññum, hversu ad hun hafe þoott omissande, jafnvel þeim er mest litu epter þvi nꝍlæga, og ecke so epter þvi sem þar uppe er. Eñ St. Pꝍll kieñer oss heñar Nytseme miklu betur, 1. Tim. 4. seigande: Ad Gudhrædslañ sie til allra Hluta þarfleg, hafande Fyrerheit, bæde þessa Lijfs sem nu er, og so hins komanda. J gamla Testamentenu hafde þesse Hofud-Dyggd mikel Fyrerheit um̄ tijmañlega Farsælld, so sm̄ allvijda mꝍ lesa, bæde i Moysis Bookum og añarstadar, kañ skie þess vegna, ad Guds Foolk ꝍ þeim Dogum, hefdu fleyre Bodorda og Setninga ad geima eñ vier christner Meñ,

so og voru ecke Fyrerheiten̄ so lioosum̄ Dijrd hiñar: epterkomande Sælu i Guds Rijke, eñ sijdañ Jesus Christus hefur afmæd Ovinskapeñ, Logmaal Bodordaña, sem var inefaled i Setningunum fyrer sitt Holld, so sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Sijdañ vier hofum feinged ad sia og heyra þad sem marger Konungar og Spaameñ gyrntust ad heyra og sia, og saau þad ecke, Luc. 10. Sijdañ hafa Guds Astvi̇ner ecke so stoor Fyrerheit um̄ lijkhamlega Farsælld, og þad til þess, ad Sætleike epterkomande Alldar, hvern vier smockum i hinu gooda Guds Orde, Heb. 6. Hann yfergnæfer allañ tijmanlegañ Fognud og Medlæte, so ad þeir ed Gud elska og lijda fyrer Christi saker, eru glader i Hormungunum, og hallda þad mikenn Fognud, nær þeir rata i mislegar Freistingar, so sem Jacob bijdur, Cap. 1. Vitande þad, ad Reynsla Trwar vorrar, hun aflar Polennmædis. Ecke er vid þad ad dyliast, Br. M. Ad sa sem vill gudhrædur vera, hañ maa bwa siñ Hrygg under Christi Ok, 2. Tim. 3. Eins og þegar eirn Kappe bijr sig til Orustu, og þoott Gud lææte honum heppnast Lucku og Heidur i Verolldeñe, sem hañ og hefur morgum af sijnum Astvinum veitt, þa er þar þo alltijd einhver Baraatta, añadhvert hid innra edur hid ytra. Sie þar ecke añad, þa er þar Andskotenn og hanns Prælar, sem jafnañ offækia þa sem geinged hafa a Maala med Christo. Satan kieppest vid af ollu Megne ad nidurbrioota Guds Rijke, og alldrei lætur hañ af ad skioota sijnum Orvum a Guds Her i Verolldu þessare, so leinge sem hañ heiter Diofull og Andskote, og þarf til þess mikla Gudhrædslu og Alvorugiesne ad sa honum og hanns Arum i moote staded, bæde synelegum og osynelegum. Enn þegar hinn mikle Guds Kraptur er so maattugur i Breyskleika sinna Astvina, ad þeir saa stadest Araaser vondra Manna, þegar hann styrker þa og stoduga gioerer i sijnum Ordum og Trwnne allt til Æfelocka, þa kalla eg ad hvad mest sannest Ord St. Paals, ad Gudhrædslañ hafe Fyrerheit þessa Lijfs, og hefur hiñ almaattuge Gud þad optlega og undrunarsamlega framkoma laated, og lætur eñ nu i Dag a ollum þeim er honum treysta. St. Paall kallar hina utvolldu Guds, þau Kier i hañs Hwse, er hañ hefr til Heidurs sett, Rom. 9. A þesse Kier fellur Dupt nockud a stundum, so þad þender sig, ad þau verda jafnvel groomtekeñ. Vonder Meñ eru ein Pvaga, sem hann hreinsar þesse sijn Kier med, so þau verde hæf til Pioonustugiordareñar, og setur þau so aptur iñ i Guds Hws, nær þau eru hrein ordeñ, enn Pvoguñe kastar hañ i burt, ad hun verde Footum trodeñ. Gud leifer ad þeir ed hañ ottast, verde a Stundum nidurþryckter, eñ alldrei underþryckter, sa sem fæst vid eirn gudhræddañ Mañ, þad er so sem berie hañ eirn Klett med Vende, Vonndureñ slitnar, eñ Kletturen̄ verdr hiñ same, eins og sa er vill kiæfa Eldeñ med Oliu, hun fortærest, enn Elldureñ logar þess glaadar, þad er eins og ad binda Samson med Streingium, þeir hrucku i sundur eins og Hor-Þraadur, er hañ riette sig, Jud. 16. Samson hiellt sijnum mikla Styrk, allt þar til Skiækiañ fieck rakad hañs Haar af. Guds Born eru osigrande, allt so leinge þau hallda sier vid Drotteñ Jesum, hver ad er Safnadarens Hofud, Eph. 5. Eñ þegar þeim

verdur

verdur þad ad taka hina flærandu Dalila Verolldena i Fadm sier, þaa missa þau allt sitt Afl, hun stijngur þeirra Augu wt og giører þaa Philistæis, þad er Satans Børnum ad Herfaunge, jaa, ad Spotte og Athlaatre, nema Meñ danse epter þeirra Pijpu, og er þaa Daudeñ vijs, nema Meñ deyde sialfa sig ad nyju eins og Samson, Jud. 16. Þad er drepe hiñ gamla Adam mz hañs Gyrndum og Tilhneigingum, og burt kaste Fijsn Augnaña og drambsomu Lijferne, ad Meñ verde heilskiguer aptur, og sialfum Lioosed i hañs Lioose, er oss hefur fyrer siñ Dauda sett til Arfskiptes heilagra i Lioosenu, Col. 1. So er nu Gudrækneñ aa sig komenn, og so er hun þorf og nytsamleg, jaa, omissande i þessu Lijfe, enn þo gagnar hun hvad mest i Daudanum, þvi hann verdur þeim Inngaangur til Lijfsins, er Gud ottast, til ad medtaka þar Fyrerheit epterkomande Alldar. Saa sem hefur i Lijfenu tamed sier Riettvijsena vid Naunguñ, og Ottañ og Elskuna aa Gude, hañ fagnar Daudanum, og seiger gladur med Simeone: Nu Lætu Drotteñ Þioon Þiñ i Fride Fara Epter Orde Þijnu. Þvi eins og Simeon hafde Andsvar feinged af heilogum Anda, ad hañ skyllde eige Daudañ sia, nema hañ sæe aadur Christ Drotteñs, so bera og þesser jafnañ med sier Vitnisburd heilags Anda i sijnu Hiarta, ad þeir sieu Guds Born, Rom. 8. Nær sem þau leysast i burt hiedañ. Hverneñ kann soddañ eirn Guds Astvinur Daudanum ad kvijda? Daudeñ er ad sonnu hrædelegur, þvi hann er Verdlaun Syndareñar, Rom. 6. Enn hverium er hañ hrædelegur? Þeim sem ecke eru Heimenum dauder, eñ ecke þeim, hverra Lijf Christur er, enn Daudañ kalla þeir sinn Abata, Phil. 1. Daudeñ er oss syndugum Moñum, eins og Myrkred er Bornunum, þau ottast þad, þess vegna, ad þau ætla i þvi mune bwa nockurskonar Vode, og sierdeiles þau, sem heimsker Meñ leggia i Vana sinn ad fæla med Grijlum og Ofreskium: So er Daudenn, af þvi Menn heyra so miked uñ hanns Grimleika talad, þvi kvijda Menn so fyrer honum, og veit þo eingeñ hvad mikell hañ er: Hver veit hvert Meñ finna meir til i Daudanum, eñ i Fædinguñe? Þetta man eingeñ; Eingenn er helldur aptur komenn til ad seigia oss hitt.

Þar er varla nockur so lijtelfiorleg Tilhneiging, ad hun ecke forsmæe Daudann, Heiptrækneñ aktar Daudañ ad eingu; Þad sijner oss þeirra Dæme, er selia sitt Lijf fyrer Lijf Ovina sinna. Hvad margur hefur dæed fyrer Ast Kveña, sem er Hiegoome i sialfu sier. Sprach kieñer oss, ad honum sem aa moote geingur þyke Daudeñ sætur; Otte fyrer Vanvyrdu nockurre, giører Daudañ liettann, Medaumkaneñ giører hid sama. Þegar Ottho Keysare vilde helldur taka Lijfed af sialfum sier, eñ ad laata straahoggva Lid sitt nidur med Sverds-Eggium, þaa voru marger af hañs Fylgiurum, er alleina af Medaumkan logdu Hendur aa sialfa sig, eñ ef Hieggoomeñ virder Daudañ so lijtels, hvad liettur mun hann þaa vera þeim, sem fara i Fride hiedañ, og vita ad hañ er Iñgaangur til Lijfsins? Ritningeñ talar uñ Daudañ, so sem Endurlausn af Faungelse. Allur Israel saa Aaron leysast, seiger Num. 20. Eg gyrnest ad leysast hiedañ og vera med Christo, hvad miklu betra er, seiger Paall, Phil. 1. So þyker og ollum

þeim, er Heimureñ er krossfestur vegna Christs, og þeir Heimenum, Gal. 6. Þeir andvarpa med Paulo og seigia: Æ! Eg syndugur Madur, hver mun leysa mig fra þessum daudlega Lijkhama? Rom. 7. Ottast þvi ei ad deya, christenn Madur, helldur ad deya illa, þad mun þier til eilijfs Lijfs gagna. Þad er gott Daudañ ad ottast, til þess ad fordast þad med hveriu vier forþienum hinn eilijfa Dauda. Tijmañlegur Daude er ecke i sialfum sier ognarlegur, nema vier seiga vilium, ad þad sie illt, ad sleppa wr Fangelse, wr Þrældoome, wr Sioovolke; Þvi hvad er þetta Lijf annad? Þad er hrædelegt sem epter hann kiemur, ef odruvijse fer enn vel. Þad er vitañlegt, ad Daudeñ er Guds Bornum Jñgangur til eilijfrar Sælu. Og þvi skylldu eg þa ei vilia ganga eitt Siñ i Bardaga til ad viña heillt Konungs Rijke? Enn þeim er tapast, verdur hañ Leid til eilijfra Kvala. Nu veit eg ad Þioofureñ hrædest ecke Stigañ sem liggur upp i Galgañ, enn Snoruna hrædest hañ. So er þad og dærlegt fyrer þann sem hefr leitad epter Helvijte alla Æfe sijna, ad hañ skule hiñ tijmañlega Dauda hrædast, og ecke miklu helldur hiñ eilijfa sem a epter fylger, hañ mætte ofta og feigeñ verda, ad Helsootteñ og Fiørbroteñ mættu vara uñ alla Eilijfd, ef hañ mætte þar med sleppa fra hinum eilijfa Ellde, sem fyrerbweñ er Dioflenum og ollum hañs Englum, Matth. 25. Þvi þar mun betur bijta. Þar fyrer, O! þu syndugur Madur, nær þu sier hinn nakta og villt ei klæda hañ, hiñ svanga og villt ecke metta hañ, og hiñ þyrsta og villt ei giefa honum ad drecka, ja, nær þu sier Ovin þiñ hungra edur þyrsta, og villt ecke giefa honum ad eta edur drecka. Nær hiñ vollduge og hiñ vesæle standa bader fyrer Doome þijnum, nær þu att ad vandlæta i Guds Stad, edur hialpa hinum naudstadda til Riettarens, nær Reideñ tekur þig, nær Losteñ blindar þig, nær Agyrndeñ kvelur þig, nær Ofundenn freistar þijn, og i einu Orde ad seigia, nær Diofulleñ, Hollded og Heimureñ vilia locka þig, til ad styggia þinn Gud, lat þa Daudañ vera þier ognarlegañ, imynda þier hañ þa so sem eirn skielfelegañ Helvijtes Ar, þañ er bweñ sie til ad gleipa Salu þijna og færa i eilijfar Pijsler: Lat sem hañ fyrer Dyrunum stande, og eige ad heimta þig under hiñs vollduga Guds Doom, til ad giora Reikning fyrer þad, er þu ætlar samstundis ad fremia. Þañeñ skulu Meñ Daudañ hrædast, og hañ ed so giorer, og temur sier þetta Hugarfar, og lifer þar epter i Guds Otta og Trwñe a Christum, hañ þarf ei ad kvijda, hann mun med Simeone Daudanum fagna, hañ mun i Fride burtu leysast og deya riettlætra Maña Dauda. Hvad oss ollum, ja, ollum sijnum Bornum, hvar helst þau eru uñ Heimeñ, unne og veite Gud Fridarens, Gud Fagnadarens, og Gud Lijfsins og Daudans, fyrer sinn Eingietenn Son Jesum Christum, AMEN.

# Siotta Sunnudag epter Þrettanda.

Þessa Dags Evangelium sem skrifad stendur hia Matth. 11. Cap. Og so Predikunena þar yfer, ma lesa hañ tuttugasta og siotta Suñudag epter Trinitatis, hver og tilheyrer þessum Deige.

Fyrsta

# Fyrsta Sunnudag i Nijuvikna Fostu.

Gudspiallid, Matth. 20. Cap.

Y Þañ Tijma. Sagde Jesus til sinna Lærefveina, þessa Eyk- erlijking. Himnarijke er lijkt einum Hws-Fødur, sem wt- gieck sneiña Morguns, Verka-Meñ ad leigia i siñ Vijngard. Eñ ad giørdum Samninge vid Verka-Meñena, ad daglegu Penings-Gialldе, sende hañ þa i siñ Vijngard. Og nærre Pridiu Stundu gieck hañ wt, og leit adra idjulausa standa a Torg- enu, og sagde til þeirra: Fared þier og so i Vijngardeñ, og hvad riett- vijst er mun eg giefa ydur, og þeir geingu burt þangad. Og hañ gieck enn wt aptur uñ siøttu og nijundu Stund, og giørde slijkt hid sama. Nærre elleftu Stundu gieck hann wt, og fann enn adra standa idiu- lausa, og sagde til þeirra: Hvar fyrer standed þier hier allann Dag Idjulauser? Þeir søgdu til hañs: Þviad eingeñ hefur leigt oss; Hañ seiger til þeirra: Fared þier og i minn Vijngard, og hvad riettvijst er skulud þier fa. Enn þa Kvølld var komed, sagde Herrann Vijn- Gardsins til sijns Raads-Mañs: Kalla þu Verk-Meñena, og gialld þeim Verdkauped, og tak til fra hinum seinustu, allt til hinna fyr- stu. Þa komu þeir sem nærre elleftu Stundu leigder voru, og med- took hvør þeirra siñ Pening. Enn hiner sem fyrster komu, þeir þeink- tu ad þeir mundu fa meira; Og hvør þeirra medtook sinn Pening. Og þa er þeir høfdu hañ medteked, møgludu þeir a moote Hws-Fød- urnum, og søgdu: Þesser enu seinustu hafa eina Stund erfidad, og þu giørder þa jafna vid oss, sem bored høfum Hita og Þwnga Dag- sins; Eñ hann svarade og sagde til eins þeirra: Vinur, eige giøre eg þier oriett; Ertu ecke asattur ordenn vid mig uñ eirn Pening? Taktu hvad þitt er, og far i burt; Eñ þessum hinum seinasta vil eg giefa so sem þier. Eda lofast mier ecke ad giøra af mijnu hvad eg vil? Eda ertu þar fyrer rangeygdur, þo ad eg sie Goodgiarn? So verda seinaster hiner fyrstu, og fyrstir hiner seinustu; Þviad marger eru kallader, enn faer utvalder.

## Exordium.

Hegar St. Paall, 1. Cor. 2. skijrer fra, hvør ad hafe vered Atferd sijn i Christne- Bodenu, er honum vat a Hendur faled, þa talar hann so medal annara Orda: Þegar eg kom til ydar Brædur, þa kom eg ecke med Yfirlæte Ordañа

edur Spekeñar, er eg bodade ydur Evangelium. Þad mæ vijda sioa i heilagre Ritningu, ad Gud hefur ecke viliad læta sijn Eyrende vera bundeñ vid Maal-Snylle mikla. Þegar Moyses afsakade sig fyrer Gude fra Sendeforenne til Pharao, talde hann þad mest til, ad sier være þwngt um̃ Maal, þa svarade Gud honum: Eg skal vera med Munne þijnum og kieña þier hvad þu mæla skallt, Exod. 4. Vidlijkt fieck Jeremias ad heyra, er hañ taldest undann ad flytia Guds Eyrende til Jerusalems Mañna, og sagde: Ach Drotteñ, eg er ungur og kañ ecke ad tala; Eñ Drotteñ svarade: Seig ecke jeg er ungur, helldur til þeirra sem eg sende þig skallt þu fara, og þu skallt tala allt hvad eg skipa þier, Jer. 1. Hvi mun hinum Almættuga hafa þocknast ad haga þessu svo? Sialfur hefur hañ Mannenum Muñeñ giefed, Exod. 4. Skyllde hann þa ecke vilia læta brwka Gæfur sijnar sier til Dijrdar og Lofs? Þar hann eingann Hlut hefur i Natturunne forgiefens skapad, auk helldur Maalfæred, sem er ein med þeim betstu Guds Gæfum. Paulus kienner oss Orsokena hier til med berum Ordum, 1. Cor. 1. Segiande: Christur hefur sendt mig, ecke til ad skijra helldur til ad predika, ecke med Spakmælum, svo ad Krosseñ Christi verde ecke ad eingu. Hvorneñ mæ Krossenn Christi af Spakmælunum nockra Nidrun hafa? Þad kieñer Paall strax epter i sama Cap. Þvi sw Ræda um̃ Krossenn, seiger hann, er Heimska þeim sm̃ fyrerfarast, enn oss sem Hoolpner verdum Kraptur Guds. Eingenn Hlutur er svo foracktanlegur fyrer Heimenum, svo sem Christi Kross, svo ad þa sem hann a Herdum bera, kallar Postuleñ Afrak og Hreinsun Veralldar: Eckert er þo kroptugra Medal til ad draga synduga Menn til Himnarijkis, helldur enn hann. Afreks Verk hefur alldrei þvilijkt unned vered, hvorke a Himnum nie under Himnenum, svo sem þad, er Jesus Guds Sonur vann a Krossenum, þegar hann forlijkade Heimenn vid Gud, eñ nidurbraut Diofulsins Rijke, og took Herleidinguna ad Herfange. Þetta sitt Sigurmerke hefur hann feinged sijnum Strijds-Monnum, ad þeir bere þad fyrer Hertoga sijnum i hanns Bardogum hier a Jordunne. Skyllde nu svo dijrmætur Hlutur hafa sitt Agiæte af mannlegre Spcke edur Maal-Snylle, þa være honum þad ecke lijted Nidurdrep, hinns og añars vegna, ad þad mæ satt um̃ oss iata, sem Paall eñ aptur seiger: Ad vier erum ecke marger skynsamer epter Holldenu, 1. Cor. 1. Ecke marger gofuger, enn hia Gude er eckert Manngreinar Alit, Act. 10. Hann þecker best sijna, hann hefur faafroodum læted i faafræde undervijsa, svo hann giorde þa hyggna: Eñ þad er þo sw Faakiænska sem er allre mannlegre Vitsku ædre, 1. Cor. 1. Hann hefur med hinu sama Faafræde leidt þa Hyggnu til Guds Rijkis, sem hafa viliad fylgia Radum Paals ad verda heimsker, svo þeir vitrer yrde. Þad sie eg a Nicodemo, Joh. 3. Hvorn Jesus hondlade med, svo sem annann Brioost-Mylking, jafnvel þoott hann være Meistare i Israel. Og ecke hefur þetta einasta vered Atferd St. Paals, helldur og annara Christi Postula, hvorier i þessu hafa fylgt Dæme sijns Meistara, þvi jafnvel þoott ad allvijda meige rekia Spor hanns guddoomlega Vijs-

doóms

dooms, þaa eru þess og morg Dæme, hverneñ hañ teked hefur Lijkingar af almeñeleg-um Hlutum, til ad kieña faafroodum Guds Goru, til þess ad hinn heimuglege Kraptur Guds Speke, sem i honum bioo, mætte samfara verda þeim Hlutum er þeir best þecktu, og daglega fyrer Augum saau, er skyllde aan Aflaatz minna þaa aa þau Lijfsins Ord sem framfluttu af hanns blessada Munne. Til Dæmis hier uñ vil eg taka hina fogru Epterlijking er stendur i þessu H. Evangelio, wt wr hverre margur Verralldar Vitringur hefur raangar Meiningar spunned: Eg vil med faam Ordum tala nockud framar fyrer ydar Kiærleika uñ hennar riettann Skilning, þad framast eg veit af Guds Orde, og þar med hugleida hvernenn vier eigum ad skicka oss i Guds Vijngarde, so oss verde ecke þadann med Osæmd i burtu vijsad. Jesu, þu Blessada Vijn-Trie, aa hveriu vier innplantader erum! Send oss þinn Anda, sa ed leide oss i allann Sannleika, og kienn oss riettann Skilning þinna H. Orda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Allt fraa Upphafe Mañsins Skopunar og iñ til þessa Dags hefur Drotteñ wtgeinged til ad leigia Verka-Meñ i siñ Vijngard, og eñ nu gioerer hañ þad med Ydranar og Syndaña Fyrirgiefningar Predikun. Rodd Hroopandans heyrest eñ nu i Eydemorku Veralldar þessarar hiaa oss, seigiande: Giored verduga Avoxtu Ydraneñe, Oxeñ er sett til Rootar Triaaña, hvert þad Trie sem ecke ber goodañ Avoxt mun upphoggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Hws-Fadereñ hefur leigt Verka-Meñ i sinn Vijngard, eñ ecke Letingia, þar aa Guds Erinde ad giora, uñ hvert Jeremias so seiger, Jer. 48. ad bolvadur skule saa vera sm Verk Drotteñs gioerer svikfamlega. Eingeñ hefur sig sialfur leigdañ i þeña Vijngard, þad er sañkveded hier uñ sem Esaias talar under Persoonu Guds, Esa. 65. Eg er fundenn af þeim sem ecke leitudu ad mier, og mætte þad stoor Faasiña vera, hver sem þar riett ad hygde, þar vier so fundner erum, og i hañs Vijngard, þad er i Rijke Guds Sonar setter, ad laata Sysslaner þessa Heims vefiast so fyrer sier, ad Meñ þeinke añadhvert ecke aa Guds Verk, edur og giora þad med haangande Hende, þarfara være þeim ad alldrei hefdu þeir leigder vered, og stæde eñ nu aa Torgenu idiulauser, þvi so seiger Endurlausnareñ hiaa Luc. 10. Uñ þaa er ecke villdu medtaka Guds Rijke: Eg seige ydur ad Sodomæ mun bærelegra vera aa þeim Deige, helldur eñ þeirre Borg. Hvilijkt er þetta Br. M.? Hwsboondeñ er wtgeingeñ ad leita Þrælsins, Konungureñ ad biooda honum sem hafde burtu hlauped, hiñ alleina Rijke hinum allsþurfanda, Doomareñ Utlaganum, Brwdgumeñ henne sem driigt hafde Hooraner med morgum Elskuga, og hañ sem oss hefur elskad i Jesu Christo þegar vier vorum hañs Ovinir, Rom. 5. Oss sem ad elskudum Heim þeña, og þad sem i honum er, Fijsn Augnaña og Drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Þess gietur Johannes, 1. Joh. 4. J þvi er Kiærleikurenn, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hann elskade oss, og sende Son sinn til Forlijkunar fyrer Synder vorar; þo fæst hin auma Mañeskia so lijted uñ þaa Joiu, ec henne boden er i Guds Vijngarde, eins og

Menn

Meñ væru þangad leigder til ad bada i Roosum, og ecke til ad bera' Hita og Þwnga Dagsins. Hefur þa Jesus sveitst Bloodenu, Luc.22. Til þess ad vier skylldum i Syndareñar Epterlæte lifa? Hefur hañ Vijn-Pressuna troded, Es.63. Til þess ad vier skylldum færa swo Vijnber? Hefur hañ litad siñ Kyrtil i Vijne, og siñ Mottul i Vijn-Beria-Bloode, Gen.49. Til þess ad Syndareñ Blood Saattmaalans almeñelegt hallde? Heb.10. Hefur hañ þar fyrer afdrucked hiñ fleitefulla Kaleik Guds Reidi, ad vier skulum sitia ad Heimbode hinnar vondu Babylon, af hverrar Hoordooms-Vijne ad Þiooder nar drucknar eru? Apoc.18. Fiærre sie þvi. St. Paall kieñer oss þad længtum odruvijse, Eph.2. Er hañ seiger: Vier erum nij Skiepna i Christo, til ad giora Goodverk þau, er Gud hefr tilbwed ad vier gaungum i þeim; eñ hver eru þau Verk er hañ tilbwed hefur, eda hvilijk Idia er oss ætlud i hañs Vijngarde? Þad telur Paall upp, Gal.5. Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolennmæde, Goodgyrne, Giædska, Trw, Hoogværd, Sparneytne. Enn mier er Spurn, mun Brwdgumenn plocka morg þvijlijk Ber, þegar hañ iñgeingur i Alldeñgardiñ til ad skiemta sier þar med heñe sem hañs Hiarta elskar? Eg er hræddur um, ad þad farnest ecke betur sumum af Triamnum, helldur enn Eikeñe sem Frelsareñ bolvade þegar hañ fañ eingann Avoxt a henne, Matth.21. Nema midur sie, þvi hun bar einga, enn eg hygg þvi verr, ad finnast mune þeir ed bere illa eina, Gud klagade Jerusalem ad hun bære swo Vin-Ber og Villu-Vijnvide, Esa.5. Enn þess være ad oska, ad ecke yrde sagt til Christneñar, so sem hun nu tekur til ad gioraft, eins og til Jerusalem fordum: Samaria hefur ecke ad Helminge syndgad sem þu, þu hefur margfiolgad þijnar Misgiorder, meir enn þær, og þu hefur riettlætt þijnar Systur med þijnum Svijvirdingum, Ezech.16. Forum eige viller Vega, Bræður mijner, og þeinkium ecke, ad vier munum þvi alleina fyrerhlijta, ad vier leigder sieum, þad være hælfu verra, enn ad seiga: Abraham hofum vier fyrer Fodur, enn giora þo eingenn Abrahams Verk, Joh.8. Vier erum ad sonnu leigder, vier erum skijrder, vier erum Christo i Skijrnenne innplantader, enn hann seiger, Joh.15. Eg er hid sanna Vijn-Trie, og minn Fader er Akur-Madurenn, hvern þann Kvist a mier, sem ecke ber Avoxt, mun hann burt taka.

Hann seiger og ecke: Hver sem mier er einusinne iñplantadur, helldur hver sem blijfur i mier, og eg i honum, hañ ber mikenn Avoxt, þvi an mijn gieted þier eckert giort, eñ ef nockur blijfur ecke i mier, hañ er wtkastadur eins og Vijn-Kvistur, og uppþornadur, og þeir samañsafna þeim og i Elld kasta, og þeir munu brenna. Adur eñ Adam fiell fraa Gude, þaa var hañ af honum settur i eirn Alldeñgard, hvern hañ skipade honum ad yrkia, Gen.2. Og fyrst þvi var so hattad i Heilagleikans Stande, þa er lijklegt ad Gud mune eige vilia laata þad nu odruvijse vera i sijnum Vijngarde, þar vier erum Syndareñar vegna, under þad Logmaal skyllder, ad neyta vors Brauds i Sveita vors Andlitis, og næra oss med Erfide af Jorduñe alla vora Lijfdaga, Gen.3. Eñ ef þad a so ad vera i þeim Utriettingum, sem vier nærum a þetta lijkhamlega Lijf, hvad miklu framm

ad mun Þad skyldt i þeirri Saaluhiaalpar Erende. Vier hööfum aller stoort Pund af Gude medteked, eingen Þarf meira med enn honum tiltrwad er: Nockrer hafa Audlegd Verallldar Þessarar, sumer Embætte, nockrer Vitsku og Speke, og sumer Afl og Atgiorfe Lijkhamans. Af ollu Þessu byriar Reikningskap ad standa; Enn hvornenn foorst honum Þad, er bar sitt Pund fram Avaxtarlaust, hvort ed hann hafde i Jordu grafed? Hann fieck Þann Doom, ad Þeir skylldu kasta hinum onijta Þioon i hin ytsta Myrkur, hvar vera munde Op og Tanna-Gnijstran, Matth. 25. Hvad mun Þa verda um hann, sem ecke einasta skilar Avaxtarlausu Punde sijnu, helldur leggur Þad aa Satans Bord, til ad uppbyggia Þar med hans Rijke? Lijtt gagnar honum ad vera leigdur i Guds Vijngard, Þvi hans Idia er sw eina Þar inne ad giora Christs Kyrkiu ad Belials Krambwd, lijkur Þeim, er Gud talar um, Ezech. 16. Þu hefur teked mitt Gull og mitt Silfur, sem ad eg gaf Þier, og giort Þier Manns-Lijkan af, til ad hooraft med. Hinn onijte Þioon sagde vid Hwss-Fodurenn: Medtak hvad Þitt er; enn Hwss-Faderenn mun vid hinn vonda Þioon aptur seiga: Tak hvad Þitt er, sem er Fordæming Daudans, gack i burt fraa mier i eilijfann Elld, sem fyrerbwenn er Dioflinum og ollum hans Arum, Matth. 25. Drage Þvi eingenn sialfann sig aa Taalar, edur ætle Þad, ad i Drottins Vijngarde sie eckert, edur Illt ad giora. Hwss-Faderenn hefde ecke avitad Þaa, sem allann Daginn stoodu ydiulauser aa Torginu, hefde Þvi eins hættad vered i hans Vijngarde: Þar fyrer er Þad ecke noog, ad leggia Hondena aa Plooginn, enn lijta aptur, Þvi sa ed Þad giorer hann er ecke hæfur til Guds Rijkis, enn Þoott Þad sie sialfsagd Skyllda vor, ad erfida i Guds Vijngarde, so miked sem vier hefum Maatt og Megn til, Þaa vere eingenn so blindur, ad hann ætle, ad hann hafe til Skulldar ad reikna hiaa Gude. Ad sonnu seiger Paall, Rom. 10. Ad saa sem giorer hvad Logmaalsins er, hann lifer i Þvi, og Þad sama seiger sialft Logmaaled. Hver eru Þaa Launenn, ef Menn skulu tala epter Guds Riettlæte? ecke annad enn hann lifa skuli, og ecke deya; Levit. 18. Vier heyrum ecke, ad vorum fyrstu Forelldrum hafi heitid verid Launum nockrum, Þoott Þau vardveittu Guds Bodord; enn ef Þau bryte Þad, aattu Þau Dauda ad deya; so kunna vor Goodverk alldrei neitt ad forÞiena af Gude: Þad kienner oss Endurlausnarenn, Luc. 17. Seigande: Er Þar nockur af ydur, sem hefur eirn Þræl, er plæger, edur helldur Hiord aa Beit, ad hann seige til hans, strax sem hann geingur inn af Akrinum: Kom hingad og sit til Bords: Enn mun hann ecke seiga honum? Bw til Þad eg snæde, gyrd Þig og Þioona mier, Þar til eg hefe eted og drucked, sijdann skalltu eta og drecka. Mun hann Þacka Þeim Þræl fyrer, ad hann giorde hvad honum skickad var? Eg meina nei. So og Þier, Þegar Þier giort hafed, allt hvad ydr boded er, Þaa seiged: Vier erum onijter Þioonar, Þvi vier giordum hvad vier aattum ad giora. So hafa Goodverkinn einginn Verdlaun epter Riettenum, enn hinum Vondu tilheyrer Straff ad riettu. Goodverkinn eru jafnann Skyllda, enn hin Vondu eru Afgiord aa mooti Skylldunni. Hin bestu Goodverk forÞiena eckert, Þvi Þad er eins og ad betala Skulld sijna, enn hid minnsta Af-

brot vinnur til Reide, þvi þaa vantar so miked til Skullda Lwkningar: Þess gietur Jacob Postule, 2. Cap. Saa sem helldur allt Logmaaled, enn verdur brotlegur i einu Bodorde, hañ er sekur vid oll. Ad sonnu stendur hier i Epterlijkinguñe, ad Hwss Faderen̄ hafe giort Samning vid Verka-Meñena, um̃ eirn Pening; en̄ ecke er þad so ad skilia, Br. M. so sem þegar Madur semur vid Mañ, helldur talar Drotten̄ þetta ad mañlegum Plagsid. Peningur þesse er Jesus Christus, hinn sañe Israels Sikill, med hverium Joornernar leystar voru fraa Lijflaatenu aa gamla Testamentesins Dogum, en̄ syndugar Saaler fyrer Jesum Christum fraa eilijfum Dauda. En̄ Samningurenn skiede i Ondverdu vid vora fyrstu Forelldra epter Falled; þegar Gud af einskiærre Naad og Myskun siñe hiet þvi, ad Kvinuñar-Sæde skyllde i sundur meria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hañ verdur itrekadur so opt sm̃ vier heyrum af Guds Orde, ad vier sieum af Naad hoolpner vordner, og ecke af Verkunum, Eph. 2. Ad Gud hafe epter Myskun siñe giort oss hiaalplega, en̄ ecke af Verkunum, sm̃ vier giordum, Tim. 3. Þegar oss sagt verdr, ad hver sem aa Jesu Nafn trwer, skule ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3. Og þesse Samningur hefur eirn og hiñ same vered fraa hinu fyrsta Fyrerheite, og mun verda allt til Veralldareñar Enda vid alla þaa, er forlaata sig uppaa Sonarens Forþienustu med hreinne Trw, þvi Jesu þessum bera aller Spaameñ Vitne, ad i hañs Nafne fae þeir aller Syndanna Fyrergiefning, sem aa hann trwa, Act. 10. Og er hier af audsært, ad þetta er eingen̄ almennelegur Samningur, helldr lijkt þvi, þegar eirn goodur og raadvandur Madr heiter nockrum einhveriu goodu, aan allrar Verdskulldunar, þaa reiknar hann sig skylldugann þad ad hallda, uppaa þad ad hanns Ord bregdest ecke. Og ef ad finnast kann einhver so lyndur aa medal vor, sem vonder erum, hvad miklu framar mun Gud, sem er alleina goodur, vera bundenn vid sijn Loford; Luc. 11. Þar hañs Ord forgaanga alldrei, þoott Himmen og Jord forgaange, Luc. 21. Hvar fyrer eingenn kann wt af þessu Lausnarans Orda Tiltæke, ad reikna til nockurrar Verdskulldunar hiaa Gude, helldur blijfur hid sama, sm̃ Paall seiger, Rom. 3. Ad allur Heimurenn verde logfallenn fyrer honum. Og so sem þad, ad þeir sem komu um̃ siottu, nijundu og elleftu Stund, feingu af Naad þad þeir feingu, so er og samningureñ vid þaa fyrstu af einskiærre Naad giordur, þvi sialfraadur var Herrañ ad laata siñ Vijngard audañ liggia; nema hanns Giædska hefde knwd hñ til ad leita epter þeim, er hañ mætte hiaalpa. Jeg veit ad nockrer hafa steitt sig a þeim Ordum, er skrifar Jacob Postule, 2. Cap. Og þañeñ hliooda: Sier þu ecke ad Trweñ hefur samverkad hañs Verkum, og Trweñ er af Verkunum til Lyktaleidd, og Skrifteñ er uppfylld, er seiger: Abraham trwde Gude, og þad vard honum til Riettlætes reiknad, siaed þier þar fyrer, ad Madureñ riettlætist af Verkunum, og ecke af Trwñe alleina. Þetta hefur nockrum þoott gagnstædt þvi, er bæde St. Paall, og oll H. Ritning med einu Hlioode vottar, sem er þeirrar Meiningar, ad Madurenn verde af Trwñe hoolpeñ, og ecke af Verkunum, Rom. 4. Enn þess er giætande,

hver

hver ad sie Meining Jacobs i þessum Pistle. Hañ ætte Ordastad vid þꜳ er hielldu sig vel christna, ef þeir trydu ꜳ Gud, og jꜳtudu hañ eirn ad vera eins og Dioflarner, eñ auglijstu ecke Trw sijna med christelegum Verkum; Þad byrta þesse Ord, er standa skomu ꜳdur i sama Capitula: Ef Brooder edur Syster eru nakeñ, og skorter daglega Næringu, eñ einhver ydar seiger: Fared i Fride, vermed ydur og mettest, enn giefed þeim þo eige þad Lijkhamanum er þarflegt, hvad gagnar þad? So er og Trweñ, ef hun hefur eige Verkeñ, hun er daud fyrer siꜳlfa sig. Hier giorer Jacob bert fyrer Moñum hvad hañ meinar: So sem þad er ecke Myskun ad seiga; Verm þig og mettast, so er þad og ecke helldur Trw, ad seiga: Eg trwe ꜳ Gud og hañs Son, enn afneita Gude med Verkunum aptur ꜳ moot, so sem þad er eckert Myskunar-Verk, ad giefa allar sijnar Eigur fꜳtækum, enn hafa þo ecke Kiærleikañ, 1. Cor. 13. So forþiena og eige helldur Verkenn neitt i siꜳlfu sier: Vilie eg seiga, ad Verkenn viñe til nockurs hiꜳ Gude, þꜳ vil eg og seiga, ad Efned i einum Smijdis-Grip forþiene Laun, af þvi hañ er vel giordur, eñ so sem hañ kuñe ecke ad giora sig fyrer utañ Hagleik Mañsins, so hafa og Verkeñ allt sitt Agiæte af Trwñe, sem er Guds Verk i Mañenum, Joh. 6. Seiged mier þꜳ, hvar er þeirra Verdskulldan? Trweñ samverkar Verkunum seiger Jacob; Eg jꜳta þad, þvi ꜳn hennar væru þau Synd, Rom. 14. Hun verkar þat med þeim, ad þau syndlaus reiknast, forþiena þo eckert. Trwenn fullkomnast af Verkunum; Menn siꜳ ad eirn er sterkur, af þvi, ad hañ kann ad lypta miklu, añars visse eingeñ þad hann sterkur være. Lioosed þeckest ad vera Lioos af Byrtuñe. Abraham audsijnde sig ad vera trwadañ, af þvi hañ giorde hvad Gud baud honum; Þañen fullkomnast Trweñ af Verkunum, eñ ecke odruvijse, nema einhver villde seiga, ad Verkeñ være Partur af Trwareñar Veru, og være þad eins og ad seiga, ad þad være Mañenum verulegt ad gꜳnga og standa. Hiteñ fylger Elldenum, Harkañ Jꜳrnenn, Byrtañ Sooluñe, þo er hverke Hiteñ Elldur, nie Harkañ Jꜳrn, nie Byrtann Sool, eige helldur eru Verkeñ Trw, þo þau fylge Trwñe, og ecke riettlæta þau, þo þau framkome af þeim sem riettlꜳtur reiknast fyrer Trwna. Abraham trwde Gude, og þad var honum til Riettlætis reiknad seiger Jacob; Enn eckert gott Verk gietur Skrifteñ um, Gen. 15. Þegar Gud matte hañs Trw so mikels, helldur alleina um þad, ad hañ hafe Gude trwad til þess, ad hañs Sæde skyllde verda so sem Stiornur Himens, eñ Jacob tekr þad saman vid hañs Trwar-Verk, þegar hann villde offra Syne sijnum, Gen. 22. Til ad styrkia þar med sijna Meiningu, sem er sw, ad Trweñ sie daud ꜳn Verkaña, af Verkunum riettlætest Madr, og ecke af Trwñe alleina: Um Auglijsingu Trwareñar talar Jacob hier, og ecke um siꜳlfa Trwna, um Trwarjꜳtninguna fyrer Monum, og ecke um Trwareñar Krapt fyrer Gude, þad kieña mier hañs eigenn Ord i sama Capitula: Syn mier þijna Trw af Verkunum. Og ad þier vited, Bræd- myner, ad þetta er meir eñ Hiegoome eirn, þꜳ merker þetta Ord ad riettlæta, i H. Ritningu optast ecke añad, enn ad auglijsa sig edur adra riettlꜳta ad vera. Þu hefur

riettlætt Þijna Syster med Þijnum Svijvirdingum, seiger Drottenn um Jerusalem, Ezech. 16. Hvernenn kunne hun ad riettlæta, sem sialf var ollum Skömum vafenn? Enn þad kunne hun ad giora, ad sijna ad hun være sier riettlætare. Ad þu riettlætester þijnum Ordum, þegar þu dæmest, seiger David um Gud, Ps. 51. Hver vill Gud riettlæta? Sem sialfur er alleina riettlætur, enn ad byrta hans Riettlæte fyrer Monnum, þad kunna Menn ad giora. Tollheimtumennerner riettlættu Gud, er þeir skirder voru med Skijrn Johannes, Luc. 7. Hvernenn giætu þeir Gud riettlætt? Synduger Menn og framar odrum Lostum og Lijtum hladner, enn ad þeckia og openbera Riettlæte Guds, þad var þeirra Skyllda. Jacob seiger: Madurenn riettlætest af Verkunum. Enn hvernenn kann Madr ad riettlætast af þvi sem er eins og nidlags Fat, Esa. 64. Af þvi sem er Synd, Rom. 14. Af þvi sem er Skylldu-Verk onijtra Þioona, Luc. 17? Enn þess eru Verkenn umkomenn ad auglysa, ad Gud bijr i Mannenum fyrer Trwna, ad Trw Mannsins er kroptug fyrer Kiærleikann, ad þad sie lifande og ecke daud Trw, hver ed stioornast af H. Anda til goodra Verka, epter Bode vors Endurlausnara, Matth. 5. So lijse ydar Lioos fyrer Monnum, ad þeir dyrke ydar Fodur sem a Himnum er. Nu er þessu so vared Br. M. ad eingenn hefur til neinrar Skylldar ad telia hia Gude, og þad er þad sem Endurlausnarenn hier seiger i Epterlijkingunne under Persoonu Hwss-Fodursins: Vinur, Eige Giore Eg Þier Oriett, etc. Fyrst eingenn hefur af Gude neitt forskulldad, er þad þa ecke noogu-stoor Naad, ad hann hefur alla leigt i sinn Wijn-Gard, þad er, alla kallad til Ydranar og Syndanna Fyrergiefningar? enn þoott adrer bere þar Hita og Þwnga Dagsins, og sieu strax ad Morgne kallader, munu þeir meiga lijta raungu Auga til þess, þoott hann, sem um eingann Hlut er nockrum skylldugur, þoott hann, seige eg, mysskune einhverium a Daudastundunne? Mun Samuel meiga sia Ossioonum yfir Paulo? Jeremias yfir Tollheimtumannenum Matthæo? Matth. 9. Josias yfer Manasse? Baptista yfir Tito og Timotheo, edur þesser aller yfir Ræningianum a Krossenum? Luc. 22. Fiærre sie þvi, Gude er i sialfs Vallde ad lata hvern eirn hafa so miked fyrer Himnarijke, sem honum þocknast, þvi aller medtaka af Naad og ecke af Verdskulldan. Og þo eirn sveittest Bloodenu i Guds Wijngarde, fra þvi fyrsta hann hefur Vit a, og til þess hann giæfe Andena upp, þa hefur hann ecke med Verkunum meira forþienad af Himnarijke, helldur enn hinn sem i Andlatenu var kalladur, þvi a mille hinns eilijfa, sem er Guds Rijke, og þess er Endetekur, sem eru daudlegra Manna Verk, er eingenn Jofnudur, so eitt meige med odru kaupast ad riettum Solum. So vill nu Drottenn hafa sijnt, ad hiner fyrstu verde hiner sijdurstu, þegar Menn vilia ganga i Riett vid Gud, og mogla vid Hwss-Fodurenn, og sijdarster hiner fyrstu þegar hann vill Naadugur vera, þeim sem hann er Naadugur, Rom. 9. Og er þo ecke hier fyrer nockurt Manngreinar-Alit hia Gude, Þvi Marger Eru Kallader, Enn Faer Utvallder. Balaam, Saul, Achab, Judas, og adrer miklu fleyre, þeir voru kallader, enn þeir breyttu epter Fodur sijnum, og stoodu ecke i Sann-

leikanum, Joh. 8. Gud hefur ecke sagt þeim sem kallader eru, helldur þeim sem er trwr allt til Enda, vil eg giefa Coronu Lijfsins, Apoc. 2. Utvalningeñ er ad söñu alltijd viss hiaa Gude, þvi hañ hefur wtvaled þaa sem hañ veit i Kolluneñe stoduger standa munu, enn eingañ hefur hañ kallad med þeim Skilmaala ad hañ skyllde eige kuña fraa ad falla, enn vier erum ecke visset um̃ vora Utvalningu med odru Moote eñ þvi, ad so leinge sem Trweñ er kroptug i oss fyrer Kiærleikann, Gal. 5. So leinge erum vier Guds Born, og þvi rædur Petur riett, 2. Cap. 1. Talande um̃ Trwna og heñar Avexte, fremied i Trw ydar Dygdena, i Dygdeñe Vitskuna, i Vitskunne Sparsemena, i Sparsemeñe Þolennmædena, i Þoleñmædeñe Gudræknena, i Gudrækneñe brooodurlegañ Kiærleika, i Kiærleikanum Elskuna, þvi nær þetta er hiaa ydur, og yfergnæfer, þaa giorer þad ydur ecke ydiulausa, edur forgiefens erfidande, til Þeckingar Drottenns vors Jesu Christi, þvi hvorium sem þetta eige fylger, hañ er blindur, og leitar ad Veigenum med Hendeñe, gleymande þvi ad hañ er af gomlum Syndum hreinsadur; Þar fyrer kosted Kapps um̃ Brædur, ad giora ydar Kallan og ydar Utvalningu vissa, þvi nær þier þetta giored, munud þier alldrei falla. Med soddann Moote eñ eingu odru, verdum vier visser um̃ Utvalningu vora, þar fyrer hefur og Gud vijsad oss i siñ Vijngard til ad erfida, eñ ecke i Himinenn til ad rañsaka sitt leyndar Raad: Eñ so Meñ best vite hvorneñ þad samann hanger, þaa seiger Paall þad med faam Ordum, Rom. 8. aa þennann Haatt: Hvoria hañ adur þeckte, þaa hefur hann fyrerhugad, hvoria hann fyrerhugad hefur, þaa hefur hann kallad, eñ hvoria hañ kallad hefur, þaa hefur hañ riettlætt, enn hvoria hañ riettlætt hefur, þaa hefur hañ dijrdlega giort. Hvorrar Dijrdar og eilijfrar Farsællder oss unne ad niota um̃ eilijfar Allder, Gud rijkur af Naad, fyrer sinn Eingieteñ Son Jesum Christum, og sende þar til siñ H. Anda, Amen.

# Annann Sunnudag i Nijuvikna Fostu.

Gudspialled, Luc. 8. Cap.

A Þann Tijma. Og þaa ed margt Foolk var samañkomed, og þad dreif til hañs wr Stodunum, sagde hañ i Epterlijkingu: Saa gieck wt sem saade, ad saa Sæde sijnu. Og þaa hañ saade, fiell sumt utann hiaa Veigenum, vard Footum troded, og Fuglar Loptsins aatu þad. Og sumt fiell aa Hellu, og nær ed þad spratt upp, visnade þad, af þvi ad þad hafde eige Vokvañ. Og sumt fiell aa medal Þyrna, og Þyrnerner spruttu upp med og kiæfdu þad nidur. Og sumt fiell i gooda Jord, og þad vox upp og bar Hundradfalldañ Avoxt. Þaa ed hañ sagde þetta, kallade hañ: Hvor Eyru hefur ad heyra, heyre hañ. Eñ hañs Lææresveinar spurdu hañ ad, hver ed være þesse Epterlijking? Eñ hañ sagde: Ydur er unnt ad vita

Leinda Dooma Guds Rijkis, Eñ þeim ødrum i Epterlijkingum, so ad sjꜳnde þꜳ sjꜳe þeir eige, og aheyrande þꜳ skilie þeir þad eige; Enn þesse er Epterlijkingeñ. Sæded er Guds Ord. Eñ hiner vid Veigenn, eru þeir sem heyra þad, eñ epter þad kiemur Diøfullenn og tekur burtu Orded wr þeirra Hiørtum, so ad þeir skule ecke trwa og verda hiꜳlpleger. Eñ þeir a Hellunne, eru þeir, sem medtaka Orded med Føgnude, þa þeir heyra þad, og þesser hafa ecke Root, hvørier uñ Stundarsaker trwa, og a Freistingar-Tijmanum falla þeir frꜳ. Eñ þad sem fiell a millum Þyrnaña, eru þeir, sem þad heyra, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kiefiast og færa eingann Avøxt. Eñ þad sem i gooda Jørd fiell, eru þeir sem heyra Orded, og behallda þvi i goodu og sidsømu Hiarta, og færa Avøxt i Þoleñmæde.

## Exordium

Af hier vardvelted mijna Setninga og mijn Riettinde, sꜳ Madur sem þad giører, hann skal lifa af þvi, seiger Drottenn, Levit. 18. Riettvijst er þetta Løgmꜳl, so sem aller Doomar Drottenns, enn Obærelegt er þad syndugum Mønnum, þvi hvør er sꜳ ed Løgmꜳled hallded giete? Eingenn af øllum Adams Nidium, nema hann eirn sem giørdest Bølvan fyrer oss, Gal. 3. Er Løgmꜳlsins Bølvan forþienad høfdum. Bølvadur vere sꜳ sem ecke helldur allt þad sem i Løgmꜳlenu stendur, so hann giøre þad, seiger Moyses i Guds Umbode, Devt. 27. Þesse Kostur var obærelegur þeim sem ecke gieta eitt Augnablik syndlaust lifad, og er þad vijst ad hinn nꜳduge Gud hefur ecke sitt H. Løgmꜳl wtgiefed i þeirre Meiningu, ad nockur munde þad hallded gieta, helldur til þess, ad Menn skylldu laga siñ lifnad þar epter, ad so miklu leite sem mannlegur Kraptur fær ørkad. Og so i ødru Lage til þess, ad synduger Menn vita mættu hvad miked þꜳ brestur a ad uppfylla þad sem Løgmꜳled bijdur, so þad yrde vor Typtunar-Meistare til Christum. Nu þoott ad Løgmꜳled sie strꜳngt, þꜳ hefur hinn goode Gud lꜳted þvi alltijd fylgia Evangelium, allt frꜳ þvi hañ wtgaf þañ fyrsta Nꜳdar Bodskap, ad Kviñuñar-Sæde skyllde i sundurmerkia Høggormsins Høfud, Gen. 3. Stoor var sw Nꜳd ad søñu, og so stoor, ad øll Verølldenn gietur hana alldrei fullþackad. Enn so sem ad hun er mikel, so er og mikel þeirra Straff, sem hana forsmꜳ. Þegar Israel villde sig hafa undannþeigenn ad tala vid Drottenn i Horeb, er hann wtgaf sitt H. Løgmꜳl, Exod. 20. Þa sagde Gud vid Moysen: Eg vil uppvekia þeim eirn Spꜳmann af sijnum Brædrum eins og þu ert, Devt. 18. Og eg vil leggia mijn Ord i hanns Munn, hann skal seigia þeim allt hvad eg bijd honum, og hvør sem ecke heyrer mijn Ord, sem hann talar i mijnu Nafne,

af þeim hinum sama vil eg þess kresia. O vor Gud! Vert þu ofs nadugur, hverju illa er þeim fared sem Gud vill kresia Skulldar sinnar? Honum mun verda i hin ytstu Myrkur kastad, og mun ecke þadann utfara, fyrr enn hann hefur borgad hinn sijdarsta Pening, Matth. 18. Sem alldrei verdur um alla Eilijfd. Poott Logmaled være bæde streangt og riettvijst, þa gieck þo ecke hinn naduge Gud epter þeim Sektum sem þad Monnunum a Hendur sagde, vegna þess Lausnar-Giallds, er hann hafde sialfur tilbwed ofs og fyrerhugad i sijnum Eingietnum Syne, sem var sw eina Boot vid þvi Skare, er Diofullenn veitte Adam og ollu hanns Hyske; Forjmæle hana nockur, þa seiger Moyses ofs i þeim Ordum, er eg strax umgat, hvad vid þvi liggur, sem er ad Gud mune kresia þess af Hende hinns sama. Ef nockur syndgade a moote Moyjis Logum, þa vard þad þo forlijkad i gamla Testamentenu med Offrum og Fooruforingum, i hveriuni ad Christur var fyrermyndadur, so sem Paulus til Hebr. 10. vottar, a medann Syndenn var under Guds Polennmæde; Enn nu þar Skuggenn er i burtu horfenn, enn vier hofum sialfsa Hlutena, Rom. 3. Þa verdur Syndenn burttekenn med sannre Trw a Jesum Christum. Petta verdur ofs bodad i ollu Guds Evangelio, sem er hid andlega Sæded, af hveriu hinn nije Madur gietenn verdur i Hiarta voru, um hvert Frelsaren talar i þessa Dags Evangelio. Enn þad er grætlegt til ad vita, ad þesse Naad er so morgum frambodenn, kiend og predikud, enn so fæer hafa þess Not sem hier maa sia, fyrer þeirra eigenn Forsoomunar Saker. Vier viliu þetta H. Gudspiall nockud gior yfervega, og af þvi hugleida hvad Drotteinn seiger um þa fernslags Jord, er took vid Sædenu.

O vor Gud! Laat þitt Ord sem i Dag verdur kient, falla i gooda Jord, so vier færum þar af Avoxt i Polennmæde. Bænheyr þad himneske Fader, fyrer þinn Eingietenn Son Jesum Christum, AMEN.

## Utleggingen.

Vor Endurlausnare talar þanen um hina fyrstu Tilheyrendur i Upphafe Gudspiallsins: Ad sumt af Sædenu hafe falled utan hia Veigenum, og orded Footum troded, og Fuglar Loptsins hafe uppeted þad. Han leggur þad sialfur so wt, ad þad sieu þeir, sem vid Veigen eru, en epter a kome Diofullen og take Orded wr þeirra Hiortum. Þeir eru vid Veigenn seiger Jesus, og ecke a Veigenum. Þad mun vallda, ad Orded er Diofle num so audsookt i þeirra Hiortu, være þeir a Guds Veige, munde þad leingur vesiast fyrer hinum illa Ovin ad grafast epter þessum dijra Fiesiood. Eg em Vegurenn, Sanleikuren og Lijfed, eingenn kienist til Fodursins nema i giegnum mig seiger Lausnaren, Joh. 14. A þessum Veige Saaluhialparenar eiga ofs Guds H. Ord ad leida, anars faalma Men epter Veigenum og eru blinder, 2. Pet. 1. En hvorsu maa nockur sia Lioosid i hans Lioose, 1. Tim. 6. nema fyrer Christum i hans Lioose, sem er Guds Ord, ef Men snwa þar vid Bakenu, og ecke Andlitenu, enn horfa aller uppaa sin Veg, Es. 53. Hia Matth. 7. ræder Frelsarenn um tvenna Vegu a

þenan

þeñañ Hꜳtt: Gꜳnged iñ um̃ hid þraungva Ported, þvi hid vijda Port og hiñ breide Vegur leider afvega til Glotunareñar, og þeir eru marger er þañ gꜳnga. Þesser eru þeir er vid Veigeñ standa, Br. M. og hverra Vegum ad bijr Sorg og Armæda, og þeckia ecke Veg Fridarens, Esa. 59. Hverra Vegur ad er hꜳll, og þeir munu dreifast ꜳfram i Þokuñe og i heñe hrapa, Jer. 23. Lausnarenn seiger: Ad Sæded falle utañ hiꜳ Veigenum, hann meinar Akur-Reinarnar: Þad sem i þær fellur, vardveitest, þvi Jordeñ er plægd, og aller varast ad gꜳnga þar um̃. Eñ þeir sem vid Veigiñ standa i Guds Akre, eru sw Jord, er Ploogur Lognꜳlsins hefur alldrei genged um̃ til ad mijkia Akureñ, eige helldur Guds Vagn, sem ad er Evangelli Lærdoomur, til ad feita Jordena. Hvad sem þar fellur i, verdur af Fuglum Himens, þad er vondum Aundum uppeted, edur og Footum troded, þvi þꜳ er Perlum fyrer Svijn kastad, Matth. 7. Hvernēñ bijr Gud i Mañaña Hiortum? J sijnu H. Orde. Hvernenn ꜳ þad Hiarta tilreidt ad vera sem hann vill bwa i? Angrad og sundurkramed, Esa. 57. Þad sem ecke fellur i soddañ Hiarta, þad fellur utann hiꜳ Veigenum, utañ hiꜳ Guds Akur-Reinum, og verdur Footum troded, þvi aller Veiger Drottens eru Myskun og Sañleike, ollum þeim er vardveita hañs Sꜳttmꜳl, Ps. 25. Eñ Vegur ogudhræddra mun fyrerfarast, Ps. 1. Jesus seiger ad Johannes hafe komed med Veg Riettlætesins, Matth 21. Eñ hverneñ var sꜳ Vegur er Johannes kiende? Giored Yd̃ran, þvi Guds Rijke er nꜳlægt, Matth. 3. Sꜳ sem ecke geingur ꜳ þessum Veige, hañ geingur ecke ꜳ Guds Veige, ecke ꜳ Riettlætesins Veige, ecke ꜳ Fridarens Veige: J einu Orde ad seiga, hann geingur utañ hiꜳ Veigenum. Predikareñ seiger, Cap. 11. Ad hiner ogudlegu gꜳnge ꜳ Vegum sijns Hiarta, enn hvernenn Vegur er i þess Mañs Hiarta, sem dausheyrest vid Guds H. Orde? Þad er almenneleg Þioodbraut Lasta og verstu Klækia, hvar Agg, Reide, Þræta, Manndrap, Hoordoomur, Frillulifnadur, sem af Hiartanu framkoma, Matth. 15. Hafa troded sier Gadd i iskolldu Mannsins Hiarta, so Guds Ord sꜳ ecke Rwm i þeim, og ef nockud af Sædenu kañ ad hrioota þar iñ, verdur þad Footum troded. Þesser eru þeir er fyrer sidasaker gꜳnga inn i Guds Helgedoom til ad byrtast fyrer Mönum. Þeir Hræsnarar, vel hefur Gud um̃ þꜳ talad fyrer Munn Ezechielis, 33. Cap. Þu Mañsins Son, þeir koma til þijn so sem Foolked er vant ad koma, og sitia fyrer þier so sem mitt Foolk, og heyra þijn Ord, enn þeir giora þar ecke epter, helldur giora þeir Hꜳd-Vijsur þar af med Muñe sijnum, þeirra Hiarta stundar epter Abata, þu ert þeim eins og Amors-Vijsa, su ed lætur vel og er fogur ad leika, þvi þeir heyra þijn Ord, eñ giora þar ecke epter; og er þad skielfeleg Fꜳsiña, Br. M. Er hiñ slæge Dioful hefur blindad Mañaña Hugskots Augu med, ad Meñ leggia Eyruñ vid skamarlegum Ordum og fiflslegu Hiale, eñ byrgia þau fyrer Guds Evangelio, þau standa opeñ fyrer Hafgyu Saungum Verallדareñar, enn Brwdgumans Raustu heyra þau so þwnglega, ad ecke er sijnt þau mune bregda vid fyrr eñ Hofud-Engelsins Basuna lætur i Skyum Himens. Dæmasroed Æfeñtijre og Ligꜳ-Soge

ut lata Menn fier indælt ad heyra, enn vilie nockur framtelia Guds Dæmsemder um Stoorvyrke vorrar Skopunar, um Myskunarverk vorrar Endurlausnar, um Leyndardoom vorrar Helgunar, þar velger Men vid so sem odru Liettmete, so ey sie ecke anad i sumra Mana Fare, en ad þeir mune þeinkia hid sama um Guds Ords Þienara, sit Athenu Borgar-Men kvædu upp um Paulum, er han talde þeim christelega Trw, en þeir sogdu: Hvad mun Ord-Snæpur þesse vilia sier? Act. 17. Giæted þo ad i Guds Nafne christner Men, hvilijkur Hlutur ad Guds Ord er, þad er Foodur Salna vorra, Matth. 4. Þvi an þess munum vier deya, þad er Lijf og Ande, Joh. 6. Þvi an þess erum vier i Syndunum dauder, þad er Leidarvijser til Himnarijkis, Ps. 119. Þvi fyrer utan þad munum vier ofan fara i hin ytstu Myrkur, hvar vera mun Op og Tana-gnijstran. Og fyrst vier þetta vitum, og þad er i Hiortum vorum fyrer Doome Samvitsku vorrar sanproofad, þa þyker mier so ecke kvalrædur vera, og ecke mikid kvijda Helvijtis Pijslum, sem lætur þad eins og annan Vind um Eyrun þioota, so sem þad kome ecke vid han, sem af Gude er talad, og alltijd mune eitthvad til eilijfs Lijfs verda.

Næst þessu talar Endurlausnaren um þa er han samlijker grijttre Jordu, i hveria þegar Sæded fiell og spratt upp, þa visnade þad, af þvi þad hafde ecke Vokvan: Þesser eru þeir, sem heyra Guds Ord, og medtaka þad med Fognude, og hafa þo ecke Root, hviad um Stundarsaker trwa þeir, en a Freistingar-Tijmanum falla þeir fra. Jeg kan ecke anad ad seigia, en þessum er ad nockru leite betur hættad en hinum, þvi lijklegre er so til Apturhvarfs, sm ad smackad hefur hvad sætur ad Gud er, helldr en hin sem avallt mootstendur H. Anda. Þo er þad med þvi moote ad þeir late sig leidrietta af Anda Drottens, nær þeir villt fara, anars munu þeir bwa vid verre Kost en hiner, þvi þad Orded sm þeir heyrdu, mun fordæma þa, Joh. 12. Petur fiell fra a Freistingar Tijmanum, enn Jesu blijda Tillit snere honum aptur so han gieck wt og griet beisklega, Matth. 26. Aaron fiell fra, þegar hann ottadest Foolksins Reide, Exod. 32. Enn han hvarf aptur a Guds Veg, so hans Synd var honum ecke til Dauda reiknud. Siælfur Moysis var ecke langt þar fra, er han sloo tvelmsinum a Kletten, Num. 20. Hvar til han þo ei hafde Guds Bodord; En aller þesser voru nærsta leidetaner aptur a Guds Gotu. Judas fiell og fra, en skipadest ecke vid Christi Aminingu i Kvolldmaaltijdene, Joh. 13. Ecke vid hans blijda Avarp i Grasgardenum, Luc. 22. Og ecke nema til ills vid hin harda Doom er han sa ad ætlade ad ganga yfer sin Herra, Matth. 27. Saul fiell og fra a Freistingar Tijmanum, en leitade ecke Guds i sijnum Mootgange, helldur Galldra-Konunar, 1. Sam. 28. Þvi fiell han a sitt eiged Sverd, 31. Cap. Achab medtook Orded med Fognude, so han sat j Seck og Osku og griet fyrer Gude, 1. Reg. 21. En ecke ad sijdur fiell han fra og sende til Frietta vid Baal, en liet aflijfa Spamen Drottens. Þvi er eg viss um, ad þesser mune vorrelegre Kost eiga enn hiner, sem alldrei hafa a Guds Veige geinged, en hvad mun þessu valda Br. M? Ecke anad, enn ad Hiartad er hardt, so ad Sæded fær eingan

Vokva. Guds Ord hafa eige gierad uñed so a Prioosskuna, ad þad hafe smeigst i þenn
fyrer hreina Ydran, ad hid himneska Sæded hafe feinged nockra fasta Root. Marger
vilia Guds Viner vera þegar allt leikur i Lynde, enn þegar Soolbrune Mootlætings-
anna tekur til ad hafa sijnar Verkaner i Guds Akre, þa visna þeir Avexterner bræd-
lega sem ecke eru vel groodursetter. Ef Menn læta Steinen̄ i Elld, þa verdur hann
gloande um̄ Hrijd, enn ecke mijkest hann nema hann ad Osku brenne; Eins er þess
Manns Hiarta sem Spamadurenn klagar yfer, Jer. 8. ad sie hardara enn Dem-
ant. Drottenn typtar þa med Vende sijns Ords, enn þeir finna þar ecke til, hann
heller yfer þa Oleo Fagnadarens, þad geingur eige inn i Steinen̄.

Þegar Gud giefur Regn a Jordena, þa fellur þad eins yfer frioossama Stade og
ofrioossama, harda og miwka. Þad er vijst, ad hvorutveggiu bera nockurn Avoxt
medann þad yferstendur, enn þegar Soolen̄ tekur ad brenna, þa verdur sw Grein þess-
ara, ad hvad sem yfer hina hordu og omiwku Stade fiell, þad þornar brædlega upp,
þvi þad fan̄ eckert sier lijkt i Hellu-Steinenum, sem þad kyne ad vardveita: Hin Plats-
en̄ færa Avoxt þess meire og meire sem Soolen̄ meir verkar, þvi þeirra Mijkende hallda
þvi er þau hlutu, og hid besta þar af stijgur ecke upp i Lopted aptur, helldur snijst A-
vextenum i Vokva og Vessa: So verdur og Guds Ord predikad vondum og good-
um, bliwgum og hardsvijrudum. J þessum bren̄er Elldur Mootlætingan̄a allan̄ Vok-
va i burt, en̄ i hinum verkar han̄ fridsamlegan̄ Avoxt Riettlætesins, Hebr. 13. Alldrei
hefur Guds Kyrkia meir efłst enn i Mootgangenum. Þegar Jesu Nafn mætte ecke
nefna fyrer utan̄ Lijfs-Hæska, þa frioofgadest Guds Alldengardur best, þegar
Kraptur Jesu Bloods sem var i Ordenu, fan̄ Guds Akur mijktan̄ med bloodugum
Ydranar Tarum i Hiartanu, þa kviknade Kiærleikuren̄, þa spratt upp Þolen̄mæd-
en̄, þa grere Trwen̄, þa voox Lijtelæted, þa lifnade Myskunsemen̄, þa dafnade Hoog-
værden̄, þa bran̄ Elskan̄ til Guds hvad heitast, so ad hverke Lijf nie Daude, hverke
Englar nie Valldstietter nie Hofdingia Dæme, hverke hid nalæga nie þad epterkom-
anda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur on̄ur Skepna, kun̄e ad skilia Guds Eiskendur
vid þan̄ Kiærleika, sem er i Christo Jesu, Rom. 8. En̄ sijdan̄ Mon̄um took til ad leidast
ad draga Oked med Christo, þa hefur ecke Ploogur Logmalsins rist so diwpt i Man-
an̄a Hiortum. Men̄ vilia aller med honum rijkia, en̄ fæster med honum lijda, og hygg-
ia ad mæturleg Gudhrædsla duge noog til Saluhialpar, þar fyrer koolnar Hiarta
Mannsins so, ad Guds Ord, þad himneska Sæded, verdur ecke i Bein og Merg in̄-
drucked, fyrer þvi vex og Korned i Guds Akre miog so þun̄t, so ad eitt Staungen̄ æpe
til an̄arar, og Andskoten̄ hefur med Baale oleyfelegrar Heimsins Elsku brent oss mar-
ga Dijla þar inne; Þar fyrer tem þier christelega Ydran, O þu Guds Barn, sem villt
Saluhialpena erfa! a medan̄ Gud lætur þier af Oskum geingna, og kalt Minning þin̄a
Synda og han̄s Afgiafa mijkia Hiarta þitt, so ad H. Ande sem byr i Ordenu meige
nna þar in̄e, þviad þu veitst ecke nær ed Hite Freistingan̄a tekur til ad bren̄a, og þu

þurfte

er bærdlega á ad hallda, og þoott þad verde eige fyrr eñ á Daudans Stundu, sem hvorn Dag yfer hanger, þa þeink ad þær eru þa vijsar; Enn eingum hefur veitt af á þeirre hördu Tijd, þeim einum hefur þa best vegnad, vid hvoria Ande Drottenns hefur talad i Hiartanu, i þvi Ordenu sm þær ádur mundu og rootfestu þar inne, til heilnæms Veganestis i giegnum hinn myrkva Daudans-Dal, inn á Land lifande Manna.

Hinum Pridia Tilheyrendum dreguf vor Herra Dæme af þvi Sæde sem fiell á medal Þyrna, eñ Þyrneñ spruttu upp med og kiæfdu þad nidur: Þad eru þeir seiger hann, er heyra Orded, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kefiast og færa eingañ Avoxt. Hvilijka Hindrun ad þetta Illgrese giore Akur-Londum Guds, eru fleire Dæme til, enn segia þurfe. Margañ hefur Bwksorg og Ahyggia frá Gude dreiged. Þar sem þiñ Fiesioodur er, þar er þitt Hiarta, seiger Endurlausnarenn, Matth. 6. Hvorneinn fá Meñ þa under eins Gude þioonad og Mamona? Endurlausnareñ seiger, ad Þyrneñ hafe vaxed upp med og kiæft Sæded nidur. Ecke seiger hañ ad Korned hafe ecke og nockud vaxed, eñ þo er þad eige ad meira leite eñ so, ad hañ reiknar þad fyrer eingañ Avoxt, Hvar fyrer? Af þvi Þyrneñ hofdu Yferhond, enn Korn-Staungeñ þroskadest alldrei, so ad Axed næde ut ad sprijnga. Lijkt er þetta Gudhrædslu sumra Maña, þeir ed giarna rækia Ord Drottenns, þeir hafa þad um̃ Hond, þeir bidiast fyrer, þeir táraft fyrer Gude, þeir sijngia og lesa, þeir heyra giarna talad um̃ Gud og hañs H. Dámsemder, og láatast þad sialfer giora med fullre Alvoru, eñ straffa adra sem þa eru toomlaater i sinne Þioonustu. Enn þegar Brooder edur Syster eru nakeñ, og hafa Skort á tijmannlegre Næringu, þa giefa þeir þeim þo ecke hvad Lijkhamanum er naudsynlegt, Jacob. 2. Þegar þeir siá Þioofeñ, hlaupa þeir med honum ad stela, Ps. 50. Ef ecke med almeñelegre Launung, þa med Yfervarpe Laga og Riettinda. Siáe þeir nockud girnelegt, verdur Bwksorgeñ þeim so obærelig sem Achab, ad þeir nærre þvi leggiast upp á Sængena, 1. Reg. 21. Nær þad er ecke fyeer Augunum sem eta skal, þa er ecke Trwañ á Gud betur grundvollud eñ so, ad Meñ spyria med Heidingunum, hvad skulum vier eta, eda hvoriu eigum vier ad klædast? Matth. 6. Um̃ Asnans Skugga, og um̃ Geitar-Hááreñ toñlast þeir og tyggiast iñbyrdis, þar til þeir mættu um̃ sijder verda uppetner, og ef einhvor giorer nockud af vid þa, þad rækia þeir iñ til Daudans. Siáe þeir Veg til ad fiefletta einhvorn, spara þeir ecke Roog nie Lijge; Þyke eitthvad indællt vera, þa stendur Guds Elska og hañs Ord til baka, eñ Holldenu er þioonad i þess Gyrndum og Tilhneigingum. So vaxa nu Þyrneñ upp fullum Fetum, eñ Sæde Guds Orda dempast, og bera ecke Avoxt, og á Gudhrædsluñe ber ecke fyrer Illgresesins Ofvexte, hvort hun sie nockur i Hiartanu, þad vita eige adrer nema af Avoxtunum, hitt er Deigenum lioosara, ad alldrei kiemst hun leingra eñ i Muñeñ, eñ hiner Limerner ersida i Satans Akre; Og sijnest mier ad þesser elske Gud med somu Elsku og hañs Limu, er þeir seiga: Vermed ydur og mettest, Jacob. 2. Eñ giefa þeim þo eckert. Slijkt er i Raun og Sañleika ad

 hroosa

hroosa sier af Gudhrædslunne, enn afneita þo hennar Krapte, 1. Tim. 3. Og so sem Jesus sagde vid Juda, ad wtsiwga Hws Eckna og fodurlausra under Hylmingu lan̄gra Bæna, Matth. 23. Og kann þad ecke ad fara œ annann Hœtt, þvi eige verda Wijnberenn samannlesen̄ af Þyrnunum, nie Fijkurnar af Þistlunum, Matth. 7. Gudhrædsla soddan̄ Manna, er eins og Tal hins heimska, fyrer Gude, um̄ hvort Salomon seiger: Ad þad sie eins og Þyrne-Kvister i Hond hins druckna, Prov. 26. Þyrneren̄ er nærsta brœdþroska, velldur þad þvi, ad hann dregur til sijn allan̄ Vokva wr Jordunne, so þau Grosenn sem i Nœnd vaxa, þau fœ ecke til Vidurlijfis, og þess betre Vokva sem hann nijtur, þess lijklegra er ad hann betur bloomgest.

So er Hreckvijsenn, þegar hun er plontud i Nœlægd Dygdanna, (so kalla eg Skin Gudhrædsluñar) Þa tekur hun þess meira Afl. Þegar Odygden̄ er bryniud med Lijkingu Guds Herskrwda, þa hefur hun stooran̄ Myndugleika, jafnvel þott þad sie ecke neina Hamur eirn, og Satans Eingill i Lioossins Eingel um̄steiptur, en̄ eige ad sijdur mun rœtast œ þeim Spœdoomur Esa. 10. Eldduren̄ mun uppbrenna hans Þyrna og hans Þistla œ einum Deige. Þyrnarner eru bloomleger nærsta, enn sœrt stijnga þeir ef ogiætelega er œ þeim teked. Þan̄en̄ er Ahyggia og Bwksorg þessara Lijsdaga; Hun lofar ollu fogru, Gulle og Silfre, fullum Kornhlodum, Ynde og Epterlæte, enn þeir ed slijta Hiarta sijnu þar med, þeir finna þo eckert Ynde, helldur eins og hin̄ Vatnssiwka þyrster æ þess meir, sem han̄ meira dreckur, so er þess frekare Agyrnden̄, sem meire er Audurenn, og hun etur siœlfa sig, og elur sig þo siœlfa; Hun er bæde Hungur og Fylle, Ynde og Sorg, og er þo alldrei so miked Epterlæted ad ecke sie meira Andstreymed, og þad sem yfertekur, ad hun kiesur þa Unadsemd, er Men̄ eiga i Drottne ad hafa, og mettar sijna Þræla med Harma-Braude einu, og dryckiar þœ med Ominnis-Ole, so þeim gleymest ad safna sier Fiesiood œ Himnum, hverium ecke kann Molur nie Rid ad granda, nie Þioofar eptergrafast, Matth. 6. O! þu dijrkeypta Jesu Brwdr christeleg Kyrkia; Lœt hier þad til Risia ren̄a, ad þin̄ Un̄uste er med Þyrnum kornadur œ yckar Heidurs-Deige, en̄ þu ræktar þa Þyrnana best, sm̄ hans blessada Hofud hafa hvad sœrast stunged i Pijnun̄e, þad eru þijnar Synder og þitt Epterlæte, þu sem ert afrekud med Guds eigen̄ Bloode, Act. 20. So þad er ecke all-lijted Sorgar-Efne, hvor sem þess giæter, ad hid oforgeingelega Sæde Guds Orda, sem Petur talar um̄, þad þrooast valla so hier œ Jordun̄e, ad Bindene hans Barna verde fullt i Heimelium. Romveriar kolludu þad obackleœtan̄ Akur, sem ecke svarade Kostnadenum og Erfidenu; En̄ þad mœ hin̄ allsvalldande Hws-Fader ad riettu seigia um̄ sin̄ Akur, þvi ef nockur vill meta til samans Guds Eingietens Sonar dijrmœta Blood, hvors minnste Drope ad er kostulegre enn oll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, og so hinn Fioorda Part af þeim, sem Orded heyra, ad hinum oreiknudum, sem þar fyrer utann eru, þa mun han̄ jœta ad Christi Erfides og hans Akur Avexte sie olijkt fared og eingan̄veigenn saman̄ ad jafna. Hvor Eyru hefur ad heyra, han̄ heyre þad.

Þad maa vel skiliast um̃ þaa sem eru sañer Christi Læresveinar, takande siñ Kross uppaa sig og fylgia honum so epter. Þetta giorum vier Brædur og þykiunst vel giora, jafnvel þoott oss meige alkunnugt Bodord St. Pauls, 2. Tess. 3. Er hann seiger: Þegar vier vorum hiaa ydur, budum vier ydur þad, ad ef nockur vill ecke erfida, þaa skal hañ ecke eta, þvi vier heyrum ad nockrer gaanga aa medal ydar oskickanlega, giorande eckert, helldur hnijsa saafeingelega (hvert Mark vier meigum þeckia aa nockrum vorum Olmusu-Moñum) Þessum bioodum vier seiger Paulus, fyrer Drotteñ vorn Jesum Christum, ad þeir erfide med Spekt og ete sitt eiged Brand; eñ ef nockur hlijder ecke þessu voru Bode, þaa teikned mier þad til, og hafed ecke Um̃geingne med honum so hañ skammest sijn. Um̃ hina fyrstu Freistinguna hofum vier nu heyrt þañeñ talad, eñ þegar Satan merker ad honum tekst ecke ad locka Jesum med Efasemeñe reyner hañ til aa hinn Veigeñ, og vill freista hañs med Oftrauste. Noogu vel talade Satan um̃ sialfañ sig, Job. 1. Ad hañ sagdest hafa geinged um̃ krijng, þvi fyrer utann þad hañ geingur um̃ krijng sem greniande Leon, leitande ad þeim sem hañ kuñe upp ad svelgia, þaa er honum þesse Atferd nærsta tom, er hañ brwkar hier vid Christum, ad fara um̃ krijng og leitast vid aa allar Sijdur, eins og eirn slægvitr Hertoge þaa hañ um̃sitr eina Borg, eñ Bæarmenn hafa med ollum Lids-Afla fyrerbwest i þeim Stad sem þeir ætludu sier mestrar Hættu Von, þaa fer hañ ad þeim odrum i krijng, og rædst þar til sem eingeñ er Vorn fyrer. So giorer Diofulleñ, giete hañ ecke flækt Mañeñ i Hyrduleise, leitar hañ til med ofmiklum Ahuga, ef ecke i Mistrauste, þaa med Oftrauste, ef ecke med Hofmood, þaa med Hugleyse, ef ecke i Heimsku, þaa med Siervitsku; Og so fram̃veigis.

Ef Þu Ert Guds Sonur, Þaa Fleig Þier Hier Ofañ Af. Alkuñugt er oss Br. M. Hvad margur er aa medal vor sem ovarlega fer med sitt Lijf, so sem være þad eirn Hlutur, er hann kyñe strax aptur ad kaupa eins og adra Voru: Soddañ Apaskap kalla Meñ Hugprijde, og hver Daareñ metst vid añann, so sem være þad goodur Hlutur. Ad spara ecke Lijf sitt fyrer Guds Saker, þegar hann vill þad so hafa, og Menn hafa Guds Ord fyrer sier, ad þad sie hanns Vilie, þad er hinn aagiætaste Hlutur og Elsku-Merke til Guds, þvi eingeñ elskar eirn meir, eñ hañ giefe sitt Lijf wt fyrer hann, Joh. 15. So er þad og kostulegt, ef nockur vogar Lijfe sijnu, Lande og Lijdum til Varnar, þvi þad er Kiærleikans Verk, Gud hefur þad og samþyckt, og boded allvijda hiaa sijnu Foolke Israel. Og eg sie ad Lausnarenn ecke ovirdte Hundrads-Hofdingiann, þoott hann Strijds Madur være, Matth. 8. Eige helldur vijsade Johannes Strijds-Moñunum fraa sinne Skijrn, helldur gaf þeim Bodord, hvernenn þeir lifa skylldu i sijnu Stande, Luc. 3. Enn þad skiedur tijdast Br. M. ad þeir sem eru diarfaster i Heimskunne, þeir eru ragaster i þessum Hlutum, og kiemur þad ecke til af Hugprijde, helldur af Ovitur-leik og Einræde, af þvi Gud hefur vardveitt þaa so tijdt i Haaskanum, þaa meina þeir ad þad skule alltijd eins gaanga. Enn hver vill skyllda hiñ almaattuga til þess? Hañ vill ecke laata trwa sier til þeirra Hluta, sem hann ecke lofad hefur. Gud hefur lofad ad

hañs Einglar bere oss a Hondum sier, Ps. 91. Eñ ecke nema a Vegum vorum. Pvi Orde skal Diofulleñ undañ, þa hañ talade vid Christ, og maa skie hañ stele þvi og wr þijnu Hiarta; þa hañ gyller fyrer þier Hoskañ, og þu meinar þad sie allt þiñ Vegur, sem þier hefur einusiñe fleytst yfer, slijkt er ad freista Drottenns, hvor Synd ad hefur hiñ versta Vitnisburd i Ritninguñe; Eñ ef þu i burtu deyr midt i þessare hrædelegu Synd, hvad mun þa af Saalunne verda? Laat þvi ecke locka þig af fiflslegre Akiefd edur fanijtu Hroose, (Sem þo er ecke nema i heimskra Muñe) til ad lijda Skipbrot a Saalu þiñe, fyrer hvoria Guds Sonur er daeñ, Rom. 14. Nu þoott Daarastapur enn sie stoor hia morgum i þessu, þa er hañ þo ecke miñe i odrum Efnum. Satan visse ad skrifad var um Messiam: Snart mun sa Drottnareñ koma til sijns Musteris, Mal. 3. Hefur honum maatt þvi lijklegt þykia, ad ef hañ þætteſt Messias vera, þa munde honum hier fleſtallt leyfast. Þegar Gud hefur nockrum stoort Umdæme i Hendur feinged, og sett hañ uppa þad haa i siñ stad, þa er hætt vid ad Holld og Blood meige ad honum hvijsla; Hier kann mier eingenn ad granda; Og hvad jeg adhefst, þad maa gott þykia. Fyrer þessar Satans umtolur hefur margur Haalseñ broted. Og af þvi hann munde ecke til þess Stadar, er hañ var tekeñ fra, sem er Leyr Jardarennar; Þegar honum var lypt upp i Hædena, þa vard Falled hærra eñ hañ varde, so ad þad Leyr-Kiered, sem ovarlega var medfared, datt i Smaa-Mola. Þegar Menn eru i Guds stad setter, þa þeinkia þeir lijtt þar til, ad þeir eru af sama Efne giorder og adrer Meñ. Þetta hefur morgum komed til ad ætla ad hañ være Guds Igyllde, Þegar hañ ried fyrer odrum, so ad nockrer hafa lided þad Hræsneñe, ad setia þad haaleita Nafn uppa eina Vatns-Boolu, hvar um Caligula, Nero, Domitianus og adrer bera liooſaſt Vitne. Þar verdur ecke a moote mællt, ad Madurenn er eitt Drambsamt Dyr, Jer. 17. Strax sem Luckuñar Svip-Vinde hefur brugded vorre Molld og Osku i Lopted upp um stundarsaker, þa villa sumer Menn vera eins og Rik i allra Manna Augum, giætande ecke þar ad, ad þegar Vedrenu slotar, þa fellur Dupted a Jordena, hvadann þad kom, so þeir sem blinder urdu i þessum Þit, verda heilskigner aptur, og trodaþad under Footunum, fyrer hvoriu þeir hrædduſt litlu adur. Hier vid kannast David Konungur, sem bæde a sier og sijnum reint hafde Luckunnar Mislynde, er hañ seiger, Ps. 1. Ad þeir ogudlegu sieu eins og Rik þad, hvoriu Vindureñ feiker, þar fyrer kuñe þeir ecke ad standast i Doomenum. Fyrer þvi, hafe Gud nockurn haatt settann, og giort hañ ædre odrum Moñum, er þad i Vijsdoome eda i Yfervallde, er þad i Aud og Rijkidæme, er þad i Lijkhamans Styrkleika, edur odru Atgiorfe, þa þeinke hañ med sier, ad hañ a ecke þar med ad hondla, so sem honum sialfum lijkar, helldur so sem Gud hefur boded, og hafe fyrer Augum sier þad Paall seiger: Hvad er þad Madur, ad þu hafer þad ecke þeiged? 1. Cor 4. Þier erud Guder seiger David, Ps. 82. Eñ þo skulud þier eins og Menn deyia. Tokum oss Orsok þar af ad þeinkia, ad þoott Gud hafe sett uppa oss nockra Lijking sialfs sijns, edur Skugga siñar Tignar i þvi ad raada

fyrer

fyrer ødrum, þaa kiemur þo sa Dagur um̃ siider, ad Meñ skulu standa Reikningskap af þeirra Raadsmennsku, Luc. 16. Þad var vel tilfunded sem Tals-Madur þeirra i Scytia sagde vid hiñ stoora Alexandrum: Ef þu ert Gud, þaa att þu ad medbijta Mønnunum þijn Giæde, eñ ecke ad taka þeirra fraa þeim. Ecke var Guds eingietnum Syne ómatttugt ad stijga ofann af Musteris Bustteñe, enn hañ villde ecke giøra Krapta-verk Andskotanum til Epterlætis, eige helldur til skiemtunar Herodi edur hanns Villdarmønnum, Luc. 23. Hann giørde sijn Daasemdarverk alldrei forgiefens, helldur Mønnunum til gooda; hann læknade siwka, Act. 10. Mettade hungrada, Joh. 6. Uppvakte Dauda, Joh. 11. Snere Vatne i Vijn, þegar medþurfte, Joh. 2. Þu sem af Gude hefur, fram̃ yfer adra miked þeiged, gack i hanns blessud Footspor, og ef þu villt sijna þijna Yferburde i nockru, þaa gior þad til Gagns og Nota þijnum Brædrum i Heimenum, og laat eingum illa lijda af Guds Gaafum fyrer þijna Vanbrwkun; enn sijn ecke Fordillo þijna þar med, Andskotanum og vondre Verølldu til Athlaaturs og Augna-Gamans. Nu høfum vier þañeñ heyrt þessar tvær Freistingar.

Eñ þegar Satan finnur ad hann ecke neitt orkar med Efasemenne edur Ostraustenu, med hverium hañ plagar almeñelega ad pretta Mañeñ i Heimenum, og eru hañs daglegar Veidebrellur, þaa tekur hañ til þess sem hañ visse ad sterkást var, sem er oleifeleg Gyrnd til Audæfa og Metorda. Texteñ seiger ad hañ hafe fært Herrañ uppaa eitt ofur haatt Fiall, og sijnt hønum þadann øll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd, sagt sijdañ: Allt Þetta Vil Eg Giefa Þier, Ef Þu Fellur Fram̃ Og Tilbidur Mig. Hier var æred miked i Bode S. G. B. Og er þad maala sañast, ad margur hefur loted Andskotanum fyrer miña. Miña var þad sem Balaam vañ til þess ad hañ villde formæla Israel, Num. 22. Miñe var Gull-Tungañ og Kaapañ og þeir 200. Siklar Silfurs, sem Achan miste Lijfed fyrer, Jos. 7. Eige var Naboths Vijngardur so mikels Virde, sem Achab tapade fyrer Lijfenu, Rijkenu og allre siñe Velferd, 1. Reg. 21. Eige var Haatijda Klædnadureñ og þau tvo Centener Sylfurs, sem Gezi laug wt af Naaman hinum Syrlendska, 2. Kong. 5. miked ad reikna hiaa þessu, og hvad voru þeir 30. Sylfur-Peningar sem Judas keypte, Matth. 27. fyrer Skapara Himens og Jardar? Hversu næm ad sie þesse Andskotans Snara til ad veida syndugar Saaler, þar eru otal Dæme uppaa. Enn giæt ad þeim Ordum christeñ Madur, sem þiñ Endurlausnare seiger: Hvad gagnar þad Mañinum, þo hañ eignist alla Verølldu, eñ lijde Topun aa Saalu siñe, Matth. 16. Eg medkieñe ad Gotz og Peningar eru stoor Guds Gaafa, þegar þau eru af Guds Hende medtekeñ, enn ecke hripsud af Muñe sijns Naunga, hins faatæka, Ekkiuñar og hins fødurlausa; enn eige eru þau þess verd, ad falla aa Knie fyrer Andskotanum, til þess ad eignast þad sem ecke er nema til Þijngsla, og til ad þrælka fyrer þeim Omaga sem ecke hefur Vit aa hvad vid hañ er giort, til ad þioona einum Nijdinge, sem alldrei sadde siñ Þienara, hvad þeir þo aller giøra, sem añadhvert afla Hiartans med Raangendum, edur festa sitt Hiarta þar vid. Hin grim̃i Villudijr-

enn æ Morkenu hafa sinn vissann Skamt, og þau taka ecke Brædena nema hwngrud. enn Grædge hinns Fiegiarna tekur alldrei Enda, hann etur alltijd, og er þo alltijd soltenn; hann Ottast ecke Gud, og eige skammast hann sijn fyrer Monnunum, hann þyrmer ecke Fodur nie Moodur, hann underþrycker Eckiuna og ræner hinn fodurlausa, hveriu eckert er herfelegra Meistara-Stycke Andskotans, enn ad horfa uppæ eirn Guds Vesæling, sem naudstaddur er, og slijta þann Bita Brauds fræ hanns hungrudum Munne, sem hin Millda Drottens Hond hefur honum riett til ad sedia hann æ. Þad er satt sem Pæll seiger, ad Fie-Gyrndenn sie Root alls hins illa, 1. Tim. 6. Vilie Menn uppræta Illgresed af Akrenum, þæ skulu Menn Rootena eirnenn burt taka. Eg efast og ecke umm, ad sæ sem Agyrndenne hefur wtskwfad wr sijnu Hiarta, hann hefur og gyrdt fyrer marga Leste; þvi hvad er þad illt, sem ecke filger einum Fie-Pwka? Meinsære, Manndræp, Lijge, Svik, Fals, Agg, Þræta og annad, sem hier wt af fædest; so ad eirn af þeim spøku fordum, er hann var adspurdur, hvert ad være hid versta Dijr æ Jordunne; þæ svarade hann: Ad þad være Leon og Byrner æ Fiollunum, enn agiarner Menn i Dygdenne. Eg veit ecke lijkare Skwr-God enn Mammon og Moloch, Svijvirding Ammons Barna, 1. Reg. 11. Hver ed sitt Nafn hefur af Rijke. Þessum Afgud offrudu heidner Menn, og æ stundum Gydingar Born sijn, og lietu þau gæanga i giegnum Elldenn, honum til Þioonustu, 2. Reg. 21. Hverium ecke olijker eru þeir, sem kveikia i Hiortum Barna sinna, strax æ unga Alldre, oleÿfelega Elsku til Auds og Fiærafla, og kienna þeim ad þiena Mammona fyrr enn Gude, og ad hafa sitt Ynde og Epterlæte i oþorfum Maurum, læangt framar enn i goodum Sidum og Dygdum, þar til ad Lijf og Sæal standa i biortu Bæle; og þoott nu ad Metorda-Gyrndenn halldest afflestum ad vera nær Manndygdunum, þæ eru þo bædar skadlegar, og halldast giarnann i Hendur, þo so, ad þar sem Metorda-Gyrndenn er einsamann, þæ er hun þess stærre ef Agyrndenn henne ecke fylger, þvi Agyrndenn er þwng og dregur þann til Jardarennar; sem vill kieppast uppæ þad hæfa; enn i þvi eru þær so lijkar, sem ein Syster kann nockurn Tijma ad vera annare, ad þær giora bædar Lækninguna ad skiædare Siwkdoome og Sadninguna ad Sullte; þvi eins og hinn Agiarne vill þess meir, sem hann meir hefur, og vantar alltijd eirnenn þad, sem hann hefur; so er og hinn Metorda giarne alldrei ænægdur med þad Stand sem hann er i, helldur kieppest alltijd uppepter. Þad er og fullkomlega satt, ad Metorda-Gyrndenn hefur ecke særrum steipt enn Fiesyknenn; fyrer hana er oll Olucka innkomenn i Heimenn: Þegar Diofullenn villde helldur stioorna enn hlijda, þæ hrapade hann morgum til Olucku.

Jeg þykest vita, ad Eva hafe ecke geingest so fyrer Eplenu, helldur mune þad hafa geinged henne i Augu, ad hun ætte Gude lijk ad verda, Gen. 3. Hvad miklu illu hefur nu Metorda-Gyrndenn af Stad komed sijdann i Heimenum? Hun sloo Mariam Aarons Systur med Lijkþræ, Num. 12. Hun sauk Jordunne upp under Core, Datan og Abiram, Num. 16. Hun heingde Absalon upp i Eikina, 2. Sam. 15. og 18.

Hun

Hun blandade Øſku Simri saman vid Koungsins Hwss-Øſku, 1. Reg. 16. Og er þad nu litels verdt og næsta maklegt, þo hun slꜳe sinn eigenn Mann umm Hꜳls, enn þad er miklu hryggelegra og aumkunarverdara, þegar heilum Londum og Rijkium illa lijdur fyrer eins Hroka, og þad kostar margra Manna Gots og Velferd, þegar tveir stoorer þrꜳtta. Gud giæfe Menn villdu þo giæta þar ad, ad sw Æra sim Menn hafa af Metordunum, er einganveigenn verd þess Erfidis sem þar er uppꜳ kostad. Annadhvert komast Menn þar til med riettu edur raungu, ef med riettu, þꜳ skulu Menn leinge þrælka, ꜳdur enn Menn koma til nockurs, og fyrer miked Erfide komast Menn til annars stærra, þvi þꜳ Menn eru þarkommer, taka Menn Valld yfer odrum, enn missa Vallded yfer siꜳlfum sier, þvi ein kostgiæfenn Yfervallds Persoona, er ecke siꜳlfrꜳd, helldur allra þeirra Þienare sem hann er yferbodenn, og mꜳ tijdt vaka þegar hiner sofa. Enn hafe hann geinged hinn rꜳnga Veg med Satans Listum, þꜳ heiter Tignar-Sæted Stooll Hꜳdungarennar, og er Svijvirding bæde fyrer Gude og Monnum, svo sem Predikarenn seiger, Cap. 7. Ad sꜳ sem rꜳnglega tekur sier Vallded til, mune hatadur verda. Þvi hygg eg þad riett være sem Joas Israels Konungur sagde vid Amaziam Juda Konung; Þu hefur sleiged Edom, þar fyrer er þitt Hiarta upphafed, haf þu þijna Vegsemd og sit i þijnu Hwse, hvar fyrer skyllder þu skipta þier af illu, so þu faller og Juda med þier, 2. Cron. 25. So er nu Agyrnd og Ofmetnadur nærsta skadleger Lester. Þar fyrer, vilie Satan freista þijn þar med christenn Madur, þꜳ slꜳ hann med Guds Orde, so sem Jesus giorde; Vijk frꜳ mier Satan, þviad skrifad er, Drottenn Gud þinn skallt þu tilbidia, og honum einum þioona. Nu er þad alldungis omøgulegt under eins Gude ad þioona og Mammona, Matth. 6; Vilier þu þar fyrer ad þitt Hiarta sie Guds Mustere, þꜳ rek Satan wt þadann med hanns bolvadre Aura-Elsku. Satan ꜳ ecke þad hann giefur, helldur er þad allt Þioofstoled, sem af hanns Hende er þeiged. Vei þier Satan, hver hefur giefed þier oll Rijke Veralldarennar, so þu meiger þau aptur giefa? Þu ꜳtt ecke Rꜳd ꜳ eirnre Mij-Flugu, neina Gud leife; Og þott þu mætter nockru hier umm rꜳda, þꜳ viljum vier ecke taka þijnu Bode, enn sleppa honum sem bæde Himen og Jord hefur i sinne Hende, sem oss hefur Sꜳl og Lijkhama giefed, sem oss hefur frelsad frꜳ þijnu Vallde, Col. 1. Sem hefur giefed sitt Lijf i Daudann fyrer oss, Joh. 10. Sem hefur sendt sinn Anda i vor Hiortu, Gal. 4. Sem ad ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. O! þu eilijfe Konungur Dijrdarennar, sinn ad ert hoogvær og af Hiarta lijtelꜳtur, kienn þu oss ad epterfylgia þijnu blessada Dijrdar-Dæme hier i Heime, so vier meigum þier sijdann inn i þijna eilijfu Dijrd fylgia, og til þess himneska Hꜳbords upphafder verda,
til ad sijngia þeirre hꜳleitu Guddoomsins Þrenningu eilijfa
Dijrd og Lofumm allar Allder Allda, AMEN.

# Annann Sunnudag i Føstu.

Gudspialled, Matth. 15. Cap.

A Þañ Tijma. Og Jesus gieck burt þadañ, og foor i Lands-Bygder Tyri og Sydonis. Og sia þu, ad Canversk Kona gieck wt af þeim somu Takmorkum, kallade epter hønum, seigande: Herra Sonur Davids, myskuna þu mier! mijn Dootter kvelst illa af Dioflenum. Og hañ svarade heñe eingu Orde; Hañs Læresveinar geingu til hañs, bædu hañ og søgdu: Lættu hana fara, af þvi hun kallar epter oss. Eñ hañ svarade og sagde; Eg em ecke sendur nema til fortapadra Sauda, af Hwse Jsraels. Enn hun kom og tilbad hañ, seigande: Herra, hiælpa þu mier! Eñ hañ svarade heñe og sagde: Þad er ecke gott ad taka Brauded Barnaña, og kasta þvi fyrir Hvolpana. Eñ hun sagde: Satt er þad Herra; Eñ þo eta Hvolparner af Molum þeim, sem detta af Borde Drottna þeirra. Þaa svarade Jesus og sagde til heñar: O Kona! mikel er þijn Trw, verde þier so sem þu villt. Og aa þeirre somu Stundu vard heñar Dootter heilbrygd.

## Exordium.

VJer bidium i vorre Drottennlegre Bæn, Born Guds elskuleg. Eige leid þu oss i Freistne. Nu er tvofolld Freistne til, onnur kiemur af Gude, oñur af Andskotanum, oñur leider til Lijfsins, onnur til Helvijtis. Sw sem af Gude kiemur, hun er hennar Lækning, sem kiemur af Satan. Þad er ecke otamt hinum almættuga Konunge, ad læta Diofuleñ detta aa sijnu eigenn Bragde, og sijna Freistne hanns Freistingar yfervinna. Enn þo ad þessar Athafner Guds og Diofulsins hafe sama Nafn, þaa eiga þær þo ecke samann nema Nafned. Diofullenn geingur ecke i Berhogg vid Mennena, þvi hañ veit þeir fælast sig, helldur hefur hann tvo Stall-Brædur, sem ecke eru svo uggvæner, enn þo ecke ollu sijdur skadvæner, annar er hid ytra, annar hid innra: Þesse er vort Holld og Blood med þess Tilhneigingum; Hinn er Verolldenn med sijnum illum Dæmum: Hinn sijdare af þvi hañ er vondur, og liggur i þvi vonda, 1. Joh. 5. þaa leider hann til hins illa. Saa fyrre er hælfu verre. Margur kann sia ad fordast adra, sem ecke gietur fordast sialfann sig. Holld og Blood er gamall Skutul-Sveirn Diofulsins, sem framreider allra Handa sætar, enn þo eitradar Vister, þegar Andskotenn bijdur Manneskiuñe til Snædings, enn Saaleñ liggur blind i Sængeñe, eins og Jsaac, og veit eige hvert þad eru helldur Jacobs edur Esau Hendur, sem hun þreifar aa, jafnvel þo hana grille til ad þeckia Raustena, Gen. 27. So miked længar hana i þann fersk Riett, veit þo ecke ad giora Grein aa, hvert helldur hann er med Boganum veiddur, eda af Hiordenne tekenn. Vei þeirre Borg, hver ed bæde hefur Ovinena utañ fyrer Portunum, og lijka inne

sinne á Strætunum; Enn eingu betur erum vier á oss komner i andlegum Efnum. Alla Vega umkrijnger Hollded oss, á hægre Sijdu med Gyrnd Audæfa og Metorda, á vinstre Hlid med Örbyrgd og Örvinglan; Fyrer framañ oss stendr Siálfs-Þootteñ og Virding vors eigeñ Agiætes, á Bak vid oss Assokun og Þeckingarleise Syndarennar, innvortis Slög Samvitskunnar, illar Gyrnder og Tilhneigingar. Þesse er nu Andskotans Freistne og elldlegar Pijlur þess hreckvijsa, Eph.6. Enn sokum þess hær eru syndugre Manneskiu so skiædar, ad þar er eingeñ Lijfs edur Heilsu Von, ef Diösullenn, Heimureñ og Hollded meiga sijnu fram fara, þá freistar Gud Mannsins, Sálunne til Heilsubootar. Enn Gud freistar vor, bæde siálfra vor vegna og so Náungans. Þad sem Diösullenn giörer med illum Heimsins Epterdæmum til ills, þad giörer Gud til Epterdæmis med Krossburdenum til goods. Margur munde hallda sig saklausann, nema Gud typtade hann og ride Mootlætinganá Vatne á vor blindu Augu, so ad vier siáum vora Ömynd. Þegar Gud byrtest Fedrunum i gamla Testamentenu, þá skiede þad opt i einu leyptrande Skye, og svo trwe eg þad verde enn nu i Dag, ad valla sáe Menn riett Gud sienañ, nema hanns Dijrd bregde fyrer oss i Þoku Mootlætinganna; Þvi á medann vel geingur, þykest Madureñ so sem siálfskiled eiga allt þad hann þiggur af Drottne; Enn þegar hann tekur þad burt, þá leita Menn hanns med Angist. Kuñuglega talar David hier um, Ps. 30. Eg sagde þá mier vel gieck: Eg skal alldrei skiliast frá Drottne, þvi þu Drottenn veiter Stadfestu mijnu Biarge med þiñe Þocknan: Enn þegar þu byrgder þitt Andlit fyrer mier, þá skielfdest eg, þá kallade eg til Drotteñs, og eg grátbænde hann. Aptur freistar Gud þeirra er hann vill, ödrum til Epterdæmis, so sem Abrahams og Jobs, hvad lioost er af hanns Sögu, er öllum er skrifud til Epterdæmis. Og siáum vier nu af þessu, ad Gud freistar Mannsins, bæde þeim til Gagns, er hann leggur sinn Kross á Herdar, so og ödrum til Fyrermyndar. I þessu H. Dags Evangelio, höfum vier Dæme einnrar Kvinnu, hver ed þá fyrst leitade ad Christo, þegar Naudeñ þrijste henne þar til. Og viljum vier þad nu med þess Lærdoomum yfervega, epter þvi sem Gud giefur Nád til.

Hiálpa oss þar til náduge Gud fyrer þinn Son Jesum, A M E N.

## Utleggingeñ.

Þegar Marcus seiger frá þessare Historiu i hañs Gudspialla, Cap.7. Þá gietur hañ um ad Jesus hafe so sem faled sig i þessum Stad, þvi hañ hafe geinged iñ i eitt Hws, og hafe eige viliad láta neirn vita þad. Hvar varstu nu minn Herra? Sem seiger: Eg er fundeñ af þeim sem ecke leitudu ad mier; Þu sem ad hroopader, Matth. 11. Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiáder, eg vil endurnæra ydur. Hvar varstu þá? Er nockud þijn Hönd stutt ordeñ ad þu kunner ecke, eda þitt Eyra so tillukt, ad þu vilier ecke hiálpa? Sannlega er þad ecke, helldur kiemur þad hierfram sem hin eilijfa Spekeñ seiger: Eg leik mier vid Mañaña Sonu, Prov. 8.

8. So plagar Fader Myſkunſemdaña ad breita vid ſijn Børn, hann hylur ſig um̃ Stundarſaker, ſo ad Manneſkiañ leite hanus Andlitis. Viſſe Jeſus ad Lazarus Vinur hañs lꝏ veikur, Joh. 11. Samt var hann fiarlægur honum, a medañ hann took hann burtu. Eige var honum okuñugt ad Vijn-Skortur var i Cana, eñ þo droo hann undañ ad ſnwa Vatnenu i Vijn, þar til hañs Stund var komeñ, Joh. 2. Ymislega breiter Gud vid ſijna. Hver hefur nockurn Tijma hañs Rꝏdgiafe vered? Rom. 11. Hañ deilde a Konungs Mañeñ, þꝏ hañ leitade Hiꝏlpar vegna Sonar ſijns, Joh. 4. Hañ baud Hundrads-Hofdingianum ad gꝏnga ſamſtundis heim og lækna Þioon hañs, Matth. 8. Hañ fañ ſtrax Krapt wt af ſier gꝏnga þꝏ hin̄ Bloodfalls-ſiwka hrærde vid hañs Klæda-Falde, Marc. 5. Eñ fyrer þeſſare naudſtoddu Konu hylur hañ ſig. Þo kañ ecke Sool Riettlætiſins ad leyna ſier, þvi ſeiger og Marcus: Ad þeſſe Kona hafe heyrt af Jeſu og þar fyrer til hañs komed, þvi hañ hafe eige gietad duleſt. Hver er þꝏ Boon heñar? Hun hroopade og ſagde: HErra SOnur DAvids Myſkuna Þu Mier! O hvad dijrmætur Hlutur er Kroſſeñ! hañ kañ ad reka Mañeñ wt af Tyro og Sidon, þad er af vondre Verolldu þeſſare til ad leita ad Chriſto. Hañ er eirn andiegur Segul-Steirn, ſem Mañaña Stꝏl-Hiortum upprycker i Hæder-nar til Guds lifanda. Herra Sonur Davids ſeiger þeſſe Kona. Fꝏord er Bæn heñar, eñ eckert er hier epterſkiled þad ſem audmiwkre ſyndugs Mañs Bæn a ad fylgia. Med Herra-Titlenum jꝏtar hun ſijna Undergiefne, var hañ Herra, þꝏ var hun hñs Ambꝏtt, enn med Nafne Davids Sonar telur hun ſig i Ætt vid hañ. Ecke þad hun være af David komenn, helldur af Adam, hvers Nidie David var. O miñ Jeſu! Þeir eru þijn Mooder og þijner Brædur, ſem eru þijner Læreſveinar, Matth. 12. Eñ þijner Læreſveinar eru aller þeir er þitt Ok uppꝏ ſig taka, og fylgia þier epter, Luc. 14. medal hverra þeſſe Utlendingur var eige hinn ſijdarſte. Þad var heñe ecke noog minn Jeſu ad þu varſt heñar Herra; Þad er añad ad kuña, añad ad vilia, eñ þad hun kallar þig Davids Son, þad er Holld af heñar Hollde og Bein af heñar Beinum, þad var biturt Skeite, ſem ꝏn alls Efa hefur ſtwnged þijn Myſkunar Ydur. Þetta ſtyrker St. Pꝏll, Hebr. 2. ſeigande: Honum byriade Brædrunum i ollu ſamlijkur ad vera, uppꝏ þad hann myſkunſamur være, og trwr Biſkup i þvi ſem hiꝏ Gude ꝏtte ad giora, þvi ſokum þeſs hañ lided hefur þꝏ hañ var freiſtadur, þꝏ kañ hañ og ad hiꝏlpa þeim ſem freiſtader eru. Myſkuna Þu Mier ſeiger Konañ. Hun kiemur til Jeſum, ecke ſo ſem til añars Lækners, þeim er Meñ biooda Laun fyrer ſitt Omak, ecke helldur Tauſte ſiñar Forþienuſtu. Myſkuna Þu Mier ſeiger hun, enn ecke minne Doottur. Jꝏtande þar med, ad ecke þyrfte heñar Dootter einaſta Myſkunar vid, helldur være og ſiꝏlf hun overdug i Guds Auglite ſiña Synda vegna, þad hañ ſkyllde hiꝏlpa heñar Lijfs-Afkvæme, hvert hun eige einaſta hafde gieted og fædt i Syndeñe, helldr uppaled medal ogudlegra Maña vid Satans Þioonuſtu, og i hañs Dijrkan. Lær hier af ſyndugur Madur; Nær þu fram̃kiemur fyrer Gud ad þiggia nockud af hañs Orlætis

Hende

Hende, ad afneita ſiꜳlfum ſier og ollum þijnum Verdugleik, og giør ecke þijn Good-Verk, ef nockur eru, ad hiñe verſtu Synd, med ofmiklu Trauſte a þeim, edur Dꜳlæte vid ſiꜳlfañ þig, helldur ſeig þu med þeſſare Konu og David: Myſkuna þu mier Gud! epter mikellre Myſkunſeme þiñe, og epter Mikeleik Myſkunſemda þiña, afmꜳ þu mitt Rꜳnglæte, Pſ. 51. Þeſſe Fꜳrꜳda Mañeſkia leggur Orſokena til, hvar fyrer hun ſo Grꜳtbæne, Mijn Dootter Kvelſt Illa Af Dioflenum. O Neyd! O Neyd! O Sorg! O Sorg! Hvad goodur Skoola-Meiſtare ertu? Og hvorſu ſijnt er þier uñ ad giora hinar fꜳrꜳdu Tungurnar veltalande? Eckert er hier epter ſkiled, ſem eitt Mañs Hiarta kyñe ad hræra til Medaumkunar, ſo hier var ꜳ eingann Veg hægt undann ad komaſt fyrer þañ, ſem allt Valld hefur, bæde ꜳ Himne og Jordu, Matth. 28. Og er þo under eins ſo lijknſamur ſem Fadereñ er Bornunum myſkunſamur, Pſ. 103. Hun kallar hañ Herra, þvi treyſter hun ad hañ giæte, hun kallar hañ Son Davids, þvi vard hañ ad vilia, hun bidur uñ Myſkun, hvort villde þa Bruñur Myſkunareñar lꜳta ſijna Læke reña, ef ecke i ſoddann Trwar Skaut? Eñ þetta eykur miog ſo ꜳ, ad hun bidur fyrer ſitt eiged Lijfs-Afkvæme, hvors Sꜳl ad hieck af heñar Sꜳl, eins og Jacobs og Benjamins. Hun ſeiger: Mijn Dootter, þad var ſꜳrt, hun kvelſt, þad var herfelegra, hun kvelſt illa, þad var obærelegt, og þad af Dioflenum, Þad yfergieck alla tijmannlega Hormung.

Lijkhamlegur Siwkdoomur liggur æred þungt ꜳ, og nærſta hart er ad ſiꜳ uppꜳ ſijna þegar ſo tilfellur, eñ þad geingur nærſt hinum bitru Helvijtis Pijſlum, þegar Andskoteñ fær Leife til med ſijnum Illſku-Krapte ad bwa i ſyndugs Mañs Hollde, og ſlijta þad og kremia epter ſijnum Vilia. Hvad faſt mun hin heita Moodur-Aſt hafa þreyngt ad hanns Hiarta, er ſiꜳlfur ſeiger, Eſ. 49. Kañ nockud Moodurenn ad gleyma ſijnu Barne, Syne ſijns Kvidar, og þo hun gleyme þvi, þꜳ vil eg ſamt ecke gleyma þier. Siꜳ eg kiem, vill þeſſe Kona ſeigia: Eg er ein veſꜳl Mooder, eg bid uñ Myſkun, ecke uñ Mune þeſſarar Veralldar, ecke uñ Lijf Ovina minna, alleina bid eg ad mitt Barn, ſem er Guds volud Skiepna, ad þad mætte frijaſt frꜳ Diofulſins Vallde og Ofrijke. Mun ecke Jeſus hafa þeinkt til ſinnar Moodur ſem ſtood ſijdann under hanns Kroſſe, þegar hann hieck þar ſo ſem Madkur enn ecke Madur afmyndadur af Diofulſins Prælum? Mun nu ecke hann ſem i bitruſtu Daudans Angiſt og Helvijtis Kvolum ſtaddur, ſꜳ Aumur ꜳ ſinne Moodur, mun hañ ecke, ſeige eg, hafa aumkaſt yfer þeſſare voludu Mañeſkiu? Eige er þad ad efa, ſem ſijdar gaf Raun Vitne. Eñ þo ſeiger Textenn oſs, Ad Hañ Hafe Ecke Svarad Heñe Einu Orde. Hvilijkt er þetta, ofann ꜳ alla hennar Neyd, eykur þetta nærſta miklu. Hin bleſſada Riettlætis-Sool, Mal. 4. Uppran heñe uñ Stundarſaker, eñ Sky Þagnareñar droo fyrer hana aptur. Hvad ſkal hier til ſeiga? Kañ ecke þad eilijfa Orded ad tala? Heyrer hañ ecke, ſem Eyrad hefur plantad? Er hañ Afundeñ, ſem ollum bijdur til ſijn ad koma? Matth. 11. Hvar eru nu þijn Ord, minn Herra Jeſu, er þu ſagder fyrer Munn Eſ. 65. Cap.

Þad skal skie edur enn þeir akalla mig, vil eg svara, og a medann þeir eru ad bidia, vil eg bænheyra þa. Þetta sijnest hier allt ad eingu verda. Enn vier vilium hier stánda vid umm Stund, G. E. B. Þad være ecke gott fyrer oss, ad vier skylldum ollum Stundum bænheyrder verda; Þeir eru eige aller, sem Gud see til sijn leidt med Taume Naadarennar, nema hann slae odruhvoriu med Svipu Tiptunarennar. Þegar vel gieck, snerum vier Bakenu vid Gude; Vier forum illa med hanns Gaasur, vier forsoomudum ad brioota vort Braud hinum Þurftuga og Volada. Oss fanst eckert til, þegar Gud liet oss falla allt i Kior, og eige þaadu Menn Guds Orlæte, so sem af honum komid, helldur so sem af vorum Handafla, vorum Atburdum, vorre Framsijne: Er þa ad furda þott hann meige þeigia umm Stundar-Saker vid oss? So ad vier holldum oss ecke saklausa, og lærum, ad oll good Giof og oll fullkomenn Giof kiemur ad ofann fra Fodur Lioosanna, Jac. 1. Og ecke giorer Gud einasta þetta vid hina Præalaatu, helldur og vid sijn elskuleg Born. Sannlega hefur hann kienti Briooste umm Eymd þessarar Konu, enn þo svarar hann henne ecke einu Orde: Hann vill þeir bidie so þeir fae, leite so þeir finne, knije a, so fyrer þeim upploked verde, Luc. 11. Heyred David Kong, sem var Ast-Vinur Drottenns, hvorsu hann klagar yfer hanns Þogn vid sig, hvert helldur hann talar þad under sinne edur Messiæ Persoonu; Hvar fyrer ert þu fiarlægur mijnu Hiaalpræde, og so fiærre mijnu Hroope Gud minn? Dag og Noott kalla eg til þijn, og finn þo einga. Hvijld, Ps. 22. Nu, þoott ad Gud so þeige vid oss a Stundum, þa mun hann samt Hiaalpena ecke leinge undann draga, svare hann ecke so sem vier vilium, þa svarar hann so sem hann vill, vier vitum ecke hvors vier bidum, enn hann veit hvad oss er fyrer bestu. Ef vier yrdum alltijd bænheyrder, þa kann skie hann giæfe oss Hoggorm fyrer Fisk, edur Stein fyrer Braud, ja, Hoggorms-Eyru fyrer umskorenn Eyru, Stein-Hiarta fyrer kiotlegt Hiarta, enn þad sama er a moot hanns fodurlegu hiartalage. Hann bænheyrde ecke Eliam þa hann bad hann ad taka sijna Saalu fra sier, 1. Reg. 19. Helldur gaf hann honum Krapt til ad mootstanda Jessabel og ollu Achabs Hwse, Hann heyrde ecke so brædlega Harma-Klogun Jobs, enn hann gaf honum yfermaata mikla Þolenmæde, Job 2. Hann took eige Kaleikenn fra sijnum elskulega Syne, helldur sende honum Eingel af Himne, Luc. 22. Og so giorer Gud enn nu vid hanns Sam-Arfa, take hann ecke fra þeim Hormungena, þa sender hann þeim þo Krapt til ad bera hana. Hvort er betra ad reka Fiandmanenn burt, edur ad giefa einum Megn og Maatt til ad sigra hann? Hefde Goliath a Bak aptur horfad, hvar var þa Davids Sigur? 1. Sam. 17. Hefde eige Israel barest vid Canaanita, þa hefde hann ecke eignast þad fyrerheitna Landed. Hefde eige Jacob glijmt vid Gud, þa hefde hann eige hloted Israels Nafn, Gen. 32. Og hefde ecke þesse Kona þreytt med Bænenne vid hinn almaattuga, þa hefde hun eige heyrt þesse Fagnadar Ord: Kona, Mikel Er Þijn Trwa, Þegar Lærisveinar vors Endurlausnara formerktu ad hann svarade henne eingu, þa hrærdust þeir af medaumkan, og seiga: Lat

þu

þu hana fara, fyrst hun kallar epter oss. O hvad gott Epterdæme hefur þu hier, christenn Madur! Sæler eru myskunsamer seiger Endurlausnarenn, þvi þeir munu Myskun hliota, Matth. 5. Guds Myskunseme þurfum vier daglega vid, og an hennar kunnum vier ecke ad lifa. Vilier þu ad Gud sie þier nadugur, þa vert ecke afundenn vid þann sem þig bidur, eda fraasnwenn þeim sem af þier vill Laan taka, Matth. 5. Þvi hverju maa Gud opna þier sijna Myskunar Brunna, ef þu tilbyrger þijna Læke fyrer hinum naudliddandа, og sie so ad þu hafer eige Efne aa ad myskuna med Verke, so sem þu villder, þaa aalijtur þo Drottenn Hiartad. Sa sem myskunar meir enn hann hefur Raad til, hann hefur giort sitt Myskunar-Verk jafnvægt sijnum Vilia, og hefur myskungad meir enn hann kunne ad myskuna. Ecke er hier talad um eirn helldur enn annann af Læresveinunum, helldur hafa þeir aller i einu Hlioode meint ad inntaka Drottens Myskunar Hiarta. O Gud giæfe! christner Menn villdu vera samtaka i Bænenne. Hvad er þad vier seigum i vorre Trwarjaatningu? Jeg trwe Samneite heilagra. Er þad alleinasta ad jaata eirn og hinn sama Gud? Ad vera med eirnre Skijrn skijrder? Ad koma samann i einu Guds-Hwse, og medtaka eirn og hinn sama Lijkhama og Blood Jesu Christi? Nei, eingannveigenn, helldur þar ad auke ad hallda Eindrægne i Andanum, Eph. 4. med Bænum og Fyrerbeidslum fyrer ollum Monnum, 1. Tim. 2. Bidied hverier fyrer odrum seiger St. Jacob, Cap. 5. ad þier heilbrigder verded, þvi miked maa Bæn hins riettlaata, þaa hun er heit. Sialfur Drottenn seiger, Matth. 18. Ef tveir af ydur samþyckia aa Jordu um hvern þann Hlut, sem þier bidied, þaa skal ydur þad veitast af mijnum Fodur, sem er aa Himnum. Og ef Gud heyrer so tveggia Bæn, hvad miklu framar mun hanns Fodur-Hiarta komast vid, þaa eirn heill Sofnudur wtheller sijnum Bænum i Eindrægne Andans? Gud elskar Mennena, þaa hann sier ad hver þeirra elskar annann. Eirn Vatns-Drope, ef hann er einsamann, þaa þornar hann braadlega, enn falle hann i Sioovenn, þaa geimest hann otijndur: So eru og Taara-Dropar christenna Manna, ef þeir falla samann, þaa verdur þar eitt Vatns-Flood af, sem allt upp i Himnenn vex, þar til þad fellur i Naadar-Strauma hins almaattuga Guds, sem framflioota af hanns Haasæte, og renna so aptur ofann til vor aa Jordena. Damparner sem uppstijga af Jordenne, samannsafnast i Loptenu, þegar þeir verda ofurþwnger og þietter, þaa sundurdreifast þeir af Vindenum, sem ecke kann i giegnum þaa ad briootast og falla aptur yfer ymsar Alfur Jardarennar, henne til Frioofgunar. Andvarpaner Guds Barna, sem uppstijga af heitu Hiarta, þær samannsafnast fyrer Guds Haasæte, þar til þær verda hanns Myskunar Ydrum ofur þwngar, so ad Himnarijke lijdur Ofrijke, Matth. 11. Þar af verdur hin hialpsamlega Naatt-Dogg Guds Goodgyrne og Myskunar, sem fell af þvi Himneska Hermon yfer þaa Jardnesku Zion, Ps. 133. Hverre Ande Drottens sundurdreifer og wtskipter medal Manna Sona. Þad er eige noog, þoott eirn edur tveir bidie fyrer ollum. Þo Gud hafe miked giort fyrer Bæn Moyses, Abrahams, Eliæ, Elizei, St. Paals og annara Guds Astvina, þaa er Gud ecke skylldugur ad

giora

giora so ollu Foolke: Munu og fáer vera þeim lijker á vorum Dogum. Margra
Trw hygg eg ad nu meige leggia vid Abrahams og Eliæ Trw. Fyrer almennelegre
Plaagu, skal almennilega bidia, þvi á stundum er Gud so lyndur, ad hann vill straffa
þa goodu med þeim vondu i Landenu. Hafed þvi Raad Endurlausnarans, M.E.
Luc. 18. Bidied oaflaatannlega og letiest ecke, þvi hvar fyrer skyllde Gud eige frelsa
sijna wtvallda, þoott hann undanndrage Hiaalpena? Sannlega seige eg ydur, hann
mun frelsa þa. Hvert Svar giefur nu Frelsarenn sijnum Læresveinum hier uppa?
Eg Em Eige Sendur Nema Til Fortapadra Sauda Af Hwse Israels. Þetta
sijnest nockud þwngskiled i fyrsta Alite, enn hefur þo sinn stadfastann Grunndvoll i
Ritningunne. Epter sijnu Spaamanns Embætte var hann eige sendur nema til
Gydinga. Epter sijnu Kiennemannlega Embætte, var hann ollum sendur, þvi fyrer
alla hefur hann forlijkad. Hann bannade ad sonnu Læresveinunum ad gaanga á
Veg Heidingianna eda i Samverskar Borger, helldur til Fortapadra Sauda af
Hwse Israels, Matth. 10. Þo seiger hann hia Johannem, Cap. 10. Eg hefe og adra
Saude, sem ecke eru af þessu Sauda-Hwse, þa byriar mier og hier til ad leida.

Ecke heyre eg ad Jesus hafe á sijnum Hiervistar-Dogum predikad medal Heiding-
kaña, þvi þad var hañs Spaamañs Embætte, hañs Tijme var eñ þa ecke komeñ; For-
Tialldeð var eñ nu ecke sundur-rifed, þar var enn nu eige nidurbroteñ sa Veggurenn,
sem á millum var, Eph. 2. Edur vorded eitt af baadum, þad skiede allra fyrst i hanns
Pijnu, Dauda og Upprisu, þvi skomu þar epter baud hañ sijnum Læresveinum ad fara
wt um allañ Heimenn, Matth. 28. St. Paall þorer ad seigia, Rom. 3. Er Gud allein-
asta Gud Gydinga, og eige Heidingia? Sannarlega og so Heidingia, þviad Gud er
eirn, hver ed riettlæta mun Umskurnena i Trwñe og Yferhwdena fyrer Trwna. So
var nu Jesus sendur alleina til Gydinga epter sijnu Spaamanns Embætte; Enn so
sem Faderenn sende hañ til Gydinga, so sende hañ sijna Læresveina til Heidingia. Ept-
er hinu Kiennemañlega Embættenu, er hann ollum Heime sendur, þvi Johañes seiger
fortakslaust; Hañ er Forlijkun fyrer vorar, og ecke einasta fyrer vorar, (þad er Gyd-
ingaña) helldur og fyrer allrar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Epter sijnu Konung-
lega Embætte var hañ og ollum sendur, þvi hañs Gud hafde giefed honum Ende-
mork Jardareñar og heidnar Þiooder til Arfleifdar, Ps. 2. Og er þad eptertekta verdt,
ad þau tvo Kraptaverk, sem Drottenn giorde medal Heideña Þiooda, annad þetta,
annad hia Gergesenis, Matth. 8. Þau voru bæde til ad auglijsa hanns Almættis
Herra-Tign, þvi i hverutveggia siñ rak hañ Diofuleñ wt, sem kallar sig Drotteñ Ver-
alldar þessarar. Hvad giorer nu þesse Kviña til vid Afsvar þetta? Hun lætur ecke af,
helldur sæter þessu Tækefære, þar hun sier Læresveinarner tala hennar Maale. Lær
hier christenn Madur, ad þreytast ecke i Bænenne, þoott Gud hiaalpe ecke strax, sem
þu kallar, þa hefur hañ þo ecke forgleimt myskunsamur ad vera, fodurlegt Hiarta hef-
ur Gud: Hann er ecke so sem Stockur eda Steirn. Forgiefens hefur hañ þa straff-

ad

ad Gudleyse Mañaña, sem gänga til maallausra Skwrgoda, ef hann være þeim sialfur lijkur. Gud er ecke eins sinnadur og Madureñ, ef nockur Olmusumadur liggur jafnañ vid Dyr hiñs rijka, þaa heiter hann þraabæneñ, oskickanlegur, heimtufrekur. Þad verdur so fyrer oss Moñunum, þvi vier megnum eige margra Þorf ad fylla, eñ Afgruñe Myskunareñar er ecke so haattad, þess optar sem hañ er bedeñ, þess kiærara er þad honum, þvi hañ kañ ad uppfylla alla vora Naudþurft, epter Rijkdoomi siñar Dijrdar, Phil. 4. Þeir neyddu hañ, seiger uñ þaa tvo sem til Emaus geingu, Luc. 24. Gud vill laata þvijnga sig med heitre Bæn, og þad er honum iñdællt ad þola Ofrijke af trwudum Syndara. Sw Þraakelkne er good sem Gude þocknast, og sw Orusta mætte liett falla, þar sem Madur er viss uñ Sigureñ. Saa sem af Tiñuñe vill Elldeñ slaa, verdur optar ad slaa, eñ einusiñe. Vilier þu og ad Guddoomsins Giædsku-Neistar stockve wt af Hellu Hiaalprædesins, þa verdur þu optar eñ einusiñe ad slaa med Hamre Bænareñar, og ecke aflaata, þar til þu aa einhvorn Haatt Bænheyrdur verdur. Menn skulu og audmiwklega bidia. Matthæus seiger, þesse Kona hafe tilbeded hann. Marcus seiger, hun hafe falled til Foota Jesu, Marc. 7. Þad Ord er ad Eilijfu satt sem David seiger, Ps. 34. Naalægur er Drotteñ þeim harmþrwngnu i Hiortum, og þaa sundurkromdu i Anda frelsar hann. Hvor sem vill uppausa Vatn af nockrum Brunne, hañ maa beigia sig. Hvor er Brunnur þess Sialfanda og lifanda? Hañs ed sier þoott eingeñ siaae, hañs ed lifer i oss, þo ad vier deyium. Hver sem vill af honum Naad og Myskun uppausa, hañ kriwpe audmiwkur aa sijn Hiartans Knie. Josua fiell til Jardar nidur, og joos Molldu yfer Hofud sier fyrer Drottne, Jos. 7. David lagdest flatur aa Jordu fyrer hañs Tignarvellde, 2. Sam. 12. Sialfur Guds Sonur kastade sier flotum aa Jordena fyrer sijnum Himneska Fodur, Matth. 26. Og þvi skylldum vier þaa eige beigia Knie vor fyrer Fodur Drottenns vors Jesu Christi, Eph. 3. Saa sem vill vera mikell i Himnarijke, hann skal fyrst giora sig lijtenn hier aa Jardrijke. Þad er ecke Vegur til ad liwka upp Guds Myskunar-Dyrum, ad standa inst i Kyrkiu og bidiast fyrer, enn forsmaa Tollheimtumannenn sem stendur laangt i fraa, Luc. 18. Tak þijn Skoo-Fot af, sagde Gud vid Moyses, þvi saa Stadur er heilagur er þu stendur aa, Exod. 3. Vor Bænastadur er heilagur Stadur; Þad er Guds Mustere, hvar hellst þad er, þar er oll heilog Guddoomsins Þrenning aa Tale vid oss. Oll Ohreyninde Drambsemennar, allt Endeme Sialfs-Þoottans aa þar i burtu ad vera.

Hvert Andsvar fær nu þesse aangraada Manneskia uppaa þessa sijna audmiwka Bæn? Þad Er Ecke Gott Ad Taka Brauded Barnanna Og Kasta Þvi Fyrer Hundana. Hord var þesse Ræda; Hversu maatte Drottenn þwnglegra svara? Eñ ecke fiellst henne Hugur vid allt þetta, helldur svarar hun: Satt Er Þad Herra, Eñ Þo Eta Hundarner Af Molum Þeim, Sem Detta Af Bordum Drottna Þeirra. Þoott Abrahams Muñur hefde hier komeñ vered til ad kieppa med Bænenne vid Gud

um̃ Sodoma, Gen. 18. Þꜳ hefde hañ ecke kuñad betur ad mæla. Ecke þyckest hun vid Sañyrde þesse, helldur þess meir hun er ovirdt, þess audmiwkare er hun ad bidia. Hina hordustu Freistingu giører hun ad sætustu Huggun. Þau Ordeñ Christi, er heñe brixludu um̃ siñ Overdugleik, þau brwkar hun sier til Forsvars, og þad sem sijndest ad horfa heñe til mestu Orvæntingar, vard heñe til ædstu Blessunar, og er hier af audsied, ad Gud lætur þeim alla Hlute til gooda verda, sem hañ elska, Rom. 8. Hun slær vorn Herra, ef so mætte ad Orde komast, med hañs eigeñ Sverde. Satt er þad Herra, eg em Hundur i þijnu Auglite, og hefe eingann Riett med Børnunum. Þad er riettvijst ad þau mettest fyrst: Þu hefur tilreidt eina mikla Mꜳltijd fyrer þeim, og þijner Uxar og aled Fie er slꜳtrad, Matth. 22. Enn i slijku Giesta-Bode munu nockrer Molar ꜳ Goolfed falla, sierdeilis þar Børneñ, sem mett eru, hyrda eige so vandlega þar um̃; Þesser Molar nægia mier aumre Hund-Tijk, eg em þinn Hundur: Eñ mun nockud Hwsboondeñ slꜳ siñ Hund frꜳ sier, þꜳ hañ vill fylgia hønum epter? Eg er eige so vænteñ, ad eg gyrnest ad sitia til Bords med Børnunum; Leif mier þo samt ad tijna Molana med Hundunum, þꜳ Braud-Mola, sem þijn Børn vilia ecke nijta; leif mier og miñe Doottur þꜳ upp ad tijna, og þo vid høfum þꜳ ecke forþienad, þꜳ veit eg ad þu, sem ert eiñ Herra, og þar ad auke Davids Sonur miñ Skapare, og þo miñ Brooder, þu muner eige ockur allra vesælustu Skiepnur, eñ þo þijnar Skiepnur, ad soñu Hund-Tijkur, eñ þo þijnar Hund-Tijkur i Hwngre og Vesolld wt af deya lꜳta. Fyrer þessare so oflugre Trw, liet hiñ almꜳttuge sigrast; Hañs Hiarta brast i hønum, so hañ hlaut heñe myskunsamur ad vera, Jer. 31. Og Bruñur Myskunsemdaña vard ad opnast i slijkre Hræringu, so ad þadañ wtflaut eirn lifande Nꜳdar-Straumur, til ad endurnæra þessarar Kviñu sorgbited Hiarta. Þañeñ verdur hañ hier yferuñeñ af siñe eigeñ Giædsku, sem þo er osigrande; hañ verdur til Fꜳngatekeñ, sem hefur Herleidinguna ad Herfꜳnge teked. Hañ þurfte valla eitt Ord til ad wtreka Diofuleñ, Matth. 4. Eñ med mørgum Ordum fær hañ ecke þessa Trw frꜳ sier reked, so ad alltijd verde Soñur ꜳ hañs Mꜳle; Hvern þañ sem til mijn kiemur, vil eg ecke frꜳ mier reka, Joh 6. Athuga þu nu, christeñ Madur, nockud um̃ þijn Efne hier wt af. Munt þu i Guds Auglite betur vera ꜳ þig komeñ, enn eirn Hundur? Þu ert ad soñu christeñ, þesse Kona var heideñ, þu ert skijrdur og innekeñ i Guds Sꜳttmꜳla, hun var ecke. Þu heyrer Guds heilogu Ord daglega, enn hun alleinasta Rykted af Jesu: Eñ hygg ad hvad Endurlausnareñ seiger: Drottningeñ af Arabia mun upprijsa ꜳ efsta Deige og dæma þessa Kynslood, þvi hun kom lꜳnga Vegu ad heyra Speke Salomonis, og siꜳed hier er meire eñ Salomon, Matth. 12. So er eg hræddur um̃, ad Kona þesse mune dæma marga þꜳ er christner kallast, hun sem hier ber Hunds-Nafn, talde ecke epter sier ad leita ad Christo, og fylgia hønum epter, þo hun yrde ecke so fliott bænheyrd. Enn hver er nu sꜳ er leite ad Drottne, eda kalle af Alvoru til hanns i Hørmungeñe? Drottenn typtar oss, enn vier kuñum þar

ecke

ecke til, hañ slœr oss, enn vier betrum oss ecke, Jer. 5. Menn hafa hardara Andlit enn Steirneñ, og vilia ecke snwa sier. Hundarner hafa nockra Rækt œ sijnu Afkvæme. Þesse heidna Manneskia var af innstu Hiarta-Sorg tilknwd ad leita sier Hiœlpar hiœ þeim himneska Lækner, vegna siñar Doottur sem plœgud var af Dioflenum, eñ hvad fœer eru nu þeir, sem fœra sijn Born til Jesum med christelegum Aga og Umvondun, og gieta eige jafnvel lided ad Omeñskuñar Diofull sie frœ þeim rekeñ med Guds Ords Kieñingu og goodre Tilsogn. Þesse Kviña gieck wt af Tyro og Sidon þeim ogudlegu Stodunum til Jesum, enn hvad tregt er oss komed til ad gœnga wt af vondre Verolldu þessare og fylgia honum, jafnvel þo Sœleñ ligge vitstola i Æde Syndarenar. Þesse Kviña reiddest ecke þo heñe være ofuglega svarad, eñ hvad giora þeir sem mogla œ moote Gude þœ ecke geingur allt ad Oskum, og formæla hañs Hofud-Skepnum, þœ þær epter Skipan sijns Herra eru oss mootfallnar, hveriar Gud hefur oss þo giefed af ouumrædelegre Giædsku siñe til ad hallda vid voru oþacklœta Lijfe.

Hundar komu og sleiktu Lazari Sœr, enn ecke fieck hañ ad sedia sig af þeim Molum sem duttu af Borde hins rijka, Luc. 16. So fiñast og marger omyskunsamer, hardwduger eñ i Dag, hverier ed hafa Gnægt Veralldar þessarar, enn lœta þo siñ Nœunga Hwngur lijda, og ef þesser ogudleger Lester skylldu fiñast medal christeña Maña, sem ecke er ad efa, hvad erum vier þœ betre eñ Heidingiar i Guds dijrdarfulla Auglite? O vor Gud og almœttuge Skapare! Vert þu oss syndugum lijknsamur, og tilreikna oss ecke vorar Illgiorder epter þeirra Verdskulldan, helldur minnstu þinnar mikellrar Myskunseme. Vor Dootter, þad er vor Sœla, kvelst þwnglega af Dioflenum, hverre hann ognar med hrædelegre Miñing Illgiordaña. Illa hofum vier lifad, enn þu Christe ert fyrer vorar Illgiorder uppheingdur, fleyre eru vorar Rœngletingar helldur eñ Tœr vorra Augna, eñ lœngtum fleyre eru þo Dropar þiñar Myskunar, sem ad uppreñur yfer oss syndugum Moñum ny og fersk œ hverium Morgne, Harmagr. Jer. 3. Allra Maña syndugasta jœtum vier oss, hver i sinn Stad, enn þeckium þig þo ad vera hinn allra helgasta sem fyrer oss rœnglœta ert Bolvan orden. Vier erum eige betre eñ Hundar i þijnu dijrdarfulla Auglite, þar vier hofum forþienad ad wtelokast frœ þeirre himnesku Jerusalem, Apoc. 21. Eñ samt erum vier þo þijner Hundar og vilium helldur so heita, eñ Andskotans Oska-Born. Vier kiorum helldur ad tijna Molana under þijnu Borde, eñ hafa full Hws med ogudlegum; Meigum vier ecke Born kallast, þœ gior oss sem eirn af þijnum Leigu-Moñum, Luc. 15. Meige og þad ecke, þœ lat oss Riett hafa med þijnum Hundum. Þoott vier telium oss overduga ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Þœ vilium vier samt i þijnu Leyfe skrijda under Borded med hiñe Chanaanisku. Gott er oss ad œhœnga Drottne, med hveriu hellst moote þijn eilijfa Myskun vill þad vera lœta, þoott vier fœum ecke þau Kior sm̃ Rijkesins Syner, þœ holldum vier fullgott ad vera Dyra-Verder i Hwse Drotteñs vors, Ps. 84. Þad nœger oss þegar vier allei-

na ecke wtkastader verdum i hin ytstu Myrkur. O þu lijknarfulle Gud og nædugr Fader! Þegar vier allra sijdarst wtgaungum af Tyro og Sidon, sem er af Heime þessum fyrer tijmanlegan Dauda, enn Andskoten gyrnest ad kvelia vora Sælu med eilijfum Pijslum, myskuna oss þa fyrer Jesu Davids Sonar Skulld, og lat oss verda epter þvi sem vier vilium, sem er, ad vier frelster af Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, meigum þier þiona i Riettlæte og Heilagleika um allar Allder Allda, Amen, i Jesu Nafne, AMEN.

# Pridia Sunnudag i Føstu.

Gudspialled, Luc. 11. Cap.

Nockrum Tijma. Jesus rak wt Diøful þann er Mallaus var. Og þad skiede, þa Diøfullen var wtfaren, ad hinn Mallause talade, og Foolked undradest þad. En nockrer wt af þeim søgdu: Fyrer Belzebub Diøfla Høfdingia þa drijfur han Diøflana wt. Adrer freistudu hans, og leitudu af hønum epter Teikne af Himne. Enn er hann sa þeirra Hugrenningar, sagde hann til þeirra: Hvørt Rijke, sem i sialfsu sier er sundurþyckt, þad mun eydast, og hvørt Hws mun yfer annad hrapa. Og ef Andskoten er i sialfum sier sundurþyckur, hverneñ ma hans Rijke þa standast, fyrst þier seiged mig fyrer Belzebub wtreka Diøflana? En ef eg fyrer Belzebub wtrek Diøflana, fyrer hvern wtreka þa ydrer Syner? Þar fyrer skulu þeir og verda ydrer Doomendur. En ef eg rek wt Diøflana med Guds Fijngre, sannlega er þa Guds Rijke komed til ydar. Nær ed sterkur hervopnadur vardveiter sitt Andyre, þa er allt med Mak hvad han a. En nær annar ysersterkare kiemur og yfervinnur han, þa fletter han han øllum Hertijum, a hver ed han treyste, og i sundurskipter so hans Herfange. Hver han er eige med mier, sa er a moote mier, og hver sem samansafnar ecke med mier, sa sundurdreifer. Nær ohreirn Ande fer wt af Mañenum, ransar han um þurra Stade, leitar ad Hvijld og finnur ecke, þa seiger han: Eg vil aptur hverfa i Hws mitt, hvadan eg foor wt; Og þa han kiemur, finnur han þad soopad og prijdt. Þa fer han og tekur med sier sio adra Anda sier verre, og sem þeir eru þar innkomner, byggia þeir þar, og verdur so þess Mans hid seinasta, verra hinu fyrra. Enn þad skiede þa han talade þetta, ad Kona nockur wt af Foolkenu, hoof upp

upp sijna Raust og sagde til hañs : Sæll er sa Kvidur sem þig bar, og þaug Brioost sem þu mylkter. Eñ hañ sagde : Jaa ad vijsu ; Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord, og vardveita þad.

## Exordium.

Icke er Laan leingur enn lied er, seiga Meñ i fornkvednum Ords-Hætte, og er hañ sannur, þvi þegar Eigandenn aptur heimtar, þaa er hanns Riettur wte ad brwka, sem Laaned took : Og so sem þvi er haattad almennelega aa medal vor Mannanna, so er þad eirneñ aa sig komed aa mille Guds og Satans ; Andskotenn hefur aa Stundum nærsta diarftækur vered til ad hondla med hanns Skiepnur, þaa honum fyrer einhvorn Tilgaang hefur þad leift vered, enn eingannveigenn maa hann raada yfer þeim moote Vilia hinns almaattuga. Ad sonnu heyrdum vier ei alls fyrer laungu, ad hiñ blygdunarlause Dioful baud vorum Herra, ad hñ villde giefa honum oll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Enn hvad miked Rijke hafder þu þaa i Heimenum Satan? Er þu þorder ecke ad bwa i Svijnunum fyrer utann Leife Drottenns vors, Matth. 8. Syne sijnum hefur Gud feinged Raad yfer Verolldenne, hvern hañ sett hefur Erfingia allra Hluta, Hebr. 1. Honum hefur hann giefed allt Valld, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Enn ecke Dioflenum. Þar fyrer, þoott ad Drottenn kalle hann Hofdingia þessa Heims hiaa Joh. 14. Þaa er þad ei so ad skilia, ad hann med friaalsu hafe nockra Stioorn aa Jordu i þeim Hlutum, sem Valldstioornenne vidkoma, helldur meinar Lausnarenn þar med Heimenn, sem eru þeir ogudlegu, þad eru Vantrwarennar Born, Eph. 2. J hverium Dioflullenn maattugur er til ad drijfa þaa epter Villd sinne til allskins Synda og Lasta. Ei þorde hann ad granda Jobs Lijkhama fyrr enn Gud gaf honum Leife þar til, Job. 2. Ei gat hann Petur sigtad, þvi vors Endurlausnara Bæn maatte meira, Luc. 22. Og so sem Andskoteñ hefur eckert med Christum, edur þaa sem i honum eru, so kunna ei helldur hanns Born Guds Bornum ad granda framar enn Gud leifer. Oll vor Hofud-Haar eru talenn, Og ecke fellur eirn Titlingur aa Jordu aan hanns Vilia, Matth. 10. Nu þo ad Satan vel vite, ad hann megnar eckert med ollum sijnum Jllsku Krapte aa moote einu Guds Orde, þa fær hann ei vid sinne Jllsku giort ad aareita Gud og hanns Utvallda. Alldrei er so sterkur Kastale, ad ei þurfe ad vaka so leinge Strijded yfer stendur. Nu er Lijf þetta ecke annad enn sijfelld Baraatta, Job. 7. Bæde hid ytra og innra, þvi er Þorf ad Saalenn vake i Hiartanu, sem er Slot Lijkhamans, og bidie so ad vier follum ecke i Freistne, Matth. 26. Jeg sagde fyrer skomu, Born mijn : Ad Andskotenn hefde eckert med þaa sem eru Gude handgeingner, enn þad gyllder aa niedañ þeir eru i hanns Þienustu, enn ecke annars. So marger sem ecke geingu wt af sijnu Hwse þaa Noott, sem Paaska-Lambed var ad Krollde eted, þeir urdu frij fyrer Mord-Einglenum i Egypta-Lande, Exod. 12. Guds osyneleg Kyrkia hier aa Jord,

unne, er Hws þad, hvar inne hid saklausa Guds Lamb, sem burttook Heimsins Synder, verdur daglega slꜳtrad og offrad i Riett-Trwadra Hiortum þeim Himnesta Fodur til Sætleiks Ilms: Gꜳnger þu wt af þessu Hwse, christenn Madur, þꜳ kann eg ecke ad seiga þig ohultann fyrer Drꜳps-Einglenum; Enn þyker hitt lijkara, ad þu meiger i hanns Hendur falla. I þessu H. Evangelio hofum vier Epterdæme, bæde uppꜳ Andskotans illskufulla Medferd ꜳ syndugum Monnum: Og so hans Barna Hreckvijse ꜳ moote Gude og hanns Bornum. Vil eg þvi i þetta sinn tala. 1. Um̃ Diofulsins Valld yfer syndugu Hollde ꜳ hinum fyrre Dogunum, og so nu. 2. Um̃ hanns Illsku i þvi ad spilla vorre andlegre Velferd.

Styrk oss þar til Nꜳdarfulle Gud, med Krapte þijns Anda, I JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingen̄.

Miog so aumkunarlega hefur þesse Man̄eskia halldeñ vered, sem hier um̃ gietur i Gudspiallenu: Þvi hvad kann vesællra ad vera, eñ þegar Tunga Mañsins er bundeñ i hañs Muñe, so hañ fær ecke talad vid adra Meñ sier til Skiemtunar, ecke kvartad um̃ þa Hlute, sem hañ ꜳngra. Eirn Mꜳlleysingur er i Heimenum so sem fyrer utañ Heimeñ; Hañ hefur Tungu og talar ecke, og ecke ollu betur eñ ein Lijkneskia er hañ ꜳ sig komeñ. Nu eykur þad þo miklu ꜳ, ad rꜳda er af Gudspiallenu, ad þesse Plꜳga hafe vered af Dioflenum, og er þvi ecke ad neita, ad Gud hefur Andskotanum leyst mikla Hlute i lijkhamlegum Efnum, ꜳ Dogum gamla Testamentesins, ꜳ Hiervistar-Dogum vors Frelsara, ꜳ Dogum hanns H. Postula, hveria hann sier i Lage wtsende i sijnu Nafne til ad planta sinn Vijngard ꜳ medal Mannanna Sona hier ꜳ Jordunne, og so nockra Stund fram̃ epter Olldunum, til ad styrkia og auka þessa nyiu Plantan, med Auglijsingu sijns Mꜳttar yfer Dioflenum, Hanns owtseigannlegre Myskunseme og Nꜳd hofum vier þad ad þacka, ad vier fiñum ecke so miog þar til ꜳ vorum Dogum, ad Dioflenum sie leyst ad hafa Valld yfer Mañeskiuñi i lijkhamlegañ Mꜳta. Fiærre sie þvi, ad eg seige þad Gud kuñe ecke, ef hañ vill, ad brwka Andskotañ til ad straffa Synder Mañaña, þvi hañ er i hañs Hende, so sem oll hanns Verk. Hitt efast eg um̃, hvert þad sie hanns Vilie nu um̃ Stunder. Sꜳ Alvitre Konungur hefur Þusund Veige og Mꜳta til ad stioorna sijnu Rijke. Eins og eitt Kongs Rijke umbreytist ꜳ marga Vegu epter Tijdunum, so siꜳum vier eirneigeñ, ad þad er skied i Guds Rijke hier ꜳ Jorduñe. Ad soñn er hañ ecke siꜳlfur i nockru um̃breitannlegur, helldur um̃breiter hañ ollum Hlutum, epter þvi sem hanns guddoomlegu Speke haga þyker. Hañ talade siꜳlfur vid Fedurnar fyrer Flooded; Hañ giorde slijkt hid sama vid Abraham og hañs Epterkomendur, allt til Moysen. Moyses took Riettindeñ af hañs Muñe, og fieck þau Israels Sonum, og hann gaf þeim fyrer hanns Hond sitt H. Logmꜳl, skrifad ꜳ Stein-Toblur til ad lisa epter, Exod. 24. Hann stioornade siꜳlfur eins og eirn veralldlegur Konungur sijnu Foolke, þar til þeir villdu ei leingur lꜳta hann

Drott-

drottna yfer sier, og hann gaf þeim Saul Konung i Bræde sinne, Hos. 13. Hann talade þo vid hans Epterkomendur fyrer Munn sinna Spamanna, og jafnvel i Herleidingunne lagde hann sitt Ord i þeirra Munn. Enn i Tijmans Uppfyllingu hefur hann talad vid oss fyrer Sonenn, Heb. 1. Og læted hann sem er wtgeingenn af hans Skaute, Joh. 1. Openbera Monnunum sinn Vilia, enn þegar hann stie til Himna og inngieck i sijna Dijrd, þa sende hann Postulum sijnum H. Anda af sijnum Fødur, Joh. 15. Sa'er leidde þa i allann Sannleik, Joh. 16. Og kiende þeim ecke einasta hvad þeir tala ættu fyrer þeim, sem Sæluhiælpena erfa skylldu, helldur og fyrer Herrum og Konungum, Matth. 10. Sem oss opta Guds Evangelium. Þesser eru þeir, sem oss hafa Guds Vilia skrifadann eptt erlæted i Gudspiøllum, Sendebrefum og Openberunum, fyrer hver ad Guds Kyrkia stioornast enn nu i Dag hier æ Jordunne. Sijdann þeirra Daga vitum vier ecke til ad Gud hafe talad vid Mennena, nema i þessu sijnu H. Orde, hvert ed enn nu daglega kiennest og predikast medal vor. Af þessu sioaum vier, hversu margbreitt ad hefur vered Rijkisstioorn þess mættuga Allsheriar Konungs hier æ Jordunne. Enn hvad Satans Utriettingum vidvijkur, þa sie eg ad hann hefur leyst honum marga Hlute ad fremia æ gamla Testamentesins Døgum. Honum þocknadest ad læta hann slæ sinn Þienara Job, med Sarum og Kaunum, Job. 2. Uppa þad hann reynde hanns Þolinmæde, og sijnde Andskotanum hversu ad Guds Kraptur være i Mannsins Breiskleika mættugur, 1. Cor. 12. Hann leyfde Tofra-Monnum Pharaonis marga undarlega Hlute ad giora fyrer Satans Krapt, Exod. 7. 8. Uppa þad hann med þeim, og þeir med honum yrdu til Skammar, fyrer Moysi Guds Þienara. Gud leid honum ad æklaga Josuam hann ypparsta Prest, Zach. 3. So hann af hinum ædsta Biskupe Sæalna vorra straffadur yrde, og annad þvi umm lijkt, er ad lesa i Søgum gamla Testamentesins. Hvar fyrer munde nu Gud giora þetta ? Ecke þess vegna, ad hann ei giæte med sijnum Almættis Krapte alla Hlute verkad, epter þvi sem siælfur vill hann, þvi fyrer honum er eckert Ord omættugt, Luc. 1. Helldur eins og hann liet Pharaonem standa og ecke umm koll steipast, þar til hann optsinnes audsijnde sijna miklu Makt æ honum, Rom. 9. So liet hann æ þeim Døgum Andskotann brwka æ stundum sijna Makt, til ad læta Mannkyned sia, hvad miklu Gud være honum sterkare, so þeir lærdu ad trwa æ einn Drottenn Gud, og eingann annann. Alldrei hefur þo Andskotenn feinged so mikla Makt til ad openbera sig Monnunum, so sem æ Hollds-Vistar Døgum vors Lausnara, og lijtur þad eins wt, so sem Gud hafe viliad geyma sijnum Eingietna Syne þaa sterkustu Orustu moote honum, so hans Sigur yrde þess frægare medal Manndanna. Hann talade vid hann siælfann eins og Madur talar vid Mann, Matth 8. Hann kvallde Dootter þeirrar Canaanisku, Matth. 15. Hann kastade þeim diofuloodu æ Vatn og Elld, Matth. 17. Hann bioo i þeim tveimur Gergesenis, Matth. 9. Hann gierde þennann mællausann, sem vor Texte umm talar. Hvar fyrer mun þetta skied vera, Br. M.? Mannsins Styrkleika siaa Menn ecke, nema hann hafe einhvern ad reina Orku

vid.

vid. Og so sem Endurlausnareñ seiger i þessu Evangelio; Þegar eirn sterkur hervopnadur vardveiter sitt Andyre, þaa er allt med Mak, hvad hann aa, etc. Þad var vorum Herra fyrer miñstu, ad þvijnga Diofulenn epter sinne Villd. Annad var hañs Eyrende meira i Heimenn, sem var ad lwka þaa Sekt, er Mañkyned aatte Gude ad giallda. Enn so sem Drottenn i gamla Testamentenu leysde Andskotanum ad sijna Megn sitt odruhveriu, Monnunum til Eptertektar, so leysdest og þessu Illhvele ad vada hvad mest uppe og brwka Magt Myrkraña, aa medann Guds Sonur umgieckst hier aa Jorduñe i Mynd eins Þioons, þeim ollum til Trwarstyrkingar, sem aa hañs Nafn trwa villdu, ad þeir siaa mættu ad so audvirdilegur, sem hann var, þa være hann þo saa sem af Gude sendur være til ad nidurbriota Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. Og med ollu ad sundurmola Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hefde og Guds eingieteñ Sonur strax sem hann var til Himna farenn, bunded so Hendurnar aa Dioflenum, ad hann hefde ecke feinged odruhvoriu ad slaa sig sialfann aa Muñeñ, þa kañ skie, ad Illþijded i Verolldenne hefde sagt, eins og þesser sogdu; Ad fyrer Beelzebub hefde hann wtreked Dioflana aa sijnum Hiervistar-Dogum, þvi gaf hann honum og nockurn Taum um Postulaña Daga, sem er ad siaa af þeirra Giorninga Book, og a medal añara, þegar Satan maatte til Skamar sier medkieña, Jesum veit eg, og Paal þecke eg, eñ hverier erud þier? Act. 19. Þad er og lijklegt, ad saatækum Fiskurum, sem hielldust fyrer Afskwm Veralldar, munde ecke hafa stoorum trwad vered i þeim Hlutum, sem so eru gagnstæder holldlegre Skynseme, sem Christs Evangelium er, hefde hann ei stadfest þeirra Predikun med þessum og odrum jafnvægum Kraptaverkum. Daasamlega hefur Gud uppbygt sijna Kyrkiu hier aa Jordunne, hver sem þar ad vill giæta, ad hann hefur laated hana vaxa fyrer utann allt mannlegt Yferlæte, og alleina af þeim Hlutum, sem ecke standa i nockurs Manns Vallde, nema honum sie þad af Gude giefed, og er hun i þessu lijk Salomonis Mustere, sem bygt var fyrer utañ allt Haareyste, so þar heyrdest ecke Axar edur Hamars-Hliood, 1. Reg. 6. Seiged mier, hvert nockur Atrwnadur hefur so byriast sem þesse? Edur so leinge stodugur staded, nema honum hafe framfylgt vered af mañlegu Vallde? Eñ sijdañ hiñ alhage Smidur hafde so fastañ Grundvoll lagt fyrer Spaameñena og Postulana, Eph. 2. Og allra hellst fyrer hinn sterka Hyrningar-Stein, hvern Gud hefur sett i Zion, Esa. 28. Ad hann yrde Hofud Hyrningar um Alldur og Æfe, so ad vel maatte ofañ aa byggia, þaa hefur hañ laated Spaadoomunum slota og Kraptaverkunum linna, Gud giorer eingann Hlut forgiefens, og so sem þad var ecke naudsynlegt, ad Gud talade framar vid Meñena, edr opeñberade sig epter Postulaña Daga og Spaamañaña, þar allur Guds Vilie er opeñber i þeirra Bookum og Psalmum; so lagde hañ og Hapt aa Andskotañ, epter þad hañ ei þurfte framar ad auglijsa sijna miklu Makt aa honum, Eg veit eingeñ Rok til ad Gud hafe giefed Satan nockurn Tijma Taum, alleina til ad kvelia Meñena, þvi hañ hefr noog Raad til ad straffa Synder vorar an þess, helldur añadhvert til ad reyna sijna Barna Trw edur sialfum honum

um

um til Hegningar. Eda seiged mier, nær Satan hefur auglijst sijna Magt, nema sier til Svijvirdu og sijnu Rijke til Nidurdreps? Sijdañ Gude hefur nu þocknast ad brwka oñur Medøl til ad stioorna med siñe Kyrkiu, sem er hid skiæra Lioos Evangelii, þa vill Gud ecke leika fyrer mannlegre Forvitne med Opeñberunum edur Kraptaverkum, þar þeir eru v-afsakannleger, sem eige vilia Guds Orde trwa. Herodes vænte ad hañ munde sia Teikn af Jesu, Luc. 23. Eñ Jesus var ecke i Heimeñ komeñ til ad skiemta Herodi. Satan villde eirneñ, ad hann auglijste sitt Almætte ꜳ Steinunum, Matth. 4. Eñ Christur sijnde honum, ad hañ var sꜳ almættuge Hyrningar-Steirn, sem hñs Høfud hefur i sundur broted. Þetta Foolk beiddest epter Teikne af Himne, og þootte þad ecke noog, ad þeir sꜳu Diøfuleñ wtrekeñ, eñ Herrann sagde þeim skyllde ecke Teikn giefast nema Jonæ Spꜳmanns, Matth. 12. Þvi eins og Jonas var Ninive, munde Mannsins Sonur verda þessare Kynslood. Enn þeir sem nu ecke vilia Gude trwa, nema þeir þykest Diøfuleñ sia, skulu eckert Teikn fꜳ, nema Mannsins Sonar, hvers Greftrunar og Upprisu Teikn ad Jonas var. Og vilie þeir ecke þar med nægiast, munu þeir sia hanns Teikn i Skijum Himens, er hañ kiemur med Magt og miklu Vellde, Matth. 24. Ad fordæma bæde þeirra Hiꜳtrw og þeirra Vantrw, sem ꜳ Jordu byggia.

I Añañ Mꜳta vil eg taka mier Orsok af þessum Mꜳllausa Manne, til ad skoda ꜳsamt ydur, hvert ecke er sumum Mønnum i Verølldu þessare eins miked ꜳfꜳtt i andlegre, so sem honum var i lijkhamlegre Heilsu. Ei þurfum vier lꜳngt ad leita ad Dæmum þar uppꜳ. Hvorra Kostur var betre, þeirra et søgdu ad Jesus ræke wt Diøflana fyrer Beelzebub, edur þessa Mꜳlleysings? J hinu fyrsta Bodorde hefur Drotteñ tilreidt sier eitt Mustere i Mañenum, seigande: Þu skallt ecke hafa añarlega Gude frami fyrer mier, Exod. 20. Hvad hañ wtleggur i odrum Stad, seigande: Elska skallt þu Drottenn Gud þinn af ollu Hiarta þijnu, og allre Aundu þiñe, og ollu Hugskote þijnu, Devt. 6. Enn strax i odru Bodordenu hefur hann skickad Kiennemann til þessa Musteris, sem er Tungann. Þegar Kiennemennerner i gamla Testamentenu fooru til Frietta vid Drotteñ, þa leitudu þeir hañs optast i Helgedoomenum, so tekur og Tungann af Hiartanu, allt þad hun tala skal, og af þess Nægd mæler Munnurenn: Enn seiged mier: Verdur nockud Guds Mustere helgad, þo þar være hiegoomleg Æfenntijr og Skrok-Søgur þuldar? Eñ sijdur verdur Hiartad helgad med sꜳnijtum Þaunkum. Ad eg tale ecke um̃ skamarleg Ord og fiflslegt Hial, sem christnum soomer ecke. Eph. 5. Soddann er undarleg Þøgn i Guds Eyrum. David bijdur ad Menn sieu ecke eins og Hestar og Mwlar, hverium Menn verda Bitel og Beisl i Munn ad leggia, Ps. 32. Enn þad er sorglegt ad vita, hvorsu mꜳllausar Skiepnur eru fremre mørgum gudlausum sem vanhelga hanns H. Nafn, forsmꜳ hanns Ord, hæda ad hanns Þienurum, spotta hanns Kienningar, og alldrei edur allsialldann taka sier hanns Dijrdarfulla Nafn i Munn, nema þa þeir liwga edur sveria. Asnann talade fordum Daga,

Num. 22. Þegar Gud ſende ſiñ Eingel til Balaam ad mootſtanda honum, og hun tal=
ade riett. Eñ þau otomdu Villudijreñ, ſem ad nu uppalaſt i Heimenum ꜳ Audſkol=
ans Stalle, hafa lært añadhvert eckert edur Illt ad tala, þꜳ Gud ſender ſijna Eingla,
Mal. 2. Þad er ſijna Kieñemeñ til þeſs ad leida þꜳ til Himnarijkis. Eru ecke ſoddañ
frꜳleitar Mañeſkiur halldnar af dauſum Dioſle? Jeg vil nu ei tala um bænræktar=
leyſed i Heimenum. Hver er ſꜳ er leite ad Drottne og ꜳkalle hañ i Neydeñe, Pſ. 59.
Menn lꜳtaſt koma ſamann i Hwſe Guds, og Meñ krwpa þar nidur til ad fridmælaſt
vid hinn almꜳttuga, Eñ Gud giæfe þad være med ſañre Trw, Lijtelæte og audmiwk=
um Anda. Allt þad ſem ecke er af Trwnne, þad er Synd, Rom. 14. Sꜳ ſem bidur
ꜳn Trwar, hann bidur ecke einungis forgiefens, helldur giorer ſijna Bæn ad Synd,
ſo ſem David oſkar þeim ogudlegu, Pſ. 109. Og Meñ laſta Gud meir enn dijrka med
ſoddann Bænum, verande ecke einaſta mꜳlhallter, helldur verr enn mꜳllauſer fyrer
honum. Ecke þarf mikeñ Orda=Fiollda til ad vera Mꜳlſniall fyrer Gude, ſm er Hiart=
naña og Nijrnanna Rannſakare, Jer. 17. Eingenn ſꜳ Moyſis Varer bæraſt, Exod.
14. Og ſagde þo Gud vid hann, þvi hroopar þu þannenn til mijn? Konann ſem uñ=
gietur, Matth. 9. Talade ecke Ord frꜳ Munne, helldur ſagde med ſiꜳlfre ſier, ef ad
eg mætte ad eins ſnerta Falld hanns Klæda, þꜳ munde eg heilbrygd verda, þo vard
Myſkunſemdanna Afgrunn ad byrta ſig fyrer henne med þeſſum Ordum: Vert þu
hughrauſt Dootter, þijn Trwa giorde þig heilbrygda. Hver kann oſs hier um betur
ad undervijſa enn ſꜳ eingietne Sonur Fodurſins, ſem er i hanns Skaute? Þar hañ
ſeiger til ſinna Læreſveina, Matth. 6. Þegar þier bidieſt fyrer þꜳ vered ecke margord=
er ſo ſem Heidingiar þeir ed hyggia, ad þeir fyrer Mælge ſijna bænheyrder verde. J
Anda og Sañleika ber oſs ad bidia, Joh. 4. Þa tala Meñ noogu ſniallt fyrer Gude,
þvi þad er ſꜳ Mꜳls=Hꜳttur ſem honum þocknaſt. Aller Meñ koſtgiæfa ad tala þeirre
Tungu ſem Konungureñ talar, ſo eiga vor Bænarord Guds Orde ſamlijk ad vera,
um hvert David ſo talar: Herra, þijn Ord eru glooande, og þar epter vill hañ breita
nær hañ ſeiger: Herra, mijnar Varer ſkulu þijnu Loſe wtſleyta. So ſem heitt Vatn
i Sudunne yfergeingur og ſkwmar, hvert ed ei kann leingur ad hallda ſier i Katlenum
fyrer Hita, og þad kallar St Pꜳll, Rom. 12. ad vera glooande i Andanum, enn þeſſ=
ar Glædur Hiartans ꜳſtundar hinn vonde Mꜳlleyſis Dioſull ad wtſlockva ꜳ ein=
hvern Hꜳtt, ſo þo vier tolum, þꜳ ſkule Gud ecke heyra, og þo vier bidium, ſkulum vier
ecke bænheyrder verda, og þo vier wtbreidum vorar Hendur, þꜳ hylie þo Gud ſijn
Augu fyrer oſs, Eſa. 1. Þvi glepur hañ fyrer oſs i Bæneñe med hiegoomlegum Þaun=
kum, med Vantrw, med Epterlaungun til vorra Uxa og Bwgarda, eda med Velgiu
Andans, ſo vier ecke medtekner, helldur wtſkirpter verdum af Guds Munne, Apoc. 3.
O oſs auma! Vier erum ei betur ꜳ oſs komner enn Lazarus, hver ed ecke kunne
ad gꜳnga fyrr enn Chriſtur ſkipade ad leyſa af honum Bondenn, Joh. 11. So
erum og vier, ad vier meigum ecke tala riett vid Gud i Bæneñe, nema hañ uppleyſe Fi=

ſtuk

otur vorrar Tungu, og wtreki Mælleysins Diöful, eñ leggi Elld-Kol sijns Anda aa vorar saurugar Varir, Esá. 6. Þañeñ erum vier nu vid Gud, eñ vid Næungañ eingu betri. Hver kañ stærre ad vera Twnguñar Brestur eñ sa, nær Meñ giora stooram Roog af þvi, sem eckert er? Hvad kañ vidurstyggilegra ad huxast edur talast, enn ad brwka Twnguna, hver ad er eiñ hiñ besti Limur a Mañsins Lijkhama, sem giord er til ad lofa Gud siñ Skapara, til ad forsvara siñ Næunga, Til ad semia Frid millum sundurlyndra, ad brwka hana, seigi eg, til ad myrda hinn saklausa, og liwga Lijf og Æru af sijnum Næunga? Lijgiñ er verri öllum ödrum Andskotans Illsku-Ondum, þvi er sæ plaagadur mz vondum Diöfli og þwngu Mælleysi, Er sier hana temr. Oll Synd er Lijgi, og fyrir hina fyrstu Andskotans Lijgi, Gen. 3. er öll Synd iñkomiñ i Heimiñ, og siidañ wtruñin til allra Maña, og þoott ad aller sieu ecke ad þessu fundnir, þæ er þo hier fyrir utan mörg Twnguñar Vanbrwkan, sem i allañ Maata er o-sæmandi. Þar eru þeir til, er eckert velgiört þykir, utan hvad þeir sialfir giöra, og lasta aññara Giördir, jafnvel þær, sem ecki lastverdar eru. Falle margvijsleger Doomar um eirn Hlut, kieppast þeir vid ad filla þañ Flock, er fær aa hiñ verra Veg. Þesser eru giarnañ sialfer hiner sijdstu og ödrum lakare, og af þvi þeir vita ad þeir eru sialfer illa ræmder, þa ætla þeir ad annara Ohroodur mune þeirra Afsökun verda. Þu Hræsnare, seiger Frelsarenn: Drag fyrst Bialkann wt wr þijnu Auga, Luc. 6. Þad være vel adgiætande, ad sæ være heilskign sialfur, sem dæmer um annars Blindne. Jeg veit ad þad er ioflegt ad seiga einum til sinna Lasta, þvi seiger Drotteñ Gud, Levit. 19. Þu skallt straffa þinn Næunga, so þu berer ei Skulld hanns vegna, eñ þad aa ad vera epter Skynseme, so ad Gaukurenn dæme ecke um Svana Hliooded, eda Hrafneñ um Sund-Fuglana. O Herra Gud! Hvor kann ad vita hvad opt hañ syndgar? Ps. 19. Dæmed ecke seiger Endurlausnarenn, so þier verded ecke dæmder. Fordæmed ecke, so ad þierverded ecke fordæmder; Þvi med þeim sama Mæler, sem þier ödrum mæled, mun ydur aptur mællt verda, Matth. 7. Hvad margur dæmer sialfann sig ovitande, þegar hann adra dæmer fyrer sömu Leste, er hann er mest hladenn sialfur? Og eckert er tijdara enn þad, ad Menn lijta þad aa ödrum, er þeir vita med sialfum sier, viliande þannenn dyliast fyrer Mönnunum, Þar eru og soddañ skynlausar Mañeskiur til, sem lijta siñ Næunga fyrer þæ Hlute, sem honum er ecke i sialfs Vallde ad giora vid. Soddann er eirn skadlegur Illsku Ande, þvi hvor hann foraktar fætækañ, hañ hæder Skaparañ, seiger Salomon, Prov. 17. So er og um hvad annad. Sie einhvor Vitgrañur, vesæll, ofrijdur, mælhalltur, eda hefur nockurn þvilijkann Brest Nætturunnar, sem hann sær ecke ad giort, þa finnast þo soddann vitstola Manneskiur, sem ecke skamast sijn ad hafa þvilijkt ad Hæde. Heyr þu syndugur Madur, er hann Fætækur, seig mier: I hveriu ert þu Audugre? Þar hann vantar Fiemunena, hverium Mölur og Rid kann ad granda, eñ þig vantar Þeckinguna aa Gude og sialfum þier: Er hañ vanskapadur og ei so giörfvilegur; Þorer þu ad seiga þad lioott, sem Gud hefur so vera

læted? Enn lijt þig hid innra, ef þu mætt, og skoda hverneñ Diøfulleñ hefur afmyndad Sæalu þijna, þad þu mætt ecke lijta riettu Auga til Guds Skiepnu: Hañ er vitgrañur og veit ei hvad giora byriar, hveriu ert þu vitrare? Þár þu med Siælfs-Þoottanum og hañs Nidran giører þig honum þess sæviijsare, sem odur Madur er heimskum argare. Lucifer, hvers ad gieted er hier i Evangelio, var af þeim i Samaria Beelzebub kalladur, þad er Flugna-Hofdinge, og þad af þvi, ad Illsku-Ondunum i Loptenu verdur vid Flugur samlijkt, Eph. 6. Eñ þad er þeirra Art ad sækia þar mest ad ødrum lisande Skiepnum, sem þeim er meinsamast, og hvar sem Horunded er af, þar setiast þær æ og stijnga. Þeim eru hiner ogudlegu Spottarar lijker, sem eru þroottker um añars Mein, og una sier illa nema einhver steite sig, sveria sig so i Ættena ad þeir sieu af Fiandanum, um hvern Paulus talar, Eph. 2. ad hann sie eirn Hofdinge, sem Valld hafe i Loptenu, verkande i Þverntoodskunnar-Bornum.

Þesse Mæl-Hellte drottnar enn nu so miøg i Heimenum, ad þoott aller hate hana æ ødrum, sem Von er, þvi hun spiller hinum besta Hlut, sem er gott Mannord og Rykte, þæ gieta so fæer vaned Tungu sijna þar um, og eru þeir af Diøflenum þwnglega plægader, sem þannenn lynder eru, og være øllu betra ad þeim være Tungann wr Munne skorenn, helldur eñ ad þeir sieu veltalande til þess, ad safna sier þeim Syndum, er þvi vallda, ad þeir ecke fæ eirn Vatns-Dropa til ad kiæla hana med, nær þeir pijnast i Helvijtis Ellde, Luc. 16. Af hverium St. Jacob seiger: Ad þvilijkar Tungur sieu upptendradar. Þvi ef Endurlausnarenn skipar ad wtstijnga þad Augad, sem hneixlar, Matth. 18. Þæ er lijklegt ad hid sama meige þess helldur um Tunguna seiga, sem hun er hæfare til ad drijgia fleire og verre Synder, nær hun misbrwkud er. O Herra Jesu Christe! Þu saklausa Guds Lamb, sem ecke upplaukst þijnum Munne, helldur enn Saudur til Slætrunar leiddur, Esa. 53. Virdst þu ad temia vora Tungu til ad lofa og dijrka þitt H. Nafn æ medann vier hrekiunst i Utlegd þessare, so ad vier þier eilijft Lof sijngia meigum i Dijrd Himnanna, med øllum Utvølldum Guds Bornum, Amen.

# Sunnudagenn i Midføstu.

## Gudspialled, Joh. 6. Cap.

A Þeim Tijma. Epter þetta foor Jesus yfer um Slæsar-Hafed Galileæ, sem liggur vid Stadeñ Tiberiadis, og mikell Mañ-Fiollde fylgde honum epter, þviad þeir sau hañs Jardteikn, sem hañ giorde æ þeim sem siwker voru. Jesus gieck uppæ eitt Fiall, og settest þar nidur med sijnum Læresveinum: Eñ þa var Pæska Hætijd Gydinga nælæg. Og Jesus leit þæ upp, og sæ ad mikell Mañ-Fiollde kom til hañs; Þæ sagde hañ til

Philipp-

Philippum: Hvadañ kaupum vier Braud so ad þesser neyte? Enn þetta sagde hann til ad freista hañs þar med, þviad hañ visse sialfur hvad hann villde giora. Philippus svarade hønum: Braud fyrer tvo Hundrud Peninga nægest þeim ecke, so ad hver eirn fæe þar nockud lijted. Eirn af hañs Læresveinum, sem ad var Andreas Brooder Simonar Petri, sagde hønum; Eitt Ung-Meñe er hier, sem hefur fim Bygg-Braud og tvo Fiska; Enn hvad skal þetta æ medal so margra? Þæ sagde Jesus: Læted Mennena setiast nidur ad borda. Eñ þar var i þeim Stad Gras miked: Og þar settust nidur ad borda, Kall-Meñ ad Tølu, nær sim Þusunder. Enn Jesus took Braudenn, þæ hañ hafde Packer giort, og fieck sijnum Læresveinum, eñ þeir feingu þeim sem til Bordsins høfdu setst: Slijkt hid sama af Fiskunum, so miked sem hver villde hafa. Enn þæ þeir voru metter, sagde hann til sinna Læresveina: Safned samann þeim Leifum sem af geingu, so ad eckert spilleſt. Enn þeir søfnudu þeim samann, og fylltu upp toolf Karfer medur þessar Leifar, af þeim fim Bygg-Braudum, hveriar ad voru auk þess sem þeir høfdu neytt; Eñ þæ er þesser Meñ sæu hvert Teikn ad Jesus giorde, søgdu þeir: Þesse er sannarlega sæ Spamadur sem i Heimenn skal koma. Enn þæ Jesus formerkte þad, ad þeir mundu koma og handtaka hann, og giora hann ad Konunge, veik hann eiñsamann burt, upp aptur æ Fialled.

## Exordium.

Eirn af þeim gomlu Spekingum sagde fordum Daga, ad Nætturañ være ænægd med lijted: Enn ef vier eigum ad skrifa under med hønum, þæ munar nockru hvernenn Nætturuñar Þijding er tekeñ, þvi skiliest fyrer þetta ecke nema Sæl og Lijkhame i sialfum sier, þæ er þad satt ad þau þurfa ecke mikils vid af veralldlegum Munum sier til Vidværis. Þegar Lijkhameñ er ø-sollteñ og ø-froseñ, þæ er hønum noog; enn þegar Sæleñ gyrneſt ei framar, þæ er hun ænægd og vardar litlu med hveriu þesse Naudþurft er uppfylld, þvi eins vel unde Adam i Skinn-Kyrtlenum, Gen. 3. og Salomon i allre sinne Prijde, Matth. 6. og Johañes ollu betur i Ulfallds Felldenum, Matth. 3. helldur enn Herodes i sinne Purpura Kæpu, Act. 12. Enn sie Nætturuñar Gloosa tekeñ fyrer syndumspillt Mannsins Edle, þæ hefur hun nær þvi alldrei noog, hun er Elldenum lijk, sem þess meir logar sem meir er i hann bored. Blood-Sugann slepper Hørundeñe um sijder þegar hun er full ordenn; Enn syndumspillt Nættura siälldann þvi er hun leggſt æ. Sadningeñ er heñe Orsøk til æ meira Hungurs.

urs og hun verdur alldrei Godd nema med Sullti nüni. Vilie nockur sedia heñar Hijkn, þa tekst þad ecke med ødru moote eñ ad draga vid hana Foodred, so hun drag' est sialfupp um stider. Hvad lijtels ad Natturañ af sialfre sier vidþurfe, þad kieñ' er oss Frelsarenn hia Luc. 12. Cap. medal añara, þar hann seiger: Vered ecke hug' sioker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta, eda fyrer ydar Lijkhama, hveriu þier skul' ud klædast; er ecke Lijfed meir enn Fædslañ, og Lijkhameñ meir eñ Klædnadureñ? Eñ þoott ad vor Nattura þurfe ecke margra Hluta eda mikillrar Umsorgunar vid, þa hefur Gud samt tilskickad, ad Madurenn skule med Erfide næra sig af Jordune alla sijna Lijf-Daga. Þad gamla Logmaal stendur eñ nu i Dag oraskad; J Sveita þijns Andlitis skallt þu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Gud hefur losad ad blessa Israels Erfide, Devt. 28. Enn ecke hañs Jdiulepse, hann giefur ad soñu þeim er hañ elska sitt Braud, þa þeir sofa, Ps. 127. Hann lætur Himeneñ rigna, Jordena groa, Fienad' enn avaxtarsamann verda og Votnenn af sier giefa allra handa Fiska, þoott Madur' enn sofe: Enn samt hefur hann þo ecke hier med leyst ad hañ skule alldrei vaka, eingum hefur hañ heited ad steikt Giæs skule fliuga i Muñ honum. Leteñ er eirn lifande Daude og vakande Svefn, og vinnur ecke nema til Oþocka, bæde hia Gude og Monnum. Ef nockur rietter einhverium Olmusu og hann neñer ecke vid ad taka; hvad kañ sa vid þvi sem giefur? Og so er þad eirneigeñ, þegar Gud upplijkur sinne milldu Hende til ad sedia allar lifande Skiepnur, og lætur Grased vaxa a Jorduñe, Fiskeñ tyngast i Votnunum, Fienadenn avaxtast a Landenu; Enn Mennerner forsooma ad hyrda þessar Guds Gaafur: Er þa nockud Skullden hia vorum Skapara? Laangt fra þvi. Man liet hañ rigna ad soñu a Eydemorkuñe, Exod. 16. Eñ sialfer mattu Israels Syner þad samañ lesa, og alldrei veit eg ad Mañenum sie Atviñu siñe losad nema hañ hafe Umsorgun þar fyrer med sijnu Erfide, þo ecke med heidinglegre Bwk-Sorg', med hverre Gud bannar ad þijngia Hiortun, Luc. 21. J einu Orde ad seiga: Ad leita fyrst Guds Rijkes og hañs Riettlætis, so oss allt añad Gott tilleggiest, Matth. 6. Þad er sa riette Vegur, eñ þadañ fra liggia tvær Ville-Gotur: Oñnur til Lete og Omennsku, oñnur til ofmikellrar Ahyggiu. Badar verda oss bannadar i uppleßnu Evangelio; Af hveriu eg vil þad alleina tala i þetta sinn, hvernenn vier eigum christe' lega og ærlega ad leita Næringar vorrar. Hialpa oss hier til goode Myskunsemd' anna Fader fyrer Jesum Christum, A M E N.

## Utleggingeñ.

Upphafe þessa H. Evangelii heyrum vier, B. G. E. ad þegar vor Herra foor yfer um Sioveñ, sem liggur vid Stadeñ Tiberias, þa hafe Mañfiolde mikell fylgt honum epter, þviad þeir sau þær Jardteikner er hañ giørde a þeim Siwku. Sañlega hefur þad vered Eyrende þessa Foolks ad heyra Jesum og hanns Kieñingar, hveriar hañ stadfeste med Kraptaverkum. Þeir telia ecke epter sier ad fylgia honum epter, þo hañ geinge a Eydemorku, Þvi Jesus Gieck Uppa Eitt Fiall seiger Texteñ, og

þeir

þeir fꜳſt ecke um̃ þad, ad þeir hofdu eckert til Mꜳtar med ſier, og ei helldur vàr þar ad fꜳ i Obygdenne. Lær hier af chriſtenn Madur, hvernenn þu ꜳtt ad haga daglega þijnu Fram̃ferde. Þeſſer voru 5000. ad Tolu, enn Gud giæfe, ad 5. findeſt i morgum Þuſundum ꜳ medal vor, ſem lꜳta ſier um̃hugad vera, ad leita fyrſt Guds Rijkis, og hans Riettlætis, ꜳdur en̄ þeir fara ad þijngia ſitt Hiarta med Sorgum þeſſarar Næringar. Ecke er hier gieted um̃, ad þetta hafe ſkied ꜳ Sabbats edur Hvijldardeige, þad hefur og ecke vered, þvi an̄ars munde Drotten̄ hafa byrtſt i Samkundun̄e, og ecke vered ꜳ Reiſu þan̄ ſama Dag: Þu ſkallt og ecke meina, ad þad ſie noog ad þu hlauper til Kyrkiun̄ar hvern helgan̄ Dag. Hvern Dag ꜳttu ad offra Gude Þackargiorden̄e, þvi hvern Dag er hans Myſkun ny og ferſk yfer þijnu Hofde, Thren. 3. Þu medtekur ꜳ hverium Deige þitt daglegt Braud med þijnum Munne, þvi ꜳ og þinn Munnur daglega ad loſa og prijſa han̄ ſem þig og allar lifande Skiepnur mettar med ſin̄e Velþocknan, enn þu ert hyrdulijt ell þar um̃, og þier þyker þeirre Stundu illa vared vera, ſem þu giefur Gude til ad bidia han̄ um̃ ſijna Bleſſan, eins og honum ſie veitt i þvi ad myſkuna þier. Hvern Afgud giorer þu ſiꜳlfan̄ þig? Meinar þu ad eirnrar Stundar Erfide drage þier meira en̄ hans Adſtod, ſem i einu Augnablike ſnere Vatne i Vijn, Joh. 2. Sem med ſin̄e Bleſſan mettade 5000. Man̄s af 5. Bygg=Braudum? Mun þitt Viku=Verk med allre þin̄e Ahyggiu verka meir, en̄ han̄ ſem ꜳ 6. Dogum ſkapade hid Dꜳſamlega Stoorvirke Himens og Jardar? Gen. 1. Og þo ert þu ſoddan̄ Siꜳlfbyrgingur, ad þu villt ecke fꜳ han̄ i Lid med þier, ꜳdur enn þu geingur til þijns Erfidis. Veiſt þu ecke ad Maduren̄ lifer eige af einuſaman̄ Braude, helldur af ſierhveriu Orde ſem fram̃geingur af Guds Mun̄e, Devt. 8. Tveir Veiger liggia til alls Nækta i Heimenum, an̄ar i giegnum mikel Um̃ſvif med Martha, Luc. 10. Enn annar med Mariu, ad þvo Fætur Jeſu med ſijnum Tꜳrum, og þerra þꜳ med Hꜳr=Lockum ſijnum, Joh. 11. Ecke ſeige eg, ad þeſſar Leider kun̄e ecke ſaman̄ ad liggia, og þoott ſum̃ fare hveria, ad þeir kun̄e ecke bꜳder ad hafa ſama Nætur=Stad, þvi Martha og Maria kun̄a vel ad forlijkaſt i einu Hwſe, þo ſo ad hin giore ecke þeſſa afſkipta edur klage yfer hen̄e, þvi hun hefur wtvaled þad gooda Hlutſkipted, Luc. 10. Luckulegt er þad Hws, hvar Forſioon og Gudrækne halldaſt i Hendur, ſo ad Maria bidur en̄ Martha ſtidur, en̄ ſkule an̄ars hvers ꜳn vera, þꜳ er ſꜳ lꜳngtum bein̄e ſem liggur riettlijnis til Guds, helldur enn hin̄ ſem lætur oſs flækiaſt i krijngum hans Skiepnur. Vor Ahyggia og Erfide kann ad bregdaſt. Hvad margur vinnur Bake brotnu, og þrijfſt ecke ſamt? Enn Gudræknen̄ hefur alldrei nockrum brugdeſt, helldur verda þeim aller Hluter ad Goodu, jafnvel ſiꜳlfur Skorturenn, ſem ad Gud elſka, Rom. 8. Sieu þeir lijkhamlega Volader, þꜳ eru þeir i Gude Rijker, ſieu þeir foracktader i Heimenum, þꜳ eru þeir þo mikels metner i Himnenum. Skal eg kalla han̄ Rijkan̄, ſem ꜳ morg Naut og Saude? Og ecke miklu helld ur þann, ſem ꜳ Himens og Jardar Skapara. Ef Gud bleſſar ecke ſijna Þioonuſtu med Rijkdoome, þꜳ bregdſt þad þo alldri, ad han̄ bleſſe-h nomed

ſiꜳlfum

sialfum sier. Saa er ecke rijkur sem miked aa, helldur hiñ sem lætur sier nægia: Eñ hañ sem hefur Gud, hañ er alltijd anægdur, þvi þegar hañ hefur Drotteñ, þaa skeyter hañ hverke um̃ Himen nie Jord, Ps.73. Mig skal ecke furda þo Gud laate aa stundum sijna Elskendur vanta Audlegd Heims þessa, þvi hañ hefur giefed þeim laangtum betra, sem er sialfañ sig. Þegar nockur hledur sitt Skip med nytsamlega Voru, þaa lietter hann aa sier Barlestenne. Hvad skyllde hann, sem fullur er af Gude, vilia þyngia sig med Mamona? Og mun hañ ei alla vegana varast Diofulsins Snorur, sem Gud hefur einusinne veiddañ i sijnu Nete? Saa sem Gud hefur, hañ hefur meir eñ allt, og hañ sem ecke hefur Gud, hañ hefur miña eñ ecke neitt, so verdur giefed þeim sem hefur, og teked fraa þeim sem ecke hefur, eirneigenn þad hañ hefur edur meinar sig hafa, Marc.4. Vier heyrum framveiges i Gudspiallenu, ad Drotteñ seiger vid Philippum: Hvar Kaupum Vier Braud, So Ad Þesser Neyte? Allt Valld hafde Jesus aa Himne og Jordu, Matth.28. Þo raadgast hañ um̃ þetta vid siñ Læresvein, hvar þeir kuñe Fædslu ad kaupa. Med hverju Orde hañ bender þier til, christeñ Madur, hverneñ þu aatt ad leita þinnar Atvinnu, sem er i allañ leifelegañ Maata. Ecke ad Andskotans Raade, þvi hann stelur ollu þvi hann rædur til, og ertu þaa hañs Þioofsnautur, ef [illegible] fyrer hañs Aeggian wtvegar þier Fooſtur: Ecke med Okre, þvi Drottenn seiger: Þu skallt ei faa þijna Peninga þijnum Broodur til Okurs, Devt.23. Ecke med Kwgun edur Hardrægne, þvi Gud hefur Andstygd aa þeim, sem selur Lijtelmagnann fyrer eirn Pening, og hinn Faatæka fyrer eirn Skoo, Amos.2. Nærst þessum sitia i Andskotans Rijke Þioofarner, sem wtrietta sijnar Hendur til annarlegra Fiaarmuna, um̃ hveria St. Paall seiger, 1.Cor.6. Ad þeir ecke eignest eilijft Lijf, og i Sannleika, þaa er Þioofureñ Svijvirding bæde fyrer Gude og Monnum. Ad soñu seiger Syrach, Cap.20. ad lijdañlegre sie Þioofureñ eñ Lygareñ, þo mune baader til Olucku verda. Enn þegar eirn odaada Skelmer tviñar hverttveggia samañ, mun hañ ecke flietta Olukkuñar Snoru handa sijnum eigenn Haalse? Og þoott hañ meige um̃flya þaa tijmañlegu, þaa er eckert vijsara, enn ad honum saalgad verde med eilijfre Kyrkingu i Helvijte, þvi eg hafde nærre þvi sagt, ad þad være Þioofsins Lucka, ef hañ yrde heingdur, ef skie mætte, ad Gaalgeñ frijade hañ fraa Helvijte. Heyred þier Satans Born, ef nockrer erud, sem meiged Ord mijn heyra, edur til þeirra spyria: Erud þier enn nu ecke ofþyrster vordner af Bloode faatæks Almwga hier i Lande? Nær vilied þier laata af ad wtsiwga Hws þeirra sem ydur Forsorgun veita med sijnu Erfide? Skulu Guds Born leinge bera ydar Svijvirdingar? A Gud oss leinge reidur ad vera fyrer ydar Saker? Geingur ydur þad ecke til Hiarta, ad hann straffar þaa fyrer ydar Skulld, sem ydur ala? Hafed þier ecke heyrt, hversu Gud vard reidur vid Israel fyrer eiñsamañ Achans Þioofnad? Jos. 7. Vited þier ecke hvad Drotteñ seiger hiaa Zach. 5.? Þad er su Bolvan sem wtgeinger yfer Landed, þvi aller Þioofar verda sagder froomer epter þessu Brefe, eñ eg vil þad framkoma laata seiger Drotteñ Zebaoth, ad þad skal koma yfer Þioofsins Hws, og

þess

þess Hws sem sver falsklega vid mitt Nafn, og þad skal blijfa i þeirra Hwse og eyda
þvi med þess Stockum og Steinum. Þeinked þier þar, fyrst hañ lijdur ydur ad plaga
sijn Børn medañ ydar Tijme yferstendur og Magt Myrkrañа, þad Gud mune vera
eins og þier, af þvi hañ þeiger? Ps. 50. Og sier þo þetta, og ecke vitia um̃ sijder ydar
oguðlegs Athæfis i siñe Reide, sem ad breñur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Þar
fyrer læted af illu, O! þier Eitur-Ormar og Nødru-Kyn, og læred gott ad giøra, Es.
1. Hver hann hefur stoled, hann stele ei framar, helldur erfide med Høndunum? Eph.
4. Mauren er eirn veikur Hoopur, þo wtvega þeir sijna Fædslu um̃ Sumar-Tijm-
ann. Kunijsenn er og veikur Lijdur, þo byggia þeir sitt Hws a Steinunum. Gras-
Hoppurnar hafa eingann Konung, þo gaanga þær allar wt i Hoop. Gaungu-Rof-
añ vinnur med sijnum Footum, og er i Konungañа Hybijlum, Prov. 30. Þetta giøra
hin vesælustu Kvikinde Jardar, enn hvad giøred þier, sem Gud hefur giefed skynsemd-
arfulla Saal i heilbrygdum Lijkhama? O þier hin hreckvijsa Kynslood! hversu vilied
þier um̃flyia Guds Reide og Fyrerdæminguna? Matth. 23. Nema þier ydrest af
Hiarta. Gudspiallamadureñ seiger, ad Jesus Hafe Talad Þesse Ord Til ad Freista
Hañs Med, Þvi Hañ visse Sialfur hvad hañ villde giøra: Þu skallt og ecke laata þig
þad undra þoott Gud reyne sijna, christeñ Madur: Gud freistar ad soñu einkes Mañs
til ills, seiger Jacob, Cap. 1. Enn til goods freistar Gud Mañsins, so ad Reynsla
vorrar Trwar fiñest Gulleinu dijrmætare, 1. Pet. 1. Til Lofs og Dijrdar Christo. Ab-
raham vard freistadur, Gen. 22. so hañ være Fyrermyndan allra Abrahams Sona,
sw Canaaniska, Matth. 15. So eingeñ ørvænte þoott Gud meige þeigia um̃ Stund
vid Bænum sijña Barna. Merkelegt er þetta, ad Drotteñ spyr Philippum ad þessu
framar ødrum; sañlega, þvi hañ hefur trwarveikur vered, so ad þad dijrdlega Krapta-
verk er hañ villde giøra, mætte þess betur gaanga honum til Hiarta. Eda hvad seiger
vor Herra, Joh. 14. vid sama Læresvein, er hañ beidde ad hañ sijnde þeim Fødurenn,
trwer þu ecke ad Fadereñ er i mier og eg i honum? Og varla ødruvijse voru hiner
Læresveinarner a sig komner, hvar fyrer Endurlaunsareñ straffar þaa, Matth. 16. Þaa
þeir høfdu Brauded epterskiled, seigande: O þier lijteltrwader, eñ þaa skilied þier ecke,
kuned þier ecke þau 5. Braudeñ þar ed voru 5000. Mañа? Og hvad margar Karf-
er þier upptookud. So vill nu vor Jesus med Reynsluñe og Auglijsingu sijns Al-
mættis midt i Freistinguñe smaamsamañ innplanta Trwna hiaa sijnum Læresveinum,
og sama giører hañ eñ nu i Dag, þaa hañ Hiaalpena undañdregur, edur lætur veniu-
leg Lijfs-Medøl bresta. Gud naade, þoott Meñ sieu Christi Lærisveinum i flestu olijk-
er nu i Heiminum, þaa fiñast þo marger þeirra Lijkar i þessu, Braud fyrer 200. Pen-
inga næger þeim ecke. Eñ hvad giørum vier? Strax sem vier høfum ecke fullañ Maga
Matar, þaa er þar Muñureñ fullur Ørvæntingar. Ef þar er ecke allt fyrer Augunum
sem eta skal, þaa seiger hiñ vantrwade, þott Gud giøre Glugga a Himeneñ, þa kañ þad
ecke ad skie ad Meñ life, 2. Reg. 7. Eñ hiñ matvande gietur ecke lifad vid þad Liettmete

sem daglega fellur, hañ seiger, hvar vill þesse giefa oss Kiot ꝏ Eydemörku? Num. 11. Sijnest nockud omögulegt, þꝏ hæder mannleg Skynseme þar ad. Hvernenn skal þesse giefa oss sitt Holld ad eta og sitt Blood ad drecka? Joh. 6. Þesse Orvæntingarennar og Ohöliñmædis Ord, byrgia tijdt og opt aptur Guds Myskunar Dyr, so hann lætur hinum gudlausa verda epter Trw sinne. Heyred þier mier, er þꝏ nockurt Ord o-mattugt fyrer Gude? Hañ sem skapad hefur Steineñ, kañ hann ecke ad giefa Vatn af honum? Num. 20. Hann sem giort hefur Vatned, hvad liett veiter honum ad umhverfa þvi i Vijn? Joh. 2. Er honum nockud bægara ad læta mig fiña Gull i Fiskßins Muñe, helldur enn i Jilsnum Jardar? Er ecke Hrafneñ grædug Skiepna? Þo liet hañ Eliam fæ af hanns Munne Kiot og Braud, 1. Reg. 17. Þressar nockur Oleum wt af Leyr-Kierum? Og þo fyllte Spæmañsins Bæn og Eckiuñar Trw so mörg Kier allt æ Barma, 2. Reg. 4. Þu seiger Gud giore ecke Kraptwerk ꝏ þessum Dögum so sem Eliæ. Eg medkienne þad, þvi þess gioreſt ecke Þorf. Gud hefur giort so mörg Kraptaverk sijdann Eliæ Daga, ad sꝏ sem ecke vill Gude trwa fyrer þau, hann munde ei helldur trwa þott hañ sæe Eliæ Kraptaverk. Þar eru ei helldur marger ꝏ vorum Dögum, sem þioona Gude eins og Elias. Være þar Eliæ Trw, hanns Arvekne og Astundan i Guds Þioonustu, þꝏ trw mier til, ad Eliæ Gud er einn og hinn same, og ecke umbreytt est hann. Þu seiger: Gud giorer eingenn Kraptaverk, enn hvert er meira ad giora alla Hlute af eingu, Gen. 1. Eda ad giora Vatn ad Vijne? Eda Steina ad Braudum? Mier sijnest eckert meira Kraptaverk eñ þad, ad Gud kann ad forsorga þann Vantrwada. Læresveinarner gꝏtu ecke wtreked Tunglmeina Dioful eñ fyrer þeirra Vantrwar Saker, Matth. 17. Eñ eins miked Valld hefur Gud yfer Dioflenum sem yfer ødrum sijnum Skiepnum, þvi sijnest mier þad yfer Mꝏta miked Kraptaverk, ad Gud lætur hinum vantrwada og oþackläta nockurn Hlut ad nockru goodu verda. Þar fyrer E. G. V. Ef mannlegur Veikleike kañ ad koma iñ hiꝏ oss, so sem Christi Læresveinum, ef vier erum þeim lijker i Trwarveikeñe, þa verum þeim ecke olijker i Hlijdneñe: Þeir giordu slijkt er þeim var skipad, þeir stoodu ecke upp i Nosunum ꝏ sijnum Herra, eins og ad være þetta Omedal, so sem ad giora vorer Þioonustumenn ꝏ þessum Dögum, sie þeim skipad nockud oveniulegt, þꝏ hroopar hiñ Late, ad þar sie Leon ꝏ Veigenum, Prov. 22. Giorum þvi Verk Kallanar vorrar i Guds Otta, og vorpum allre vorre Ahyggiu uppꝏ Gud, hañ mun þvi vel til Vegar koma, 1. Pet. 5. Jesus took Braudeñ i sijnar Hendur, seiger Textenn: J þær blessudu Hendur took hañ þad, i hvoriar Faderenn hefur lagt alla Hlute, Joh. 3.

Framar seiger Gudspialled, ad hañ hafe lited Augunum til Himens og giort Þacker. Ei þurfte vor Jesus þessarar Blessunar vid, til ad giora Kraptaverk fyrer sialfañ sig, þad vottar hañ sialfur hiꝏ Joh. 11. seigande: Eg þacka þier Fader ad þu bænheyrder mig, eñ eg visse þu munder mig bænheyra, helldur vegna Foolksens sem i kring um er, so ad þeir trwe þad þu hefur sendt mig. Þar fyrer skallt þu vita, syndugur

Madur,

Madur, hverium Gud giefur dagleg̃ sijna Blessan, ad þiñ Endurlausnare hefur giefed þier eitt blessad Dæme hier med, þad þu trwa skyllder ad þijn Faung og Fæda verdur þaa hellst til Blessunar, þegar hun er i hañs Nafne blessud. Þad er ei miña verdt ad giæta feingens Fiaar eñ ad afla, somu Atferd skal og christeñ Madur hafa til hverstveggia. Jeg sagde fyrer skomu, þess skyllde i Guds Otta leita, so seige eg eñ nu ad þess skal i Guds Otta neyta. Hvad seiger Drotteñ um̃ þaa sem treysta aa Maatt sinn og Megeñ, Es. 8. Vered iller þier Lijder, og reñed þo undañ, herklæded ydur og hlaupped þo aa Flootta, bwed ydur wt, og flijed þo undañ; aalykted eina Raadagiord, og þar verde þo ecke af, hafed Samtok, ñ þad hafe þo eingañ Stad, og allt eins eru Sofn Mañа og Addrætter fyrer utañ Blessan Drotteñs. Margur hyrdulaus meinar, ad þetta sie ecke nema faanijtt Hial, saa ed ecke einasta hleipur sem añar Hundur til siñar Fædu, helldr og lætur sier alldrei til Hugar koma ad bidia Gud ad blessa sijn Efne. Oll Skiepnañ er good seiger Paall, 1. Tim. 4. Og eckert burtkastande, ef hun er med Packlæte medtekeñ, þvi hun helgast fyrer Orded og Bæñena. Eñ Gud naade hvada Packer hin eilijfa Myskunseme maa faa fyrer sijna daglega Blessan hiaa morgum Manne. Jeg meina þad sie sañast, ad vier setiunst nidur ad eta aa stundum, og rijsum upp til ad dansa, Exod. 32. O Mañeskia! er þaa Gud leingur ad svipta eñ ad giefa, reidur helldr eñ myskunsamur ad vera? Syrach. 5. Læte hañ oss nockud mootdrægt tilfalla, þad liggur so þwngt med oss sem Blij, eñ ef hañ opnar sijna Myskunar-rijku Orlætes Hond, þad er hiaa oss liettara eñ Fis. Framveigis stendur i vorum Texta: Ad Jesus hafe Feinged Sijnum Læresveinum Brauded, Eñ Þeir Feingu Þeim, Sem Til Bordsins Saatu, Slijkt Hid Sama af Fiskunum, So Miked Sem Hver villde hafa. Þetta sijnest mier vera ein aagiæt Lijfs-Regla fyrer christeñ Mañ, hverneñ hañ aa ad hondla med Guds Gaafur, sem honum eru i Hendur feingnar. Jordeñ er Drotteñs og allt hvad þar iñe bygger, Ps 24. Sijna Raadsmeñ hefur hañ sett yfer Eigur sijnar: Hver er saa trwe Raadsmadur, seiger Jesus, Luc. 12. Er hanns Herra setur yfer sijn Hiw, þad hañ giefe þeim i riettañ Tijma þad sem þeim ber? Sæll er saa Þioon, sm̃ hañs Herra fiñur so giora, þaa ed hañ kiemur. Eins og Jesus fieck sijnum Læresveinum i Hendur Brauded, til ad wtskipta þvi medal Bordsitiandaña: So hefur hañ og þeim, er honum þocknast, afhendt Audlegd þessa Heims, til ad wtbijta medal þurftugra. Þu skallt ecke meina christeñ Madur, ad þad sie allt þitt eiged sem þu medferdis hefur. Þad Braud sem afgaangs er i þijnu Hwse, er Forsorgun hiñs volada. Saa Mottull er þu þarft ecke ad brwka, er Klæde hiñs nakta, Luc. 3. Þau Faung sm̃ aa añañ Veg hiaa þier skiemast og fwna, eru Lijfsbiorg hiñs naudþurftuga, þar fyrer giorer þu so morgum saatækum oriett, sem þu mætter añars, þier ad skadlitlu hiaalpa, ef þu þvi iñe helldur, þaa hiñ volade, sem er sañur Olmusu-Madur, vid þarf. Ei þurfum vier ad brioota nidur vorar Kornhlødur og giora adrar stærre, so leinge vier hofum saatæka hiaa oss. Korned liggur jdiulaust i Hløduñe, og verdur kañskie um̃ sijder af Orm-

um uppeted, eñ hiá hinum fátæka ber þad Avöxt, so sem á Akrenum. Soddañ Akur-Meñ eru næsta þarfer. Jeg vil helldur sá einu Korne i Muñ hiñs fátæka, helldur eñ tiju i Jordena. Jeg vil helldur fá hinum volada tiju Peninga, eñ kasta Hundrad á Mángarans Bord, hañ mun þvi med þusundfolldum Abata apturskila, ef ecke i þessum Heime, samt i Upprisu riettlátra, hvar eirn Vatnsdryckur mun ecke olaunadur verda, Matth. 10. Hiñ ránglláte Rádsmadur var ofrægdur vid siñ Herra, so sem hefde hañ eydt hañs Gotze, Luc. 17. Meired þier ecke og ad Hroop himns fátæka og Eckiuñar mune ofrægia þa i Himnenum fyrer lifanda Gude, sem liggia á Guds Gáfum, svo sem Ormur á Gulle, og ala Agyrndena, enn fátækur fellur af Hüngre i Froste og stoorre Neyd, þvi er illa wtsooad, sem of-vel er geymt, þvi slijkt er Ellds-Matur og Orma-Fæda, eñ kiemur ecke i Guds-Kistuna, svo þad verde ad Himneskum Fiesiood, hverium Molur og Rid kann ecke ad granda, Matth. 6. Fordum Daga i gamla Testamentenu, þá hafde Gud skilid sier vissar Foorner fyrer Syndernar, Ecke i þeirre Meiningu, ad Blood Uxaña og Hafraña kyñe ad hreinsa Samvitskurnar, helldur voru þar i fyrermyndud epterkomande Giæde, sem er Blooded Jesu Christi, hvert ed hreinsar os af ollum vorum Syndum. Enn þesser Tijda-Sider eru fyrer laungu afteknar, þar Guds Eingieteñ Sonur er i Holldenu opeñberadur, og hefur fyrer sitt eiged Blood einusinne iñgeinged i þad allra-helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þo eiga vorar Foorner og Upplyptingar-Offur daglega ad uppstijga i Himneneñ fyrer Guds Hásæte, ecke einasta med Bæn og Andvarpan, helldur med Olmusugiordum vid fátæka. Þijnar Bæner og Olmusugiorder eru uppstignar fyrer Gud sagde Postuleñ vid Cornelium, Act. 10. Þad er sw Foorn sem Gude lijkar framar eñ Blood Uxaña og Hafranna, þá þad framkiemur af trwudu Hiarta, þvi seiger Paulus til Hebr. 13. Gott ad giora og ad wtbijta gleymed ecke, þviad slijkt Offur þocknast Gude. Hvar fyrer mun Gud láta suma Meñ vera rijka, suma fátæka i Heimenum? Mogulegt er honum ad láta alla vera jafna, og eingañ þurfa añars med. Margar eru Orsaker þar til, eñ þo ecke hin sijdsta, ad Gud vill láta sig dijrka af soddañ Mañeskium: Þad þier giordud einum af þessum miñstu, þad giordud þier mier, seiger alls Hollds Doomare á sijdarsta Deige, Matth. 25. Miked er þad, ad Gud sem er einkis þurfe, vill þiggia i þvi sem hinum fátæka er gott giort: Þar eigum vier ad sijna vora Elsku til Guds, þar er Skoole vorrar Gudhrædslu, þar er þad Altare sem vier eigum ad leggia vora Gáfu uppá.

Ein Brwdur skiemter sier vid Mynd sijns Brwdguma þar til hañ kiemur. Vor Meistare er nu tekeñ frá voru Hofde og hafeñ yfer alla Himna: Mig hafed þier ecke alltijd hiá ydur, eñ fátæka hafed þier hiá ydur, sagde hañ, Joh. 12. Þeir eru hanns lifande Eptermynd, og hañs Limer sem fara wt og austur, og ecke hafa hvar þeir kuñe Hofde sijnu ad halla ad. Jeg meina ecke þá, sem fyrer Omensku saker bidia um Olmusu, edur hina drambsomu Lete-Maga, sem alla Hlute heimta af sialfs Vallde, og

sialldа Bølvan og Formæling i Laun, ef þeirra Hialls er ecke fylltur, helldur þa sem afi adhvert hafa slited siñe Heilsu med ærlegu Erfide, eda Gud hefur siñ Kross a Herdar lagt (þvi ecke heyre eg miñ Herra hafa nockurn Hlut med Siaafskylldu wtheimt, þo hañ hefde allt Valld bæde a Himne og Jordu, Matth. 28.) Þa byriar ad medtaka i Jesu Nafne, og miñast þess er Drotteñ baud, Devt. 15. Alla Tijma munu þar verda fatæker i Landenu, þvi bijd eg þier og seige, ad þu skuler uppliwka þiñe Hende fyrer þijnum Broodur sem þurfttugur og fatækur er i Landenu. Enn þa þeir voru nu metter (seiger Texteñ) sagde hañ til siña Læresveina, safned samañ þeim Leyfum sem afgangs eru, so ad eckert spillest, og ad þeir hafe fyllt upp toolf Karfer med Afgangs Leyfar. Hier kieñ er vor Endurlausnare þier syndugur Madur Logmal christelegrar Forsioonar, sem er ad hyrda vel Guds Gafur. Gud sa allt þad hañ hafde skapad, og sia þad var allt harla gott seiger Ritningeñ, Gen. 1. Ef þad var allt gott fyrer honum, i hvers Auglite Himnarner eru ecke hreiner, Job. 15. Skylldе þa nockur Skiepna vera so auduirdeleg i þijnum Augum, O þu sauruga Mañeskia! ad þu villder þar ecke um hyrda? O Herra Gud! vorar Synder, vorar Synder, vort Opacklæte og Ofmetnadur stendur mier nu fyrer Augum. Hvad giorum vier a þeim goodu Tijmunum, þegar Drotteñ lætur sijna Blessan aan Mælingar falla af Himnum ofañ i vort Skaut? Munum vier næst hyrtner vera i Lande þessu ad samannsafna þeim Leyfum sem afgangs verda? Er ecke allur añar Hiegoome dijrmætare i vorum Augum enn þad sem Gud giefur oss til Foosturs: Velger ecke vora Pioonustumenn vid daglegre Fædslu? Hyrda Meñ stoort um ad nijta Guds Gaafur so sem giora mætte? Þessar Synder berum vier sijdañ; Kann skie þad kiæme sier æred vel i Dijrtijdeñe, sem eingeñ nijter þegar allt er noog. O! Hvad margañ kañ þa ad hwngra epter þvi sem hañ nu foottredur? Þo kostum vier Skulldeñe uppa Gud, eñ eingeñ gæer ad þvi ad oss er þesse Hefndeñ nærsta makleg, og ad vier hofum þad og añad þusundsiñum verra forskulldad. Latum oss þessara Synda ydrast, Born mijn, og þær til Hiarta ganga, med gudrækelegum Asetninge ad breyta forsialleg a frañveigis. Gud hefur eingañ Hlut giordann forgiefens, so vill hann og ecke lata illa nie onaudsynlega þar med fara. So er og ei helldur Gude þæg Metordagyrnd þeirra er sooa Guds Gaafum til ad wpvega sier stoort Nafn þar med. Hvad talar Drotteñ um þa er giora sijnar Olmusur fyrer Moñum, sañlega seige eg ydur: Þad þeir hafa sijn Laun wtteked seiger hañ, Matth. 6. Þad er Hiegooma Dijrd og samijtt Hroos Mañaña. Frelsareñ liet giefa þessu Foolke ad eta, þar til þeir voru metter, þvi er afgieck skipade hañ upp ad safna. Þad er christelegt ad metta Maga hiñs hwngrada, eñ ad sedia Auga hiñs grаduga er onaudsynlegt: Þar eru marger, sem Meñ giora verre med ofurmiklu Orlæte og alltijd reidubwna til ad gapa epter sama. Þad er gudrækelegt ad safna Nægtum þegar vel geingur, so þar sie til ad hialpa af i þeirre vondu Tijd. Þad er ein good Forsioon ad miñast þess umlidna, hyga um þad nærverandа, og sia fyrer þvi okomna, þo fyrer utann Bwk-Sorg

og o-christelega Ahyggiu. Josephs Framsyne er hroosad ad hañ fyllte Korn-Hlod-
ur Pharaonis ꝏ þeim goodu Arum, og frelsade Landed af Hungre þꝏ illa gieck, hvar
fyrer hañ kalladest Landsins Fader, Gen. 41. Pad er og hꝏlfu verra ad eyda onaud-
synlega uppꝏ siꝏlfañ sig i Ofmetnade Klædnadareñs og Ohoofe Matar og Dryck-
lar. Ad soñu hefur Gud ecke bañad ad hafa Jñdæle af sijnum Skiepnum, þo so, ad
Meñ gledie sig med Otta, og gleyme ecke hinum þurftuga. Ecke er vijst ad Doomur
hiñs rijka hefde vorded so skielfelega strꝏngur, hefde ei Lazarus leiged vatnande fyrer
hañs Dyrum, Luc. 16. Siꝏlfur Gud hefur giefed eitt Logmꝏl hier uñ synu Foolke,
Devt. 16. Þu skallt vera gladur fyrer Drottne þijnum, þiñ Sonur og þijn Doott-
er, þinn Þienare og þijn Ambꝏtt, Leviteñ sem er iñañ þiña Port-Dyra, hinn fram-
ande, hinn fødurlause, og Eckiañ sem er hiꝏ þier i þeim Stad sem Drotteñ Gud
þinn hefur wtvaled þad hañs Nafn skule hiꝏ þier bwa. Svo hefe eg nu ad nockru
leite sijnt þañ rietta Veg til ad leita Atviñu suñar wt af þessu H. Evangelio, epter þvi
sem eg skil af Guds Orde. So leited nu fyrst Guds Rijkes og hañs Riettlætis,
Matth. 6. Brwked leyfeleg Medøl i ollum ydar Athøfnum og Utriettingum. Treystед
Gude ad hañ mune ydur og ydar forsorga, þꝏ þier so giored, bidied hañ almꝏttuga
ad blessa ydar Faung, ydar Karser og Afgꝏngs Leyfar: Gleymed ecke hinum þurft-
uga og volada. Lꝏted ydar Olmusur framkoma af Trwñe og Elskuñe til Guds og
Nꝏunganś. Hondled vareygdarsamlega med Guds Giøf, og vered þacklꝏter
bæde i Orde og Verke, giored þetta, og munud þier alldrei illa fara. Eñ Drotteñ
Gud eilijfur Konungur og alleina rijkur, hann uppfylle alla ydar Naudþurft epter
sijnum Dijrdar Rijkdoome i Christo Jesu, Phil. 4. Og giefe fyrer hañs Forþie-
nustu, ad þier ad afstadeñe Armꝏdu þessa Lijfs, mꝏttud iñleidder verda i Fognud yd-
vars Herra, til ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. og
mettast af Nægdar Giꝏdum Guds Hwss: Pad bænheyre myskunsamur
Gud fyrer sinn Son Jesum Christum, AMEN.

# Sunnudagenn epter Midføstu.

Gudspialled, Joh. 8. Cap.

A Pañ Tijma. Jesus sagde til Gydingaña og Hofdingia Kleñemañaña: Hver er sꝏ af ydur, þad hañ meige straffa mig uñ nockra Synd? Eñ ef eg seige ydur Sañleikañ, hvar fyrer trwed þier mier þꝏ ecke? Hvør hañ er af Gude, sꝏ heyr-er Guds Ord, þar fyrer heyre þier þau eige, þviad þier erud ei af Gude. Eñ Gydingarner svorudu, og sogdu til hañs: Seigum vier ecke vel, þad þu ert samverskur, og hefur Diofuleñ? Jesus svar-ade: Eg hefe ecke Diøful, helldur heidra eg miñ Fodur, og þier van-

heidred mig; Eg leita ecke ad miñe Dijrd, sa er sem leitar og dæmer. Sañlega, sañlega seige eg ydur: Hver hann geymer mijn Ord, hann mun ecke Daudann sia ad eilijfu. Þa sogdu Gydingarner til hañs: Nu þeckium vier ad þu hefur Diofulenn. Abraham er daudur, og Spameñerner, og þu seiger: Ef ad sa er nockur sem geymer mijn Ord, hañ skal ecke Daudañ smacka ad eilijfu. Hvert ertu meire Fødur vorum Abraham, hver ed framlideñ er, og Spameñerner eru og framlidner? Hvern giører þu sialfañ þig? Jesus svarade: Ef ad eg vegsama mig sialfur, þa er mijn Dijrd eingenn. Minn Fader er sa sem mig vegsamar, hvern þier seiged ydar Gud vera, og þier þecked hañ þo ecke: Eñ eg þecke hañ, og ef eg segde þad, eg þeckte hañ eige, þa være eg eirn Liwgare lijkur ydur; Helldur þecke eg hañ, og eg geyme hañs Ord. Abraham Fader ydar gladdest ad hañ skyllde sia minn Dag, og hañ sa hañ, og vard gladur vid. Þa sogdu Gydingar til hañs: Þu ert eñ ecke fimtugur, og þo sastu Abraham? Jesus sagde til þeirra: Sannlega, sannlega seige eg ydur: Ad adur eñ Abraham var, em eg. Þa tooku þeir upp Steina, so ad þeir kostudu a hañ. Eñ Jesus fordade sier, og gieck wt wr Musterenu.

## Exordium.

Pañarar Konganna Bookar 9. Cap. Lesum vier, ad þegar Sendemadur Spamañsins Eliseï hafde smurt Jehu til Konungs yfer Israel, þa hafe hanns Herra Þienarar sagt vid hañ: Hvad villde þesse Vitfyrringur til þijn? So voru nu Jorams Villdar-Menn lynder, af þvi þeir ecke þecktu Drottenns Rad. Jeg er og hræddur um, ad þoott eg i Dag epter Guds Skipan, vilie smyria þeirra Saaler til andlegra Konunga og Kiennemaña, sem af Gude eru, med himnesku Oleo, sem er Guds heilagt Ord, þa mune eg ecke betur wtlijta i þeirra Augum, sem holldlega sinnader eru, helldur enn eirn Vitfyrringur, þegar eg tala um þa Hlute, sem Guds Anda eru og holldlegur Madur ecke skyniar, 1. Cor. 2. Og er mier þad fyrer minnstu ad eg af mannlegum Deige dæmdur verde, 1. Cor. 4. Þvi gott er ad eiga Hlutskipte med St. Paale, vid hvern Festus Landsdoomare sagde, þa hann talade um Christi Pijnu og Uppriisu framlideña, ad hañ være galenn vordeñ, Act 26. Enn þad angrar mig framar, ad Holld og Blood giefur sier ecke Stunder til ad rannsaka Dypt og Hæd Guds Vitsku, og þa Speke sem hañ hefur Moñum opeñberad. Þegar Felix heyrde talad um Trwna a Christum, um Hreinlijfed, um Riettlæted, um eptterkomande Doom, þa skielfest hañ vid, og lætur bijda ad hlusta til þess fyrr enn hann hefur Toomstund, Act. 24. Agrippa Konungr liggur vid ad verda christenn, eñ fyrer

fyrer þvi ad hañ hefur Nꜳd ad sijsla, þꜳ dregst þad undann, Act. 26. Hinn rijke Yngs lijngur vill ad søñu fꜳ ad vita hiꜳ Jesu, hvad hañ skule giøra so hann eignest eilijst Lijf; Eñ þegar hañ heyrer ad hañ skule selia allar Eigner sijnar og giefa fꜳtækum, þꜳ verdur hañ hryggur, Matth. 19. Hvad kiemur til þessa? Þad alleina, ad Menn hafa ecke vel smackad hvad sætur ad Gud er, Ps. 34. Og ecke komed Auga ꜳ þa Perl- una sem Madureñ sꜳ, og sellde allt hvad hañ ꜳtte fyrer þꜳ sømu, Matth. 13. Þvi eingeñ gyrnest þad sem hañ ecke þecker. Og þad er Orsokenn hvar fyrer ad Guds H. Ord verda af so fꜳum medtekenn. Þad og annad, ad þar er so mikill Ovinskapur ꜳ mille Holldsins og Andans, Gal. 5. Liossins og Myrkursins, Riettlætesins og Rꜳnglætesins, Christum og Belial, 2. Cor. 6. Guds Kyrkiu og Skurgodaña, ad eingeñ kañ til Christum ad koma, nema sꜳ himneske Fadereñ drage hañ seiger Endur- lausnareñ, Joh. 6. Hvar til hañ brwkar sitt H. Ord. Eñ þeir ed ei hyrda um̃ ad gꜳn- ga i Lioosenu, eda smacka hid goода Guds Ord og Krapt epterkomande Alldar, Ebr. 6. Hvernenn meiga þeir um̃flija þad ad Myrkureñ hondle þꜳ ecke? Saint eru þo Guds Ord Lijf og Ande so sem Endurlausnarenn vottar, Joh. 6. Og Gulled er Gull þo þad verde af Svijnunum foottroded. so er og þad Orded af Krossenum Christi Heimska þeim sem tapader verda; Eñ oss sem hoolpner verdum, er þad Kraptur Guds seiger Paulus, 1. Cor. 1. Eckert Strijd ꜳtte vor blessade Endurlausnare meira vid synduga Menn hier ꜳ Jordunne, enn ad giora Mismun ꜳ mille Holldsins og And- ans, so ad jafnvel Nicodemus sem var eirn Meistare i Jsrael, Joh. 3. og gudhrædd- ur Madur, hann var i þessu nærsta tornæmur. Ad eg ecke tale um̃ þann ogudlega Hoop Phariseanna og skriptlærdra sem alldrei villdu lꜳta telia sier Trw hier um̃, og ecke lietu sier skiliast þad, þo hann segde: Þier dæmed epter Holldenu, Joh. 8. Þier erud hier ad nedann, eg er ad ofann. Og enn nu i þessu Samtale sem Drottenn ꜳ vid þann ofyrerlꜳtsama Flock Gydinga heyrum vier, ad ꜳ mille ber um̃ þessa Spurningu. Eg vil um̃ þad alleina tala i þetta sinn, hvernenn þeim hꜳttad sie sem af Gude eru, wt af þessum heilogu Ordum. HVOR HANN ER AF GUDE, HANN HEYRER GUDS ORD.

Drottenn gief oss þinn Anda hier til fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Af Gude eru aller Hluter i ondverdu E.G.B. So sem þar stendur Gen. 1. J Upphafe skapade Gud Himen og Jord, og eñ nu er þad so, ad aller Hluter mei- ga af honum seigast, þvi hañ stioornar og stijrer øllum Hlutum, frꜳ þvi minsta Skridkvikende Jardar, allt til þess stærsta Dijrs sem er i Nꜳtturuñar Rijke, og i hon- um erum vier, lifum vier og hrærumst vier, Act. 17. Eñ ecke er þad þo Meining vors Endurlausnara i greindum Ordum. Þeir kallast og af Gude ad vera sem i hañs Nꜳd- ar Sꜳttmꜳla eru iñtekner, so sem Jsrael var til forna kalladur Guds Foolk, af þvi þeim var Guds Sꜳttmꜳl og hañs Ord i Hendur feinged epter Guds Fyrerheite til

Abra-

Abraham. So erum og aller vier af Gude sem hofum iklædst Jesu Christo i Skijrneñe, Gal. 3. og eigum ad samteingiast honum i Dijrdeñe, Heilagleikanum og ostraffanlegu Framferde, Eph. 6. Eñ eins og þvi hꜳttad er i voru lijkhamlegu Edle, ad Meñ taka ecke alltijd Voxt edur Afl, nie adra Koste i Arf epter Forelldrana, og margur er sijnum olijkur þo skylldur sie; svo eru þar fleire Ismael helldur eñ Isaac i Hwse Drotteñs, sem ad er christeleg Kyrkia, og þeir gꜳnga ecke aller i Andanum sem þo eru i ondverdu af Andanum endurfædder, þvi er og ecke þetta eigeñleg Meining vors Endurlausnara i þessum Ordum, helldur meinar hañ þꜳ sim fyrst eru af Vatne og Anda endurfædder i Skijrneñe, Joh. 3. og Jesu Christo fyrer sañа og lifande Trw eru iñplantader, vordner andleger Kvister ꜳ þvi blessada Vijntrie, sim hañ umgietur, Joh. Cap. 15. og bera þar fyrer mikeñ Avoxt, hverium hañ hefur giefed Makt Guds Bornum ad verda, þeim sem ꜳ hañs Nafn trwa, sem ecke af Bloodeyu, edur Holldsins Villd edur Mañsins Vilia, helldr af Andanum eru fædder, Joh. 1. Þeir ed sijna þad i sijnu Framferde, ad þeir sieu slutter frꜳ Daudanum til Lijfsins af þvi þeir elske Brædurna, 1. Joh. 3. Ecke seige eg þeir sieu einasta af Gude sem eru ꜳn Syndar, þvi þꜳ yrde eckert Holld hoolped. Ef vier seigium þad vier hofum ecke Synd, þꜳ tælum vier sialfa oss seiger Johañes, 1. Joh. 1. Oxeñ er ecke strax sett til Rootar Triꜳña sem nockur Blod folna, þo Kvistureñ um nockra Stund bere ecke Avoxt, þꜳ er hañ ecke strax afhoggveñ. Sꜳ himneske Urtagards Vordur bidur siñ Fodur ad hid visna Trie meige eñ nu standa eitt Ar, og hañ meige bera Myke krijngum þad og rækta þad, Luc. 13. Þvi mun hañ ecke kasta þvi strax i Elldeñ sim þad ber lijteñ Avoxt. Mun hañ nockud utslockva þañ lijtlogande Hor-Kveik, eda þañ brꜳkada Reyr i sundr briota, Es. 42. nei einggañveigeñ, hañ mun forsiꜳllega breita, so sim Fadereñ talar um siñ Son, Es. 53. hañ mun auka oss Trwna, Luc. 17. og bidia siñ himneska Fodr fyrer oss þad hun þrotne ecke, Luc. 22. Helldr tala eg hier um þꜳ sem syndga ad soñu, enn lꜳta þo ecke Syndena drottna i sijnum daudlegum Lijkhama, Rom. 6. Þꜳ sim af mañlegum Veikleika giora hid vonda er þeir vilia ecke giora, eñ giora þo so miked gott sem þeir gieta, þar ed eirn og hiñ same þioonar Guds Logmꜳle i sijnu Hugskote, enn þvijngast þo til af Ofbellde Nꜳtturuñar ad þioona Syndareñar Logmꜳle, Rom. 7. Og i einu Orde ad seigia, sꜳ sim er syndugr ad soñu, eñ þo fyrer Christi Forþienustu jafnañ i Guds Auglite riettlꜳtr, og þott hañ syndge, þꜳ hefr hañ Arnadar-Mañeñ ꜳ Himnum Jesum Christum hiñ riettlꜳta, sem er Forlijkun fyrir hñs Syndir, 1. Joh. 2. Sa sim þañeñ er nu af Gude og Gud i honum, þegar hañ hefr Gud, þꜳ hyrder hañ hverke um Himen nie Jord, Ps. 73. Vei þeim sim er einsamañ seiger Predikareñ, Cap. 4. þvi ef hañ fellr, þa er eingeñ ad reisa hañ, eñ sꜳ er alldrei einsamañ sim Gud er mr, þvi Gud er i og med honum, Rom. 14. Fellur hañ, þꜳ stendr hañ upp aptr, þvi Gud reiser hañ: Ratar hañ i nockra Villu, þa viller þo Heimureñ alldrei so um hañ, ad hañ rate ecke heim aptr, þvi Guds nꜳdarfullt Tillit ꜳvijtar hañ. Hiñ gudlause fiñur ei til þo hañ syndge, meir eñ hiñ daude þo hañ

sie bareñ, eñ þad Hiarta sem lifer i Gude, þad er vidkvæmt vid Brodd Syndareñar: Ei þurfte Nathan leinge ad telia uñ fyrer David, 2. Sam. 12. Drotteñ leit einasta til Peturs, og hañ gieck wt og griet beisklega, Matth. 26. Sꜳ sem af Gude er, hann yfergiefur alla Hlute Guds vegna, hañ er i Heimenum so sem fyrer utañ Heimeñ, so sem fꜳtækur, og þo marga audgande, so sem eckert hafande, eñ eignast þo alla Hlute, 2. Cor. 6. Sꜳ sem uñ Hafed sigler, hann huxar þo jafnañ uñ, hverneñ hann meige komast i gooda Hofn. Hann sem wt ꜳ Akureñ geingur til ad erfida, hañ hefur þo jafnañ sitt Hws i Þꜳnkanum, og til þess giorer hañ alla Hlute, ad hañ fꜳe þad vel forsorgad, so er og hañ sem af Gude er, þoott hañ verde ad flækiast vid Syslaner Heimsins, epter Naudþurft Lijkhamans, þꜳ er hañs Takmark hiꜳ Gude, hañ slepper sier ecke so vid nockurn Hlut, ad hann hallde ei honum: Falle hañs Erfide honum liett og vel, þad niñer hañ ꜳ ad þacka Gude fyrer sijna Giædsku og Epterlæte: Vilie þad mootdrægt falla, þꜳ yfergnæfer þo Guds Elska hiꜳ honum. Ok Christi er honum Hunꜳng i Munne, og hañs Byrde liett ꜳ hañs Herdum, Matth. 11. Þvi Gud hiꜳlpar honum til ad bera. Hañ lærer fyrer Guds saker bæde hꜳr og lꜳgur ad vera, saddur og hwngradur, noog ad hafa og Skort ad lijda, og alla Hlute formꜳ hañ fyrer þañ sem hañ styrker Jesum Christum, Phil. 4. Þoott hañ gꜳnge i gegnum myrkvañ Dal og Daudans Skugga, þꜳ hrædest hañ eingva Olucku, Ps. 23. Vere so til ad nockur sie i Fꜳngelse byrgdur, hvad vardar uñ þad? Eg sie Paulus og Silas eru lꜳngtum gladare i Fꜳngelsenu helldur eñ þeir sm ad Dryckiu sitia, Act. 16. Sooleñ upplioomar þeñañ vorn Horizont edur Sioonhverfis-Hrijng, og giorer Asijnd Heimsins biarta fyrer vorum Augum, þo gietur Sky-Flookeñ byrgt hana fyrer oss. Eñ hver vill byrgia fyrer mier þꜳ soñu Riettlætesins Sool, Mal. 4. Kañ nockur ad wtelykia frꜳ mier Fodur Lioosaña? Jac. 1. Hañ sm koin ad luktum Dyrum, og stood midt ꜳ mille siña Læresveina, og sagde: Fridur sie med ydur, Joh. 20. Kuña nockur Myrkur, nockrer Mwrar ad loka hañ wte frꜳ mijnu Hiarta? So hañ giefe mier ecke siñ Frid, hvern Verolldeñ kañ ei giefa, og hun ætlar mune vera Helvijte allra Eymda. Ef eg er landflootta, munu þeir nockud reka mig þꜳngad, hvar ecke er Hond Drotteñs? Ps. 139. Sie eg foraktadur af Heimenum, þad er mier noog ad eg verd heidradur af Gude, af bꜳdum kuña fꜳer under eins virdter ad verda. Sæler erud þier sagde Lausnareñ, Matth. 5. Nær Meñerner hallmæla ydur og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns saker, þo liwgande. Hvert skal eg nu helldr wtvelia ad lijda illt med Guds Foolke, Heb. 11. Eda ad hafa tijmañlegt Epterlæte Syndareñar? Jeg hyrde ei miked uñ þꜳ Ofundar-Meñ sem Gud hatar. Hvad liett fellur honum ad forsmꜳ Heimeñ, sem forsmꜳdur er af Heimenum: Hafe eg mist Agiæte Veralldar þessarar, hvad rijdr mier ꜳ þvi? Þad voru eingeñ wrtoku Giæde, sm so fallvollt voru, ad þau kuñu ad missast, og þo eg miste allt þad eg ꜳ iñ ad Hwdeñe, þꜳ hefe eg þo eckert mist, þvi eckert af þessu var mitt, þꜳ eg kom nakeñ i Heimeñ, eñ Gud var alltijd miñ

ein-

einhveriu Moote, so eg lifde ecke fyrr eñ eg ætte hañ fyrer Skapara, og þad Eig-ur-
Skial bættest i Skijrneñe, og vard underskrifad med Jesu dijrmæta Bloode, og iñsig-
lad med H. Anda, so ad minn Vinur er miñ og eg em hañs, Cant. 6. Allt fra Moodur
Lijfe epter Skopunar Endurlausnar og Helgunar Riettinum, honum vil eg alldrei slep-
pa, fare allt añad sem anned verdur. Take hañ Heilsuna fra mier, þa er honum þad i
sialfs Vallde, eg a þar einga Sok a, eg bij i Leygu-Hwse, og a sa frialst ad bygg-
ia þad og briota, sem er Hwsboondenn: Hverke saade eg nie plantade þad helldur enn
Jonas Lundeñ, Jon. 4. Þo mijn Saal kuñe um Stund ad verda oroolegi mier, sem
Jonæ, þa veit eg ad sw Sott er ecke til Dauda, hun stendur upp þegar minn Heilsu-
giafare tekr i Hond heñar og seiger: Talitha Kumi, þad er: Stwlka, rijs upp; og er mier
þad noog þegar minn betre Partur er heilbrygdur, þad er Saalenn. Þad kann ecke
stoorum ad veikiast, hvers Kraptr ad Gud er, þad sie mier noog, ad eg veit eg er af Gude,
og hann er mier nadugur, þa hefe eg Frelse i Bondunum, Fodur-Landed i Utlegdeñe,
Heidur i Forsmaneñe, Rijkdoom i Skortenum, Heilsu i Sjwkdoomenum, allshatt-
ada Farsælld i allskonar Eymdum og Hormungum. Hvernenn kann sa ad klaga ad
hann vante Lioos, sem bijr midt i Soolune? Kann sa ad beria sier um Armood, sem
einusinne hefur eignast allrar Verallдarinnar Skapara? Hvad kañ mig þad ad vanta,
sem Christur sie mier ecke? Vil eg hafa Mat og Dryck, þa seiger Christur: Mitt
Holld er sannarleg Fæda og mitt Blood sannur Dryckur, Joh. 6. Vil eg Klædnad
hafa, iklæded ydur Herranum Christo seiger Postuleñ, Rom 13. Er eg sjwkur og
þarf Lækninga vid, þa er Christur Lijfsins Trie, hvers Blød ad þiena til Heidingiaña
Lækninga, Apoc. 22. Ef eg vil ugglaus bwa, þa flytur hañ mig wt i eirn sterkañ Kast-
ala, mijn Saal vonar uppa hañ alleina, þvi hañ er mijn Von, mitt Traust, Ps. 18.
Mijn Hialp og mijn Hlijf, so eg mun ei falla. Hia Gude er mitt Hialpræde, mijn
Dijrd mitt Styrktar-Biarg og mitt Athvarf er til hñs, seiger David, Ps. 62. Kvijde
eg vid Daudanum, þa er Christur Upprisañ og Lijfed, Joh. 11. Og þo ad eg deye,
þa mun eg samt lifa, epter þvi sm hañ lofad hefur. Vilie eg hafa alla andlega Farsælld,
hvers kann eg ad oska, sem ad Christur sie mier ecke? Þar hann er mier af Gude giord-
til Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Saaluhialpar, 1. Cor. 1.

Allt þetta hefur sa hia sier, sem er af Gude, ef ecke so fullkomlega sem vier vilium, þa
samt er þar Vilie til hiñs fullkomna, sem er ædre allre tijmannlegre Farsælld; Þvi ef
Guds fullkomeñ Ibwd er eckert añad eñ Himnarijke, þar Gud er allt i ollu, þvi skyllde
þa ecke hañs Vistarvera med oss a Jorduñe, þvi skyllde hun ecke vera eitt jardneskt
Himnarijke? Sijnest mier þvi ad þessar tvær Sælur, mune ecke i sialfum sier, nema
þvi, ad ein er betre eñ oñur, og ein algiordare eñ oñur, og eingañ añañ Mun giorer St.
Paall þeirra, þegar hañ seiger, ad nær þad kome sem algiort er, þa afleggest þad sem
Haalfverked er, og ad vier siaum nu so sem fyrer Speigel og i Raadgatu, eñ þa mun-
um vier sia Augtite til Auglitis, 1. Cor. 13. Framar, E. G. V. Hvad sannarlegt er,

ad ærlegt er, hvad riettvijst er, hvad hreinlegt er, hvad astsamlegt er, hvad vel soamer, er þad Dygd nockur edur gott Rykte, Phil. 4. Þad hugsar hann epter sem af Gude er, og þad veiter honum liettara ad uppausa af Bruñe Naadareñar, helldur eñ þeim, sem leita epter soddañ i Fræde-Bookum Heidinganna. Hverier þott um̃ Dygder og Mañkoste hafe skrifad bæde vel og viturlega epter mañlegum Hætte, þaa er þvi alltijd so vared, ad sa sem dreckur wr ohreinum Farveg, hañ maa vel vara sig vid ad ecke sliioote Saurendeñ i Muñeñ med, og þo Vatned sijnest tært ad vera, þaa smackar þad alltijd af Leyrnum, so er og þetta. Vilie Menn af Heims-Spekingaña Vatns-Reñum drecka Vijsdoomeñ, þaa er alltijd hætt vid, ad þar sliioote i bland nockrar Agner holldlegrar Skynseme, sem ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Þvi þo þær sieu wtreñar i Upphafe af þeim saña Vijsdooms-Bruñe, þaa fer þeim eins og odru Vatne, ad þad dregur Daam af þeim Farveg er þad reñur um̃. Trwed mier, so eru og Spekingaña Læker, ad þeir tapa sijnum Uppruna þa þeir reña um̃ Leyrvelltu syndumspilltrar Naatturu. Þad sem adrer hafa med stooru Erfide, þad viñur sa sem Gud elskar med stooru Epterlæte. Eirn Romverskur Heidinge, þar ed hañ laa i sijnum Lyste-Garde med Kuñingium sijnum, og þotte vænt um̃ sialfañ sig, hañ sagde: Gud giæfe, þetta være ad giora vel, meinande so, ad være þad so iñdællt, þaa villde hann alldrei añad giora. Enn þvi er ecke so vared fyrer þeim, sem Gud elska. Liett falla Lostverkeñ, segium vier, og so er þad fyrer þeim, sem elska Gud, þvi þott ad Spilling Naatturuñar strijde a moote þvi sem Guds Anda er, Gal. 5. Þa verdur hun þo liettar yfervuñeñ af Elskuñe til Guds, helldur eñ af Naatturuñar Kroptum. Þegar Madureñ a eirn Vin og añañ Kuñingia, og þeir bidia bader um̃ sama Hlut, þa lætur hañ þo siñ Vin fyrersitia, og so giorer sa sem elskar Gud, þo honum þyke torvelldt ad laata a moote Holldenu, þa metur hañ þo Gud meir. Þar voru nockrer Spekingar i Fyrndeñe, er kolludust Stoici, þeir villdu dempa eina Tilhneiging med añare, og setia þær so i Lag, eñ þad er langsamt nockud og vinst alldrei vel, þvi Hofudeñ a þeirre Hydra(*) syndumspilltre Naatturu, þau spretta jafnskiott upp aptur þo þau sieu smaamsamañ afhoggveñ. Elskañ til Guds er eirn andlegur Hercules, sa ed Haalseñ a Skrijmslenu sundurbrijtur, so þau naa ecke so sliott ad vaxa: Hun setur Tilhneigingarnar best i Lag, ecke ad hun take þær burt eins og Stoici villdu giora, helldur þvijngar hun þær til ad giora sijna Skylldu, og temur þær med frialslegum og iñdælum Þrældoome. Hun kieñer Elskuñe ad elska Gud alleina og ecki ert añad, Reideñe ad vandlæta i Guds Stad, Ofundeñe ad kiepast sm̃ bærst i Christi Skoola, Orvæntinguñe ad vona einkis goods af Heimenum, Vonenne ad þola og bijda, Gledeñe ad hafa sijna Unadsemd i Drottne, Hrygdeñe ad angrast siña Synda vegna, Hrædsluñe ad ottast Gud, Dyrskuñe ad ottast ei Meñena, sem ecke kuña nema Lijkhamañ ad deyda: Og hvad er hier margt um̃ ad tala, hversu ad allar christilegar Dygder

er

(*) Hydra var eirn Vatns-Ormur med morgum Hofdum, so sem Skallden dykta, þo eitt være afhoggved, vox þad aptur; Eñ Hercules hioo a Haalseñ, so þau uxu alldrei sijdañ.

er uppsprettа af Elskuñe til Guds og Naunganns? Hveriar alldrei kuña ad skilia helld-
ur eñ Sooleñ og Byrtañ; þad utmaalar eingeñ betur eñ St. Paall, 1. Cor. 13. seig-
iande: Kiærleikureñ er þolennmoodur og vingiarnlegur, Kiærleikurenn er ecke ofund-
siwkur, Kiærleikureñ giører eckert illmañlega, eige blæs hañ sig upp, hann er ecke offstopa-
samur, eige leitar hañ þess hvad hañs er, eige lætur hañ giora sig reidañ, hañ leitar eige
epter Skada, eige fagnar hañ yfer Ranglætenu, enn fagnar Sañleikanum, hañ umber
alla Hlute, hañ trwer øllu, hañ vonar allt, hañ umlijdur alla Hlute. Hvad gott nu sie
med soddañ moote af Gude ad vera, þad hefur ecke þeirra Eyra heyrt nie Auga sied, og
ecke hefur þad i þeirra Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. sem af Heimenum eru: Eñ
uppaa þad sierhver og eirn kuñe ad reyna og proofa sialfañ sig, og vita sitt andlegt Fad-
erne, þaa leggr Drotteñ hier til eitt Kieñe-Teikn þeirra sem eru af Gude, sem er þetta, ad
þeir heyre Guds Ord: Eñ hverneñ aa þad ad heyra? Ecke so sem Judar, þeir ed heyrdu
Rædu Stephani, og skaarust i Hiortum sijnum af Hatre, Act. 7. Ecke so sem Eytichus,
hverium vard so vært under Predikun St. Paals, ad hañ sofnade og datt daudur
ofann wr Vindauganu, Act. 20. Drottenn wtleggur sijna Meining sialfur i þessum
Texta, seigande: Hver Sem Geimer Mijn Ord, Hañ Mun Ecke Daudañ Sia Ad
Eilijfu. Enn þo allra best i Epterlijkinguñe um Sæded, Luc. 8. seigande: Ad Sæded
sem fiell i gooda Jord, sieu þeir sem heyra Orded, og varveita þad i goodu og sidsomu
Hiarta, og færa þar af Avøxt i Þolennmæde. Þetta er nu vijst Mark aa þeim sem
ad eru Guds Born. Drage þvi eingeñ sialfañ sig aa Taalar, sem þetta heyrer, og ætle
ecke hañ mune vera af Gude, ef hann ecke geimer hañs Ord. Sa Saudur er ecke af
Hiordeñe sem ecke þecker Raust Hyrdersins, Joh. 10. Sw elskar ecke siñ Uñusta sem
ecke gietur heyrt hañ tala. Sa Mage er ecke heilbrigdur sem ad velger vid Fædunne.
Hversu maa þaa Gud lifa i þeirre Saalu sem bijdur vid Guds Orde? Þar fyrer synd-
ugur Madr, ef þier leidast Guds heilogu Kieñingar, siert þu tregr til ad gaanga þaangad
sem Guds Ord er um Hond haft. Þyke þier fyrer þaa komed er vid þijn Mein og þijn-
ar Synder straffadar, virdest þier þad liettvægt sem af Guds Orde er fyrerheited, og þu
aktar þad ecke mikils, ef þu hefur ecke Astundun ad framkvæma þad i Verkunum sem þu
heyrer med Eyrunum, so sañarlega sem Gud lifer i Himnenum, þar er ecke hañs Ande i
þier, og þu ert daudur i Syndum þijnum, hier um er ecke ad villast, eg seige Sañleika i
Christo, og lijg ecke. Saaleñ er añadhvert Guds Brwd eda Diofulsins Frilla, seigir
Augustinus, og þo þad þyke gijfurlega talad, þaa vitnar sialfr Sañleiksins Muñur þad
satt ad vera hia Luc. 11. seigande: Hver hann er ecke med mier, hañ er aa moote mier, og
hver hañ ecke samañsafnar med mier, hañ sundurdreifer; og so seige eg: Sa sem ecke
heirer Orded, og vardveiter þad, hañ foracktar þad, eñ saa sim þad foracktar, þa mun þad
fordæma hañ aa þeim sijdarsta Deige, Joh. 12. Eg hafde nærre þvi sagt, ad betra være
ad vera kalldur enn volgur i sijnum Saaluhialpar Efnum. Af hinum stærstu Synd-
urum hafa vorded hiner bestu Menn. Hviljkur var Manasses? 2. Paral. 33. Hvi-

lijkur Paall? Act. 9. Hvilijk hin Bersynduga? Luc. 7. Enn þad er Furduverk, ad af einum volgum skule verda heilagur Madur, hvar fyrer? Þvi hann meinar sig ecke ad vera vondann, hann seiger: Eg em audugur og rijkur vordenn, og einkis Þurfe, eins og Engellenn af Laodicea, enn Gud seiger: Þu veitst ecke þad þu ert aumur og fátækur og blindur og nakenn, Apoc. 3.

O Herra Gud! vert þu oss naadugur; Gææ hver ad siaalfum sier, þvi vær eigum aller fyrer Saalu ad siaa. Hver aa ad hugga þig i þijnu Andlaate, ef þu hefur eckert numed af Guds Orde? Þu villt Presturenn kome til þijn þaa þu berst vid Ondena, seig mier: A hann þaa fyrst ad undervijsa þier? Þegar Eyrun heyra ecke leingur, Tungann talar ecke leingur; Seint er ad herklæda sig þegar aa Hoolmenn er komed. Saa sem saung med Bijflugum Veralldar þessarar aa Sumartijma Lijssins, hann maa svellta aa hinum bitra Kulda Deige Daudans. O! hvad gott være þaa ad hafa safnad nockru i Korn-Hlødu sijns Hiarta af þvi gooda Guds Orda Sæde, so þar være nockud til Veganestis i giegnum þann myrkva Dal og Daudans-Skugga, sem er Vegur allrar Veralldar fraa þessu auma Lijfe, Jos. 3. So aaminne eg ydur nu i Drottne og graatbæne fyrer lifanda Gud og ydar Saaluhiaalp, gaanged i Lioosenu medann þad er hiaa ydur, so Myrkurenn hondle ydur ecke, Joh. 12. Þar eru vonder Dagar, Diofullenn er ofann komenn hafande Bræde mikla, þvi hann veit hann hefur stuttann Tijma, Apoc. 12. Afræked þvi ecke Guds heilaga Ord, hvert ad er Sverd Andans, so ad þier geted Mootstodu veitt aa þeim vonda Tijma, Eph. 6. Finne nockur sitt Hiarta ecke riettskickad til ad heyra þad, hann bidie Gud ad skapa i sier nijtt Hiarta, þvi þad tekr einginn af sialfum sier, verde hann ecke so fliott bænheyrdur, þaa bidie hann aptr og aptr, og vilie þad annann dragast, þaa bidie hann oaflaatanlega, Luc. 18. Dag og Noott, og þreyte vid Gud med Bænenne, ad þad Lambed af Kyne Juda kome, og take sialfur þaa læstu Book, og virdest henne sialfur upp ad lwka, Apoc. 5. Einginn Madur skal telia mier þaa Trw, ad Gud mune ecke giefa þeim heilagann Anda sem hann þar umm bidia. Komed og med audmiwkum Anda under Ordsins Heyrn, reidubwner ad medtaka allt þad sem Gud hefur befalad, eins og Petur sagde vid Cornelium, Act. 10. Faanijtar og veralldlegar Hugsaner sieu laangt i burtu aa þeim Tijma, þvi einginn kann tveimur Herrum i senn ad þioona, Matth. 6. Sierdeiles so olijkum sem Gud og Belial eru. Þeinked ecke so med ydur, eg veit þetta aadur, eg hefe þad aadur heyrt, þvi þoott so kunne ad vera, þaa hefur Gud sijna Tijma til ad verka i Hiartanu, og hann er i Ordenu, þvi sieu Eyrun, sem ad eru Dyr Hiartans, alltijd openn fyrer Konunge Dijrdarennar. Vered ei Gryckium lijker, umm hveria Demostenes sagde: Ad þaa hann talade umm Skugga Asnans, þaa hefde hann nooga Tilheyrendur, enn þa hann talade umm Gryckland Velferd, þaa stijnge aller Fijngrunum i Eyrun. Laated Svida Raanglætinganna taka af ydur þann Eyrna Klaada, sem Paall umgietur, 2. Tim. 4. Ad þeir vilie heyra hvad þeim þocknast og hvad nijstaarlegt er, Esa. 30. Helldur vered Lærdoomunum og Stroffunum H. Anda under-

giefner-

er giefner. Fared og ei i Mannvirdingar um Kiennendanna Gaafur eda Mœlfære, þui allt Guds Ord er gott, og sa er eckert sem talar, helldur Gud sem verkar. Guds Kraptur fullkomnast opt i Veikleikanum, 1.Cor.12. Hvad er Paall? Eda hvad er Apollo? 1.Cor.3. Þeir eru Þienarar hans, a hvern þier trwed, epter þvi sem hann hefur hverium einum giefed. Drottenn var ecke i Vedrinu, og ecke i Jardskialftanum, og ecke i Elldinum, þa hann talade vid Eliam i Hellernum, helldur i Vindblænum, 1.Reg.19. So er og Gud ecke bundenn vid stoora Mœl=Snilld, og hanns Rijke er ecke innefaled i Ordum, helldur i Krapte, 1.Cor.4. Sa sem alleina tekur epter fallegum Ordum og fogrum Mœls=Greinum, hann sleiker Nytena, enn Kiarnann snerter hann ecke. Vær eigum Nytena ad briota, ef vier vilium riett sa smackad Epterkomande Alldar Sætleik, hver oss mun sijdann a Mœlingar frambodenn verda i þvi himneska Brwdkaupe, þar hinn fegurste medal Mannanna Sona, Ps. 45. mun dryckia hana sem hans Hiarta elskar, Cant.3. Med lifande Vatns=Straumum sem framsliota af Stoole Guds og Lambsins, Apoc.22. Til þeirrar allra tignarlegustu Hatijdar ad samannsafnast, unn þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, og þitt vegsamlega Nafn þar eilijflega ad prijsa. Bænheyr þad goode Gud, fyrer Forþienustu þijns Eingietens Sonar, AMEN.

# A Bodunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

NN a hinum siotta Mœnude var Gabriel Engell sendur af Gude i þa Borg i Galilæa, sem nefnest Nazaret, til þeirrar Meyar er festnud var þeim Manne ed Joseph hiet, af Hwse Davids, og Heite Meyarennar var Maria. Og Engellenn gieck inn til hennar, og sagde: Heil siertu nadarfulla, Drottenn er med þier; Blessud ertu a medal Kvenna. Enn þa hun sa hann, vard hun hrædd af hans Ordum, og hugleidde ad hvilijk være þesse Kvedia. Og Engellenn sagde til hennar: Ottast þu ecke Maria, þviad þu faust Nad hia Gude. Sia, þu munt Barn gieta i Kvide þijnum, og munt Son fæda, og hanns Nafn skalltu kalla JESUS; Hann mun mikell verda, og kallast Sonur hinns Hædsta: Og Gud Drottenn mun giefa honum Sæte sins Fodurs Davids, og hann mun rijkia yfer Hwse Jacobs ad eilijfu; Hanns Rijkis mun og eingenn Ender verda. Þa sagde Maria til Engelsins: Hvernenn skal þad ske, af þvi ad eg hefe eingann Mann kient? Engellenn svarade, og sagde til hennar: Heilagur Ande mun koma yfer þig, og Kraptur hinns hædsta

hædsta mun yferskyggia þig. Af þvi, og þad hid helga sem af þier inn fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og siꜳ þu, ad Elizabeth Frænd-Kona þijn, hefur og Songieted i Elle sinne, og þesse er siøtte Mꜳnudur hennar, sem kølluꝺ var Obyria, þviad Gude er eckert Ord omꜳttugt. Enn Maria sagde: Siꜳ, eg em Ambꜳtt Drottenns, verde mier epter Orde þijnu. Og Engellenn veik frꜳ henne.

## Exordium.

SO sem kallt Vatn er þyrstre Sꜳlu, so er goodur Bodskapur af fiarlægu Lande, seiger Salomon, Prov.25. Þad mꜳ i Dag seigia, ad vier høfum goodann Bodskap heyrt af fiarlægu Lande. Hvad er fiarlægra hvert ødru enn Himen og Jord, Gud og Madurenn, Himnarijke og Helvijte? Enn hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu, Br. M.? Vier heyrum ad Gabriel Engell hafe sendur vered frꜳ Gude; Til hvers? Til eirnrar Meyar, sem føstnud var þeim Manne, er Joseph hiet, þad er til dauðlegrar Manneskiu, og ecke var hann einasta til hennar sendur, þoott hann i þad sinn ætte alleina Tal vid hana, helldur til alls Mannkyns: Þvi lijser Engellenn ꜳ Fædingar Noottu Drottenns, er hann sagde vid Hyrdarana; Eg boda ydur mikenn Føgnud, hann er skier øllu Foolke, Luc. 2. Mooder Drottenns mꜳtte kallast so sem Umbods-Madur alls Mannkynsins af Gude skickadur, til ad taka fyrst allra vid þessare heilsusamlegre Guds Nꜳd, er sijdann var opennberud øllum Mønnum, so sem vor fyrsta Mooder took vid þvi blessada Fyrerheite, ad Kvinnunnar Sæde fyllde sundurmeria Høggormsins Høfud, Gen. 3. Vegna allra sinna Erfingia: so took og Guds Mooder vid Fullkomnan Fyrerheitesins, vid hinu fyrerheitna Sædenu, vid sialfum Lijkhamanum, sem ꜳdur var fyrermyndadur i Skugganum; Þvi kalla eg þetta goodann Bodskap af fiarlægu Lande og jꜳta þad satt vera sem eirn sagde umm þessa dijrdlegu Hꜳtijd, ad hun sie Bloomstur allra Hꜳtijda. A henne er Kvisturenn af Root Jesse tekenn fyrst til ad bloomgast, Esa. 11. Veturenn er ummlidenn, Stoorvidred er horfed og burtuviked, og Bloomsturenn lꜳta siꜳ sig i Lande voru, seiger i Lof-Kvædenu, Cant. 2. Jꜳ, sꜳ blessade Avoxtur er sig kallar Blooomstur Akursins, og eina Liliu i Dølunum: Hann spratt upp i Nazareth, er þijdest hin bloomlega. Lijted var þetta Bloomstur i fyrstunne. Hann var eitt Foostur i Mooður-Lijfe, sijdann eitt Barn, og sijdarst Æfe sinnar vard hann hinn fyrerlitlegaste, og forsmꜳnarlegaste, sem Esaias vottar, Esa. 53. Jꜳ, minnstur allra þeirra, sem hann med sijnum Syndum kvaled hafa, enn fyrer þad hefur hann ꜳdreift marga Heidingia, og utbreidt sijna Dijrd umm allar Ꜳlfur Heimsins Bygdarennar, so ad vier jafnvel sem hier liggium ꜳ þessum Hala Veralldarennar; Vier buum under hans Skugga, og þoott vier sieum af øllum Heimenum forsmꜳder, samt hefur þo hinn goode Gud virdt oss þess, ad hann hefur breidt yfer oss sinn Klæda-Falld, þar vier leynum

um

um alls nakter á Vijdavángenum i voru Bloode, og sagt ad vier skylldum lifa, Ezech.16. Þvi meigum vier ei sijdur enn hver önnur Þiood i Heimenum, kalla þessa Hátijd mikla, og hana med Glede og Fognude hallda. Være ei þesse gledelege Bodskapur á Jordu sendur, þá være Christur ecke fæddur til ad helga vora Fæding, ecke umskorenn til ad taka á sig Logmálsins Bölvan, ecke Heidingiunum byrtur, ecke dáenn fyrer Synder vorar, ecke upprisenn oss til Riettlætis, ecke uppstijgenn til ad bidia fyrer oss, og ecke hefde hann á Hvijtasunnu Dögum sendt sinn Anda yfer sijna Postula. Þvi má eg seigia ad þesse Hátijd ber allar Hátijder i Skaute sijnu, og má þeirra Mooder kallast. Hier hefur Gud Fader teked til ad hallda Brwdkaup Sonar sijns, Matth.22. Hier hefur Sonurenn trwlofad oss sier i Nád og Myskunseme, Hos. 2. Hier hefur H. Ande bygt sier eitt Mustere, 1.Cor. 6. Ecke einasta i honum, sem er hid allra helgasta i þessare Kyrkiu, helldur og i öllum hanns Limum, öllum þeim andlegum Steinum, sem hanns Helgedoomur er bygdur af hier á Jordunne, og af hanns Fylling medteked hafa, og vil eg kvedia ydur, Br.M. med þeim Ordum er hiner lijkþráu Menn toludu sijn á mille fordum Daga, er Gud hafde frelsad Samariam af Hende þeirra Syrlendsku: Þesse Dagur, er Dagur goods Bodskapar, 2.Reg.7. Skylldum vier þeigia yfer þvi? Kunnug má oss vera vor andleg Lijkþrá, i hverre vier gietner og fædder erum, þvi skylldum vier þeigia yfer þessu mikla Himnlpræde Drottens, helldur enn þeir? Þar i Dag er Guds Barna Borg af Vallde Myrkranna frelsud, þvi skylldum vier draga vora Lofgiord, vora Ydran, vora Þackargiord undann til Morguns? Gaungum þvi nær þessu H.Evangelio i Nafne Drottens, og hugleidum af þvi um Stund, hversu háleitur og gagnsamur ad sie þesse Leindardoomur. O! Drottenn styrk oss med Krapte þijns Anda, so ad þetta Eyrende meige velluckast i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

HAd er hægra Br.M. ad lofa eirn Hlut sem ecke er meira enn almennelegs Hrooss verdur, helldur enn þann, sem Afbrygde er allra annara Hluta, velldur þad þvi, ad Menn gieta prijdt þá hlute med Ordunum, sem ad i siálfum sier ecke eru so prijdeleger. Enn hvad skulum vier um þá seigia, hverra Dijrd og Agiæte eingenn kann med Ordum ad wtmála, so þegar Menn hafa sagt um þá allt þad sem Hiartad fær uppþeinkt og Munnurenn wttalad, þá er þo eckert sagt so sem verdugt er þvilijkre Hátign. A medal þessara dijrdlegu Hluta kalla eg ad vera Leyndardoom Holldtekiunnar Drottens vors Jesu Christi. Hvad Sendeforenne siálfre vidvijkr, þá var til hennar valenn Gabriel Engell, ecke eirn almennelegur Engell, helldur eirn Höfud-Engell. Veralldleger Kongar og Höfdingiar, þegar þeir leita Konfángs Sonum sijnum til annara Konunga, þá velia þeir til þess Eyrendis sijna villdustu Menn: So var og Gabriel valenn i þessa Sendefor, eirn Guds Kappe, so sem hanns Nafn hlioodar, og hanns Eingietnum Syne nærsta handgeingenn, sem ráda má af Daniels Spádooms Bookar 9. Cap. Hver

og um̃ sig vitnar, Luc. 1. Ad hann stande frame fyrer Gude. Þvilijkt Sendebode hæfde vel so tignarlegu Eyrende. Enn til hverrar var hañ þaa sendur? Ad sǫñu til eirnrar Konungs Doottur, þvi hun var af Hwse og Kyne Davids, eñ hverre þa var ǫll ver-alldleg Konungs Tign horfeñ, so hun var ein um̃komulaus faatæk Mey, og so lijtels met-eñ af Heimenum, ad hun fieck ecke añad Rwm i Giesta Herbergenu, eñ eitt Stall til ad leggia i siñ frumgieteñ Son, Luc. 2. Himens og Jardar Konung. O! hvad satt er þad sem Postuleñ skrifar: Þad sm̃ o-gǫfugt er fyrer Heimenum, og þad sm̃ einkis met-ed er, þad hefur Gud wtvaled, og þad sem ecke er, svo hañ afmaade þad sem er, 1. Cor. 1. Skijrlijfe og heilǫg Faatækt Guds Moodur, var miklu dijrdlegre i Auglite hiñs hærsta Konungs, sm̃ er alleina vijs og alleina rijkur, helldur eñ ǫll Rijke Verallddarennar og þeirra Dijrd; Añars munde hañ hafa laated hann fædast af Keysarans Doottur, sm̃ þa hafde einvallds Raad i Heimenum, enn ecke af eirnre munadarlausre Stwlku. Hvad þaa? Mun hanns Tign nockud mijnka vid þad, ad hann hefur lijtelæckad sinn Son? Fiærre sie þvi, þar fyrer er hun hvad mest vordenn, hefde hann ei so giǫrt, þa hefde Son-ureñ ecke feinged Þioodernar og Endemǫrk Veralldareñar til Arfleifdar, Ps. 2. Fyrer sijna Holldtekiu heft hañ Herleidinguna ad Herfaange teked, allur Heimureñ var und-er Diǫfulsins Vallde, nema Gud hefde heited þvi blessada Kvinnunar Sæde, er i Dag var i Meyar Lijfe gieted, eñ nu̇ þvi heft hanns Eingieteñ Sonur broted stoort Skard i Diǫfulsins Vellde, so ad Johannes, er hann saa Himnana opna, þaa saa hañ þar Fiǫl-da so mikeñ, ad eingeñ gat taled, Apoc. 7. og heft margur sijdañ vidaukest, jaa, eykst enn nu i Dag, og mun aukast þar til Verǫlld þrijtur, þacker sieu goodum Gude ad eilijfu. Satt er þad, ad ecke maa vid Guds Haatign auka, hun verdur i sialfu sier hverke stær-re nie minne af vorum Vǫlldum. Enn þo ad þessu sie so haattad, þaa verdur þvi ecke neitad, ad Christi Persoonu hefur mikell Soome aukest i þeim Sigre er hann fieck yfer Andskotanum, er hann flette hañ sijnum Herklædum aa hver hann treyste, Luc. 11. Enn took sijnar heilǫgu Þusunder af hanns Hende, og fyrer þennañ dijrdlega Sigur, heft Guds Sonur epter Manndoomenum ǫdlast Nafn yfer ǫllum Nǫfnum, so ad i Nafne Jesu Christi skulu sig ǫll Knie beygia, bæde aa Himne og aa Jǫrdunne, og under Jǫrd-unne, Phil. 2. Enn hvernenn heft hann þennañ dijra Sigur uñed, nema i voru Hollde? sem i Dag var i Meyar Lijfe plantad af heilǫgum Anda, i þvi heft hañ lided, i þvi hefur hañ Sigre hrosad, i þvi situr hann til Kraparens hægre Handar, og i þvi mun hann aptur koma til ad dæma lifendur og dauda, enn innleida oss sem aa hañs Nafn trwum i sitt Brwdkaup, og þvi kalla eg nu þessa Sendefǫr miǫg vegsamlega, fyrer þeirra Skulld sem þessa Bodskapar noted hafa, þvi Gud auglijser hvad mest sitt Almætte, sinn Vijs-doom og sijna fǫdurlega Giædsku, i þvi ad giǫra gott af þeim Hlutum sm̃ i sialfum sier audvirdelegaster og verster eru, svo sem var allt Mannkyn i Synd og Dauda falled. Fraa hveriumm er þesse Sendefǫr? Fraa Gude, seiger Texteñ. Þegar eg Gud nefne, þaa hefe eg noog sagt; Eingeñ er þvilijkur og ei kann nockur i Samjǫfnud vid hann ad

koma,

ma, Þad kañ og eingeñ Maña edur Eingla Skilningur ad grijpa edur imynda sier, hvad stoor Munur ad sie mille Skaparans og Skiepnuñar. Hann sem er alvijs, almættugur, eilijfur, omælañlegur og orannsakañlegur, þar hann bijr i þvi Lioose sem eingeñ fær tilkomest, 1. Tim. 6. Hann sem ecke einasta skoop Himen og Jord af eingu Efne, stioornar þeim, vidhelldur og vardveiter þau eñ alls Omaks og Erfidis, fraa Upphafe Skopunar og inn til þessa Dags, helldur kañ hann, ef hann vill, ad skapa med einu Orde otal Þusund Verallder adrar eins og þesse sijnelege Heimur er. Hann sender af Himnum ofann til syndugra Maña, er hañ styggt hofdu og til Reide reitt. O minn Gud! hvad er þo Madureñ þess ad þu miñest hañs? Ps. 8. Þegar eg hugleide þetta, þaa smelltest mitt Hiarta i mier wt af Blygdañ, ad soddañ ein skielfeleg Hatign, hañ giorer Sendeför ofañ af sijnu Hasæte til vor daudra Hunda, til vor syndugra Orma, þar vier skrijdum i Leyrvelltu þessare, og maa hier af þessa Sendfor meire ollum Velgiordum kalla, þoott eckert añad være. Eñ hvilijkur er nu þesse Bodskapureñ? Þad sijner oss fyrst Kvedia Engelsins vid Guds Moodur. Heil Siert Þu Nadarfulla, DRotteñ Sie Med Þier, Blessud Siert Þu A Medal Kvenna. Hun mætte med ollum Riette kallast hin nadarfulla, þvi hun vard Mooder ad honum sem er fullur Nadar og Sannleika, so sem Johañes um hañ vottar, Joh. 1. Og ecke einasta hun, helldur allar andlegar Christi Mædur, sem er hver ein riett-trwud Saala, Matth. 12. er af hanns Fyllingu medteked hefur Nad fyrer Nad. Drottenn er med þier þu Hetia, sagde Engelleñ vid Gedeon fordum Daga, er hann heilsade honum, Judic. 6. Þad ræter og, þvi fyrer hañs Hond sloo Drotteñ i Hel Madianita sem lau eins og Einge Sprettur i Jesreels Dal, med þrem Hundrudum Maña, Jud. 7. Enn þoott þad være miked Guds Furdu-Verk, þa var þad lijted hia þessu, ad Maria bar i sijnum Kvide þañ Drotteñ Himens og Jardar, sm ber alla Hlute nu Orde sijns Krapt-ar, Hebr. 1. Blessud var hun a medal Kveña, þvi eingeñ Kvennmadur fra Upphafe Veralldar hefur soddann tijmañlega Sæmd hloted sem hun, er giordest þar Mooder sem hinn allra hærste var Fader ad hinum allra hærsta. Enn ecke hefur ein riett-Christeñ Saala er Jesum andlega gieted hefur, minne Blessun þeiged, þvi lijser hann sialfur, er hañ kallar þaa sijna Moodir, Systur og Brædur, er hañs Ord heyrdu, Luc. 8. Fyrer þvi er þesse andlege Gietnadur so miklu meire hinum lijkhamlega, sem ad allar andlegar Gaafur eru hinum meire og betre, þvi forgiefens hefde Mooder Drotteñs bored Heimsins Frelsara i sijnum Kvide, nema hun hefde og bored hañ i sijnu Hiarta, kalla eg hana þvi sælle þar af, ad hun vardveitte oll hañs Ord, Luc. 2. helldur enn af þvi, ad hann mylkte Brioost heñar, þvi hvad um þad, sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þad, sagde hañ sialfur fordum vid Kviñuna er prijsade Sælu hañs Moodur, Luc. 11. Og so giorer nu þesse Kvedia Engelsins Sendeforena mieg so fræga og veglega, ad eckert kann gledelegra upp ad hugsast. Kvediunne fylger strax a eptter Hofud-Eyrended, Þad flitur Guds Sendebode med þessum Ordum: Sia,



þu

Þu Munt Barn Gieta J Kvide Þijnum Og Munt Son Fæda, Og Hañs Nafn Skallt Þu Kalla JESUS, Hañ Mun Kallast Sonur Hinns HÆrsta, etc. Miked er i þessum Ordum iñefaled, og meir eñ syndug Tunga meige þad wtskijra. Hid fyrsta er, ad hun skule Barn gieta, þad er Mañeskiu eins og hun var og heñar Fedur ad øllum Edles Hættum, ad Syndeñe eirnre fratekeñe, þad skilur Engelleñ undann er hañ seiger: Ad þad heilaga sem af heñe mune fædast, skule kallast Sonur Guds: So var þa Christur hluttakande Hollds og Bloods eins og Smæ-Borneñ, Hebr. 2. So sem Borneñ hafe sitt Holld og Blood, þad er mañlega Natturu, Sal og Lijkhama af Forelldrunum; So hafe Christur af siñe Moodur og Fedrunum epter Holldenu, Bæde Sal og Lijkhama. Ny seiger Drotteñ sialfur vid Nicodemum: Hvad af Holldenu er fædt, þad er Holld, Joh. 3. og teiknade hañ þar mz spillta Mañsins Natturu. Hvad þa? Var Mañdoomureñ Christi syndumspilltur? Fiærre sie þvi, þar fyrer stendur hier i Gudspiallenu: Heilagur Ande Mun Koma Yfer Þig, Og Kraptur Hiñs Hærsta Mun Yferskyggia Þig. Til hvers? Til þess medal añara, ad helga og tilreida heñar Blood, af hveriu Drottne var Lijkhameñ tilbweñ, svo ad øll Fylling Guddoomsins kynne ad bwa þar i lijkhamlega, Col. 2. Med hveriu moote þad sie skied, veit Gud eirn, sem er Meistare þessa Furdu-Verks, um hvert þad mæ med riettu seigia sem skrifad er um Salomons Hæsæte, ad þvilijkt hafe ecke giort vered i nockru Konungs Rijke, 1. Reg. 10. Og þad sem eg nu sagt hefe um Christi allra helgasta Lijkhama, og þad Efne er hañ var myndadur af, þad sama er um hañs dijru Sal ad seigia. Lijkhameñ er Herberge Salareñar, ecke mætte i soddañ Herberge, sim af H. Anda var tilreidt fyrer Krapt hiñs allra hærsta, ecke mætte þar byggia nema eirn hreirn og heilagur Giestur. Mannsins Sal hafde framar syndgad eñ Lijkhameñ, hun var og Hosundur Syndareñar i Mañenum, þvi mætte hañs Sala ecke sijdur oflecku vera, sem Saler vorar hefur wr Helju leyst, helldur enn Lijkhameñ. Postuleñ seiger ad i honum bwe aller Fiarsioder Vitskuñar, Col. 2. Binggu þeir i Lijkhamanum edur Saluñe? J Saluñe ad vijsu, eins og Skynsemeñ hia ofs og þad gott sem henne fylger. So er allur Christur hreirn og heilagur, sem ei kunne añars ad vera, þar hañ var gieteñ af H. Anda. Þvi epter þad Engelleñ hafde sagt, ad heilagur Ande munde yfer hana koma, þa leggur hañ þetta til: Og Þad HEJLAGA Sem Af Þier Mun Fædast, SKal Kallast SOnur GUds. Og ad Meñ gange wr Skugga um þad, ad Christur sie gieteñ i Meyar Lijfe eins og añad Fooster, ad þvi frateknu, ad þar komu eingeñ Manns Volld til, so sem hun seiger hier vid Engeleñ: Hverneñ Kañ Þetta Ad Skie, Þar Eg Hefe Eingañ Mann Kieñt? Og Guds Ande samsinner heñe, Matth. 1. seigiande: Ad Joseph hafe ei kiennt hana þar til hun fædde siñ frumgieteñ Son. Ad Meñ gange wr Skugga um þad, seige eg, þa vottar Matth. Cap. 1. Ad hun hafe fundest þungud af heilogum Anda, og nockru sijdar, ad þad sem af heñe gieted var, þad hafe vered af H. Anda, Og samt er þo ecke H. Ande Fader ad Christo, helldur tilbioo hann og helgade,

sem

sin Madur er sagt, þad Efne i Lijke Jomfrur Mariu, sem Drottens myndadest af, og frams kvæmde so þeñann allra heilagasta Gietnad med sijnum orañsakañlega Guddoomsins Krapte. Þañenn byriade allt Riettlæte upp ad fylla, Matth. 3. B.M. Þvi þad vard af syndlausu Hollde ad wkast, sem af syndugu var tilunned. Þad Mustered vard heilagt ad vera, i hveriu þeirre Foorn ætte ad offra, sem Gude lijka skyllde fyrer allar Veralldarenar Synder. Sa Kieñemadur hlaut ad vera ostraffañlegur sem inngaunga skyllde, ecke einusiñe a Are hveriu (eins og Aaron og hañs Epterkomendur) helldur ollu einusinne i þad allra helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Heb. 9. Þvi seiger Paulus; Soddann Biskup heyrde oss, heilagur, saklaus, osleckadur, fraskilenn Syndurunum, og vordenn Himnunum hærre, Heb. 7. Þad er upphafeñ yfer alla Himna, hvar þad allra helgasta er, i hvert hañ er inngeingenn og setstur Gude a hægra Veg i voru Hollde: Og sia Meñ aptur af þessu, hvad gledelegur ad sie þesse Bodskapur, og þesse Sendefør vegsamleg. Enn þad tekur yfer, christner Menn, ad Gud er hier Madur vordeñ. I sama Vetfange sem heilagur Ande tilbioo Jesu Manndoom, so ad hun gat siñ Son, under eins og i sama Augnablike took hin oñur Guddoomsins Persoona Mañdoomeñ i Samfielag med sier, med so føstu Sambande og ecke Samblande, ad þad hefur sijdann alldrei slitnad, og nu ecke uñ alla Eilijfd slitna. Ja, Daudenn gat þad ecke slited, jafnvel þott hann adskillde Saal og Lijkhama Drottenns, þvi añars hefde hañ ecke sialfur sijna Saalu aptur teked, hveria hann sialfur fra sier liet, Joh. 10. Þetta vottar Guds Ande sem sialfur var Verkmeistareñ, tvisvar i þessu H. Gudspialle. Fyrst þar hann seiger: Ad Barned sin hun gieta mune, skule kallast Sonur hiñs hærsta, þad er Guds, þvi eingenn er honum hærre; Aptur, ad þad heilaga sem af heñe mune fædast, skule kallast Sonur Guds. Taked epter þessu B.M. Þott eg tale i Frafræde uñ so haa Hlute, þann sem hun gat eins og Guds Son, þann fædde hun eins og Guds Son, so ad eingenn Uñbreiting hefur vorded fra Gietnadenum allt til Fædingarennar, i Einingu Persoonunnar, sem ei er Von, þvi hia Gude er eingenn Uñbreiting nie Skugge til Uñbreitingar, seiger Jacob, Jacob. 1. Hvad þa? Er Christur Guds Fodurs natturlegur Sonur epter Manndoomenum? Ad vijsu er hann, enn ecke epter natturlegum Hætte, helldur fyrer Eining hinnar guddoomlegu og manndoomlegu Natturunnar, sokum þess, ad hin onnur Persoona Guddoomsins, Guds eilijfur Sonur took a sig Manndoomenn, so gietur þad ecke adskilest, ad sa sem er Guds Sonur fra Eilijfu, enn i Tijmans Uppfyllingu vard Madur, hann er i Raun og Sannleika ad ollu leite Guds Sonur, og þar fyrer er hann vor Fridur, sem hefur giort eitt af badum, Eph. 2. Menn kunna ad seigia, ad hier uñ sie ei so naudsynlegt ad tala, og ad Menn skilie ei þennann Leyndardoom, sem satt er: Enn so miked gieta Menn skiled, sem Gud hefur viliad lata oss skilia, oss til Saaluhialpar.

Þad er ecke lijtel Huggun fyrer eirn Syndara, ad Gud er Fader Christi epter Mañdoomenum, þar Christur kallar oss sijna Brædur, Ebr. 2. Adam var Guds Son-

ur, sem Lucas vottar, 3. Cap. Eñ i Fallenu giordest hañ Diofulsins Sonur. Hvereñ aatte nu Adams Sonur aptur ad verda Guds Sonur, nema hiñ eilijfe Sonur Guds yrde Adams Sonur, sa ed geingest under Sekt Brædra siña? Pad sem broted var a moote Gude, pad vard af Gude ad gialldast. Pad sem af Mannenum var broted, pad vard af Mañenum ad bætast. Gud kuñe ecke eiñsamañ ad lijda: Madureñ ecke einn samann ad fullnægia Guds Riettlæte. Hverneñ aatte petta ad skie, nema Gud yrde Madur? Og lide fyrer pad, sm vier med vorum Syndum hofdum broted, pvi er petta ecke lijtel Huggun, og hvad seige eg lijtel? Pesse er hin einasta Huggun Syndugs Mañs, og eingeñ er añur; Sa sem hana ecke hefur, honum er vijst Helvijte, pvi eckert Nafn er añad giefed Moñunum under Himnenum, i hveriu oss byriar Saaluhoolpnum ad verda, helldur eñ Nafned Jesu, Act. 4. Hvert honum var hier giefed, hvad og kallad var af Englenum, aadur eñ hañ var gieteñ i Moodur-Kvide, seiger Lucas 2 Cap. Er hañ seiger oss Umskurnar-Sogu Drotteñs. O! hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Speke. Petta er ein Feste, sem Guds Sonur gaf sinne Brwde i Trygda-Pant, hverre eitt Furduverk hanger af odru, eins og eirn Hleckur af odrum, Skapare Himensins, er ein Skiepna vordeñ. Eilijfdeñ er gieteñ i Tijmans Uppfyllingu, Gal. 4. Ein Joomfrw verdur oliett, Es. 7. Hun sem af Gude er skopud, verdur Guds Mooder. Hann verdur i Moodur-Lijfe iñelucktur, sem Himnaña Himnar ecke teked fa, 1. Reg. 8. Hann sem dunar i Himnenum, hañ grætur i Stallenum: Sa ed allar lifande Skiepnur fedur, Ps. 145. Nærest i Moodur-Kvide. Skiepnann lætur til pad Efne sem Skapareñ var giordur af. Sooleñ hefur Lioos feinged af Stiornuñe. Moodereñ var yngre eñ Barned, enn Barned stærra eñ Moodureñ. Miñ Herra! pu sagder, er pu villder sijna pijnum Læresveinum ad pu værer Holld af voru Hollde: Ande hefur ecke Holld nie Bein, so sem pier siaed mig hafa, Luc. 24. Eñ hier sie eg ad Andeñ er vordeñ Holld, pvi Gud er eirn Ande, Joh. 4. Og vard po Holld. So seiger Johañes 1. Cap. Orded vard Holld og bygde med oss, og vier saum hanns Dijrd, Dijrd so sem Eingietens Sonar af Fodurnum. Petta eru stærre Undur enn oll Undur, og maa hier ad fyrstu og sijdurstu kalla, ad pesse Sendefor og pesse Bodskapur sie Dasamlegur, haaleitur og yfer allann Maata undrunarlegur. Gud giefe oss par ad koma, sem vier meigum eilijflega ad honum daast, med peim Fagnade, sem ecke hefur hier Eyra heyrt edur Auga sied, og ecke i Manns Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. Enn nu vilium vier skoda, hver ad sie Nytsemd pessa Bodskapar, og er hun ad vijsu so stoor, ad hun verdur alldrei fullpockud. Eilijf Ar skal til pess hafa, ad vegsama Guds eilijfa Giædsku. So elskade Gud Heimenn, seiger Lausnareñ, ad hañ gaf wt siñ Eingietenn Son til pess, ad aller peir sem a hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Nær gaf hañ oss hañ fyrst? A hañs gietnadar Deige, eñ fyrst hañ hafde oss hann Einusiñe giefed, pvi skyllde hañ pa ecke giefa oss alla Hlute med honum, Rom. 8. Til hvers gaf hañ Soneñ? Til pess, ad peir sem a hañ trydu skylldu ecke fyrerfarast, pad

er

er, ad þeim ecke skyllde verda skipad fra Guds Doolmstoole i eilijfan Elld, sem fyrerbw-
eñ er Dioflenum og ollum hañs Arum. Hefde Gud giort oss ad Kvikendum Jard-
ar og Vinnu-Dijrum, og læted oss so wt af slockna eins og Fienadarens Anda, þa
voru þad good Kior hia þvi ad pijnast eilijflega i Helvijte, eñ hañ hefur eñ þa betur til
vor giort, þar aller þeir sem a hañs Son trwa skulu hafa eilijft Lijf, þad er oendañlega
Dijrdar Vist og Sælu med honum og i honum, fra eirnre Eilijfd til añarar. Hver
vill þa fra Ordum adkomed, hvilijk Guds Ast oss er veitt i Holldtekiu Drotteñs? Vier
vitum aller hvilijk Byrde ad er Guds H. Logmaal, og hvert ad sie Straff þeirra, er
Logmaaled briota, þad seiger oss Moyses, Deut. 27. med so skielsequm Ordum, ad
jafnvel þeim mætte ofbiooda sm vita ad þeir eru fra Logmaalsins Bolvan frelsader, og
er þad þo ei nema tijmannlegt Volæde sem hann uppreiknar, so eg vil seigia, ad sa sem
heyrde Logmaaled og þess Vidlogur, og ætte sier ecke Lausnar Von fra þess Bolvan,
hann være ad miklu Leite i Helvijte, jafnvel hier a Jordune, og hefde ei nockra Roo uñ
eitt Augnablik. Enn hvad seiger Paulus? Gal. 4. Þegar Tijmans Uppfylling kom,
sende Gud Son sinn giordañ af Kviñuñe Logmaalenu undergiefeñ, so hañ leyste þa sem
under Logmaalenu voru, uppa þad vier odludunst Barna Rietteñ. Nær skiede þad?
A hauns Gietnadar Deige, enn hvad miked oss sie i þvi veitt, siaum vier best, ef vier
hugleidum hviljkur munur sie þess, ad vera Samarfe Jesu Christi, og so hinns, ad
vera Præll Logmaalsins hier i Lijfe, og so Fange Satans i odrum Heime. Jeinu
Orde ad seigia, allar Lijfs og Saalar Heiller, sem Guds Born þyggia af Drottne,
þær eru oss i þvi Augnablike veittar, er Jesus var Gietenn i Meyar-Lijfe.

Eingeñ fegre Sool hefur yfer Heimeñ skyned eñ sw, þegar Sool Riettlætesins Mal.
4. uppraн oss syndugum Moñum i heñar Kvide. Vier vorum nidursokter i Afgruñ
herfeleguftu Eymda og Volædis, oss vantade þañ sem rietti oss eirn Streing til ad upp-
ryckia oss ur þessu Diwpe. Prij-þættur Streingur slitnar torvelldlega seiger hiñ vijse,
Ecc. 4. Þesse Streingur var Drotteñ Jesus af Lijkhama, Saalu og Guddoomenum
samañspuñeñ, hann var ofañlaatenn i Eymder vors Hollds, med honum hefur Guds
mektuge Armleggur rykt oss wt af Vallde Myrkraña; oss vantade eina Foorn, þa er
kyñe fyrer Gude ad gyllda, hana var ecke ad fa hia oss Moñunum, eirn Brooder kuñe
ecke añann ad leysa, Ps. 49. Og þoott Gud hefde skapad eirn heilagañ Mañ af Adams
Nidium, og læted hañ lijda, þa nææde hañ skamt, bæde til ad gieta utstaded hinar bitru
Helvijtis Pijslir, so og til ad fullnægia Gude fyrer Syndena, þvi er Gud Madur vord-
eñ, so Guddoomureñ hiaalpade Mañdoomenum til ad þola Pijslernar, og giora Lausn-
ar-Giallded dijrmætt og gyllt i Auglite hiñs stranga Doomara: Eñ Mañdoomureñ
Gude (ef eg ma so ad Orde komast) til ad deya. Vier þurftum einhvers Saatt-
maala vid, til Stadfestingar þeim Fride er Gud giorde vid Mannkyned. Sia, Gud
er Madur vordeñ, hñ hefur trwlofad sier vora Natturu i Meyareñar Kvide: Med þess-
um Teingdum er Fridureñ stadfestur mille Himens og Jardar, mille Guds og Maña,

mille

mille Riettlætesins og Myskunarennar. Vær þurftum nockurskonar Veg til Him-
ensins, hvadañ vier wtlæger vorum. Gud er Madur vordeñ, hañ er Vegureñ, Sañ-
leikureñ og Lijfed, Joh. 14. Hañ er Jacobs Stige sem nær frꜳ Jordu allt til Himens,
Gen. 28. Þvi hañ er ofañkomeñ af Himne i vort auma Holld, eñ vort Holld er upp-
numed, Fiolleñ eru læckud, Dalerner eru uppfyllder, Esa 40. Himeninn hefur læckad
sig allt til Jardar, Jordenn er upphafenn allt til Himna; og um̃ þennann Jacobs
Stiga munu Englar ꜳ sijdann bera Sꜳler vorar i Abrahams Skaut, til ad fagna
þar eilijflega. Vier vorum Gude morg tiju Þusund Punda skylldugar, Matth. 18.
Þar lꜳ ecke annad fyrer oss enn ad verda kastader i hin ytstu Myrkur. Eingenn hafde
þad hañ giallda skyllde, þvi er Gud Madur ordeñ. Fadereñ gaf oss eirn rijkañ Brood-
ur sem eirn gallt fyrer alla. Ad sijdustu villde Gud ecke einasta frelsa oss af Myrkrañа
Vallde i Helvijte, helldur og hefia oss til Rijkis i Himnenum, eñ oss vantade Roksemd,
og Skil til þess, ad hañ villde so giora. Hañs Giædska var alltijd til reidu i frꜳ Upp-
hafe Veralldar, ja, ꜳdur enn Grundvollur Veralldarennar var lagdur. Enn þad
var ad ugga, ad vier mundum giora hana onijta ꜳ oss fyrer Vantrwarennar Saker.
Þad var ecke lijklegt, ad eirn glæpafullur landrꜳda-Madur, eirn Spillvirke, sem alla-
reidu hafde Snoruna um̃ Hꜳlseñ og uñed til Gꜳlgans, hann munde ætla ad Konung-
urenn munde hann aptur kalla frꜳ Gꜳlganum til Rijkis, wr Boduls Hondunum til
sijns Hꜳbords, og giora hann Ættleiding af Utlaga, sitt Barn af Diofulsins Þræl, og
sinn Þienara af Drottenns Svikara. Þess vegna er Gud Madur ordenn, þar fyrer
hefr hañ giefed oss þad Teikn, er hañ hiet ad giefa ꜳ Dogum Achas Konungs, Esa. 7.
um̃ hvert ad gietur i þessa Hꜳtijdes Dags veniulegum Pistle, þar so stendur: Fyrer
þꜳ Skulld mun Drottenn giefa ydur eitt Teikn. Siꜳ þu, ad ein Jomfrw mun Barn
gieta, og eirn Son fæda, og hann mun hun kalla Jmmanuel, þad er Gud med oss, Gud
i Mannenum og Orded i Holldenu, þad er Jesus, Lausnare, Frelsare, Sꜳluhiꜳlpare,
þvi so kunne eingenn ad heita nema Gud bygge i honum. Þetta er nu fullkomenn
Vissa um̃ Sꜳtt vora vid Gud, sꜳ oss reidr var, þvi hafe hann giefed oss hañ i hverium
honum alleina velþocknast, Matth. 3. Og ofurselt hann i Daudans Pijsler, til ad for-
lijka oss vid siꜳlfann sig, Rom. 5. Þegar vier enn þꜳ vorum hañs Oviner. Hverniñ
kunnum vier þꜳ ad efast um̃ Uppgiof vorra Synda? Mun hann kasta þeim i eilijfañ
Elld sem ꜳ hañs Nafn trwa, er hañ took so nærre sier ad giefa oss? Mun hañ tilreikna
þeim Syndernar, hverra Synder hañs Eingietenn Sonur hefr burtu bored, Joh. 1.
Nær vier ydrunst þeirra af Hiarta? Mun hann klaga oss fyrer þꜳ Handskriftena
sem hann hefur allareidu ꜳ Krossenn neglt? Col. 2. Fiærre sie þad Fodur Myskun-
semdanna: Og þessi er nu sꜳ gledelege Bodskapurenn er eg i ondverdu hiet um̃ ad
tala. O eitt Fagnadarsamt Ord! O eitt sannkallad Evangelium! O eitt æskelegt
Fridar Bod! med hverin Heilsañ verdur frambođen hinum Veika, Uppgiofeñ hinum
seka, Lausnenn hinum Herteknu, Frelsed Þrælunum, Lijfed hinum Dauda, og þeim sem

einkis

einkis Von ætti nema eilijfra Kvala i Helvijte, med Dioflenum og ollum hanns Arni, eilijf Sæla, eilijfur Fognudur og ellijft Samneyte, med hiñe hæaleitu gud dooinsins Þrenningu og heilogum Einglum i hinne himnesku Jerusalem, hverrar Sool og Tungl ad Gud er, Apoc. 21. Og hvar eingenn Umskipte eru Lioossins nie Myrkursins, Jac. 1. Þessarar Tignar, þessarar Dijrdar og þessarar Full-Sælu, unn þu oss niootande ad verda goode Gud, fyrer Arnan og Forþienustu þijns Eingietens Sonar Jesu Christi vors Frelsara, Amen.

# A Pæalma Sunnudag.

Gudspialled stendur æ hinn fyrsta Sunnudag i Adventu.

## Exordium.

Vier hofum eingañ Konung nema Keysarañ, sogdu Gydingar fordum Daga, Joh. 19. Þæ þeir villdu ecke læata Konung Dijrdarennar rijkia yfer sier, Luc. 19. Enn eg þykest vita, ad christner Meñ mune ecke samsinna þeim ogudlega Flock, þvi jafnvel þoott vier eigum Gude ad þacka fyrer Konunga vora, er hann sett hefur til ad stioorna sijnu Foolke, sierdeilis vier, er hann hefur millda og riettvijsa Konunga giefed eirn epter annann, þæ vitum vier þo, ad Gud hefur sett sinn Konung yfer sitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Hvers Rijke ecke er af þessum Heime, Joh. 18. Og þo er hann Heimsins Skapare, Hebr. 1. Hvers Herradæme ad bræ fyrer synduga Menn uñ stundarsaker, til ad uppfylla Spæadoom Zachariæ, Cap. 9. Þegar hañ reid inn til Jerusalem, enn hanns Rijkis Stooll varer þo uñ Allder Allda, Hebr. 1. Vorer Hofdingar stioorna med Magt og miklu Vellde, Verolldenn er so skipud, ad ecke verdur odru æakomed; Eñ Christur i sijnu Næadar Rijke stioornar med sijnu H. Orde og Sacramentunum, þvi seiger Paulus, 2. Cor. 10. Vopn Herfarar vorrar eru ecke lijkhamleg, helldr Kraptur Guds til ad nidurbriioota Gyrdingarnar. Veralldleger Herrar taka Skatt af sijnum Þegnum, Matth. 17. Og er þad riettvijst, þvi þesse vor Konungur hefur þad skipad, enn hann giefur ollum allt og upplijkur sinne Milldu Hende, til ad sedia allar lifande Skiepnur, Ps. 145. Drottenn sagde vid Petrum: Veralldleger Konungar, hvert taka þeir Skatt af sijnum Bornum, ellegar af añarlegum? Enn Petur svarade: Af annarlegum. Og vor Herra sagde: Þæ eru Bornenn frij, Matth. 17. Enn þad geingur odruvijse til i Guds Rijke, hier tekur Konungurenn Skatt af sijnum Bornum, sem þo er ecke Gull nie Silfur, helldur harmþrwngenn og sundurknosadur Ande. Fordum Daga mætte eingenn mæta Persanna Konunge, nema hañ offrade honum einhverre Gæafu, Og er Boonde nockur vard æ Veige fyrer einum af þeim, hafde hann þad ecke til er hann kyñe ad biooda; Enn i þessu Næadleise took hann Vatn i Lwkum sier og færde Konungenum, og segia Menn þad hafe vered vel þeiged. Vier mætum vorum Konunge daglega, þvi allann Dagenn wtbreider hañ siñ Fadm til vor, Esa. 65. Eckert hofum vier þad vier kuñum

ad biooda þessum allsheriar Drottne, Blood Uxanna og Hafraña þocknast hönum ecke, Ps. 50. Allt Sylfur og Gull er hanns, jafnvel vor bestu Verk eru eins og nidlags Fat, Esa. 64. Gudrækeleg Tꝏr vorra Augna og þad Vatn sem ydrande Mañahofud eru full af; Eitn audmiwkur Ande og lijtelꝏtt Hiarta er hanns Offur, Ps. 51. Betur lijkar honum Foota Þvottur hinnar bersyndugu enn Heimbod Simonar, Luc. 7. Betur Mariu Audmykt i Hiartanu, helldur enn Umsorgun Marthæ i Hwsenu, Luc. 10. Hinn beiske Grꝏtur Peturs, Matth. 26. helldur enn Offur Vitringaña, Matth. 2. Þoott hvorutveggia være þacknæmelegt. Hin besta Þegn-Skyllda Guds af Monnunum er þetta, og Trwenn sin verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Enn þesse Konungur so mꝏttugur sem hann er, so prijdelegur sem hann er, so alvalldur sem hann er, so giæskurijkur sem hann er, þꝏ er hann þo til vor komenn HOOGVÆR, Sitiande ꝏ Osnu Einne. Hafe nu Konungur Dijrdarennar vered so Hoogvær fyrer vora Skulld, þꝏ lꝏtum oss gꝏnga nær Gudspialle þessu, og læra nockud af honum, sem er hoogvær og af Hiarta lijtelꝏtur, Matth. 11. Þad er hina andlegu Hoogværd, sem oss ꝏ ad fylgia inn i Himnrijke med Smꝏ-Bornunum, Matth. 18. Og um hana vil eg tala fyrer ydrum Kiærleika wt af þessu H. Evangelio. Hvar til oss styrke hinn nꝏduge Gud i Jesu Nafne, AMEN.

## Utleggingen.

KAre Þier J Þad Kauptwn Sem Gagnvart Ydur Er, Og Strax Munud Þier Finna Osnu Bundna Og Folann Hiꝏ Henne, seiger Drottenn. Af þessu er audsied, ad hann visse alla Hlute, og ef hañ var alvitur, þa var hañ og almꝏttugur, allstadar nꝏlægur og omælanlegur, þvi Guddoomsins Eigennlegleikar meiga ecke adskiliast, hvar fyrer vier siꝏum, ad oll Fylling Guddoomsins hefur bwed i honum lijkhamlega, Col. 2. Hvad lꝏngt eru nu aller daudleger Meñ frꝏ soddañ Hꝏtign? Ad sonnu hefur Gud lagt miked til margra, og þar verdur ecke ꝏ moote sagt, ad Madureñ er hin ypparlegasta Skiepna Guds, sem vier siꝏum med vorum Augum, en þad hefur Jesus frañ yfer alla adra, ad hañ er bæde Gud og Madur. Hvilijkt er þa þetta oumrædelega Lijtelæte, ad hañ sem oll Dijr ꝏ Jorduñe skapad hefur, hañ virder sig so lijtels ad sitia ꝏ einum Asna, sñ er eitt hid audvirdelegasta Kvikende medal Dijraña. Siꝏ hier, christeñ Madur, hvad lijtels verd ad sie Hoffragt Veralldarennar i Guds dijrdarfulla Auglite. Hier er ecke Pharaonis Vagn, sem Joseph var i fluttur, Gen. 41. Ecke Mardochei Hestur sem Ahasverus skipade honum ad rijda ꝏ sijnum Heidurs-Deige, Est. 6. Ecke hiñ elldleige Vagn og Hestar, sem færdu Eliam til Himna, 2. Reg. 2. Helldur eirn lijtelmootlegur Asne; Þo stærer eirn syndugur Ormur sig af Bwningenum, og af þvi Yferlæte er hañ hledur utañ ꝏ sig. Þad er allvijda ad siꝏ i Æfe-Sogu Drotteñs, hvad lijtels hañ hefur meted Oflæte Veralldarennar. Hann var fæddur i einum Stalle, Luc. 2. Hañ foor ꝏ Fæte þegar hañ gieck um kriing, giorde gott og græddealla, Act. 10. Hañ rijdur hier einum Asna, og hygg eg þad hafe þo vered

hid niesta hañs Yferlæte hier œ Jorduñe. Þeink nu um̃ syndugur Madur, hvilijk Fœ-
sinna þad sie, ad metnast i Hiarta sijnu, þo Gud lœte einhvern skijna i Prijde Veralld-
ar þessarar, ecke seige eg, ad Gude misþocknest lijkhamlegt Hreinlæte eda fagur Bwn-
adur i sialfum sier, þegar þau sambiooda þess Virdingu er þvilijkt brwkar, lœngt hell-
dur meina eg, ad Gud hafe eingañ Misþocka œ þvi, þoott hañs Skiepnum sie hallded til
Prijdis, þad sijnir mier Aaronis Bwningur, Exod. 28. Þad vottar Sœttmœls Ork-
eñ og Nœdar-Stoolliñ, Exod. 25. Þad sijnir Jerusalems Musteri, 1. Reg. 6. Þad sijn-
er Salomon med allre siñi Dijrd, 1. Reg. 10. hverri i Ritninguñe hroosad verdur, eñ
hitt seige eg, ad stæra sig þar af, þad er Audstygd fyrer Gude. Ecke trwe eg ad honum
hafe illa lijkad sw Bygging er Nebucadnezar liet giora i Babylon, eñ fyrer þvi hñ stær-
de sig þar af, þœ vard honum giefid Villudijrs Hiarta, so hañ œt Gras med Kvikend-
um œ Morkiñi, Dan. 4. Ecke hefur Gud reidst vid Herodem af þvi hañ var mœlsniall-
ur, þvi sialfur hafde hañ honum Mœlfæred giefid, eñ sokum þess ad hañ gaf ecke Gude
Dijrdena, þœ var hann sleigenn af Engle Drotteñs, Act. 12. Kañ skie ad Gud hefde
lœted Hvalfiskiñ i Ægyptalande vera kyrrañ i sijnu Vatne, hefde hañ ecke sagt: Mitt
Vatn er mitt, og eg hefe giort mier þad, Ezech. 29. Ecke er vijst ad hañ hefde sett krook-
eñ i Zenacheribs Naser, hefde hañ ecke lastad Nafn Drottiñs. Þesse er hinn riettlœte
Doomur hiñs alvallda Konungs, ad dramblœtum hrinder hañ af Stoole, eñ lijtelœt-
um giefur hañ Nœd, Luc. 1. Betra er ad audmykiast med hinum hoogværu, eñ ad wt-
skipta Herfœnge med þeim drambsomu, seiger Salomon, Prov. 16. Hvar af audsied
er, ad þo Gud hefde mikid til hañs lagt, og upphafed hañ œ Stool sijns Fodurs, og giort
hañ vegsamlegre, bæde ad Vite og Rijkdoome, hellдr eñ adra Konunga i Austurœlfuñe
œ hañs Dogum, 1. Reg. 10. Þœ hefur hañ kañast vid, ad hañ hefde þad allt þeiged og
ecke teked af sialfum sier. So var og David hañs Fader lyndur, hvers Audmyktar
merkelegt Dœme vier hofum i añarar Sam. B. 6. Cap. þegar Drottningiñ Michol
brixlade honum med þessum Ordum: Hversu vegsamlegur var Konungureñ af Jsrael
i Dag, hver ed afklæddist fyrer Ambœttum Þienara siña, og liek nakeñ sem Fantar?
Eñ hañ svarade: Eg vil leika fyrer Drottne þeim sem wtvallde mig, helldur eñ þiñ Fod-
ur og helldur eñ allt hañs Hws, og hefur skipad mig Hofdingia yfer Drotteñs Foolk
Jsrael, og eg vil eñ nu miñe verda, og eg vil lijtelœcka mig i mijnu Auglite, og vegsamast
med þeim Ambœttunum, sem þu talader um̃. Ad eg ecke tale um̃ Abraham, Jacob,
Moysen, Josaphat, Ezechiam og adra fleire, hverier aller voru af Gude med mikillre
Tign sœmder, og þeirra Audmykt i Andanum er þo hroosad i Ritninguñe. Gud nœde
oss! hvad hofum vier ad stæra oss af synduger Meñ? Er ecke Madureñ ein Vatns Boo-
la? Hver þo ad þioote upp um̃ stundarsaker af Vinde Luckunnar, þœ hiadnar hun
jafnskioott aptur, þegar hiñ same œ hana blæs. Er ecke allt Holld Hey? Og allur þess
Heilagleike, lijka so sem Bloomstur Akursins? Grasid visnade og Bloomstred datt
af, þvi ad Ande Drotteñs blies-œ þad. Sannarlega er allt Foolked Hey; Grased

visnade,og Bloomstred datt nidur,eñ Ord Drottens varer eilijflega, Esa. 40. Hier er eingenn undanntekenn, rijkur eda fatækur, gøfugur eda o-gøfugur, smaar edur stoor, vitur eda vankunnande, Præll edur Herra, og þetta eru Guds Ord, hver æfin-lega vara, er oss þetta seigia: Laate þvi eingenn ofurdæatt ad sialfum sier, þvi allt hvad vier høfum, hvad gott edur kostulegt sem þad er, þad er þo alltsaman Laans-Fie, og ecke vort eiged. Seiged mier: Hvar af skylldu Meñ þo stæra sig? Af Aud og Rijke Dæme? Þvi skyllde eg hroka mier upp af þvi sem Luckañ kañ eins ad giefa einum Nijdinge, so sem besta Manne, sem aflad er med mikellre Ahyggiu a morgum Arum, eñ fargast i einu Augnabljke, ef til vill. Þvi skal eg giøra mig stoorañ, þoott eg hafe eirn Omaga medferdis, sem eg hlijt alltijd ad þrælka fyrer, og so er oþacklaatur og oriettvijs, ad hann sedur alldrei sijna Fyrerviñu? Vilium vier athuga Br. M. af hveriu flester eru i fyrstunne rijker vordner: Fæster munu þeir vera, sem Naatturann hefur hialpad þar til ad øllu Leite, edur þeirra eittsamann Erfide, med hveriu Gud hefur skipad ad næra sig af Jordune, Gen. 3. Eg vænte so hafe flester audgast, ad þeir eda þeirra Forfedur hafe teked nockud rangleg a fra ødrum. Eñ seiged mier: Er þad riettvijst ad Menn stære sig upp yfer einhveriu, af þvi ad hanns Forfedur hafa teked nockud fra hinns Forfedrum? Eingum Mañe mun þad þykia, þegar Menn gaa ad hverneñ Hlutureñ er i sialfum sier, eda hvad er nu framveigis ad stæra sig af? Eru þad Vitsmuner? Eg medkieñe, ad þeir eru hiñ kostulegaste Hlutur sem Gud hefur lagt til syndugra Maña, enn þo eru þeir fallvallter eins og añad; og hvad lijted er þad vier vitum, hia þvi sem vier ecke vitum? Madureñ veit ecke siñ Sess edur Gaungu, seiger Ritningeñ; Og hversu vill hañ þo meira vita? Og þoott ad þeir sien i sialfum sier gooder, þaa verda þeir þo af vorre Miskrukun optlega nijdder, allra mest af Drambsemenne. Riett giørde Gud, so sem alla Hlute, i þvi hann gaf Nebucadnezar Villudijrs Hiarta, Dan. 4. sem aadur er sagt: Og sama ætla eg þaa hende, sem forsmaa adra hia sialfum sier, og þykiast einer samañ vita alla Hlute, hvad þaa optast hender, sem miñst vita, og þaa þeir þykiast øllum hyggnare, verda þeir Skiptingum heimskare. Margur Gortare hefur og stært sig af Hreiste Lijkhamans, giætande ecke ad þvi, ad lijtell Kville kann ad svipta Mañeñ sijnu Afle. Sumer hrøsa sier af Fegurd Lijkhamans, og er hun ad sønnu agiætur Hlutur, þaa hun ecke er brukud til Lauslætis edur Ofmetnadar, enn einsamañ er hun Agiætis lijtel, þvi Madur kann ad maala eitt Bijlæte fagurt, og er þad þo ecke so gott, sem hiñ liootaste Madur. Hvad er nu framveiges verdt ad stæra sig af? Dyggder og Mannkoster eru mest verder af øllum þeim Hlutum, sem finnast hia daudlegum Møñum, enn þeir verda ad Okostum þegar Dramblæted þeim spiller. Þvi seiger Salomon, Vanvirdañ eptersfylger hinum stoorlaata, enn hiñ sem er lijtelaatur i Anda mun Vegsemdeñ umfadma, Prov. 16. Lijtelæted er fegursta Skart Dyggdaña, an þess verda Framsyneñ ad Underferle, Riettlæted ad Hardydge, Hugprijdeñ ad Ofdyrsku, Sparsemeñ ad Nijd-

skn,

Fu, eg meina hid christelega Lijtelæte, sem er eirn audmiwkur Ande fyrer Gude, og kann-
ast vid og þecker þad, ad Menn eru Men og mannlegum Tilfellum undervorpner.
Siá þinn Konungur Kiemur Til Þijn Hoogvær, seiger Texten Ef Konungur
Dijrdarennar, Ps.24. so lijtelækar sig fyrer oss syndugum Monnum, þui skylldum vier
synduger Menn stærra oss upp yfer vorum Brædrum. Drottenn Himens og Jardar
kiemur til vor aumra Manna, sem eckert tokum med oss i þennann Heim, og munum eckert
i burtu bera, 1. Tim.6. Hinn fegurste medal Mannanna Sona, Ps.45. Kiemur til vor,
sem frá Hvirfle og allt til Ylia erum ecke neima Saar, Beniar og Prote, Esa.1. Lát-
um oss þad til Hiarta ganga, hvad stoor Madur ad er vor og hanns, vier erum þeir ed
styggdum, hann er sá sem misgiort var á moote, hann þarf ecke vor mz enn vier kunnum ecke
eitt Augnablik ad lifa fyrer utan hanns Myskun. Látum vort Hiarta komast vid af þui,
ad hann er siwkur af Elsku, Cant.2. Ofann til vor komenn, þegar vier hann hotudum. Ef
vorar Synder ecke angra oss, ef vier hrædunst ecke þeirra Straff, þá látum þo þann
oumrædelega Elskunnar Bruna smellta vort Hiarta, ad hann kiemur med so mikille
Hoogværd inn til Jerusalem, til ad láta sig kvelia og krossfesta fyrer mijnar og þijnar
Synder, christenn Madur. Hann grætur yfer Borgenne, hverrar Innbyggendur ad ecke
þecktu sinn Vitiunar-Tijma, Luc.19. Af hverium hann visse þo ad hann munde so hræd-
uglega wtleikenn verda, sem hanns Pijslar-Saga vottar. Fyrst hann hefur nu allt þetta
unned fyrer oss synduga Jardar-Madka, þa látum oss giora þad hann oss skipad hefur,
sem er, ad læra af honum hina sonnu Hoogværd sem Gud ælijtur, giorande eckert af
Kappe edr fyrer Hiegooma Dijrd, helldr af Lijtelæte, hafande hver annann sier i Wird-
ingum ædre, Phil.2. Audsijnum og vort Lijtelæte i Verkunum, so ad bæde Gud og
Menn siae ad vier leggium ecke ofmikla Virding á siálfa oss. Drottenn sagde til Lære-
sveinanna i þessu Evangelio, þegar hann skipade þeim ad taka Osnuna: Ef Einhver
Seiger Nockud Til Ydar, Þa Seiged Ad HErrann Hafe Þeirra Þorf. Allt Walld
hafde Jesus, bæde á Himne og Jordu, þui alla Hlute hafde Faderenn lagt i Sonarens
Hendr, Matth.28. Þui sijnest ad þad hefde ecke vered umfram hanns Rád, þoott hann
hefde teked þetta Dijr ad fornspurdum Eigandanum, þo villde hann þad ecke giora,
uppá þad hann sijnde oss hvernenn vier eigum hvor vid annann ad breita. Enn hvad giora
sumer af oss? Þyker oss þad mikels verdt ad giora Lijtelmagnann fornspurdann, ad þeim
Hlutum er vier eignast vilium? Mun Jessabel virda fyrer sier ad leita Lingvitna i moo-
te Naboth, og láta grijta hann sijdann i Hel: Þegar Achab vill eignast hanns Wijngard?
2. Reg. 21. O! Gud giæfe ecke være þvilijkt Dæme hiá oss, þoott Menn rædest þess
minna i, sem vier hofum Walldeð minna helldr enn Achab hafde. Ad sonnu er skyckanlega og
lijtelátlega Umgeingne ecke ad lasta: Hun kann ecke so ad kallast Dyggd, so sem Dyggdanna
Forunautur, og margur hefr sá hana til ad bera, sem ecke hefur siálfar Dyggdernar, og
mz henne hafa sumer teked allt frá ollum, enn þo er ecke hid sanna Lijtelæte i þui innefaled ad
taka Hattenn af fyrer Monnum, jafnvel þo þad sie ecke lastande i siálfu sier. Utvortis og

vortis Lijtelæte, er ad sonu hvertveggia gott, enn skule añars hvers ꜳn vera, þꜳ villda eg helldur ad Hattureñ sæte kyrr ꜳ Hofdenu, helldur eñ ad Aumingians Kioll være riseñ af hanns Kroppe, so ad Gud klagade mig ecke sijdañ, ad eg fielle fram i pantsettum Klædum i hañs Hwse, Amos. 2. Vier heyrum i Gudspiallenu, ad margt af Foolkenu sem epterfylgde Lausnaranum, Hafe Breidt Sijn Klæde A Vegeñ, Enn Adrer Hoggved Kviste Af Triꜳnum; Þad var stoort Audmyktar Merke af þessu Foolke, og eg veit ad þier, christner Meñ, villdud hid sama giora, ef þier mættud hanns Nꜳlægdar niootа. Enn trw mier til, ad hann er ecke so lꜳngt i burtu, sem þu hyggur, þvi hañ hefur sagt: Eg vil vera hiꜳ ydur allt til Enda Veralldar, Matth. 28. Og ef þar eckert annad er, þꜳ eru þar nooger Klædleysingar, sem hann kallar sijna Lime, þad eru sañer Ornusu-Menn: Breidum vor Klæde ꜳ Veigeñ fyrer þꜳ, so ad þeir ecke i Klædleyse wt af deye, sm̃ ad bera Teikn Jesu Christi ꜳ sijnum Lijkhama, og eru epter hañs Myndskapader, so vel sem vier adrer, sem betre Rꜳd hofum, þꜳ offrum vier hinu sañarlega Lijtelæte, og lꜳtum Gud siꜳ ad vier þykiunst ecke upp yfer þeim sem hañ hefur miña tillagt. Christur vill ecke lꜳta lwta sier einunges med Ordinn, helldur med Verke og Sañleika, Eph. 2. Ecke helldur sijnum Limum, þvi hañ er Safnadarens Hofud, Rom. 12. Enn vier erum hver añars Limur. Þar mun koma sꜳ Dagur ad sagt mun verda til þeirra sem hafa medteked Guds volada i hañs Nafne, þegar Christur mun i annad sinn iñrijda til Jerusalem, þad er til sinnar christelegrar Kyrkiu, ecke grꜳtande so sem nu, helldur med Makt og miklu Vellde, þegar Hofud-Engelsins Lwdur mun gialla yfer þeim sem ꜳ Jordu bwa: Komed þier blessader mijns Fodur, og eignest þad Rijke sem ydur var tilbwed frꜳ Upphafe Veralldar; Þviad hwngradur var eg, og þier gꜳfud mier ad eta, þyrstur var eg, og þier gꜳfud mier ad drecka, Giestur var eg, og þier hystud mig, nakenn var eg, og þier klæddud mig, siwkur var eg, og þier vitiudud mijn, i Myrkvastofu var eg, og þier komud til mijn; Þꜳ munu hiner riettlꜳtu svara honum og seigia: Herra, hvenær sꜳum vier þig hwngradann og soddum þig? Eda þyrstann og gꜳfum þier ad drecka? Eda hvenær sꜳum vier þig giestkomande og hystum þig? Eda nakeñ, og klæddum þig? Eda hvenær sꜳum vier þig siwkann edur i Myrkvastofu og komum til þijn? Og Konungureñ mun svara og seigia til þeirra: Sannlega seige eg ydur; Ad hvad þier giordud einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier, Matth. 25. Þꜳ mun þad ecke koma i Epterþorf ad hafa breidt sijn Klæde ꜳ Veigeñ fyrer Christi Limu, þad mun verda stoor Fiesioodur ꜳ Himnum, ad hafa lijtels aktad Gull og Gersemar, og kostulegañ Bwnad, þegar allt þetta stendur i biortu Bꜳle, og duger til einkis nema ad kveikia Elld under þeim sem hafa fest sitt Hiarta þar vid. Þyke oss vænt um̃ þad fꜳnijta Skart, sem vier vefium i þeña forgeingelega Lijkhama, og þad so miog, ad sumer af oss være til Frids, ad flytia nu sier nockud wr þessare Verolldu, þa er Rꜳd þad vid þvi, ad klæda fꜳtæka, þeir muñu oss þad med Abata aptur giefa, sem er Riettlætesins Skrwde, fꜳgadur i Lambsins

Bloode.

Bloode. Eckert berúm vier i burtu med oss hiedann, nema þad sem Guds voludum er giefed, þad mun oss aptur rijkuglega gollded verda i Upprisu riettlaatra. So læred nu af ydar Frelsara, B.M. ad vera hoogværer og af Hiarta lijtelaater, bæde i Orde og Verke. Hañ hefur ecke sagt til vor: Læred af mier ad skapa allañ Heimeñ, ecke ad giora Kraptaverk i Heimenum, ecke ad raada fyrer Velferd allra Maña, helldur hefur hann skipad oss ad læra af sier Hoogværdena. Saa sem vill byggia sitt Hws stoduglega, hañ þeinke uñ Grundvoll Lijtelætesins, þvi hver sa ed sig upphefr, hañ skal nidurlægiast, og hver ed sig nidurlæger, hañ skal upphafeñ verda, Matth. 23. Enn þu O Herra Jesu Christe! sem ert hid fullkomnasta Epterdæme Lijtelætesins og Hoogværdareñar, virdst þu ad taka burt fraa oss Hroka syndumspilltrar Naatturu, so ad vier rata mættum þañ rietta Veigeñ iñ i þitt Rijke, þad veit þu oss myskunsame Herra, sem hefur lijtelæckad sialfann þig, uppaa þad vier vegsamleiger yrdum, og bid þinn himneska Fodur fyrer oss, ad hann sende oss þar til sinn heilaga Anda, Amen, J Jesu Nafne, A M E N.

# A Skijr Dag.

Pistillenn, 1. Cor. 11. Cap.

GOODer Brædur. Þvi eg medtook þad af Drottne sem eg hefe ydur giefed. Af þvi ad Drotteñ Jesus, aa þeirre Naatt er hañ var svikeñ; Took hañ Brauded, giorde þacker, braut þad, og sagde: Taked og eted; Þetta er minn Lijkhame, Saa fyrer ydur verdur broteñ, giored þad i mijna Miñing. Semuleidis og eirneñ Kaleikeñ, epter þad hañ hafde Kvølldmaaltijdena eted, seigande: Þesse Kaleikur er nijtt Testamentum i mijnu Bloode. Giøred þetta so opt sem þier drecked þar af i mijna Miñing. Þviad so opt sem þier eted af þessu Braude, og drecked af þessum Kaleik, skulud þier kuñgiora Dauda Drotteñs, þaangad til hañ kiemur. Hvør hann etur nu af þessu Braude, og dreckur af þessum Kaleik Drottenns overdugur, saa er sekur vid Holld og Blood Drottenns. Enn hver Madur proofe sig sialfur, og ete so af þessu Braude, og drecke so af þessum Kaleik. Þviad hver hann etur og dreckur overdugur, saa etur og dreckur sialfum sier Doom; giorande ecke greinarmun aa Drotteñs Lijkhama.

## Exordium.

SAell er saa Madur sem etur Braud i Guds Rijke, sagde fordum Gydingurenn er sat til Bords med vorum Frelsara, þaa hañ var ad Heimbode eins af Phariseaña Hofdingium, Luc. 14. Hañ hefur aan Efa meint hier med alla þaa

Sælu er þeim bwen̄ er, sem sitia til Bords med Abraham, Jsaac og Jacob i Rijke
Himnanna. Þesse Madur sagde ad vijsu satt, eñ forgiefens vænta Meñ hinnar eilijfu
Sælu, nema vier sꜳum hier i Lijfe nockurn Forsmeck heñar, eñ hvar sꜳum vier hann?
J Guds heilogu Orde ad soñu, enn þo allra hellst i þeim heilogu Sacramentis. Hvi-
lijkur Fognudur er þad eirnre riett-trwadre Sꜳlu, ad hun veit, ad hun i Skijrn-
eñe er vordeñ Guds Vinur af Reideñar Barne, Eph. 2. Og hluttakande allra Jesu
Christi Velgiorninga, sem hañ med siñe beisku Kvøl og Dauda hefur oss afrekad, og
til Styrkingar Trw sinne þar um̃, etur hañ Guds Lijkhama og dreckur hañs Blood
i og med hinum jarnesku Hlutum Braude og Vijne. J Ordenu heyrum vier Raust
Brwdgumans, Cant. 5. Enn i H. Kvølldmꜳltijd Drotteñs, kysser hann hana med
Kosse sijns Munns er hañs Hiarta elskar, Cant. 1. Þar uppvekur hann Elskuna til
sijn, þar styrker hañ Trwna, þar lijfgar hañ Vonena, þar eykur hañ Gledena og gief-
ur oss Forsmeck Himnarijkis. David gat ecke meire Æru veitt Mephiboseth Syne
Jonathans Vinar sins, 2. Sam. 9. Edur Vin sijnum Barsillai, 2. Sam. 19.
Enn ad þeir skylldu eta Braud vid hanns eiged Bord. O! hvilijk Æra er þetta þa,
Br. M. ad Konungur Dijrdareñar setur oss vid sitt eiged Bord? Hañ framreider
þar, ecke eirn aleñ Kꜳlf, eins og Fader hiñs tijnda Sonarens, sem gietur um̃ i Ept-
erlijkinguñe, Luc. 15. Helldur sialfañ sig þad saklausa Guds Lamb, sem frꜳ Ver-
alldarennar Upphafe slꜳtrad er, Apoc. 5. Hwngrudum til Sadningar. Nathan
Spꜳmadur kuñe ecke ad fꜳ annad vigtugra til ad sijna David, hversu miøg hiñn
fꜳtæke Madur hefde elskad þañ Saudeñ sem hiñ rijke took frꜳ honum, helldur enn
þad, ad hañ gaf honum ad eta af sijnum Braud-Bita, og ad drecka af sijnu Kiere,
2. Sam. 12. O Jesu! Vier erum þijner volader Sauder, þu hefur auglijst þinn
breñande Kiærleika i mørgum þijnum Velgiørningum, enn þo hvad mest i þvi, ad
þu hefur giefed oss þitt Holld ad eta og þitt Blood ad drecka, þad sama Holld og Blood
sem ꜳ Krossenum hieck og wthellt var, eñ nu situr til Kraptarenus hægre Handar
til ad byrtast fyrer Auglite Guds, til ad afmꜳ Syndena med Foornfæringu sialfs
þijns, Hebr. 9. Þu hefur til þessa Giestabods kallad fꜳtæka, vanada, hallta, og
blinda, Luc. 14. Þad er oss aumar syndugar Manneskiur, hveria Syndenn og
Diøfullenn so illa høfdu wtleiked, ad frꜳ Hvirfle og allt til Ylia var þar ei nema Sꜳr,
Beniar og Þrote, Esa. 1. Enn eg ottast næsta miøg ad þeirra lijkar fiñest vor ꜳ med-
al, er St. Pꜳll so hardlega ꜳtelur fyrer Osidseme þeirra og Vanrækt ꜳ þessu
himneska Bord-Hallde, þar hann seiger til Corinthios: Þessu hroosa eg ecke ad þier
samañkomed ecke til hiñs gooda, helldur til hiñs verra eins, 1. Cor. 11. Þvi giefur
hañ þeim og eitt ꜳgiætt Bodord, hverneñ þeir skulu tilreida sig under þessa H. Nautn
i þessum Ordum: Hver Madur proofe sig sialfur, og ete so af þessu Braude og drecke
af þessum Kaleik. Og ecke einasta hefur hann þeim þad giefed, helldur og øllum
christnum Mønnum, er med þessum hætte vilia kuñgiora Dauda Drottenns, hvar

fyrer

fyrer eg vil og wt af þessum H. Pistle tala um̃ þaa sierleguſtu Hlute er heyra til christelegs Underbwnings þessarar hááleitu Drottenns Kvølldmaaltijdar.

Hinn goode Gud virdest ad styrkia oss hier til, med Naad sijns Anda, i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAd er ad vera oss alkuñugt, B. M. Ad i Skijrneñe hefr Gud giørt eirn Naadar Saattmaala vid oss auma Meñ, þar vier fædunst i Heim þeñañ dauder i Syndunum. Nu er oss þad vitanlegt, ad vier daglega riwfum þeñañ Samning, ecke alleinasta af rasande Raade, helldur og optsins med Vilia og Asetninge, eñ þvi vallda Guds diwpu Myskunar Ydur, ad vier eigum Kost aa ad niju ad forlijka oss vid hañ, og til þess hefur hañ sett og iñstiptad þad H. Altaresins Sacramentum, i hvøriu vor Skijrnar Saattmaale verdur ad fullu endurnijadur, Guds Naad ad niju framboðeñ sañydrande Mañe, og hañ aavallt skulldbundeñ til ad giora verduga Avoxtu Ydraneñe, Matth. 3. Þad vill Drotteñ boded hafa, er hañ seiger hiaa Lucam. 22. Cap. Svo opt sem þier giøred þetta, drecked þad i mijna Miñing, hvad Paulus i Textanum kallar ad kuñgiora Dauda Drotteñs. Eñ hvilijk aa þesse Miñing ad vera, Bɾ. M? ecke so sem þegar vier dreckum Konungsins Skaal, edur Vina vorra og Naaunga, þad være ad giora lijteñ Greinarmun aa Lijkhama Drotteñs og añare Fædu, helldr eigum vier þess ad miñast mz Hiartans Angre og Trega, ad vorar bloodugar Illgiørder hafa Dijrdareñar Hertoga krossfestañ, ad oss verde þær fyrer hanns Dauda og Forþienustu alldeilis tilgiefnar, ef vier ydrunst af Hiarta. So er nu christeleg Ydran so ad seigia, hin fyrsta Trappa sim̃ liggur upp ad þessu Haaborde Drottenns. Eñ þess er ad giæta Barn Guds, ad hun sie heit og alvarleg. Christur giørde ecke um̃ Grun ad lijda fyrer Synder þijnar, þu aatt og ad laata þig af iñstu Hiartans Rootum aangra þad, ad þu hafer hann moodgad og moodger daglega. Hier til heyrer nææ kvæm og grandgiæfeleg Þecking Guds H. Bodorda: Hverneñ maa hañ þeckia Syndena, sim̃ ecke er sañfroodur um̃ Guds Vilia? Eñ hversu maa saa ydrast Syndareñar, er hana ei þecker? Og saa sim̃ ecke ydrast, hañ etur og dreckur overdugr, eñ hañ ed þad giører, er sekr vid Holld og Blood Drotteñs, seiger Paulus i upplesnum Texta. O! hversu hrædeleg mun þesse Sekt, christner Meñ? Vier kyñum ad leida oss i Hug, ad þeir ed vijsvitande athugalaust og overduger gaanga til Guds Bords, þeir væru ecke øllu miña seker i Auglite hiñs riettlaata Guds, eñ þeir sim̃ hañ krossfestu, þvi þeir hafa Christi Vitne þar um̃, ad þeir ecke vitad hafe hvad þeir giørdu, Luc. 23. Eñ þad maa hverium einum christnum Mañe vera vitañlegt, ad Gud hefur sendt Son siñ i Heimeñ synduga Meñ saaluhoolpna ad giora, og ad hann siaalfur hefur giefed sitt Lijf wt fyrer sijna Saude, Joh. 10. Hveriu tll Stadfestu hann giefur oss sitt Holld ad eta og Blood ad drecka. Edur seiged mier, hvad er þad sem Paulus til Heb. 10. Kallar ad foottroda Guds Son? Og ad hallda Saattmaalans Blood almeñelegt? Med hveriu vier erum

endurkeypter. Mun þad ecke stappa nærre þvi, sem hier stendur i Textanum? Ad Giora Ecke Greinarmun ꜳ Drottenns Lijkhama. Hvad er þad añad, eñ ad hallda hañ almeñelegañ? Eñ Paulus seiger, ad þeir ed þvilijkt giora, ete og drecke sialfum sier Doom, þad er, ad þeir giøre sig eilijfrar Fyrerdæmingar seka, nema þeir raade Boot ꜳ slijku og ydrest af Hiarta. Kome þier þvi til Hugar syndugur Madur, ad þu ecke hafer so verduglega geinged til Guds Bords, sem þad hefur byriad, þa orvænt þier ad søñu ecke Guds Naadar, helldur ydrast, og laat þier ei til Hugar koma ad bregka þessa hialpsamlegu Nautn, fyrr eñ þu hefur lært ad reyna og proofa sialfañ þig svo sem byriar, þvi þu sier hvilijkañ Haaska þu ert vidkomeñ, nær þu stendur vid Herrans Bord, nema þu giallder varhuga vid. Drag þo ecke slijkt undañ med Toomlæte og ødrum Um̃svifum, þvi þu sem ert sannfærdur þar um̃ i Hiarta þijnu, ad þu optlega hefst onijtt þinn Skijrnar-Saattmaala: Þier mætte til Hugar koma, sem fliootast og optast ad forlijka þig vid Gud i H. Altaresins Sacramento. Þar fyrer, þoott eingenn eige so ofroodur ad koma i þennañ H. Stad, þa afsakar þad hañ ecke, ad hañ hefur ei vered sier vt um̃ Þeckingu Guds Bodorda og riettañ Skilning ꜳ sijnum Saaluhialpar Efnum, þvi sa sem aan Løgmaals syndgar, hañ mun aan Løgmaals tapast, seiger Paulus, Rom. 2. I Skijrneñe verdur oss uppaaløgd almeñeleg Hlijdne Guds Bodorda. Um̃ hana erum vier skyllduger, þa vier drøgunst ꜳ Legg og gietum lært ad kuña nockra Grein ills og goods. Sie þier þvi fyrst um̃hugad, christeñ Madur, hvert þu ert ungur edur gamall, ad þu gaanger smaasmuglega i giegnum øll Guds Bodord, med allre Athygle, rannsaka hvad i þeim er boded edur bannad, hveriar Dyggder i hveriu eru bodnar, og hverier Løster edur Klæker þar eru bannader. Nockud af þessu er ad søñu giort i þeim Bookum, er hlijda til vors Barna Lærdooms, jafnvel þoott eg oska villde, ad þad være nockud greinelegar brijnt fyrer Ungdoomenum og faafroodum, helldur eñ almeñelega gioreft, so þeir lærdu ad þeckia Edle og Haattalag christelegra Dyggda, hvar af Vanart og Oedle Glæpaña er audþeckt. Þeink og ecke ad vondar Hugreñingar sieu ecke fordæmañlegar Synder. Til hvers seiger Endurlausnareñ, Matth. 5. Ad sa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hafe' alla reidu drygt Hoor med heñe i sijnu Hiarta? Hvar fyrer seiger hann, sa sem reidest Broodur sijnum, sie Raads sekur: Þvi sagde hañ vid Pharisæana: Hvar fyrer hugsid þier so illt i ydrum Hiørtum? Matth. 9. Drage eingenn sialfañ sig ꜳ Taalar, til þess er hinn alskigne Gud Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare, Jer. 17. Ad hañ dæmer allt þvilijkt og fordæmer ꜳ oss, nema vier þess ydrunst af Hiarta eins vel sin̄ Orda og Verka; Og hvad sem hañ hefur bañad ad giora og tala, þad hefur hañ og bañad ad hugsa. Og uppaa þad Ydraneñ kuñe ad nockru Leite ad sambiooda Stærd Syndareñar, þa athugum grandgiæfelega Mismun þeirra, epter þeirra Haattalage og Arburdum, Tilgaange og Orsøkum, er oss droou þar til, enn eingeñ kañ ad jaata edur ydrast riettelega þeirrar Syndar, er hañ þecker ecke Stærd heñar og Illsku, og traudt kañ Madureñ ad laata

af

af þeim Glæp, sem hañ ecke veit hvoria Verkan hefur haft i sier edur hvad sig hefur tildreiged ad drygia hann. Þar eru til ovitañlegar Synder, sem skie annadhvert af þvi ad Menn vita ecke hvad gioreſt, so sem Pooll, er hann sagdest ei hafa vitad ad þad var hinn ypparſte Kienneimadur til hvers hañ talade, Act. 23. Edur Moodur þeirra Zebedei Sona, er ei visse hvers hun beidde, Matth. 20. Þær reiknar Gud ecke endurfæddum Manne til Syndar, þvi eingeñ Fordæming er aa þeim, sem eru i Christo Jesu, Rom. 8. Eñ þo med þvi moote, ad Vanvitskañ kome ecke af Asetninge til ad syndga, so Menn vilie ecke læra Guds Vilia til þess, ad ei þurfe epter honum ad lifa. Lijkar þessum eru þær ed Menn giora af rasande Raade, af Gleymsku, af Bradræde, so sem þegar Petur hioo Eyrad af Malchus, Joh. 18. Þegar Læresveinarner þrættudu um, hver þeirra mestur være, Marc. 9. Þegar þeir villdu kalla Elld af Himne, Luc. 9. Þessum Syndum er hinn goode Gud og so naadugur, þoott þær i siaalfum sier stoorar sieu, hvar uppaa allstadar Dæme eru; Enn oss byriar grandgiæfelega ad taka Vara aa Lijfernis Hatttum vorum, og læra ad þeckia Breste vora, annars mun Braadræded og Vangiætslañ ecke afbata meir þesshattar Synder, helldur enn Vanvitskañ hinar.

Nu eru þo Synder, sem Meñ drygia þvert aa moote Samvitskuñe, og ad heñe naudugre, hafande ad eingu Guds Bod fyrer einhvers Tilgaangs Saker. Þvilijkar Synder kunna ad verda ad stoorum Syndum, þoott þær sieu smaar i siaalfum sier; og þad sem ecke er Synd i siaalfu sier, þad reiknast fyrer Synd, nær Menn ætla þad mune vera Gude aa moote, enn giora þad ei ad sijdur, þvi hañ dæmer epter Asetningenum, og ecke epter Vitsmununum. J Selskap þessara Synda var Aaronis og Mariu, er þau mogludu i giegn Gude og Moyse, Num. 12. Davids, þegar hann took Hwsfrw Uriæ Hetithers Frillutake, eñ sloo Boonda heñar i Hel m<sup>z</sup> Sverde Amons Barna, 2. Sam. 11. Þessar Synder verda ei afþveignar nema med heitum Ydrunar-Taarum, þvi stoor Saar þurfa mikla Grædslu; Eñ hinn riettlaate Gud er vandur ad Virdingu siñe, og lætur ei ad sier hæda, Gal. 6. Þess er og ad giæta, B. M. ad þær Synder, sem oss ydulega henda, þær reita hinn myskunsama Gud nærsta miog til Reide, þvi þad mætte sijnast, ad Meñ med soddañ ogudlegu Athæfe giordu Leik til þess ad styagia hañ. Oss verda Syndernar med þvi Fororde tilgiefnar, ad vier leggium af vora Illsku Breitne. Laatum af illu og lærum gott ad giora, Esa. 1. Þvi ef vier æfum þañeñ Syndena, jafnvel þoott vier laatunst ydrast heñar, þaa mætte virdast ad hin sijdarsta Synd hefde forbroted Fyrergiefningu allra hiña, enn eingeñ veit hvert hañ fær Toom til ad ydrast heñar, edur hvert Gud vill liena honum Ydran til Apturhvarfs (sem Paulus ad Orde kiemst, 2. Tim. 2.) er so leinge hefur giort Handverk af Syndeñe. Þar fyrer byriar ollum þeim er til Guds Bords gaanga, ad athuga, ad þær Synder er oss henda epter þad, ad vier hofum lofad Gude Betrun Lijfernesins, þær eru þijngre og orka meire Hegningar, eñ hinar er vier aadr giordum, þviad i þessu Sacramente verdr Skijrnar Saattmaaleñ endurnijadur, sem aadur er sagt, og vier verdum ad niju Tryggrofar vid Gud,

 nema

nema vier af fremsta Megne leggium allt Kapp aa ad hallda vor Sære. Vid þessum Syndum er flest ollum nockud hætt, jafnvel þeim sem ecke eru laangt fraa Guds Veige, og þær henda Guds Børn aa stundum; Eñ uñ þaa vil eg ecke tala, sm̃ eru so samdauna ordner Raanglætenu, ad þeir ecke þeckia Syndena fyrer Synd, þoott þeir vite ad Gud hafe bañad hana, þeir leidriettast eck: vid Guds Straff og Alogur, þeir taka Syndena i Forsvar, og vilia riettlæta hana, reidast Guds Þienurum edur og goodum Vinum sijnum, þaa þeir aatalder verda. Þeir elska Syndena ecke alleina aa sialfum sier, helldr og samsiña þeim er hana giora, Rom. 1. Þad hender Guds Børn, ad þad gooda sem þau vilia giora, þad giora þau ecke, Rom. 7. Eñ þesser elska eckert gott og hafa Gaman af illu, bæde him sialfum sier og odrum, lockande adra til vondra Verka, og eru i þvi so sem nockurskonar Umbodsmenn Fiandans, þvi þad er hanns Embætte. Þessa nefner St. Paall, 1. Tim. 4. Forbrendar Samvitskur, og munu þeir verda iller Apturhvarfs, nema þeim sie i Tijma Grædslu leitad. Nu er eingeñ Efe aa þvi, ad soddañ Mañeskiur fiñast i Guds Kyrkiu, fyrer þvi verd eg hier uñ ad tala, þvi þaa er Gudleysed komed aa hina efstu Troppu, og gietur varla hærra stijged, og eingeñ Hlutur er þeim vijsare eñ eilijft Helvijtes Baal, nema þeir laate sig leidrietta af Guds Anda. Og er þad ecke noog, christeñ Madur, ad þu lærer ad þeckia Syndena af Yfervegan Guds Bodorda, edur heñar Haattalag, af þvi sem nu er sagt. Þu aatt þar ad auke ad rañsaka þitt eiged Lijferne, og gaanga ytarlega i Riett vid sialfañ þig. Þad var Olucka vorra fyrstu Forelldra, ad þau lærdu ad þeckia hid illa, Gen. 3. Eñ Gud er so hagur, ad hañ kañ ad giora gooda Hlute af vondum, og þvi kañ Þecking Illskuñar ad gagna oss til Saaluhiaalpar, þo meir aa sialfum oss eñ aa odrum. Þad er ecke mannvant ad þeckia hvad illt er i añars Fare, eñ saa sm̃ dæmer sialfañ sig, hañ verdr ecke af Drottne dæmdur: Þad skiedur nær Meñ bera Lijferne sitt, Ord, Giorder og Hugreñingar samañ vid Guds Logmaal, eñ þar hlijfest margr vid, sumer þess vegna, ad þeir ætla, ad þar mune ecke so skarprar Rañsoknar vid þurfa, adrer hins, ad þeir kvijda vid ad ijfa hin fwnu Saareñ, þvi þau svijda magnlega, nær þau rañsokud eru mz Logmaalsins Brodde, giætande ecke ad þvi, ad soddañ verkar þo epter aa fridsamlegañ Avoxt Riettlætesins, Heb. 12. Færa Meñ þvi alla Hlute sier til Umbootar, ecke einasta fyrer odrum, hvad ecke er so ad laa, helldr og fyrer sialfum sier og Doome siñar eigeñ Samvitsku, so ad hañ sem laangt er fraa þvi ad elska Gud umfram alla Hlute, hann kallar sig vel hafa giørt og afloked þeirre Skylldu, ef hañ les Bæn sijna Kvølld og Morgna, edur sijngur honum eirn Psalm til Dijrdar. Saa sm̃ er giarn aa Bloot og Svardaga, nefner þad Hreysti-Yrde. Hañ sem afrækir Guds Hvijldardaga, nefner þad Astundan og Ydiuseme. Ef Meñ formæla ecke Fodur og Moodur, jafnvel þo þeir sieu þeim ohlijdugir i øllu þvi sem þeir þora, og ef Forelldrarner klæda Børneñ og fæda, þo þau lijde ad þau alest upp i øllu Reideleyse, og jafnvel sumer i Skømum og Odyggdum, þaa þykiast Menn hafa giørt tuikeñ Part Skylldu sinnar; Saa sem reideñ er og heiptrækur, hañ

kallar

kallar þad Hugprijde. Hinn lausláate vill láata oſkickannlega Um̃geingne heita Mañ-
udleika og Kurteyſe. Hinn aagiarne nefner ſig fram̃ſijnañ og forſiaalañ. Þegar Meñ
ecke bera opeñberlega falſkañ Vitnisburd edur ſveria Lijge uppaa ſiñ Naaunga, þykiaſt
Meñ vera ſkilder vid hid aattunda Bodord, og kann ſkie ſumer hrædeſt þo meir Doom-
arañ eñ Gud, eñ ecke erú Meñ ſo liwſer aa þad alltijd ad bera Sañleikanum Vitne. Lit-
la Smaa-Skreytne edur Svigurmæle um̃ ſiñ Naaunga, Lausmælgi, Roogburd aa
millum goodra Vina, edur illt Um̃tal i Hoſdingiaña Eyru, þad reikna Meñ ſumer ad
eingu, eñ ſumer ad hversdags Breſtum, ſem Gud mune audvelldlega ſtijga fram̃ yf-
er, þott Meñ ydreſt þeſs ecke miog, edur æfe þad ad Gamne ſier, epter þad þeir hafa
feinged Fyrergiefning Syndaña, athugande ei þad, ad þvilijkt er nærſt til ad fordæma
Syndarañ, ſem fyrer litla edur einga Synd er hallded. Þvi ſeiger Lauſnarenn: Saa
ſem uppleyſer eitt af þeſſum miñſtu Bodordum, hañ ſkal miñſtur kallaſt i Himnarijke,
Matth. 5. Þad er, hañ ſkal þar alldrei iñkoma. Þanneñ byggia Meñ Odygdunum,
Andſkotans Dætrum heima-Jordena, ſem er Hiartad, af hveriu fram̃koma vondar
Hugſaner, Mañſlog, Hoordoomur, Frillulijfe, Þioofnadur, Fals-Vitne, Gudlaſtan-
er, Matth. 15. Eñ reka Dygdernar, edur riettara ad ſeigia, Mynder Dygdaña
i Hiaaleigurnar, ſem eru Læte vor og wtvortis Hegdan til þeſs ad forſvara Heimagard-
eñ, og byrtaſt hver fyrer odrum, eñ Meñ giæta ecke ad þvi, ad hañ ſem Augad hefur
ſkapad, Pſ. 94. Hañ ſier hvad i Myrkrunum er huled, þvi ſkylldu Meñ þa vilia ſegra
ſitt Maal fyrer honum? Þvi dylia Meñ Siwkdoomeñ fyrer Læknaranum? þvi ſtriwka
Meñ Purpura Litnum yfer hin fwnu Saareñ? þad heiter ad færa Chriſti eina Purpu-
ra-Kaapu, ad dylia fyrer honum Meinſemder ſijnar, eñ ætlaſt þo til Lækningar af hon-
um, eins og þeir lietu ſem hañ Konungur være, eñ hielldu hañ þo fyrer Illrædis-Mañ.
Guds Sonur maa eingvañ Hooru Farfa lijda aa ſiñe Brwde, ecke meir eñ Gud villde
laata bera Skiækiu edur Hunds-Verd iñ i ſiñ Helgedoom, Devt. 23. Þar fyrer ſie
þad Alyktan þeſſa mijns Maals, ad þegar þu chriſteñ Saala ætlar ad trwlofaſt þijnum
Brwdguma i H. Altariſins Sacramento, hvar þu aatt ad verda eitt Andi med honum,
og Limur hñs Lijkhama, 1. Cor. 6. Þaa laat alla Hræſne fiærre vera. Rañſaka þiñ Lif-
nad, ſem aadur er ſagt, ber eckert i Bæteſlaaka fyrer þier hiaa honum ſem veit hvad med
Mañenum bijr, Joh. 2. Skignſt epter hvad þier hefur fram̃ſared aa Guds Veige ſijd-
añ þu ſeinaſt lofader þijnum Frelſara Trygdum, hvert þu heſr tamed þitt illſiwſa Holld
um̃ nockurn Loſt er aa þig ſtrijdt heſur, og hveria Atburde þu haft hefur til ad kroſsfeſta
hiñ gamla Mañeñ, Rom. 6. Yfervega hverſu ſtoor Herra þad er, ſm̃ þu moodgad hef-
ur, ad hañ hefur Valld til ad kaſta Lijfe og Saal i eilijfañ Elld, Matth 10. Og þo er
hañ ſo þoleñmoodur og goodgiarn, ad hañ hefur ſparad þig og laated allt epter þier mijdt
i Syndunum, og kañſkie valla feinged eitt þacklætis Ord þar fyrer af Muñe þijnum,
hvern þu hefur til alls añars brwkad; Hugleid þeirra Dæme, ſem ecke hafa meir ſynd-
gad eñ þu, hverſu Gud hefur hengt aa þeim Ovirdingar ſiñar. Laat ſo þijna Illſku

kieña þier, og þitt Frꜳhvarf giora þig vitrañ. Þeck og hversu illt og biturt þad er, ad þu hefur yfergiefed Drotteñ Gud þiñ, Jer. 2. Og þegar þu þañeñ giorer, þa gietur þu varla fared ꜳ Mis vid þad, ad Hiarta þitt brꜳdne i þier so sem añad Vax, af Jhugan Guds Nꜳdar, af Þeckingu Syndaña, af Epterbid Helvijtis Pijsla sem þier eru bwnar, nema þu ydrest af Hiarta. Eñ vilie ecke hier med ꜳorkast, þꜳ lꜳt samt ecke af ad bidia Gud um̃ siñ H. Anda, sꜳ ed skape hreint Hiarta i þier, og giefe þier nijañ vissañ Anda, Ps. 51. Hvers hañ mꜳ þier ecke synia vegna siña Fyrerheita, þvi ef Madureñ stood upp ꜳ Nꜳttar-Þele, til ad fꜳ Vin sijnum þad hañ vidþurfte, Luc. 11. Ef hiñ rꜳnglꜳte Doomare, sem hverke ottadest Gud nie Meñ, ef hañ liet skipast vid Þrꜳ Beidne Eckiuñar, Luc. 18. Ef vier sem vonder erum, kuñum ad giefa Bornum vorum goodar Gꜳfur, hvad miklu framar mun vor himneske Fader giefa þeim H. Anda sem hañ þar um̃ bidia, Luc. 11. Þetta stendur æfennlega stodugt, þvi hann er trwr, sialfum sier kann hañ ecke ad neita, 2. Tim. 2. Þess heitara sem þetta Angur er, þess þægra er þad Gude, allt fram̃ til þess ad þu taker til ad efast um̃ Guds Nꜳd, eñ vid þvi er ecke hætt, hañ mun fliootur verda til ad lꜳta Trwna lifna, nær þu ert so ꜳ þig komeñ, og sijna þier Krapt sijns Sonar Forþienustu, med ollum hañs Velgiorningum, þꜳ heiter þad so: Sæler eru þeir sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þvi þeir munu sadder verda, Matth. 5.

Þar fyrer Guds Bárn, þu hvers Hiarta hañs Ande hefur sundurmared med Þeckingu Syndareñar og Guds Giædsku, þu skallt þess fulloruggur vera, ad hvar sem ad Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfer Nꜳdeñ miklu frañar, Rom. 5. Fyrer þvi, nær þu stendur vid Drottenns Bord raudur af Ovirdingu vegna þiña Synda eins og Ephraim, Jer. 31. Þꜳ lijt Trwareñar Augum ꜳ þad saklausa Guds Lamb, sem burt hefur bored Heimsins Synder, Joh. 1. Hvern Gud hefur þar fyrer sett til Nꜳdar-Stools fyrer hñs Blood, Rom. 3. Hañ er Forlijkun ecke einasta fyrer þeirra Synder er lifdu ꜳ hañs Dogum, helldur allrar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Þar fyrer er hañ og fyrer þijnar, hversu miog sem þu ert hinum verstu Lijtum hladeñ, þvi harmþrwngeñ og sundurknosadañ Anda, mun hañ ecke fyrerlijta, Ps. 51. Og til stadfestu þar um̃, giefur hañ þier i H. Altarisins Sacramento, þañ sama Lijkhama sem broteñ var fyrer þig, seiger Pꜳll hier i Textanum, þad skiede þegar þijnar Synder er hañ bar uppꜳ Tried, þegar þær mordu hñs allraheilagasta Lijkhama i sundur ꜳ Krossens Gꜳlga, þegar ogudlegra Maña Hendur nidurbrutu þad Mustered er hañ sialfur upp bygde aptur ꜳ þridia Deige, Joh. 2. þier til Riettlætis. Hafe nu hin eilijfa Giædska sparad þig midt i þeim Syndunum sem krossfestu hañ, þvi mun hañ þꜳ ecke nꜳdugur vera, þar þu ert ꜳ Veigenum ad hverfa aptur frꜳ þeim? Enn þoott ad Ydraneñ og Trweñ sieu fullnoogar til ad odlast Kvittun Syndaña hiꜳ Gude, þꜳ kañ þo hvorug þeirra ad standast fyrer utañ nya Hlijdne, þvi nema so sie, ad nockur hafe fastlega ꜳsett ad sporna vid þeim Glæpum, hverra Myñing ad honum vard so beisk i Yd-

ranenne, þaa aa þad heima hiaa honum er Petur seiger, 2. Epist. 2. Ef ad þeir epter þad þeir hafa umflwed Saurganer Heimsins, fyrer Þeckingu Drottens vors Jesu Christi, flækiast i þeim aptr og verda sigrader, þa eru þeirra hin sijdare Kior verre hinum fyrre, þvi betra hefde þeim vered alldrei ad hafa þeckt Veg Riettlætesins, enn ad þecktum honum ad hverfa fraa þvi helga Bodorde, sem þeim er i Hendur feinged. Enn þad hender þaa, sem seiger i hinum sama Ords-Hætte, ad Hundurenn geingur aptur til Spijunar, og þveiged Svijn vellter sier i hinum sama Saur. Nu fyrer þvi ad hier er ecke vid ad dyliast, enn syndumspillt Náttura er eitt otamed Dijr, þaa er raadlegt ad taka til ad leggia vid hana Beitsled, nockru aadur enn Menn fara ad forlijka sig vid Gud i Sacramentenu, nema Menn hafe þad aadur giort laangvaranlega, sem þo mun sialldfeinged. Eingenn vond Tilhneiging sem ecke er ad nockru leite deydd, maa fylgia oss, christner Menn, til þessa Bords. Ef Synden lifer i oss, þaa erum vier dauder i henne, enn eingenn giefur daudum Manne ad eta. Þetta er andleg Fæda, og þvi hlijtur saa andlegu Lijfe ad lifa, er hana medtaka skal. Brauded og Vijned medtaka aller og þar med Guds Lijkhama, enn þar hiaa er önnur Nautn, umm hveria Drottenn talar, Joh. 6. Saa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudann smacka ad eilijfu. Hennar verda þeir einer hluttakande er sig hafa verduglega tilreidt, hun skiedur opt fyrer utann Sacramented, enn þo aa hun i Sacramentenu hellst ad skie, vilier þu hennar niootande verda, þaa siaa til ad þu frammkomer skrijddur Brwdkaups Klæde, Matth. 22. Annars verdur ecke af Trwlofunenne vid þann fegursta medal Mannanna Sona, Ps. 45. Þad er ei noog ad hafa umm stundarsaker wthreinsad Hiartad med Sooptimum Ydranarennar, helldur byriar strax ad safna i þad hinum bestu Dyggdum, so ef hinn ohreine Ande kann aptur ad hverfa med sio ödrum sier verre, ad hann finne þad þaa ecke tomt, og verde so þitt sijdara argara hinu fyrra, Luc. 11. Veit eg ad þetta er eirn torvelldur Hlutur, þvi þad er sw Baraatta mille Holldsins og Andans er gyrnest hvert i moote ödru, Gal. 5. Enn hvad skulu Menn seigia? Þar sem eingenn Baraatta er, þar er eingenn Sigurvinning, þar fyrer saa sem ætlar sier ad uppbyria nijann Lifnad, hann legge mest Kapp aa ad briuota þær Gyrnder, sem hann er mest tilhneigdur. Þier er ecke okunnugt ef þu leggur nockurn Hug aa þitt Maal, af hverium Hlutum þu mest verdur lockadur til ad giöra illt, varast þaa hina somu, þoott ei sieu þeir vonder i sialfum sier. Einginn Her-Toge strijder leinge einnsamann, hversu vitur eda volldugur sem hann er, og so eru Lesterner, ef þeir eru einer umm sig, þaa er hægra ad fyrerkoma þeim. Ummfram alla Hlute, þaa laat Gud siaa, ad þier sie Alvara ad lifa vel, og þaa er hanns Adstod vijs, sem þier dregur þusundsinnum meir enn aller þijner Atburder, þvi aan mijn megned þier eckert, sagde Jesus vid Læresveinana, Joh. 15. Saa sem ecki hatar Syndena, hann geingur overdugur til Guds Bords, enn saa sem hana hatar, hann hefr alvarlegann Asetning til ad laata af henne, þvi eingenn vill Ummgeingne hafa med þeim sem hann ad Hatre hefur. Laat Gud finna þetta hiaa þier, nær hann rannsakar Hiarta þitt, og svijk ei sialfann þig, hann gietur þu ecke svik-

ed.

ed. Eg veit þad er torvelldt ad lata allt a moote Hollde og Bloode, enn hafer þu nockurn Tijma af Hiarta ydrast og funded til Guds Reide og Samvitskuñar Veike: Hafe þijnar Synder giort þier nockurn Tijma Helvijte heitt, þa raadgast um̃ vid sialfañ þig, nær þu freistadur verdur af einhverre Syrnd, hvert þu eiger ad vinna þad til skam̃viñs Munadar, ad þola strax a epter slijka Kvøl. Munde David hafa viliad leika sier ad sømu Synd, epter þad hañ hafde so leinge taarast fyrer Gude? Munde Petur ecke helldur hafa i Daudañ geinged, eñ ad afneita Christo, helldur eñ ad lijda ad niju Atølur Samvitsku siñar, þegar hañ gieck wt og griet beisklega? Matth. 26. Ætla þier og ecke þad, ad lata epter þier eiru Brest, enn þioona Gude i hinu, þvi sa sem brijtur eitt Bodorded, hann er i øllum sekur, seiger Postulenn, Jac. 2. Eingeñ af þijnum Dyggdum kañ ad standast fyrer Guds Riettlætis Doome, þvi munu þær þa riettlæta Glæpena? Snijd þvi allt ogudlegt Athæfe burtu, so miked sem þu fær orkad, enn þar sem þijner Kraptar dvijna, þa tekur Christi Forþienusta vid. Meina og ecke þad sie noog, ad þu nockra Stund gaanger a Guds Veige, þvi þeim sem er trwr allt til Daudans, mun eg giefa Coronu Lijfsins, seiger Drotteñ i Opeñberingar Bookenne, 2. Cap. Og eg vil enn framar seigia: Ad þad vill helldur fordæma þig, enn riettlæta, ad þu hefur einhvern Tijma Gude þioonad, ef þu hverfur þar fra aptur, þvi þad er Teikn til þess ad Gud hefur lient þier so mikla Krapta, ad þu gietur geinged hinn rietta Veg sem til Lijfsins liggur, verdur so Skulldenn hia þier, enn ecke hia Gude. Um̃fram̃ alla Hlute sia til ad þu ottest hann og elsker, þa munt þu eingañ Saattmaala giøra vid hañs Ovine, sem eru Hollded, Heimureñ og Diøfulleñ, helldur munu allar christilegar Dyggder sialfkrafa spretta i Akre Hiarta þijns, eins og Korned vex fyrer utann Mañsins Omak, þa Sædenu er i Jordena kastad; og er þad sa einaste og beinaste Vegur til ad lifa gudrækelega, og sa sem a honum er, fer alldrei villur Vegar. Nu hefe eg einfalldlega sagt hid hellsta er þeim byriar ad hugleida sem vilia verduglega til Guds Bords gaanga, enn eg hefe sagt þad Børnum og faafroodum Mønnum, hina sem vijsare eru og kunna Guds Veg, þa næger ad minna a Christi Ord, er hann sagde, Luc. 12. Sa Þioon er veit sijns Herra Vilia og giører hañ ecke, hañ mun mørgum Høggum sleigenn verda. Eñ þu sem foornfærdur ert fyrer vorra Synda Skulld Herra Jesu Christe, styrk þu oss bæde i þessu og øllu ødru Verke Saaluhiaalpar vorrar. Bænheyr þad vor Frelsare! Hverium med Fødur og H. Anda sie Makt og Vellde, Lof, Heidur og Prijs um̃ Allder, AMEN.

# A Fostudagenn Langa.

## Exordium.

A Ingre Skiepnu siñe hefur Guds Giædska meira veitt eñ syndugum Mañe, og varla er þo nockur tregare til ad þeckia hañs Giædsku. Þegar Adam hafde eckert a moote Gude giort, og ecke af honum þeiged nema Skopunena, og so

ſo Valld yfer hinum ødrum Skiepnum aa Jorduñe, þat er lijklegt ad eingeñ Hlutur hafe honum iñdælle vered, eñ ad lofa ſiñ Skapara, og gledia ſig i Undran hañs Dáaſemdarverka; Eñ ſijdañ Gud honum meira veitte i Fyrergiefningu Syndaña, og Fyrerheite þeſs bleſſada Kvinnuñar Sædes, Gen. 3. Þaa eru Adams Nidiar bitner fraa þeim Hlutum ſem heyra til Guds Dijrdar. Heilager Englar ſem frame fyrer honum ſtanda, hafa einaſta hiñ dijrdlega Skapnad og Sælu-Viſt med Gude af hañs Hende þeiged. Guds Sonur hefur Abrahams Sæde, enn ecke þeirra uppaa ſig teked, Hebr. 2. Samt eru þeir þioonuſtuſamer Andar, Hebr. 1. Eñ Madureñ hvern Gud hefur ſkapad, ſkapadañ endurleyſt, endurleyſtañ endurgieted, endurgietenn, med Jeſu Hollde og Bloode mettad og dryckiad, og upplijſt med ſijnum Aſtgiøfum; honum finnſt lijted þar til, og er nærſta toomlaatur i ſinne Guds Þioonuſtu. Englar komu og þioonudu Chriſto i hanns Manndoome, Matth. 4. Eñ hanns Foolk villde ecke þioona honum; Engelleñ bodade hanns Gietnad, þeir prijſudu hanns Fædingu, Luc. 1. og 2. Engelleñ kom af Himne og ſtyrkte hann i Kvølenne, Luc. 22. Enn hañs eigeñ giørdu hanns Saalu hryggva allt i Daudañ. Englarner bodudu hañs Uppriſu hiaa Grøfeñe, enn hanns Foolk og Preſtarner keyptu Liwgvotta til ad mootſeigia heñe, Matth. 28. Øll Skiepnañ mæner med wtriettu Høfde epter Guds Barna Auglijſingu, ſeiger Paulus, Rom. 8. Og hun ſtynur til ſamans, og er til ſamans ſo ſem i Barn-Burde. Fyrer vora Skulld er Jordeñ bølvud; Fyrer vora Skulld maa hun Þyrna og Þiſtla bera, Gen. 3. Fyrer vora Skulld er hun Þrældoomenum undirokud; Eñ i øllu þeſſu auglijſer hun þo Dijrd ſijns Skapara, hvern Madureñ vanvirder med Oþacklæte og vondum Verkum. Ef ad þeſſer þegdu, þaa mundu Steinarner braadlega hroopa, ſagde Frelſarenn vid Gydinga, þaa Børneñ ſwngu Hoſianna, Matth. 21. O Herra Gud! Høfdu Steinarner Orſøk til ad hroopa þaa Chriſtur innreid til Jeruſalem? Hvad høfdu þeir ecke þegar hann var af Jeruſalem ſo ſem Bølvan wtrekeñ? Ef dauder Hluter maattu vakna vid, þaa Lijfſins Herra kom til ſinnar Arfleifdar, hvad maattu þeir ecke þegar Lijfed doo aa Kroſſenum? Skylldu Muſtereſins Vegger hafa giefed Hliood af ſier, hefdu Børneñ þagad? Hvad var þa øll Verollden ecke ſkylldug ad giora, þar aller løſtudu, hæddu og brixludu, og aa Kroſſens Gaalga negldu hennar Skapara? Þetta hroopar øll Naatturañ fyrer oþacklaatu og ogudlegu Mannkyne aa Pijſlar-Deige allrar Veralldareñar Lauſnara, þvi ſampijneſt hun ſijnum Skapara i hanns Pijnu, ſo ſem ecke hefde hun Rænu aa ad giøra ſijns Embættes Skylldu, þar Mañeſkiañ var ſo aſſunna, ad hun aflijfade ſiñ Lijf-Giafara. Þeſſe Naatturuñar Umbrot hefe eg aaſett i Dag fyrer ydrum Kiærleika ad yfervega. Og vilium vier þar fyrer i þetta ſinn hugleida þau ſierleguſtu Furdu-Verk ſem ad ſkiedu i Pijnu vors Endurlauſnara, med þeim Lærdoomum ſem vier oſs til Huggunar og Aminningar taka meigum þar af.

Styrk oſs til þeſſa Verks O Gud! J Jeſu Nafne, AMEN.

## Utleggingen

HAr Urdu Myrkur Yfer Alla Jordena, Og SOOlen Miste Sijna Birtu/
seiger i Textanum. Hvert þesse Formyrkvan hafe einasta skied i Gydinga Lan-
de, edur yfer allan Heimen, vil eg i þetta sinn ecke faa mier til Orda. Vier vil-
ium alleinasta færa oss i Nyt þetta Daadsemdarverk, til gudrækelegrar Umþeinkingar,
vitande ad þetta so vel sem aller Guds Giorningar eru skieder oss til Lærdooms. Hver-
su maatte hid blessada Heimsins Lioos lijsa Mønunum, þar Manana Endurlausnare
var kvalen, og þad skiæra Lioos sem upplijser alla Men sem koma i þennan Heim, Joh.
1. took under ad gaanga? Sool Riettlætesins, Mal. 4. var sine Undergaungu nærre, þar
Daudans Skugga took til ad slaa yfer þau allra helgustu Augu sem ad eru þusundsin-
um skiærare en Soolen, Syr. 23. Þvi var þess oll Von, ad hin naatturlega skamadest
sijn ad lijsa. Þegar Men siaa eirn vidurstyggelegan Hlut sem aller blygdast vid Augun-
um ad lijta, þaa snwa Men sier undan, edur jafnvel byrgia fyrer Augu sier. Soolena
kalla spaker Men Auga Heimsins, hun hefur alldrei so blygdunarlaust Verk yferskined
sem þetta, ad gudlauser Heidingiar og hardsvijrader Gydingar tooku Konung Dijrd-
arennar af Lijfe, þar sialft Lijfed var aflijfad; þar Daudans Daude maatte Dauda
deya, Os. 13. Þar Dagurenn vard ad Noottu Myrkranna Verka, þvi byrger Naattur-
an fyrer Augu sier, ad hun ei skyllde horfa a, ad Naatturunnar Herra være þannen af
Døgum raaden. J mikelle Sorg og Harmkvælum plogudu Judar ad byrgia sijnar
Asiaaner. David gieck med huldu Høfde yfer um Læken Kedron, 2. Sam. 15. So seig-
er Micheas. 3. Cap. Siaaendurner munu til Skamar verda, og Spaasagnararner
blygdast, og þeir munu aller byrgia sijnar Asioonur, þvi þar er ei Andsvar fraa Drott-
ne. Hier byrger Himenenn sitt Andlit, og þoler þar ecke yfer, ad hann sem uppfyller bæde
Himen og Jord, 1. Reg. 8. Hann i hvers Auglite Himnanna Himnar ecke eru hreiner,
Job. 15. Jaa, hvers Haasæte ad Himenenn er, Es. 66. Hann skule a sinne Footskor ein-
um Madke og ecke Mannelijkur verda, Ps. 22. Formyrkvan Soolarennar orsakast þar
af (epter þvi sem hiner vijsu seigia) ad Tungled geingur a mille Soolarennar og Jard-
arennar. Þo skiede þad ecke i þessare Formyrkvan, þar Tungled var i sinne Fyllingu,
hvar fyrer hun var a moote Naatturunne, þvi giefur þetta mier Orsok til ad þeinkia
þar um, ad vorar daudlegar Illgiorder settu sig a mille Christi Manndooms i Pijn-
unne, og þess blijda Auglits Fodursins, hver ad er Sool þeirrar himnesku Jerusalem,
Apoc. 21. So ad Geyslar hanns fodurlegrar Elsku, naadu ecke ad skijna i giegnum þær,
yfer þann elskulegasta Guds, og sw Velþocknan sem hann hefur i sijnum Eingietna
Syne, Matth. 3. umhverfdest, ef so mætte ad Orde komast, i hinn stoora Byrdar-Þwin-
ga hanns Reide, hver ed kvalde JEsu blessadan Lijkhama og Saal allt til Daudans.
Siaa hier, christenn Madur, þann brennheita Kiærleika lifanda Guds, sem hann hefur elsk-
ad þig med þegar þu varst hanns Ovinur, Rom. 5. Er ecke þetta skied til þess ad þijnar
Synder ecke adskilie þinn Gud og þig? Es. 59. Og þegar ad Skugge Myrkranna
Verka/

Verka, og hiner fwlu Dampar þiña Illgiorda og Bodorda-Brota, stijga upp i Himeneñ fyrer hiñ riettlaata Doomara, ad Christur mz siñe Forþienustu afmaae þær þaa sem añad Sky, Es. 44. Og kaste þeim i Hafsins Diwp, so þeirra ecke ad eilijfu miñst verde, Mich. 7. Um̃ þessa Formyrkvan spaaer Amos i 8. C. A þeñañ Haatt. A þeim Tijma vil eg laata Soolena undergainga um̃ Middeige, og allt Landed myrkt verda aa Deigenum. Miñ Herra Jesu! þvi munde ecke þad blessada Lioos Veralldareñar iñebyrgia siñ Lioома, þar Lioome Fodursins Dijrdar, og Imynd hañs guddoomlegrar Persoonu tæmde sialfañ sig, so sm̃ Paulus ad Orde kiemst, Phil. 2. Og Guddoomureñ (so ad seigia) hulde sitt Auglit fyrer Mañdoomenum þegar Christꝛ leid. Þvi skyllde ecke Landed myrkt verda? Þegar Lijfsins-Trie, hvers Blod ad þiena til Heidingiaña Lækningar, Apoc. 22. var af heideña Maña myskunarlausum Hondum upprætt af Lande lifande Manna. Epter þad mikla Myrkur, sm̃ skiede fordum i Egyptalande, Exod. 10. Þaa fylgde Israels Sona Frelsun og Utleidsla af þvi Þrældooms-Hwseinu, eñ þessum Myrkrum hefꝛ fylgt eitt eilijft Frelse fraa Syndareñar Þrældoome. Epter Myrkureñ i Egytalande kom Slaatrun Paaskalambsins, Exod. 12. Enn i þessum Myrkrum verdꝛ þad saña Paaskalamb slaatrad aa Krossens Altare, sm̃ ber allar Veralldareñar Synder, Joh. 1. Gydingar hofdu beded Christum um̃ Teikn af Himne, Luc. 11. Siaa, hier er eitt Teikn sm̃ skied er i Augum allrar Veralldareñar. Hvilijkꝛ mun hañ vera i Dijrdeñe, sem so er kroptugur i Pijnuñe? Hver mun hañ vera lifande, sem er so volldugur deyande? Hvad oflugur mun hañ drottnande, er so drottnar yfer hinum mikslu Hofudskiepnum i Mynd eins Þioons lijdande? I Exod. B. 10. C. skipade Drotteñ Gud Moysi ad upprietta sijna Hond til Himens, ad þar yrde Myrkꝛ yfer allt Landed, og þar vard Myrkur og Þoka i Egyptalande um̃ þriaa Daga, so eirn Madꝛ saa ecke siñ Broodꝛ, eñ ollum Israels Sonum var lioost i þeirra Hybijlum: Eñ siaaed, hier er meir eñ Moyses, hier er Jesus Sonꝛ Guds lifanda, hañ wtbreider baadar sijnar Hendꝛ aa moote Himnum aa Krossens Trie, hier verdur Myrkur yfer allt Land:d um̃ þriaar Stunder: Eñ i þessu Myrkre hefur ollum andlegum Israels Sonum uppruñed eitt skiært og sañarlegt Lioos, so eirn Brooder þarf ei odrum ad kieña, helldꝛ verda þeir aller af Gude lærder, Jer. 31. Og aller þeir ed aa Jesum Christum trwa, hver ed gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Brædꝛ, þeckia hver añañ fyrer Systꝛ og Brædur, og eru eitt iñbyrdes so sm̃ hañ og Fadereñ eru eitt, Joh. 17. O Herra Gud! hvad skal eg hier til seigia? Eg vil brwka þad sama Orda Tiltæke sem Jeremias i 2. Cap. brwkar yfer Syndum Israels Foolks, seigande: Himeneñ skyllde grwa þar yfer, hrædast og skielfast mikelega. Hier sijnest mier ad Himenenn og Himnaña Kraptar giore af Alvoru þessa Befalning Drotteñs. Eñ þu, christeñ Madꝛ, sem ert hiñ veikasta Boola af Floode þessarar Veralldar, kiemur þier ecke til Hugar ad byrgia þitt Andlit sem er fullt af Ovirdingu, þegar þu heyrer ad Sooleñ sem daglega uppreñur yfer þier raanglaatum, Matth. 5. Hun sortnar i þijns Skapara herfelegustu Nidurlægingu? Veitst þu ecke hvad St. Paall



seiger?

Feiger? Eph. 5. Þier vorud fordum Myrkur, enn nu erud þier Lioos i Drottne, gænged so sem Lioosſins Born. J þessum miklu Myrkrum sem þu heyrir i Dag vera talad, um hefur Leoned af Kyne Juda, Apoc. 5. Myrkranna Hofdingia sigrad og Herleidingunna ad Herfænge teked, Eph. 4. Og þig sem eilijflega ætter ad kveliast i ytstu Myrkrum med Ope og Tannagnijstran, þrifed wt af þeirre Grifiunne, hvar eckert Vatn var inne, Zach. 9. Paulus skrifade þesse Ord til þeirra i Epheso, sem af Heidingium höfdu christner giorst. Þu ert og christenn af Heidingium kominn, hverier af Gude eckert vissu. Seig mier; hefur þu aflagt Verkenn Myrkranna, sijdann þu heyrder Jesum æ Krossenum fyrer þig uppheingdann? Þegar þu les ad þu skuler Ottast og elska Gud, enn fremur þo æn Umþeinkingar þad honum verst lijkar, sem er syndugt Athæfe, eru þad ecke Myrkranna Verk? Þegar þu hugsar illt i þijnu Hiarta og fremur allar Odæder under Skyne Meinleysisins og Gudhrædslunnar, enn veist þo ad hann sier hvad i Myrkrunum er hulled, Syr. 23. Heiter þad ecke ad vilia blinda hann, sem Augad hefur skapad? Þæ þu sier eirn Vesæling Naud lijda, sem eins mikid færde inn i Heiminn og þu, og allt eins mikid mun burtu bera, enn þu byrger þijn Augu fyrer honum, og stijngur þau helldur wt, enn ad þu skuler siæ aumur æ honum, er þæ ecke æred myrkt fyrer Augum þier? Þegar einum geingur i Vil, og hanns Lucka er þier þo eingenn Afdrættur, enn þitt Hiarta gremst yfer þvi, og þu ert ræangeygdur af hanns Velgeingne, munt þu þæ fyrer Myrkre þinnar Ofundar, gieta ratad þann Veg sem Guds Born feta eiga inn til Lijfsins? Þegar þu elskar þijn eigenn Lijte, og Biælkenn i þijnu Auga skygger æ alla þijna Klæke, enn Flijsenn i Næungans Auga, er þier ævallt fyrer Sioonum, Matth. 7. Er þad ecke Svartnætte eigenn Þoottans? Þegar einhver af mannlegum Veikleika giorer edur talar þier nockud æ moote, enn þu siest ecke fyrer, jafnvel ad voga þinni eiginn Velferd honum til Olucku, mun þæ ecke Myrkur Foolskunnar apturbyrgia þijn Augu so þau gæe ecke ad, ad skamma Stund verdi Hond Hogge feginn? Þegar Satan hefur þig uppæ eitt ofurhætt Fiall, og sijner þier öll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Enn þu veist upp yfer þier stendur Drottenn Gud þinn, sem þu alleina ætt ad tilbidia, munu þæ ecke renna æ þig tvær Grijmur, hverium helldur þu eiger ad þiena Gude edur Mammon? Ecke munu þeir aller vera, sem med goodre Samvitsku hroosa kunne, ad ecke hafe vorded myrkt fyrer Augum sier i þvilijku Tilfelle. Þegar dæma æ mille Broodur og Broodur, æ millum Bloods og Bloods, enn hinn vollduge ber Fie i Doomenn, eda Ottenn kvelur, eda Vinættann kitlar þæ Hond, sem æ Sverdenu helldur; mun þæ ei Andskotenn setia Brillur uppæ Riettarans Naser, so hann ecke fæe rammad þann Hoggstad sem hann ætte? Villdum vier nu renna vorum Augum fræ Giælijfe Veralldar þessarar umm stundarsaker, og bera þesse Verk samann vid Lioos Guds heilogu Orda, þæ þyker mier ecke olijklegt, ad Andlit vorrar Samvitsku munde rodna fyrer Gude. Med hverium Augum skal eg lijta þinn Broodur Joab, sagde Abner fordum Daga, þegar Hasael rann epter honum i Bardaganum, ef ad eg slæ þig i Hel? 2. Sam. 2. Enn hveriu vilium

vier

vier Gude eilijfum Konunge og alleina rijkum: svara, þar vier hofum hans Son krossfestan? Og fyrer vor Myrkra-Verk, er Makt Myrkranna yfer hann komen. Munum vier þora helldur enn Tollheimtumadurenn, Luc. 18. ad lypta Augum vorum upp til Himins? Munum vier diarfare verda enn vor Fader Adam? Sem er falde sig fyrer Gude, og þorde ecke ad lijta hans Auglit, Gen. 3. Þar fyrer, christenn Madur, kannast þar vid, ad þier ber Blygdun þijns Andlitis, enn honum ber Dijrdenn og Heidurenn, Dan. 9.

J annann Mata seiger Pijslar-Sagann, ad Fortiallded i Musterinu hafe i sundur-rifnad fra ofannverdu, allt nidur i giegn. Von var ad þad Musterid sem var med Hondum giort, munde ei standast þa Ogn, ad hid dijrdlega Mustere hanns Lijkhama var nidurbroted, Joh. 2. Þetta Fortialld adskyllde þad allra-helgasta fra sialfu Musterinu, hvar inni var a Dogum Salomonis, Sattmals Orkenn, Nadar-Stoollenn og Vondur Aaronis, sem voru Skugge epterkomande Giæda, Heb. 9. Þvi sundur-rifnar Fortiallded, ad Skuggenn yrde burt-tekenn, þar vier hofum sialfa Hlutena. Ork Sattmalans mille Guds og Manna var uppsest a Krossens Trie. Jesus sem var eirn Nadar-Stooll i sijnu Bloode, Rom. 3. var hier ollum giefenn. Kvisturenn af Root Jesse var bloomgadur, Esa. 11. Lijfsins Braud var af Himnum ofann-komed og ollum framboded, so ad hver sem æte þar af, skyllde ei Daudann smacka ad eilijfu, Joh. 6. Inn fyrer Fortiallded i þad allra-helgasta, matte ei ganga nema hinn ædste Kiennemann eitt sinn a Are, enn þad rifnar hier i sundur, til ad audsijna þar med, ad hinn ædste Biskup vorra Salna, er fyrer sitt eiged Blood, einnsinne inngeingenn i þad allra-helgasta, ad otvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þar fyrer er oss nu þad allra-helgasta opnad, sem er i Himnenum, so vier hofum frijann Tilgang til þess Himneska Nadar-Stools, af hvers Fyllingu vier hofum aller medteked Nad fyrer Nad, Joh. 1. Ei matte Almuge Manna inngainga fyrer Fortiallded i Musterenu, Levt. 16. Enn hier er þad sundur-rifed fyrer hans Dauda, sem hefur fullnægt Logmalenu, og lided fyrer þad, sem vier med vorum Syndum hofdum forskulldad, so ad hver eirn Riett-Trwadur er Guds Kiennemadur i sijnu Hiarta, Apoc. 1. sem er hans Musteri. Hann hefur Fortiallded i sundur-rifed, og þar med i burtu-teked þann Veggenn, sem mille var, og giort eitt af badum, Eph. 2. So þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Og ei være framar Kall edur Kona, Præll nie Frelsinge, Gydingur nie Griskur, helldur aller eitt i Christo Jesu, Gal. 3. Kiennemanna-Hofdingenn hafde adur rifed sijn Klæde a moote Guds Bode, er hann kiende Frelsaranum Gud-lostun: Enn Gud allsheriar uppa þad hann audsijnde, ad hann og hans Selskapur være seker i þeirre Ohæfu, hann lætur Fortiallded sundur-rifna. Þesse Atburdur ætte nu ad kienna oss mijner elskanleiger, ad sundur-rijfa ecke vor Klæde, helldur Hiortu vor med heitre Ydran, Joel. 2. Giæt ad syndug Manneskia, hvad ovidurkvæmelegt þad er, ad þinn Lausnare hanger a hinum smanarlegasta Krossens Galga. Hans Horund er sundur-slited af Hwdstrokunum, sundur-mared af Hoggunum, sundur-rifed af

 Þyrne-

Þyrne-Broddum, sundur-stwnged af Nöglunum, sundur-flakande af Särum og Benium, og loksins sundur-kramed, sundur-kreist og sundur-mared af Guds elldlegum Reide-Svipum og obærelegum Þwnga þinna Synda, sem hann hefur bored og Hegningarennar sem ä honum lä, uppä þad þu hefder Fridenn, Es. 53. Þegar þu villt þetta fyrer þier virda, þä mætte þier under eins til Hugar koma, ad draga þä Skyluñ frä Augum Sälar þinnar, sem þar hefur leinge fyrerhänged, og glepur so fyrer þijnum innra Manne, ad þu þecker hverke Gud nie siälfann þig. Villt þu vera Guds andlegur Kiennemadur i þijnu Hiarta, sem ad er hañs Mustere, þä byriar þier ad athuga i hvada Herberge hann vill bwa, sem er i einu sundurknosudu Hiarta, Es. 57. Foorner gamla Testamentesins eru ad sönnu fyrer Jesu dijrmætu Foorn ä Krossens Altare afmädar og ad eingu giordar, enn þar fyrer skallt þu ecke meina, ad þu eiger einga Skulld Gude ad giallda. Enn hvilijkt er þad Offred sem honum þocknast? Þar seiger David frä i Ps. 40. Blood Uxanna og Hafraña þocknast þier ecke: Eñ harmþrwngenn og sundurknosadann Anda munt þu ecke fyrerlijta, Ps. 51. J þridia Mäta seigia Gudspiallamennerner, ad Jordenn hafe skolfed. Hvad hrædelegur hefur Jardskiälfte þesse vered, Born mijn? Þar ecke einasta Fialled Golgatha, ä hveriu ad stood Drottens Kross, helldur öll Verölldenn hefur leiked ä reideskiälfe. Plinius eirn heideñ Madur seiger frä, ad ä Valldstioornar Dogum Tiberii Keysara um̃ þetta Skeid hafe 14. Stader i Gricklande og i þeirre miñi Asia i Gruñ nidur fallid, hverra Nöfn Cornelius Tacitus i annare Book sinna Annäla öll upp telur. hefur nu þesse skielfeleige Jardskiälfte vered eitt Teikn Guds almättugs Heiptar Reide, þar hañs Eingietenn Sonur, i hverium honum alleina velþocknast, Matth. 3. er fyrer añarlegar Synder af hinum synduguftu so hardlega wtleikeñ, þad giefur Messias til Vitundar i Ps. 18. med þessare Harma-Klögun: Daudans Angist hefur um̃krijngt mig, og Belials Becker hafa ognad mier; Eg kallade til Drottenns, og Jördenn titrade og skalf, og Grundvöllur Fiallaña hrærdest og um̃turnadest, þvi hann vard reidur. O miñ Herra Gud! Hvad stor er þijn Þoleñmæde yfer Syndeñe og ogudlegu Mañaña Athæfe? Hier gieck so mikel Ognan ä, ad Jördeñ gat ecke stadest under þeim Þwnga, þä heñar Skapare leid. Nätturañ took ad glidna i sundur, þvi þær Hendurnar voru ä Krosseñ negldar, sem vega heñar Þwnga med einum Fijngre og iñelykia Siäfar-Hafed i sijnum Hnefa, Esa. 45. Hañ ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Þvi skylldu þä ecke aller Hluter sundur bresta, þä hañ sem hefur Ord eilijfs Lijfs, Joh. 6. mätte deya? Þegar Lögmäled var fordum wtgiefed, þä skalf Jördenn, og Fiölleñ bifudust og titrudu eins og eitt Strä, Exod. 19. Enn siä, hier liggur öll Lögmälsins Bölvan ä þeim, sem Lögmäled hafde wtgiefed, enn hafde þo i allañ Mäta uppfyllt Lögmäled. Þvi skielfur Jördeñ af Ognan, ad sw Handskrifteñ sem moote oss var, er boreñ uppä Tried, og ä Krossenn negld, Col. 2. Eñ Evangelium, sem er Kraptur Guds til Säluhiälpar, öllum þeim sem trwa, Rom. 1. Er hier underskrifad

med

med hañs Blode, sem vorden er Bolvan fyrer oss, Gal. 3. Core, Dathan og Abiram mogludu a moote Gude, þar fyrer urdu þeir lifande i Jordena nidur ad fara, Num. 16. Eñ meire Mootmæle hefur þu hier þolad minn Herra Jesu, þvi er ei ad furda, þo Jordeñ opne sig, og bioode sig til ad svelgia þa ogudlegu Skalka, sem þad saklausa Guds Lamb hofdu a Krosseñ neglt. Enn hier siaum vier ad þitt Blood er Forlijkun fyrer allar Veralldarennar Synder, ad þijnum Kvolurum hefur þyrmt vered fyrer þijna Bæn i þiñe bitru Pijnu, Luc. 23. Eñ Naattura[illegible] sampijnast sijnum Gude. Þeir hofdu hroopad til forna, krossfestu hann, krossfestu hañ, enn hier opnar Jordenn siñ Muñ til ad kuñgiora þitt Sakleyse og aklaga Gydinga. Þegar Adam neytte þess forbodna Avaxtar Jardarennar, þa var Jordunne bolvad, Gen. 3. Enn sw Bolvan linadest fyrer þess fyrerheitna Sædis Skulld. Nu maa sijnast ad Jordenn, þar hinn annar Adam, sem er Drottenn af Himne, var pijndur a henne, ad hun kvijde vid ad henne verde ad nyju bolvad med eilijfre Bolvan. O Herra himneske Fader! Fader allrar Naadar og Myskunseme! Vier meigum jaata þad um oss, sem Jeremias seigier i 5. Cap. Ad vier hofum hardar Asioonur, so sem eirn Steirn, og vilium ecke umvenda oss. Vor Hiortu eru hardare enn Klettur, þar Biorgenn i sundur klofna og Jordenn skielfur, enn oss kiemur ei til Hugar ad laata oss ogna þær Synder, sem hafa þinn Son krossfestann. Grafer Framlidenna Lukust Upp; Enn vier erum so dauder i Syndunum, og so diwpt nidur grafner i Naauglæted, ad vier faaum ei rised upp wr hinne fwlu Grof Hellds og Bloods a moote vorum Herra. Af þijns eingietens Sonar Sijdu, sem er Hella vors Hiaalprædis, wtrennur Blood og Vatn, Joh. 19. Enn af vorum Augum gietur ei stocked eitt Ydrunar Taar.

Jordenn Skalf og Biorgenn i sundur klofnudu a Pijnu-Deige vors Herra. O! hvad meiga vor Hiortu vera Steinum hardare, þar Myñing Drotteñs Dauda, er vier holldum a þessum Deige, kann þau ecke ad mykia til Ydrunar og Apturhvarfs fraa ogudlegu Athæfe. O hvad stoor Munur er þo a millum Guds og Mañа! Ad hañs Hiarta brestur yfer einum ydrande Syndara, so hann hlijtur honum myskunsamur ad vera, Jer. 31. Eñ Syndarans Hiarta er so obifañlegt, ad Jesu dijrmæta Blood, fyrer hveriu ad oll Verollden liek a Reideskiaalfe, þad fær ecke orkad þvi ad Madurenn graate sijna Synd fyrer Gude. O! Þu almaattuge Gud sem alla Hlute kant framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla, Eph. 3. Umskier þu vor Eyru og Hiortu med Sverde þijna H. Orda, so ad þau meige finna til Synda siña og Christi bitru Kvalar: Laat oss niedañ Naadar-Tijmeñ eñ nu yferstendur þeinkia þar til, ad hañ mun aptur koma i Skyum Himens med Magt og miklu Vellde, Elldureñ mun breña fyrer hañs Auglite, i hveriun Himnarner munu forgaanga med Stoor-Brestum, og Hofud-Skiepnurnar af Hita braadna, aadur eñ allt þetta skier, 2. Pet. 3. O Herra Gud! Gief oss þa ad vier upphefium vor Hofud, so ad vier þeckium vorn Vitiunar Tijma, so vier lærum ad fela oss i Biargskorunum, sem eru blessadar under þijns Ein-

gietens

gietens Sonar, og þar i dyliast medan Reiden fram hia geingur, Esa. 26. So ad vier a þeirre vondu Tijd mættum frafskilder þeim ogudlegu, er Jesum ad niju krossfesta og foottroda hanns Blood, Hebr. 10. Þvo vorn Skrwda i Lambsins Bloode, Apoc. 7. Og med þvi dijrdlega Skarte inngaanga i hanns Brwdkaup og þaa himnesku Jerusalem, til ad lofa þig eilijflega, Þu haaleita Guddoomsins Þrenning.

Þad veite oss Gud Fader, Sonur og heilagur Ande fyrer Christi blessada Forþienustu, A M E N.

# A Paaska Dagenn.

Gudspialled, Marc. 16. Cap.

Og þa ed Þvott-Dagurenn var umlidenn, keyptu þær Maria Magdalena, og Maria Jacobi og Salome, dijrdleg Smyrsl, ad þær kiæme og smyrde Jesum. Og mieg snemma Morguns eirn Þvott-Dagana, komu þær til Grafarennar um Soolar Uppruna. Og þær sogdu sijn a mille: Hver mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafarmunnanum? Og sem þær litu þangad, sau þær ad Steirnenn var afvelltur. Enn hann var ad sønu nærsta mikell. Og þær geingu inn i Grøfena, og sau eitt Ungmenne sitia til hægre Hlidar, skrijddann sijdu Klæde hvijtu, og þær urdu ottaslegnar. enn hann sagde til þeirra: Eige skulu þier hrædast. Þier leited ad hinum krossfesta Jesu af Nazareth, hann er upprisenn, og er ecke hier. Siaed þann Stad hvar þeir løgdu hann; Helldur fared þier burt og seiged hanns Læresveinum og Petre, ad hann mune gaanga fyrer ydur i Galileam. Þar munud þier siaa hann, so sem hann sagde ydur.

Exordium.

Sa Steirn sem Uppbyggendur hafa burtu kastad, hann er vordenn ad Hofud Hyrningar, af Drottne er þesse, og er undarlegur fyrer Mønum: A þessum Deige hefur Drottenn þad giort, fognum og verum glader a honum, seger David Konungur, Psalm. 118. Ad þetta Kvæde sie ordt um Mannkynsins Frelsara, vottar sialfur hann, Matth. 21. Er hann þijder þennan Spaadoom uppa sig, hvor og so i hanns Dauda og Upprisu ad ollu leite framkomenn er. Hvernenn þeir hafe honum burtkastad, þad hofum vier heyrt a umlidnum Fostu Tijma. Enn hefde Drottenn ad eins vort auma Hold og Blood uppa sig teked, og daed i þvi sama fyrer allar Veralldarennar Synder, þaa hefde hann ad sønu ad fullu loked þa Skulld er vier attum Gude ad gialld, þar fyrer sagde hann under sitt Andlaat, haangande a Krossenum: Ad þad fullkomnad være, Joh. 19. Enn ecke vorum vier vijser i þvi, ad

hann

han̄ hefde golded fyrer oſs hin̄ ſijdarſta Pening, nema han̄ hefde af Fiøtrum Daudans leyſtur vered, og þad ſama kun̄giøra lǣted, og ſiālfur ſig open̄berad, og þvi kalla eg þad riett ſagt, ad Jeſus Chriſtus ſie ad Høfde Hyrningar vorden̄ i ſinne dijrdlegu Upprisu. A þeſſum Deige hefur Drotten̄ þad giørt, ſeiger Skǣlldeð, føgnum þvi og verum glader ā honum: Eckert hefur oſs þvilijkt til Kiæte bored, Guds Børn, og eingen̄ Sool hefur oſs fegre upprunned en̄ þeſſe. Adra Daga giører hin nǣttúrlega Soolen̄ med ſin̄e Upprǣs; En̄ þen̄an̄, Sool Riettlæt. ſins ſiālf, er hina ſkapad hefur. Þegar Soolen̄ uppren̄ur, formyrkvar hun hin øn̄ur Himen-Tunglenn med Nǣlægð ſin̄ar Byrtu, enn þegar hin bleſſada Sool Riettlætesins under gieck i hinu bitra Dauda Strijde, þā giørde hun hina myrkva, þegar hun hvad fegurſt ſkein: So miked Vallð hafde han̄ bæde ā Himne og Jordu midt i Daudanum, hvad mikla Byrte mun hun þā bera i allra riett-trwadra Hiørtum i ſinne Upprisu? Þeſſe hin fagra Sool ran̄ oſs upp fyrſt allra i han̄s Gietnade, en̄ ſtrax epter han̄s Fæðingu droou brǣdlega fyrer hana Skij vors auma Holldz Veikleika, og ſijdan̄ Daudans, er hann þo ecke forþienad hafde. Enn ā þeſſum Deige er hun ſo eitt ſinn upprun̄en̄, ad hun mun framar alldrei undergǣnga, þvi Chriſtur uppriſen̄ af daudum, deyr ecke meir, og Dauden̄ rijker ei framar yfer honum, ſeiger Paulus, Rom. 6. Þeir ſlǣtrudu honum ſo ſem Lambe, enn hann reis upp aptur ſe ſem ungt Leon. Johannes Baptiſta kallar han̄ þad ſaklauſa Guds Lamb, ſim̄ i burtu ber Veralldarennar Synder, i han̄s Nidurlægingu, Joh. 1. Johan̄es Evangeliſta nefner hann þad Leoned af Kyne Juda, ſem Siguren̄ unned hafe, Apoc. 5. i ſinne Upprisu. Føgnum þvi og glader verum, Chriſtner Menn, ſijngiande og ſpilande Drottne i Hiørtum vorum. Guds heilager Englar, þeir himneſku Andar, hverium Guds Sonur eckert hafde ǣtvegad med ſijnum Dauda, þeir fagna ſijnum Herra i hanns Upprisu, Joh. 20. Þvi ſkylldum þā ecke vier allshugar fegner verda ſynduger Ormar? Sem vorum Daudans Menn, hefde ecke Drotten̄ upprised oſs til Riettlǣtis. Chriſti Poſtular trwdu ecke Upprisu Drottenns fyrer Fagnadar ſaker, Luc. 24. Þeſſe brǣde Føgnudur var meire enn ſo, ad hann leyfde þeim ad grunda hvad ſannaſt være i fliootu Bragde; Enn vier ſem trwum fyrer þeirra Vitnisburd, lǣtum oſs þeim ſamfagna og glada vera, þad bijdur oſs Guds heiløg Mooder, og hen̄ar Selſkapur, þad biooda oſs Englar Drottenns, þad biooda oſs hanns Poſtular, þad biooda oſs Himen og Jord, þad bijdur oſs ſiālfur hann, i hvers Nafne vier Sigrenum hrooſum, ſeigande til ſinnar Chriſtne: Vakned upp og ſijnged þier ſem i Duptenu ligged, þegar þier hafed nidurſteiged hina andvønu til Jardar, Eſa. 26. Og uppā þad, Brædur mijner, ad vier mættum þad þeſs betur fran̄kvǣma, vilium vier af þeſſa Hǣtijdar-Dags Evangelio nockud giør yfervega Upprisu Drottenns med þeim Avoxtum og Aminningum ſem þar af rijſa. J þeſſu Eyrende hiālpe oſs goodur Gud, fyrer Forþienuſtu ſijns eingietens Sonar, med Nād. heilags Anda, AMEN.

## Utleggingenn.

Hacker og Lof sie eilijfum Gude fyrer þaa Naad, ad Jesu dijrdarfullr Upprisu þarf ecke med Vitnum ad stadfesta, nu sem stendur, þvi þar er eingenn a medal christenna Manna, sem þad ecke jaate; Enn a hinum fyrstu Døgum Christnennar, logdu Guds heilager Menn ecke so miked Kapp a nockurn Hlut sem þennann, og þvi sagde Petur fordum Daga, Act. 1. Þad byriar ad eirn af þeim Mønnum, sem med oss vered hafa alla þaa Tijd, er Drottenn Jesus gieck inn og wt a medal vor, byriande a Skijrn Johannis, allt til þessa Dags, er hann var fraa oss uppnumenn, ad eirn af þeim verde Vottur hanns Upprisu medur oss, og enn framar, þaa ed Petur talde umm fyrer Judum, hverier Jesum krossfestann høfdu: Þier Afneitudud hinum heilaga og riettlaata, enn beidust epter ad ydur yrde Mordingenn giefenn, enn Høfund Lijfsins deyddud þier, hvern Gud hefur uppvaked af daudum, hvers vier aller Vottar erum, Act. 3. og umm alla Postulana til samans ber Lucas Vitne seigande, Act. 4. Og med miklum Krapte vitnudu Postularner umm Upprisu Drottens vors Jesu Christi; Þetta er ecke af Mønnum skied, B. M. helldr af Gude, so ad hanns Sannleike stadfestur yrde a medal þeirra, til Myskunar þeim og Syndalausnar. So seiger Petur aptur, Act. 10. Þennann uppvakte Gud a þridia Deige, og giørde þad bert, ecke øllu Foolke, helldur fyrer Vottum þeim, sem af Gude tilskickader voru, oss sem ad atum og druckum med hønum. Og uppa þad ad Christi Lærisveinar ei kynnu ad fara villt i þessu, þaa hefur hann i heila 40. Daga umgeingest med þeim hier a Jordunne, aadr enn hann til Himna stie, Act. 1. Og sijnt þeim klaarlega, ecke einasta ad hann upprisenn være, helldur mz sama Lijkhama, og þo forklaarudum, med mannlegum Lijkhama, og þo dijrdlegum, med þeim Lijkhama sem a Krossenum hieck, og i Grøfena var nidur lagdur, og þo er volldulega upprisenn ad luktre Grøfenne og Steinenum o-afvelltum. Ad hann hafde natturlegann Manns Lijkhama vottar hann, Luc. 24. Siaaed og þreifed a, þvi Ande hefur ecke Holld nie Bein, sem þier siaaed mig hafa. Ad þad være sa same Lijkhame, auglijser hann nockru sijdar i þessum Capitula Lucæ, seigande: Siaaed mijnar Hendur og Fætur, ad eg em þad sialfur. Hann talade vid þaa, hann braut Braudet, hann at og drack med þeim, eins og til forna, hann liet þaa þreifa a þvi sama Hollde, og sijnde þeim þær sømu Hendur sm a Krossenn negldar voru, og þaa Sijdu, er med Lensunne var i giegnum stwngenn, þar hann þo i sama sinn inngieck til þeirra ad lucktum Dyrum, so sem annar Ande, ad þeir sia mættu, ad þad være hinn same Lijkhame sm leid, og þo Dijrd oveniulegre prijddur: Ja, til þess ad eckert vantade þeim til Trwarstyrkingar; took hann til a Moyse og øllum Spaamønnunum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar sem af hønum voru, leidande þeim fyrer Siooner ad Christo byriade þetta ad lijda, og inngaanga so i sijna Dijrd, so ad þeirra Hiarta brann i þeim, er hann talade vid þaa a Veigenum, Luc. 24. Enn so ad þeir mætti fyrer vijst vita, ad hn bæde Gud og Madr være, og ad Manndoomurenn være ecke i Daudanum vid Guddoomenn skilenn, itrekade hann eitt af þeim Kraptaverkum er hann aadr giørt

hafde

hafde, og upp er teiknad hia Joh. 21. Þegar hañ kom til þeirra, er þeir voru ad Fiske-Veidum, og hofdu uñ Noottena einkis aflad, eñ hañ baud þeim ad varpa wt Netenu til hægre Handar, hvad so tookst, ad þeir gatu þau valla iñebyrgt fyrer Mergd Fiskanna, er i voru komner. Nu, þar ed Englarner hafa Drottenns Upprisu bodad, heilagar Kviñur þeim trwad, Postularner hafa hañ sied, og honum þreifad, og vid hañ talad, Jesus sialfur sig opeñberad, og wtlagt Ritningarnar, þær sem af honum vóru, og i hverium hñs Upprisu spaad var og fyrermyndud, og Guds heilager Meñ hafa Þusundum saman lated sitt Lijf uppa þeñañ Sañleika, þa er hañ vissare og a fastare Rokum bygdur eñ honum mootseiga meige. Eñ hveriar munu Orsaker þær, B. M. hvar fyrer ad so vandlega er byged uñ þetta dijrmæta Efne? Ein er sw, ad Guds Sonur i hañs Upprisu hrosade Sigre yfer Dauda og Diofle, og auglijste oss syndugum Moñum, vegna hverra hañ þeñañ dijra Sigur uñed hefur, ad hann være Daudans Daude, og Helvijtis Olifian, Os. 13. Herleidingeñ være ad Herfange tekeñ, eñ hañ under eins hefde fridad fyrer oss hia Gude og Fodur. Þesse er hin hellsta Nytseme Upprisu Drottenns. Hina adra seiger oss Paulus, Rom. 6. Med þessum Ordum: Vier erum jardader med honum fyrer Skijrnena til Daudans, ad lijka so sem Christur er uppvakeñ fra daudum fyrer Dijrd Fodursins, so eigum vier ad ganga i Endurnijung Lijfdaganna. Þar til er Christur daenn, ad i oss meige fyrer hanns Dauda, deyddur verda hinn gamle Madureñ, þad er Uppruna Syndeñ, ecke ad hun olldungis wt af deye, helldur deyr heñar Illsku Kraptur, ecke ad hun birt-tekeñ verde, helldur heñar Sekt fyrergiefeñ, ecke ad Madureñ i Endurgietninguñe heilagur verde, helldur medtekur hañ heilagañ Anda, fyrer hvern hañ framveigis dempad gietur Holldsins Girnder, ecke riettlatur i sialfum sier, helldur fyrer Christi Riettlæte, fyrer hvert honum veitest sa Anda Kraptur, ad hann gietur uppriseð med Christo, og geinged i Endurnijungu Lijfdaganna, þvi seiger Paulus framveigis: Vitande þad ad vor gamle Madur er under eins krossfestur, so ad afmaaest Lijkhame Syndarennar, ad ecke þioonum vier Syndeñe framar, Rom. 6. Ecke seiger Paulus ad vier syndlauser sieum, þvi þess er ecke ad vænta af Holldenu under Syndena seldu, helldur seiger hñ ad vier ecke þioonum Syndeñe, þad er, laatum hana ecke drottna i vorum daudlegum Lijkhama, ad vier hlijdum heñe i heñar Girndum, so sem hañ ad Orde kiemst i sama Capitula. Þesse er hañs Meining i Ordunum er vier strax heyrdum, þvi hañ svarar þvi sem hañ ondverdlega i Capitulanum þeim siotta framsetr a þeñañ Haatt: Skulum vier þa i Syndunum dvelia, so ad Naadeñ yfergnæfe? Fiærre sie þvi. Tveggia Guds Velgiorninga gietur og St. Paall i greindum Ordum: Endurgietningareñar og Endurnijungareñar. Vier erum jardader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, þad er Endurgietningeñ. So eigum vier ad ganga i Endurnijungu Lijfdagaña, þad er Endurnijungeñ: Hin fyrre skiedur i einu Augnablike i heilagre Vatnslaug: Hin sijdare a ad framkoma uñ alla Æfe vora, og fara Dagvaxande, so ad smaamsamañ afmaaest Lijk-

hame Syndareñar, og so sem vier i christelegum Frædum lesum; Ad sa gamle Madureñ, þad er Uppruna Synden, daglega dreckest og deydest, fyrer Ydran og Yferboot, enn framkome og upp aptur rijse eirn nijr Madur, sa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude æfennlega.

Hin fyrre er alleina Guds Verk i oss, so sem Paulus seiger, Tit. 3. Ecke af Riettlætis Verkunum sem vier giordum, helldur af Myskun siñe hefur hañ oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena. Hin sijdare stendur ad nockru leite i voru Vallde. Þad vottar St. Paall, Eph. 4. Endurnijest i Auda ydvars Hugskots, og iklædest einum nijum Manne, sem epter Gude skapadur er, i Heilagleika og Riettlæte. Hvertveggia kallast Umskurn Hiartans i gamla Testamentenu, Endurgietningenn, Devt. 30. Gud mun umskiera þitt Hiarta. Endurnijungenn, Jer. 4. Umskiered ydur fyrer Drottne, og burt taked Yferhwd ydar Hugskots, Þier Menn Juda og Jerusalems Borgarar, ad ecke frambrune mijn Grimd so sem annar Elldur þañ eingeñ slockt fær, sokum Illsku ydar Athafna. Hier kunnum vier nu ad sia Skylldu vora Brædur mijner, og hve mikell Hæske oss bweñ er, nema vier giolldum varhuga vid, og rijsum upp med Christo Drottne vorum, i hvers Dauda vier skijrder erum, Rom. 6. Og fyrer hvern vier hofum Barna Riettenn medteked, Gal. 4. Ef vier erum upprisner med Christo, þa leited þess sem þar uppe er, hvar Christur er sitiande a hægre Hond Gude. Hugsed um þad sem þar uppe er, og ecke þad sem er a Jorduñe, seiger Paall, Col. 3. O hvilijk er Faasinna daudlegra Manna! þar vier vordner erum Borgar-Menn heilagra, og Guds Heimilis-Meñ, Eph. 2. Þad Meñ sockva sier nidur i Leyrvelltu og Endeme Heims þessa, sem þo mun fyrerfarast med ollu þvi, sem i honum er, enn yfergiefa sijns Fodur Heimkynne. Giætum þess, ad vier erum i Skijrneñe vordner Kvister a hinu andlega Vijn-Trie Drottne Jesu Christo, til ad bera mikenn Avoxt, enn hvern þann Kvist sem ecke Avoxt ber, mun Vijngardsmadurenn, sem er hanns Fader, afhoggva og i Ellde brenna, Joh. 15. O! hvad herfeleg eru þau Umskipte, af einum himneskum Vijn-Vid, ad gioraſt Helvijtis Elldebrandur, af Christi Þienara, Satans-Þræll, af Guds Oska-Barne, Reideñar Barn, og þad fyrer stundlegt Epterlæte Syndareñar, hverrar Verdlaun eru i þeim Pitte, sem rijkur af Ellde og Brennesteine, Apoc. 21. Enn framar seiger Paulus, Col. 2. Þier erud grestrader med Christo i Skijrneñe, i hverre þier og uppvakter erud fyrer Krapt Trwareñar a Gud, sem hann uppvaked hefur. Hver mun þesse Kraptur Trwareñar vera, Brædur mijner? Þad seiger Paall oss aptur, Gal. 5. Er hann so ad Orde kiemst, ad i Jesu Christo (þad er i þeim Hlutum, sem Jesu Christo vid koma) gyllde hverke Umskurn nie Yferhwd, helldur Trw sw, sem fyrer Kiærleikañ verkar. Eñ hverier eru þa Kiærleikans Avexter? Paall kienner oss þad, 1. Cor. 13. Seigande: Kiærleikurenn er þolenmoodur og goodgiarn, Kiærleikurenn ofundar ecke, Kiærleikureñ giorer ei illmañlega, hann þytur ei upp, hann er ei osidsamur, hañ leitar ecke epter þvi sem hañs er, hañ er

et

ei Þwnglyndur, hañ Þeinker ecke illt, hañ fagnar ecke yfer Ranglætenu, enn samfagnar Sannleikanum. Hier telur Paall upp allar christilegar Dyggder, er af Kiærleikanum, so sem odrum Bruñe framflioota, eins og adrer hreiner frieofgande Læker, til allra þeirra sem vier eigum nockru vid ad skipta i Heimenum, og saa sem temur sier þær og daglega ydkar, hañ maa þess fulloruggur vera, ad hañ hefur med Christo vel uppriised, og er honum fyrer saña og lifande Trw innplantadur, þviad Elskañ er Kraptur Trwarennar og heñar Lijfs-Mark; Þar fyrer seiger Postuleñ afdrættarlaust, ad Trwenn sie daud aan Verkaña, Jacob. 2. Og St. Paall sem vard (fyrer þeirra Skulld sem forsletu sig uppaa Logmaalsins Verk) ad hroosa Trwñe so miog, ad nockrer hafa steitt sig þar aa, þo aan Orsakar, og meint ad ei þyrfte Goodverkeñ ad giora; Hañ seiger sialfur, 1. Cor. 13. Þo ad eg hefde alla Trw, so ad eg megnade Fiolleñ wr Stad ad hræra, og hefde ecke Kiærleikañ, þaa være eg þo eckert. Vilium vier lijta til vors fyrra Hættalags, mdur eñ vier endurfædder vorum, og heyra hvad Paulus þar um seiger, Eph. 2. Gud sem ed rijkur er af Naad fyrer sinn mikla Kiærleika, med hverium hann elskade oss, hefur lijfgad oss med Christo, þegar vier dauder vorum i Syndunum, og hefur under eins uppvaked oss, og aasamt Christo Jesu sett oss i Himnarijke. J Skijrnenne riette Gud oss fyrst allra sijna Myskunar-Hond, þegar vier miña kuñum ad hiælpa oss i vorum Saaluhiælpar-Efnum, eñ eirn Briooslmylkingur Lijfe sijnu, þaa reiste hañ oss upp wr Saurendum nætturlegrar Spillingar, þaa took hañ oss inn i sinn eilijfa Sættmaala, þaa trwlofade hañ oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Þaa sette hañ oss i Rijke sijns Sonar, Col. 1. Eñ hvad er þad, Brædur mijner, ad vier brioostunst wr Fadme hañs ad niju, mz Jdkun vondra Verka, er Guds Bornum sæma ecke, og forlaatum Meistara vors Ungdooms, sm took oss upp, þar vier laaum i voru Bloode, wtkastader aa Vijdavaangenum, Ezech. 16. Eñ gaungum Dioflenum til Handa, hverium vier afneitad hofum og ollum hanns Verkum. Er þad ecke ad kasta sier aptur i sama Saur, þoott vier einusiñe uppreister sieum? Edur munum vier þess nockur Not hafa, ad Gud hefur med sijnum sterka Armlegg handdreiged oss af Dioflenum i Endurgietninguñe, ef vier leggium Lag vort vid Satan aptur? Laatum oss til Hugar koma, Brædur mijner, hvad margt og miked Jesus þolad hefur, þegar hann mætte þo vel Sælu hafa, Heb. 12. mdur enn hañ fieck uppriised oss til Riettlætes. Saa sem heyrer Guds Son yfergiefeñ, Matth. 26. Gud blessadann um Allder, Rom. 9. So sem Bolvan uppheingdañ, Gal. 3. Og hann sem gallt þad hañ ecke rænte, medal Ræningia taleñ, Marc. 15. Og veit ad þetta er skied, fyrer alla þaa Illsku sem ad Syndareñ hefur unned til Helvijtis med, og ecke leitast vid ad krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, so honum mætte Christi vegna Heimureñ verda krossfestur, eins og Paale, Gal. 6. Þeim verdur alldrei auded med Christo upp ad rijsa i Naadenne, so hann eilijflega med honum life i Dijrdenne. Fyrer þvi aamiñner Petur værsta vel, seigande: Med þvi ad Christur hefur nu fyrer oss lided i Holldenu, þaa

brynied ydur med sama Hugarfare, þviad hvør a Holldenu lijdur, hann lætur af Syndeñe, 1. Pet. 4. So ad hañ þadañ i fraa, hvad epter er Æfeñar i Holldenu life, eige ad mañlegum Gyrndum, helldur ad Guds Vilia. Hvad er þad ad vier segiunst ydrast vondra Verka, nema vier og upprijsum med Christo? Vier komum hvert Ar, og þriar, fioorar Reysur a Are, epter þvi sem hvør er lyndur til, fram fyrer Kienneimanneñ, þar hañ situr i Guds Stad til ad fyrergiefa oss Syndernar, ecke þeim sem nalægiast Gud med Vørunum alleina, Es. 29. Helldur þeim, hverra Hiarta ad riett er fyrer Drottne. Vier segiunst bera Angur og Trega fyrer Syndena (Gud giæfe ad Hugur jafnañ Maale fylgde, og ad vier villdum af heñe laata og vid sia framveigis) og er hañ hefur so i Guds Umbode tilsagt oss Kvittun vorra Afgiorda, meinum vier oss ad fara riettlaatare heim aptur i vort Hws, Luc. 18. Og þad er i Sannleika satt a þeim, sem vel hafa reynt og proofad sialfa sig, og af Alvøru audmijkt sig under volldugu Guds Hønd, þviad Christi Loford er fyrer þvi, ad hverium hellst Guds Þienare fyrergiefur Syndernar, þeim sieu þær fyrergiefnar, Joh. 20. Þo ecke nema þeim sem elska siñ Lausnara og rækia hanns Bod, þviad St. Paall lijser Bølvan yfer þa sem ecke elska Drotteñ Jesum, 1. Cor. 16. Og eru þeir þa laangt fraa Syndaña Fyrergiefningu. Hiñe bersyndugu fyrergafst mikid, þviad hun elskade mikid, Luc. 7. Hvernenn viliu vier kallast elska Christ edur med honum upprijsa, ef vier afrækium Bod hañs? Ef hann er vor Fader, hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Sa sem ecke tekur siñ Kross uppa sig og fylger honum epter, Matth. 10. Hann er hañs ecke verdugur? Eñ Kross er varla þvilijkur Hollde og Bloode, so sem ad uppfylla Christi Logmaal, sem þo er ecke nema i einu Bodorde innefaled, sem er, ad bera hver añars Byrde, edur elska hver añan innbyrdis, ad Vitne St. Paals, Gal. 6. Þvi dæme eg so, Brædur mijner, ad sa sem ecke stundar epter ad vardveita Christi Logmaal, hañ elskar hañ ecke, sa sem ecke elskar hañ, nijtur ecke hañs Forþienustu, sa sem ecke nijtur hañs Forþienustu, hañ er bølvadur, og er eñ þa i sijnum Syndum, hversu opt sem Presturiñ lijser þeirra Kvittun yfer honum, þviad hañ er Madur, og veit ecke a Stundum hverium hañ fyrirgiefr Syndernar, þviad Guds alleina er ad rannsaka Hiartad, þar fyrer eigum vier ecke ad taka þad sem Gud hefur talad aangraadum Saalum til Trwarstyrkingar, Illskuñe og Þrettvijseñe til Afbotunar. Eñ giætum ad oss i Jesu Nafne! Brædur mijner, hvad opt høfum vier Syndaña Kvittun þeiged, eñ þad mun tilbored hafa, ad vier høfum aptur framkomed ecke einasta med þær somu, helldur adrar verre a Stundum. Hvad litt hefur oss þa vered giefed um ad hallda þad Loford, er vier giordum Gude i Jatningu Syndaña, adur eñ vier þaadum heilaga Aflausn af Hende hanns Þienara? Hversu treiger høfum vier vered a Heyrn hañs Orda? Hvad oswser til ad elska vorn Naunga, ad forlaata honum hañs Afbrot, ad giora þeim gott sem vid oss misgiora, ad forsvara hañ og fæa alla Hlute a betra Veg, ad stilla Reidena, ad laata hañs Eigur kyrrar? Og i einu Orde ad seigia, ad rijsa upp med Christo og bera Krosseñ epter honum, þad

er, ad deyda þañ gamla Mañeñ er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins? Eph. 4. Jaa, þvi verr, ad margur mun fiñast saa ed strax sim hañ er komeñ fraa Prestsins Kniaam, velltir hañ sier i sama Saur, og hefur einga Vidleitne til þess ad laata af ollu þvi illa, er hañ strax medkiende og lofade Umboot aa, og þad i Oftrauste Naadar Guds, og fallvallte Von laangra Lijfdaga. Ecke er slijkt ad upprijsa med Christo edur bera Krosseñ epter honum, helldur ad gabba hiñ krossfesta. Eñ heyred hvad Paulus til Hebr. seiger i 10. Cap. Saa sem ad eingu hefur Moyses Logmaal, hann skal epter Vitne tveggia edur þriggia vægdarlaust deya: Hvad þijngra Straffs verdugur meinid þier hann reiknast mune, er foottredur Guds Son, og Saattmaalans Blood, med hveriu ad hann endurleystur er, almennelegt helldur, og vanvirder Anda Naadarennar? Hvad er þad, ad vier jaatum alleina vorar Synder fyrer Gude; Mun honum nockur þocknan i þvi? Hañ þarf ei þess vid, hañ veit þær betur eñ vær, þviad aller Hlutir eru berer og nakter fyrer hañs Augum, Hebr. 4. Þad er nærre þvi, ad brijxla Gude med Jona Spaamañe um sijna Myskunseme, Jon. 4. So sem hañ ecke sie under eins riettlaatur, og take alleina Skullda Reikningeñ fyrer Skullda-Lukninguna, hvad oss mundi þykia lioott aa einum Doomara, þvi kunnum vier þaa ad ætlast til þess af Gude, hvers straanga Riettlæte einga Þurdu maa lijda? Þad sie fiærre, ad eg lijted giore wr Jesu Forþienustu, hañs Pijnu og Dauda, hañs Upprisu og ollu þvi hann uñed hefur oss til Myskunar, þviad hvad er jafnvægt Guds Riettlæte? Hiaa hveriu Himen og Jord eru miña eñ eitt Sand-Korn ad reikna, nema þessar Astgiafer Frelsarans. Hitt seige eg, ad þad heyrer þeim ecke til sem ætla sier ad lifa i Syndunum, uppaa þad ad Naadeñ yfergnæfe. Harmþrwngenn og sundurknosadur Ande er alleina þad Offred sem Gude þocknast, Ps. 51. Hvar fyrer? Þviad Christi Forþienusta hrijn aa þvi, nær þvi er so haattad, eñ ecke añars, so ad Gud vill ecke tilreikna Mañenum giordar Synder, eñ ecke er þetta Aflaats-Brief til ad meiga framveigis Syndena drijgia, þvi Christur er komeñ til ad uppfylla Logmaalid, eñ ecki ad uppleysa þad, Matth. 5. Til ad forlijka fyrir Syndena, eñ ecke til þess Madureñ skule syndga: Til ad deyda Syndena i voru Hollde fyrer sijna Upprisu, enn ei til þess ad hun skule drottna i vorum daudlegum Lijkhama.

Þu seiger: Eg aangrast af ollu þvi illa sem eg hefe moote Gude giort, enn hvar er þad Angur, þegar þu leikur þier ad somu Syndum eins og odru Table? Þu seiger: Eg hata Syndena; Laat þaa siaa ad þu elsker Gud, og drijger ei þad hañ bañad hefur. Þu seiger: Eg elska Gud sem mier hefur so margar Synder fyrergiefid; Laat þaa siaa undir eins, ad þu elsker ecke þad hann hatar, þviad þessum tveimur Herrum maa ecke i senn þioona, Matth. 6. Annad er þad, ad Syndenn hender Mañeñ, og hann samþyckest henne um Stund, annad þad, ad laata hana drottna i sier, hafa Lyst af henne, og giora Hand-Verk þar af; þad fyrra gietur ecke ad ollu leite skiled vid oss aa medañ vier berum epter oss Lijkhama þessa Dauda, so ad jafnvel Paulus seigest giora þad vonda er hann þo ecke giora vilie, Rom. 7. Hitt sijdara er hiaa Bornum Vantwarennar al-

geingt

geingt, um hveria Paall talar, Rom. 1. Er hann uppreiknar Skammer þær ed medal Heidingianna tijdkuduust, og ælyktar med þessum Ordum: Hverier ed jafnvel þoott þeir þektu Guds Riettindi (sem er, ad þeir ed þvilijkt giora sieu Dauda verdir) þaa giore þeir þad ecke ad eins, helldur samsinna þeim er þad giora, Rom. 1. Þegar Gud er hvad naadugastur i sijnu Evangelio, þaa er þad þo alldrei odruvijsi enn so sem hann seiger, Esa. 1. Laated af illu og læred gott ad giora; komed siidann og eigunst Log vid, þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær verda hvijtar sem Snioor, og þo þær sieu sem Purpure raudar, skulu þær verda hvijtar sem Ull, og Paall er þvi samhlioода, Rom. 8. Er hann vottar, ad eingenn Fordæming sie framar yfer þeim sem eru i Christo Jesu, þeim sem ei gaanga epter Holldenu, helldur epter Andanum. Þetta er eitt æfennlegt Evangelium, sem varad hefur i fraa Heimsins Upphafe, og geinged hefur i giegnum bæde Guds Testamenta, og soer oumbreytannlegt sem hann er sialfur, hia hverium ecke er Umbreyting nie Skugge Umbreytingar, Jac. 1. So þoott ad Engell af Himne kiæme ad predika annad, sem þo er omøgulegt, þaa villda eg med Paulo seigia: Ad þad bølvad vera skyllde, Gal. 1. Hlijdum þar fyrer Raade St. Peturs, er hann seiger: Leggid af Illsku alla, og oll Svikræde og Smiadur, og Ofund og alla Bakmælge, og gyrnest hinar skynsamlegu og hreinu Mioolkur so sem nijfædd Born, uppaa þad, ad þier þrooest fyrer þaa somu, ef þier smackad hafed hvad liufur Drottenn er, til hvers vier komner erum, so sem til eins lifanda Steins, hver af Monnum er burtkastadur, enn af Gude er utvalinn og dijrmætur, 1. Pet. 2. Noottenn er umlidenn enn Dagurenn tekur ad naalgast, leggium þvi af Verkenn Myrkranna og iklædunst Herklædum Liioosens, Rom. 13. Jesus Christur er aa þessum blessada Dags-Morgne upprisenn. Hann er vordenn morgum til Falls og Upprisu i Israel, epter þvi sem hinn gamle Simeon Raad fyrer giorde, Luc. 2. Rijsum þvi upp med honum, ad ecke falle hann yfer oss, og i sundurmerie med hinum odrum er honum burtkastad hafa, allra helst þar vier vitum Tijmann, ad oss er Maal ad rijsa upp af Svefne Syndanna, þvi nu er Hiaalpræded oss nær enn vier nockurn Tijma trwdum, sagde Paall, Rom. 13. Vier vitum ecke hvad naalæg ad er vor Endurlausn, edur nær Hofud-Engelsins Lwdur kvedur vid i Skijum Himens, og þar vort Paaska Lamb Christur er fyrer oss foornfærdur, þaa holldum Haatijdena ecke i hinu gamla Swrdeige Illskunnar og Prettvijsennar, helldur i osijrdu Braude Hreinlyndesins og Sannleikans, 1. Cor. 5. Þad saklausa Guds Lamb sem i burtu ber Heimsins Synder, Joh. 1. Þad verdur enn nu foorufært i Himnenum, so opt sem oss verda Syndernar fyrergiefnar aa Jordunne, þvi seiger Postulenn, Hebr. 9. Hann er i Himeninn inngeingenn, ad hann byrtest vor vegna fyrer Guds Auglite, sialfur Foornenn, sialfur Kiennemadurenn, og sialfur Gud sem ed Foornena þyggur: Þvi ætti christinna Manna Lijferne ad vera eitt sijfellt Paaska-Halld, þar til þad fullkomnast i Guds Rijke epter hanns Loforde, og vier munum eilijfar Paasker med honum hallda aa Lande lifande Manna, þar ed verda mun eilijfur Hvijldar-Dagur,

ur, Eſa. 66. Og vier munum med foſtu Elſkuñar Bande teingiaſt vid hañ ſem oſs hef-
ur ſo heitt elſkad, ad hañ doo fyrer oſs raanglaata, Rom. 5. Hver ad er ſiaalf-
ur Upprisann og Lijfed, Joh. 11. Honum med Fodur og heilogum Anda
ſie oendañlegt Lof og Dijrd, nu hiedan i fraa og ad eilijfu, Amen.

# Annann Dag Paaſka.

Gudſpialled, Luc 24. Cap.

I Þañ Tijma. Og ſiaa, ad tveir af þeim geingu aa þañ ſama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var fraa Jeruſalem ſextiju Skeida-Rwm, ad Nafne Emaus. Og þeir voru ad tala uñ alla þaa Hluti ſijn aa millum, ſem vid høfdu bored. Og þad ſkiede þaa þeir ræddust vid, og ſpurduſt aa ſijn aa millum, ad ſiaalfur Jeſus naalægdeſt þaa, og gieck jafnframt þeim. Enn þeirra Augu voru ſo hallden, ad þeir þecktu hañ ecke. Og hañ ſagde til þeirra: Hvad er þad fyrer Rædu, ſem þid høndled yckar aa mille reikande, og erud hryggver þar af? Þaa ſvarade eirn er Cleophas var ad Nafne, og ſagde til hañs: Ertu alleina ſo framande til Jeruſalem, ad þu veitſt eige hvad aa þeſſum Døgum þar iñe gierſt hefur? Enn hann ſagde til þeirra: Hvad er þad? Þeir ſøgdu til hanns: Þad, af Jeſu af Nazaret, hver ed var Spaadooms-Madur, maattugur i Verkum og Ordum fyrer Gude og øllu Foolke. Hvernenn ad vorer Høfud-Preſtar og Høfdingiar ſelldu hañ i Fyrerdæmingu Daudans, og kroſsfeſtu hañ. Enn vier vonnduṁ ad hann munde endurleyſa Iſrael. Og yfer allt þetta er nu hiñ þridie Dagur i Dag, er þetta ſkiede. So og hafa ſkielft oſs nockrar Kviñur af oſs til, þær ed aarla høfdu hiaa Grøfenne vered, og fundu ecke hañs Lijkhama, komu og ſøgdu ſig eirnenn hafa ſied Englanna Siooner, þeir ſem ſeigia hañ lifa. Og nockrer wt af oſs geingu til Grafarennar, og fundu eins lijka og Konurnar høfdu ſagt, enn hañ ſaau þeir ecke. Og hañ ſagde til þeirra: O! þier heimſker og treiger i Hiarta, ad trwa þvi øllu ſem Spaamennerner hafa talad. Hlaut Chriſtur ecke þetta ad lijda, og iñgaanga ſo i ſijna Dijrd? Og hañ took til fraa Moyſi og øllum Spaamønnum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar, þær af honum voru. Og þeir tooku ad naalgaſt Kauptwned þad þeir geingu til; Og hann liet þaa ſem villde hann leingra gaanga, þeir neyddu hann og ſøgdu: Vertu hiaa oſs Herra, þviad

kvollda tekur, og a Dageñ lijdur. Hañ gieck inn og var hiá þeim. Og þad skiede, þa hann sat med þeim til Bords, ad hañ took Braudeð, blessade þad og braut, og riette ad þeim; Þa opnuduſt þeirra Augu, so ad þeir þecktu hañ, og hañ hvarf fra þeirra Augum. Og þeir sogdu sijn a mille: Brann ecke ockar Hiarta i ockur, þa hann talade vid ockur a Veigenum, og opnade fyrer ockur Ritningarnar? og þeir stoodu upp a somu Stundu, og sneru aptur til Jerusalem, og fundu þar ellefu samañsafnada, og þa sem med þeim voru. Hverier ed sogdu; Drottenn er sannarlega upprisenn, og hefur byrst Simoni. Og þeir sogdu hvad giorst hefde a Veigenum, og hvernenn þeir hefdu þeckt hann, i þvi hann braut Braudeð.

## Exordium!

Þessa Haatijdis Dags Evangelio heyrum vier; ad tveir af Jesu Læresveinum geingu fra Jerusalem til nockurs Kauptwns, er nefndeſt Emaus, þad þijder Kastala. Þad giefur mier þa Hugleiding, ad aller viliuni vier, Brædur mijner, laata leida oss wt i einn sterkann Kastala med David, Ps. 108. So vier kunnum ohulter bwa, enn þad er vansied, hvert vier erum aller so fwser til ad gaanga med Jesu Læresveinum wt af Jerusalem: Eg meina ecke hana sem er riett christeña Maña Samkunda hier a Jordunne, Gal. 4. Edur hina sem þar uppe er, hvar vor Uñgeingne ætte ad vera, helldur hana sem er i Þrælkan med sijnum Bornum, hver ed myrdte sinn Konung og giorde hañs Hws ad Ræningia Bæle, Luc. 19. Þad er, wt af hiñe vondu Babylon, Apoc. 17. og 18. Hver ad er Lijkneskia Veralldar þessarar, og ecke lætur af ad krossfesta Drottenn ad niju, og ofsækia hann i sijnum Limum. Vier heyrum i Gudspiallenu, ad Jesus hafe nalægst þessa sijna Astvine a Veigenum, og geinged jafnframt þeim. Sia um til, Brædur mijner, ad vier meigum og nioota hanns Nalægdar a hinne hættu og torvelldu Leid vorra Lijfs Daga, og ad hann gange jafnframt oss, þar til vier erum til vors sijdarsta Herbergis komner. Vier vilium af Dæme þessara tveggia læra. 1. Hvad vier eigum ad giora og ad hafast, so Jesus vilie unna oss sinnar Nalægdar. 2. Hvernenn vier eigum honum ad hallda so vier missum hann ecke. Hialpa oss hier til goode Jesu, og upplijk vorum Augum, ad vier þeckium þig, bænheyr þad Herra, fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingen.

OG Sia Ad Tveir Af Þeim Fooru Þann Sama Dag Til Nockurs Kaup Twns, seiger Textenn. Af hverium? Af hanns Læresvinum sem umgeinguſt med honum, fylgdu honum epter, heyrdu hañs Kieñingar, hlijddu þeim, elskudu

hañ

hañ lifande og hormudu hañ daudañ, enn voru ecke viiſer i Þvi ad hañ være upp' aptur riſeñ. Vilier þu, chriſteñ Madur, ad Jeſus uñe þier Nææalægdar ſiñar, þaa breit epter þeſſum aa allar Lunder, haf þijna Umgeingne nu Jeſu, tala vid hañ i þijnum Bænum i þijnu Hiarta, þaa muntu ſiña ad ſu eilijfa Spekenn Guds hefur Lyſt af ad bwa hiaa Mañañna Sonum, Prov. 8. Fylg honum epter, þad er, tak þiñ Kroſs uppaa þig, añars ertu ecke hañs Læreſveirn, Luc. 24. Hafe Gud þyrmt þier fyrer utvortis Kroſsburde, þaa gior þad þeſs helldur til Þacklætis vid hañ er ſo væger þijnum Breiſkleika, og kroſsfeſt þitt Holld med þeſs Gyrndum og Tilhneigingum, þvi ſo ſeiger Paulus, Gal. 5. Ad þeir giore ſem Chriſto tilheyra, þad eru þeir ſem eru Chriſti Læreſveinar, og nær þu temur þier ſoddañ Kroſsburd, þaa maattu vita ad hañ er þier nææalægur, þvi hañs Kraptur er i breiſkum maattugur, 2. Cor. 12. Heyr hañs Ord, laat þier þad vera ſætara eñ Hunaang og Hunaangs-Eim, Pſ. 119. Gack ydugleg þaangad ſem þad er kient og um Hond haft, og ecke fyrer Sidaſaker, helldur til ad læra nockud þier til Truarſtyrkingar, til Huggunar, til Sidboota, og vert viſs um, ad hañ er þier nææalægur, þvi hvar ſem tveir edr þrijr eru ſamañkomner i mijnu Nafne, þad er til ad prijſa mitt Nafn, heyra mitt Ord, og tala vid mig i ſijnum Bænum, þar vil eg vera midt aa millum þeirra, ſeiger Drotteñ hiaa Matth. 18. Enn um alla Hlute fram, þaa kappkoſta ad naa þvi Hlutſkipte ſem bæde þeſſer hañs Læreſveinar og adrer hlutu, ſem var ad elſka hann, þad maatt þu ſiaa aa þeirra Dæme, þvi lijſer ſiaalfur Drotteñ, er hañ ſeiger: Hvad Er Þad Fyrer Rædu Er Þid Hondled Yckar A Mille Reikande, Og Erud Hryggver Þar Af? Hvar fyrer voru þeir reikande? Þvi Gud hafde ſleiged Hyrdereñ, og Sauder Hiardareñar voru ſundurtviſtrader, Matth. 26. Hvar fyrer voru þeir hryggver? Þvi ad þeirra Meiſtare var tekeñ fraa þeirra Hofde: Hier med ſijndu þeir Elſku þaa, er þeir hofdu aa honum, og ecke leyner Cleophas Orſokeñe til Sorgareñar i Andſvare ſijnu uppaa Spurningu Drotteñs. Siaa hvad kiærañ hañ hefur haft hann ſogdu Gydingar er Jeſus taaradeſt vid Grof Lazari, Joh. 11. Þeſſer ſijndu hvad kiærañ þeir hofdu Jeſum, af þvi þeir ſyrgdu hañ laateñ. Gior ſama, chriſteñ Madur, þar þu veitſt hañ er uppriſeñ, og ſitur til Kraptarens hægre Handar. Elſka Jeſum þaa mun hañ þig elſka, þvi ſo ſeiger hañ, Joh. 14. Hver hañ elſkar mig, hañ vardveiter mijn Ord, og Fader miñ mun elſka hañ, og til hañs munum vid koma, og Viſtar-Veru hiaa honum giora. Born Veralldareñar faaſt ecke miog um þoott þau vante Jeſum, hvar fyrer? Þvi þau elſkudu hañ alldrei. Saa griet ecke fyrer Gull, ſem ecke aatte þad, ſeiger Ordtæked. Heimureñ broſer ſmaatt ad þvi, þoott Jeſus hverfe honum, og þyker ſo ſem þad kome ecke ſier vid, hvert hann er uppriſeñ edur ecke, þegar hañ hefur ſiñ Gull-Hnott ad treyſta aa, þaa er hañ ſaattur. Þegar hañs Svijn, þad eru hañs ſaurug Verk og ohreinar Gyrnder, meiga vera omakslaus, þaa er hañ til frids þoott Jeſus vijke wr hañs Landsaalfum, Matth. 8. Þegar hann hefur ſijn Skwrgod i Dan og Bethel til ad vardveita ſijn Landamerke, og til ad hallda Stioorn yfer Foolkenu, ad ecke falle þad fraa honum til

Guds Þioonustu sem i Jerusalem, 1. Reg. 12. Þad er i Guds Samkundu tijdkast, þaa þykest hañ hafa vijslega um̃ sig bwed, enn þesser voru ei so lynder. Hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu? Þeir Voru Ad Tala A Veigenum Um̃ Alla Þaa Hlute Sem Til Hofdu Bored. Og framar seiger i Textanum: Þegar þeir voru ad bera sig sam̃añ og spyriast aa, hafe Jesus nælægst þeim. Hvert hid fierlegasta Iñtak Ræduñar vered hafe, þad maa siaa af Andsvare Cleophæ, sem er: Ad Jesus hafe vered ofurselldur i Fyrerdæmingu Daudans, og sie nu allt hiñ þridie Dagur sijdañ, eñ Englarner hafe sagt Kviñunum ad hann lifde. Þeir hafa aan Efa vered ad bera sig sundur og samañ um̃ þetta, hvad hier um̃ hallda skyllde. O! hvad satt er þad sem Drotteñ seiger, Esa. 42. um̃ sinn Son Jesum: Þann brakada Reir mun hañ ecke i sundurbrioota, og þañ riwkanda Lijn-Kveik, mun hann ecke wtslockva. Mikell var þesse Veikleike Læresveinaña, hvar fyrer hañ og aatalde þaa hardlega, so sem hier stendur sijdar i Gudspiallenu. Enn meire var þo hanns Giædska sem villde samlaga sig þeim, og vera hiñ þridie Madur aa Reisuñe, til ad leidrietta þaa, ad ei skylldu þeir gaanga framar i þessare Villu.

Lucas skrifar ad þeirra Augu hafe so hallden̄ vered, ad þeir þecktu hañ ecke, þad hefur aan alls Efa af Gude skied: Hefde Drotteñ strax opeñberad þeim sig, þaa hefde hañ ei feinged so Orsok til ad laata þaa skam̃ast sijn fyrer þeirra Vantrw og Þeckingarleyse aa Ritningunum, og ecke til ad kveikia þann Bruna i Hiarta þeirra, sem orsakadest af Utleggingu Spaadoomaña, hañ hafde aadur noogu berlega talad fyrer þeim um̃ sijna Pijnu og Upprisu, Matth. 16. enn þad hafde þo ecke so mikeñ Stad i þeirra Hiarta, ad þeir trydu Kviñunum er sogdu hañ upprisen̄. Mikel var Blyndne þesse, eins og hañ sem uppvakte Lazarum, Joh. 11. Doottur Jairi, Marc. 5. Og Son Eckiuñar af Naim, Luc. 7. Hañ munde ei kuña ad laata sijna Saal fraa sier, og taka hana aptur, nær honum þocknadist, Joh. 10. Nu villde hañ fyrst laata þaa þeckia Vantrw sijna af Utleggingu Ritningaña, og sijdañ auglijsa þeim ad hañ være hiñ same, er þær hofdu um̃spaad, þar var ad soñu eirn Trwar-Neiste i Hiarta þeirra, enn hañ var so diwpt faleñ i Osku Vanþeckingarenar, ad hañ sem visse hvad med þeim bioo, Joh. 2. villde fyrst rydia heñe i burtu med Utleggingu Spaadoomaña, og sijdañ blaasa ad honum med sijnum Anda, so þar kviknade eirn Elldur af, hver ed sijdañ brañ i þeirra Hiarta, hvad þeir sialfer jaatudu. Vidlijka Atferd brwkar Drotteñ eñ nu i Dag vid sijn Born. Hvad opt eru vor Augu so hallden̄, ad vier þeckium hann ecke, þegar vier rotum i einhvern Mootgaang, þaa kollum vier ad hañs Hond sie stutt vorden̄, og ad hañ hafe forgleymt myskunsamur ad vera, jafnvel þoott vier i Guds Orde hofum so morg Fyrerheit um̃ hanns Adstod i Mootlætenu. Þegar oss vantar hañs innre Hugsvolun, siñum ecke til hañs Anda, ecke til Fyrergiefningar Syndaña, oss þykia þær stærre vera, eñ ad þær kunne so audvelldlega ad forergiefast, þaa eru vor Augu so hallden̄, ad vier þeckium hann ecke. Morg eru slijk Tilfelle fyrer þeim sem Gud elska, og þarf þo ei ad kalla þad Tilfelle eins og Læresveinarner hier kolludu, þvi þeir þecktu ei Guds Raad,

miña

minna hender hanns Börn aun hanns Vilia, helldur er þad Reynſla Trwarennar, þegar Menn þykiaſt kallder i Bænenne, kallder i Ydranenne, efaſt umm ſijna Utvalningu, vantreyſta ſier ad þeir ſmae ſtoduger ſtaded allt til Enda. Þegar vier fordæmum ell vor Goodverk, ef þau mea ſo kalla, og ætlum ad Gud mune ei taka þau fyrer Avexte Trwarennar, af þvi þau ſieu ſo ofullkomenn, þegar oſs ſlijkt ad Hondum ber, þaa eru vor Augu ſo halldenn, ad vier þeckium hann ecke. Jaa, þegar ein almenneleg Synd verdur ſo ſtoor i þeſs Augum ſem eckert villde Gude aa moote giora, ad hann ætlar hann mune vera ſier reidur, eins og Læreſveinarner er þeir hofdu gleymt ad taka Brauded med ſier, Matth. 16. Þaa þeckium vier Jeſum ecke. Enn nær vier hofum þannenn yfergiefed ſiaalfa oſs, þaa opnar hann oſs fyrſt Ritningarnar: I Mootlætenu ſeiger hann oſs þad ſama og Læreſveinunum: Byriade Ei Chriſto Þetta Ad Lijda Og Inngaanga So I Sijna Dijrd? Enn ſaa ſkal med honum lijda ſem med honum ſkal dijrdlegur verda, Rom. 8. Laate hann hinn ogudlega vada uppe og hafa Yferhondena, þa ſkipar hann oſs med David, Pſ. 73. inn i Helgedoomenn, þad er hanns heilaga Ord og Ritningarnar, til ad ſkoda þar hvernenn hann breyter vid hinn Gudlauſa, ef vor Saala er orooleg i oſs med David, Pſ. 42. Af einhveriu þvi er eg ſtrax upptalde edur odru þvilijku, þaa ſkipar hann oſs ad bijda epter Drottne, edur vier ſaamu ad heyra med Paulo: Laat þier nægia mijna Naad, minn Kraptur fullkomnaſt i breiſkum, 2. Cor. 12. Og þegar vier ſo hofum leitad ad honum i Ritningunum, þa mun hann vera oſs nalægur, þaa finnum vier hann, þaa blæs hann ad Neiſta vorrar Trwar med ſijnum Anda, ſo ad vier þeckium Pant vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Og efunſt ecke umm Guds Vinaattu nie eilijft Lijf ſo leinge vier hann hofum, þa brennur vort Hiarta i oſs, þar kviknar Elldur Elſkunnar, Elldur Trwarennar, Elldur Kiærleikans, ſem eru Guds Foorner i hanns Muſtere, ſem er vort Hiarta. So er nu Drottenn Jeſus nalægur ollum þeim ſem aa hann trwa þott veiker ſieu. Ounmrædeleg vár Giædſka Drottenns, i þvi ad opennbera ſig Aſtvinum ſijnum ſtrax ſem hann var upprisenn af Dauda, hverier hann þo aller hofdu yfergiefed og fraa honum flwed, Matth. 26. Nema hanns Mooder og Johannes med ſaam-einum Kvinnum, er ſtoodu vid Kroſſenn, Joh. 19. Jaa, Petre ſem honum hafde þriſvar afneitad, ſkipudu Englarner ſier i Lage ad boda hanns Upprisu, Marc. 16. Mariu Magdalenu, fraa hverre hann hafde wtreked ſio Diofla, Luc. 8. Opennberade hann ſig fyrſt allra Manna, Joh. 20. An Efa, þvi hun hefur vered ſorgbitenn og veiktrwud, þvi epter Chriſto ſpurde hun ſo ſem framlidnum Manne: Þeir hafa burt-teked Herrann minn, og eg veit ei hvar þeir hafa lagt hann. Og af Samtale Drottenns vid hana, maa hvad meſt raada, hverſu honum hefur vered ummgiefed ad hugſvala þeirra ormæddum Saalum. Snert þu mig ecke ſagde hann, þvi eg em enn nu ecke uppſtijgenn til mijns Fodur, helldur far til Brædra minna og ſeig þeim, ad eg fer upp til mijns Fodur og ydvars Fodur, etc. Skilie eg þetta riett, þaa er ſw Meiningenn, Maria hefur viliad fagna honum ſem Von var, og þreifa aa honum, enn hann liet ſier ſo annt umm vera, ad hun flytte ſijnum Brædrum ſtrax þennann Fognud,

Þvi varnade hañ heñe þess, ad ecke skyllde hun tefia sig, þvi eg em eñ nu ecke uppstijgeñ til mijns Fodur; Þier verdur noogur Tijme til ad tala vid mig, og þreifa a mier, þar til eg uppstijg, far skyndelega og kuñgior mijnum Brædrum þessa Glede fyrst. Þesse hygg eg sie Meiningeñ i Ordum Drotteñs, edur þvi skyllde hañ añars baña heñe ad snerta sig helldur eñ Thomæ og hinum Læresveinunum, Joh. 20. Eñ hvernenn sem þessu er vared (eg læt hvern eirn raada siñe Meiningu hier um) þa tek eg þetta til Dæmes um fodurlega Giædsku Drotteñs og Medaumkun med þeim trwarveiku, þeir hofdu yfergiefed hañ, hañ leitar ad þeim ad fyrra Bragde, þeir maattu reiknast burt-hlaupner, hann kallar þa sijna Brædur, Joh 20. Þesser tveir sem geingu til Emaus, hofdu ecke nærre vered þegar hiner adrer feingu Bodskapeñ um þad ad Drotteñ hefde byrst Simoni, þo vill hañ ecke ad þeir skule fara varhluta af þessare Blessan, helldur medtaka hana samdægris og hañ uppreis, eins og hiner, hvar af þad ma sia, ad Trwarveikeñ kañ ecke ad hindra Nalægd Christi, helldur so sem good Mooder lætur sier mest umhugad vera þad Barn sem veikter, so er og Drotteñ þeim naakvæmastur er i Trwñe hvad veikaster eru. Ein veik Trw er og Trw, ein vanheil Hond tekur eins vel vid Olmusu og ein fullhraust. Ein lijtel Trw er þo Trw; Eirn Vatns-Drope er somu Natturu og Siooreñ; Ein lijtel Perla er þo Perla; Einn Neiste er og Elldur; Eitt Barn er so vel Manneskia, sem einn fullordeñ, Dvergureñ eins vel og Risenn. Dootter hiñar Canaanisku, Matth. 15. Og hiñ Tunglsiwke, Matth. 17. Bæde voru þau af Dioflenum plaagud, eñ eins hægt veitte Drottne ad lækna hañ, þoott Fader hiñs være trwarveikur, so sem hana, þoott Mooder heñar være trwarsterk, og eins vel hialpade Drotteñ Konungs-Mañenum, Joh. 4. so sem Hundrads-Hofdingianum, Matth. 8. Eñ hvad skulu þeir nu til Marks hafa um þad, sem trwarveiker eru, ad þeir sieu i Trwñe; Hun er so lijtel a stundum og olivos, ad vier þeckium hana ecke þoott hun sie iñe hia oss. Magdalena sa Jesum og talade vid hañ, eñ þeckte hañ þo ecke, Joh. 20. Sama hender og Guds Born, ad þau ei þeckia Jesum a stundum, þoott hañ gange jafnframt þeim, eins og þessum Læresveinum. Skodum þvi Dæme þeirra, og færum þad heim uppa oss, þeir voru sorgbitner; Hvar af? Þvi þa vantade Jesum. Siert þu og hryggur af þvi, ad þu fiñur ecke þiñ Lausnara i Hiarta þijnu, þad er nær þu efast um Syndaña Fyrergiefning, þa leita epter honum med Brwdeñe, er gietur um i Loffvædenu, Cant. 5. Þu veitst ecke hvar þeir hafa lagt Herrañ þiñ eins og Maria, þa brwka þessa Sorg til ad lækna sialfañ þig med. Holld og Blood vekur hana ecke, þad sorgar fyrer þvi sem Madureñ a ad eta og drecka, enn ecke fyrer Christo. Guds Anda Verk er hun i þier, og er Christur þa ecke langt i burtu, þvi hañ og heilagur Ande eru eitt, og mun hann koma i Leitena þegar minst vonum varer.

Þesser Guds Viner voru ad tala um alla þa Hlute sem tilfalled hofdu, um Kraptaverk Drotteñs, þar þeir sogdu hañ hefde vered Spaadooms-Madur Mattugur i Ordum og Verkum: Um hanns Pijnu, um hañs Upprisu sem lioost er af Gudspiallenu:

enu: Haf og þetta til merkis, sie þier iñdællt ad tala uṁ Gud, uṁ hañs Dáadsemdar-Verk, hanns Stoormerke, hanns Velgiorninga; hafir þu þijna Lyst i þessu og meiger giarnañ heyra adra tala þar uṁ, þaa bijr Christur i þier. Eñ hafer þu Leida á Guds Orde, þyke þier uṁ allt añad meira Gaman ad tala, ef þu venur Munn þiñ til sxollrar Rædu, sieu skamarleg Ord og fiflslegt Hial þitt Epterlæte, halldur þu Guds Dijrdkun fyrer eckert, þyke þier lijted koma til þess ad þioona honum, og metur hañs Umbun ei ad miklu, helldur forsmáer þaa er til hañs vona, þaa tak þier Vara, þvi so sannarlega sem Jesus er þeim nálægur, sem lángar epter honum, þoott veiktrwader sieu, so vissulega er hañ þier horfeñ, þoott einkis Meins þykest þu kieña, og fæst ecke aptur nema med heitre Bæn og sañre Ydran. Nu þoott þad sie heilnæmt og Gude þocknanlegt, ad tala uṁ alla Drottens Velgiorninga, þaa er þo eckert huggunarsamlegra, enn ad tala uṁ hanns Dauda og Upprisu, so sem þesser giordu: Þeir toludu i Faafræde og Einfalldleika. Enn Gud giæfe, ad vier sem betur erum uppfrædder i þessare himnesku Speke, helldur enn þeir voru i þad siñ, vier villdum þess helldur láta oss þessar háleitu Guds Dáadsemder til Hiarta gánga, og oss i Nyt færa, sem vier erum sannfroodare hier uṁ. Eckert er þad i voru Sáaluhiálpar Verke, ad Minning Jesu Kvala, hanns Dauda og Upprisu kunne ecke ad wtrietta i þvi Hiarta sem yduglega þar uṁ hugsar. Þegar eg minnest á Synder mijnar, sem opt hafa stygt fráa mier Gud, hinn ypparsta gooda, og mier ecke so hitnar i Brioosté, sem eg giarnan villde, þaa mætte þad koma Sudunne upp á Hiarta mijnu, ad Guds Sonur er fyrer mig rángleitann saklaus kvalenn og deyddur, Rom. 5. Þykest eg i Bænenne kalldur vera, þaa mætte þad smellta Hiarta mitt, ad Guds eingietenn Sonur sveittest Bloodenu, er hann badst fyrer, Luc. 22. under minne Synda-Byrde, og vard þo ecke bænheyrdur, so hann giorde mijna Bæn kroptuga fyrer Gude, þoott hun sie veik. Hafe eg Oþocka á nockrum Manne, og giet ecke so fliott dreped þaa Freistingu, þaa hugsa eg til þess, ad Drottenn miñ bad fyrer Yfertrodslu-Moñunum, þeim er hañ kvolldu, Luc. 23. Og mun eg bráadlega skamast mijn ad rækia þad Lijtelræde, er miñ Brooder mier tilgiorde. Elske eg Heimenn edur nockud þad sem i honum er, þaa rekur hanns Elska þad bráadlega wt, sem doo fyrer mijnar Synder, þegar eg var hañs Ovinur, Rom. 5. So eg meige eilijflega lifa ef eg forsmáae Heimeñ, eñ elska hañ sem mig hefur so heitt elskad. Ofbioode mier Stærd miña Synda, þaa miñer heilagur Ande mig á, ad Gud er dáaeñ i mijnu Hollde, og hafe eg sied hañ dáaeñ fyrer mijnar Synder, þaa sie eg hañ vel upprisiñ mier til Riettlætis, Rom. 4. Læresveinarner þecktu Drottenn i þvi hann braut Braudet; So þeckia og christner Meñ hañ allra best, nær hañ brijtur oss þad helga Braud i Altaresins Sacramento, sem ad er Meddeiling hañs Lijkhama, og drecka þañ Blessunareñar Kaleik er vier blessum, sem og er Meddeiling hañs Bloods, 1. Cor. 10. Þaa er hañ oss hvad nálægustur, þaa siáaum vier hañ hvad best med Augum Trwareñar, þaa þeckium vier hanns guddoomlega Elsku, og skodum hañs Myskunar-Ydur

algior-

algiorlega, ad hann ecke einasta hefur giefed sitt Lijf i Daudann fyrer oss og wthellt sijnu Bloode, helldur og sæder Saaler vorar aa þvi hinu sama oss til Trwarstyrkingar um alla sijna Velgiorninga, þar kunngiorum vier hanns Dauda, þar skodum vier hann uppriisinn, þvi læge hann enn þaa i Grofinne, hvernenn mætte hann giefa oss sitt Hoilld ad eta edur sitt Blood ad drecka? Nu hefe eg so nockud talad um, hvernenn vier eigum ad skicka oss so Jesus vilie oss nalægiast. Epterfylger ad minnast med faaum Ordum, hvernenn vier eigum ad hallda honum, so vier missum hann ecke.

Þad er ecke minna verdt ad giæta feingens Fiaar, enn afla þess, og þad maa seigia um Jesum; margur hefur ad sonnu feinged hann einusinne inn til sijn, er þo hefur mist hann sijdann, og sumer alldrei aptur feinged. Judas sellde hann eitt sinn fyrer Agyrndar-Saker, Luc. 22. Og miste hanns so ad Eilijfu, hann mun sier marga Stall-Bræbur i Heimenum eiga. Petur miste hann og, enn fieck hann þo aptur med beiskum Græte, Matth. 26. Þvi er þad vijst hier af, ad Menn kunna ad missa Jesum, þo ott Menn hafe eitt sinn noted hanns Nalægdar. Þar fyrer bannar Paulus og ad hryggia Heilagann Anda, Eph. 4. Jaa, hann seiger: Vier skulum ei slockva Andann, 1. Tess. 5. Sonnu Atburde skal til þess hafa ad sonnu ad hallda Jesu, so sem ad lada hann ad sier i fyrstunne, hvorugt gieta Menn aan Guds Anda, þvi eingenn kann Jesum Drottenn ad nefna fyrer utann hann seiger Paulus, 1. Cor. 12. Enn ad mootstanda ecke Heilogum Anda, þad er i Mannsins Vallde, sierdeilis þess sem endurfæddur er med Vatne og Anda. Eg vil eitreka þad aptur sem aadur er sagt, um þad ad niota Jesu Nalægdar; enn eitt sie eg hier i Fare Lærsveinanna, sem batt hann so, ad hann gieck inn og var hiaa þeim: Hann Liet Sem Hann Villde Lengra Gaanga; Enn Þeir Neyddu Hann Og Sogdu; Vertu Hiaa Oss Herra, Þviad Kvollda Tekur Og A Dagenn Lijdur. Hvilijk ad hafe vered Naudung þesse, er aud sied hier af, þad var ein audmiwk Bæn; Soddann Ofrijke hefur Drottenn opt lided; So neydde hann Konungs Madurenn, Joh. 4. So neydde hann hin Canaaniska, Matth. 15. So neydde Abraham Gud, er hann bad fyrer Sodomitum, Gen. 18. So neydde Moyses hann, er honum tookst ecke annad enn mykuna Israel; So neydde Jacob hann, er hann sagde: Eg sleppe þier ecke, fyrr enn þu blessar mig, Gen. 32.

Jesus lætur opt sem vilie hann leingra gaanga, þegar hann leggur oss sinn Kross aa Herdar, enn vier siaaum ecke ad hann er oss nalægur, so sem aadur er sagt: Þegar vor Eyrende luckast ecke, sem vier þo rekum i hanns Nafne, fyrer Mannanna Ofbeldis Saker, enn vier þeckium ecke hanns Tilgang, Hvad skal þaa hier til giora? Eigum vier þaa ad sleppa honum, og leita Raads hiaa Heimenum? Fiærre sie þvi, hvad þaa? Giorum eins og þesser giordu; Neydum hann med audmiwkre Bæn og Andvorpunum, ad hann vilie hiaa oss vera. Eingum af oss hefur þvilijk Sorg tilfalled, sem þessum Guds Vinum, þeir hofdu mist hann, sem þeir hofdu allt sitt Traust aa, fyrer hvern þeir kannske hofdu yfirgiefed alla Hlute, eins og Petur sagde um þaa toolf, Matth. 19. Þeir

voru epter i Hers-Hondum, og þordu valla ad siaa uppaa nockurn Mann, þar aller vissu ad þeir hofdu vered hañs Læresveinar, er so mijnkunarsamlega var wtleikeñ fyrer skoñu, og hversu uggvænt þeim vered hafe, þad sijner oss bæde Dæme þeirra er forlietu hañ i Grasgardenum, og St. Peturs, er Otteñ þreingde honum til ad kañast ecke vid hañ, fyrer hvern hañ þo skoñu aadur villde Lijfed laata, Matth. 26. sem og þad, ad þeir lokudu Dyrunum ad sier, fyrer Hrædslu saker vid Gydinga, Joh. 20. Samt neyddu þeir þennañ framande Mañ, (þvi ei vissu þeir þaa añars) til ad vera hiaa sier: Hvar fyrer? Af þvi hann talade uñ Jesum, og opnade fyrer þeim Ritningarnar, so þeirra Hiarta brann i þeim. Þessum Mañe villdu þeir ecke fyrer hvern Mun sleppa. Eñ þu Guds Barn, sem þecker Jesum og veitst hañ uppriseñ og setstañ til Kraptarens hægre Handar, ad hañ bidie fyrer þier, Rom. 8. Villt þu ei taka þetta sama Raad, þegar þier sijnest hañ vilie fram̃ hiaa þier gaanga? O jw Guds Barn, fodurlegt Hiarta hefur Gud: Þañ er hægt ad locka, er sialfur vill dansa, þu tekur alldrei so feigens Hende vid Guds Naadar Hugsvolun, nær þig lángar epter Drottne aa Þurrlendenu eins og David, ad hañ sie ecke liwfare til ad veita þier hana. Þegar Alexander hiñ stoore hafde lagst uñ Borgena Tyrum med sijnum Her-Flockum, þaa skrifar Plutarchus, ad suma af Bæar-Moñunum hafe dreymt, ad Godeñ villdu flytia wr Borgeñe og i Herbuder Konungs, enn þeir bundu þau med Hleckium, ad ei skylldu þau burtu komast. O! hversu miked hofum vier christner Menn Gude ad þacka? Graatlegt er til þess ad vita, hverneñ Andskoteñ hefr blindad Vantrwareñar Born. Vesælings Guder voru þad og aumur Atrwnadur, ad trwa aa þañ sem þeir ætludu ad þeir mundu faa til Faanga teked, eñ Drotteñ Jesus hefr feinged oss adra Feste til ad binda sig med, þad er hañs eigeñ Bæn, hver ed ritud stendur hiaa Luc. i 11. Cap. og Matth. 6. Og skoñu sijdar i sama Capitula kieñer hañ oss, hverneñ vier skulum leggia þesse Bond aa sig, med þessum Ordum: Bidied og mun ydur giefast, leited, og munud þier fiña, knyed aa, og mun fyrer ydur uppioked verda. Og eñ þaa framar kieñer hañ oss, hversu ad þesse Feste sie sterk og obilande, er hañ seiger: Þvi hver sem bidur, hann skal medtaka, og hver sem leitar, hañ skal fiña, og hver sem aaknijr, fyrer honum skal uppioked verda, enn nu þessu hefur hañ sijnt, ad oss ecke einasta byriade oaflaatanlega ad bidia, so sem Lucas vottar, 18. Cap. Helldur heitt og aakaflega, eins og Drotteñ i Grasgardenum, Luc. 22. Eins og Tertullianus skrifar uñ Christna aa sijnum Dogum, ad þeir kome samañ i eitt, og med nockurskonar Fylkingu og Athlaupe take Gud til Faanga. O! hvad olijk er þesse kallda Verolld slijku? Meñ hyggia þad sie noog, ad falla aa Knien og hallda Klwtunum fyrer Auguñ, og murra þar eitthvad er þeir ei sialfer skilia, eins og Esajas skrifar uñ Phitons Andañ, og þaa sem fooru til Frietta vid hina daudu, Esa. 8. Er þetta Samneyte heilagra? Er þetta hin sanna christelega Kyrkia? Mun nockud Andeñ bidia fyrer þeim med oum̃rædelegum Andvorpunum? O! vei, sannlega seige eg ydur, ad betra er alldrei ad bidia, þvi

þeirra Bæn verdur ad Synd, Ps.109. Og þeirra Guds Þioonusta ad Offre hinns ſavijſa, Ecc.5. Þeſſara Læreſveina Hiarta brañ i þeim ædur eñ þeir neyddu hann med ſier iñ ad ganga. Sia og til chriſteñ Madur, ad þu æ einhvern hatt faer ſmellt þitt Hiarta, ædur eñ þu krijpur fram fyrer Guds Hatign i þijnum Bænaſtad: Þad er hægt ad giora i Kyrkiuñe under hañs Orda Heyrn, ef þad er riett predikad, og þu liær þvi Eyruñ, og þar fyrer utañ, ſtrax ſem þu Augunum upplijkur æ Morgna, þa ihuga hañs Giædſkú og þijna Illſku, hañs Tign og þiñ Overdugleik, hañs Velgiorninga og Vernd yfer þier, og þitt Hyrduleyſe og Vanþacklæte, og nær þu hefur ſo giort um Hrijd, þa gack til Bænareñar, og bid Andañ ad bidia mz þier, þvi þu viter ei hvers þu ætt ad bidia, Rom. 8. Brwka ſömu Atferd æ Kvölldum, og lat þeſſa Þanka ſvæfa þig, þa er þad vijſt, ad þu verdur æ einhvern hatt bænheyrdur, Act.7. Moyſes var eitt fagurt Barn Alits, ſem Ritningeñ ſeiger, hann predikade ſo vel fyrer Doottur Pharaonis med Barns-Gratnum er hañ la i Reyr-Kiſtlenum, ad hun komſt vid i ſijnu Hiarta, og ſa aumur æ honum, Exod. 2. Miklu fegre mun ſa vera i Guds Augſlite, ſem med Jeſu Bloode er ædreiſdur. O! hverneñ munu hanns Myſkunar Ydur ſa leint ſier nær hañ heyrer þeirra Grat, og ſier þeirra Tar ſem wt eru hellt i hid rauda Haf Guds eingietens Sonar dijrmæta Bloods, hvert miklu betur kallar enn Abels Blood, Heb.12. Þar fyrer mijner elſkuleger, gleymed ecke ad bidia jdugslega og alvarlega um Nærviſt Jeſu: Slepped honum ecke fyrr eñ hann bleſſar ydur til fulls. Þegar honum er tapad, þa er öllu tapad, medañ þier honum faſt hallded, þa er öllu hallded, þoott þier miſſed alla Hlute, og jafnvel ſialft Lijfed, þa erud þier jafnrijker, þegar þier eiged hañ ſm allt Valld er giefed bæde æ Himne og æ Jördu, Matth. 28. Og hafe þar nockurn Tijma vered Þorf æ ad neyda Jeſum til ad ganga inn til ſijn, og vera hia ſier, þa er þad æ þeſſum ſijdurſtu og verſtu Dögum. Vert Þu Hia Oſs HErra, Þviad Kvöllda Tekur Og A Dageñ Lijdur, ſögdu þeſſer Guds Menn. Þad ma kalla, ad alla reidu take miög ſo til ad kvöllda i Heimenum: Myrkur Rangslæteſins taka til ad byrgia fyrer oſs Sool Riettlæteſins, hin ſaña Guds Þecking og Skilningur æ hañs H.Orde, er umſnweñ i Kapprædur og Þrattaner. Þeir ſem eiga ad hafa Lykel Viſkuñar, ſtunda þad meſt hverneñ þeir meige flækia adra i Spurningum, þeim er þeir ecke ſialfer ſkilia, og þykiaſt mikler Menn, þegar þeir vel muñhöggvaſt, eñ hiñe ſöñu Þeckingu Guds og hañs Lærdooms ſleppa Meñ nu um Stunder, og þad velldur þvi, ad nockru leite, ad Lijferned er eingañveigeñ ſo ſem chriſtnum ſoomer, þar Meñ lata Guds Rijke vera foolged i Ordum einum. Meñ hafa Skyn Gudhrædsluñar eñ afneita heñar Krapte, 2.Tim.3. ſo varla er ad fiña Trw æ Jördu, Luc.18. Eg meina þa Trw ſem verke fyrer Kiærleikañ, Gal.5. So þad er ſtoor Naudſyn öllum Guds Börnum, ad neyda Chriſtum ad vera hia ſier, þar allt teiknar til þeſs, ad Dagur Drotteñs mune ei langt i burtu vera, og þoott ei være, þa veit eg ecke nema þad Augnablik ſem eg liſe æ, ſie Kvölld miña Lijfdaga, þvi vil eg Jeſu hallda og honum ecke

ſleppa,

ſleppa, ſo nær ſem eg dey, þa deye eg med Lauſnara miñ i Fadmenum, og ad hvert ſem eg life edur dey, þa ſie eg' hañs, Rom. 14. Slepp þu mier, ſagde hann fordum vid Jacob, þviad nu Dagar, Gen. 32, Miñ Herra, eg vil ecke ſleppa þier, þviad nu kvølldar; Eg ſleppe þier ecke fyrr eñ þu bleſſar mig, þvi eg veit ecke nær eñ Myrkur Daudans byrger miin Augu. Nootteñ er umlideñ, eñ Dagureñ tekur ad nælgaſt ſagde Paall ä ſijnum Døgum, Rom. 13. Þad var og ſatt, þviad þa var Sool Riettlætiſins, ſo ad ſeigia, nijlega uppruñeñ og ſkein fagurt i Heimenum leinge fram epter Olldunum. Eñ nu ætla eg ad þeſſu meige umhverfa, og ſeigia: Dagureñ er hartnær umlideñ, eñ Nootteñ er i Nænd. Vert þvi hiä oſs Herra, þviad kvollda tekur og ä Dagenn lijdur. Jä; O Herra Jeſu Chriſte! þegar dregr ad Rockre Æfe vorrar, og vor Augu taka til ad formyrkvaſt i Daudanum, ſo þau ſiä ecke leingur; Vert þu þä hiä oſs þegar aller hafa forlæted oſs, og vier ſiälfer høfum yfergiefed oſs, eñ varpad Sälu og Lijfe i þiñ Myſkunar-Fadm, lät oſs þa leggia vora Trwar-Hond i þijna Sijdu, og heñar Fijngur i Naglaføreñ, og gief ad vier þa ſieum trwader og ecke vantrwader. Upplijk þa vorum Sälar-Augum, ad vier þeckium þig oſs af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og til eilijfrar Säluhiälpar. bænheyr þad goode Jeſu, fyrer þitt Blood og Forþienuſtu, Amen, i Jeſu Nafne, Amen.

# Pridia Dag Pæſka.

Gudſpialled, Luc. 24. Cap.

A Þañ Tijma. Þä Læreſveinarner voru nu eñ ad tala um þetta, ſtood ſiälfur Jeſus midt i mille þeirra, og ſagde til þeirra: Fridur ſie med ydur. Eñ þeir ſkielfduſt og urdu hræddær, og meintu ad þeir ſæi Anda nockurn. Og hñ ſagde til þeirra: Hvar fyrer ſkielfeſt þier, og hvi koma ſlijker Þanckar i ydar Hiertu? Siäed mijnar Hendur og mijnar Fætur, ad eg em þetta ſiälfur. Þreifed ä mier og ſkoded, þviad Ande hefur ei Holld og Bein, ſo ſem þier ſiäed mig hafa. Og þa hañ ſagde þad, ſijnde hann þeim Hendur og Fætr. Og er þeir trwdu eñ eige fyrer Fagnadar Saker, og undrande þad, þä ſagde hañ til þeirra: Hafe þier hier nockud matarlegt: Og þeir løgdu fyrer hañ Stycke af ſteiktum Fiſke, og Hunangs Seim, og hañ took þad og ät fyrer þeirra Augum. Og hann ſagde til þeirra: Þetta eru þau Ord, Hvør eg talade til ydar, þä eg var eñ nu hiä ydur, þviad þad hlaut allt ad fullkomnaſt ſem ſkrifad er af mier i Moyſis Løgmäle og i Spämañaña Bookum og Pſalmum. Þä opnade hañ þeirra Hugſkot, ſo ad þeir ſkildu Ritningarnar,

nar, og sagde til þeirra: so er þad skrifad, og so byriade Christo ad lijda, og upp ad rijsa a þridia Deige fra daudum, og predikast lata i sijnu Nafne, Ydran og Fyrergiefning Syndanna a medal allra Pioda, upphefiande i Jerusalem. Enn þier erud Vottar allra þessara Hluta.

## Exordium.

Fridur a Jordu og Monnum goodur Vilie, swungu Englarner fordum, þegar Mannkynsins Endurlausnare var i Heimen borenn, Luc. 2. Þa mattu þeir himnesku Andar lijsa þessu Fridar-Bode i Umbode sins Herra, þar hann la eitt omalga Barn i Stallenum, og atte þo margt epter ogiort, sem ad þurfte til ad semia þennann Frid mille Guds og Manna. Enn nu, þar hann fyrer Krossens Dauda hafde asmaad allann Ovinskap sem hanns utvallda matte fra eilijfum Fride hindra, þa lijser hann sialfur þessum Fride yfer sijnum elskulegum Læresveinum, hverier ad sijdann fooru med þetta Fridar-Bod wt um allan Heimen epter hans Skipan. Enn fyrer þvi, ad vier erum og þessa Fridar-Bods hluttakande vordner, þa vilium vier af Gudspiallenu hugleida. 1. Hvilijkur ad sie þesse Fridur. 2. Hvernenn vier eigum honum ad taka. Þar til hialpe oss hinn goode Gud, fyrer Jesum Christum, A M E N.

## Utleggingen.

Hvilijkur ad þesse Fridur sie, Brædur mijner, þad sia Men, nær Men athuga hvilijk ad var Sekt Mankynsins, er þad styggt hafde hinn almattuga Gud. Er Fridur Jehu? Sagde fordum Joram Israels Konungur, er han mætte honum a Veigenum, en Jehu svarade: Hvad gillder þig um Frid? Þar Hordoomar og Tofrar Moodur þinar vara en nu, 2. Reg. 9. Ad vijsu er þad satt, ad vor fyrsta Mooder hafde ecke þær Skamer adhafst sin Jessabel, en þo ma ecke þvi neita, ad af hennar fyrstu Synd, eru komnar allar þær Synder, er i Heimenum hafa sijdan drygdar verid. Þeirra Sekt varde allt til þess ad vor Fridar Hofdinge neglde þa Handskriftena a Tried, sem i giegn oss var, under eins og hans blessudu Hendur og Fætur voru a Kross en negldar. Þar var eingen riettkalladur Fridur adur fyrer syndugt Mannkyn, jafnvel þoott ad Synden være allt þangad til under Guds Þolenmæde, Rom. 3. Noe bygde Drottne eitt Altare, epter þad hn var frelsadur af Vatns-Floodenu og foornfærde þar a allra handa hreinum Dijrum, so ad Gud lyktade eitt Sætleiks Ilm og lijste Fride yfer Mankynenu, seigande: Ecke vil eg framar bolva Jordunne fyrer Mannsins Saker, Gen. 8. Þesse Fridur naade þo ecke neina til lijkhamlegs Frelsis, en þa voru Saalernar okvittar vid Gud, nema han hefde vitiad vor upprunen af Hædum i sijnum Myskunar Yfrum med Sendingu sijns eingietens Sonar i vort Holld, þegar þad saklausa Guds Lamb var a Krossenum foornfært fyrer allar Veralldarennar Synder,

er, med hverlu ad bæde Noa og allar adrar gamla Testamentesins Foorner eru helgadar og fullkomnadar, þaa lyktade Gud til fulls eirn Sætleiks Ilm. Og þegar hañ hafde hiaalpad honum wt af Daudanum, sem Paulus seiger, Hebr. 5. wt af þvi Reidennar Floodi sem gieck iñ ad hañs Saalu i Kvoleñe, þaa hefur þesse mikla Hetia, ad uppleystum Daudans Fiotrum med ollum Riette lijst þessum Fride yfir sijnum Brædrum. Þegar Brædur Josephs hofdu funded Fied i Seckiunum, er þeir ecke aattu Von aa, þaa urdu þeir Ottaslegner, so þeir vissu ecke hvad þeir skylldu til Raads taka, Gen. 43. Þaa sagde Raads-Madur hañs til þeirra: Fridur sie med ydur, otteſt þier ecke, ydar Gud og ydar Fodurs Gud hefur sendt Fied i ydar Sioodu. Þeir hofdu i þad siñ eckert illt giort, samt ottudust þeir og meintu sier munde kient verda um þessa Varmensku. Eñ hvad hafde syndugt Mañkyn i moote Gude giort? Þad hafde rænt hañ sijnum Heidre, þad hafde lijflaated hañs eingietenn Son med sijnum Illgiordum, og ofañ aa allt þetta ecke þeckte meir siñ Vitiunar-Tijma, Luc. 19. helldur enn Jacobs Syner vissu hverneñ Fied var apturkomed i Secke þeirra. Veralldleiger Hofdingiar, er þeir giora Frid vid añañ, þaa stadfesta þeir hañ med Brefum og Ritningum, edur og seliast Gisla aa. Þess þurfte ei hier af vorre Hende, þvi vier aattum vid þañ eirn ad skipta, sem einga Vissu þurfte af vorre Alfu og aa alls Koste vid oss, ef vier ecke holldum hañs Fridar Saattmaal. Eñ so hañ tæki allañ Efa fraa sijnum Læresveinum um þetta Fridar-Bod, þaa sijnir hañ þeim þad, sem ollu sterkara og obrigdulla var enn nockurs Konungs Hond edur Innsigle, er hañ sijnde þeim sijnar Hendur og Fætur. Gledelegt var þetta Fridar-Bod Læresveinunum, Br. M. enn ecke hofum vier miña þeiged i þvi, hverra Fedur voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Hvilijkur er hañ sem vier hofdum flwed fraa, jaa, fraa hveriumi vier daglega flijum, og brioostum hañs Naad af oss med Syndunum? Þad er Konungur Himens og Jardar, Drotteñ sterkur Vandlætare, vitiande Raanglætis Fedrañna aa Sonunum i þridiu og fioordu Ættkvijsl, Exod. 20. Jaa, munde vitlad hafa i Þusund Lidu allt til Enda Veralldar, nema ad vier riettlætter fyrer Trwna hefdum Frid vid Gud fyrer Drottenn vorn Jesum Christum, Rom. 5. Nu er þad vijst, ad Syndenn reiknast so stoor sem hañ er til, sem hun er aa moote giord. Eñ um Guds Hatign er kuñugra, eñ fraa þurfe ad seigia. O Guds Barn! Hvilijk Glede er þad þaa ad hafa Frid feinged vid soddann Konung, og soddann eirn Frid, sem alldrei um Æfe maa riwfast, nema hañ af oss rofiñ verde? hvar fyrer þvi er ecke ad gleyma, ad skomu adr eñ Drottenn fieck Lærisveinunum i Hendur Lykla-Vallded til ad fyrergiefa og apturhallda Syndunum, þaa lijste hañ Fride yfir þeim, Joh. 20. Þar fyrer nær þesse Fridur til allra þeirra sem taka Kvittun Synda siñа af Gude fyrer hañs Raads-Mañа Þioonustu. Hun er eitt Aflaatz-Brief sem Christur underskrifar med þeirra Hende aa Hofud allra Riett-Trwadra, enn innsiglar þad sialfur i þeirra Hiarta med heilogum Anda, hver ad er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þess gietur Paulus, 2. Cor. 5. Seigiande: Gud hefur i Christo sætt Heimenn vid sialfañ sig, tilreiknande þeim ecke þeirra Yfer-

trodslur, og leggiande oss uppæ ad boda Forlijkun þessa. Þvi hvers Synder kvittar eru, hañ hefur Frid vid Gud, Frid vid hañs Løgmaal, og Frid vid Samvitskuna. O! hversu fagrer eru þæ Fætur þeirra sem Frideñ boda, Esa. 52. Og hvad kuñe gledelegra þeim ad bodast, er sætu i Myrkrunum enn þesse Fridur, Nah. 1. So vier meigum þvi fagna er Zach. skrifar Cap. 9. Hann mun fyrer Testamentesins Blood wtleida hina bundnu af þeirre Grifiunne, hvar eckert Vatn var inne, og boda Heidingiunum Frideñ. Og hefur hin eilijfa Giædska ecke lætед þar med bwed, ad hañ hefur giefed oss Syndernar kvittar, og giort Frid vid oss i sijnum Syne. Þad dijra Gialld sem hin eilijfa Hætign lauk i voru Hollde a Krossenum, mætte enn þæ meire Blessan, meire Sælu, og meire Fognud afreka, þad var, ad hañ sette oss i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Hvert ad ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i heilogum Anda, Rom. 14. Þegar veralldleiger Hofdingiar giefa einhveriu Grid, þæ þykiast þeir vel giora ef þeir læta hañ hallda Lijfi og Lands-Vist. David gaf Simei Lijf, 2. Sam. 16. Og þootte vel giort wr þvi sem ræda var. Salomon gaf honum Lands-Vist, þo med þvi moote, ad hañ færi ecke wt af Jerusalem, 1. Reg. 2. Josua gaf Gibeonitunum Frid, og þad til ad hallda Loford sitt er hañ villde ecki bregda, og lagdi hañ þeim þo nockurskonar Þrældoom uppæ, ad hoggva Trie og bera Vatn til Þionustugiordarennar, Jos. 9. Eñ hvad er Gud skylldugur ad hallda vid oss Meñina sem daglega briootum þañ Eid er vier uñum honum i Skijrnenne, nær hañ trwlofade oss sijnum Syne fyrer hanns Blood med heilogum Anda. Jæ, hvad opt hofum vier rofed þad Heit, er vier so tijdt hofum giort honum i Skriptar-Stoolnum, ad aflæta og skiæ vid Syndunum? Og samt hefur hann ecke einasta uppgiefed oss, og daglega uppgiefur ollum þeim, sem vid hann fridmælast, alla Skulldena, og þau morg tiju Þusund Punda, er vier so tijdt verdum honum skylldugir, Matth. 18. Helldur lofar oss omælanlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, fyrer Muñ sijns Þienara St. Páls, 2. Cor. 4. Ollum þeim sem bera vilia hid sæta Ok Christi, og hanns liettu Byrde. Jæ, ollum þeim ed sier til hañs snwa vilia fræ sijnu illu Athæfe og vondre Breitne, allt fram under Daudastundena. Hvilijkur er þa þessi Fridur? Edur hver fær hañ nooglega prijsad? Ecke hefur Drottenn heited sijnum Bornum Veralldareñar Fride, miklu helldur seiger hañ þeir skule hafa Angist i Heimenum, Joh. 16. Enn þvi hefur hañ lofad ad þeir skylldu hafa Frid i sier, Joh. 15. Jæ, þann Frid sem Verollden kañ ei ad giefa, og þann Frid sem eingeñ kañ af oss ad taka, Joh. 16. So leinge vier hofum Frid vid hañ, sem oss þeñan Frid alleina giefed hefur og giefa kañ, eñ eingeñ aññar. Þar verdur alldrei so tryggelega bwid um nockra Veralldariñar Sætt edur Fridar Giorning, ad Meñ kuñi ad seigia ad hañ skule leinge stadfastur vera. Hañ kañ ad vara i tveggia Konunga tijd þeirra æ mille, medañ þeir lifa bæder, og þo ecke alltijd. Hvad leinge hiellst Sætteñ æ mille Syrlands og Samariam, er Achab og Benhadad giordu? 1. Reg. 20. Hversu vel efnde Ptolomeus þad hañ heited hafde Doottur-Mañe sijnum Alexandro, edur Rom-

kveriar

veriar Gydingum? 1. Macca. 10.og11. Enn uppa þañ Frid mꝏ reida sig, er Gud heiter oss syndugum Moñum, þar er alldrei Lijge fundeñ i hañs Muñe. Eckert er tijdara enn þad i Heimenum, ad þegar tveir hafa osꝏtter vered, og þeir sꝏtast þo sꝏttast hvilum Sꝏttum og jafnvel sveriast Eida ꝏ, ad sꝏ bregdur af er sijdañ fær Vallded meira, og fiñur sier allt til Orsaka helldur eñ ad hañ ecke hefne sijns Vansa, sierdeilis ef hañ þykest hafa orded under i Sætteñe, þvi er þesse Meals-Hꝏttur Heimsins: Vakta þig fyrer þeim Vin er þu hefur sꝏttst vid. Eñ þetta er ecke ad ottast hiꝏ Gude, oll hañs Verk eru Myskun og Sannleike, Ps.25. Hann er trwr, sialfum sier kañ hann ecke ad neita, 2.Tim.2. Nema ef vier vilium kalla þad Brygdmꝏlge, ad þær Hefnder koma ecke strax yfer vondar Giorder sem hañ hefur hootad þeim, enn vier bregdum daglega af, og ecke gietum vier uñ eitt Augnablik hallded vor Sꝏre, þo hefur hann ecke ꝏtskwfad oss, ecke hefur hann eñ nu broted þañ Frid vid oss, sem hañ giort hefur vid aumt Mañkyn fyrer sijns Sonar Dauda, Rom.8. Jafnvel þoott þad iꝏta meige, ad ꝏ þessum Tijmum hafe allt Holld fordiarfad siñ Veg, ei sijdur eñ ꝏ Dogum Noa, Gen.6. so Meñ kuña einga Orsok til þess ad fꝏra, ad huñ strꝏnge og riettlꝏte Doomare, ecke kollsteipe þessare vantrwudu Verolld, nema þꝏ, ad hann er Gud og ecke Madur, Hos.11. Þetta munu Ofgar þykia er eg tala, enn giætum ad, hversu fleire Manneskiur þar eru nu i Heimenum eñ ꝏ Dogum Noa, hversu lijtell ad er Christeñdoomureñ hiꝏ Heidingiunum; Hvad fꝏer af Christeñdoomenum sem iꝏta þa riettu Trw, og hvad fꝏer af þeim sem hana iꝏta, er fꝏra verduga Avoxtu heñe. Hverneñ ꝏ þessu stendur, veit Gud eirn, þad er ei Moñunum uñt ad vita. Verda mꝏ ad þar sieu fleire Guds Born eñ Meñ hyggia, þvi Elias visse jafnvel ecke ad þar voru so morg Þusund i Israels Rijke, sm ecke hofdu beygt sijn Knie fyrer Baal, 1.Reg.19. Eñ ættu Meñ epter ytra Alite edur mañlegre Skynseme ad dꝏma, þꝏ kyñe einhver ad vijsu ad ætla, ad i Solld þessare mundu ecke ollu fleire vera riettlꝏter, epter þvi sem Tala rennur til, helldur eñ fyrer Flooded. Þetta skrifa eg alleina til þess ad Meñ þecke Guds ouñrꝏdelega Giædsku og Trwfeste, ad hañ helldur vid oss eñ nu i Dag þad Sꝏttmꝏl er hañ giorde vid Noa. Hvad miklu framar mun hañ þꝏ hallda þꝏ Sꝏtt er hañ giort hefur vid sijna wtvallda i Christo. Þess er og ad giæta, Brædr mijner, ad þoott vier giorum Frid vid Meñena, sm oss volldugre, gofugre, og sterkare eru, þꝏ er ecke trwtt uñ ad þeir kuñe ad duga oss þoott þeir villdu, nær adrer þeim sterkare rijsa ꝏ moote oss, þvi allt Holld er Hey, seiger Rodd Hroopandans, Es. 40. Lijted gagnade þad Juda og Ephraim, ad þeir sendu til Konungsins af Assyria og Egyptalande, þvi Drotteñ sagde: Hann skal ecke kunna ad grꝏda ydur, og ecke ad lækna ydar Sꝏr, þvi eg em so sm grimt Leon ꝏ moote Ephraim, og so sm ungt Leon ꝏ moote Juda, Os.6. Soddañ Muñ er nu ꝏ þeim Fride sm Verollden giefr, og þeim er Gud giefr: Sieu þeir so mꝏttuger, so vinsterker, so frændmarger sem þeir vera vilia; Eg ꝏ eirn Vin sem alldrei skal bregdast; Eg em hañs, og hañ er minn, Cant.6. Hañ er megnugur uñ ad setia Krook i Zena-

cheribs

cheribs Naser, Es. 37. Hann gietur dreckt Pharao og hanns Vögnum, og Reid-Monnum, Exod. 14. Hañ kañ ad slaa Jeroboams Her, þoott hañ hafe umkrijngt Abiam, 2. Par. 13. Og þockuest honum ad laata vonda Meñ hafa Yfer-Hondena, þaa vil eg seigia med David. Giore hañ vid mig hvad gott er, i hañs Auglite, 2. Sam. 15. Þad næger mier, ad eg hefe Frid vid hañ sem er Gud Fridarens, 2. Cor. 13. Hann giefur mier Frid i Ossooknunum, Rijkdoom i Armoodnum, Virdingu i Forsmaaneñe, Heilbrygde i Siwkdoomenum, Sadning i Hwngrenu, Glede i Sorgeñe, þad næger mier ad hañ er minn Vinur, þegar aller mijner Viner hafa mig yfergiefed.

Seiged mier, hvad vill Verollden giora þeim er Gud hefur giort so lynda? Ecke meir eñ eitt Barn einum Risa, edur Skollahvelpureñ Leonenu. Ef eg er i Lande einu hveriu, þar sem herskaatt er, enn veit þo ad þar er Fridur i mijnu Lande, hvar eg hefe Bw mitt, mijna Vine og Frændur og allañ lijkhaunlegañ Varnad, þaa er eg þo betur til Frids þoott eg sie medal Ovina staddur, eg er ei nema ein Mañeskia, eg vil seigia med Spekingnum; Eg ber allt mitt med mier, eg vil aa einhvern Haatt slaa til hverneñ eg Lijfs afkomest og naae mijnu Fodur-Lande. Guds Born eru ad soñu i Hers-Hondum, i Utlegd þessare, enn þeirra Umgeingne og þeirra Borgar-Riettur er aa Himnum, Phil. 3. Allt hvad þau hafa i Verolldeñe, þad er ecke þeirra, Gud gaf þad ad soñu þeim til Brwkunar og Medferdar, enn þau hafa ecke fest Hiarta sitt þar vid, helldur hafa þau þad Gude aptur giefed, eru þad Gotz edur Gardar, Metord og Virdingar, Gull edur Silfur, þad er ecke þeirra eiged, þad er Christs Fie allt saman, og jafnvel sialft Lijfed, enn þeirra Fasta-Eign er aa Lande lifande Manna. Eg vil sia til hverneñ eg kuñe ad naa þaangad lijfs, hvar eingeñ skal Lijfed fraa mier taka, hvad mier alldrei mun bregdast; so leinge sem eg hefe Frid vid hañ, sem er Fridarens Gud, sem er Lijfsins Hofdinge, Act. 3. Jesus Christus, hver ed daudur var, og sia hann lifer, Apoc. 1. So leinge eg veit minn Endurlausnare lifer; so ottast eg eckert Strijd, honum er ecke um Megn ad leidseigia mier i giegnum minna Fiandmanna Hendur, jaa, i giegnum sialfann Daudann inn til Lijfsins, og ad laata mig lifa þoott eg deye, þvi hvert eg life edur dey, þaa er eg þo hanns, Rom. 14. Þvi vil eg seigia: Daude, hvar er þinn Broddur? Helvijte, hvar er þinn Sigur? 1. Cor. 15. Gud er saa sem oss hefur Sigureñ giefed fyrer Drottenn vorn Jesum Christum; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad eilijfu, Amen. Og er nu þetta sagt þar um, hvilijkur ad þesse Fridur sie, epterfylger ad tala um, Hverneñ vier eigum honum ad taka.

Þad er ecke noog, Guds Born, ad byggia Grid af einum Konunge, nema Meñ hallde þau. Zedechias Konungur took Grid af Nebuchadnezar, hver ed gaf honum Konungs Rijke i Juda epter Frænda siñ Joachim, 2. Reg. 24. Enn hann giorde Uppreist aa moote honum og hiellt ecke Saattena, hvar fyrer hann took hañ fangeñ, stack hañs Augu wt og flutte til Babylon, 2. Reg. 25. Margur hefur saa teked Grid af Gude, i Skijrneñe fyrer Christi Blood, sem styrst yndañ honum aptur og gioreft Satans

Madur,

Madur, med Vantrw og syndsamlegu Athæfe, og verdur þꜳ hin seirne Villañ argare hiñe fyrre, Matth. 27. Hvar med gietum vier þꜳ vid hiñ almꜳttuga Frid hallded? Ef vier erum hanns Þegnar vordner, þꜳ eigum vier honum Skylldur ad gialldꜳ; Hin fyrsta Þegnskyllda vor vid hañ, er audmiwkt Þacklæte Hiarta vors fyrer þeñañ hꜳleita Velgiorning; Offred Drottne Losgiordeñe, seiger David. Varla mꜳ miña vera Br. mijner, enn ad vier offrum honum Kꜳlfum Vara vorra, Os. 14. Þad er Losgiordeñe, er sijnum eingietna Syne, þvi saklausa Guds Lambe liet slꜳtra ꜳ Krossens Altare til ad forlijka Heimeñ vid sialfañ sig. Margur þykest ad soñu þeñañ Skatt lwka Gude, ef hann sijngur honum eitt Psalm-Vers med Muñenum alleina, enn hvert ad Hugur fylge Mꜳle, þad athuga Menn ecke so giarna, so hann mun hafa Orsøk til ad seigia vid marga þꜳ sem lꜳtast þacka honum hier fyrer: Þetta Foolk nꜳlægest mig med Vorunum, enn þeirra Hiarta er lꜳngt þar frꜳ, Es. 29. Enn hversu miøg ad Menn brioote Guds Frid af sier med þessu Oþacklæte, þad sꜳum vier medal añara ꜳ þeim tiju lijkþrꜳu er Jesus hreinsade, um̃ hveria hañ sagde: Voru ecke tiju hreinsader? Enn hvar eru hiner niju? Luc. 17. Fanst eingenn sꜳ ed aptur snere og giæfe Gude Dijrdena, nema þesse Utlendingur? Og hann sagde til hañs: Statt upp og gack burt, þijn Trw giorde þig hoolpeñ. Hiner voru allema ꜳ Lijkhamanum hreinsader, þesse bæde ꜳ Sꜳlu og Lijkhama, þvi eckert talade Drotteñ um̃ Trw þeirra, og mun Sꜳlareñar Heilbrygde hafa fared þar epter. Eg er og nærsta miøg uggande um̃, ad þar fiñest varla eirn ꜳ medal tiju, sem þetta Hiꜳlpræde, þeñañ mikla Frid sem oss er i Christi Dauda og Upprisu bodadur, so þecke sem byriar. Flester lꜳta sier nægia mz þad ad sijna sig Kieñemannenum i Kyrkiuñe i Skripta-Stoolnum iwtvortes Jꜳtningu Trwar sinnar, einusinne edur tvisvar ꜳ Are, enn hvert ad Samvitskañ kiemst vid af Tilfiñingu Syndaña, hvert Elskañ til Guds er so miøg heit, þar um̃ mætte efast hiꜳ allmørgum, þvi añars mundu Menn hafa meire Vidleitne ꜳ ad hafna Syndunum, og Elskann til Guds munde framar spretta wt med Verkunum, so hann þar mz yrde dijrdkadur, þad er ad snwa aptur og giefa Gude Dijrdena, ad snwa sier frꜳ sijnu ogudlegu Athæfe, og taka sijna Illsku Breitne frꜳ hañs Auglite, Es. 1. Ef hũ er vor Fader, hvar er þꜳ hañs Heidur? Ef hann er vor Herra, hvar er þꜳ hañs Virding? Mal. 1. Þad er minst verdt ad lofa Gud og þacka honum med Munnenum, þad giora og Hrafns-Ungarner, seiger David, Ps. 147. og eru þeir ecke mz hañs Sonar Bloode afrekader. Ecke kostade þad Gud nema eitt Ord ad skapa þꜳ og allañ Heimeñ, Gen. 1. Enn hvad seiger Paulus vid oss? 1. Cor. 6. Þier erud Verde keypter, þar fyrer dyrdked Gud i ydar Lijkhama, og i ydar Anda hverier ad eru Guds. Hverneñ skulum vier hañ dyrdka i vorum Lijkhama? Hvad seiger hañ enn aptur, Col. 3. Deyded ydar jardneska Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, Lauslæte, vonda Gyrnd, Agyrne sem er Skwrgoda Dijrdkan, fyrer hvert ad kiemur Reide Guds yfer Born Vantrwareñar. Legged af allt þvilijkt, Reide, Grymd, Illsku, Gudlostun, Nijdyrde frꜳ ydar Munne,

Pp þad

Þad er ad dyrdka Gud i sijnum Lijkhama, ad afsnyda þessa Limu hins gamla Mañsins. Postulen̄ seiger, ad fyrer þvilijkt kome Guds Reide yfer Børn Vantrwaren̄ar, sia-ed hvad omøgulegt þad er, ad hafa Frid vid Gud, nema Menn aflegge þesse Verk Myrkraña, sem Von er aa, þvi ecke hefur Gud laated kvelia siñ Son til þess, ad vier þioonum Synden̄e i heñar Gyrndum, edur laatum hana drottna i vorum daudlegum Lijkhama, Rom. 6. Þvi hañ hefur ecke kallad oss til Ohreinleika, helldur til Helgunar, seiger Postulen̄, 1. Tess. 4. Enn hvernen̄ meigum vier Gud vegsama i vorum Anda? Þad er i Saalum vorum, þad er, ef vier færum Andans Avexte, hverier eru þeir? Þad seiger oss Paulus, Gal. 5. Þad er Kiærleike, Føgnudur, Fridur, Þolen̄mæde, Good-gyrne, Goodfijse, Trw, Hoogværd, Bindinde; og endar hañ so þetta Tal med annare Maals-Grein, sm̄ alla Guds Þioonustu i sier innebindur, seigande: En̄ þeir sm̄ Christi eru, krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum. Hver sem þad dag-lega giorer epter þvi sem Guds Ande fær i hañs Breiskleika verkad, hañ maa vera full-viss um̄ Guds Vinaattu, jafnvel þoott eingen̄ giete fullkomen̄ vered i þessu daudlega Hollde, þvi ef vier gaungum i Andanum, þaa erum vier ecke under Løgmaalenu, Gal. 5. En̄ þetta Frelse eigum vier ecke ad brwka til þess, ad laata epter oss Smaa-Syndernar, er vier so køllum, og ætla þad sie noog ad varast Stoor-Glæpena. Þar er eingen̄ so lijtel Synd til, ad ei sie hun noog til ad fordæma Mañen̄ ef Gud vill i Doom vid oss gaanga. David bad Gud forlaats aa sijnum heimuglegum Syndum, Ps. 19. Þvi mun þad ecke ohult ad drygia hinar smaau vijsvitande. St. Paall sagdest jafnvel ecke skyllde Kiøt eta, ef hañ visse sinn Brooder hneixladest, 1. Cor. 8. Og mun margur hallda þad fyrer litla Synd, þad er alldrei lijtil Synd, sem Guds Riettlæte fordæmer, enn hañ fordæmer allar þær sem vier litlar edur eingar køllum. Þad er allt Synd sem Helvijte forþienar, en̄ þær forþiena allar þad, sem Maduren̄ lætur vijsvitande epter sier og liggur i þeim viliande, jafnvel þoott ei sie þvilijkt af Mon̄unum kallad nema Guds Barna Brester. Smaa-Regned væter eins miog og Stoor-Droparner, þær smaau Syndernar kunna ad verda hvad skadvænastar, þvi vier reiknum þær ecke, og verda þvi flestar, og þoott þær sieu smaaar i vorum Augum þaa verda þær þo stoorar, nær vier byggium þeim leinge heima. Eirn lijtell Ormur, þegar hañ er svolgen̄ i Mag-añ, þaa etur hañ so leinge um̄ sig, ad hañ verdur stoor, nema hañ añadhvert sie drepen̄, eda honum sie uppsellt. Eirn lijtill Pwke, þegar hañ er einusiñe innkomen̄ i Hiarta Mañsins, gietur vorded ad stoorum Diøfle, ef hann er laaten̄ hyndrunarlaus, og þegar hañ er so vaxen̄, gietur hann teked siø Anda sier verre, Luc. 11. Menn taka eirn lijtinn Dreing til Foosturs, ef hann er Skaalkur, sem marger eru, þaa giorer hañ sig ad Hws-boonda, nær hañ er fullorden̄, og rædur sijna Lijka inn i Hwsed, þar til hañ med sijnum Fielogum drepur Hwsboondañ, ef hann þorer, og giorer sig Herra af Gotzenu. So eru hinar litlu Syndernar; Þau daalitlu Børn Satans, er vier leikum oss ad, medañ þau ung eru, þau verda vor Ofmen̄e um̄ sijder, og taka vort andlegt Lijf fraa oss, og

eyda þeim Fieſiood wr voru Hiarta ſem med Guds Bloode keyptur er. Sumt Gaman og Gledſkapur, ſem heiter Kurteyſe i ſyrſtuñe, kañ ad verda ad Hædne og Spieſkap, ſo þegar Meñ hafa leinge vaned ſig a ad hæda Meñena, og þvi er hrooſad af þeirra Lijkum, er leita ſier Fordilldar i ſlijku, þar ſer þeim ſo fram̃ i Kunſteñe, ad þeir fara ad hæda ad Gude og hañs heilaga Nafne. Pad þyker hia oß ſaklijted ad leggia Guds Nafn vid Hiegooma ad Gamne ſier i daglegu Tale, edur kalla a Andſkotann, enn ſa ſem þetta hefur leinge tamed ſier, honum mun ecke þykia miked fyrer ad brwka þad ſama til ad liwga Lijf og Æru af ſijnum Naunga, hann ſem reiknar þad fyrer einga Synd, ad hann forſoome ad ganga til Kyrkiunnar, og leikur ſier ad Hiegoomanum a Guds helgum Dogum, hann kañ ad verda yfergiefeñ i ſo fraleitt ſiñe, ad hañ þeynke, ad þad ſie ecke nema fyrer Sida Saker ad Menn brwke helgar Tijder. Eg ſeigie þetta til Dæmis um̃ allt þad er Menn giøra a moote hinum Bodordunum, ſem hver eirn kann ad ſkilia, ef hann vill giefa nockurn Gaum ad Fram̃ferde ſijnu, og taka Vara a Saalu ſinne. Fyrer þvi, ef þier vilied hafa Frid vid Gud, Br. mijner, þa dreped þeſſa Smaa-Pwka, edur ad vijſu giøred þa ſo vanmeta, ad þeir ecke verde ydar Ofur-Efle, annars munud þier ecke Frid vid Gud hafa. Enn ſøkum̃ þeſs, ad eingenn af oß er ſo adgiæteñ edur varkar, ad ecke falle Blettur a vort Skijrnar-Fat a hverre Stundu, jafnvel þeirra ſem beſter eru, þa eigum vier i hvert ſiñ, ſem vier af nockurre Hroſun verdum yferſtigner, ad þvo hann af med beyſkum Ydrunar-Taarum, ef vier viliumm Frid vid Gud hafa. Ja, vier eigum ad ganga ſtreingelega i Doom vid ſialfa oß, og ecke laata vora Ydran ſtijga fram̃ yfer almeñelegar Synder, þvi þær fordæma eins Mañeñ og hinar ſtooru, nema Meñ þeirra af Hiarta ydreſt: Giætum̃ þeſs, ad Gud er riettlaatur, hañ er eptergangsſamur og ſtraungur Sooknare, hañ heimtar ecke allèina Stoor-Sum̃urnar, helldur vill hañ laata giallda hiñ ſijdarſta Pening, Matth. 5. Hvar med ſaum vier þeſſa Sekt loked, nema med Chriſti Forþienuſtu, ſem er oendañleg: Eñ hun verdur eingum tilreiknud, nema þeim, ſem ydraſt af Hiarta Syndaña, ad ſoñu kuña Meñ ecke allra ad ydraſt ſier i lage, hver veit hvad opt hañ fellur? Pſ. 19. Gietur þu uppreiknad alla þijna Ungdooms-Breſte? Hver ma telia alla ſauruga Þanka og onytiu Ord? Pad er ad vilia telia Sandeñ og Bylgiur Siafarens; Eñ þar vier erum oß þeſs ſamvitande, ad vier ſo opt hroſum, ſo ad oll vor Reiſa fra Vogguñe til Grafareñar, er varla añad eñ eiñ ſijfelldur Blood-Vadall, þa eigum vier ad laata oß þad af Hiarta angra, ad vier erum ſo under Syndena ſellder, Rom. 7. Ja, i Samtale vid vora Vine og Naunga, edur og nær vier ſleppum oß i Gaman og Gledſkap, þa byriar riett-chriſtnum Mañe ecke einaſta adgiætnum ad vera, ad ei ſtygge hañ Gud med Muñe ſijnum, helldur og i hvert ſiñ, nær hañ kiemur til ſialfs ſijns aptur, ad hugleida hvert ecke hafe hañ raſad med ſiñe Tungu, og fiñe hañ þad, ſem hañ Efa optlega finna ma, ad laata ſig þeſs af Hiarta ydra og bidia Gud um̃ Naad, ef vier vilium vera fullviſſer um̃ hañs Vinattu, og ecke einaſta eigum vier þær Synder ad

 fordaſt,

fordast, sem eru riettlijnis a moote Guds skielfelegre Heitign, helldur og ef vier viliu̅ hans Viner vera, þa eigum vier ad kappkosta ad hallda Frid vid vora Brædur i Heimenum, Rom. 12. Hvad er þad fyrer Fridur, er Drotteñ spaaer um̅ ad verda mune i Rijke Christi? Es. 2. Ad þeir mune giora Sverdeñ ad Ploog-Jaarnum, og sijnar Staanger ad Liaaum, og ein Þiood skule ecke ryckia Sverde moote añar:, og þeir skule ei framar læra Strijds-Atferd. Hvad sijnest ydur, Born mijn? Mun þetta vera sa Fridur, sem Verolldeñ giefur? Ecke teiknar til þess nu um̅ Stunder, þar ein Þiood rijs upp i moote añare, og Frændur og Naaungar berast Bana-Spioot epter, helldur er þad Fridur Guds sa ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Þad er oll andleg Farsælld, sem Guds Postular, Paulus, Petrus, Judas, og Johañes i sijnum Opeñberunum jafnann oska Guds Sofnudum, enn ecke er þad sijst Eindrægne Andans, sem oll Guds Born hafa a mille sijn, hver hellst þau eru i Heimenum: Sa sem ecke er i þessum Fridar-Saattmaala iñebundeñ, hañ er ecke Limur hiñar soñu og osijnelegu Guds Kyrkiu. Vakte sig þvi hver og einn, sa er vill Christi Limur heita, ad ei ale hañ nockurt Hatur til sijns Naaunga: Og er þad ecke noog, ad vier holldum Frid vid Vine og Frændur, Tollheimtumeñ og Þrotur giora og þad hid sama, Luc. 6. Helldur bijdur Endurlausnareñ oss, ad vier elskum Ovine vora, Matth. 5. Þad Logmaal er þrongt ad sonnu Hollde og Bloode, enn ecke so miog þeim sim epter Gude er skapadur, og leitast vid ad breita epter sijnum Lausnara, hver ed beidde fyrer þeim er hañ kvolldu, Luc. 23. Eiger þu nockurn Ovin, christeñ Madur, þa giæt þess, ad Gud er þiñ beste Vinur, og Andskoteñ hiñ argaste Ovinur, gior þvi ecke þad hinum til Styggdar, eñ þessum til Þægdar, ad hatast vid þañ sem er þinn Brooder epter Naatturuñe, fyrer hvern Guds Sonur hefur Kvol og Dauda lided eins og þig. Ef þu hatar þiñ Ovin og þad so miog, ad þu villder hañs Dauda, þa gior honum gott, Sia til ad þu faaer giort þier hann ad Vin med goodu Atlæte, faaer eru so hreckvijser ad þad takest ecke, eñ ef þu faer þvi til Vegar komed, þa hefur þu dreped Ovineñ, eñ frelsad þiñ Broodur og giefed honum Lijfed, 1. Joh 5. Og afrekad Saalu eina Gude til Handa, sem er stærre Sigur eñ þoott nockur hefde Kongarijkeñ under sig broted, þvi hun hefur Guds Sonar Blood kostad, hia hveriu oll Verolldeñ er Fis ad reikna. Soddañ Hefnd er ecke einasta saklaus, helldur og Gude kiær, og af ollum hañs Bornum vel aalitenn. Gud giæfe ad christner Meñ villdu temia sier þetta Hugarfar, þa munde Fridur og Eindrægne halldast betur Maña a medal, helldur eñ skiedur nu um̅ Stunder, þa mundu Meñ Frid hafa vid sialfa sig og Samvitsku sijna, Frid fyrer Heimenum, þvi sa ed þvilijkt giorer, hann er af Gude fæddur, og yfervinñur Heimeñ, 1. Joh. 5. Frid fyrer Dioflenum þvi hann er Christi Barn, sem Dioflenum hefur motsnarad, og troded hann under sinna Barna Fætur, Rom. 16. Ja, Frid vid hinn lifanda Gud sem ollu rædur bæde a Himne og Jordu; J hvers Rijke ad Fridureñ og Riettlæted kyssa hvert añad, Ps. 85 Hier i Tijmanum, eñ i Eilijfdeñe mun a Fridnum eingeñ Ender verda, Es. 9.

Peirrar

Þeirrar Sælu-Vistar niootande ad verda, unn þu oss þijnum Bornum, o þu stoore Gud Feidarens! Rom. 16. Fyrer hinn sanna Fridarenns Hofdingia JESUM CHRISTUM, Es. 9. Amen.

# Fyrsta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 20. Cap.

Og ad Kvollde þess sama Þvott-Dags, þa ed Læresveinarner voru samankomner ad luktum Dyrum fyrer Hrædslu Saker vid Gydinga, kom Jesus þar, og stood i Mided og sagde til þeirra: Fridur sie med ydur. Og þa hann sagde þetta, sijnde hann þeim Hendurnar og sijna Sijdu. Enn Læresveinarner gloddust vid, ad þeir saau Herrann; Jesus sagde þa enn aptur til þeirra, Fridur sie med ydur. Lijka sem Faderenn sende mig, so sende eg ydur. Enn sem hann sagde þetta; Blies hann a þa og sagde til þeirra: Medtaked þier heilagann Anda, hverium hellst þier fyrergiefed Syndernar, þeim eru þær fyrergiefnar, og hverium hellst þier apturhallded þær, þa eru þær þeim apturhalldnar. Enn Thomas eirn af þeim tolf, sem kalladest Tvijbure, var eige med þeim, þa Jesus kom. Enn hiner adrer Læresveinarner sogdu til hans: Vier hofum sied Herrann. Enn hann sagde til þeirra: Nema ad eg siae Naglaforenn i hanns Hondum, og ad eg laate minn Fijngur i Naglaforenn, og legge mijna Hond i hanns Sijdu, þa trwe eg ecke. Og epter atta Daga voru enn aptur hanns Læresvenar þar inne, og Thomas med þeim. Þa kom Jesus ad luktum Dyrum, stood i Mided, og sagde: Fridur sie med ydur. Sijdan sagde hann til Thomam: Riettu þinn Fijngur hijngad, og skoda mijnar Hendur, lypt upp þinne Hende og legg i mijna Sijdu, og vert ecke vantrwadur, helldur trwadur. Thomas svarade og sagde til hans: Drottenn minn og Gud minn; Jesus sagde til hans: Af þvi þu saast mig Thoma, trwder þu; Sæler eru þeir sem ecke siaa og trwa þo. Morg onnur Teikn giorde Jesus i Augsijn sinna Læresveina, hver ad eige eru skrifud i þessare Book, enn þetta er þvi skrifad, so ad þier trwed, þad ad Jesus sie Christus Sonur Guds, og ad þier so trwader, hefdud Lijfed i hanns Nafne.

Exordium.

Þegar Jesus hafde læknad hiñ limafallssiwka med Þvi Orde, ad hann sagde til hanns: Þier eru Þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Þa prijsade Foolked Gud, er Þvilijka Magt hefde Moñunum giefed. Ecke hefur Þetta Foolk so undrast yfer sialfu Krapta-Verkenu, Þvi Þeir voru Þessu alvaner af Frelsaranum, añars mundu Þeir ecke hafa fært Þeña veika Mann til hañs, helldur yfer Þvi, ad hañ læknade med Orda Tiltæke Þessu, Þvi Þad hafde a Þeim Dogum ecke heyrst ad nockur Madur hefde Valld til ad fyrergiefa Syndernar, hvar af Pharisæi tooku Orsøk til ad bera sier Þa Ohæfu i Munn, ad hañ gudlastade. Eñ hañ sem auglijste sitt Valld til ad fyrergiefa Syndernar med Þessu Krapta-Verke, so ad Þeir ed Þad saau, undrudust og prijsudu Gud, er Þvilijka Magt hefde Moñunum giefed; Hañ same hefur og Þetta Valld i Hendur feinged syndugum Moñum sijnum Postulum, so sem vier strax heyrdum af Gudspiallenu, og ecke einasta Þeim, helldur og ollum Þeirra Eptterkomendum, allt til Veralldareñar Enda, Matth. 28. Ad Þeir i hañs Nafne fyrergiefa Syndernar, ecke so sem af sialfum sier, helldur so sem Christi Þienarar, og Raads-Meñ Guds Leyndardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Eñ miked, so haaleitt og so guddoomlegt sem Þetta Valld er, so vandfared er og med Þad, bæde fyrer Þa sem Þad i Hende hafa, og so hina er under Þvi eru, ad hveruger forgrijpe sig a hanns dijrdlegre og ognarlegre Hatign, sem ad er Høfundur Þessa mikla Umbods; Og fyrer Þvi ad a Þessu rijdur, oll Velferd christenna Manna, (sem er ad faa Kvittun Syndanna) Þa vil eg nu ad Þessu siñe tala um Þetta tvent, sem er. 1. Hver ad sie Skyllda Þeirra er odrum eiga ad boda Þeirra Fyrergiefning, og 2. Hinna sem hana Þyggia eiga. Gud styrke oss i Þessu Verke med Naad sijns gooda Anda, i Jesu Nafne, A M E N.

## Utleggingeñ.

Tvent er Þad sem Christi Þienarar eiga i Þessu Guds Eyrende ad athuga, sem er 1. Ad ecke bode Þeir Kvittun Syndaña, Þeim sem heñar eru overduger. 2. Ad Þeir hallde heñe ecke fyrer hinum, er hun med riettu tilheyrer. Hiner fyrre eru med tvennu moote, añadhvert eru Þeir faafrooder, edur og ogudleger og hardsvijrader. Hverigum af Þessum a Raads-Madur Christi ad boda Syndaña Kvittun: Ecke Þeim fyrre, Þvi saa sem etur og dreckur overdugur, hañ er sekur vid Holld og Blood Drotteñs, seiger Paulus, 1. Cor. 11. Eñ saa etur og dreckur overdugr, sem ecke reyner og proofar sialfañ sig, eñ hverneñ maa saa reyna sialfañ sig er ei Þecker Syndena? Eñ hvernenn maa hann Syndena Þeckia aan Logmaalsins Þeckingar? An hvers ad jafnvel St. Paall ecke Þeckte ad Gyrndeñ var Synd, Rom. 7. Þad er ollum Moñum kuñugt, ad eingeñ fær kvitta Syndena i Himnenum, utañ hann bere Angur og Trega fyrer hana, eñ hvernig maa hañ laata sig angra Þa Synd, er hañ Þecker ecke? Og er Þetta Þo ecke nema Helfteñ af Skylldu vorre. Ecke er Þad noog ad Þeckia Syndena og angrast af heñe: Litlu gagnade Þad Cain og Judas, Þoott hiñ segde; Mijn Synd er meire eñ ad

hun

hun fyrergiefeñ verde, Gen. 4. Eñ þeſſe; jeg hefe illa giort þad eg ſveik ſaklauſt Blood, Matth. 27. St. Peturs, Matth. 26. Davids, 2. Sam. 12. Hiñar berſyndugu, Luc. 7. Og annara ſoddann Manna Þeckingu, ſkal hafa til þeſs ad fa Syndena kvitta; þar fyrer ſokum þeſs ad Blooded Jeſu Chriſti hreinſar oſs af ollum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Og ad i eingum odrum er Saaluhiaalpinn, Act. 4. Þaa kann einginn ad faa hiaa Gude Lauſn Syndaña fyrer utañ hans Þeckingu, og er þad ad ſoñu ecke noog ad Meñ viti, ad hañ ſie fyrir Syndirnar daainn, Rom. 4. helldur og ad tileinka ſier hañs Forþienuſtu, og trwa þvi faſtlega ad þad ſaklauſa Guds Lamb hafi einnig ſijnar Syndir i burtu teked, Joh. 1. Þeim ſem ecke er um þetta hverutveggia alldeilis ſannfærdur i Hiarta ſijnu, honum aa Guds Þienare ecke ad boda Kvittun Syndanna, helldur ad undervijſa honum med allre Koſtgiæfne Veg Saaluhiaalparennar, og leida hañ til Chriſtum med hellſuſamlegre Kienningu. O! Gud giæfi ad þeſſu villdu giæta ecke einungis Kiennemennirnir, helldr og þeir ed Bornum og Hiwum eiga ad undervijſa og uppala i Aga og Umvondun Drottens, Eph. 6. Þaa være eg viſs um, ad ecke munde ſo optlega verda Helgedoomarner Hundum giefner, Matth. 7. nie Perlum fyrer Svijn kaſtad, ſem mig uggir ad aa ſtundum ſkie mune fyrer Vanræktarſaker þeirra er Gud hefur umboded ad taka Vara aa ſlijku: Hveriu vill eiñ gaalaus og toomlaatur Leigulidi ſvara hinum alvallda Konunge aa ſijdarſta Deigi, þegar hñ krefr ſiña Sauda Bloods af hanns Hende? Enn hañ hefur forſoomad ad undervijſa þeim, og ad giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad honum byriad hefur, hañ hefur talad fyrer þeim þad ſem var Hiegoome, haſt fyrer þeim nockrar faanijtar Spurningar, ſem lijtt til Saaluhiaalpar gagna, til þeiß ad ſijnaſt vid ad giora eitthvad, og ad fyrra ſig Vijtum, eñ alldrei lagt hinn rietta Grunndvoll Saaluhiaalpareñar i Maññaña Hiarta, ei kient þeim Syndena ad þeckia, ecke wtliſtad fyrer þeim heñar Greiner og Tegunder, ecke wtmaalad hverſu ad hun er vidurſtyggeleg fyrer Gude, ei ſijnt þeim Veigeñ til ad faa heñar Kvittun, edur vaked Angur og Trega fyrer ſijn Afbrot i þeirra Hiarta, nie Krapt hinnar ſoñu Trwar er verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Og i þeſſare Faakiænſku hleipur Veſælingureñ iñ ad Skripta-Stoolnum og þyggur Kvittun Syndaña af Preſtenum, jafnvel þoott ecke ſie hañ heñe nær, helldur eñ eirn Heidinge, ſem eckert af Gude veit nie hañs Chriſte, og i þeſſu uppelſt hann; i þeſſu lifir hann, og i þeſſu deyr hann, og uppvaknar i Helvijte og Kvolunum, nema Gud vilie meire Myſkun aa giora, og ætlar ſig þo ad vera full-chriſteñ, og ad Saala ſijn mune ſtrax i Himeniñ uppfliwga, ſem hun ſkreppur wt af Lijkhamanum, af þvi eingenn ſagde honum þad, og einginn ad þvi fañ, hverſu ſem hañ var o-froodur i ſijnum Chriſtenndoome; þetta hid ſama vil eg ſagt hafa Forelldrum og Hwsbændum, hverier i þeſſu vera eiga ſo ſem Preſtaña oñur Hond, þvi ef ſatt ſkal ſeigia, þaa er þad Oſotlun fyrer eiñ Guds Ords Þienara, ad hañ giete lagt hvert Barn ſier aa Knie, og ollum allt þad kient ſem þeir vid þurfa ſierdeilis i þeſſu faatæka Lande, eñ ad hafa alvarlega Umſioon hier um, rañſaka hvernig þad tilgeingur, aamiña þaa ſem eru

hyrdulauser, leidrietta þa sem villt fara, straffa þa sem moote mæla, vijsa þeim wt af Guds Kyrkiu og Samneyte christeña Maña er ecke lata sig leidrietta med hoogvær- tum Anda, Gal. 6. Þad a þeim ecke ad vorkyñast, eñ Gud nade hveria Adstod þeir fa i slijku hia allmorgum! Ofkande være ad ecke finnduſt þeir ed reidaſt ef ad slijku er fund- ed, og leggia Hatur a Guds Þienara nær þeir vilia forda Saalum þeirra vid eilijfum Helvijtis Pijſlum, þeir hafa þeirra gudrækelegar Aminningar i Skimpe, og kalla þad Presta Firrur og Hlutſeme, hvar fyrer? Af þvi þeir sialfer eckert kuña, eñ skamast sijn ad læra þad gamler, er þeir nentu ecke ungir ad nema, og vilia helldr steipa sier og Born- um sijnum og Hiwum i Afgruñ Helvijtis, eñ ad lata sig leidrietta, og er þad allt ofkuñ- ugt af Faafræde hinna ungu i þessu auma Lande, hvad lijtid ad hinir gomlu kuña mune. O þier skynlausar Mañeskiur! Kalled þier ecke þad hid argasta Mord, ef nockur farg- ar sijnu Lijfs-Afkvæme vijsvitande, og þo er þad Kiærleiks-Dyggd, hia þvi, ad spara þeim þad er þeim meige verda til Saalar-Gagns, þvi þad er ad myrda Saalena, hver ad er med Guds Bloode endurleyst, Act. 20. Og er miklu minne Synd ad bera wt Born sijn nijfædd, sem þo er hiñ verste Glæpur, þvi þa eru þau under Guds Myskun- seme, helldur eñ ad klekia þeim upp Fiandanum til Þioonustu. Hafed þier ecke heyrt hversu ad Drottenn vard reidur þeim er offrudu Bornum sijnum Moloch fordum Daga, Levit. 20. og lietu þau ganga i giegnum Elldeñ þeim Andskota til Dijrdkunar, Devt. 18. Eñ hvad giora þeir betur sem lata sijn Born uppalast i ollu Neideleise? Vited þier ecke ad þier hafed þau i Syndeñe gieted og fædt? Ps. 51. Hvad liggur þar añad fyrer honum sem af Natturuñe er Reideñar Barn, Eph. 2. helldur eñ eilijflega ad fyrerfarast, nema hañ lære hiñ saña Christeñdoom, so ad hañ meige umflija tilkom- ande Reide? Þier seiged vel: Þau eru i Skijrneñe endurfædd og Guds Born vord- eñ, þad er vel, eñ hversu illa kieñed þier þeim ad hallda siñ Skijrnar Saattmaala, nær þau alldrei fa ad vita hvad Skirneñ er, edur hvad þeim er veitt i heñe, hveriu þau hafe þar Gude lofad, edur hvernig þau eige ad bera sig ad hallda þad, edur fa þess Kvitt- an er þau afbrioota? O vei! O vei! Hversu aumur er þesse Christenndoomur; Bære- legra mun einum Tyrkia verda a Doomsins Deige, enn slijkum Forelldrum, og eg vil hafa þetta sagt til þeirra einunges sem hyrdulauser eru um Velferd sijna og siña, og meina ad Gud hafe giefed sier Borneñ, alleina til ad leika sier ad, enn ecke til hiña sem leggia nockra Rækt hier vid, er Gud giæfe ad sem flester være. Hiner adrer sem Guds Þienarar eiga Syndunum aptur ad hallda, eru þeir sem kañskie hafa noog Vit a þvi er þeir eiga ad trwa og giora, eñ lifa alldeilis ecke þar epter, helldur ganga fram i alls- konar Syndum og Glæpum ydrunarlaust, forsmaande Gud og hañs dijrmæta Ord, og hafande ad eingu þad þeim sagt verdur i Guds Stad. Slijker eiga med riettu eck- ert Samneyte ad hafa med odrum Guds Bornum, hverier hellst sem þeir eru, rijker edur fatæker, vesæler edur volduger, þvi ef Paall seiger, 1. Cor. 5. Ad ef nockur sa er Brooder (þad er christenn) kallast, sie Frillulijfis Madur, lastmall, agiarn,

Skwr-

Skwrgoda Diirdkare edur þess hattar, þa skule Menn einga Umgeingne med þvilijkum hafa, þa er þad auglioost ad þvilijkum a ecke Synda Kvittun ad boda, nema þeir ydrest af Hiarta og aflate Glæpunum, og sa Kieñemadur er seiger þeim sijnar Synder kvittar i Guds Stad, hañ lijgur uppa Gud, er hañ leyser þad sem Gud hafde honum alldrei umboded, hann tekur fram fyrer Hendur a Christe, sem Meñ plaga ad seigia, og giorer hañ ad þeim Gude sem ad þocknast ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Stoor Vande liggur a einum Kiennemañe i slijku, ef hañ vill fiñast trwr. Ecke seige eg ad þeim skule fraavijsa Aflausn Synda siña, sem misgrunadur er um einhvern Glæp, þad mætte hinum besta Mañe giora. Ein skæd Tunga kann snarlega ad lioosta upp einhverium Ohroodre um goodañ Mañ; hvar til Þusund Dæme eru, slijkt a ad eingu ad hafa, helldur ad afstijra soddañ vondu Umtale um Naungañ. Einn Guds Þienare a ad vera vandlætingasamur, eñ þo med Skynseme, og ecke byggia so vigtugañ Hlut sem ad er Lyklavalldsins Brwkun a hverium Þvættinge, Rom. 10. Enn þessa þarf ecke vid, Br. mijner. Þar eru opeñberer Lester og Skamer sem ad eingu eru aktader, hverke af þeim ed þær fremia, og kañ skie ecke helldr so sem vera ætte af sumum sem þad ættu ad straffa. Hvernig mun þad tilgaanga med Guds heilaga Nafns Vanbrwkun medal ohlutvandra Maña? Med Ydkun hañs heilaga Ords? Munu ei fiñast þeir ed hafa þañ Diirgrip ad Athlæatre og i Fijflskapar-Maalum? Hvad er tijdara eñ Oblijdne og Otrw Barna og Hiwa vid Forelldra og Hws-Bændur, vond Forlijkun mille Hioona, Hardydge Yferbodaraña vid hina aumu og vesælu sem under þeirra Vallde eru, so Meñ læta Vargana hlaupa frij enn straffa Owsurnar. Hatur og Ulfbwd, eru ordeñ ad Karlmeñsku og Hugprijde, Menn bera þad ecke einungis heimuglega med sier i Hiartanu, hvar um Kiennemadureñ ei kañ ad dæma, helldur sijna þad daglega i Verkunum, i Ordunum, i Umgeingneñe; Okur og Asælne, Myskunarleyse vid hiñ volada og naudstadda, Bakmælge og illur Muñ-Sofnudur vid Naungann, allt þetta eru daudlegar Synder: Og ma ollum kuñugt vera, ad þær ei verda fyrergiefnar i Himneunum, nema Meñ ydrest þeirra a Jorduñe, og þad vita Guds Þienarar, ad fyrer slijkt kiemur hañs Reide yfer þa ed þad fremia, Eph. 5. Nu seige eg þad ecke ad Meñ skule strax fraavijsa þeim er i þessu kuña seker ad fiñast, ef þeir sijna a sier nockur Ydranar Merke, jafnvel þoott Betruneñ verde ecke i einu so merkeleg, hitt seige eg, ad þeir eiga þvilijka Syndara mz allre Alwd og Kostgiæfne ad amiña, og leidrietta þa mz hoogværum Anda er fundner verda i nockurre Hrosun, Gal. 6. Fyrst i Ein-Rume, vilie þeir ecke þar vid skipast, þa i tveggia gudhræddra Maña Vidurvist; Læte þeir eñ þa ecke af nie leitest vid ad betra sig, þa veit eg ei betur eñ soddañ þverbrotnum Mañeskium eige Syndernar aptur ad halldast, þad kieñer oss ecke einasta Drotteñ Jesus, Matth. 18. med þessum Ordum; Ef þiñ Brooder syndgar a moote þier; þa far þu og avitel hañ a mille þijn og hañs, ef hañ heyrer þier, þa hefur þu auñed þiñ Broodur, enn ef hañ heyrer þier ecke, þa tak med þier eiñ edur tvo, svo ad i Munne tveggia edur

þriggia verde oll Ord stadfest, enn vilie hann ecke þeim heyra, þaa seig þad Sofnud-
enum, enn vilie hann ecke Sofnudenum heyra, þaa hallt hann so sem Heidingia og Toll-
heimtumann, helldur er og þessu alldeilis samhlioода Konunglegt Logmaal i þessum
Londum og Rijkium, um þau Afbrot sem ecke verda so hentuglega med veralldlegum
Riette strossud; og ef Drottenn skipar einum af Sofnudenum þannig ad breyta vid
þann er honum aa moote brijtur, hvad miklu helldur mun þetta sagt vera Kienne-
monnunum sem i Guds Stad vandlæta eiga. Take þvi ecke einn Drottenns Þioon
Vara aa slijku, þaa er nærsta hætt vid, ad hann giore sig Hluttakara i annarlegum
Syndum, og hafe Samfielag vid ofrioossom Verk Myrkranna, þvert aa moote Post-
ulans Bode, Rom: 1. Og er þetta nu sagt um þaa sem Guds Þienarar eiga ad apt-
urhallda Syndena. Enn þar fyrer hefe eg um Kiennemannaña Skylldu talad i þess-
um Stad, ad eingenn hate þaa edur ovyrde, þoott þeir giore Skylldu sijns Embættis
i slijku, þar þeim er so mikell Vande aa Hende.

Hverier ad hiner sieu er Syndena skal leysa hiaa, er audsært af þvi sem allareidu er
sagt um hina, sem er alla synduga Menn, hversu herfelega edur stoorkostlega sem þeir
syndgast hafa moote Gude; Jaa, hversu leinge sem þeir hafa vellt sier i Syndunum,
þaa sem ad fulla Grein hafa aa ad reyna og proofa sialfa sig, og laata sig af Hiarta
Syndernar aangra, og losa Umboot med sannre Trw aa Christi Forþienustu, þvi hinn
naaduge Giædskuñar Bruñur, vill eingan þañ fraa sier reka sem til hañs kiemur, Joh. 6.
Þvi kallade hañ haarre Raustu fordum Daga og sagde: Kömed til mijn aller þier sem
erfided og Þwnga erud þiaader, eg vil endurnæra ydur; Matth: 11. Og gyllder þetta
ecke einasta um þaa sem enn þaa eru fullhrauster og kunna framveigis ad betra sig,
helldur og um hina sem fyrer Daudanum liggia, og jafnvel þaa sem Maalenu tapad
hafa, ef þeir eru med Rænu, og eiñ adgiæteñ Drotteñs Þienare merker þeirra hiartan-
lega Epterlaungun, Angur og Trega fyrer Syndernar, þviad aa hverium Tijma, sem
hinn ogudlege snijr sier fraa sijnu ogudlegu Athæfe, þaa skal hañ lifa og ecke deya, allra
hañs Synda skal ecke ad eilijfu miñst verda, seiger Drotteñ fyrer Muñ Ezechielis i 18.
Cap. Og þoott hiñ naaduge Gud sm allañ Dageñ wtbreider sijnar Hendur til ohlijd-
ugs Foolks, Es. 65. sie jafnañ reidubweñ ad taka vid Syndaranum, nær hañ ydrast af
Hiarta, þaa eru hañs diwpu Myskunar-Ydur þo alldrei naakvæmare eñ i Daudanum,
þvi þaa veit hin eilijfa Giædska, sem ecke vill syndugs Mañs Dauda, ad ecke er Tijme til
ad draga Naadena undañ. Og er þetta nu þañig sagt um þad hellsta sem ad Guds
Ords Þienarar eiga ad taka Vara aa i þessu haaleita Efne, eñ fyrer þvi ad margr ein-
falldur, edur og so hyrdulaus, kañ ad steita sig aa þessu Naadareñar Frelse, þoott alldrei
giore Kieñemadureñ sitt Embætte so athugasamlega, þaa verd eg þo nockud hier um ad
tala, og þad þess helldur, ad Andskoteñ er Þusund Viela Smidur, viñe hañ eckert aa
þaa einu Sijduna, þaa leitar hañ aa hina. Þesser eru og med tveñu moote, annadhvert
eru þad þeir, sem af Hyrduleyse og Oftrauste meina ad þeir faae Kvittun Syndaña af

Prest-

Presturen̄ þeim hana alleina tilseigier i Guds Nafne; Edur og hiner sem vegna Fiøl-
da og Stærdar siña Misgiørda faa þvi varla trwad, ad Guds Þienare hafe Valld
hier til þoott þeir ydrest. Hvad vidvijkur hinum fyrra Hoopnum, sem vera mun øllu
stærre, þaa vite þad sierhver eiñ, ad lijka sem Christur sagde vid Læresveinana fordum,
Luc. 10. Hver ydur heyrer, hañ heyrer mier, og meinte þo, alleina i þeim Hlutum sem
þier boded i mijnu Nafne, og epter miñe Skyckan. So er þvi og vared, ad ef nockur
Guds Ords Þienare, bodar þeim Kvittun Syndaña sem ecke ydrast og ecke trwa a
Guds Son og hañs Forþienustu, þaa er hañs Þioonusta onijt, og verdur baadum
þeim til Dooms-Afellis, Prestenum ef hañ þad veit, eñ hinum þoott Presturen̄ þad
ecke vite, þvi maa hvers eins Samvitska bera honum lioosast vitne hier um; Eñ ef Prest-
uren afleyser ogudlegañ aan Vitundar siñar, þaa er hañs Þioonustu haattad eins og
einum Doomara, þeim ed geingur rangañ Doom epter folsku Vitne; samt er ecke
Doomuren̄ riettur, þoott hinn er dæmde sie saklaus, so er og þess Blood yfer hañs Hof-
de, Ezech. 33. sem jaatar Synder sijnar fyrer Prestenum, enn þo ecke af Hiarta edur
med verdugre Ydran, enn Guds Þienare er sykn saka, jafnvel þoott hanns Þioonusta
sie ogylld i Himnenum, sokum þess Ydrunarleysis er hana þyggur. Þad er nærsta
faavijslegt, ad eiñ Syndare meinar ad sier verde sijnar Yfertrodslur fyrergiefnar, þoott
ecke ydrest hañ þeirra edur hafe nockurn Asetning edur Vidleitne til ad betra siñ Lifnad,
ef Kieñemadurenn alleina leggur honum Hond i Hofud og bodar þeirra Kvittun. Giæt
þess, O aumur Madur! Ad eingeñ hefur meire Myndugleika eñ saa vill, er honum gaf
hañ. Nu er þad vijst, ad Gud tekur ecke vid Syndaranum nema hann laate sig aang-
ra Syndernar, og lofe ad betra sig: Þad skal alldrei finnast i allre Ritninguñe ad
Gud lofe Naad sinne nema ydrande Manne, hvernig villt þu þaa vænta þess af Kieñe-
mañsins Hende, sem Gud hefur honum alldrei i Hendur feinged? Og hann ecke sialf-
ur vill edur kann giora vegna sijns stranga Riettlætes, sem honum eins skylldt er og
Myskunsemeñ, og maa þad þier ecke gagna, þoott Presturen̄ sie þier samvitande i Hyrd-
uleysenu, laat hañ ei draga þig a Taalar, þoott hann eige ad vita betur eñ þu, þvi hann
glører i þvi Andskotans og ecke Guds Verk, ad boda þeim Kvittun Syndaña sem hen-
ar er overdugur. Þad er Diøfulsins Slægd, ad giora lijted wr Syndeñe fyrer Mañ-
enum, og kalla ad Menn meige komast af vid Gud med eintoomre Jaatningu edur
utvortis Hegdan Lijkhamans. Vara þig i Guds Nafne, vara þig, slijkt vill þier lijt-
ed gagna a þinne Dauda-Stundu, þvi hinn ogudlege skal deya fyrer sijnar Synder
seiger Drotten̄, Ezech. 13. Jafnvel þo hinn riettlaate Gud, vilie krefia hañs Bloods af
þess Kienneimañs Hende, er forsoomar ad seigia honum til Syndareñar.

Þad er merkelegt sem hier stendur i Gudspiallenu, ad adur eñ Drotten̄ fieck Lære-
sveinunum i Hendur Lykla-Vallded, þaa blies hañ a þaa og sagde: Medtaked heilag-
añ Anda. Nu þoott Andans Gaafa sie ecke so rijk a þessum Døgum hiaa Guds Þien-
urum so sem hun þaa var, þaa Vitnisburdurenn Jesu Christi er vidtekeñ af øllum þeim

er christner kallast, og jafnvel af þeim medkiendur sem ecke epter honum lika, samt ecke eingenn Efe ad þvi ad Guds Ande er i þeim og verkar med þeim sem hann þar um bidia af Hiarta, og ræckia sitt Embætte. Enn hver sem ad bodar Yddrunarlausum Kvittun Syndanna, og hañ veit þad, hañ talar ecke af Guds Anda, þvi Andans Embætte er ad straffa Heimeñ um Syndena, Joh. 16. Enn eckert er Stioornleyse meira, enn ad seigia þaa Synd kvitta sem ei er, og sa þad giorer, hann stioornast ecke af heilögum Anda, helldur dregur bæde sialfañ sig og adra a Taalar. Nu kann einhver ad þeinkia, fyrst ad Kvittun Syndaña er þar i foolgeñ, ad Madur ydrest þeirra og trwe Christs Forþienustu, hvad þarf eg þaa Prestsins Þioonustu vid? Mier næger þad ad eg ydrast og trwe. Ei er hun þar fyrer gagnlaus, christeñ Madur, helldur omissande, þvi fyrer utañ þad ad margur er veikur, margur trwarlijtell, margur sturladur, margur freistadur, margur efasamur, þaa eru þetta Guds Ord og Fyrerheit. Hver ert þu þaa sem forsmaaer Christi Skickan? Veitst þu betur hvad syndugum Manne gagnar til Saaluhiaalpar, helldur enn hann sem þier hefur hana afrekad med sijnum Dauda? Þad er vijst, ad Gud bæde vill og kann ad giora þann hoolpeñ sem ecke nær heilagre Skijrn, enn hver sem hana forsmaaer, þad verdur honum til Fordæmingar, og vidlijkt er i þessu; Saa sem ei kann ad naa Prests Funde, þaa er honum þad fullt, ad Guds Ande uppvekur i honum saña Yddran fyrer Syndernar, og Trwna a Jesum, og hann hefur noog i hiñe andlegu Nautn er Drotteñ talar um hiaa Johañem, Cap. 6. seigande: Hver sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudañ smacka ad eilijfu, under hveria ad Ande Drotteñs afleyser hañ med þeim Vitnisburde, ad hann sie Guds Barn, Rom. 8. Enn sa sem forsmaaer þau Medol er Guds Sonur hefur skyckad og iñsett hier til, edur þykest þeirra ei vidþurfa, hann maa ei christeñ Mañ nefna, enn þad munu þeir einer þykiast giora meiga, er Syndeñ ecke miog til Hiarta geingur, og heiter þad þaa so, ad heiler þurfa ecke Læknarans vid, Matth. 9. Hiner sem ad hun er ofþwng Byrde vordeñ, so ad þeir hafa ecke Frid i Beinum sijnum fyrer henne, Psal. 38. Þeir munu alls-hugar feigner verda þessum Myskunar-Ordum: Hvad þier leysed a Jordu, þad skal a Himnum leyst verda, Matth. 16. Þeir þyggia med allre Hiartans Audmykt eina Huggunar-Grein af Muñe Guds Ords Þienara, so sem einn Svala-Dryck af Guds Naadar-Brunne uppauseñ. Enn hverier eru hiner? Eg ottast þad mune meira vera Dofe Samvitskuñar, helldur eñ Heilbrygde, er þeir reida sig uppaa. Eg hefe talad vid suma Menn, sem hafa laated sier um Muñ fara, ad þau Ord er standa i vorum Skriptargaange: Eg er hin syndugasta og svijvirdelegasta Mañeskia sem verda maa bæde fyrer Gude og Moñum; Þau villdu þeir ecke so vidkañast, þvi ad þeir væru frij fyrer sumum Glæpum sem adrer drygia, og sijnest þess vegna ad þad sie nockurskonar Hræsne fyrer Gude, ad jaata sig ad vera hiñ stærsta Syndara. Eñ eg ottast ad slijkt kome nockud af Rañsooknarleyse sialfs sijns, hver þecker Mañaña Hiortu, nema sa siñ þau skapad hefr? Hver kañ ad vita hversu mikla Krapta

eiñ

einn hefur til ad mootſtanda Syndenne, nema hañ ſem þa giefed hefur? Hver veit nema eg ſie ſtærre Syndare ſem hañ meira læitad hefur, helldur eñ hiñ ſem ad verr liſer fyrer Monnunum? Eg ſie margañ drygia þær Synder, ſem eg vil bidia Gud ad vardveita mig fra, eñ kañ ſkie ad miñ Skapnadur ſie þañig, ad eg hafe Vidbiood a þeim, og er þad ecke mier ad þacka, eñ liſe þo epter Gyrndum mijnum i odru ſem eg er lundlageñ a, og hann er ecke gieſeñ fyrer, verda ma og ad hañ haſe ecke þeiged ſo mikla Andans Naad til adſtrijda i giegn Syndeñe ſem eg. Eñ hverſu opt mootſtend eg nu Guds Anda, þegar hañ miñer mig a ad giora þad ecke ſem eg kalla litla Synd, edur læta af þvi ſem eg er vanur til, eñ þyker ecke ſtoort i ſpuñed vera? Þegar eg þetta ſkoda, þa vil eg ſia til hvert þeſſe Synd kañ ecke ad verda ſo fordæmañleg i Guds Auglite, ſo ſem hid verſta Mord hia þeim ſem ad Gud kañſkie ecke eñ þa ſo alvarlega tuktad hefur med Stroffun ſijns Anda, og hverneñ ſem þeſſu er vared, þa veit eg eitt, ad eingeñ veit betur hvar Skooreñ ad honum krepper, helldur eñ ſa ſem hañ ber a Fætenum. So þecke eg og hia eingum fleire Synder eñ hia mier, þvi eg er eingum ſo margra ſamvitande, og þad munu aller ſeigia, er rañſaka Hiarta ſitt ytarlega; Eñ ſieu þar adrer ſyndugre, þad veit Gud, eg veit þad ecke, og fell eg þa i Forundran yfer hañs Giædſku og Þoleñmæde yfer þeim, þvi mier þyker varla meiga a þad auka, ad hañ mig ſparar. Hier ſeigieſt og ecke; Eg hefe allar Synder drygt, helldur allskyns. Margur er ſa ed ecke hefur Mañ veiged, ecke kreinkt ſijns Naunga Hwsfrw, ecke ſtoled med Leynd, ecke Fals-Vitne bored; Eñ ſa ſem vill ſeigia, ad hañ ei hafe drygt neitt þvilijkt, hañ ſeigier under eins, ad hañ hafe þeſſe Bodord hallded, ſem eg þore ad ſeigia valla mune nockur vera, og þvi er þeſſe Jatning riett, og ecke einaſta riett, helldur þarfleg hverium chriſtnum Mañe, og hafe Meñ ecke añad til Dæmis hier um, þa haſa Meñ Ord Pals, er hañ ſeigier: Þad er ſañarlegt Ord og i allañ Maata verdugt ad medtakaſt, ad Jeſus Chriſtus er komeñ i þeña Heim ſynduga Meñ ſaaluholpna ad giora, a medal hverra eg em hiñ nieſte, 1. Tim. 1. Og er þetta nu ſagt um þa, ſem ad kallð-ſiñader eru i þeirra Jatningu og Ydran fyrer Gude. Eñ þoott ad hiner ſem ad oſbijdur Stærd ſiña Illgiorda, og Guds Reide er þeir forþienad haſa, þoott þeir, ſeige eg, ſieu nær Guds Rijke, þa er þeim ſamt nærſta hætt, nema þeir ſtioorneſt af Anda Drotteñs, ſem bijr i hañs Orde, þvi Dioſulleñ er ſlægur, ſo ſem hann kañ ad mijnka Syndena fyrer hinum toomlaata og hyrdulauſa, ſo gietur hañ og ſtæckad hana fyrer hinum angræda og hugſiwka. Enn læt þier til Hugar koma Guds Barn, ad þad eru ecke Kraptar þiñar Naatturu, ſem ad uppvekia i þier ſoddañ Trega, helldur er þad Ande Guds, ſem ad ſtraffar Syndena þier til Leidriettingar, hann ſiñ ad ſært hefur Hiarta þitt med Brodde Logmaalſins, Oſ. 6. Honum er ecke um Megn ad græda þig med Smyrſlum Evangelij. Sa ſem vill giora einhvern koſtulegann Grip af Gullenu, hann ſmellter þad adur med Elldenum; So lætur Guds Ande þitt Hiarta bræána i þier ſo ſem annad Vax med Þeckingu Syndareñar, ſo þu verder þeſs koſtulegre i Guds Auglite nær hann ſvalar þier aptur

med Huggun sinne. Sa sem mier er fyrergiefed hañ elskar meir, sagde Drotteñ ford-
um vid Simon, Luc. 7. Enn þu veitst ecke hvad miked þier er fyrergiefed, nema þier
bitne alvarlega uñ Hiartaræturnar wt af Tilfiñingu eilijfra Pijsla, sem þu hefur for-
þienad. Vert þvi efalaus uñ Kvittun Synda þiña, nær þu ert so a þig komeñ. Ad
soñu er þad satt, ad stoor Saar þurfa mikla Grædslu, og ad Synder vorar sieu hin ver-
stu Saar, þad verdur ei wtskafed. Eñ David seiger, forlaat mier Synd mijna, fyr-
er þijns Nafns Skulld, þvi hun er mikel, sieu þær nu miklar, þaa er þo hañs Nafn meira,
hverium Gud hefur giefed Nafn yfer ollum Nofnum, Phil. 2. Hvert er hañs Nafn?
Eilijfur Fader og Fridar Hofdinge, Es. 9. Þar fyrer, so sem Fadereñ er Bornunum
lijknsamur, so vill hañ vera oss myskunsamur. Hañs Naad yfergnæfer allann Skil-
ning; Þar fyrer kañ Syndeñ alldrei ad vekia so mikla Styriolld i angrvadu Hiarta,
ad hvar sem ad hun yfergnæfer, þar yfergnæfe þo Naadeñ miklu framar, Rom. 5.
Gud bpo ecke til þess, ad þu skyllder orvænta helldur trwa. Meira kostade hañ ad
giallda fyrer þijnar Synder, helldur eñ fyrergiefa sijdañ. Bæt þess vegna ecke þvi of-
añ a allar þijnar Synder, ad þu giorer honum það Oriett, ad hañ sem þolde hiñ
smaanarlega Dauda og bitrustu Helvijtis Pijsler fyrer hinar verstu og hrooplegustu
Skamer siña Ovina, hañ mune burtu reka fra sier eiñ ydrande Syndara sem til hañs
kiemur i Nafne hañs Forþienustu. Hverke Ydranena nie Trwna tekur þu af sialfum
þier, hañ sem kveikte i þier Ydranena, hañ mun ei laata Trwna vanta, þvi hañ veit ad
hiñ er onijt an þessarar. Þar fyrer, nær þu hefur hiñ mesta Oþocka a sialfum þier,
þaa ert þu Gude hvad þeckastur, þvi meire Glede er i Himnenum yfer einum Synd-
ugum sem Ydran giorer, helldur eñ yfer 99. Riettlaatum, Luc. 15.

Nu þecke eg suma Meñ og hefe þeckt, sem ad soñu ecke efast uñ Krapt og Verdug-
leika Jesu Forþienustu, nie Guds omælañlega Myskunseme, ad þeim mune Syndernar
fyrergiefast, ef þeir giora verduga Ydran, eñ þad liggur þeim yfermaata þwngt i Skape,
ad þeir faae ei so heita Ydran giort, ad hun sambiode Stærd og Fiollda Syndaña,
af þvi þeir eru sier hiña verstu Glæpa og Bodorda Brota medvitande, eñ þeir faa
ecke so Hiarta sitt i sundurmared med Logmalsins Hamre, sem honum lijke, er ecke bijr
nema i sundurknosudum Hiortum, Es. 57. Og er þetta ad soñu ecke Ofyrersynu, þvi
eiga soddañ Mañeskiur ad kosta ollum Saalar og Lijfs Kroptum til ad sundurslijta og
plaaga Hiarta sitt med ydugligre Miñingu þeirra Glæpa er þeir drygt hafa, og ecke sijd-
ur Giædsku Drotteñs er þeir hafa styggt, helldur eñ hañs Reide, og mun þess hentar
Mañeskia fyrer yduglega Bæn og Vana, an alls Efa faa Gyrnd sijns Hiarta af hon-
um, er þesse Foorn alleina lijkar, Ps. 51. Eñ þoott ad Taareñ reñe ecke af Augunum,
þa er þad a Stundum Natturuñar Brestur, og heimtar Gud þad af eingum sem hañ
hefur ecke giefed honum. Noog er þad, ef hiñ iñre Madureñ klagar sig, asakar, sak-
feller og straffar. Eñ ef þier virdast þijnar Synder eñ þa stærre, eñ ad þier lijke vid
sialfañ þig, þa vit, ad þetta er hin þægelegasta og mesta Yferboot hia Gude, siñ af þiñe

Hende mꝏ framkoma, og munt þu heyra med St. Pꝏle; Lꝏt þier nægiaſt mijna Nꝏd, minn Kraptur er i breyſkum mꝏttugur, 2. Cor. 12. Og er ei slijkt ad hinn alvijſe Gud giore þier ſlijkt til gooda, þvi ef þu þættiſt hafa ad fullu Yđran giort fyrer Synderñar, þꝏ mꝏ ſkie, ad þier være hætt vid ad falla til þeirra aptur. Hallt þier þeſs vegna vid hañs Myſkunar-Fætur, og ſlepp honum ecke fyrr eñ hañ hefur bleſſad þig. Hier er oſs gott ad vera ſagde Petur, þegar Jeſus forklꝏradeſt ꝏ Fiallenu helga; Vier viliũ giora hier þriꝏr Tialldbꝏder, þier eina, Moyſi eina og Eliæ eina, ſagde hann, Matth. 17. Eg gledſt ad ſoñu med Petri af þeſſare Dijrdar Sioon, 2. Pet. 1. Og dꝏeſt ad henne i allañ Mꝏta, eñ þore þo ecke ad oſka mier hiñar ſomu, ꝏ medañ eg ber epter mier Lijkhama þeſſa Dauda, þeñañ ſwla Synda-Seck, þeñañ vonda Ham, fullañ allra Girnda og Laſta, þvi eg kvijde vid ad mijn ſyndug Augu, er ſo margt illt hafa ſied, og vænt uñ þoott, ad þau mundu ecke ſtandaſt þann himneſka Dijrdar-Lioomа, mier munde hid ſama i Hug koma og Manoha ſagde fordum Daga vid Kviñu ſijna, vid hofum ſied Engel Drottens, þvi munum vid eflauſt deya, Jud. 13. Eñ mætte mier þad heppnaſt O Herra Jeſu! ſem hiñe berſyndugu fordum, ad ſkrijda ad þijnum bleſſudu Footum, og þvo þær i Tꝏrum mijns Hiarta, og ſmyria med Oleo minnar Yđranar, Luc. 7. Þꝏ villda eg ſeigia: Hier er mier gott ad vera, þar vil eg flatur liggia, þadann ſkal mig eingenn draga, þar ſkal mig eingenn fordæma, þar ſkal eingenn mier uñ mijnar Synder brijxla, helldur mun eg heyra þau Fagnadar Ord, honum fyrergafſt miked, þvi hañ elſkade miked; far i Fride, þijn Trwa giorde þig hoolpeñ. O Herra! þegar vier koſtum oſs flater til Skarar Foota þinna, Pſ. 110. Ecke med Ovinum þijnum, helldur med þeſſare Saka-Konu, þꝏ lꝏt þinn gooda Anda mæla þeſſe Huggunar Ord i vorum Hiortum. Bænheyr þad nꝏdarfulle Gud, fyrer Jeſu þijns Sonar Forþienuſtu, og gief oſs þar til þeſſa þijns ſama Anda Styrk, og Adſtod i hanns Nafne, AMEN.

# Annann Sunnudag epter Pꝏſka.

Gudſpialled, Joh. 10. Cap.

JEſus ſagde til Gydinganna: Eg em goodur Hyrder. Goodur Hyrder giefur ſitt Lijf wt fyrer ſijna Saude, enn Leigulidenn og hann ſem ecke er Hyrder, hvers ad Sauderner eru ecke eigenleger; nær hañ ſier Ulfeñ koma, þa yfergiefur hañ Saudena, og flijr i burt. Og Ulfureñ grijpur Saudena, og ſundurdreifir þeim. Eñ Leiguliđeñ flijr, af þvi hañ er Leigulide, og giæter ecke Saudaña. Eg em goodur Hyrder, og eg þecke mijna Saude, og eg þeckeſt af mijnum; So ſem Fadereñ þecker mig, og eg þecke Fodureñ, og eg legg mitt Lijf wt fyrer mijna Saude. Eg heſe og adra Saude,

ſem

sem ei eru af þessu Sauda-Hwse, þaa byriar mier og hier til ad leida, og þeir munu heyra mijna Rødd. Og þar mun verda eitt Sauda-Hws, og eirn Hyrder.

## Exordium.

I Fyrra Pistle til Tim. 3. seiger Postulenn, ad þad sie mikell Leyndardoomur Gudhrædslunnar, ad Christur sie Heidingiunum predikadur. Gudhrædslu nefner hann hier Christenndoomenn, so sem vijdar annarstadar i sijnum Pistlum, þad er hinn sanna Lærdoom um Frelsara Heimsins. Þad er sw gledelega Hyrdersins Raust, er Drottenn talar um hier i Gudspiallenu, hver og hefur fagurt læter a medal vor, þvi seigir hann: Eg Hefi Og Adra Saudi Sem Ecki Eru Af Þessu Sauda-Hwse, i hverium hann bender til Spaadooms Ezechielis 37. Cap. Hvar Drottenn so talar: Minn Þioon David skal vera Konungur yfer þeim, og þeir skulu aller hafa einn Hyrder, ad þeir gange i mijnum Riettindum. Gledelegt er þetta ad heyra, Vr. M. fyrer þad Foolk er sat i Myrkrunum, Esa. 9. Og fyrer þeirra Epterkomendur, sem erum vier. Enn so gledelegt sem þad er, so hryggelegt er til þess ad vita, ad þeir eru so faaer sem þad vill rætast a, nu a þessum verstu og sijdurstu Døgum, þvi so seigens Hende sem ad marger af Heidingium tooku a moote hinu fyrsta Christne-Bode; so faaer eru nu þeir vordner, sem ecke drepe Hendenne vid þessare Guds Naad, og so sem ad Christur fann varla þann er hann þeckte i sinne fyrre Tilkomu, so er ad ugga, ad hvad sem hann tefur wr þessu ad koma, þaa mune hann varla finna Trw a Jørdu, Luc. 18. Edur þaa er hann þecke fyrer sijna. Og fyrer þad, ad þad er so almennt vorded, ad daufheyrast vid Raustu hins gooda Hyrders, þaa vil eg wt af Evangelio tala um þaa Hlute er kunna ad uppvekia oss til ad liaa henne vor Eyru, so ad vier ecke wt af sofnum i Daudanum. Gief oss þar til þinn Anda himneske Fader, fyrer Jesu Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

VAkna upp þu sem sefur, og rijs upp af Daudanum, seiger Postulenn, Eph. 5. so mun Christur upplijsa þig. Enn hvar vid skyllde saa vakna er sefur i Syndunum? Hvar vid skyllde hann upprijsa sem er daudur i þeim? Nema vid Raust hins gooda Hyrders, er sagde fordum Daga, þaa hann framsette Epterlijkinguna um Sæded, Matth. 13. Hvert ad er Guds Ord, hver Eyru hefur ad heyra, hann heyre. Guds Rødd er þetta enn ecke Manna, sagde Foolked þad er heyrde a Tal Herodis, af þvi hann talade so sniallt, Act. 12. Enn eg maa þad ollu hellder færa heim til þessa gooda Hyrders Saudanna, þess Biskupsins med þaa vellærdu Tunguna, Es. 50. Þad eru Guds Ord, enn ecke Manna er hann talar, og þyckest eg noog hafa sagt, þegar eg seige, ad þad Guds Ord sieu. Þu syndugur Madur er þetta heyrer, laat þier þad til Hiarta ganga, og hugsa hvers sa er sem vid þig talar, þad er eingenn jardneskur Hofdinge, ecke Konungur

edur Keysare, og munder þu þo heyra þꜳ med hiñe mestu Athygle, eñ þad er Drotteñ Himens og Jardar, sꜳ ed hefur Konungaña Hiortu sier i Hende, og øll Verølldeñ leikur fyrer honum a Reide-Skiꜳlfe þegar hañ talar, Prov. 21. Mikell mꜳ vera Munur Abrahams Forfødurs og þijn, ad þegar hañ taladi vid Drottiñ og þo i Mañs-Lijke, þꜳ vard hañ so audmiwkur ad hañ sagde: Nu villda eg þo tála vid Drotteñ þoott ad eg sie Molld og Aska, Gen. 18. Og rak sꜳ Guds Madur þo añara Eyrende og ecke sitt i þad sinn, enn þu sem ad liggur hrasadur medal Ræningia, Luc. 10. og gietur þier einga Biørg veitt, jꜳ, þu sem velltet þier i Syndunum daglega eins og einn Madur i sinne Hvijlu, þu villt ecke heyra þegar Drottenn kallar i sijnu heilaga Orde. Hugleid ad ef þu ætter ad taka Eyrende nockru af Høfdingia einhverium, og þu svaradir honum øllu odru eñ þvi sem til þess heyrde, edur þu lietest þad ecke heyra, munde hañ ecke brꜳdlega reidur verda og reka þig ꜳ Dyr? Edur lꜳta i Fiøtur kasta? O! hvad miked skilur þꜳ Gud og Mennena? Hversu opt kallar hann oss fyrer sig i sijnu heilaga Orde? Hversu opt verda oss hañs Eyrende ꜳ Hendur faleñ? Hvad tijdt bijdur hañ oss hvad vier giora skulum, og ogiørt lꜳta? Enn þad geingur eins fyrer mørgum af oss, eins og Syrach skrifar um hinn heimska, ad þad er eins vid hañ ad tala og þann er sefur, nær þu hafder loked Rædunne, spyr hann epter hvad þu sagder, Syr. 22. Eins geingur þad mørgum þeim er Ordid heyra edur lesa: Meñ muna þad varla medañ þad heyrt edur lesed er, auk helldur ad þeir fære þess nockurn Avøxt, riett eins og St. Jacob talar hier um, ad ef nockur er Ordsins Heyrare og ecke Giørare, hann sie lijkur þeim Manne, er sinn nꜳtturlegann Asiylit i Speigle skodar, Jac. 1. þvi hann skodade sig, gieck burt og gleymde hvilijkur hann var. So sꜳum vier (ef vier þo sumer ad þvi giætum) i heiløgu Guds Orde, hañs Giædsku og vora Illsku, hañs Þoleñmæde og vora Þvermoodsku, hanns o-wtseigianlegann Kiærleika og vort Hatur og Leida sem vier berum til hañs Riettinda, enn vier gleymum þvi so fliott ad þad hefur lijteñ Stad hiꜳ oss til Apturhvarfs frꜳ Syndunum nie Lifnadarens Leidriettingar. Giætum þo ad þvi i Jesu Nafne, giætum ad hversu dijrmætt ad þetta Orded er, og hvad miked þad hefur kostad oss ad byrta. Þad er ecke eins og þad Orded er Gud talade i Upphafe, og skoop þar med Himen og Jørd, Gen. 1. Ecke eins og þad hann talade til vorra fyrstu Forelldra, er hann straffade þau fyrer Syndena, og rak wt af Paradijs, Gen. 3. Ecke eins og þad hañ talade til Israels Sona i Eydemørkeñe, og þeir beiddust undann ad heyra þad, Exod. 20. Helldur er þad Lijfsins Ord, Joh. 6. fyrer hvert ad Guds Sonur hefur uppꜳ sig tekid vort auma Holld og Blood, og i þessu sama Hollde lided allar Eymder mannlegs Hollds, Hwngur, Þorsta, Klædleise, Utlegd, Ørbyrgd, Hꜳdungar og Brixle ogudlegra Manna, Offsookner, Fiøtur, Hrꜳka, Hwdstrokur, Høgg og Slog, og ad sijdurstu hinn smꜳnarlega Dauda ꜳ Krossens Gꜳlga.

Allt þetta vann hin eilijfa Hꜳtign til þess ad opiñbera þetta Lijfsins Ord sijnum Fiand-Moñum er geingid høfdu i Sveit med Andskotanum. Og þo skamast sijn ecki einn

giaalijfur og þverbroteñ Syndare ad troda þessa Guds Gaafu undir Footunum, lætur naudga sier til ad heyra þad og læra, og kallar þeim veitt i sem Guds Sonar Umbod aa Hende hafa, ef þeir faa þryst honum til ad sijna sig under Heyrn Guds Orda, seig mier þu sem ekur þier vid ad sitia under eiñe Predikun, hvert mun Guds Son hafa kostad meira ad faa sitt Ord þier opeñberad, edur þig ad heyra þad? Þu munt nærre gieta er þu les hañs Pijslar-Sogu, hitt veit eg ad hañ laangadi til ad lijda allar þær Kvaler sem þar i ritadar eru þiña vegna, enn hvert þig laangar so til ad heyra þad Orded af Krossinum, þad bid eg sialfann þig ad hugleida. Seigid mier eñ aptur: Hvers vegna mun hiñ goode Gud hafa uñed so miked til aumra Maña Saaluhiaalpar? Þurfti hañ þess sialfur vid? Fiærre sie þvi: Himnarner vtskijra hañs Dijrd, og Festingiñ Verk hañs Handa, Ps. 19. Munde hañ hafa lided nockurn Skort aa Dijrd siñe, þoott Mañeskiañ hefde eilijflega kvalest i Helvijte? Nei, eins vegsamlegt hefde vered hanns Riettlæte, so sem nu er hañs Giædska, þoott eingum hefde hann myskunad, er honum nockud veitt i vorre Þioonustu? Laangt fraa, þar standa frame fyrer honum otal Þusund himneskra Herskara, sem lofa hann og prjisa aan Aflaats Noott og Dag, hverra dijrdlegar Radder og Lofs-Saungvar laangt yfer gaanga vort syndugt Kvak, er vier laatunst vegsama Gud med hier aa Jordunne. Hvar fyrer lætur hañ þaa sitt dijrmæta Ord predika? Hverium til Gagns og Gooda? Þier, þier, O þu rænulaus og þverbroteñ Syndare! Og þad vt af einskiærre Naad siñe, og þo leggia synduger Meñ þeña himneska Leyndardoom ad so litlu, ad Meñ vilia naalægt allt añad heyra. Sie þad ei añad sem kunne ad þvijnga oss til ad hafa Mætur aa Guds heilaga Orde, þaa lijtum til vorrar saurugrar Fædingar; Hvad vorum vier nær vier fæddunst i Heim þenna af Moodur-Lijfe? Reideñar Born, Eph. 2. Eintoomis Holld og Blood, Joh. 3. sem ei kañ Guds Rijke ad erfa, 1. Cor. 15. Eñ hvad erum vier nu? Guds Born og Erfingiar eilijfs Lijfs, Gal. 4. Ef vier trwum aa Guds Son og vardveitum hanns Ord; Eñ hvar fyrer er þad skied? Mun ecke fyrer Guds heilagt Ord? Hvert ad er i Vatnenu og med Vatnenu, nær vier giorunst Guds Born af Reidennar Bornum i heilagre Vatns-Laug. So er þaa Guds heilaga Ord hin fyrsta Mioolk, hveria vier iñdreckum strax med Moodur-Mioolkeñe, fyrer hveria vier odlunst hid andlega Lijf, aan hvers hid lijkhamlega, er eckert annad eñ Daude. Enn Gud naade oss auma og synduga, ad þegar vier drogunst aa Legg, þaa velger oss vid þessare Barna-Fædu, aan hverrar eingenn Spekingur, einginn Meistare, einginn Doctor hefur þo fullordeñ giorst i Guds Þeckingu. Enn hvad velldur þvi, Br. mijner? Þad medal annara, ad marger ovitrer og hyrdulauser Forelldrar, er sialfer kañskie lijted edur eckert vita sier til Saaluhiaalpar, þeir leysa Bornunum fyrr ad veniast aa Brioost hinnar giaalijfu Hooru Veralldareñar, helldur eñ aa hina skynsamlegu og osviknu Mioolk er St. Petur dreckur þeim til af, 1. Pet. 2. ad þau vaxe i henne. Giæted þo ad Saalum ydar, christner Meñ, þoott þier ecki miked hyrded um̃ Saaler Barna ydar, þvi Gud mun eflaust kref-

ia

ia Þeirra af ydar Hende, Ezech. 33. Sem vegna ydar Forsoomunar eilijflega glatadar verda. Eñ þoott ad þad hafe vered Forelldraña Skulld ad þau hafe ei uppfrædt nockurn a hañs Ungmeñis Alldre, þaa vite hann samt, ad þad verdur hanns eigenn Skulld þegar hañ kiemur til Vits og Ara, ef hann fer aafram i slijku Ovite og Hyrduleyse: Þar fyrer ef nockr er saa, ad hañ vante þad er hañ vita þarf til sinnar Saaluhiaalpar, siñ eg dylst ecke vid, ad fleire eñ færre vera mune, þaa laate hann sier um alla Hlute fram vera annt um, ad faa þess Leidriettning hiaa þeim sem betur vita, ef hañ elskar Saalu sijna, og skameft sijn ecke, þvi fyrer hverium vill hañ skamast sijn? Ecke fyrer sijnum Saalusorgara, þvi ef þar er nockur Guds Anda Neiste i honum, þaa mun hañ fagna þvi, ad eirn faafroodur Vesælingur vill leita Raads til hanns i sijnum Saaluhiaalpar Efnum; Ecke fyrer neinum gudhræddum edur vitrum Mañe, þvi so laangt er fraa þvi ad nockur saa sem Gud elskar mune hlæa ad þvi, ad þeir mundu kalla þad Lofs verdt, og vera eins lynder og þeir sem i Himnenum eru, hvar meire Fognudur er yfer einum Syndara, sem Ydran gioerer, helldur enn yfer 99. riettlaatum, Luc. 15. Fyrer hveruim skyllde hañ þaa skamast sijn? Fyrer Gaarungum Veralldareñar sem jafnvel hlæa ad Gude og ollu þvi honum tilheyrer. Enn þess er stoor Munur ad taka aa moote þvi Spotte sem einkis er verdt, og ad standa med Kiñ-Roda fyrer Guds Doome aa sijdarsta Deige, og hvernig sem ollu þessu er vared, þaa hygged ad, hvert ad sie miñe Mijnkun ad aller vite þad eiñ verde ad fara til Helvijtis fyrer Vanvitsku saker, ellegar ad leidriettast af odrum sem betr vita, so Meñ kuñe ad verda Erfingiar eilijfs Lijfs. Nu er þad ecke noog Guds Barn, ad þu kuñer þiñ Barna Lærdoom, og viter hvad þu aatt ad trwa, og nockurnveigeñ ad giora, þar eru so morg Tilfelle sem ad oss mæta aa hinne hættusomu Reisu fraa Vogguñe til Grafareñar, bæde i andlegañ og lijkhamleganu Maata, ad saa sem vill fara hina riettu Leid, hañ getr ecke vered aan Leidarvijsers Guds heilagra Orda, hvert David seiger ad sie Lioos aa sijnum Vegum og Lampe Foota siña, Ps. 119. Hañ sem þo var eirn vitur Konungur. Med Guds Orde verdum vier endurfædder; mz Guds Orde uppfrædder; þau temia vorn Ungdoom, styrkia fullordens Areñ, hugga Ellena. Hvad er eirn Unglingur saa ed ecke hefr Gud sier fyrer Augum? Hañ er eitt raadlaust Villudijr, eirn galeñ Fole, þvi seiger David; Hvernig kann Æsku-Madureñ ad gaanga siñ Veg ostraffañlega? Ef hañ helldr sier vid þijn Ord, Ps. 119. Þvi verdur morgum þeim er Guds Ord og goodar Menter forsmaa i Ungdoomenum, ad þeir elldast alldrei þoott þeir aattræder verde; Eñ hvar eiga þeir Gud ad fiña? Hvar eiga þeir hañ ad sia? Nema i hañs Orde. Hvad er Madureñ þa hañ er fullordeñ aan Guds Orda? Laatum honum Rijkdoom hlotnast, hañ er Satans og Mamons Þienare, nema hañ lærei goodum Verkum rijkur ad vera, siñ Paulus bijdr, 1. Tim. 6. Eñ hvar skal hañ þad læra nema i Guds Orde? Laatum hañ setiast i Metord og Virdingar, hvad er hañ fyrer utañ Leid-Sogu Guds Orda? Eitt Skip fyrer utañ Stijre, norkurskonar Rik sm Vindureñ upp i Lopted feiker, þad siaum vier

 (þvi

(þvi verr) a morgum Afglapa, sem ad Luckan tiller upp i hæaan Sess, siælfum sier a stundum til Spotts og Minkunar, en ødrum til Skada og Meinsemdar. Ellen er ad sønu i siælfre sier heidarleg, jafnvel epter Guds Bode, Levit. 19. Oskande være ad hinn ungu hefde þar epter Vilia edur Vit ar ad sijna henne tilbærelegann Heidur. Enn einn gamall Madur fyrer utan Otta Drottens, er Vidundur Veralldar, þvi Guds Otte er þad semhan atte framar ollu ad læra a sijnum Æfe-Stundum og kuna ødrum ad kiena sem yngre eru, ma þvi sijnast ad han hafe lijten Avoxt Æfe sinar, ef han er ungum verre i Þeckingu Guds og hans heilogu Orda. Seiged mier: J hveriu er vor Christendoomur mest foolgen? J þeim þremur Hlutum ad eg meina, ad ydrast Syndana, ad trwa, þær verde sier fyrer Christum fyrergiefnar, og so ad læta af þeim framveigis. Enn hvernig villtu þeckia Syndena, nema Guds Ord sijne þier hana? Þad er eirn Speigell i hverium Madurenn kann ad skoda hvilijkur han sie. Ared edur Agnernar i Loptenu saum vier ecke sied, nema i Soolar-Geislanum. Giætum þess, Brædur mijner, ad þoott oss sie i Bodordunum sagt, hvad vier eigum ad giora og ogiort læta, þa er þad margt smætt i Fare voru sem Bodordunum er mootstædelegt, og vier mundum ecke skynia nema oss være þad framar sijnt af Guds heilaga Orde, sem ad er hinn fegurste Geisle þeirrar blessudu Riettlætis Soolar. Enn eingenn er afsakadur þoott eige vite han Guds Vilia, þvi sa sem an Logmals syndgar, hann skal an Logmals fyrerfarast, seiger Postulen, Rom. 2. Hvad eigum vier um siælfan Gud ad tala? Lijtid til hinna fyrre Daganna sagde Moyses vid Jsrael, lijtum til Heidingianna, Fedra vorra, hverier ad geingu til mallausra Skurgoda og þioonudu þeim, 1. Cor. 12. O! hversu mættum vier þa hinum allsvalldanda Gude Þacker kuna med grætande Tarum, ad hann hefur oss sijna Hætign, sijna Giædsku, sitt Riettlæte, sijna Polenmæde og sijna guddoomlega Speke openberad i sijnu heilaga Orde, so ad nær vier berum vort saurugt Lijferne, er vier skodum i Speigle Logmalsens, saman vid hans guddoomlegann Tignar-Lioma, þa saum vier Vit a ad skamast vor, ad ydrast, ad audmykia oss under volldugа Guds Hond, og offra honum þeirre Foornenne er honum alleina lijkar af vorre Hende, sem er harmþrwngenn og sundurknosadur Ande, Ps. 51. Nu þegar vier hofum so þeckt Syndena, og siaum oss ecke annad bwed enn eilijfar Helvijtis Pijsler, hvar villdum vier sa Boot vid þessu? Være oss þad ecke openberad i Guds Orde, ad hans Sonur være i Heimenn komenn til ad kalla synduga og ecke riettlata til Ydrunar, Matth 9. Þegar Andskotenn lætur einum Glæpa-Manne, sem allan sinn Alldur hefur i Vondskunne aled, osbiooda þær Syndernar sem hann hefur lockad han til, so hann a skamt til ad orvænta sier Guds Nadar. Hvar vill hann fa Boot vid þessu? Ef ei hefde hann þau Lyknar-Ord Guds, ad so sannarlega sem han life, vilie hann ecke Syndarans Dauda, Ezech. 33. Og onnur þvilijk. Nu þegar þu att ad uppbyria hina nyiu Hlijdne, og sijna ad þu siert Guds Barn vorden af Præl Syndarenar, enn Andskotenn, Heimurenn og Holldid freista þijn, hvar villt þu fa Rad til ad utslockva oll

ellд-

tilldleg Skeyte hins prettvijsa, Eph. 6. Nema i Guds Orde? Hver kleñer þler ad krossfesta Holldid med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Nema Guds Ord? Hver yferviñur Heimeñ, nema sa sem fæddur er af Gude? 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þvi hañs Sæde er i honum seigier Johañes, 1. Pist. 3. Hvert er þad Sæded? Þad er Guds Ord seiger Drottenn i Epterlijkingunne hia Lucam, Cap. 8.

Hier verd eg og ad miñast nockud a vora Kyrkiugaungu, og Heyrn Guds Orda i hañs Hwse. Þad er oss ollum vitañlegt, ad i sijnu Mustere hefur Gud sett Miñing sijns Nafns, þar vill hañ dyrkast og tilbidiast, Exod. 20. Þar eigum vier ad tala vid hañ i vorum Bænum, og heyra hañ aptur til vor talande i sijnu heilaga Orde, þar eigum vier ad taka Riettendeñ af Kieñemañsens Muñe, þvi hañ er Engell Drottens, Malch. 2. Ritningenn er ad sonnu Bruñur hiñs lifanda Vatns, er Christur vill oss giefa, hver sem af þvi dreckur, hañ mun ecke þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. Eñ vier meigum flester seigia, eins og hin savijsa Samariska Kviña sagde vid Jesum fordum, þad er diwpt ofañ i Bruñeñ, eñ vier hofum eckert ad ausa med. Guds Ords Þienarar eiga ad vera oss i þessu so sem Rebekka var Eleazar Abrahams Sendemañe, ad hun joos Vatned upp af Bruñenum fyrer hann og hanns Ulfallda, Gen. 24. Eins og Jacob var Rachel, er hañ vellte hinum mikla Steine af Bruñenum, so heñar Fodur Hiord kuñe ad drecka, Gen. 29. Þeir eiga ad sundurkliwfa Ord Sañleiksins fyrer oss, 2. Tim. 2. Og giefa Guds Hiwum i riettann Tijma þad þeim byriar, Luc. 12. Þvi hvernig meiga þeir trwa nema þeim sie predikad seigier Paulus, Rom. 10. Haf þvi Raad Salomonis er hañ seigier, Ecc. 5. Vakta þijnar Fætur nær þu geingur i Guds Hws, og vert helldur bwiñ til ad heyra, eñ til ad giefa Offur hinna Heimsku. Soddann Offur maa kalla þeirra Guds Þioonustu er byrtast i hañs Hwse, alleina fyrer Sida-Saker, eñ hugsa allt añad eñ um þad sem talad er. Nu veit eg þo christeñ Madur, ad þu seigier, þoott mijner Þankar kuñe ad hvarfla hijngad edur þangad, jafnvel under Predikuneñe, þaa fæ eg ecke vid þvi giort, hversu vel sem eg villde. Eg veit þad er satt, og þad maa hver Madur odrum jaata, þvi Mañsins Þankar eru vonder fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ hitt gieta Meñ vid giort, ad þeir sieu ecke Langdvolum i burtu nær Menn under Guds Orda Heyrn sitia. Þvi Raad eru nockur vid þvi, B. G. ad miña verde af þessu helldur eñ kañskie almeñelega skiedur. Eg vil ecke hier tala um ogudlegar Mañeskiur er setia sig til ad hugsa allt añad eñ þad sem af Guds Orde talad er, til ad stytta sier med þær Stunder er þeir ættu Gude ad giefa. Um soddañ Andskotans Mustere vil eg ecke tala, hinum vil eg Raad leggia er giarnañ vilia Orded heyra, eñ sa þad ecke giort sem villdu þeir, fyrer Natturuñar Breiskleika Saker. Hid fyrsta er, ad nær þu geingur i Guds Hws, þaa gior þad ecke af Yferdrepskap, helldur Alvoru. Enn fyrer þvi ad soddañ Hugarfar tokum vier ecke af sialfum oss, þaa bidium Gud iñelega um ad giefa oss Astundan og Epterteket siña heilogu Orda, nær vier iñgaungum i hañs Hws, hvad nær vier giorum af Hiarta, þaa er eingeñ Efe a þvi, ad hañs Ande bidur fyrer oss

med oumrædelegum Andvorpunum, Rom. 8. Og framkvæmer i oss þad gooda Verked. Hid annad er Elskan til Guds, hvería vier odlunst bæde med Bænenne, ef hun er alvarleg og ydugleg, so og med siifelldre Ihugan Guds Tignar og vors Overdugleika, hanns Orlætis og vorrar Þarfar, hanns Giædsku og vorrar Illsku, hanns Polenmæde og vorrar Þvermoodsku, og kann oss alldrei ad bresta Orsok til þessa, þvi a hveriu Augnablike medtokum vier hanns Nædar Velgiorninga, og a hveriu Augnablike syndgunst vier a moote honum, so þegar vier berum þetta samann i Hiarta voru, þoott ei sie nema Kvolld og Morgna, þa kunnum vier ecke ad fara a mis vid þad, ad fa eina brennande Elsku til hanns, sem oss ogudlega og synduga Orma sparar i Nad sinne, og giorer oss ei ad siidur allt til gooda, þoott vier hann viisvitande til Reide reitum. Nu er þad vitannlegt, ad ef vier elskum nockurn og virdum, þa vigtum vier hvert Ord er hann talar, og þyker vænt umm þad, og þoott þad sie Heimska a Stundum, þa er vor Breisk-leike so mikell, ad vier holldum þad gullvægt, hvad sem wt af hanns Munne kiemur, og þvi skylldum vier þa ecke elska Guds Ord ef vier hann elskum, þar þau eru i sialfum sier dijrmætare enn hid besta Gull, og sætare enn Hunang og Hunangsseimur, Ps. 119. Enn þa framar, hofum vier ecke Ynde og Gaman af ad heyra talad umm þa Hlute er oss þyker vænt umm? Sioo-Madurenn talar giarnann umm Siglingar, Strijds-Madurenn umm Orlog, hinum ægiarna leidest alldrei ad heyra rædt umm Fiaar-Aflann, Vijsenda-Mannenum umm Heims-Speke, Logvitringnum umm þess-hattar Hygginde, þvi hvar ydar Fiarsioodur er, þar er ydar Hiarta, sagde Jesus, Matth. 6. Aller erum vier onæmer a hid gooda i fyrstunne. Eirn Unglingur þa haun er fyrst settur til menta, þa er honum leid sw Ydia, enn epter a fær hann so mikla Lyst þar til, ad hann gietur varla annad giort; So skal sa vita ad sier er vel framfared a Guds Veige sem elskar hanns Ord, fær Menn fyrst Elskuna, þa er ecke ad ugga umm Eptertektena, þvi mijner Sauder heyra mijna Raust, seigier Guds Sonur hier i Evangelio. Og seiged mier, B. M. Umm hvad ætte oss vænna ad þykia, enn umm Saaler vorar, sem vier þo ecke vitum nema fra oss tekn-ar verde a hveriu Augnablike, þvi skylldum vier þa ecke giefa hinn mesta Gaum ad þvi er þeim hialpa kann, ecke til nockurs Stundargagns, helldur til eilijfra Nota? Enn þessa Elsku og Rækt til vorra eigenn Saalna, munum vier odlast ef vier venium oss a ad bera samann þa dijrdlegu Vist sem ollum Guds Bornum er fyrerbwenn med Christo i hanns Rijke, og so fordæmdra Pijsler i Helvijte, hvar þeir eta sijnar Tungur wt af Pijnu og Ofraun Kvalanna, Apoc. 16. J þridia Maata Barn Guds, nær þier annarlegar edur synduger Þankar i Hug fliwga under Guds Orda Heyrn, þa lat þa sionu verda þier til Uppvakningar, ad þu skammest þijn, ad þu hafer þannig saurgad Guds Musterid, og sla þannig Andskotann med sijnu eigenn Sverde, þvi ad vijsu mun þig angra þad ef þu ert Guds Barn, ad þu ert so under Syndena selldur, Rom. 7. Ad þu gietur ecke eina Stund vakad med Drottne, Matth. 26. Og nær þig þad angrar, þa munt þu brædlega leita aptur til ad finna Hugsvolun Saalu þinne i þvi sem fyrer þier er talad af

af helgum Stad. Villdu Meñ nu þetta þrent gaumgiæfelega athuga, þaa er eg fullkomlega viss um, ad margur fære betri heim aptur i sitt Hws, Luc. 18. undann Guds Orda Heyrn, helldur enn nuig ugger ad Menn almennelega giore; hvad Gud nade. Nu er þad þo ecke noog, B. M. ad Meñ heyre Guds Ord med Athygle, nema Meñ fære þar af Avoxt i Þolinmæde, Luc. 8. Vier eigum ad rootfesta þad, so og groodursetia i Hiartanu, ad nær vier freistunst af einhverre Synd, ad vier þaa strax hofum or-ugt Vopn, og moote heñe, i þvi sem vier hofum numid af Guds heilagri Kieñingu. Hvad giordi vor goodi Meistari, nær hañ var freistadur, þoott ecki væri honum hætt vid ad sigrast af Dioflinum, þaa sloo hañ samt þañ Ovin med Guds Ordi, i heilar þriaar Reisur, so ad hann skamadest sijn, og forliet hañ, seiger Gudspiallamadurenn, Matth. 4. Gior þu eins christenn Madur, enn hvernig villt þu faa þad giort, nema þu hafir numed þad og geimt i Hiarta þijnu? Og kuñer þu af einhverre Freistingu yfirstijgeñ ad verda, hvernig villt þu faa Lækning þar vid, nema af þvi sem þu kant af Guds Orde? J sama Maata, nær þu fær Orsok edur Tækefære til ad giora nockud gott, þaa eiga heilog Guds Ord er þu hefur safnad i Fiesiood Hiarta þijns, ad miña þig þar a, og gioret þu ecke þetta, þaa maa þier þad ad litlu gagna, hversu bænheitur, hversu gudrækinn sem ad þu situr under eiñe Predikun, þvi þad vill eins til ganga og um Sæded, Luc. 8. þad er fiell i grijtta Jord og a medal Þyrna, ad soddañ Mañeskiur añadhvert medtaka Orded med Fagnade, enn hafa þo ecki nockra Root, þvi um Stundarsakir trwa þeir, og falla fraa a Tijma Freistingareñar, edur og ad Þyrneñ, þad eru Sorg, Audæfe og Gyrndir Heims þessa vaxa upp med þvi og kefia þad, so ad þad fæer eingañ Avoxt. Eg efast ecke um, ad þar mune nockrer vera, sem æsetia sier gudrækelegann Lifnad, nær þeirra Synder eru straffadar i Guds Orde, eñ hvad faaer þeir sieu, er fylla þad med Verkenu, et audsært af ogudlegu Framferde Mannanna i Heimenum. Gud giæfe þar være eiñ Samaritan a mille tiju Gydinga, Luc. 17. Einn Abraham i Gerar, Gen. 20. Og tiju gudhrædder i Sodoma, Gen. 18. Þig ydrar af Hiarta þess er þu hefur Gude a moote broted, og þu lofar ad syndga ecke vijsvitande framveigis. Eñ seig mier kiære, nær ætlar þu til þess ad taka ad lifa betur? Munu þeir ei faaer er hlaupa strax wr Tollbwdeñe med Levi og fylgia Christo epter, Luc. 5. Nær ætlum vier ad taka til ad elska Gud og hañs heilaga Ord, ad virda og ottast hañs Nafn, sem oss byriar, ad heidra Forelldra og Yfirbodna, Exod. 20. Ad aga Born sijn og uppala þau i Otta Drottens, Eph. 6. Nær ætlar hiñ heiptræke ad taka til ad elska siñ Ovin, Matth. 5. Hinn lauslaate ad giora Saattmaala vid sijn Augu, Job. 31. Hinn Agiarne ad laata af ad stela, ræna og svijkia; Eph. 4. Lygarenn ad rægia og baktala, 1. Pet. 2. Nær ætlum vier ad hreinsa Hiortu vor af þessum daudlegum Verkum og Svijvirdingum? Kañskie nær vier getum ecke leingur, edur nockru epter þad vier erum dauder. Eñ David seiger, Ps. 115. Ad þeir prijsi ecke Gud sem osañsata i Helvijted, og mun þad þaa verda nockud um seiña, ad giallda honum þaa Skulld er honum atti hver ad lwka.

O þu nꝍduge Gud! Skapa þu i oss hreint Hiarta, og gief oss eiñ nijañ vissañ Anda, Ps. 51. Snw þu oss Drotteñ, þꝍ er oss snwed, Jer. 31. Lꝍt oss hafa Lysting vora i þijnu Logmꝍle, og tala uñ það Daga og Nætur, Ps. 1. Sieu þijn hellogu Ord Epterlæte vorra Sꝍlna, og þijn Riettinde framar af oss meteñ enn Gnægd allra Audæfa. Israel sagde fordum Daga vid Moysen, er Guds Reider sloou i Horeb: Vier vilium ecke framar heyra Raustena Drottens Guds vors, tala þu til vor, Exod. 20. Eñ Moyses hefur ecke forgiefens sagt til þeirra: Eiñ Spꝍmañ mun Drotteñ Gud ydar uppvekia ydur, af Brædrum ydar lijkann mier, honum skulud þier hlijda, Devt. 18. Lijkann ad sonnu, O Moyses! Enn þo miklu betre, miklu ædre, miklu fullkomnari, hver ed eiñ lijttlogandi Hor-Kveik mun ecki wtslockva, edr brꝍkadañ Reyr i sundurbrioota, Esa. 42. Það ert þu O herra Jesu Christe! sannur Gud og sannur Madur, þar fyrer seigium vier med fullu Trausti, ecki med Israel, helldur med Samuel: Tala þu Drottenn, þijner Þienarar heyra, 1. Sam. 3. Vier vilium hanns Roddu heyra, er lætur oss seigia: Giored Ydran, þviad Guds Rijki er nꝍlægt, Matth. 3. Eñ ecke ofmiog ottast Rodd hañs er seigir: Bolvadur sie sꝍ sem ecke helldur allt það sem skrifad stendur i Logmꝍlenu, Devt. 27. Vier aumer og vesæler Jardar Madkar, vilium honum heyra er seiger: Komed til mijn aller þier sem Erfide drijged, og Þwnga erud þꝍder, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Enn vier skielfunst ad heyra hanns Raust er seiger: Hver sem giorer þetta hann mun lifa i þvi, Levit. 18. Þar fyrer tala þu til vor Drottenn, hvert helldur það skiedur med Þrumu Logmꝍls sins til ad straffa i oss Syndena, edur i Blijdvidre Evangelii til ad hugga oss aptur, þꝍ vilium vier allshugar fegner seigia: Blessadur sie sꝍ sem kiemur i Nafne Drottenns, Matth. 21. Gief oss það Hiartalag O Herra Jesu! Fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

# Pridia Sunnudag epter Pꝍska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

I Þañ Tijma. Sagde Jesus til siña Læresveina. Iñañ lijtels Tijma munu þier ecke siꝍ mig, og þꝍ enn iñañ lijtels Tijma munu þier enn siꝍ mig aptur, þvi eg fer til Fodursins. Þꝍ sogdu sumer af hañs Lærisveinum sijn ꝍ mille. Hvad er það ad hañ seigir til vor, iñañ lijtels Tijma þꝍ munu þier ecke siꝍ mig, og þꝍ iñañ lijtels Tijma, munu þier siꝍ mig aptur, þvi eg fer til Fodursins? Þꝍ sogdu þeir: Hvad er það hañ seiger oss, innañ litels Tijma? Vier vitum ecke hvad hann seiger. Enn Jesus formerkte, ad þeir villdu spyria hann ad, og sagde til þeirra: Þier spyried ad þessu ydar ꝍ mille, það eg sagde ydur. Iñann lijtels Tijma munu þier ecke

siꜳ mig, og þꜳ aptur innañ lijtels Tijma munu þier siꜳ mig. Sannlega seige eg ydur, þier munud sijta og grꜳta, eñ Heimureñ mun fagna, og þier munud hryggver verda, eñ ydar Hryggd skal snwast i Fognud. Ein Kona, nær hun skal fæda, þa hefur hun Hryggd, þvi heñar Stund er komeñ. Eñ þa hun hefur Barned fædt, miñest hun ecke þess Harmkvæles fyrer Fagnadar saker, þviad Madur er i Heimeñ boreñ. Og þier hafed nu ad soñu Hryggd, eñ eg vil siꜳ ydur aptur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingeñ frꜳ ydur taka. A þeim Deige munu þier mig og einskis spyria.

## Exordium.

HAd verde mier ecke ad eg hroose mier af nockrum Hlut, nema af Krosse Drottenns vors Jesu Christi, seiger St. Pall, Gal. 6. Adrer hroosa sier af Audlegd siñe og Mægtum eins og Hiñ rijke Mꜳre, Luc. 12. Nockrer af Metordum sijnum, eins og Nebuchadnezar, Dan. 4. Sumer af Afle og Kallmeñsku eins og Goliath, 1. Sam. 17. Herodes af sinne Mꜳl-Snylle, Act. 12. og gaf eige Gude Dijrdena. Pilatus af Makt sinne, Joh. 19. Er hann þoottest hafa Valld til ad krossfesta Jesum og ad lꜳta hann lausañ. Hiner af stoorum Ættum eins og Gydingar, er sogdust hafa Abraham fyrer Fodur, Matth. 3. Og hvad er þad sem ad Drambseme þessarar gꜳlijfu Verælldar telur sier ecke til Gylldis, jafnvel vonda Hlute. Hinn ogudlege Lamech hroosade sier af Foolskuñe fyrer Kvinnum sijnum, Gen. 4. Og eru honum aller þeir lijker, er stæra sig af Odyggdunum, þꜳ hefur Andskoteñ sijnt Meistara-Stycke sitt i Hiarta Syndarans, hañ fyrst kiennir honum til ad drygia Glæpenn, og sijdañ ad lꜳta sier vænt um hañ þykia, þvi ef ad Hroosuneñ glorer jafnvel hina bestu Hlute ecke einungis onijta, helldur og ad Synd, so sem Lausnareñ vottar, Matth. 6. Um þꜳ er giordu Goodverk til Fordilldar sier, ad þeir hafa sijn Laun wtteked: Hvad mun þad vera þꜳ ad stæra sig af Klækiunum? Enn Paulus er ecke so lyndur, hann hroosar sier af þvi sem Verolldenn kallar einkis Hools vert, af þvi sem hun forsmꜳer, þvi sem hun undañ flijr med Seglum og Arum, og skal helldur fremia allar Odyggder, enn ad hun verde fyrer þvi, þad er Krosseñ Drotteñs Jesu Christi, og þvi seiger Postuleñ hier strax epter: Fyrer hvern wier er Heimureñ krossfestur, og eg Heimenum. Þad er alkuñugt, ad Krosseñ var hid smꜳnarlegasta Pijslar-Fære i þꜳ Daga, og þvi var þad honum valed sem er Konungur Dijrdareñar til þess ad bera þar uppꜳ vorar Synder. Enn so hꜳduglegt sem þad var, so mikla Andstygd seigest Paulus hafa ꜳ Heimenum, og slijkañ Vidbiood hafe hañ ꜳ sier. Lijted hier, Christner Menn hvernig þeir eru skape farner, sem vordner eru eitt med Christo, og hverra Kosta þeir eiga ad vænta sier i Heime þessum. Einga mun hann hafa kærare haft af Moñunum, enn sijna elskulega Læresveina sem hofdu yfergiefed alla

Hlute fyrer hanns Skulld, Matth. 19. Og þo seiger hann þeim fyrer i þessu heilaga Evangelio, Ad Þeir Mune Sijta Og Grꜳta, Eñ Heimureñ Mune Fagna: Sama vill hañ hafa sagt eñ nu, þeim er hañ af Hiarta elska. Og vil eg þvi alleinasta wt af Gudspiallenu tala uñ þꜳ Hlute sem oss meige leida til ad bera hanns Ok þoleñmoodlega. O þu krossfeste JESU! Hiꜳlpa oss þar til med Rꜳd þijns Anda, bænheyr þad O Herra! fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

HO eckert annad være sem kynne ad verka hiꜳ oss Þoleñmædena i Mootlætenu, þꜳ mættum vier þo hugleida hvadañ þad kiemur, sem er frꜳ Gude; Hvert villt þu fyrer honum flya? Seiger nockud Leir-Kiered til þess er þad giort hefr; Hvar fyrer giorder þu mig so? Rom. 9. Og fyrst ad vier erum i Guds Hende so sem Leir, þꜳ er þad oviturlegt ad mogla ꜳ moote honum, hvad helst sem hann vid oss gioꝛer, hann typtar oss sem oss giort hefr, hann sem oss giort hefr, hann hefr giort Himen og Jord, stioonar þeim, rædur þeim, og kann ad eydeleggia þau nær sm̃ hann vill, þvi mun eg kieppa vid þvilijkañ Herra? Þvi vil eg glijma vid sialfann mig, og giora mijna Mædu eñ þꜳ stærre mz Opolennmæde? Oll Veralldareñar Rꜳd duga ecke ꜳ moote hanns Vilia, Prov. 21. Og aller Helvijtis Kraptar meiga ecke auka hinu minsta vid mijna Plꜳgu, fram̃ yfer þad sem hann ꜳsett hefur, þvi vil eg þꜳ kijsa vid soddañ Hꜳtign, soddann Speke, soddann Almætte sem varer, rædur og stioornar? Þegar otal Hundrud Þusund (þvilijker Ormar sem eg) eru ad Molldu orduer, þvi mun eg þꜳ beria Hofdenu vid haun Stein sm̃ ꜳ mig er kastadur af so volldugre Hende? Þat fyrer, Br. M. nær Mootlæted oss ad Hendum ber, þꜳ hugsum til þeirrar Skylldu er vier eigum Gude ad giallda, sem er ad audmykia oss under volldugа Guds Hond, 1. Pet. 5. Hvad ecke er so stoor Kunst i Medlætenu, jafnvel þoott vier gleymum þvi optlega. Enn i Mootgꜳngenum siest þad, hveria Virding vier hofum ꜳ honum, og hvad miked vier vilium fyrer hañ viña. Lijtum til Jobs, þvi hañs Þoleñmæde verdur oss af Postulanum sett til Epterdæmis, Jac. 5. Þegar Guds Hond hafde svipt hañ ollum sijnum Bornum, allre siñe Aleigu, Þrælum og Ambꜳttum, þꜳ sagde hañ: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafn Drotteñs vegsamad ad eilijfu, Job. 1. Honum var David lijkur, þꜳ hañ flyde fyrer Absalon og sagde, 2. Sam. 15. seigie hañ so: Eg hefe ecke Þocknan ꜳ þier, sia hier em eg; Giore hañ vid mig hvad gott þyker i hañs Auglite! Hvar fyrer hañ og seiger, Ps. 39. Eg vard mꜳllaus og opnade ecke miñ Muñ, af þvi þu giordeꝛ þad. Eins eigum vier Skape farner ad vera, Br. mijner, ef vier wt af Grunne Hiartans vilium tiꜳ vora Audmykt fyrer Gude, og ef vier erum nu skylduger til þessa alleina fyrer þvi ad hañ er vor Gud og Herra og vor Skapare, hvad miklu framar erum vier þa skulldbundner, þar ed hañ typtar oss alldrei nema sialfsum oss til hiñs besta. Seiged mier: Mun nockud Gud, sꜳ ad er Brunnur allrar Giædsku, mun hann nockud hafa Ynde af þvi ad plꜳga sijn Born? Og ecke giora þad miklu helldur þeim sialf-

siælfum til gooda? Lætum oss ecke eigna Fødur Myskunsemdañ, 2. Cor. 1. Þa Hardydge sem vier kollum hid versta og grimelegasta æ Fiandanum og hañs Limum, sem er ad hafa Gaman af Eymdum og Mootgænge synduga Maña. Hvad þa? Munde oss þykia þad stefnlegt Barn sem slijge i Hæred æ Fødur sijnum nær hañ agar þad? Og er þvi verr og midur ad vier strøffum optlega vor Børn og Þienara alleina til þess ad skeita Skape voru æ þeim: Eñ hñ plæagar ecke af Hiarta edur straffar Mañaña Børn, Thren. 3. Þar fyrer er þad hid mesta Ræmuleyse fyrer oss ad mogla under hañs fødurlegre Hyrtingu. Seigied mier eñ aptur: Þegar eiñ Lækner byrlar oss swrañ Dryck til ad giora vorn Lijkhama heilbrygdañ, edur hñ skier upp Særeñ so ad þau skule grooa, þess sliootara, styggiunst vier nockud vid hañ, edur mootmælum þvi er hañ vill giort hafa vid oss? Þad giører eingeñ sæ sem heilvita er og elskar Heilsu sijna, helldur þockum vier honum þar fyrer, og giølldum honum Laun þar æ ofañ, jafnvel þoott honum mistakest, sem optlega skiedur. O Guds Barn! Skyllder þu þæ elpast vid hinn gooda Lækner? Hvers miwka Græders Hond ad ijfer þijn daudleg Sær, til hverra þu ecke kieñer fyrr eñ hañ lijfgar þau med Beyskiu Kross-Burdarens, og ecke miklu helldur taka feigens Hende þar æ moot, og giallda honum allar þacker þar fyrer? Ef eiñ Fader sæe sitt Barn framfara i allre Vondsku og illu Athæfe, og hann ecke straffade þad, ef skie mætte ad þad leidriettest þar vid, munde honum ecke æ Hælse leiged vera af ollum Moñum? J Sañleika, þvi hañ være þess verdur hañ være Bodull og ecke Fader er þañig breitte vid sitt eiged Holld og Blood, og þo vilium vier heimta af Gude, ad hañ læte oss bada i Roosum og lifa ad Munudum vorum: Jæ, fara fram i allskonar Syrndum og Glæpum, og heita samt vor Fader, þar hañ er þo sæ Gud, er ecke þocknast ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Værum vier æn Typtunar, þæ værum vier Hiæ-Born og ecke Syner, Hebr. 12. Dæmed þvi siælfer Br. M. hvert helldur þier vilied eiga Gud fyrer nædugañ Fødur og þola Hyrtinguna, edur ad hañ kañest ecke vid ydur, og læte ydur lifa ad eigeñ Villd ydar, og verde ydur so eiñ strængur og ognarlegur Doomare, þegar þier eiged honum Reikningskap ad standa af Ordum og Giørdum, sem ad er hin allra herfelegasta og skielfelegasta Olucka. Hvad sijnest ydur þa christner Meñ? mun þad ecke vera tilviñande ad þyggia eina næduga Ressing af sijns Fødur Hende, og þoott hun ætte ad vara um allañ vorn Alldur, sem miøg siallðañ er, til þess ad verda kvittur vid øll þau Oskop sm ad dynia munu yfer Sælkiera Veralldar þessarar i Helvijte og Kvolunum fræ eiñe Eilijfd til añarar? Gud næde oss auma og syndugа, vier berum opt og tijdum eina vanheila Sæl i heilbrygdum Lijkhama. Þegar Lijkhamanum lijdur vel, þæ byrdum vier æ Stundum lijtt um Sælena, hver þo ætte ad siæ bæde fyrer sier og honum, þvi bæde skulu þau hin somu Kiør hafa um alla Eilijfd; Eñ ef hun lætur epter honum þad hañ vill, þæ vellltest hun miøg ror Tign siñe, bædum þeim til obætañlegs Skada. Hver veit nema Þrote Drambsemeñar edur Vatns-Sijke Agyrndareñar, edur Kallda Ohoossemeñar, edur Brioost-Veike Osundareñ-

ar, edur Dose Leteñar, edur Æde Reideñar og Heiptrækneñar, plaage Saalu þijna, og þu fiñer þar ecke til. Varla er nockur sw Saal aa medal vor, sem ecke hafe Snert af einhveriu þessu, eñ Krossen er sw eina Heilsu-Boot, sem aa vid ollu þvilijku. Vid Lijkamans Sinkdoomum eiga adskilianleger Drycker, epter þvi sem hverium er haattad; Enn vid Saalareñar Meinum aa alleina Kross-Bikar Drotteñs Jesu, þoott hañ sie beiskur nockud, þad ætte oss einu ad gyllda, þegar hañ gioorer oss heilbrygda, nema vier elskum meir Daudañ eñ Lijfed, Soottena meir eñ Heilsuna, Kroppeñ meir eñ Saalena, og er þad þo ecke ad elska hañ, ad laata þad epter honum, sem heñe maa til Skada verda, þvi hañ skal þess eilijflega Giolld hafa sem hañ i þessu fraa heñe dregur sier til tijmanlegs og skafeingelegs Munadar. Þar fyrer ef vier elskum vora Lijkhame og þad so miog sem ad sijnelegt er aa flestum, þaa giorum þad þo fyrer þeirra Skulld, ef eige añars vegna, ad vier þockum Gude fyrer þad hañ typtar þaa hier, so þeir ecke sijdañ mæte eilijfum Plaagum i Helvijte, 1. Cor. 11. Þar fyrer Guds Barn, nær Drotteñs millda Hond slær þig aa einhvern haatt til ad græda Saalu þijna þar med, þaa tak ecke alleinasta þar aa moot med Þolenmæde, helldr og þacka honum fyrer þañ Naadar-Gioorning, ad hañ ecke vill yfergiefa þig i fraaleitt Siñe edur i Syrnder þijns Hiarta, Ps. 18. Og ef þu villt þacklaatur vera fyrer so stooran Velgioorning, þaa sijn þad i Verkunum er þu jaatar med Muñenum. Vier hofum allareidu heyrt nockud um þad hvar til ad Gud sender oss Krosseñ, sem er til þess ad vier eige skulum hallda oss saklausa, helldur betra vort Lijferne. Sviptum þvi ecke Gud sijnum Asetninge, edur siaalfa oss þeirre Naad er hañ hugdes oss ad veita. O! hversu illa er þaa fared med þessa heilsusamlegu Guds Naad, og hvad lijtel Not munt þu þaa hafa þess syndugur Madur er þu lided hefur? Ja, stoort Giolld: Þvi þad er ad gioora Drotteñs Kross ad Ræningians Krosse, þad er riett so sem Petur seiger, 1. Pet. 4. Ad lijda so sem Þioofur og Illvirke, og so sem hañ ed fellur inn i añars Embætte. Hallt þad og ecke noog ad þu laater af ad syndga þess vegna ad þu gieter ecke syndgad, annadhvert fyrer Heilsu-Breste, vegna Faatæktar, edur fyrer Otta saker vid Mennena. Þioofureñ stelur ecke helldur þegar hann er bundeñ, og ecke fremur Hoorkalleñ sijna Syrnd nær hann er wtelokadur, hvad ecke er þeirra Dyggdum ad þacka, helldur rannsaka siaalfañ þig, hvad þier mune hafa aafaatt ordeð, hvers vegna Gud mune hafa lagt þenna Kross aa þig, og munt þu þad skioott fiña þegar þu stijngur Hendeñe i þiñ eigeñ Barm, Exod. 4. Og nær þu þad fiñur, þa raad Boot aa þvi, ydrast þess af Hiarta, og frem þad alldrei optar, helldur bid Gud ad giefa þier Naad sijna til ad standa aa moote þvilijkre Synd; Med soddañ moote verdur þessum himneska Lækner launad, añad heimtar hañ ecke af oss. Þegar Jesus saa þañ Mann gaangande i Musterenu, er hañ skömmu aadur hafde læknad hiaa Vatnenu Bethesda, þa krafde hann einkis af honum, helldr sagde alleina: Siaa, nu ert þu heill vordeñ, syndga ecke framar, ad ecke hende þig añad verra, Joh. 5. Þar fyrer christeñ Madur, hafer þu siwkur vered, hafer þu ratad i Armood og Fiaarmissu, hafer þu vorded fyrer Armæsum

og Ofsooknum Veralldar-Mañа, eñ ert aptur vordeñ fullhraustur, Fullrijkur, og hefur feinged Magt yfir Ovinum þijnum, þa gialld eige þa Vanþock aptur ꜳ moote Gude þijnum, hver ed sende þier Krosseñ til ad betra þig, og liette honum af þier, til ad sijna þier Giædsku sijna, gialld honum ecke so illa (seige eg) ad þu brwker Heilsuna til ad drijgia somũ Synder, meþ hverium þu vanst til Siwkdoomsins, Audlegdena til Ohoofs og Metnadar, Valldeð til ad hefna ꜳ þeim sem vid þig ofgiort hafa, þvi ef vier slijkt giorum, þa hefdi þad verid betra fyrer osς, ad vier hefdum leiged i Kør, og lifad i Armood og Forsmꜳn alla vora Daga, so ad Sꜳleñ hefde kuñad hoolpeñ ad verda ꜳ Deige Drottens, 1. Cor. 5. Nu eigum vier ecke alleina ad lijta til Guds fodurlegrar Giædsku, i þvi ad lijda þolenmoodlega allt þad sem hañ lætur osς til Handa bera, helldur og til hañs orañsakañlegu Speke og Vijsdooms, sem ad yfergnæfer allann Skilning.

Eiñ Fader kañ ad vilia Barne sijnu vel, eñ brestur kañskie Vitsmune til ad sia hvad þvi gagnar, og þo hañ bere Skyn þar ꜳ, þꜳ blindast vor Skynseme optlega af Holldlegre Elsku, eñ vid þessu er ecke hætt hiꜳ hinum alvijsa Gude. Þar fyrer lꜳtum osς þad sagt vera, ad þoott vier eige skynium nie sium Guds Tilgꜳng, þegar hañ neitar osς um̃ þꜳ Hlute, er vier oskum epter, þꜳ er þad osς til hins besta, og eckert kañ fyrer osς gagnlegra ad vera edur upp ad hugsast, eñ þad sem hañ lætur vid osς framkoma, ef vier giefum osς olldungis ꜳ hañs Valld, og lꜳtum hañ rꜳda. Israel beidde Gud um̃ Kiot i Eydemorkeñe, Num. 14. Og hũ gaf þeim þad til Hegningar þeim; Þeir beiddu hann og um̃ Konung, 1. Sam. 8. Er þeim leiddest ad vera under hañs allra vijsustu og nꜳdugustu Stioornan, og hañ gaf þeim eiñ Konung i Reide siñe, Os. 13. Þar er eingeñ Efe ꜳ, ad ef Barned mætte sialft rꜳda, þꜳ fære þad sier optlega ad Voda, og eins erum vier fꜳvijser eins og Born i vorum andlegum Efnum, vier oskum osς Heilbrygde, Audæfa, Metorda, allt þetta eru ad soñu Guds goodar Gꜳfur, eñ skadsamar þeim sm̃ ecke kuña med ad fara, so ad Endurlausnareñ seiger: Jafnvel ef þijn Hond edur þiñ Footur hneixlar þig, þꜳ snijd þad af og snara þvi frꜳ þier, þvi betra er þier halltur og handarvani iñ ad gꜳnga til Lijfsins, eñ ad þu hafer tvær Hendr og tvo Fætur, og verder i eilijfann Elld kastadur, Matth. 5. Ad soñu heimtar eige Drottenn af osς, ad vier so stoort irꜳdunst, vid hveria þꜳ Tilhneiging er vier freistunst af, þvi hañ hefur giefed osς añar Medol til þess, ad krossfesta Hollded med, ꜳdur eñ til þessa kome, eñ þad er hañs Meining, helldur enn ad vier skylldum i eilijfum Ellde pijnast, þꜳ være osς þarfara ad lꜳta Lijf og Limu. Hversu vijs og hversu nꜳdugur er þꜳ hiñ goode Gud, ad hañ agar osς i Mꜳta, og so sem osς ad minstum Skada verda meige, til þess ad vier kuñum ad umflyia Helvijtis Pijsler, eñ verda hluttakande Guds Barna Sælu ꜳ Himnum med honum eilijflega? Og i þessum Guds orañsakañlega Vijsdoome, hofum vier jafnañ eina stadfasta Huggun, þvi hañs Giædska og Medaumkan verdur hañ alldrei vidskila. Fyrer þvi, þo ad Mootlæted ofbioode osς ꜳ Stundum, og vier kꜳmum varla under þvi rised, þꜳ lꜳtum osς til Hugar koma, ad þad er osς af hon-

um uppalagt, sem veit hve mikels ad vier vid þurfum og þolum. Stoor Sár þurfa mikla Grædslu, eñ hañ er trwr og freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Ecke eitt Hár fellur af voru Høfde an hanns Vilia, Matth. 10. Og miklu sijdur hefdum vier vid so margar Þrauter ad beriast, nema þad være epter hanns Skamte og epter hañs Velþocknan. Vier þurfum og ecke ad efast um̃, ad vier finnum Mootlæted stadest, þoott alldrei þyke oss so ovænlega ahorfast, þegar vier kostum oss i hañs Myskunar-Fadm, og under hañs blessada Um̃sioon og Fyrerhyggiu. Þar fyrer sagde David, þo eg rafe i myrkvum Dal og Daudans Skugga, þa hrædest eg einga Olucku, þvi þu ert hia mier, þiñ Vøndur og Stafur hugga mig, Ps 23. Og Drotteñ seiger vid hañ, þoott Þusund falle þier til añarar Handar, og tiju Þusund til hiñar hægre, þa skulu þeir ecke nær þier koma, Ps. 91. So øruggur Kastale er Drotteñ þeim er hann ottast, jafnvel midt i Hørmungunum, og þad geingur til eins og hañ sagde vid Læresveinana hier i Gudspiallenu. Innann lijtils Tijma munu þier ecke sia mig, og aptur innann lijtils Tijma munu þier sia mig. Og so sem Læresveinarner skilldu ecke i þad sinn hvad hann sagde, helldur uppfyllltest þeirra Hiarta af Hryggd, af þvi ad hañ sagde þad. So geingur þad og til fyrer Guds Børnum optlega i Mootlætenu, ad þau meina þa þau sieu yfergiefeñ, eñ samt heyrer hañ þeirra Grátbeidne, og þeirra Bæn er þocknanlig fyrer honum, eñ hanus Tijme er eñ þa ecke komenn, Joh. 2. Hvert helldur ad eg lijt þenna fagra Heim, sem ad er harla goodur, so sem øll Guds Skiepna, edur eg þeinke um̃ hiñ ogudlega, sem Dioflulleñ hefur tilbwed og nidursøkt i hid Vonda, þa kañ eg hverke ad ørvænta i Mootgangenum, eige helldur ad efast um̃ Kvittun miña Synda, sem eru Orsøk til Mootlætesins, þviad i hinum, og jafnvel a hinu miñsta Skrid-Kvikinde sie eg auglioost Dæme hins guddoomlega Almættis, Speke og Giædsku, ad þvi er ollu af honum so vijslega stioornad og nidurskickad, ad hañ þvi ollu vid Magt helldur, hverin i siñe Tegund fra Heimsins Upphafei so mørg Þusund Ar, ad þar er ecke ein eñ nu undergeingeñ, og so veit eg þa fyrer vijst, ad honum er ecke um̃ Megn ad vardveita mig syndugañ Orm, sem ad epter hañs Mynd var i Adam skapadur, Gen. 1. Og med hañs Sonar dijrmætu Bloode endurleistur, 1. Pet. 1. Jafnvel midt i Sorgunum, midt i Araasunum, midt i Saalar og Lijfs sterkasta Ofbode, ef hann vill lata þad yfer mig koma. Eñ nær eg þeña fyrer mier virde og allar þær Oddáder sem af honum i frame eru hafdar, Villur, Meinsære, Gudlastaner, Mañdrap, Hoordooma, Lijge, Þioofnad, Ofbellde, Rangsleitne, og alla þa Ohæfu, er Satan fær plantad i Hiørtum Vantrwareñar Barna, þa tek eg mier þar af Huggun og fullnadar Traust, um̃ hins myskunsama Guds fodurlega Giædsku, ad hañ ecke kollsteiper þessare vondu Verølldu, helldur med Rijkdoome sijns Langlundar-Gieds, Rom. 2. Vill leida so marga til Yferbootar sem aptur snwa vilia. Þvi veit eg ad hañ mune ecke wtskwfa mier overdugum Synda Þræl, edur lata mig einañ i Mootlætenu, þoott þad sie Straff miña Synda og Illgiørda, þar eg læt mig fyrer Krapt hañs Anda wt af Hiarta ydra

Synda

Synda minna, og a daglega Baraattu vid eitt ostijrelaatt Holld, sem kiepper i giegn Andanum, Gal. 5. Þvi hafe hann veitt mier hid meira, sem er ad ydrast Syndanna þegar eg var enn þaa Satans Barn, þaa mun hañ ecke synia mier hins miña, sem er ad vardveita mig i Mootgaanginum, þaa eg er hañs Þienari vordiñ fyrir hañs Naad, hverja hañ ecke hefur giefed mier til þess, ad hun skyllde a mier onijt verda, helldur til Lofs og Dijrdar sialfum sier, enn mier til eilijfs Saalar Fagnadar. Drotteñ sagde Læresveinunum fyrerfram þessar Hormungar, af hveriu medal annara sia maa hanns guddoomlegann Vijsdoom, og giædsku ecke minne. Heimurenn seiger alldrei nema Ogiæfu fyrerfram, jafnvel þoott hun sie honum vijs so vel sem ollum þeim er hañ elska, hañ predikar eins og hiner ogudlegu, Prov. 1. sem Von er a, þvi hañ er ecke annad enn Samkunda, Apoc. 1. Andskotans, er hañ hefur safnad sier af Guds Utlogum og ogudlegum Synda-Prælum, þeir seigia: Far þu med oss, vier vilium fiña miked Herfaang, og aller eiñ Stood hafa, Prov. 1. Enn ecke leggia þeir til hins, ad þeir skulu og aller eitt Hlutskipte hafa i þvi Dijkenu sem vellur af Ellde og Brennusteine, Apoc 21. Þad vill ecke Drotteñ, hann sagde fyrerfram bæde hier og optlega annarstadar Læresveinunum hvad a þeirra Daga drijfa munde, og hid sama hefur hann ollum þeim sagt, er honum vilia epterfylgia med þessum Ordum: Hver sem vill minn Læresveinn vera, hañ take siñ Kross uppa sig og fylge mier epter, Matth. 16. Eckert er þvilijkt Raad vid Mootgangenum, so sem ad bwast vid honum; saa sem þad giorer daglega, hañ hefur miklu liett af Byrdenne nær hun dettur a. Bwunst vid illu, þvi hid gooda skadar oss ecke, seigia Menn i gomlu Ordtæke. J Dag em eg heilbrigdur, eg vil þeinkia med mier hvernig eg verda mundi ef eg vanheill yrdi, eg vil venia mig a ad laata eigi allt eptir mier þad mig gyrner, so mier bregde sijdur vid ef þad kynne mier ad Hondum koma, sem eg giæti ecki af mier kastad þoott eg villdi. J Dag em eg full-rijkur; eg vil þo brwka Heimenn so ad eg ecke vanbrwke hann, og so miked af þvi sem Gud hefur laanad, sem mier hæger og mier soomer ad brwka, þaa skal Faatækteñ alldrei kasta mier i neitt Hugar-Vijl, ef eg kann i hana ad rata; Eg vil hyrda þad Gud giefur, enn ecke festa þar vid Hiarta mitt, þaa mun mier þykia miña fyrer ad missa þad. J Dag ræd eg fyrer odrum, so ad aller hlijda mijnu Bode og Bañe sem eg er yferskipadur, þad Valld vil eg brwka i Hoofe og ecke med Offa neinum, þvi þar kañ ad koma, ad þeir raade fyrer mier og kuñe eg af þeim nockurn Ojofnud ad þola, þaa lijd eg hañ med betre Samvitsku, hafe eg ecke unnid til hañs uñed. So skal Madur bwa sier i Hageñ, a medañ allt leikur i Lynde, kome þad ecke uppa er vier Raad fyrer giorum, þaa er þvi Omake vel spillt; alldrei visse eg Abata meire Skada, þvi ad miñsta Koste hugsum vier eige so illt a medañ, og lijklegt er, ad vier munum ecke stæra oss so miog af Velmagteñe, þegar vier bwunst vid hveruweggiu. Nu þoott ad allt þetta sem eg hefe sagt, eige ad fijsa oss a ad lijda þolennmoodlega þañ Kross er Gud oss a Herdar leggur, þaa er þo ad hroosa þeirra Kiorum fram yfer alla Drotteñs Krossberendur, sem ecke einasta taka a moote hañs Ogun ...

Megl-

Moglunar, helldur og hafa Glede og Ynde af þvi ad lijda nockud fyrer Christi saker.
Eg vændest i Upphafe St. Paals Orda, ad hann skrifar, Gal. 6. Þad verde
mier ecke ad eg hroose mier af nockrum Hlut, utann af Krosse Drotteñs vors Jesu
Christi. Þegar Paall brwkar þetta Ord sem hier stendur ad hroosa, þaa merker þad
ecki so ad stæra sig af einhveriu, so sem ad fagna og glediast af þvi, og ad hafa Yndi þar af.
Sama Orda Tiltæke brwkar hann, Rom. 5. seigiande: Og ecke einasta þad, helldur
hroosum vier oss eirnig edur gledium oss af Hormungunum, vitande ad Hormungeñ
verkar Þoleñmædena, eñ Þoleñmædeñ Reynsluna, eñ Reynslañ Vonena, eñ Voneñ
lætur alldrei til Skam̃ar verda, þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum fyrer
heilagann Anda sem oss er giefeñ. Þetta eru merkeleg og gullvæg Ord, steit þau riett
yfervegud. Hvar fyrer gledur hañ sig i Hormungunum? Þviad Elska Guds var wt-
hellt i hañs Hiarta fyrer heilagann Anda sem honum var giefenn. Heyrum þad End-
urlausnareñ sagde vid sijna Læresveina. Eg skal ecke laata ydur munadarlausa, helldur
skal eg siaa ydur aptur, Joh. 14. Þad giorde saa blessade Herra ad sonnu epter sijna
Upprisu, eñ hañs sijneleg Vist med þeim, droo þaa ecki laangt aa Veg, hefdi hañ ecki sendt
þeim H. Anda af sijnum Fodur; þvi sagde hann: Þad batar ydur ad eg fare i burt
hiedann, þvi nema eg fare i burtu hiedañ, kiemur ecke Huggareñ til ydar. Þesse er hinn
saine H. Ande, fyrer hvern ad Paulus seiger, ad Elska Guds sie wthellt i sitt Hiarta,
hun giorer Christi Ok sætt, og hañs Byrde lietta, Matth. 11. Hun velldur þvi, ad
hanns Bodord eru ecke þwng, 1. Joh. 5. Hun deyfer alla Kvol, alla Hryggd, alla
Armædu Veralldar þessarar, saa ed hana hefur fyrst odlast, hañ þarf ecke Mootlætenu
ad kvijda, hann foottredur allar Hormungar, honum er Heimureñ Krossfestur og hañ
Heimenum, þad sie eg bersijnelega aa Christi Postulum, er þeir voru glader af þvi, ad
þeir maattu lijda fyrer Jesu Nafns Skulld, Act. 5. Þad sie eg aa hanns H. Pijslar-
Vottum, laangt fram epter Æfe Christmennar, ad þeir geingu til herfelegustu Kvala
og Pijsla, miklu gladare helldur enn adrer til Giestabods.

O Herra Gud! Fagurt maa þeim vera Himnarijke aa sijdann, hverinm Gud er so
sætur midt i Hormungunum, ad þeir fiña ecke til þeirra fyrer Elskuñe til hañs sem typt-
ar þaa. Ad þetta sieu ecke Ykiur, helldur ad þvilijker Guds Viner sieu til, þad votta
eg med Paals Ordum, er hann seiger, 2. Cor. 12. Eg em vel til Frids i Veikleikanum,
i Forsmaaneñe, i Naudunum, i Offsooknunum, i Angisteñe fyrer Christum, þvi þaa eg
em veikur, þaa em eg maattugur, og þad er þad sama sem Drottenn heiter hier Lære-
sveinunum, er hañ sagde: Ydar Hryggd skal snwast i Fognud. Ecke meinte hañ ein-
asta þaa Sælu-Von er þeir attu vijsa wr honum eilijflega i hañs Dijrdar-Rijki, helld-
ur og Huggun Guds Anda i Mañraununum, þvi alldrei voru þeir aan Mootlætis hier
aa Jorduñe, og samt skrifar Paulus, ad þeir sieu so sem hryggver og þo jafnañ glader,
2. Cor. 6. Nu þoott oss vante miked aa ad vera so algiorder i Elskunne til Guds, sem
þesser Drotteñs Hetiur voru, þaa eigum vier samt ad kieppast epter þeirra fullkomnu

Dæme,

Dæme, so miked sem oss er mogulegt, og hugga oss i ollum Mañraunum vorum vid epterkomande Sælu, vitande þad ad hin lietta Byrde Hormungareñar sem varer um Augnablik, hun aflar oss yfergnæfañlegrar Dijrdar eilijfrar Þijngdar, 2. Cor. 4. Og þetta er þad Paulus seiger, Rom. 5. Er eg strax cannñtest, ad Þoleñmæden verke Reynsluna, Reynslañ Vonena, enn Voneñ læte eige til Skamar verda, hvar fyrer? Þviad Trweñ, er Voneñe jafnañ fylger, hun er Vera þeirra Hluta sem koma skulu, Heb. 11. Hvers vegna, þeir ed bera Christi Ok, þeir eiga vijst Himnarijke, þad er Pantur epterkomande Farsælldar, vid hvern hañs Brwdr gledur sig, þar til hañ kiemur, og innleider hana i Lambsins Brwdkaup, so þegar hun hryggest af Mootlætenu, þa gledst hun eins miked edur meira af þeirre Dijrd, sem vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfe, hverrar eige eru verdar Mootlætingar þessara Tijma, Rom. 8. Þetta wtmaler vor Lausnare med nærsta fogru Dæme hier i Gudspiallenu, þar ed hañ seiger: Ein Kona Nær Hun Skal Fæda, Þa Hefur Hun Hryggd, Þviad Heñar Stund Er Komeñ, Enn Þa Hun Hefur Barned Fædt, Minnest Hun Ecke Þess Harmkvælis Fyrer Fagnadar Saker, Þviad Madur Er J Heimeñ Boreñ. Hvad viña Meñ ecke i þessum Heime fyrer Veralldar Hofdingia, og þad fyrer lijtil og oviss Laun? Ja, margr vogar Lijfenu og kañskie siñe eilijfre Velferd a stundum, og endest ecke til ad nioota þess, er hañ ætlar sier til Launa. O Guds Born! Þvi skylldum vier þa telia epter oss ad lijda nockud fyrer Himna-Rijke, fyrer hin eilijfu Launeñ, fyrer þad dijrmæta Hnossed, af hveriu þeir alldrei sleppa kuña sem riettelega Skeided hlaupa? 1. Cor. 9. Fyrer hina kostulegu Riettlætesins Coronu, 2. Tim. 4. sem þeim er assijdis logd, er hafa barest goodre Barattu, hallded Trwñe og goodre Samvitsku? Eiñ Madr, sa ed situr i Tign og Heidre, mun hañ ecke þacka sijnum Fodr, ad hañ hefr hañ so vijslega uppaled, ad hañ ma reil nast þeirrar Æru verdur a sijnum fullordens Alldre? Mun hañ nockud telia þau Vandar Hoggeñ er hañ hefur sleigeñ vered? Og hversu ættum vier þa allar Þacker ad kunna vorum himneska Fodur, sa ed tugtar sijn Born upp til eilijfs Lijfs, til himneskrar Konungs Tignar, til ad lifa og rijkia med honum eilijflega? Hver mun þa miñast þeirra Taraña sem hañ hefur fellt i þessum Eymdar-Dal? nema hañ sem ad hefur hellt þeim i sinn Siood, Ps. 56. og þa allareidu þerrad þau af siña Barna Augum, Apoc. 7. Þa mun þad verda uppskored i Dijrdeñe sem hier var saad i Hormwngeñe, Ps. 126. Þa mun þeirra Glede-Saungur fagurt læta i hinne biortu Jerusalem er Guds Dijrd upplioomar, Apoc. 21. Hverra Op og Veinan ad Heimsins Bornum var til Spotts og Athlæturs hia Sorgar-Votnunum i hinne dimmu Babylon, Ps. 137. Verølldu þessare. Hverrar Æru og Vegsemdar oss unne ad nioota hin blessada Guddoomsins Þrenning fyrer Jesu Christi Bloods Krapt og Forþienustu, A M E N.

# A þann almennelega Bæna-Dag.

## Pistillinn, Esajæ 55. Cap.

LEited DROTTENS a medañ hañ er ad fiña, kalled a hañ a medañ hañ er nálægur. Sa hiñ ogudlege láte af sijnum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugsan, og snwe sier til DROTTENS, þa mun hañ myskuna honum, og til GUDS vors, þviad i hia honum er mikel Fyrergiefning.

## Exordium.

I Gamla Testamentenu tilsette DROTTeñ eina Hátijd sem halldast skyllde árlega i hinum siounda Mánude, og a tijunda Deige sama Mánadar, er Menn sijdañ kallad hafa Hreinsunar Hátijd. A þeim Deige var boded, ad Israel skyllde þvijnga Sáler sijnar, þad er sialfa sig, so sem þar um má lesa, Levit. 16. Þesse Hátijd er ad soñu afteken i nija Testamentenu med ollum sijnum Foornum. Oss næger sw eina og algiorda Foorn sem einusinne er innboreñ i þad allra helgasta af hinum ypparsta Byskupe Sálna vorra, Ebr. 9. Enn samt er þo Ydraneñ fyrer Syndernar ecke afteken, so leinge sem vier ecke leggium af ad syndga, so leinge meigum vier ecke leggia af ad ydrast, enn þad mun ei verda fyrr enn Lijkhame Syndarennar verdur med ollu afmádur, Rom. 6. Þvi ætte med riettu allt christens Mañs Lijf ad vera ein Hreinsunar Hátijd, edur ad miñsta koste ættum vier ad giefa oss nockra Stund a hverium Deige til ad ydrast og játa Synder vorar. Sá sem ætlar sier ad syndga nær Syndeñ flijgur honum i Hug og ydrast sijdañ, hann er ecke betre eñ sá sem ætlar ad draga Ydranena undañ til Daudañs, þvi hañ veit ei nær hann deya mune. Nu erum vier oss medvitande þess, Brædur mijner, ad þar falla so marger Dagar wr hiá oss, og kannskie, þvi verr, ad nockrer þeinkia hier allsialldann til; Þvi er nu þesse Dagur af Konungenum tilsettur, ad hann sie vor Fostu og Bæna Dagur. Gud giæfe, ad hann være þar epter hallden af oss med allre Gudrækne, so sem hañ er naudsynlegur, og ad ecke fiijdust þeir, sem giora Hád wr Fostuñe, med hverre þo Guds heilager Menn hafa þreyngt Bænum siinum i giegnum Skijeñ fordum Daga medañ Guds Foolk hiet Guds Foolk og Christneñ Christne, eñ sijdañ hun hiet Loammi, þad er, ecke mitt Foolk, og Meñ yfergáfu hiñ lifanda Gud, margur hver, enn giordu Magañ ad sijnum Gude, þá er Fastañ orden ad Athlátre, so vel sem oll Alvorugiefne i Guds Þioonkan: Meñ hallda epter Blodunum, enn hafa slept Avextenum, so David munde seigia ef hann nu lifde; Eg hulde mijna Sálu i Fostum, og þad vard mier ad Brixle, Ps. 69. O oss aumar og rænulausar Manneskiur ! mun honum Fastann mislijka? Er seiger hiá Joel, Cap. 2. Snwest til

mijn

mijn af ollu Hiarta med Føstum og Grꜳte og Harme. Og so ad þier vited ad þad ecke er ødruvijs i hinu nija Testamentenu, þꜳ vil eg spyria ydur ad, hvert Gude mune ecke hafa þocknast Fasta Cornelii sem var heiden̄ Madur? Er hann sagde vid Petur, Act. 10. Nu er allareidu hinn fioorde Dagur ad eg hefe fastad, og er eg beiddest fyrer um̄ hina nijundu Stund i mijnu Hwse, þꜳ stood hiꜳ mier einn Madur i hvijtu Klæde er sagde vid mig: Corneli, þinna Bæna og Olmusugiorda er min̄st i Guds Auglite. Mun Endurlausnaranum hafa þoott Fastan̄ onijt? Er hann sagde vid Læresveinana þegar þeir gꜳtu ecke wtreked Tunglmeina Diøfulen̄: Þetta Diøfla Kyn verdur ecke wtreked nema med Føstum og Bænahallde. Verde Diøfullenn wtreken̄ af ødrum med Føstum og Bænahallde, Matth. 17. Þvi skylldu Menn ei kun̄a ad reka hann wt frꜳ sialfum sier? Verde Diøfullen̄ wtreken̄ med Føstunne, þvi skylldu Menn þꜳ ei kunna ad fꜳ Gude umbygt med hen̄e? Þvi þad er vyst, ad hvadann sem Satan er wtreken̄, þar vill Gud byggia; Þetta seige eg ei þess vegna, ad Fastan̄ vinne til nockurs i sialfre sier, enn þad vitnar allt Guds Ord, ad Bænen̄ verde kroptugre fyrer hana; Fastan̄ mꜳ eckert ꜳn Bænaren̄ar, Bænen̄ verkar optlega ꜳn Føstun̄ar. Fastan̄ hialpar til ad drepa hinn gamla Mannen̄ sem er Andskote Bænaren̄ar og alls gudrækelegs Framferdis, sie hun ecke i þeirre Vern giord, þꜳ er hun Hræsne. Heyrum hinn gamla Syrach hier um̄, sꜳ sem þvær sig epter hinn dauda, og snerter aptur daudan̄ Mann, til hvers gagnar hanns Þvottur? Syr. 35. So er og sꜳ Madur er fastar i sijnum Syndum, og giorer aptur þær sømu; Hvad vann hann med þvi? Ad hann audmykte sig, hver mun heyra hanns Bæn? Esajas kienner oss i upplesnum Pistle, hvernig þeirre sønnu Føstu eige hꜳttad ad vera, sem er, ad hinn ogudlege faste fyrer sijn vond Verk og Illvyrken̄ fyrer sijna Hugsan, og þannig skipar hann Drotten̄s ad leita. Vil eg þvi wt af þessum Esajæ Ordum hugleida ad þessu Sin̄e hvernig vier eigum ad leita Guds, hvern vier so margfalldlega styggt høfum.

Hialpa oss O Herra! til ad giøra so þetta þitt Verk, ad vier þig fin̄ded, og fin̄dnum hallded gietum. Bænheyr þad goode Gud! fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingen̄.

HVernig vier eigum Drotten̄s ad leita, þarf ecke lꜳngt epter ad leita, þad seiger sialfur Drotten̄ oss, Jer. 50. med þessum Ordum: A þeim Døgum skulu Israels Syner koma med Børnum Juda, þeir skulu gꜳnga ꜳn Aflꜳts grꜳtande og leita Drotten̄s Guds sijns. Gydingar leitudu hanns ꜳ hinne sijdustu Kvalan̄a Nootti mz Sverdum og Staungum, mz Lyktum og Log-Brondum, Matth. 26. Vier skulum ei þan̄en̄ leita Drotten̄s, sm̄ medkien̄um ad vorar Synder hafa kvaled han̄ sm̄ var frꜳskilen̄ Syndurunum, Ebr. 7. Hvernig skulum vier han̄s þꜳ leita? Med harmþrwngnum og sundurknosudum Anda, þad er med san̄re Ydran. Veigen̄ vitum vier ad sønnu aller til Christum, enn þad fellur ecke ollum so liett ad gꜳnga han̄. Eina christelega Ydran er hægt ad nefna, enn þad veiter mørgum bꜳgt ad giøra hana,

jafnvel þo oſs brefte alldrei Efne þar til, ſem eru Synder vorar og Ranglætingar, er daglega ſtijga upp i Hineneñ fyrer Gud. Margur læſt ydraſt og jaata ſijnar Synder fyrer Gude; Enn eg ottaſt ad þegar Gud lijtur af Himnum ofañ yfer Mannañs Sonu, þaa mune hann ſiaa ſo marga Pharaonis, Exod.20. Sauls, 1.Sam. 24. Jeroboams, 1.Reg.13. Og Achabs, 1.Reg. 21. Ydran, það er, Nytur fyrer utann Kirkna, Skij fyrer utañ Vatn, viſnadar Eikur avaxtarlauſar tviſvarſinnum upprættar, ſo ſem Judas Poſtule ad Orde kiemſt i ſijnum Piſtle. Enn Davids, 2.Sam. 12. Joſuæ, Joſ.7. Ezechiæ, Eſa.38. og Peturs, Matth.29. Lijkar munu færre vera, hvad Gud naadarſamlega betre. Hvad er þad þaa Br.M. ſem eins chriſtens Mañs Ydran aa ad hafa til ad bera? Tvent er þad ſierdeilis. 1. Ad hun ſie heit og alvarleg. 2. Ad hun ſie ecke ofſeiñ. Hvad hinu fyrſta vidvijkur, þaa veit eg ad ſoñu ad hiñ naaduge Gud þyggur opt af oſs Viliañ fyrer Verked, þvi hañ þecker vorn Vanmaatt og Ofullkomlegleika; Eñ i Ydranar Verkenu heimter hañ af oſs ad vier framleggium allt þad vier tilhöfum og dröguum ecke af. Saa ſem kiemur fram fyrer Gud til ad jaata ſijnar Synder, og ad bidia um Kvittun aa þeim; og ecke witheller ſijnu Hiarta af fremſta Megne fyrer honum, ecke lætur Saalar og Lijkhamans Krapta verda ſamtaka i þvi ad ſundurmeria ſitt Hiarta med Jhugan ſinna Jllgiorda og Guds Giædſku, ſijns Toomlætis og hanns Riettlætis, ſinna Lijta og Helvijtis Ellds, ſem þau hafa forþienad. Eg veit ecke ſeige eg, hvad miklu hann er betre eñ Ananias og Saphira ſm leyndu af Verde Akurſins, Act.5. Þvi eins og þau lugu ad heilogum Anda er ſkynbarlega biod i Poſtulunum; So maatt þu og vita, ad nær þu kiemur i þinn Bænaſtad, þaa ſtendur þu i Guds Auglite ſem alla Hlute ſier, og jafnvel hin innſtu Filſne þijns Hiarta rannſakar. Gabba þvi ecke Gud med eintoomre wtvortis Hegdan, þvi hañ lætur ecke ad ſier hæda, Gal.6. Og hafe þig ſaa Glæpur nockrum ſinnum hendt, þaa vit, ad þad er ein hroopleg Synd i Guds Auglite; Jaa, ſtærre enn allar þijnar Synder, þvi hun aptur helldur ollum hinum, er þu aatter ad afþvo med heitum Ydrunar-Taarum. Gior þvi Ydran i Nafne Drottens, gior Ydran ſeige eg, og laat þig angra þad af Hiarta, ad þu hafer kaſtad Hondunum til ſo veglegrar Guds Þioonuſtu. Villt þu vita hvad mikla Ydran ad Gud heimter af þier fyrer Sondena, þaa vill hañ ad Beiſkia Ydranareñar ſkule ſambiooda Stærd Syndareñar, þar fyrer, nær þu med ſiaalfum þier les þitt Synda-Regiſtur fyrer Gude, þaa hugleid hve miked Gaman edur Glede þu hafder af ſierhverre Stoor-Synd ſem þig rekur Minne til, og bid Gud ad ſlaa aa Hiarta þitt med Moyſis-Sprota, ad þu meiger hryggiaſt ſo miked ſem þu gladdeſt adur, og verder þu hier um bænheyrdur, ſem aan alls Efa verdur, ef þu bidur heitt, bidur iduglega, Joh. 16. og bidur i Jeſu Nafne, þaa munt þu einkis miſſa, þvi ſu Glede er þu aa ſyndſamlegu Athæfe hafder, og aflade þier Hryggdar i Guds Auglite ſijdañ, hun mun þier med einum ædre og meire Fognude endurgolldeñ verda, nær þu fiñur ad þu ert kvittur vid Gud, enn ſloppeñ wr Dioſulſins Nete. Þeſs gietur Paylus, 2.Cor. 7. Þier erud

epter Gude hryggver ordner, so þier hafed eingañ Skada af oss feinged, þvi sw Hryggd, sem epter Gude er, hun verkar Ydrañ til Hiaalpræðis, hverrar ei þarf ad ydrast: þegar þier vilied ydrast Bræður mijner, og þier setied ydur uppa Doom-Stool ydar Hiarta til ad dæma siaalfa ydur, so þier verded ecke af Drottne dæmder, 1. Cor. 11. Þa aliijted ecke Syndena epter mañlegum Þanka; Vier fyrergiefum oss alltijd nockud sialfer, og fiñum eitthvad til Afsökunar. Konann bar Sökena uppa Orm enn, eñ Madureñ gaf Konuñe Skulldena, Gen. 3. Aaron seigier: Eg kastade Gullenu i Elld, eñ og þar af vard þesse Kaalfur, Exod. 32. Eins erum vier aller Skape farner eñ nu i Dag ef vier laatum oss sialfraada, og vilium ecke laata Guds Anda vid oss raada. Metum þvi ecke Synder vorar epter vorum Þootta, helldur epter hañs Heilagleika, hañs Rettlæte, moote hverium þær giordar eru. Metum þær epter Jesu saaru Pijslum, epter þvi Lausnar-Giallde sem Gud hefur loked i voru Hollde, þa munum vier sia hvad reidur Gud er þeim Syndunum sem oss jafnvel þyker lijted i spuñed a stundum: Þoott allur Heimureñ flite i Taarum uñ allañ siñ Alldur, þa megnade hañ ecke hina miñstu Synd ad hreinsa i Guds Auglite, nema hañs Sonar Forþienusta giords þan gylld. So stoor, so asskræmisleg er Syndeñ fyrer hañs Doome, eñ Christs Forþienusta verdur eingum til Lids, nema þeim, sem af Hiarta lætur sig angra Syndena, ætla þvi ecke, ad þu muner komast af vid Gud med eintoomis Jaatningu Muñsins, nema Hugur fylge Maale. Sa sem alleina jaatar Syndena med Munnenum, enn angrar hana ecke i Hiartanu, hañ er eins og sa er tekur Umbwdernar af Saarenu, eñ leggur ecke Plaastureñ þar vid. Guds Sonur er ad soñu i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sundurknosada, Esa. 61. Eñ hvernig a hann ad lækna þig Barn mitt ef Hiarta þitt er heilt og obroted.

Þar er eirn Gull-Kaalfur nærre þvi i hvers Mañs Hiarta, þad er Verolld þesse siñ ad sierhver af oss hefur einhvern Atrwnad a, epter þvi sem hver er lyndur til, og jafnvel þeir sem Gud elska vilia, þeim er eins hættad og þeim, er ad soñn tilbaadu Gud i Jerusalem, eñ offrudu þo a Hædunum, 1. Reg. 22. So er þad fyrer oss aumum Mönnum, vær seigunst laata Gud gaanga fyrer, eñ flester af oss hafa þo einhveria Hiaa-Trw; Sumer Rijkdoom, sumer Metord, og sumer Munade sijna, og a medañ vier hösum þa fram hia Gude, þa er hætt vid, ad vier ecke af Hiarta ydrunst, þvi eigum vier ad breita vid þa eins og Moyses giorde vid Kaalfeñ, hañ brende hañ til Ösku, kastade hönum i Vatn, og liet allañ Israel drecka hañ i sig til Blygdunar sialfum þeim, ad þeir hösdu teked Egyptalands Svijvirdingar fram hia hinum lifanda Gude, Exod. 32. So eigum vier ad hondla vid Rachels Skwrgod, þeim er hun situr a, og leyner, Gen. 31. Þad eru heimuglegar Gyrnder Saalna vorra, sem ecke eru audsienar öllum. Vier eigum ad laata Moysen breña þær til Ösku med Elldingunum af Synai, og kasta þeim i Flood vorra Ydrunar-Taara, og drecka þær sialfer upp, so þær hverfe, Exod. 32. Alldeilis, og verde ad eingu, þad vardar ad litlu, þoott vier stondum rauder af Svirdingu i

Guds Auglite med Ephraim, Jer. 31. Þvi hañ sier þær hvert sem er; Laban og Jacob kuñum vier ad pretta, Gen. 31. Eñ ecke Jacobs Gud, Ps. 94 Þvi hañ er Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare, og sier hvad i Myrkrunum er huled. Sundur-rijfed ydar Hiortu, og ecke ydar Klæde seiger Drottenn, Joel. 2. Gydingar plagudu a þeim Dogum ad rijfa sijn Klæde nær þeim rañ i Skap, añadhvert þegar þeim bar nockur Sorg til Handa, edur þeir vandlættu i Guds Stad, eins og Hræsnareñ Caiphas liest giora, Matth. 26. Eñ hver Sorg skyllde oss meire tilfalla eñ sw, ad vid hofum hinn gooda Gud styggdañ, um hvern skylldum vier meir vandlæta eñ um sialfa oss, þvi eingum erum vier so margs ills medvitande, ef ecke i Verkunum og Ordunum, þa samt i Hugreñingunum. Eitt sundur-rifed Fat gagnar til lijtils, sundur-rijfum vor Hiortu med Ydraneñe, og þa munum vier fiña, ad jafnvel vort Riettlæte er ecke betra eñ Nidlags-Fat sem Esajas vottar i 64 Cap. Þa munum vier hvad best wtlijta i Guds Auglite. Þegar vier athugum hvar fra vier erum fallner, þa mun hañ giefa oss eiñ nijañ Klædnad, so ad Mijnkun vors Fatleysis ecke siaest. Nu er þad ecke noog ad Hiarta vort klokne fyrer Gude um Stundarsaker, ef vier hverfum þo aptur til somu Synda, þa vill þad lijted gagna, ad vier hofum audmykt oss fyrer Gude. Þeirre Ydran er illa vared, sem leggur Mañenum alleina uppa Hrygdena eñ ecke burt tekur Sektena. Eñ vid þad er ecke ad dyliast Br. mijner, ad þeirre Ydran er so hattad sem leiser Mañenum ad vellta sier aptur i sama Saur. Sa hiñ ogudlege late af sijnum vondum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugsan, og snwe sier til Drottens, seiger Texteñ. Hier er þad ad merkia Born mijn, ad Spamadureñ kallar ecke ad Meñ hafe snwed sier til Drottens, nema vier tokum vora Illsku-Breitne fra hañs Auglite. Þad er alkuñugt, hversu ad hinn gudlause Amnon Sonur Davids Konungs brente skamarlega vid Systur sijna Thamar, ad hañ rak hana wt af Hwsenu, er hañ hafde vanbrwkad heñar Lijkhama, 2. Sam. 13. Eñ þo eigum vier eins vid Syndena ad breita, þvi hun er ecke betra verd, vier þeckium ecke heñar Lijte fyrer Blindu Holldsins, fyrr eñ Guds Ande ridur Smyrslum Ydranareñar a Augu vors iñra Mañs, Apoc. 3. Eñ nær hañ so giort hefur, og vier fyrer Naad Guds þeckium vora Blygdan, þa eigum vier med ollu ad rydia Glæpunum burt wr Hiortum vorum, og eingu ad leyna af þvi Satans Herfange, sem Gud hefur bolvad, Jos. 6. Helldur breña þad upp til kalldra Kola, ad so miklu leite sem mogulegt er i þessum daudlega Lijkhama, og Guds Giædska fær i oss verkad. Og fyrer þvi ad þessu er so vared, þa eigum vier daglega ad endurnyia vora Ydran, þvi daglega a hiñ gamle Adam i oss ad dreckiast og deydast. Ecke seigie eg þad, ad Meñ giete syndlaust lifad, þad er Guds eins ad syndga ecke, eñ þad er gudhrædds Mañs ad ydrast Syndareñar og rada Bot a heñe, eñ Gud tilreiknar ecke þeim sem eru i Christo, þær Syndernar sem ad Ovilia edur mañlegum Breiskleika kuña ad henda oss; Hitt vill hañ ad Meñ skule daglega ydrast, Þvi daglega syndgum vier og forþienum ecke gñad eñ Straff. Gud hialpe oss! ef vier segdum ad vier hefdum ei Synd

seiger

seiger Johañes, 1. Pist. 1. Þä drögum vier oss sialfir ä Tälar, og Guds Sañleike er ecke i oss. Ja, allt vort Lijf er ei nema Synd, være þad ecke bætt fyrer Guds Sonar Dauda, þegar vier hugdum ad lifa einn Tijma syndlaust äfram, og vier lijtum aptur nær hañ lideñ er, þä mætte oss hrylla vid þvi sem vier hugdum best ad giora, og so margt Augnablik sem er þar i, so margur Þyrne-Broddur mundi stijnga Sälu vora, nema Drottens Forþienusta hefde giort Athafner vorar gylldar i Auglite hins strānga Doomara. Gud nädi oss färädar Mañeskiur, hverßu ad vier erum undir Syndenna fellder. Sä sem vill skoda Stiornu nockra i einne Sioonar-Pijpu, hann skal leita leinge ad henne ädur enn hann fær komed Auga ä hana, og nær honum hefur þad tekest, er hañ so skiälfhendtur ad hañ fær varla vidhalldist, so ad hañ ecke misse heñar aptur. So erum vier i andlegum Efnum, vier skulum fyrst leinge þvijnga hinn gamla Mannenn, ädur enn vier säum hina blessudu Jacobs-Stiornu, Num. 24. Je um riett siena, og nær vier þad odlast hofum, þä eru vorar Trwar-Hendur so ostyrkvar, ad þar er nærsta hætt vid, ad hun kuñe ad hverfa oss aptur, nema Gud styrke vora Armlegge. Ja, hiner bestu af oss eru eins og fylgespakur Hundur, hann rennur ad sönnu Veigenn epter sijnum Hwsboonda nockra Stund, enn ef hann sier eitt Dijr, eiñ Saud, eiñ Hest, eiñ Titling, þä hleipur hañ epter þvi. So eru og vorar Hugreñingar, vier reñum þeim til Guds i vorum Bænum under hañs Orda Heyrn, ä vorum Ydrunar-Tijnum, og kañ skie nockrer optlega þar fyrer utañ, eñ strax sem þar flijgur fyrer oss eitthvert Glis Veralldarennar, einhver Abata-Von, eitthvert Reide-Efne, eitthvert broslegt, sem oss þyker Skiemtan ad, jafnvel þoott þad ä stundum sie Näunganum til Hneisu og Ohroodurs, þegar þetta edur añad þvilijkt, sem Verolldiñ er full af bregdur fyrer oss, þä bregdum vier opt af Veigenum, og hlaupum epter þessu, og giætum vier þä lijtt undañfareña Synda, er oss urdu so beiskar i Ydraneñe, ad þar var ecke Fridur i vorum Beinum fyrer Guds Ognan, Ps. 38. Ef vier lätum oss villa oflängt epter slijkum Hiegooma. Nu er þar þo eingeñ, sem kuñe ad vardveita so vel sitt Hiarta, ja, og mä seigia Muñ og Hendur, ad ecke verde ä fyrer honum i þesshättar Hlutum, og þad daglega, fyrer þvi siäum vier og, ad vier hvern Dag; ja, ä hverre Stundu hofum noog Ydranar-Efni, og er þess betur þess optar, þvi sä er sier temur þad Hugarfar, hañ lærer bæde ad siä gior epter Athofnum sijnum, so er og lijklegt, ad hann mune ecke hverfa aptur til Stoor-Glæpaña, þvi ef hañ so lærer ad ydrast daglega þeirra Bresta, sem hañ fær varla edur ecki vidgiort, þä mun honum i Hug koma, hvad särt þad mune kvelia hañs Samvitsku ef hann skyllde rata i nockurn Ogiorning. So eigum vier nu ad leitast vid ad afmä Lijkhama Syndareñar, Rom. 6. Þad er illa bygat, ad brioota eitt gamallt Hws nidur og tilla þvi upp aptur af sömu Rofum. Menn skulu ecke einasta deyda hinn gamla Mañeñ, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, helldur ä þar ad upprijsa einn nijr Madur, sä ed lifi i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude æfenlega, annars geingur hinn aptur, og eiñ Diofull sem einusinni er wtrekinn, hann tekur sio

adra

adra Anda sier verre, Luc. 11. og hverfur aptur i þad Hws hvadañ hañ wt foor. Giæt-
um ad hvernig þeir hafa breitt sem af Hiarta hafa ydrast. Petur var miklu Trwar-
sterkare, epter þad hañ hafde til fulls grååted þad hann hafde Trwna mist, Matth. 26.
og fieck so meire Naad enn hañ mist hafde, Act. 2. Einn Stoor-Syndare sem af Hiarta
ydrast hefur, hañ er miklu lijklegre til ad standa stødugur, helldur eñ eiñ sem meinar ad
sier hafe eckert aardeð, og er af Mønnum goodur hallden. Gude er og miklu þægre
soddañ Stoorbrota Mañs Ydran og Elska til Guds sem optast mikel er, af þvi honum
fyrergafst miked, Luc. 7. helldur enn ydrunarlaust Meinleyse þess, er lijtid edur eckert fin-
ur til Synda siña, þar fyrer sie Ydraneñ so heit, so kroptug og so alvarleg, ad þad beisk-
est i vorre Saalu, sem aadur þootte sætt i Lijfernenu, og ad þad kvelie oss i Hiartanu, er
aadur gladde i Holldenu, so opt sem vier minnunst aa vorar eigeñ Synder, edur heyrum
þær af odrum drygdar, og þaa munum vier sijdur aptur aa nij samþyckiast þeim Glæp-
unum er Drotteñ hefur oss eitt siñ kvitta giefid. J Exod. 29. stendur ritad um Breñe-
Foornernar, sem og voru Synda-Foorner, ad þær aattu med heilu Lijke ad uppbreñast.
J Levi. 1. Er Kieñemoñunum skipad ad þvo Jñible soddañ Brennefoorna og so Fæt-
urnar. Nu bijdur St. Paall oss, Rom. 12. ad vier skulum offra Gude Lykhami vora,
eina lifande Foorn heilaga, Gude þægelega, þad er sw Brenne-Foorn er honum lijkar
i hinu nya Testamentenu. Þvoum þvi Jnnibleñ, þvoum Hiarta vort, bleytum þad
wt i heitum Ydrunar-Taarum, þvoum Fætur vorar af þeim Saurendum, er þær hafa
atast i, aa hinum breida Veigenum, sem liggur til Glotunareñar, Matth. 7. Drotteñ
sagde vid Petur, Joh. 13. Saa sem þveigiñ er, hann þarf ecke ad þvo nema Fæturnar.
Frelsareñ droo hier Dæme af þeim sem Laug edur Bad taka, þeir þvo Fæturnar sijd-
arst þegar Lijkhameñ er allur þveigeñ. O Guds Børn! Vier erum ad søñu aller þveg-
ner, i Skijrnar-Laugeñe, i hveria Jesu dijrmæta Blood er wtruñed, enn vorar Fætur
hafa sijdañ geinged aa vondum Veige, og daglega eigum vier Leid i giegnum Fen og O-
veige þessarar Veralldar. Eingenn er so vel Skoofatadur, Eph. 6. so reidubwen, ad
frañfylgia Evangelio Fridarens, ad ei slettest nockud uppaa. Forgiefins erum vier i
Skijrnenne af-þvegner, nema vor innre Madur skijrest daglega i Taara-Floode vorrar
Ydranar. Þad er ecke noog ad vera skijrdur i Jordan, vær skulum og skijrast i Mara,
Exod. 15. Þvoum þvi Hiartad sem ad er Brunnur Jllskuñar, af hveriu frañkoma
vondar Hugsaner, Matth. 15. med christelegre Ydran, hreinsum Fæturnar med sama
Hætte, og hinn oaudleigi laate af sijnum Veige, leggium so þessa Foorn uppaa Drott-
ens Altare. Þegar Aaron hafde helgad Samkundu Tialldbwdena og Verkfære
Þioonustugiordareñar, og lagt Breñefoorneña uppaa Altared, þaa gieck Elldur wt fraa
Drottne og fortærde þvi, Lev. 9. Þegar hin nya Tialldbwd Guds sem er Hiarta
eins aangraads Syndara, þegar hun er hreinsud og helgud med Ydraneñi, þaa mun H.
Andi i þvi byrtast i einum Ellds-Loga, og uppkveikia i þess Mañs Hiarta eina breñandi
Elsku til Guds, er honum so margar Synder hefur tilgiefed, saa sem henne hefur eitt

skin naad, hañ hefur naad þvi gooda Hlutskiptenu, honum mun hægra ad mootstanda Syndeñe so leinge hun ecke slocknar, þaa er ecke hætt vid ad hann læte Syndena i sier drottna; Hun uppbreñer allt Sorp veralldlegra Gyrnda i Hiartanu. Þegar Gedeon hafde sagt Brennefoornena uppaa Kletteñ, epter þvi sem Engell Drotteñs baud honum, þaa riette Engelleñ sinn Staf wt er var i hanns Hende og snerte Foornena, og þar spratt Elldur upp af Biargenu, og fortærde Kiotenn og hinum osijrdu Braudunum, Jud.6. Legg þijna Foorn christeñ Madur uppaa þann Stein sim̃ Uppbyggendur forsmaadu, Ps.118. Þann wtvallda Hyrningar-Stein, er Gud hefur sett i Zion Jesum Christum, Es.28. Þar mun Elldur wt fraa honum gaanga; Jaa, einn brennande Elskuñar og Trwareñar Elldur, sem upptendrar þijna Foorn, so Gud sem bijr i Hædunum lukte eiñ Sætleiks Ilm þar af: Og hefe eg nu so um̃ þad nockud talad hversu ad Ydrañ eige kroptug ad vera til Apturhvarfs fraa Syndunum, og til Mootstødu þeim. Nu þo ad Meñ sieu um̃ þad sañfærder i Hiarta sijnu, ad eingeñ kuñe ad eignast eilijft Lijf, nema saa sem af Hiarta ydrast Syndaña og lætur af þeim; þaa erum vier so treger til þessa Verks, og vier laatum oss allt añad meir um̃hugad vera. Seiged mier, hver er saa ed seige, þar er noogur Tijme til ad verda rijkur? Til ad taka Veitslur og Virdingar? Til ad reisa til Giestabods? Seiger ein Jomfrw, þar er noogur Tijme til ad gyptast ef heñe bijdst þad Raad sem heñe lijkar? Edur saa hvers Asne edr Naut ad fellur i Pitt, ad þad sie noogr Tijme til ad draga þad upp. Eda ef Elldur kviknar i eins Mañs Hwse, ad noogur Tijme sie til ad slockva hañ? Eñ til þess ad kveikia vora Lampa, til ad fagna Brwdgumanum Christo, Matth.25. Til ad draga sialfa oss upp wr Fene Syndaña, til ad slockva Baal Gyrndaña, sem Diofulleñ hefur upptendrad i Hiarta voru, til þess kollum vier ad alltijd sie noogur Tijme, eins og hefdum vier Feste-Brief, af Gude uppaa Lijfdagana. Þier vited hvad St. Paall seiger, Gal.5. Holldsins Verk eru opeñber, sem eru Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda Dijrkan, Fiolkinge, Fiandskapur, Þrætur, Kappgyrne, Praattan, Sundurþyckia, Flockadraattur, Ofund, Mañdraap, Ofdryckia, Ofneysla, og þessu lijkt, hvad eg seige ydur fyrer og hefe aadur sagt, ad þeir ed þvilijkt giora, erfa ecke Guds Rijke, seiger hañ. Nu hafa aller af oss framed eitthvert af þessu edur þvilijku, kañ skie leingst Alldurs sijns, og sumer ecke eñ nu aflaated, enn vier vitum ecke nær sagt verdur; Þu Daare, aa þessare Noottu munu þeir þijna Saal fraa þier taka, Luc.12. og sumer saa einga Advorun. Ecke kastar Daudeñ ollum fyrst i Bana-Sængena, Margur deyr, so hañ sier ecke Daudañ fyrer Augum sier. J einu Augna-Bragde, i Svefne, midt i Syndunum klipper hañ sumum i burtu; Eñ þu veitst ecke hvad hellst af þessu ad þier mune ætlad. Seig mier þaa i Guds Nafne, seig mier, er þar alltijd noogr Tijme til ad ydrast? Er þad viturlegt, ad draga sijna Um̃boot undañ i Trauste laangra Lijfdaga, eins og hefdum vier giort Saattmaala vid Daudañ? Vor Dauda-Stund er alltijd, þvi skyllde vor Ydrunar-Stund alltijd vera, þu seiger, þad tekst mier ecke, þvi medañ eg

syndga giet eg ecke ydrast, þad er satt, þvi Ydraneñ kiemur ecke fyrr enn epter Syndena, Gud giæfe ad hun kiæme þo jafnañ strax ad heñe drygdre, og mundum vier sialldnar syndga, fyrst þvi verdur ecke aakomed, ad vier hugsum til þess, nær Syndeñ griipur oss, hvad beisk Ydran þar verde aa epter ad fylgia ef Syndeñ aa ad verda oss fyrergiefeñ. Gud giæfe ad vier villdum giora seins og Dwfa Noa, Gen. 8. Hun flaug wt og kom aptur strax mz eiñ Oliu-Kvist i Muñenum sem var Fridar-Merke. Gud giæfe, seige eg, ad vier villdum eins giora þegar vier fliwgum wt af Guds Ork med syndsamlegu Athæfe, ad vier villdum þaa hverfa strax aptur i Orkena, og fridmælast vid Gud, og ecke lijkiast Hrafnenum er alldrei kom aptur, Gen. 8. Br. M. So leinge sem vier erum i Syndunum, so leinge erum vier under Guds Reide, Joh. 3. So leinge vier aan Ydrunar lifum, erum vier under Satans Vallde, Act. 26. Vitstola maa saa vera sem þetta vill eiga yfer Hofde sier: Eñ Gud frambijdur sijna Myskunseme med þeim Skilmaala, i Dag, i Dag medañ þu heyrer mijna Rodd þaa forherd ecke þitt Hiarta, Ps. 95. Diofulleñ heiter oss og Guds Myskunseme med þessu Skil-Yrde: A Morgun, aa Morgun, enn aadur eñ þesse Morgun kiemur, þaa kañt þu ad vera uppvaknadur i Helvijte og Kvolunum. Esau kom seint med Graadena, þvi foor hañ aa mis vid Blessanena, Gen. 27. Pharao þuste epter Israel wt i Hafed rauda, Exod. 14. enn villde flijta sier aptur til sama Lands er Siooreñ gein yfer Hofde honum, enn þad var þaa allt um seiña. O þu syndug Mañeskia! þu sem meinar ad þar sie alltijd noogur Tijme til ad ydrast, þeink aa þetta Dæme, ef þu geingur ottalaust aafram i hinu rauda Hafe bloodugra Synda og Illgiorda, og þeinker alldrei til Apturhvarfs, hvad veitst þu nær Guds Reide-Flood steypest yfer þig, ad þier overum, so þu gieter ecke aptur sinned. Spared Tijmañ seiger Paulus, Eph. 5. Þegar vier hofum miked ad sijsla Br. M. er oss þyker aaliggia, þaa kollum vier hvern Tijma, hvert Augnablik ad vera dijrmætt. O seiged mier! Liggur oss aa nockrum Hlut so miog sem ad komast i Saatt vid hiñ almattuga, þo laatum vier oss so lijted þar um annt vera. Ef nockur slepper goodu Tækfære til ad framkvæma einhvern Hlut sier til Gagnsmuna, þaa hlæum vier ad honum, ef vier ecke hyrdum um hañ, aumkum hañ og aatelium ef hañ er vor Vinur, hende þad oss sialfa, þaa ydrunst vier epter, enn Diofulleñ hlær ad oss ad vier forsoomum ad taka aa moote Guds Giof medañ hun er fyrer Hondum. Margt kalla Meñ Heimsku i Verolldeñe, og hver af oss hlær ad odrum, enn eingeñ er þvilijkur Daaraskapur sem saa er oss marga hender, þad er ad skioota Ydraneñe aa Frest. Hañ er synogar i þvi Trausti, ad hañ mune gamall verda, hañ er lijkur þeim, er briitur Skip sitt i þeirre Von, ad hañ mune komast til Lands aa Flaka einum. Eg hefe aadur sagt, ad Syndeñ verde ecke forergiefeñ nema ad Ydraneñ ad nockru leite sambioode heñe, hverium Deige næger sijn Plaaning seiger Endurlausnareñ, Matth. 6. Munde þad ecke verda oss noogu þrongt ad ydrast aa hveriu Kvollde fyrer hvers Dags Synder, ef vier hefdum þeirra Registur vel uppskrifad i Hiartanu? Þo ecke skiootum vier þvi aa Frest Dag epter Dag, At

epter

epter Ar; Mun ecke Þesse Byrde verda nockud þwng um̃ sijder? Sa sem er odrum madur og a ad viña Dags-Verk, ef hañ forsoomar framañ af Deigenum, mun hañ ecke þess betur meiga herda a sier þegar hañ tekur til Verksins? Sa sem hefur i Ungdoomenum lijtils aktad Syndena, mun ecke Ydraneñ verda honum þess þijngre i Ellene ef hañ a Guds Ryke ad erfa? Vier vitum ecke hvad gamall David var þegar hañ sagde ad Syndernar væru sier ofþwng Byrde vordnar; Hvad mundu þær ecke vorded hafa hefde hañ dreiged þær undañ allt til Daudans. Eingeñ er sa af oss, ad hiñ leggehinar þijngstu Klyfiar a hiñ veikasta Eyk, og þo vilium vier kasta allra vorra Lijfs-Daga Syndum uppa vorn Hrygg þegar vier erum so ellemooder, ad vier hofum noog ad bera sialfa oss. O! hversu vijslega var þad þvi giort af David? Er hañ beidde Gud ad lata sig ecke giallda siña Ungdooms Synda, Ps. 25. Eitt Saar er hægast ad græda medañ þad er nijtt. So er og Syndeñ, hun verdur best læcknud ad ferskum Giorninge. A Morgnana taka Meñ Læknisdoom iñ a toomann Maga. Ydraneñ er Lækning Syndareñar, tem þier hana Barn mitt a Morgne þijns Alldurs, medañ þu fullhraustur ert; Þeink a þiñ Skapara i Ungdoome þijnum adur eñ þeir vondu Dagarner koma, og þu seiger: Þad lijkar mier ecke, Eccl. 12. Paulus skipar oss ad Krossfesta Holld ed, Gal. 5. Eñ þad er lijtill Kross fyrer hiñ gamla Adam ad baña honum þad sem hañ gietur ecke haft Skiemtan af leingur, þad er ad vijsu ad offra Gude þvi hallta og lamada, Mal 1. Og mæla honum med Mæler hinns framanda, eñ Fiandanum med Israels Mæler. Þyrm Elle þiñe ef þu kañt heñar ad bijda, og bijder þu ecke, þa munt þu fiña, ad þu hefur eingañ Skada nær Kvolld þiñar Æfe kiemur, þo þad sie um Middeige þijns Alldurs edur jafnvel fyrr. Veit eg ad Gud hefur morgum inwed a sijnum gomlum Alldre, eñ under þvi er ecke ad eiga, þo hann sie myskunsamur, hann hefur alldrei lofad ad lata þann kasta Elle-Belgnum til ad ydrast, sem alldrei þeinker til ad afklædast hinum gamla Adam medann hann fullhraustur var.

Þu giorer mig ungann aptur so sem eirn Orn seiger David, Ps. 103. Þad er ann Efa þess vegna, ad David endurnijade sijna Ydran daglega. Eru ecke toolf Stunder i Deigenum? Seiger Endurlausnarenn, Joh. 11. Eg heyre Vijngards Herrann liet Verka-Menn leigia um̃ ellefstu Stund, Matth. 20. enn sijdar ecke. Veit eg ad Gud hefur morgum i Andlatenu myskunad, og hañ myskunar ollum sem hañs Naadar leita, eñ þau munu Dæmeñ færre vera, ad sa hafe snwed sier af Hiarta til Guds i Andlatenu, sem hañ forsmaad hefur alla Æfe sijna. Spamadureñ seiger i Textanum: Leited DROTTeñs Medañ Hañ Er Ad Fiña, Kalled A Hañ Medañ Hañ Er Nalægur; So sem giore hañ Raad fyrer þvi, ad sw Tijd kuñe ad koma, ad hañ late sig ei leingur fiña, ad hañ vilie ecke framar vera nalægur, ad hañ vilie ecke heyra þo vier margtalader sieum, og wtbreidum badar Hendur vorar, Es. 1. Ad hañ iñeloke sig i eiñu Skije sem eingeñ Bæn kiemst i giegnum, so sem Jeremias ad Orde kiemst, Thren. 3. O Guds Barn! latum oss, latum oss ecke bijda epter þeirre Tijd, hver veit nær hun

 er?

er? Hver veit nær Mæler Syndanna er uppfylltur? Hver veit nær Hofud-Eingelsins Lwdur kvedur vid i Skijum Himens? Snwed ydur þvi til Drottens unger og gamler, rijker og fatæker, vollduger og vesæler, Þa Mun Hann Myskuna Oss, Og Til Guds Vors, Þvi Hia Honum Er Mikel FYRERgiefning. Eingenn Hlutur er honum omattugur, Luc. 1. So er og eingen Mæler hans Myskunar, fra hans Knie̊ hefur eingenn syniande fared, sem hans leitad hefur med angre og Trega. So fliott sem David jatade Afgiord sijna, so fliott liet Drotten seigia honum: Gud hefur þijna Synd i burt-teked, 2. Sam. 12. Manasses stynur ecke fyrri Bondunum, 2. Par. 33. enn ad hanns Misgiorder eru fyrergiefnar i Himnenum. Minn Herra Jesu! þu sagder fordum vid Simon, Luc. 7. Þeim sem lijted er fyrergiefed, hann elskar lijted. Herra, Þar er eingenn af oss sem hier liggum a þinne Foot-Skor sem lijted er fyrergiefed. morg tiju Þusund Punda eru oss uppgiefenn hinum verstu Skullda-Þrieotum. Herra, ef had er mogulegt, þa gief oss ad vier elskum so miked, sem oss er tilgiefed. Vier erum fortapader Syner, sem hofum soad vorre Fodurleyfd, enn leitum þo aptur til Fodur-Hwsa, Luc. 15. Drotten þu hefur runned a Veg fyrer oss, Og breidt wt þinn Fadm a moote oss, þu hefur mætt oss a midre Leid og teked fagnande i moote oss; Lat oss þvi alldrei gleyma, og alldrei verda i so fraleit! Sinne yfergiefna, ad vier hverfum burt aptur til ad eta Draf med Svijnum, helldur ad oss smackest so þijnar Vister, þijner Uxar og aled Fie, Luc. 14. Er þu tilreider oss hier i Nadenne, ad vier meigum sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Dijrdenne, Matth. 8. Bænheyr þad goode Gud, fyrer JESU Christi Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

JEsus sagde til sinna Læresveina: Nu fer eg til hanns sem mig sende, og eingenn af ydur spyr mig ad, hvert fer þu? Helldur af þvi ad eg talade þetta til ydar, þa uppfyllltest ydar Hiarta af Hryggd. Enn eg seige ydur þo Sannleikenn, ad þad batar ydur, ad eg fare hiedann. Þvi ef ad eg fer ei i burt hiedann, þa kiemur eige Huggarenn til ydar. Enn ef eg fer i burt hiedann, mun eg senda hann til ydar. Og þa ed hann kiemur, straffar hann Heimenn umm Syndena, og umm Riettlæted, og umm Doomenn. Umm Syndena, af þvi þeir trwdu ecke a mig. Enn umm Riettlæted, þviad eg fer til Fodursins, og epter þad siaed þier mig ecke. Enn umm Doomenn, þviad Hofdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe enn nu margt ad seigia ydur, enn þier kunned ecke ad siae ad bera þad. Enn nær ed sa Sannleiksins Andenn kiemur, þa mun

hann

hañ kieña ydur allañ Sannleik, þviad hann talar ecke af sialfum sier, helldur hvad hann heyrde, þad talar hann, og hvad epterkomande er, þad kunngiører hann ydur, hann same mun og anglijsa mig, þviad af mijnu mun hann þad taka og kuñgiøra ydur. Allt hvad hellst Faderenn hefur, þad er mitt. Þar fyrer sagde eg ydur, ad af mijnu mun hann þad taka, og kunngiora ydur.

## Exordium.

EG mun bidia minn Fødur, seiger Endurlausnarenn, Joh. 14. Og hann mun senda ydur einn annann Tals-Mann, þann er blijfi hiaa ydur eilijflega, Anda Sannleiksins, hvern Heimurenn fær eige medteked, þvi hann sier hann ecke, og þeckir hann ecki, enn þier þeckid hann, þvi hañ mun blijfa hiaa ydur og i ydur vera. Lærisveinar Herrans voru sorgbitner af þvi ad hann sagde þeim fyrer sijna Burtfør til Fødursins, Joh. 16. So sem vier strax heyrdum af Evangelio. Enn til þess ad þeir skylldu ecke allt ofmiøg sturlast þar af, þaa gaf hann þeim þetta blessada Fyrerheit, hvert hann efnde strax epter sijna Himnafør, þar hann sende heilagann Anda yfir þaa med miklum Krapte og Undrunum, Act. 2. Er fylgde þeim æ sijdann i øllum þeirra Embættis Utrettingum, og kann hinne þridiu Guddoomsins Persoonu eckert huggunarsamlegra Nafn ad giefast enn þetta, ad hann sie vor Tals-Madur, Rom. 8. Þvi ef Gud er med oss, hver er þaa aa moote oss? Seiger Postulenn. Enn ad H. Ande sie Gud, ber Skijrnenn vor lioosast Vitne um̃ þoott eige være þar til onnur Rok, þar vier verdum i hanns Nafne skijrder aasamt Fødur og Sonar, Matth. 28. Hann er vor Tals-Madur i Hørmungunum, þvi hañ kieñer oss ad fyrer þær byrie oss iñ ad gaanga i Guds Rijke, Act. 14. Vor Tals-Madur i vorum Veikleika, þvi hann ber vorum Anda Vitne um̃ ad vier sieum Guds Børn, Rom. 8. Vor Tals-Madur hiaa Gude, þvi hann bidur fyrer oss med oumrædelegum Andvørpunum: Vor Tals-Madur i þvi ad undervijsa oss, þvi hann leider oss i allañ Sannleika: Vor Tals-Madur i Efasemdenne er oss optlegã hender, sokum vors Overdugleika, þvi hann er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Enn so sem þad, ad einum Tals-Manne heyrer ecke alleina til ad forsvara og affaka þann er hann ad sier tekur, og hughreysta hann og undervijsa, hvernig hañ skule haga sier fyrer Doomaranum edur sijnum Herra, helldur og er þad hanns Embætte, ad moostanda hañs Ovinum, og ad sannfæra þaa sem aa moote mæla; So er þad og heilags Anda Verk, ecke alleinasta ad hugga Guds Børn, og leida þau i allañ Sañleika, helldur og ad straffa og byrgia Muñiñ aa þeirra Ovinum. Þetta Embætte H. Anda er innefaled i þeim Ordum, er Guds Sonur talar hier i Evangelio, Ad Hann Mune Straffa Heimenn Um̃ Syndena Og Um̃ Riettlæted Og Um̃ Doomenn: Og fyrer þvi, ad þau þykia ecke so audskilenn, þaa vil eg lata þad vera Inntak minnar einfalldrar Rædu, i þetta sinn, ad utskijra þau.

Drottenn hiꜳlpe þar til med Nꜳd sijns Anda', i Jesu Nafne, A M E N.

## Utleggingeñ.

Nær hañ kiemur mun hann straffa, edur sañfæra Heimeñ um̃ Syndena, seiger Endurlausnareñ. Eingeñ Efe er ꜳ þvi, Br.M. ad þetta ꜳ ad skiliast um̃ hina stooru Vantrwareñar Synd, hver ed drottnade i Heimenum framar Veniu ꜳ Hiervistar Dogum vors Lausnara : Eg seige i Heimenum, þad er i Vantrwareñar-Bornum, Eph.2. so ad bæde Gydingar og Heidingiar voru under þessare Synd, þar Gydingar oskudu Teikns seiger Pꜳll, 1. Cor. 1. Eñ Gricker (þad eru Heidingiar) leitudu ad Speke, hiner villdu ecke trwa nema þeir sæe Teikn og Stoormerke, og þoott þeir morg sæe, oskudu þeir samt Teikns af Himne. Þesser leitudu ad Speke og meintu ad þeir mz Nꜳtturuñar Skilninge feinge griped hiñ oransakañlega Guddoomsins Dijrdar Liooma, sem uppfyller bæde Himen og Jord, hvern Guds Sonur var sendur til ad opeñbera. Eñ fyrer þvi ad hañ vard Gydingum ad Hneixlan, eñ Gryckium ad Heimsku fyrer þeirra Vantrwar Saker, þa var heilagur Ande wtsendur til ad sañfæra Heimeñ um̃ þeñañ Guds Sañleika. Ad þetta so eige ad skiliast, er Deigenum lioosara af Orsokeñe er Drotteñ færer hier til, sem er þesse : Af þvi þeir trwdu ecke ꜳ mig. Hañ talar um̃ þetta so sem eiñ undañ fareñ Hlut, eñ þa var allareidu komed ad hañs Burtfor til Fodursins. Nu er þad kuñugt hversu liooser ad voru Spꜳdoomarner og Ritningarnar sm̃ af honum voru, hveriar hañ baud þeim ad rañsaka, Joh.5. Samt villdu þeir ecke lꜳta hañ drottna yfer sier. Þeirra eigeñ Sende-Meñ bꜳru Vitne um̃, ad alldrei hefde nockur Madur talad so sem þesse talade, Joh. 7. Þo sogdu þeir ad hañ gudlastade; þeir sꜳu hñs Kraptaverk, og jꜳtadu ad eingeñ kyñe þvilijkt ad giora, nema Gud være med honum, Joh.3. Samt bꜳru þeir sier þa Ohæfn i Muñ, ad hañ være samverskur og hefde Diofuleñ, Joh.8. Þeir hofdu fyrer Augunum hañs allra heilagasta Lijferne, þo kolludu þeir hañ Ofneytslu-Mañ og Viinsvelgiara, Vin Tollheimtumaña og bersyndugra, Matth.11. Þeir kuñu ecke ad straffa hañ um̃ nockra Synd, Joh. 8. Þo klogudu þeir hann, so sem hann ed frꜳsnere Foolkenu og bannade ad giefa Keysaranum Skatt, Luc. 23. Þesse var sw gudlausa Vantrwarennar Synd sem Jesus hier um̃ talar, hun verdur og ꜳ stundum kollud Synd i Ritningunne framar odrum Syndum. Um̃ Jeroboam stendur vijda i Konganna Bookum, ad hann hafe komed Jsrael til ad syndga, 1.Reg.12. Þad er til Vantrwar og Afguda-Dyrkunar. Ef þier værud blinder (seiger Lausnarenn vid Gydinga) þꜳ hefdud þier ecke Synd, eñ nu þar þier seiged, vier siꜳum, þa blijfur ydar Synd, Joh. 9. Hvar eige kañ añad meint ad vera eñ Synd Vantrwareñar, þvi fyrer utañ hana hofdu þeir þo margar Synder ; Jꜳ, Þesse er sw hrædelega Synd er hañ um̃ talar, Joh. 15. 22. 24. Hefde eg ecke komed og talad til þeirra, þa hefdu þeir ecke Synd, eñ nu hafa þeir ecke þad þeir kuñe ad skijla Synd siñe med, hvar fyrer miñ Herra? Þvi hefde þesse eina Synd i burtu vered, þꜳ hefdu allar hinar afmꜳdar orded. Jꜳ enn aptur, hefde eg ecke giort

þañ

þau Verk at medalſþeirra ſem eingeñ kañ ad giøra, þa hefdu þeir ecke Synd, eñ nu haſa þeir ſied þau, og hata bæde mig og miñ Fødur, þetta er ſu ſtoora Vantrwareñar Synd, ſem øllum ødrum framar Synd kallaſt i Ritningunne, hvar fyrir? Þviad medann hun bliifur, bliifa allar adrar. Lækning Saalarennar og allra vorra Meina er alleina ſw Forlijkun ſem Jeſus giort hefur, er hañ bar vorar Synder uppa Tried, 1. Pet. 2. Hver ſem þvi ecke trwer, þañ vill Drotteñ ad H. Ande ſañfære, þviad med þvi ad trwa riettelega a hann, verda allar adrar Synder i burtu teknar, vill hañ þvi ad Heimureñ verde ſañfærdur um þeſſa einu Synd, þviad fyrer hana eina verda allar hinar bundnar og apturl alldnar, þad giører Jeſus bert, Joh. 3. ſeigiande: Sa ſem ecke trwer, hañ er þegar dæmdur, og aptur ſeiger hann i ſama Cap. Sa ſem ecke trwir Synenum, hañ mun ecke ſiaa Lijfid, helldur bliifur Guds Reide yfir honum; ja eñ framar: Ef þier ecke trwed þvi ad eg ſie, þa munud þier deya i ydar Syndum, þad er, ad eg ſie Lioos Heimſins, ſoſem hañ hafdi ſkoñu adur uñ ſig vitnad, Joh. 8. Sieaid hier, Br. M. ad Vantrwenn er ein Hoſud Synd, og øllum ødrum meire. Og er nu audſært hier af, ad hun er ſw Synd er Drotteñ umtalar hier i Evangelio, og þoott ecke være añad til Vitnis hier uñ, þa eru þau Undur og Stoormerke er H. Ande byrte med ſiñ Guddooms Krapt under eins og Sakleyſe, Almætte og Guddoom Chriſti, ſtrax eptir hañs Himnafør, til ad ſañfæra Heimeñ uñ þeſſa ſkielſelegu Vantrwarennar Synd, edur hvad ſijniſt ydur uñ hina miklu Rauſt er kom af Himni ſo ſem þiootande Stormvidris, og fyllte upp Hwſid þar Poſtularner iñe voru, uñ þær elldlegu Twngur er ſettu ſig yfir ſierhvern þeirra, uñ þau adſkiliannlegu Tungumaal, er þeir toludu epter þvi ſem H. Ande gaf þeim wt ad tala? Act. 2. Seiger ecke Lucas, ad þeir ed þad heyrdu hafe vorded fraa ſier mumder og twijlrader, ſeigiande hver vid annann: Hvad er þetta? Hvad virdeſt ydur uñ hina fyrſtu Predikun St. Peturs, er hann giørde i ſama ſinne? Hvernig hañ ſagde þeim ad Jeſus af Nazareth hefde odlaſt Anda Fyrerheiteſins af Fødurnum, og wtheillt þvi er þeir þa ſau og heyrdu, og hvernig ad þeir ſkaruſt i ſijnum Hiørtum, er þeir heyrdu þetta og ſøgdu: Gooder Brædur, hvad ſkulum vier giøra? Seigied mier, var ecki þetta ad ſañfæra þa uñ hina hrædelegu Synd, ad þeir høfdu ecki trwad honum, helldur kroſsfeſtu Høfdingia Lijfſins? Ad eg tale ecke uñ øll þau Undur og Jardteikner er fylgdu Chriſtne-Bodenu i þar Daga, ſo ad hiner grimu Heidingiar ſem voru an Guds i Heimenum, Eph. 2. geingu Drottne til Handa og medtooku hanns Vitnisburd. Þvi hrooſar Paall, ſeigiande: Eg hefe allt fra Jeruſalem og þar uñ krijng, allt til Illyricum fullkomnad Evangelium Chriſti, Rom. 15. Nu þo ad þetta ſie eigeñleg Meining Lauſnarans i þeſſum Ordum ſem nu heſe eg ſagt og ſijnt med nockrum Rokum, þa eigum vier þo ad vita, B. M. ad þetta Embætte H. Anda nær eiñig til vor, þvi Frelſareñ ſagde vid þa, ad þeſſe H. Ande ſkyllde vera hiaa þeim æfinnlega, Joh. 14. Eun þeir eru fyrer laungu komner til Hvijldar Drotteñs, ſamt hefur Gud ecki yfirgiefid ſijna Chriſtne, þvi eigum vier eñ nu ad leita ad honum i

hanns

hañs H. Orde sem i fyrstuñe var predikad ad honum samverkanda og styrkianda med epterfylgiande Teiknum, seiger Marcus, Marc, 16. Hvert hañ er eñ nu ecki vidskila ordeñ. O! hversu værum vier fávijsir ad þeckia Syndina, nema H. Andi sañfærdi oss þar um̃ i Guds Orde, jaa, eñ þaa epter þad vier hofum lært vorn Christeñdoom i Barna-Lærdoomenum, þaa kollum vier margt þad syndlaust ad vera sem þo er ein fordæmanleg Synd fyrer Gude, ef hañ vill i Doom vid oss gaanga, og þar ad auke þaa maa þad kuñugt vera, hversu ad Christeñdoomenum er almeñelega haattad Maña aa medal, þad sumer kalla sig vel christna ef þeir trwa aa Gud, og þvi ad Christur hafe pijnst fyrer Synder Heimsins. Eñ St. Jacob helldur þad laangtum odruijse, þar hann seiger: Ad Trwenn sie daud aan verkanna, Jac. 2. Nu ef su Trw er daud sem ad ecke verkar fyrer Kærleikañ, Gal. 5. So sem Paulus giorir Raad fyrer hiñi somu Trw, er þad þaa ecke Vantrw? Jaa, i Sañleika, hun er Vantrwnne verri, þvi su Trw af hverri Madureñ alleina þecker Gud, og veit ad hann er bæde goodur, og þo under eins riettlaatur, eñ forsmaaer þo hañs Vilia og ecke aastundar ad læra hañ, so hañ ad minsta Koste þeckia meige hvad laangt ad hañ sie fraa þvi, ad hañ gieti honum Fullnægiu giort, hun hialpar meir til ad fordæma eiñ helldur enn Saaluhoopeñ ad giora, þviad Dioflarner trwa þvi einnig og skielfast þar af, seiger St. Jacob, Jac. 2. Enn seiged mier, hvar aa hollde legur Madur ad faa slijka Þeckingu, nema hañ sañfærdur sie þar um̃ af H. Anda? Petur seiger til Safnadaña i Asia: Þier foorud aller villt sem Sauder, enn nu erud þier um̃hverfder til Hyrders og Biskups Saalna ydar, 1. Pet. 2. Med honum tekur Paulus under, seigiande: Þier vorud Myrkur til forna, enn nu erud þier Lioos i Drottne, Eph. 5. Hvar fyrer munde þad skie, nema fyrer Verkan H. Anda sem bioo i Ordenu og straffade Heimenn um̃ Syndena. Holld og Blood hefur ecke opeñberad þier þetta, sagde Drottenn vid Petur, helldur minn Fader sem er aa Himnum, Matth. 16. Og hid sama maa eg seigia um̃ Þeckingu Syndarennar. Fyrer Guds Anda erum vier Endurfædder i Skijrnenne, Joh. 3. Endurnyader i Hugskotum vorum. Hañ skapar i oss nijtt Hiarta, Ps. 51. Hann leider oss til Jesum Christum, aan hvers vier feingium ecke til hañs komest, so sem vier medkieñum i hinne þridiu Grein vorrar Trwarjaatningar, enn hvar med giorer hañ þetta? An Efa i fyrstuñe med Þeckingu Syndarennar. Seigied mier, hvert er þad Offred sem Gude þocknast? Er þad ecke Harmþrwngenn og sundurknosadur Ande? Sem David seiger, Ps. 51. Su Saal sem ad hrygg er ut af Stærd Illskuñar, og geingur bogeñ og veik; þau Augu sem þreytt eru, ein hungrud Saal mun giefa þier Dijrdena og Riettlæted Drotteñ, seiger Baruch, Cap. 2. Eñ hvar vilium vier faa þessa Hryggd, hver vekur i oss þetta andlega Hungur? Þad giorer Ande Drotteñs med Þeckingu Syndareñar, bæde i Guds H. Orde og so med sijnum kroptugu iñvortis Hræringum, þegar hañ dregur þaa Skijluna fraa Augum Saalareñar, sem Andskoteñ hefur heingt þar fyrer, og vier siaum hversu vier hofum hiñ gooda Gud til Reide reitt med margra Ara Ohlijdne, og sijner oss under eins

Guds

Guds ounfrædelega Giædsku og Polentimæde yfir ollu þessu, sem morgum þeim hefur ad Skyndingu i burtu kipt, sem kañ skie ecke hafa meir syndgad enn vær. Hvad mein= ed þier Br. M. Munum vier taka þessar Hugrenningar af sialfum oss? O! Nei, þvi vier erum ecke megnuger um, af sialfum oss til neitt gott ad hugleida, 2. Cor. 3. Auk helldur ad framkvæma, hvadañ þa, nema af H. Anda? Hver ed sañfærer oss um Synd= ena. Gydingar hofdu Logmaaled, af þvi þecktu þeir þo ecke Syndena; Eige meintu þeir sumerhverier, ad illar Hugsaner væru Synd, jafnvel þoott Logmaaled segde þeim; Þu skallt eige gyrnast, Exod. 20. Þar fyrer lijker Drotteñ þeim vid Grafir framlid= erna, sem utann voru prijdelegar, enn innann fullar af allra handa Oþeckt, Matth. 23. Þeim munde hafa þoott þad undarlegt, ad sa sem reiddist Broodur sijnum, skyllde vera Rāds sekur; sa sem lite eina Kvinnu til ad gyrnast hana, hann hefde allareidu drygt Hoor med henne i sijnu Hiarta, Matth. 5. Edur ad Madureñ være skylldugur til ad giora þeim gott sem vid hann misgiorer. So mikell er nu Munur Bookstafsins og Andans, hinn deyder ef hann er einsamall, þessi lijfgar, enn brwkar Logmaalid fyrst til ad deyda, þad er ad sundurmeria og kieña Syndaranum ad hañ sie Dauda sekur; og þañig iñelykur Gud alla under Ohlijdneñe, uppa þad hañ myskune ollum, Rom. 11. Vite þier ecke ad þier erud Mustere Guds? Seiger Paulus, 1. Cor. 3. Eg ætla ad so fare best Guds Pioonustañ i þessari Kyrkiu, ad Moysis hafi Bassañ i Logmaalinu, eñ Christ= ur Tenoreñ i Evangelio, þvi hiñs gooda Hyrdirs Raust mun þo yfirtaka og hærra laata enn Moysis Reidarþruma. Þad er einn gledelegur Tvijsaungur i Eyrum mæddrar Samvitsku, og þa ræteft þad med fullu og ollu er Drottenn sagde fordum Daga, Guds Rijke er iñe hia ydur, Luc. 17. Jafnvel Angred fyrer Syndena er Guds Born= um þeckara eñ oll Heimsins Kiæte hañs Sonum; og þau Tæreñ er eiñ Syndare feller i Guds Siood, þau smacka honum betur eñ Vijn hiñar flaaraadu Dalilæ Veralldar= eñar heñar Fylgiu=Moñum. Og þvi seiger Lausnareñ hier strax epter: Ad H. Ande mune sañfæra Heimeñ um Riettlæted, af þvi hañ fare til Fodursins. Christur mein= ar hier i fyrstu sitt eigid Riettlæte og Sakleysi, þad hlaut æ epter ad fylgia, þegar Guds Ande hafde straffad Heimeñ um þa skielfelegu Synd, ad þeir trwdu honum ecke, helld= ur festu hañ uppa Gaalgañ, er þeir kuña þo ecke ad straffa um nockra Synd, þa hlaut þad æ epter ad fylgia (seige eg) ad hañ sañfærde þañ sama Heim um hañs Riettlæte ad þeir hofdu Lijfsins Hertoga krossfest, so sem Petur sagde þeim, Act. 3. Þa kuñu þeir ad seigia ad hañ være Timburmañsins Sonur, Matth. 13. ad þeir þecktu Fodur hanns og Moodur, ad hañ være Samverskur og hefde Diofuleñ, Joh. 8. ad hann fyrir Beelzebub Diofla Hofdingia ræke wt Dioflana, Luc. 11. Þa kunnu þeir ad giefa honum þad ad Dauda=Sok, ad hann kallade sig Konungeñ Christum, Luc. 23. Ja, ef hañ være Guds Sonur ad hañ skyllde stijga ofañ af Krossenum, Matth. 27. Þa var þad Tijme fyrer þig, o þu hiñ gudlause Biskup Caipha! ad rijfa þijn Klæde, af þvi hañ jaatade sig Guds Son ad vera, Matth. 26. Þa var Tijme til alls þessa þegar hañ

ad sigrudum Dauda, Diofle og Helvijte, upphafeñ yfer alla Himna, hafde sett sig til Kraptarens hægre Handar, og til Vitnisburdar um̃ sitt Almætte, sitt Riettlæte og dijrdarfulla Hœtign, sende hinn H. Anda yfer sijna Pioona og Ambœtter med stoorum Undrunum og Tœknum: Jœ, yfer sijna Fiandmeñ og Ofsooknara, so ad marger af Kieñemoñunum hlijdnudust Trwñe, seiger Lucas, Act. 6. Þegar um̃komulauser Fiskemeñ rœku wt Dioflana, læknudu Siwkdooma, opeñberudu leynda Hlute sem eingeñ Maña kuñe ad vita, so sem Ananiæ og Zaphiræ Dæme vitna, Act. 5. Og þetta skiede allt i hañs Nafne sem hiner œdur hofdu kvaled, hwdstrykt og œ Gœlgañ uppheingt mille tveggia Spillvirkia. Med ollum þessum guddoomlegum Furdu-Verkum sannfærde nu H. Ande Verolldena i þœ Daga. Þvi eg fer til Fodursins, seiger Herrañ. Þetta hid sama brwkade H. Ande fyrer Muñ Peturs til ad sannfæra þad um̃ Christi Riettlæte er heyrdu œ Tal hanns, Act. 2. er hann vitnar af Spœdoome Davids Konungs um̃ Upprisu og Uppstigning Drotteñs Jesu, seigande: Ecke er David uppfareñ i Himeneñ, er hañ seiger siœlfur: Drotteñ sagde mijnum Drottne, sit þu mier til hægre Handar, þar til eg legg Ovine þijna til Skarar Foota þier. Vite þvi allt Jsraels Hws fyrer vijst, ad Gud hefur giort hann ad Christe og Herra þeña sama Jesum er þier krossfestud; Og ad þesse sie Meiningeñ i Ordum Drotteñs, vottar þad sem hier epterfylger: Og Epter Þad Siœed Þier Mig Ecke. Ad sonnu sœu hañ Læresveinarner epter hañs Upprisu, enn ecke med somu Asijnd og œdur, ecke i Pioons Mynd, helldur so sem einn Sigurvegara, ecke so sem þeir sœu hañ i Grasgardenum bundeñ og fiotradañ, helldur Englunum lijkañ, þar hañ gieck iñ ad luktum Dyrum til þeirra, Joh. 20. Ecke so sem eina Bolvan œ Krosseñ uppheingdañ, Deut. 21. helldr uppriseñ af daudum, ad Daudañs Pijnu uppleistre. Allt þetta vottade hañs Riettlæte og Sakleyse, þvi þad var omogulegt, so sem Petur sagde, ad hann kyñe af Daudanum halldeñ ad verda, Act. 2. Eñ allra hellst meinar Drotteñ hier sijna Himnafor, ad þeir mundu hañ ecke siœ wr þvi, ad hañ giordest fyrer þeim osijnelegur, og Skijed took hann burt frœ þeirra Augum, Act. 1. Og er nu af þessu ollu Riettlæte Drotteñs sañbevijsad fyrer Vitnisburd H. Anda, sem fœm Dogum þar epter kom yfer Postulana med sijnelegum Guds Krapte, so ad þeir Tungur toludu, Diofla wtrœku, logdu Hendur yfer siwka og þeim batnade, sogdu fyrer ovordna Hlute, so sem hañ œdur fyrer sagde og seiger berlega hier i Gudspiallenu m. þessum Ordum: Nær Ed Sœ Sannleiksins Andeñ Kiemur, Þœ Mun Hann Kieña Ydur Allañ Sannleik, Þvi Hañ Talar Ecke Af Siœlfum Sier, Helldur Hvad Hañ Heyrde, Þad Talar Hañ, Og Hvad Epterkomande Er, Þad Kuñgiorer Hann Ydur, Hann Same Mun Og Vegsama Mig, Þvi Af Mijnu Mun Hañ Þad Taka Og Kuñgiora Ydur. Hvad sijnest ydur Br. M. Er ecke þvilijkt ad sannfæra Heimeñ um̃ Riettlæte Drotteñs Jesu? Og af þessu Jesu Christi allra helgasta Riettlæte hœnger vort Riettlæte, og meina þad oss tilreiknad verdur, þvi þad er raunar hanns Riettlæte, og þar fyrer

heyr-

heyrer oss og so til þetta Embætte H. Anda eige sijdr enn þeim sem lifdu aa Postulaña Dogum: Og byriar oss hier fyrst ad athuga þau Ord er hann talade til Læresveinaña, skom̃u sijdar, Joh. 16. Innañ lijtels Tijma muuud þier ecke siaa mig, og aptur iñañ lijtels Tijma munud þier siaa mig aptur, þvi eg fer til Fodursins. Af hveriium Ordum þad audsært er, ad Drotteñ kallar sijna Pijnu, siun Dauda, sijna Greptran og Upprisu i þessum Stad, sijna Burtfor til Fodursins, aasamt Himnaforenne.

Nu er þad ollum Moñum auglioost, ad Riettlæte syndugs Manns er i þvi foolged, ad Christur er fyrer oss daaeñ, uppriseñ og til Himna fareñ: Þvi seiger og Paall, ad hañ sie daaeñ fyrer vorar Synder, og uppriseñ oss til Riettlætis, Rom. 4. Eñ forsiefens være hañ daaeñ og upprisen, være hañ ecke til Himna fareñ og setstur til Kraptens hægre Handar til ad bidia fyrer oss, hvadañ hañ og hefr sendt oss siñ Anda saa ed Trwna i oss verkar, fyrer hveria Madureñ alleina verdur riettlaatur fyrer Gude, Rom. 3. Allt þetta kieñer hañ best siaalfur med saam Ordum, Luc. 24. Er hañ sagde vid Læresveinana under sijna Himna-For: So er þad skrifad og so byriade Christo ad lijda og upprijsa af daudum aa þridia Deige, og predika laata i sijnu Nafne Ydrau og Syndaña Fyrergiefning hiaa ollum Þioodum, og kiemur þesse Partur Embættes H. Anda miog vel samañ vid hiñ fyrra, þviad i Þeckingu Syndareñar er Ydraneñ foolgeñ, enn Riettlæted i Fyrergiefningu Syndaña, og þvi vil eg taka mier hin gledelegu St. Paals Ord i Muñ um̃ þetta Efne, er hañ seiger, Rom. 8. Hver vill aasaka Guds wtvallda? Gud er saa sem riettlæter, hver er saa ed fordæme? Christur er saa sm̃ daaeñ er, jaa, eñ framar uppriseñ, hver eiñig er aa hægre Hond Gude, saa eiñig er Medalgaangare fyrer oss. Sie þvi mitt Riettlæte ecke betra enn nidlags Fat, Esa. 64. Guds heilagur Ande hefur sañfært Heimeñ, sannfært Logmaaled, sañfært Dioful eñ, jaa, sañfært mijna aangraada og sturlada Samvitsku, sem klagar mig um̃ Fiollda minna Synda daglega, hann hefr sannfært þau seige eg um̃ Jesu Christi Riettlæte, sem vorded er mitt, þvi hañ er Jehova vort Riettlæte, Jer. 23. og bæde mier og ollum stoor Syndurum af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Hafe Adam forþienad med hinne fyrstu Synd ad verda wtrekeñ wr Paradijs med sijnu Raanglæte, hafe hañ lokad heñe aptur epter sier og ollu sijnu Afkvæme: Hafe eg hañs syndugur Nidie fylgt honum epter i Raanglætenu, so þar er eckert nema fordæmañlegt i mier, þad eg hefe af hinum fyrra Adam medteked, hvern Lucas kallar Guds Son, Luc. 3. Eñ giorde bæde sig og mig og allt sitt Hyske ad Diofulsins Bornum fyrer Yfertrodsluna, þaa sañfærer þo Guds goodur Ande mig um̃ þad, ad hiñ eilijfe Guds Son, hiñ aññar Adam, sem er Drotteñ af Himne, 1. Cor. 15. Hver ad hefur Davids Lykil, og upplijkur so eingeñ kañ aptur ad laata, Apoc. 3. Hañ hefur bæde mier og ollum þeim upploked Rijke Himnaña, sm̃ med Angre sijns Hiarta skrijda ad Footum hañs og seigia: Fader, eg hefe syndgast i Himeneñ og fyrer þier, eg em ei verdur ad kallast þiñ Sonar, gior mig so sem eiñ af þijnum Leigu-Moñum, Luc. 15. Hverier eru mijner Ovin-

er? Hvar eru mijner Aklagendur? Pad er Logmaaled, pad er Heimurenn, pad er Diofullenn, pad er mijn eigenn Samvitska, eg ottast paa ecke, þegar Drottenn er mier naadugur fyrer mijns Endurlausnara Riettlæte. Peir eru Bodlar Guds nær hann er reidur, enn þeim sm i Jesu Christo er vid hann sattur og kvittur, gieta þier eckert Mein unned, ecke Logmaaled, þvi hann er komenn Logmaaled upp ad fylla, Matth. 5. Ecke Heimurenn, þvi hann seigist hafa Heimenn sigrad, Joh. 15. Ecke Diofullenn, þviad Hofdinge þessa Heims er dæmdur, Joh. 14. Ecke mijn Samvitska, þvi Johannes seiger: Ef ydar Hiarta fordæmer ydur, þaa er þo Gud meire ydar Hiarta, 1. Joh. 3. Og Petur seiger umm Skijrnena ad hun sie Sattmaale goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Þo eg hafe hann yfertroded, þaa veit eg þo ad hanns Blood er wtrunned i Skijrnar-Saeenn, sem mig overdugann Præl hefur elskad meir enn sialfann sig. Jesus er bæde Gud og Madur, Guds Eingietenn Sonur og þo Davids Sonur, Matth. 1. Þar sie eg Gud hefur straffad aa Gude mijnar Synder, og þann Mann og minn Broodur epter Holldenu, i hverium ad bijr oll Fylling Guddoomsins lijkhamlega, Col. 2. Hefur hann ad afrekadre minne Endurlausn sett sier til hægre Handar: Þar fyrer gietur hann ecke straffad hanns Riettlæte aa mier, hvers Rangläte hann straffade aa honum, þegar hann giordest Bolvan fyrer mijnar Synder, Gal. 3. sem eilijfa Bolvan forþienad hefe.

Gud hefur alldrei unned meira Frægdar-Verk, helldur enn þaa hann leyste oss synduga Orma wr eilijfu Banne. Odrum sinnum hefr hann matt ad skipta vid þad sem eckert var, so sem þegar hann giorde Himen og Jord af eingu Efne, Gen. 1. Edur vid Skiepnur sijnar, so sem þegar hann liet Soolena standa kyrra, Jos. 10. Klauf Hafed i sundur, Exod. 14. Sende Plaagur yfer Egyptaland, og annad þvilijkt: Enn i vorre Endurlausn matte hann ad bijta vid sialfann sig og sitt Riettlæte, hveriu eige maa raska, þvi er eg þess fullvruggur, ad hann lætr ecke soddann Stoorvirke til onijtes verda aa þeim sem treysta aa Forþienustu hanns eingietens Sonar þo ad synduger sieu, þviad synduga og ecke riettlaata er hann komenn ad kalla til Ydranar, Matth. 9. Hvad skulum vier þaa hier til seigia, seiger Paall, Rom. 6. Skulum vier dvelia i Syndunum, so ad Naadenn yfergnæfe? Fiærre sie þvi. Drottenn seiger hier i Gudspiallenu, ad heilagur Andemune sannfæra Heimenn umm Doomenn, af þvi ad Hofdinge þessa Heims sie dæmdur. Hver ad sie þesse Hofdinge, er audvitad, þad er, Satan, hver hinn same kallast Diofla Hofdinge, Matth. 12. Enn þar fyrer kallast hann so, ad Heimurenn liggur i hinu vonda, 1 Joh. 5. Enn hann er alls ills Hofundur, honum þioonar mikell Herskare i Heimenum, allra hellst Manneskiann mz adskilianlegum Syndum og Glæpum, so ad hann er megtugr i Bornum Vantrwarennar seiger Paall, Eph. 2. Pad er i Heimsins Bornum, hann er dæmdr, Tonn fyrer Tonn, Auga fyrer Auga seiger Logmaaled, Lev. 24. Satan var oll Orsok i þvi ad Christr var deyddur, kvalenn, hwdstryktur, og matte Helvijtis Pijsler þola, er Syndenn hafde tilunned; Þar fyrer er hann dæmdur til Myrkranna Hleckia eilijflega i Helvijte, 2. Pet. 2. Hann er dæmdur, þad er sigradur og wtrekenn,

so seiger Drottenn hiä Joh. 12. under sijna Pijnu. Nu er Doomur Heimsins, nu mun Hofdinge þessa Heims verda wtsnaradur. Pad er alkuunugt hversu ad Satan drottnade i Verolldenne ädur eñ Jesus kom i Heimeñ, jä, ädur eñ hañ sigrade Diosulenn ä Krossenum, hversu ad oll Lond voru full af hinne verstu Afgudadyrdkan, og siälfre Guds Pioonustu ä medal Israels Barna hafde hñ so spillt, ad þegar hañ sim̃ Logmälled hafde wtgiefed kom i Heimeñ, hñ þeckte ecke Guds Logmäl hiä sijnu Foolke, þar fyrer klagar hañ, Marc 7. Seigande epter Esaja: Þeir dyrka mig forgiefens er þeir kieña þañ Lærdoom sem er Maña-Setningar, þvi þier gänged fram̃ hiä Guds Bodordum, og hallded Maña-Setningar; Þvott Bikara og Kiera, og margt añad þvilijkt giored þier. Eñ þegar Guds Ande var wthelltur yfir allt Holld, so sem Joel hafde fyrer späd, Cap. 2. Þa urdu hier ä snogg Um̃skipte, so sm̃ Lucas skrifar i Postulaña Giorningum, Cap. 2. So hefr nu Drotteñ Jesus wtrekid Diofuleñ wr sijnu Rijke mz Guds Fijngre, Luc. 11. Sem er H. Ande, vordeñ siälfr Hofud alls Hofdingiadæmis, og hefur flett hinn sterka Hervopnada ollum sijnum Herklædum ä hver hañ treyste, Matth. 12. So Diofulleñ hefur siälfur naudugur bored Vitne um̃ hañs Almætte og Guddooms-Krapt, þvi lijste hañ medal añara af Muñe Stulkuñar sm̃ rañ epter þeim Päle og hañs Forunautum i marga Daga, og hroopade: Þesser Menn eru Pioonar Guds hiñs hædsta, sem boda ydur Veg Velferdareñar, Act. 16. Þanneg ät Diofullenn siälfur ofañ i sig allar Gudlastaner siña Verkfæra. Og þegar þeir flettu hiñ H. og riettläta sijnum Klædum, og heingdu hañ nakeñ uppä Tried, þä hefur hann undereins afklædt Hofdingia-Dæmeñ og Magtar-Vollden, og þau opeñberlega til Skodunar fram̃leidt, Col. 2. Hroosande Sigre yfir þeim ä Krossenum. Og um̃ þennann Doom, sem nu þañig er yfir Dioflenum geingeñ, sañfærde Guds H: Ande Heimenn, ecke einasta þa ogudlegu sem mättu þreifa ä slijku, helldur og alla þa sem hañ um̃snere til Hlijdnes Christo og giorde honum Pioonustu-bundna, og þad sama verkar hañ eñ nu i Dag i Guds H. Orde, þegar þad er hreint og klärt, og med Alvoru nockurre og Rokseme kieñt og predikad, þvi jafnvel þoott ad Diofulleñ sie bundeñ, þa lætur hañ þo ecke af ad skioota sijnum Orvum ä Guds Her. Þar fyrer christner Meñ, fyrst ad vor Konungur hefur so mikeñ Sigur uñed ä Dioflenum, og so vegsamlegañ Doom yfir honum feinged, þä lätum oss ecke þä Skom̃ henda, ad vier yfirgiefum Hertoga Lijfsins, eñ gaungum i Sid med Fiandanum aptur, edur þioonum honum fram̃veigis i Syndeñe og ogudlegu Athæfe ä moote Samvitskuñe; Verum miñuger þess Eids er vier soorum hinum lifanda Gude i Skijrnenne, ad vier jätudum honum og ollum hañs Stoormerkium, eñ afneytudum Fiandanum og ollum hañs Svikum og Vielum. Ecke hefur Guds Sonur þenna dijra Sigur uñed fyrer siälfann sig; Þeirrar häleitu Guddoomsins Þreñingar oraskañlega Riettlæte var fullnægt fyrer hiña fyrstu Synd Diofulsins, þegar hañ var wtsnaradur af Himne. Gud took Riett sinn af honum fyrer siälfañ sig i eilijfum Kvolum, fyrer oss synduga Orma og Guds Ovine er þesse-

fræge Sigur uñeñ; Sijnu Lijfe sinne bitru Kvol og Dauda hefur hin eilijfa Giædska til þess kostad ad faa Herleidinguna ad Herfaange teked, Eph. 4. Og oss Sigureñ giefed, med þessu dijrmæta Lausnar-Gialld e hefur hañ oss heilagañ Anda afrekad, til ad kieña oss ad þeckia Syndena, ad þeckia hid saña Riettlæte sem er af Trwñe, og til ad endurnyia vor Hugskot, so ad vier gietum, ef villium, Gude þioonad.

Verum þvi eige so oþaacklater edur sialfum oss vonder, ad vier slockvum H. Anda, 1. Tess. 5. Med vijsvitande Glæpum og Illgiordum i giegn vorum Frelsara, sem oss hefur so dijru Verde keypta, og þar hañ hefur wthellt honum i vor Hiortu fyrst i Skijrneñe, sijdañ daglega naalægt i sijnu H. Orde, ef vier forsmaaum þad ecke, þaa seigum ecke ad þad sie oss omogulegt Gude ad þocknast, 1. Cor. 3. Þvi hañ kañ alla Hlute framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla, Þar sem hañ fiñur goodañ Vilia. Þad er Slægd Diofulsins, ad hañ breiter vid oss eins og þeir sem Moyses giorde fraa sier iñ i Canaans Land, þeir sogdu illa af Landenu, Num. 13. So breiter og Satan, hvar sem hañ hefur vaned Hollded aa sijnar Kræsingar, þad eru Skaḿer og Lester, ad hañ kallar þad omogulegt Gude ad þocknast, þar hañ sie eiñ straangur Herra, sem ad uppskiere þar hañ ecke saade, Luc. 19. Þad lijgur þu Satan, þvi fyrer utañ þad ad allt hvad vier giorum er ecke utañ Haalfverk sem Postuleñ vottar, 1. Cor. 13. Og verdur þad so af Gude þeiged; Þaa styrker Andeñ vorn Vanmaatt seiger Paulus, Rom. 8. Og hañ bregdst alldrei þessum sem bidia um hañs Adstod, og allt hvad vier giorum gott, ef so maa nockurt heita, af þvi vier giorum, þad er hañs Verk i oss, hañ verkar þad ad Guds Bodord eru eige þwng, 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þviad Elska Guds er wthellt i vorum Hiortum fyrer H. Anda sem oss er giefeñ, Rom. 5. Hañ giorer Christi Ok sætt, og hañs Byrde lietta, Matth. 11. Hvar fyrer? Þviad Elskann til Jesum yfirviñur alla Hlute, og þad er eins og St. Paall seiger: Eg formaa alla Hlute fyrer hann sem mig maattugañ giorer Christum, Phil. 4. J christelegu Lijferne er miklu meire Glede og Unadsemd, jafnvel i þessum Heime, helldur enn i allskyns fullsælu Veralldareñar; Eñ ef vier eige til þessa fiñum, þaa velldur þad þvi, ad Vane Syndareñar er allt ofrijkur i oss vordeñ; Reynum til fyrst og tokum til ad beriast kallmannlega, siaaum til hvert vier ei fiñum Adstod H. Anda, og þegar vier fyrer Guds Naad hofum yfirwñed, hvad aan alls Efa skiedur, ef vier leggium nockurn Hug aa vort Maal, þaa munum vier ecke vilia uḿskipta þoott allur Heimureñ i Bode være, og kalla Strijded lijtilsverdt hiaa þeirre Glede er vier fiñum i Vinaattu Guds, og i goodre Samvitsku, eñ þad maa eige undañdraga christeñ Madur. Tef ecke ad suwa uḿ til Drotteñs, seiger hinn gamle Syrach. 5. Cap. Og skioot þvi ecke aa Frest Dag fraa Deige. Giorum oss vidskila ogudlega Verolld þessa og heñar Athæfe, strax sem Andeñ kallar til vor af Opennberingar Bookenne, seigande: Gaanged wt af henne mitt Foolk, ad þier verded ecke hluttakande i hennar Syndum, og medtaked af hennar Plaagum, Apoc. 18. Og þetta lætur Gud aa hverium helgum Deige klijngia fyrer vorum Eyrum. Þegar Loth forde

utan

um Daga tafde ad gaanga wt af Sodoma, þaa took Engelleñ i Hond honum, og dro hañ haalfveigis naudugañ wt þadañ, so ad hañ ecke tijndist i Baalinu med odrum, Gen. 19. O! hversu opt tekur hinn naaduge Gud i Hond vora med Krossenum, med Epterdaamunum, med hinum straungu Lögmaalsins Hootunum, og dregur oss nauduga wt af vondre Verölldu þessare, ad vier ecke fyrerforunst med heñe. Loth beidde Leifes ad hann mætte bwa i Zoar, sem var naalæg Sodoma, Gen. 19. Enn hañ tafde þar ecke leinge, hefur og ecke þorad sökum þess hrædelega Straffs, er kom yfer hinar Borgernar. Gior slijkt hid sama Barn Guds, þegar þu ert einusinne fyrer Guds Naad wtgeingeñ fraa Heimenum, sem er riett ein Sodoma, þaa stadnæmst ecke i Naagreñenu, þad er, kappkosta ad deyda aldeilis hinar fornu Syrnder; rek wt Ambaattena, Gal. 4. Þad er syndumspillta Naatturu med Syne hennar, vondum Vana, ad so miklu leite sem þier er mögulegt. Drep hiñ gamla Mañeñ, so ad Christur meige i þier lifa, añars er hætt vid, ad þoott Zoar sie lijtil, þaa kuñe hun ad verda ad Sodoma fyrer Naagreñis saker, og þig meige aptur laanga til Kiöt-Katlanna i Egyptalande. Og hefi eg nu so talad um þetta þrefallda Embætte H. Anda, hvad eg hygg Guds Orde samhlioodanda vera, og under þvi er falinn allur vor Christenndoomur, sem er i fyrstu ad þeckia Syndena til ad ydrast. Jesu Christi fullkomna Riettlæte til þess ad trwa ad oss verde hun fyrergiefinn. Og Doom Andskotans til þess ad afneita honum og öllu hanns Athæfi, og haanger þetta so hvert af ödru, ad eckert maa añars missa, ef vor Christeñdoomur aa fullkomenn ad vera. Enn þu vor Gud, sem rijkur ert af Naad, kienn þu oss ad þeckia Synder vorar, og ad ydrast þeirra af öllu Hiarta, og nær þu reisir oss aa Fætur aptur wr voru Dupte og Ösku, med Trwnne aa þinn eingietenn Son, þaa gior oss hinar fyrre Synder so leidar, ad vier stuggum vid þeim so sem annare Ofeckt, enn kienn oss ad lifa sparsamlega, gudrækelega og riettferduglega i Heime þessum, ad vier mættum ostraffannleiger finnast i Tilkomu Jesu Christi vors Frelsara, og af honum innleidder verda i hid fagnadarsæla Lambsins Brwdkaup.

Gief oss þar til þinn H. Anda naaduge Fader, fyrer þann sama þinn eingietenn Son Jesum Christum, Amen.

# Fimta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

OG Jesus sagde til sinna Læresveina: Sannlega, sannlega seige eg ydur, hvers þier bidied Födureñ i mijnu Nafne, þad mun hann giefa ydur. Hijngad til hafe þier einskis beded i mijnu Nafne; bidied, þaa munud þier medtaka, so ad ydar Fögnudur sie fullkomlegur. Þetta hefi eg talad i Ordskvidum til ydar, sa Tijme kiemur, ad eg tala eige leingur i Ordskvidum til

ydar

ydar helldur mun eg kuñgiora ydur opeñberlega af mijnum Fodur. A þeim Deige munu þier og bidia i mijnu Nafni. Og eige seige eg ydur, ad eg mune bidia Fodureñ fyrer ydur, þviad siælfur Fadereñ elskar ydur, af þvi þier elskid mig, og trwid þad, ad eg sie af Gudi wtgeingiñ. Eg em af Fodurnum wtgeingeñ, og komeñ i þeñañ Heim. Eg fyrerlæt og aptur þeñañ Heim, og fer til Fodursins. Og hañs Læresveinar seigia þa til hañs: Siaa, nu talar þu berlega, og mæler einga Ordskvidu. Nu vitum vier, ad þu veitst alla Hluti, og þu þarft eigi ad nockur spyrie þig. Fyrir þad trwum vier, ad þu siert af Gude wtgeingeñ.

## Exordium.

DROTTENN Gud þinn er einn fortærande Elldur, sagde Moyses fordum Daga vid Israels Sonu, Devt. 4. Kvijda mætte einn aumur Syndare fyrer, sem eckert annad giorer enn ad forþiena Daudann, ad koma fram̃ fyrer so dijrdarfullann, so ognarlegann Gud, hvers Reide ad brennur yfir þeim sem hañ hatar, allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Hvernig mun eitt Hæálm-Straa, ein Vatns-Boola kunna ad bwa vid soddann fortærande Elld, þo skulum vier fram̃ fyrer hann koma, þvi hver vill dyliast fyrer hanns Auglite? Nu þo ad þad vitannlegt sie, ad vorar Synder adskilie millum vors Guds og vor, Esa. 59. þaa hroopade þo Fader Myskunsemdanna: Komed til mijn aller þier sem Erfided og Þwnga erud þiader, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Hvar fyrer þo ad Gud sie einn fortærande Elldur, sem Paulus ad Orde kiemst, Hebr. 12. Þaa meigum vier jaata þad um̃ oss satt ad vera er hann skrifar Gydingum til i sama Brefi og sama Cap. Þier erud komner til Fiallsins Zion, og Borgar Guds lifanda Jerusalem hinnar himnesku, og til margra Þusunda Englanna, af hveriu vier siaaum hvad miked oss er veitt i Christo Jesu Drottne vorum, ad vier sem fiærre vorum, hverra Fedur ad voru aan Guds i Heiminum, Eph. 2. Vier erum fyrer hann ordner Guds Heima-Menn, og vor Borgar-Riettur er aa Himnum, so sem Paall seiger, Phil. 3. Enn med hveriu Moote faaum vier þaa saurugar Manneskiur hellst nærre komed þessum Guddoomsins Dijrdar-Liooma sem ad bijr i þvi Lioose sem eingenn fær til komest, 1. Tim. 6. Þad skiedur i hanns H. Orde og Sacramentunum, enn ecke sijdst i einne audmiwkre christens Manns Bæn, þar hinn vesæle talar vid hinn vollduga, hinn lijflause vid Doomarann, Þrællenn vid Herrann, einn syndugur Ormur vid Himens og Jardar Skapara, so sem þa Madur vid Mann talar, og einn Vinur vid annann, Exod. 33. Hvar eiñ harmþrwngenn og sundurkrameñ Ande þreinger sier i gieginum Skijenn med oum̃rædelegum Andvorpunum fram̃ fyrer Guds Tignar-Stool i Himnenum, og verdur af honum bænheyrdur, so ad Himmarijke lijdur Ofrijke, Matth 11. Og til þessa Samtals bijdur oss nu hier i Dag Engell hinns mikla Raads, þar hann seiger hier i Gudspiallenu :

allenu: Sannlega Seige Eg Ydur, Hvers Þier Bidied Fodurenn J Mijnu Nafne, Þad Mun Hann Giefa Ydur. Enn hier er nockur Vande æ, Br. M. sem er, ad vier høgum so Bænenne, ad vier sieum visser um̃ Bænheyrsluna, og fiñum til hennar, (þvi hañs Fyrerheit bregdast alldrei). Og þvi vil eg nu tala nockud þar um̃ æ þessu Stundarkorne, hvernig Bænenne eige hættad ad vera, og er sierdeils i þvi tvennt ad athuga, sem er, 1. Ad hun sie heit og alvarleg. 2. Ad hun framkome af trwudu Hiarta. Enn hann sem alla Hlute kann framar ad veita, enn eg kann fyrer ad mæla, hann styrke oss hier til med Nææd sijns Anda, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Þegar vier villium offra Gude Bænum vorum og Þackargiordum, þæ hugleidum fyrst allra, hversu skielfileg Hætign þad er, sem vier komum fyrir, sem er Konungur Konungañа og Drotteñ Drottnañа, 1. Tim. 6. Sæ ad er allrar Veralldareñar Doomare, Gen. 18. Og i hvers Augum ad Himnañа Himnar eru ecke hreinir, Job. 15. So længt er fræ þvi, ad nockurt saurugt meige nærre honum koma, þegar hañ reidur er, enn vier erum aller so sem fæ ohreine, seiger Esaias, 64. Cap. og jafnvel vort Riettlæte er so sem nidlags Fat. Hvad hellst sem ad snerter þetta Fiall, þad skal Dauda deya, þar skal eingeñ Hond snerta þad, añars skal þad grijtast edur i Hel skoted verda, hvert helldur þad er Madur edur Kvikinde, sagde Drottenn fordum vid Moysen, under þad hañ wtgaf sitt H. Logmæl æ Fiallenu Synai, Exod. 14. So hrædelegt, so ognarlegt er hañs Tignarvellde þegar hann vill þad sijna. Nu villium vier seigia ad hañ sie blijdkadur fyrer Sonarens Forþienustu sem satt er, eñ þess er ad gæta B. M. ad þeim einum mun hañ blijdlega taka, sem fyrer Christi Blood framkoma, enn þeim einum mun Christi Blood og hañs Forþienusta þar til gagna, sem heñar leita med ængrædu og sundurknosudu Hiarta. Læt þier þvi til Hugar koma syndugur Madur, þegar þu fellur fram̃ fyrer Gud i þijnum Bænastad, hvilijkur Hæski þad sie ad koma nærre þessum breñande Ellde, nema þu ædur so tilreiddur siert, ad þu fæer hann slocktann med Tæarum þijns Hiarta. Þegar þu hefur nu ihugad hvilijkur ad Gud sie, og hversu reidur syndsamlegu Athæfi, þæ athuga hvilijkur ad ert sialfur þu, Mold og Aska so sem Abraham sagde, Gen. 18. Gietinn og fæddur i Syndinne, Ps. 51. Og af Nætturunne til Reidennar Barn, Eph. 2. Ad sønnu endurfæddur i Skijrninni fyrer Christi Blood og Guds Vinur kalladur. Enn hversu opt hefur þu nu rofed þiñ Skijrnar Sættmæla, og eckeloked þijn Sære hinum allra hædsta? Þu hefur vered bweñ til ad giora allt þad sem hañ hefur bañad, og nærsta tregur til ad fram̃kvæma þad hañ boded hefur, og hafi Guds Nææd verkad nockud gott med þier, þæ hefur þad þo af þiñi Hende vered ofullkomed, og gietur eingañ Veigeñ stadest i hañs Auglite sem er fullkomiñ og heilagur, so længt er fræ þvi ad þad meige sambiooda þvi illa sem þu giort hefur, edur afplæna þad, þvi þu giorder þo eckert añad eñ þad þu ætter ad giora, Luc. 17. Og er þo vel ef þad so er, þegar þu hefur hvad bestur vered, eñ reikna nu upp med sialfum þier

allt Ydiuleyse i Guds Vijngarde, alla Hiegooma Þanka, oll Onytiu Ord fyrer utañ Stoor-Glæpena: Ogudlegañ Verknad, Ord og Hugsaner, og þoott ad Guds-Reide og hañs Doomur sie enn nu ecke felldur yfer þijnar vidurstyggelegar og klækiafullar Athafner, þa er hann ecke þier lijkur þo hann siae þad og þeige, Ps. 50. Helldur er þad annadhvert ad hann med Þolennmæde sinne vill draga þig til Ydrunar, Rom. 2. Ellegar og ad hann lætur þig vaxa til Kornskieru-Tijmans, þar til þu aasamt hinu Illgresenu verdur upphoggveñ og i Elld kastadur, Matth. 13. til ad giallda honum þar, med eilijfum Pijslum, þad sem þu ecke villder lwka honum hier i Naadeñe med Angre þijns Hiarta, og Aflaate vondra Verka aa medañ þar sagdest enn þaa i Dag, Ebr. 3. Ber nu allt þetta samañ vid hanns guddoomlega Haatign, nær þu villt bidiast fyrer, hversu hann er volldugur enn þu vesæll, hann heilagur, enn þu allur i Synd, hann hreinn enn þu hefur saurugar Varer: Og þegar þu þetta giorer med Athygle nockurre, þaa er lijklegt ad þier mune helldur enn ecke renna i Skap vid sialfañ þig, ad þu syndugr Ormur hefr so moodgad hann aa hvers Foot-Skør þu liggur, og Valld hefur til ad spyrna þier med Lijfe og Saalu ofañ i eilijfañ Elld, Matth. 10. Og framar þessu, þaa hugleid hanns Giædsku vid þig framkomna, þviad þu ottest alleina hanns Makt og Vellde, þad er Þræls Otte eiñ, er jafnvel Dioflarner hafa og skielfast þar af, Jac. 2. Enn þo hann sie ecke onijtur Mannenum sem alltijd aa apturkvæmt til Guds, ef hañ ydrast og er i þvi ollu betur vared eñ Dioflunum, þaa er hañ þo ecke einhlijtur til Saaluhiaalpar, þvi Meñ eiga ecke einungis ad ottast Gud, helldur ad elska hañ einig, og kiemur Otteñ hellst af Ihugan hanns Maattar og Riettlætis, enn Elskañ af Tilfiñingu hanns Giædsku. Vilier þu þvi audmykia þig fyrer honum wt af Hiarta i Bæneñe, þaa laat þier i Hug koma, hvilijkur þu varst þegar þier var kastad iñ i Heimeñ so sem odru Hræe, i andlegañ Maata daudum i Uppruna Syndeñe, og hvernig hañ hefur þig med Vatne og Anda endurgieted i Skijrneñe, Joh. 3. til eiñrar lifande Vonar, 1. Pet. 1. og giort þar vid þig Saattmaala goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Eg vil eige faa mier þad til Orda hversu ad hañ goodur er, og ad hañs Myskunseme varer eilijflega, Ps. 118. Og ecke einasta fæder allar lifande Skiepnur, Ps. 145. Helldur og Mañeñ, hver ed af sialfum sier til er hinn allra verste og oþacklaataste af ollum Guds Handaverkum sem hañ er yfer skipadur. Og þo ad vier allt þetta heimtum af honum, so sem med Sialfs-Skylldu, og moglum þegar nockud kañ ad bresta, þa miñest hañ ecke aa vorar Illgiorder, ecke aa þaa Glæpena sem ad hañs eingieteñ Son kvaled hafa, helldur aa sijna miklu Myskunseme sem vered hefur i fraa Upphafe, Ps. 25. Og aalijtur Forþienustu Sonarens, hveria Syndareñ þo marg opt forsmaaer, og svipter oss ecke i burtu midt i voru Ogudlegu Athæfe, til þess ad hañ faae dreiged oss til Ydranar, jaa, sparar margañ þann sem hefde forþienad ad eiga Saalu Fielag med Core Dathan og Abiram, hveria Jorden svalg i sig lifande, Num. 16. Af þvi þeir forsmaadu hañs Bodord. Laat þessa Omñrædelega Giædsku þijns Skapara smellta þitt Hiarta, nær þu kiemr fram fyrer hañ

ad bidia þier Fridar af honum er þu so stoorkostlega hefur til Reide reitt, og daglega moodgar, og hallt þad fyrer viist, ad þu muner erendeslaus fara, um̃ hvad hellst sem þu bidur, nema þu fyrst af Alvoru bidier um̃ Kvittun Syndanna, þvi hier um̃ maa eg segia þad sem hañ sagde er blindur var boreñ og Jesus læknade, Joh. 9. Eg veit ad Gud bænheyrer ecke synduga, og meinte hañ þar med Heidingia og ogudlega Menn. Eñ hvad skulum vier seigia? Þar er eingeñ christeñ so heilagur, ad hann sie ecke Heidingum verre, nema hann þigge Kvittun Syndaña af Gude med sañre Ydran, þvi hañ veit Veigeñ til Lijfsins og geingur hañ ecke, Luc. 12. Drotteñ hafde þann Formaala fyrer þeim hæalfvisna er þaade Heilbrygde Lijkhamans af honum: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Eñ miklu sijdur meigum vier odlast Lækning Saalareñar nema vorar Synder verde i burtu teknar. Og þessar Hugreñingar ættu nu ad bleita vor Hiortu fyrer Gude, þegar vier offrum honum vorum Bænum, so ad ecke hende oss þad sem David bidur hinum ogudlega, Ps. 109. Ad hañs Bæn verde ad Synd, hvad þo can Esa skiedur, nær vorar Bæner eru ecke nema Flapur Muñsins, og ecke af Root Hiartans. Eg vil eige um̃ þad tala hvada Þorf ad Syndareñ hefur aa ad bidia Gud. Vitum vier ecke ad allar vorar Lijfs og Saalar Heiller þær hannga alleina af hañs Myskunseme? Hvad er Madureñ? Ein Vatns-Boola, ein Gusa er sjest um̃ stundarsaker og hiadnar sijdañ, Jac. 4. Eñ hve miklum Hææska er þesse Vatns-Boola, þesse Reikur underorpeñ? Þar er ecke so vesæl Skiepna i Heimenum, ad eige kuñe hun ad viña oss Mein, nema Gud sæe fyrer Raade voru: Ein Mijfluga kann ad taka af oss Lijfed: Þad vier etum og dreckum kañ ad saalga oss ef til vill, enn hvad vilium vier þaa tala um̃ hina megtugu Ovine Saalna vorra, Diofuleñ sem er Þusund Viela Smidur, Heimeñ sem er hañs Erendes-Reke, og vort eiged Holld, hvers Gyrnder ad i moote Saaluñe strijda, 1. Pet. 2. Hvernig kuñum vier þessum ad veriast nema med Bæneñe? Vier siaaum þad aa hinum bænarlausu, hveria Gud hefur yfergiefed i fraaleitt Sinne, og einskis svijfast ad giora Gude aa moote, sleppande Taumnum vid Andskotañ, Heimeñ og sitt eiged Holld, leifande þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Þar til þeir munu um̃ sijder af þvi Skadsemd, jaa, eilijfa Fyrerdæming uppskiera, Gal. 6. Og þvi munde Endurlausnareñ leggia so rijkt aa vid sijna Læresveina um̃ þeña Hlut, hefde hañ eige vitad ad þeir mættu ecke þess aan vera ad bidia. Vaked og bidied so ad þier falled ecke i Freistne, Matth. 26. Og aptur, vaked og bidied þvi þier vited ecke nær Tijmeñ er, Marc. 13. Nu kann einhver ad þeinkia, eg giet ecke ydrast Syndanna, og ecke rækelega eda heitt beded, nema Gud giefe mier þad, og verd eg þad af honum med Bæn ad þiggia i fyrstu, eñ þaa er eg syndugur kalldur og hardur og i allañ Maata illa skickadur til ad bidia Gud, allt kañ þetta satt ad vera, eñ seig mier, christeñ Madur, gietur þu ydrast þess er þu tilgiorer Moñunum? Vijst gietur þu, þad siaa Meñ jafnvel aa morgum Skaalk, ad hañ ydrast epter þegar hñ er bweñ ad fremia Glæpeñ, þvi skyllder þu þa ecke laata þig aangra þad þu hefst Gude aa moote brotid, ef þu neitser

er einhvern Tijma ad hyxa um̃ Fram̃ferde þitt og Guds Riettlæte. Gietur Stoorbrota-Madurenn beded Konungenn um̃ Lijf sitt? Edur sꜳ hwngrade um̃ Mat? Þad gieta bꜳder þeir, og þad af Alvꜹru, jafnvel med grꜳtande Tꜳrum, hvad mun þvi vallda, ad þu gietur ecke bedid hiñ almꜳttuga Gud þañig? Þad gꜳtu þo Heidingiar, þeir tꜳruduſt fyrer ſijnum Afgudum þegar Hwngur edur Drepſoott þryſte þeim þar til, ſo ad Livius ſkrifar, ad jafnvel þeirra Hofdings-Kviñur haf: ſoopad Góda-Hofiñ med ſijnum Hꜳr-Lockum, med vidlijkre Atferd, þoott olyku ſie ſamañ ad jafna, ſo ſem þegar hin berſynduga kraup ad Jeſu Footum, og þvode þær med Tꜳrum ſijnum, og þerrade þær med Hꜳr-Lockunum, Luc. 7. Nu er oſs chriſtnum Moñum i ſlijku ꜹllu betur vared, þar vier hꜹfum medteked heilagañ Anda i Skijrneñe, ſo ad eg þꜹre ad ſeigia, ad þar er eingeñ til Vits og Ara komenn, hvers Hiarta ad Guds Ande hafi ecke einhvern Tijma, jꜳ, optlega ſnert og ſkored med Þeckingu Syndaña og ſijns eigeñ Overdugleika, enn hvad velldur þvi ad hier er ecke meira af vorded hiꜳ ſumum? Þad ad vier hyrdum ecke um̃ ad fooſtra Andañ med Bænenne, miklu helldur ſlꜹckvum hann med ogudlegum Þaunkum, ſo hann fær ecke Rwm i oſs þeirra Hluta vegna ſem honum eru ſo gagnſtæder, og hann hefur Andſtygd ꜳ, Agyrnd, Oſund, Heipt, Hatur, Loſte, Drambſeme, Elſkañ til þeſſa fallvallta Heims, og þvilijker Gieſter ſem hann vill ecke eiga Samſæte med, enn vier hꜹfum einga Vidleitne ꜳ ad rijma wt wr Hiarta voru, hvad þo mꜹrgum Heidingia hefur tekeſt ad miklu leite, ecke var Hundrads Hofdingeñ um̃ſkoreñ ſo Menn vite, og þo verkade Gud Audmyktena og Trwna i hanns Hiarta, jꜳ, þvilijka Trw ſem ad Hꜹfundur Trwarennar hafde ecke funded i Iſrael; Enn hvern Vitnisburd hafde þeſſe Madur af Olldungum Gydinga? Þad ſeiger oſs Lucas, Cap. 7. Verdur er hann þeſs (ſꜹgdu þeir) ad þu veiter hoñum þad þvi hann elſkar Þiood vora, og hefur vora Samkundu uppbygt: Ecke var Cornelius ſkijrdur þegar hanns Bæner og Olmuſugiꜹrder ſtigu upp fyrer Gud, Act. 10.

Siꜳ hier hverſu reidubwañ ad Gud er til ad hiꜳlpa goodum Vilia: Lꜳt vera ad þijn Bæn ſie kꜹlld i fyrſtuñe, meinar þu ecke ad Gud þecke ad Mannſins Þꜳnkar eru vonder i frꜳ Barndoome, Gen. 8. Eñ lꜳt hañ ſiña Viliañ hiꜳ þier, ſijn honum ad þu hafer Aſtundan til ad bidia, og vert þeſs fullvꜹruggur ad hañ mune hiꜳlpa þier med Nꜳd ſijns Anda. Heidenn var hin Canaaniſka, Matth. 15. Samt þreitte hun med Bæneñe vid Jeſum, eige hefur hun teked þad af ſiꜳlfre ſier, enn þad Ord ſtendur ſtꜹdugt ſeiger Poſtuleñ, 2. Tim. 2. Gud þecker ſijna, hann þeckte Hiartans Gyrnd heñar og Epterlꜳngan, og þvi hefur hañ hiꜳlpad heñe til ad ſtrijda vid ſig; Orvænt þier ecke ſlijkrar Myſkunar af honum, þar þu ert hañs Barn vordeñ og Chriſto iñplantadur i Skijrneñe. Þu ſeiger, eg villde giarnañ af Alvꜹru beded gieta. Seig mier, hefur þu beded Gud um̃ ad hiꜳlpa þier til ad bidia? Þu ſeiger jꜳ, eg hefe beded, eñ eg mꜳ ſpyria, hvad opt? Hvad marga Daga? Vikur? Mꜳnude? Ar? Edur hverſu opt ꜳ Deige hefur þu beded? Hefur þu þreitt vid Gud med Bæneñe? Hefur þu koſtad

til

til þeſs øllum Saalar og Lijfs Kroptum ad bidia? Vera maa ad ſo ſie, eñ eige trwe eg þviad þu ſiert þa ecke bænheyrdur, og fiñer þu ecke til þeſs, þaa er ad vijſu nockurs aaboota vant, af þvi ſm̃ þu aatt til ad leggia, þviad ef hiñ ranglaate Doomare ſem Jeſus tekur Dæme af hiaa Lucam Cap. 18. Ef hañ liet þo ſigraſt af Eckiuñar Bæn til ad giora heñe Riett, þaa gior þu ecke Fødur Myſkunſemdaña, 2. Cor. 1. Þañ Oriett, þad þu ætlar ad hañ ſie hardwdugre eñ þeſſe gudlauſe Madur var. Minn Tijme er enn þaa ecke komeñ, eñ ydar Tijme er jafnañ til reidu, ſagde Lauſnareñ, Joh. 7. Madureñ er nøckud gruñſær til þeſs ad ſkignaſt i Underdiwp Guds Leindar-Raads, edur ad þeckia Tijma og Hentugleika ſem Fadereñ hefur i ſinne Hende, Act. 1. Þu ſeiger, Drottenn bañade ſijnum Læreſveinum ad bidia mørgum Ordum eins og Heidingiar, Matth. 6. Þad giørde hañ bleſſadur til ad vorkyña þier og mier, þvi hañ viſſe ad Hiarta Mañſins er fraaſnwed Gude, eñ fwſt aa Hiegoomañ. Eñ ecke nttis þocknaſt honum ſaangar Bænir, þær ſem af trwudu Hiarta framkoma, þeſs vegna var hann og ſiaalfur allar Nætur aa Bænum, Luc. 6. Þar fyrer ſeiger og Lucas 18. Cap. Ad hañ hafe framſett þeſſa Eptirlijking um̃ Doomarañ til þeſs, ad þeim byriade ydugleg a ad bidia og ecke toomlaatum ad vera. Eg ſeige ecke helldur, ad þu ſkuler ſo miøg leinge i einu bidia, þvi Jllſka mañlegs Hiarta þoler þad ecke, eñ bid þa þeſs optar, og heitir þad ſamt yduglega ad bidia. Þu ſeiger; Eg fæ eige vid þvi giort ad mier fliwga i Hug marger añarleger Þaankar nær eg bid, þad er illt; Bid Gud ad taka ſlijkt fraa þier, ad ecke verde þijn Bæn ad Synd, þvi ſoddañ er ad vanhelga hina beſtu Guds Þioonuſtu. Eñ ſeig mier; Þegar þu lijdur Hwngur og Þorſta, edur hefur Breſt aa lijkhamlegum Munum, gietur þu þa ecke bedid ſo ad þu ecke um̃ añad hugſer? Ad vijſu gietur þu, eñ trw þu mier, ad hid ſama munde verda ef þu lieter þig hwngra og þyrſta epter Riettlætenu, Matth. 5. Hvad þu munt brAadlega ødlaſt, ef þu af Hiarta rañſakar hverſu ſtoorañ Skort þu hafir aa þeirre Drooſan, ſem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Og hver ſem ad þeſſum Veikleika er underworpeñ, honum vil eg raada til ad bidia helldur optar eñ leinge i einu, þvi nockud af ſlijku kañ ad orſakaſt af Skapsmunum, ſem ecke er ſo hægt vid ad giora, jafnvel, þo Guds Kraptur kuñe alla Hlute ad verka i þeirra Breyſkleika ſem hann af Hiarta ottaſt, og eingeñ Efe er aa þvi, ad ſaa ſem elſkar Gud um̃fram̃ alla Hlute, hañ hefur Ynde af þvi ad tala vid hañ i ſijnum Bænum, og þarf ecke ſtoorum ad þvijnga Natturuna þar til, þegar hañ hefur fyrſt eignaſt Elſkuna aa Gude, og hañ kañ alldrei ad vanta Orſøk til ad bidia Gud, Elſkañ miñer hañ aa ſierhvern Guds Velgiørning til Þacklætis, aa ſiñ eigeñ Vanmatt til ad bidia um̃ Hiaalp, aa ſijnar Synder til ad ydraſt þeirra, og aa Guds Daaſemdarverk honum til Lofgiørdar, ſo ad þo ecke hafe hann laangar Bænagiørder, ſem og kañſkie eige leiſe ſumra Maña Um̃ſvif og Añrijke, jafnvel þo eitt ætte ad vera naudſynlegt, Luc. 10. Þaa ſamt bidur hañ oaflaatañlega, og er þolugur i Bænenne epter Bode Poſtulans, Rom. 12. Hver þegar hann iklæder riett-trwadann Mañ Guds Herſkrwda, Eph. 6. Þaa giefur hañ honum þeſſa Yfirhøfn, ad

Endingu, seigande: med allre Bœn og Fyrerbeidslu, bidiande a hverium Tijma i Anda, og verande aarvakrer til þess sama med ollu Þolgiæde. Og er nu so wt-talad um þad fyrra er eg hiet a ad minast. Enn þad sijdara epterfylger med faam Ordum af ad seigia.

Ecke þyrfte riett-christenn Madur anad til þess ad taka fra Saalu sinne allan Efa um Bœnheyrsluna, helldur en þesse blessud Ord er vor Endurlausnare hier talade til sina Lærsveina: Hvers Þier Bidied Fodurenn J Mijnu Nafne, Þad Mun Hann Veita Ydur: En fyrer þvi ad Jesus talade þetta til sina Astvina, hverium hann gaf þann Vitnisburd, ad Faderenn elskade þa af þvi þeir elskudu sig, Joh. 16. Þa kynne Syndaranum, sem daglega reiter Gud til Reide, ad fliwga i Hug, ad þetta blessada Fyrerheit nææ ecke til sijn, þviad hann sie þess overdugur; Enn eg mun framveigis sijna, ad þad ollum þeim tilheyrer er hans leita med aangraadu Hiarta, ollum þeim ek han bidia i Anda og Sanleika, Joh. 4. Ollum þeim sem eru stadfaster i Bœnenne, Rom. 12. So sem eg nockud umtalade i hinum fyrra Parte Rædu minar. Þad kienner Jesus sialfur oss, er han sagde i Bœnenne til sijns himneska Fodur fyrer Lærsveinunum: Eg bid ecke einasta fyrer þeim, helldur og fyrer þeim sem fyrer þeirra Ord munu a mig trwa, Joh. 17. Guds Sonur kom ecke i Heimenn til þess ad kalla riettlaata, helldur synduga til Yydrunar, Matth. 9. Þvi vill hann allar ydrande Manneskiur bænheyra, og hvad meira er, ad þar er meire Glede i Himnenum yfir einum Syndara sem Ydran giorer, helldur en yfir niju og nijutijgu riettlaatum, Luc. 15. Ecke homludu Syndernar Hoor-Konunne sem Judar villdu grijtt hafa, ad fa þeirra Kvittun hia Gude, Syne fordum, er han sagde vid hana; So fordæme eg þig eige, far burt og syndga eige framar, Joh. 8. Ecke bægdu Syndernar Tollheimtumannenum fra ad gaanga riettlaatare heim aptur i sitt Hws, helldur enn Pharisæenn, Luc. 18. Ecke leit Jesus til Synda hina annara Tollheimtumannana og bersyndugra, ad hann ecke þar fyrer æte og drycke med þeim, Matth. 9. Hvar fyrer? Af þvi þeir ydrudust Syndanna. So er þad nu vijst, ad Syndenn gietur ecke hindrad Bœnheyrsluna, þegar hun er jaatud fyrer Ydranena, og afþveigenn fyrer Forþienustuna, þvi þad Ord bliifur æfenlega stodugt: Hvern þann sem til mijn kiemur, vil eg ecke fra mier reka, Joh. 6. Nu þott ad þessu sie so vared, Br. M. Þa eigum vier ad giæta ad, hvar um vier bidium, ef vier viljum ad Trwenn sie bygd a hinum rietta Grundvelle, og ad vier ecke bidium af Gude þeirra Hluta sem anadhvert i sialfum sier eru oleifeleiger edur oss skadleger, so ad vier ecke reyngium Sannsogle Guds, þott vier ecke bænheyrder verdum, nær vier þannig bidium. Þad sem vier eigum um ad bidia, er anadhvert lijkhamlegt edur andlegt. Um lijkamlega Hlute eigum vier med Fororde ad bidia, so sem vier optlega heyrt hofum, þad ber-til þess, ad vier ecke vitum hvers vier eigum ad bidia, vier meigum og ecke alls þess bidia af lijkhamlegum Hlutum sem Hollded edur Lijkhamenn heimtar; Riett er ad bidia um Heilsu og Heilbrygde, Fot og Fæde, Vernd og Vardveitslu fyrer lijkhamleg-

um

um Ovinum vorum, Luckú og Framgang i voru Erfide, Þviad allt þetta æ ad skiliast under daglegu Braude i drottennlegre Bæn, enn um̃ allt þetta æ med Fororde ad bidia, þvi jafnvel þo ad ecke sie þad lagt til hiñar fioordu Bænareñar, þæ stendur þar þo strax fyrer framañ: Verde þiñ Vilie so æ Jordu sem æ Himne, so ad ef hinum gooda Gude sem veit hvad oss er fyrer bestu, ef honum þocknast ad vier skulum hafa nockurn Brest æ þessu, æ Heilsunne, æ daglegre Atvinnu, ef vier hliootum Oriett ad lijda og vera forsvarslauser i Heimenum, þæ eigum vier samt eingvañveigeñ ad efast um̃ Guds Trwfeste, þvi hañ hefur æn Efa heyrt vorar Bæner, þar eckert hender oss an hañs Vilia, og komande mun hañ koma og ecke tefia, Hab. 2. Og þetta æ ad vera Grundvollur Trwar vorrar þegar æ moote blæs, þvi ef vier vilium i þvi bænheyrder verda, ad hanns Vilie verde æ oss so sem i ollu odru, þæ eigum vier ecke ad vantreysta þvi ad vier sieum bænheyrder þo oss nockud vante, og þad þess sijdur ad værum vier an Typtunar, hverrar aller eru hluttakande vordner so sem Paulus seiger, Heb. 12. (hañ meinar Guds Viner) þæ hefdum vier Orsok til ad efast um̃ hvert vier værum af honum elskader edur eige, þvi hvern þann Son sem hann elskar þañ agar hañ. Paulus seiger enn aptur, ad vier værum aumaster allra Manna, ef vier trijdum alleina æ Christum i þessu Lijfe, 1. Cor. 15. Eñ eg vil þvi vid bæta, ad vier værum og allra Mañа heimskaster, ef vier elskudum Gud alleina fyrer þessa Heims Velgeingne, eins og hann hafe ecke þusund siñum betra tilbwed þeim sem hañ elska, 1. Cor. 2. Þar er ecke nema Svikræde æ þeim Hædunum, sagde Jeremias vid Juda, Cap. 3. Talande um̃ Skwrgoda Hoseñ, og so er þvi vared um̃ Velgeingne þessara Tijma, þegar hun geingur sem hædst, þæ er hun æ stundum eige nema Svik og Pretter, hveria þo margur Dære giorer ad sijnum Gude, edur ad miñsta koste, þeir sem gudhrædder þykiast vera, elska hiñ saña Gud, alleina fyrer þæ Hlute sm̃ hañ jafnvel giefur Ovinum sijnum, og verda þeim Orsok til eilijfrar Glotunar sem þad misbrwka, þar fyrer ottast eg, ad þeir sem alleina elska Gud fyrer slijka Hlute, ad þeir elske hañ ecke riettelega, jafnvel þo hann eige fyrer allar sijnar Gæfur ad elska, eg veit og hverge i Ritninguñe boded, ad Meñ skule bidia um̃ mikeñ Veralldar-Aud, edur Metord, og allra sijst um̃ Fall edur Slis Ovina siña, er margur heiptrækur virder þo meir enn stoora Fiesioodu, jæ, kostar ollu þvi hañ æ til ad svala Giede sijnu æ þeim hann hatar. Miklu helldur sie eg ad Gude fiell vel i Gied Bæn Salomonis, er hañ beidde hañ um̃ Speke til ad dæma Foolked med. So veit eg nu hverke leyst nie boded i Guds Orde, ad bidia um̃ þvilijkt, og ecke er þad i hliñe stuttu, eñ þo fullkomnu Bæn sem Drotteñ hefur oss epterlæted: Gief Oss i Dag Vort Daglegt Braud, þad er hañs Atkvæde, hvad Paulus best wtleggur, 1. Tim. 6. Nær vier hofum Fæde og Klæde, þæ verum ænægder þar med. Miklu helldr sie eg hitt boded, ad Meñ eige skule vera hugsiwker um̃ hvad þeir skule eta edur drecka, edur hveriu vier skulum klædast, þviad vor himneskur Fader veit ad vier hofum alls þessa Þorf, Matth. 6. Jæ, ad vier skulum leita fyrst Guds Rijkis og hañs Riettlætis, þæ mune

oss

oss allt gott til-leggiast, þvi eigum vier ad trwa, þvi Gud kan ecke ad liwga, og gyrnast eige framar, vilie Gud veita oss meira, þa tokum þad med Þacklæte, og brwkum so ad vier sieum rijker i goodum Verkum epter Postulans Bode, 1. Tim.6. Og sa sem nu bidur Gud um tijmanlega Mune, han hafe þetta fyrer Grunndvoll Trwar sinnar, og þeinke under eins til þess er Jacob skrifar; Þier gyrnest og þier hafed þo ecke, þier ofunded og metted, og megned þo ecke ad hreppa, þier strijded og beriest, og hafed þo ecke, af þvi þier bidied ecke, þier bidied, og fæed þo ecke, af þvi þier bidied illa, til þess ad þier hafed til ad kosta uppa ydvarn Munad, Jac.4. Hvad hinum andlegu Gaafunum vidvijkur, Trwne, Voneñe, Þoleñmædeñe, Kiærleikanum og odrum goodum Dygdum sem þar af spretta, þa eigum vier þeirra ad bidia aan Forords; Hvar fyrer? Þviad þar af ma allan Efa draga, ad þær eru Gude þacknæmelegar, þad er Vilie Guds ydar Helgan, seiger Paulus, 1.Tess.4. Enn vor Helgun gietur ecke framkvæmst nema fyrer H. Anda, þar fyrer, hver sem vill heilaglega og christelega lifa, hann bidie Gud af ollu Hiarta um sin Anda, og trwe Ordum Frelsarans aan allrar Efasemde, er han sagde: Ef ad þier sem vonder erud, kuñed ad giefa Bornum ydar goodar Gaafur, þvi mun ecke Fader min himneskur giefa þeim heilagan Anda er han þar um bidia, Luc.11. Hier um talar so Jacob Postule, Cap.1. Enn ef nockur af ydur þarf Skynsemdar vid, þa bidie han Gud, hver ed giefur ollum eiulæglega, og telur ecke epter, og mun honum giefed verda; Enn bidie hann i Trwnne, efande um eckert. Hver er þesse Skynsemeer Jacob talar hier um? Þad er a þeim Hlutum er han framan til i sama Cap. eggiar christna Meñ a, seigande medal añara, v.2. Hallded þad forer hinn mesta Fognud Brædur mijner, þegar þier falled i adskiliañlegar Freistingar, og þo hann meine hier sierdeilis wtvortis Mootlætingar, þa verdur þo Guds Bornum hid mesta Mootlæte ad þeirra eigeñ Hollds og Bloods Freistingum og Tilteigingum; Eñ gudhoomlega Speke H. Anda skal til þess hafa ad yfervina slijkt, og til ad skynia hvilijkt Gagn ad Freistingeñ epter sig leider, nær hun er sigrud, enn þa Skynsemeer ecke ad fiña hia holldlegum Mañe, þvi han skyniar ecke þad sem Guds Anda er seiger Paulus, 1.Cor.2. Og eige verdur hun feingeñ nema med Bæn af Gude, og er þad nu aan alls Efa vijst, ad sa sem bidur Gud um H. Anda þar til, hann gietur ecke hia þvi sneidt ad verda bænheyrdur, þvi han sem þvi lofad hefur, er Jehova, Mal.3. og umbreitest ecke, og eckert hans Ord mun a Jordu falla. Hvad velldur þa þvi Br.M. ad þar finst Skortur hia allmorgum a slijkum Astgiofum Andans? Hvar er hin forna Trw? Elskan til Guds, Kiærleikeñ, Þoleñmædeñ og adrar christelegar Dygder? Menn verda so lijtt varer vid þær i Heimenum, so ad hætt er vid, ad Mannsins Sonur mune eige finna Trw a Jordu, Luc.18. nær hann kiemur, hvad af hveriu. Enn hvad nu þvi vallda B.G.? Neima ad Menn eru so almeñelega toomlæter i þvi ad bidia Gud um hin heilaga Anda, sa ed plante þesse himnesku Aldine i Akre vors Hiarta.

So sem þad ad Gudhrædslan (þad er hin sañe Christeñdoomur) er ein Hlutur sem er

er til allra Hluta nytſamlegur, 1. Tim. 4. So verdur hun ecke feingeñ nema med riett-trwadre Bæn af Gude. Þetta Dioſla-Kyn verdur ecke wtreked nema med Foſtum og Bænum ſagde Drottenn, Matth. 17. um̄ Mein hins Tunglſiwka, hvern hanns Læreſveinar gatu ecke læknad, ſokum Vantrwar ſinnar, v. 20. Og ſo er þvi hattad um̄ Þvermoodſkunnar Dioful, er ſynduger Menn eru plagader med, hann verdur ecke wtrekenn nema med Bæn og Andvarpan. Þu læſt vel bidia Gud, enn hve mikil Alvara þvi fylge, er af Bænheyrſluñe audſied, þvi ecke eru Guds Fyrerheit onijt ordenn ſeiger Pall. Phariſæarner villdu hafa grijtt Herrañ er hañ ſagde þeim Sañleikañ, Joh. 8. Enn hverſu opt ſeiger hann þier ſatt i ſijnu H. Orde um̄ ſijna Reide, ſitt Riettlæte, ſitt Vandlæte yfir Syndeñe, og aptur um̄ ſijna Giædſku, ſijna Elſku og Myſkunſeme vid þa ſem Yoran giora; ſia til ad þu ecke grijter Chriſt Drottenn er þu tekur a moote ollu þeſſu med einu Stein-Hiarta, edur hvernig villt þu bænheyrdur verda ef þu ſo giorer? Hvad velldur þeſſu? nema ad Meñ rañſaka ecke Lifnad ſiñ, ſo þeir meige ydraſt, ecke rootfeſta Guds Ord i Hiarta ſijnu ſo þeir meige trwa, og ecke kappvaſt vid ad lifa þar epter ſo Meñ fære Avoxt i Þolennmæde, og þo undraſt Menn ad þeir ecke bænheyrder verda, Jeſus kom til hinnar Samariſku fordum Daga vid Jacobs Brunn, og beidde hana um̄ ad drecka, Joh. 4. Hann kiemur enn nu til Saalar þinnar i Dag, hann þyrſter epter hennar Velferd, og gyrneſt ad dryckiaſt af Taarum þijns Hiarta, ſo hann meige giefa þier lifande Vatn ad þig eige þyrſte eilijflega. Bid Moyſen ad vellta Steinenum af Brunnenum med Hende Logmalſins, og mun Hofuded verda bradlega fullt af Vatne, og þig langa epter Drottne ſem er þinna Meina Græbare, þvi betra er þier ad Ormur Samvitſkunnar ſtijnge Saalu þijna hier i Nadenne, ſo hun vakne vid og ſiae lited uppa hann ſem fyrermyndadur var i Eyrormenum er Moyſes heingde uppa Tried þeim til Lækningar, ſem af Eitur-Ormunum bitner voru, Num. 21. Helldur eñ ad hiñ eilijfi Ormur kvelie þig ſa ed alldrei deyr, og ſa Elldureñ þijne þig ſem alldrei ſlocknar um̄ Allder Allda, Eſa. 66. Giœt þeſſa Barn Guds og hreinſa Hiarta þitt af daudlegum Verkum med ſañre Yoran, ef þu villt bænheyrdur verda, þvi nema þu leiteſt hier vid af ollu Hiarta, þa hefr þu eckert Fyrerheit um̄ Bænheyrſluna i andlegum Efnum, ſiñ þu kuñer ad ſtyrkia Trw þijna vid, verdur ſo Bæneñ ſorgiefins; þvi an Trwarennar er omogulegt Gude ad þockuaſt, Ebr. 11. Og hier ſiaum vier Orſokena hvar fyrer Meñ ecke um̄ andlega Hlute bænheyrder verda, þar fyrer nær þu kiemur i Guds Hws, edur hvern añañ Bæna-Stad, til ad færa Gude þitt Offur, þa ſia til ad þu flytier eigi þangad m: þier nockurt þad ſm̄ Gudi miſlijkar; Syndlaus gietur þu eige framkomed, og þad er þar fyrer ad þu kiemur til Guds, ad þu ert ſyndugur, enn laat eckert Groom Illſkunnar drottna i þijnu Hiarta, rannſaka þau innſtu Fylſne þiñar Samvitſku, hvert þar er eingeñ Gyrnd, eingeñ ſyndſamlegur Aſetningur, og einginn ſa Gieſtur ſem H. Ande ecke vilie bwa vid, og fiñir þu nockurn, þa rek Dioſuleñ fra þier med Reide-Svip, ſo ad þu Guds Vinur verdir. Og nær þu

so giorer, maatt þu vera fulltrwa um̃ Ord Drottens, er hañ sagde, Matth. 21. Hvad hellst sem þier um̃bidied, ef þier trwed, þaa skulud þier þad odlast, og er þad Maala sam̃ast, Br. M. ad þetta eru ecke lijtel Fyrerheit ad hafa soddañ Frelse hiaa honum sem ollum Hlutum stioornar bæde aa Himne og Jordu. Enn so sem þad er miked, so skal og miked til þess viña, Himeneñ er hærre eñ so, ad þar sie so audstocked upp i hañ, Guds Jerusalem er rambyggdare eñ so og heñar Port þreingre eñ ad eiñ Veralldar Asne, klyfiadur af Gyrndum og Sorgum þessa Heims giete brotest þar iñ, og þvi er þad oska Raad er Syrach giefur, Cap. 18. seigande: Adur eñ þu bidst fyrer, þaa tilbw þitt Hugskot ad ecke, siert þu eins og saa Madur sem freistar Drottens, og þad med þvi moote sem nu strax sagde eg, þvi so sem Gud giefur einlæglega, so vill hañ og bedeñ vera af einlægu Hiarta. Edur seigied mier i Guds Nafne, seigied mier; Hvad er þad ad Meñ bidia Gud ad taka fraa sier hinar vondu Gyrnder? Ofund, Drambseme, Agyrne, Reide, Heiptrækne, eñ bera kañskie Hiartad fullt fram̃ fyrer hañ af ollu þessu, þad er ad gabba Gud og riett ad freista Drottens, so sem Syrach seiger: Alldrei hefur Gud heitid þvilijku Skape neiñre Bænheyrslu, þar er ecke vid ad dyliast. Paulus skipar oss ad bidiast fyrer i ollum Stodum, upphefiande heilagar Hendur aan Reide og Efasemd, 1. Tim. 2. Postuleñ fraaskilur þad tvent sem hañ visse ad mest hindrar Bænena: Sem er Reidena og Vantrwna, og er sialfsagt um̃ Reidena, þvi þad er vor gamall Skilmaale vid Gud, siñ aa hverium Deige endurnijast, ad Gud fyrergiefe oss vorar Skullder, eins og vier fyrergiefum vorum Skulldunautum, og vil eg raada hinum hefnegijrnuga, ad hañ alldrei lese Drotteñlega Bæn aa medañ hañ er þañig skape fareñ, þvi eingeñ af ollum hañs Bænum mun verda heyrd; nema sw eina, og hañs Synder med soddañ moote ecke ad eilijfu fyrergiefnar. Vier bidium Gud fyrer allañ þañ Oriett sem hanns eingieteñ Sonur saklaus þolde, ad hañ ecke vilie miñast vors Raanglætis, eñ vier laatum oss alldrei wr Miñe falla þad Lijtilræde sem vor Brooder oss tilgiorde. Er ecke þetta ad heimta af sijnum Samlags-Þioon, þad sem miklu miña er eñ Drotteñ hafde oss uppgiefed, Matth. 18. Hvilijkt Raanglæte er þetta? Þvi er einsætt fyrer þann sem vill þiggia Bæn sijna af Gude, ad hreinsa vel Hiarta sitt af slijku, þvi ef vier eigum ad bidia fyrer Ovinum vorum, Matth. 5. under eins og vier bidium fyrer sialfum oss, ef vier vilium kallast Born vors Fodur sem aa Himnum er, þaa er lijkast ad vier munum ecke eiga ad ala Hatur til þeirra i Hiarta vorn, og er þeim best sem hætt er vid slijku, ad hañ snwe þessu Hatre aa sialfañ sig og Metnad siñ, þad hañ syndugur Ormur dyrfest ad koma fram̃ fyrer hid hrædelega Tignarvellde hiñs lifanda Guds med þvilijku Skape; Ad soñu er Efasemeñ til mikillrar Hindrunar i Bæneñe, enn þo er lijklegt, ad hinn goode Gud vorkyñe heñe meir og hiaalpe heñe, sierdeilis ef hun fram̃kiemur af Hugleidingu vors Overdugleika, þvi honum er vor Vanmaattur kunnur. Ecke rak Drotteñ fraa sier Fodur hiñs tunglsiwka, er sagde: Eg trwe Herra, enn hiaalpa þu Vantrwinne, Marc. 9. Ecke Læresveinana er þeir badu: Auk þu oss Trwna, Luc. 17.

ecke Konungs-Mannen þo hann ávijtade hann um̃ Vantrwna, Joh. 4. Ein veik Trw, hun er þo Trw; enn hann vill ecke brꝍkadan̄ Reyr i ſundurbriota, nie lijttlogande Hor-Kveik wtſlöckva, Eſa. 42. So heyred nu þetta Br. M. og lꝍted ydur Mꝍl mitt i Eyrum loda. Enn þu, fyrer hvern ad allar vorar Bꝍner eru jꝍ og Amen, Herra Jeſu Chriſte, bid þu þinn himneſka Fodur fyrer oſs, ad vor Trwa þrotne ecke, Luc. 22. Og veit oſs epter afſtꝍdna Barꝍttu þeſſa Heims, ad odlaſt Verdlaun vorrar Trwar, 1. Pet. 1. Þier med Fodurnum og H. Anda ſie Lof, Prijs, Heidur og Packargiord, nu hiedan̄ i frꝍ og um̃ alla Eilijfd, Amen.

# A Uppſtigningar Dag.

Gudſpialled, Marc. 16. Cap.

ENN ſeinaſt er þeir ellefu ſꝍtu til Bords, openberade hañ ſig, og avijtade þeirra Vantrw, og Hiartans Hardwd, þad þeir hefdu eige trwad þeim, ſem hañ hofdu ſied uppriſeñ. Og hañ ſagde til þeirra: Fared wt um̃ allan̄ Heimen̄, og prediked Evangelium allre Skiepnu. Hver hañ trwer og verdur ſkijrdur, ſkal hoolpeñ verda. Eñ hver eige trwer, ſꝍ ſkal fordꝍmdur verda. Eñ Teiknen̄ er þeim munu fylgia er trwa, eru þeſſe. J mijnu Nafne ſkulu þeir Dioſla wtreka, nijar Tungur tala, Heggorma upptaka; Og ef þeir drecka nockud banvꝍnlegt, þꝍ ſkal þad þeim ecke granda, yfer ſiwka munu þeir Hendur leggia, og þꝍ mun þeim batna. Og epter þad, ad Drotteñ Jeſus hafde talad vid þꝍ, vard hañ uppnumeñ til Himiens, og ſitur til Guds hꝍgre Handar. Eñ þeir geingu wt, og predikudu allſtadar, Drottne ſamverkanda, og Orded ſtyrkianda, med epterfylgiande Teiknum.

## Exordium.

HAd er riettvijſt hiꝍ Drottne ſeiger Paulus, 2. Teſſ. 1. Ad endurgiallda Þvijngunena þeim ſem ydur þvijnga, enn ydur ſem þvijngader erud Endurnꝍring medur oſs i Openberan Drottenns vors Jeſu Chriſti af Himnum med hañs megtugum Englum. Eñ ef þad er riettvijſt hiꝍ Gude ad endurgiallda oſs þannig ſem þo til einkis uñed hofum nema fyrer hanns Forþienuſtu ſem hefur erfidad i vorum Syndum, Eſa. 43. Hverſu var þad þꝍ maklegt og riettvijſt, ad Chriſtur inngeinge i ſijna Dijrd epter þad hañ hafde lided þad ſem vier med vorum Syndum hofdum forþienad? Ef þier elſkudud mig, þꝍ mundud þier glediaſt af þvi ad eg ſeige ydur þad eg fer til Fodurſins, ſeiger Drotteñ, Joh. 14. Vier hofum heyrt, Br. M. ꝍ fyrerfarande Hꝍtijdum og helgum Dogum, hverſu Drotteñ var i Fꝍtꝍkt alenn, Luc. 2.

Ad hann var landflootta fyrer Ofrijke Herodis, Matth. 2. Ad hann var lastadur þa hann gott giorde, Matth. 12. Offsooktur þa hann talade Sannleikañ, Joh. 8. Hvernig hann var bundeñ, hwdstrijktur, Þyrnum krijndur, hrakeñ wt af Jerusalem, berande sinn Kross, og ad sijdustu a Gaalgañ uppfestur so sem annar Illrædis Madur, og midt i þessum bitru Pijslum hæddur, og med Galle og Edike dryckiadur, og oll þesse Hegning la a honum til þess ad vier hefdum Frideñ, Esa. 53. O Hversu byriade oss þa ad fagna og glodum advera! Þar vier heyrum i Dag, ad hann er inngeingenn i sijna Dijrd, vordeñ Himnum ædre, og setstur a hægra Veg Gude Fodur, sierdeilis þar hann ecke einasta er i Hæderinar uppstijgeñ, Ps. 68. helldur og Gaafur odlast handa Monnunum, Eph. 4. Hvers vier hofum noted, yfer hveria lijklegt er ad Heims Endereñ sie komeñ, 1. Cor. 10. Hverium hann ecke sijdur enn nockrum odrum hefur bwed Braut til Himnarijkis og eilijfrar Guds Barna Sælu med sinne Himnafor. Og þar oss verdur nu slijkur Fognudur bodadur a þessare dijrdlegu Hatijd, þa laatum oss gaanga nær Evangelio, og af þvi hugleida hina sierlegustu Velgiorninga og Avexte Drottens Uppstigningar. Hiaalpa oss til þessa Gudhrædslunar Eyrendis naaduge Fader med Krapte þijns Anda, fyrer Jesum Christum, A M E N.

## Utleggingen.

ÞEsser dijrmætu Avexter Uppstigningareñar vors Drottens, eru med tvennu moote. Adrer koma mest honum vid, enn adrer oss alleina. Hvad vidvijkur þeim fyrre, þa er þad ecke mijn Meining ad Drotteñ Jesus hafe sialfum sier nockud forþienad med siñe Kvøl og aññare Pijning hier a Jorduñe, oss er hañ fæddur, oss er hañ giefeñ seiger Esajas, Cap. 9. Fyrer oss er hann bundeñ, hwdstrijktur og a Krossen negldur, hañs Eyrende a Jardrijke var ecke ad afreka sialfum sier nockurt Agiæte, þvi hañ kuñe ecke agiætare ad verda eñ hañ var i Upphafe siña Vega, helldur ad leysa Mannkyned wr eilijfum Prældoome. Þa Vegsemd er hann auglijste i sinne dijrdarfullu Himnafør, hana meddeilde hañ Mañdoomenum strax sem hañ var gieteñ i Moodur-Lijfe, þo hañ sijnde hana miog sialldañ a sijnum Hiervistar-Dogum, so hañ yrde oss ad ollu samlijkur, ad fratekeñe Syndeñe. Þvi er hañ þa med Dijrd og Heidre coronadur? Ebr. 2. Þvi þad var omogulegt ad hañ kyñe af Daudanum halldeñ ad vera, Act. 2. Þegar Gud blessadur um Allder hafde afloked hinu stoora Þrekvirke Mañkynsins Endurlausnar i voru Hollde, þa var allt fullkomnad; þa þocknadest Gude ad upphefia vort Holld er hañs Son iklæddest a siñ Tignar-Stool sier til hægre Handar. Hverier eru þa Avexter þesser er Christur epter Mañdoomenum hefr odlast i siñe Himnafor? Þad seiger oss Marcus i Gudspiallenu: Ad hañ hafe vered Uppnumeñ til Himens og sitie til Guds hægre Handar. Þetta er ei so ad skilia Born mijn, ad Drotteñ sie uppfareñ i þeña sijnelega Himen er vier lijtum med Augum vorum, iafnvel þo hañ epter alvijsre Raadstofun Guds sijnelega uppnumeñ være fra Jorduñe allt þar til Skijed took hañ fra Augum Læresveinaña, Act. 1. Vor Lausnare er uppfareñ yfer

alla

alla Himna, sem Paulus skrifar, Eph. 4. Þad er i þañ dijrdlega Himen, hvar Guds dumrædeleg Hætign lioomar, hverja eingeñ Madur kañ ad siaa og lifa, Exod. 33. Þvi er hann ecke i þenna sijnelega Himen uppstijgeñ, hann er uppfareñ i þann Himen hvar hañ uppfyller alla Hlute sem Paulus vottar, Eph. 4. Enn aller Hluter eru ecke i himum sijnelega Himne, þvi skulum vier ecke meina ad hañ sie vid hañ bundeñ, jafnvel þo hann uppfylle hañ so sem allt annad. Hann er setstur til Guds hægre Handar sem hier stendur. Nu er Guds hægre Hønd allstadar, þvi þad er hañs Dijrd og hañs Almætte, þad er hañ sialfur, sem ecke er nema Mattur og Dijrd; Enn Himnaña Himnar taka hañ ecke so sem Salomon vottar, 1. Reg. 8. Nu fyrst Drotteñ Jesus er upphafeñ til Guds hægre Handar, þaa er hañ ecke so i þeña sijnelega Himen uppfareñ, ad hañ ecke under eins sie allstadar, i þañ Himen hvar Gud bioo adur eñ Himeneñ var skapadur, þangad er Christur upphafeñ, hverneñ kañ hañ þaa ad vera iñelucktur i þeim skapada Himne; i þañ Himen hvar Gud mun um Alldur og Eilijfd stioorna, rada og skijna, þegar hiner skøpudu Himnar forganga, og hañ hefr þa eins og añad Fat samañbroted, Heb. 1. J þañ sama Himen er Guds Sonur uppstijgeñ, þvi er þad of smatt ad hugsa um þa Tign sem Gud hefr siñ eingieteñ Son prijddañ mz, ad ætla ad hiñ skapade Himen sie alleina hañs Hasæte. Vier skulum og ecke þad meina, ad þo so kvede ad hier i Textanum, ad vor Frelsare sitie til hægre Handar Guds, ad Gud hafe Hendur, edur ad hañ sitie so sem Madur, ad vier ei follum i þaa Villu sem Paulus ber uppaa Heidingiana, Rom. 1. Ad þeir hafe breytt Dijrd oforgeingelegs Guds, i Mynd forgeingelegrar Mañeskiu, þvi jafnvel þo Ritningeñ tale þañig aa stundum, þaa talar hun so ad Maña Plagsid. Og þo ad Gud hafe sig i Manns Lijkan opeñberad, so sem Esajæ 6. J Opeñberunum Johañis, og vijdar, þaa eru þad Okvæde ad hugsa ad hañ so i Raun og Sañleika sie, helldr er Gud eiñ Ande so sem Johañes vottar, 4. Cap. Hvernig viljum vier þaa imynda oss nockud hægra edr vinstra hiaa honum sem uppfyller Himen og Jord, og er allt i ollu ommælannlegur, osynelegur og orannsakañlegur, helldur er þetta sagt til ad utmaala þaa Tign sem Guds eingieteñ Sonur hlaut i Uppstigninguñe epter Mañdoomenum; Hin hægre Hlid var hiaa øllum Þioodum virduglegre aa þeim Dogum enn su vinstre. Þegar Bersabe gieck inn til Salomons Konungs, fagnade hañ Moodur siñe, og sette hana aa hægra Veg sier, 1. Reg. 2. An Efa þess vegna, ad hañ hefur viliad veita heñe hiñ mesta Heidur nærst sialfum sier. Drottningeñ stendur þier aa hægre Hønd seiger David, Ps. 45. Er hañ kvedur um Brudkaup Christi og hañs Uñustu Christneñar. So er nu med þessu meint, ad Frelsareñ epter Mañdoomenum sie Gude nærstur ad allre Tign, Makt og Vellde, Gud Fader og Guds Sonur eru jafner epter Guddoomenum ad allre Tign, þeirra Hasæte, þad er þeirra Dijrd, hun er ein, þvi Fadereñ er i Synenum, og Sonureñ i Fodurnum, Joh. 14. Þvi nærst er Guds Sonur epter Mañdoomenum er sitr honum aa hægra Veg, sialfum Gude nærstur, sialfur sialfum sier nærstur, hañ er sialfum sier ædre og sialfum sier hægre, þvi

haũ er bæde Gud og Madur, og er þo hans Manndoomur ollum Skepnum ædre, þvi hverium af Englunum hefur hann nockurn Tijma sagt ? Sit þu mier til hægre Handar; seiger Paulus, Ebr. 1. Og þessa Tign mañdoomlegrar Nattturu Christi utmalar haũ greinelega inz fogrum Ordum, Eph. 1. Seigande: Gud Fader hefur sett Christum a hægre Hond sier i Himnenum, langt fyret ofann allann Hofdingsskap, Valld, Makt, og Herradæme og oll þau Nofn sem nefnast, ecke einasta i þessare Olld, helldur og i hinne sem verda mun. So er þa Drott-inn-Jesus sitiande til Fodur sins hægre Handar, afklæddur ollum þeim Eymdum og Harmkvælum, er hann bar i voru Hollde, vordenn Konungur og Kiennemadur ad eilijfu, so i hans Nafne skulu oll Knie sig beigia, bæde a Himne og Jordu, og under Jordune, Phil. 2. Þad er ad hann lifer og rijker ad eilijfu; Þvi þad sem David kallar ad sitia a hægra Veg Gude, Ps. 110. Þad kallar Paulus ad rijkia, seigiande: 1. Cor. 15. Honum byriar ad rijkia, þar til hann leggur alla Ovine til Skarar Foota hanns. Og er nu þetta sa Avoxtur og Nytseme er Drottne sialfum tilheyrer, jafnvel þo ad ei sieum vier helldur hlutlauser af henne, sem sijdar mun sagt verda.

Eñ hvad vidvijkur þeim Avoxtum sem oss syndugum Monnum til Gagns og Nytseme spretta af Drottens Himnafor, þa er hinn fyrste, Sending H. Anda. So seiger haũ sialfur; Nema eg i burtu fare, þa kiemur ecke sa Huggareñ til ydar, Joh. 16. Þetta sitt Fyrerheit efnde Drotteñ a Hvijtasuñudogum, so sem alkuñugt er, og er þad ecke lijtill Velgiorningur Br. M. ad hann sende sinn H. Anda yfir sijna Postula, hañ leidde þa i allañ Sañleika, so ad þeir skylldu Leyndardooma Guds Rijkis, ad oss ydur þeir sijdañ opeñberader, hañ giorde Kraptaverkeñ fyrer þa, og styrkte þar med Christne-Boded, so ad þad Hialpræded sem fyrst var bodad af Jesu Christo, yrde og stadfest hia þeirra Epterkomendum sem Paulus vottar, Heb. 2. Hañ kiende þeim ad forsma alla Hlute hia Drottens Krosse, og hallda þa fyrer Dreck ad vera, til ad avinna Christum, oss til Epterdæmis, so ad þeir uppfylldu Leyfar Jesu Christi Pijsla a sijnum Lijkhama, sem er hans Christne, Col. 1. Nu þo ad þetta sie eiñ haleitur Velgiorningur, ad hann wthellte sijnum Anda so rijkuglega yfir Postulana, þa hofum vier eingu miña þeiged ef vier riett adgiætum. Hid mesta Erfide skal til þess hafa ad leggia Grundvolleñ undeñ eitt Hws, so var og ad Christs Kyrkiu. Hiñ fyrsta Stein lagde Gud i Pijnu sijns Sonar, þegar hiñ dijrmæte Hyrningar-Steiñneñ var af Uppbyggendum wtkastadur, 1. Pet. 2. Þar uppa byggdu Postularner og adrer helger Meñ, er vordu Lijfe sijnu og allre tijmañlegre Velferd siñe til þessarar Byggingar. Þess gietur Paulus, Eph. 2. seigiande: Ad vier sieum byggder uppa Grundvoll Postulaña og Spamaña, þar Christur er sialfur Hyrningar-Steiñeñ. Giæted ad þessu er eg seige Br. M. Þess meira sem lijdur a Bygginguna, þess miñe Þwnga hefur þad ad bera sem ovfrlega er lagt. Þoott vier eigum daglega ad þia vorn eigeñ Lijkhama fyrer Guds Rijke, hvad er þad hia þvi sem Postular Guds og adrer helger Menn urdu ad lijda

oss

oss til Epterdæmis; Þeir bááru Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. Medañ helt- ast var, medann Hádeige var Christneñar. Vier erum um̃ ellestu Stundu kallader: Gud wthellte yfir þa sijnelegum Astgiofum Andans, til ad styrkia Kieñinguna, til ad styrkia þa so þeir giæte Offsooknernar þolad, þu hefur ecke miñe Astgiof þeiged christeñ Madur. Fagned ecke yfir þvi sagde Jesus ad Andarner eru ydur undergiefner, hell- dur hinu, ad ydar Nøfn eru skrifud á Himnum, Luc. 10. Bileam, Num. 22. Saul, 1. Sam. 10. og Judas, Matth. 10. Hofdu og soddañ Gáfur um̃ Hrijd, þar fyrer vorn þeir þo ecke fullsæler. Sw var hin ædsta Gáfa Drotteñs, ad hañ gaf sijnum Þienurum ad vera eitt med sier, eins og Fadereñ og hañ eru eitt, ad hañ vardveitte þa fyrer Heimenum, þo hañ tæke þá ecke burt wr Heimenum, Joh. 17. Og þessa Gáfu hefur hañ þier og sendt christeñ Madur, ef þu villt hana taka, hann hefur so endur- gieted þig i Skijrnar-Laugeñe med heilogum Anda, ad þu gietur samsiñt hañs Orde, hañ endurnyar þig daglega med hinum sama Anda (nema þu mootstander hønum) so þu gietur trwad á Gud, heyrt hañs Ord, tamed þitt Holld, bored hanns Kross og elskad Náunganñ. Mier virdest Drotteñ hafa somu Atferd vid sijn Børn i Send- ingu heilags Anda enn nu i Dag, so sem hañ hafde vid sijna Læresveina sem Von er til, þvi Drotteñ hiet þeim þvi, þar hañ seiger hiá Joh. 14. Eg mun bidia Fodurenn ad hañ sende ydur eiñ añañ Huggara, ad hañ blijfe hiá ydur eilijflega. Þegar hañ kom til þeirra ad lucktum Dyrum og opeñberadest þeim, þá blies hañ á þa og sagde: Med- taked þier H. Anda, Joh. 20. Ecke var þesse Blástur heilagur Ande, helldur hefur hañ bwed i hønum eins og i hinum mikla Storme á Hvijtasuñu, þo var mannlegur Veikleike so mikill hiá þeim, ad þeir ecke trwdu fyrer Fagnadar-Saker; Já, þoott hañ opeñberade sig fyrer þeim nijusiñum epter Upprisuna þa trwdu þeir varla, so ad Matthæus seiger, ad þegar hañ talade vid þa á Fiallenn i Galilea, þá hafe sumer efast, Matth. 28. Og under hañs Uppstigningu voru þeir so ofrooder i þessu, ad þeir spurdu hañ, hvert hañ þa villde upprietta Jsraels Rijke, Act. 1. Eñ er hann hafde meddeilt þeim ad nyu heilagañ Anda, og blessad þa, og þeir sáu hañ til Himens faranda, þa jokst þeim so Kraptur, ad þeir geingu glader heim og prijsudu Gud seiger Lucas, Act. 2. Eñ epter 10. Daga wthellte hañ yfir þa hinum sama Anda med miklum Undrunum og Táknum, so þeir efuduft alldrei sijdañ; So fer Madureñ eñ nu ad vaxa, þar til hañ verdur fullordeñ epter Máta fullkomens Alldurs Jesu Christi, sem Paulus adkvedur, Eph. 4. J Skijrneñe medtokum vier heilagañ Anda: Ecke er Vatned Ande, helldur bijr hann i Ordenu, hvert ed samlagast Vatnenu, hañs giæter ecke miked i Hiarta Ung- barnsins, þo vita Menn ad hann bijr þar, þviad slijkra er Guds Rijke seiger Jes- us, Luc. 18. Þegar vier drogunst á Legg, verdur hann jafnañ samfara Ordenu hiá þeim sem þad læra. Þoott ei þecke Børnenn Jesum grant, helldur enn Læresveinar- ner hier. Þegar oss aukast Vitsmuner og vier sáum Epterteekt nockra, þá samver- kar hann jafnann Guds Orde. O Børn mijn! er ecke þetta ein stoor Astgiof H.

Anda?

Anda? Ad eitt Ungmeke lætur sier skiliast þad, sem ei gatu skiled edur villdu skilia hiner vijsu Heims-Spekingar, Philo, Celsus, Porphyrius, Lucianus, og adrer mikla fleire, og þo þad ecke skilie so grant, þaa temur Guds Ande so mannlega Skynseme og verkar so i Einfelldne Barnsins, ad þad giefur sinn Skilning faangenn under Hlydne Trwarennar, 1. Cor. 10. So þvi duger til Saaluhiaalpar. Er þad ecke ein stoor Guds Giof, ad vier sem fæddumst Reidennar-Bern, Eph. 2. Vier siaaum þo hvilijkann Kiærleika Faderenn hefur oss giefed, ad vier meigum Guds Born kallast, 1. Joh. 3. Hver kienner oss þad? Mun ecke heilagur Ande, saa ed ber Vitne vorum Anda hierum? Rom. 8. Er þad ecke ein ouumrædeleg Guds Gaafa, ad þegar vier syndgum og hofum forbroted vora Arfleifd, jafnvel med Storglæpum sem vorre Saalu verda aa stundum ofur þwng Byrde, ad vier hofum þaa Tals-Manninn aa Himnum, Mañenn Jesum Christum hiñ riettlaata, 1. Joh. 2. Sem oss sender siñ H. Anda af sijnum Fodur, til ad straffa i oss Synderna so vier ydrumst, til ad kienna oss ad hann sie Forlijkun fyrer allar Verralldarennar Synder so vier trwum, til ad endurnyja oss i Anda vors Hugskots, so vier gietum lifad nijum Lifnade. Þegar tveir Konungar sættast, þaa seliast þeir Gisla aa, so ad Vinaatta þeirra skule tryggvare verda, edur saa meire tekur af þeim minna til þess ad treysta sier hann. Enn Gud næde oss faaraadar Manneskiur! hvad þurfte Gud ad taka Pant af oss Prælunum? Utlogunum? Ohoolaalsomunum? Hvad þurfte hann oss Pant ad setia? Og þo hefur hann so giort. Hann hefur teked af oss eiñ Pant sem er vort Holld og Blood, og sett þad aa hægra Veg sialfum sier, ecke til þess ad hann trijde oss betur; þvi hann visse ad vier daglega minndum tiwfa vor Sære, helldur ad vier kynnum honum þess betur ad trwa. Eingenn hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur fooftrar hann þad og nærer, seiger Paulus um Mañ og Konu, Eph. 5. Fyrst Guds eingietenn Sonur hefur giort vort Holld ad sijnu Hollde, fyrst hann hefur trwlofad sier Christnena so sem adra Brwde, þaa er þad vijst, ad hañ elskar þaa sem eru Hold af hanns Hollde og Bein af hanns Beinum, er so heitt elskade oss, ad hann gaf sitt Lijf i Daudann fyrer sijna Ovine, Rom. 5. Hann mun ei forsmaa sijna Brwde sem skipar fyrer Munn St. Paals sijndugum Monnum ad elska sijnar Ekta-Kvinnur eins og Christur Sofnudenn, Eph. 5. Helldur laata Drottningina standa sier aa hægre Hond iskrijdda hinu besta Gulle, Ps. 45. Og til frekare Stadfestu hier um, hefur hann, upphafenn aa sinn Tignar-Stool, sendt oss eiñ Pant af sijne Hende, þad er heilagur Ande sem er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Hver og bidur fyrer oss med ouumrædelegum Andvorpunum, seiger Paulus, Rom. 8. O! hvilijk er Astgiof þesse? Hver vill skipta henne vid Læknisdoomana? Vid Tungumaalenn? Vid Jardteiknagiordena? Og siaaum vier af þessu, ad Guds Sonur hefur eingu minna veitt oss i sinne Uppstigningu enn Postulunum, honum sie Dijrd og Prijs ad eilijfu, Amen.

Hin oñur Nytseme sem vier hofum af Christi Uppstigningu, er sw, ad hañ situr til Fodursins hægre Handar og bidur fyrer oss. Drottenn baud i gamla Testament-

enu Aaroni og hañs Sonum, ad þeir skylldu blessa Foolked, Num. 6. Þeirra Embætte var og ad bidia fyrer þvi. Lucas skrifar, Cap. 24. Ad þesse vor ædste Kiennemadur (hvers Fyrermynd ad var Aaron i morgum Hlutum) ad i þvi hañ var ad blessa þa, hafe hann vered numeñ fra þeim. O einn gledelegañ Vidskilnad! O eina elskurijka Kvediu! O eina kroptuga Blessan! þesse dijrmæta Blessan, liggur enn nu i Dag yfer hinum andlega Israel, þegar hañ tilbidur Gud i Anda og Sannleika, Joh. 4. so ad hvers vier bidium Fodureñ i hanns Nafne, þad vill hañ giora, Joh. 16. Drotteñ stie upp af Fiallenu Olweti, Act. 1. Þvi hann hafde þa wt til Bethania (seiger Lucas Cap. 24.) er stood a sama Fialle, fra þessu Fialle reid Drotteñ sijdarst inn til Jerusalem, ad hann offrade hinne dijrmætu Foorn sijns Lykhama, med hverre hañ Veralldena endurkeypte, fridstillte Gud, enn brant under sig Diofuleñ og allañ hañs Her, og trood hann under siña Barna Fætur. Med þa somu Foorn uppstijgur hañ hier, vordeñ Kieñemadur ad eilijfu, Ebr. 7. Ecke epter Skyckan Aarsnis, helldur Melchisedechs, og byrtest med heune fyrer Guds Auglite jafnadarlega, so opt sem eiñ ydrande Syndare vid þarf. Þess gietur St. Paall, Heb. 9. seigande. Ei er Christur inngeingenn i þad heilaga sem med Hondum er giort, hvert ad er Fyrermyndan þess sannarlega, helldur i sialfañ Himeneñ til ad byrtast nu Auglite Guds fyrer oss. Hann byrtest NU Guds Auglite seiger Pöstuleñ, og var þad nockru epter hanns Uppstigningu, teiknande þar med, ad þetta sie eitt sijfellt Offur, olijkt þvi sem umgietur, Num. 28. Hveriu Israels Syner a stundum rænter voru af sijnum Ovinum, 2. Paral. 36. Enn þetta kann eingeñ ad hindra, eingenn fra oss ad taka. Diofulleñ med allre sinne Makt, fær þvi ecke spillt, so leinge vier trwum a Guds Son. Nofn Israels Sona voru ritud a Briooskt-Skiolld Aaronis, Exod. 28. Med hvern hann inngieck i þad allra-heilagasta, so sem til eins Miñis-Teikns fyrer Gude. Miñ Herra Jesu, þu eilijfe Kiennemadur! þu blessader þijna elskulega Læresveina med kiennemañlegre Blessan, adur eñ þu inngieckst i Himeneñ, þu barst þa ecke a þijnu, helldur fyrer og i þijnu Briooste til eilijfrar Miñingar fyrer þijnum himneska Fodur; Ja, ecke einasta þa, Herra, helldur og alla þa sem a þig sijdañ trwad hafa, og trwa munu allt til Enda Veralldareñar, þar þu ert eiñ Kieñemadur freistadur a allañ hatt lijka sem vier, þo an Syndar, Ebr. 5. Uppa þad þu kuñer ad sampijnast vorum Eymdum. O! hversu er þesse Guds Giof æskeleg? Hvad ma gledelegra veitast einum Syndara, sem eckert hefur annad eñ Daudañ og Helvijtis Pijsler forþienad, þegar hañ a ad mæta fyrer þeim hrædelega Doome, hvar ed tebla er uñ hañs eilijfu Saaluhialp, hvad ma honum segie eg, gledelegra veitast eñ þad, ad hañ hefur Doomarañ fyrer Fodur, og siñ Broodur fyrer Tals-Mañ, hver vill laata sier þar hugfallast, hver vill mistreysta Sok sinne, þvi vil eg alykta þetta med Paals Ordum, hver er sa ed fordæmer? Christur er sa sem daeñ er; Ja, hver ed uppriseñ er, hver og situr a hægre Hond Gude og bidr fyrer oss, Rom. 8. Hin þridia Gagnseme er vier synduger Meñ hofum af Uppstigningu vors Frelsara

er sw, ad hañ þar med hefur afrekad og tilbwed oss eilijfa Dijrdar-Vist i Himnenum, so seiger Drottenñ sialfur hia Johañem, Cap. 14. J mijns Fodurs Hwse eru margar Verur, annars segda eg ydur: Eg fer burt og tilbij ydur Stad, enn eg mun koma aptur og taka ydur til mijn sialfs, ad þier sieud þar sem eg er. Þad er merkelegt ad hann seiger, ad þier sieud þar sem eg er. Nu er þad vitañlegt, ad hañ er i Guds Himen uppfareñ, og situr til Kraptarens hægre Handar; Þad er ad soñu honum einum ætlad ad sitia a hægra Veg Gude, samt erum vier þess fullvisser, ad hver og einn af oss hefur sijna Deild i Christi Lijkhama, 1. Cor. 12. Hvar fyrer? Þar sem mitt Hollð rijker, þar kalla eg mig rijkia, þar sem mitt Hofud drottnar, þar drottna eg sem er Limur þess sama Lijkhama. Þad er eiñ undrunarlegur Hlutur, og ein stoor Dypt Audæfaña og Guds Speke, ad Mañeskiañ gieteñ og fædd i Syndeñe, ia, sw ed alldrei kann syndlaust ad lifa hier i Lijkhamanum, ia; margur sa ed vellter sier i Endeme Syndaña, hiñ mesta Hlut Æfe sinnar, hun skal þo ef hun ydrast og trwer a Christum, verda Englunum jofn seiger Postulenn, þeim himnesku Aundum er sinn Skapara ecke hafa i hinu minnsta styggdann, og sia hanns Auglit aan Aflaats, Matth. 18. Ja, hvad meira er, ad vier skulum samlijker verda Christi dijrdlegum Lijkhama, Phil. 3. sem aan efa ber laangt af Englanna Dijrd. Hveriu sæter þetta Br. M.? Hver fær þad skiled? Drottningenn stendur þier til hægre Handar, skrijdd hinu besta Gulle, seiger David i Brwdkaups-Vijsunne, Ps. 45. Christur epter Manndoomenum situr a hægra Veg Gude, þad merker ad hann sie honum nærstur ad Tign og Heidre, enn honum til hægre Handar stendur og ecke situr Brwdurenn, christeleg Kyrkia, so miklu er hun o-ædre sem Von er til, og þo nærst honum ad Tign og Heidre, so ad hier maa sia ad Manneskiann i Dijrdeñe verdur Englunum jofn ad vijsu. Hvad ætte christenn Madr um þetta ad hugleida? Mætte ecke Hiartad braadna af Audmykt so sem annad Vax, nær hann þetta heyrer? Mun honum ecke til Hugar koma mz Abraham, þad hann sie Dupt og Aska, Gen. 18. og ecke þess verdur ad sia inn fyrer Himnarijkis Dyr, auk helldr ad standa a hægra Veg Guds Syne i hañs Dijrd. Eñ hvat fyrer er syndugum Jardar-Leyr þvilijkur Soome veittur? Fyrer Drottenñs Uppstigningu til Himens, fyrer þa dijrmætu Foornena er hañ hefur einusiñe iñbored i þad allra helgasta. Brædr mijner, kollum vier ecke eiñ Hlut so mikels verdañ sm hañ kostad hefr. Nu er Guds Blood med hveriu Syndareñ er endurkeyptur, Act. 20. Þess miklu ædra og kostulegra Englunum sem hañ hefr þeim ædra Nafn, þad er Heidr og Virdingu odlast sem Paulus avijkr, Heb. 1. Eñ nu hefr hañ ecke Englana, helldr Abrahams Sæde uppa sig teked i þvi hefr hañ lided, i þvi er hañ uppriseñ, uppstijgeñ og setstur til hægre Handar Gude Fodr. Er þa ad undra Born mijn, þo hañ giore oss Englunum jafna, þar hañ hefr oss med sijnu eigeñ Bloode endurleyst? Act. 20. Hverium hañ og giefr sitt Hollð og Blood til ad eta og drecka, Joh. 6. hvert nu sitr a hægra Veg Gude i Dijrdeñe. Plaga ecke Konungarner ad hefia Ættmeñ sijna til Virdinga, alla þa sm i Hlijdne

ne vid þa standa, og sia ei giarnan adrer sieu þeim fremre, því mun ei Drottenn Jesus hverium allt Walld er giefed bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. vera eins lyndur vid oss sem erum Limer hans Lijkhama, 1. Cor. 12. Hveria han skammast sijn ecke Bræðr ad kalla, Ebr. 2. Þannig hefur nu Gud uppløked oss Himnenum i sijns Sonar Uppstigningu, og giefid oss ad sitia ansamt mz Christo a honum seiger Paulus, Eph. 2. O! hversu eru allar Heimsins Virdingar, Audur og Epterlæte, Hiegoome ad reikna hia þessare Tign, þessari Sælu, þessum himneska Fieziood, og þo er Mannesktan so dærleg, ad hun tekur allt þetta fram fyrer þessa Dijrdar-Vist med Gude og hanns utvølldum.

Þar er i flestra Manna Nætturu nockurskonar Hugprijde, ef eg ma so kalla, jafnvel þo flester hana vanbrwke, þad er ad komast sem hædst, og eru þad fierdeilis tvø Fioll sem Menn eru ad klyfrast uppa alla sijna Æfe, þad er Maktarennar og Vitskunnar, enn þar eru so faaer sem leitast vid ad komast uppa Zions-Fiall, Ebr. 1. Og na Þienustu hia hinum alvallda Konunge sem Gud hefur þar yfer sett, Ps. 2. Hversu andhæles geingr þetta Br. M. Jafnvel fyrir þeim sm eru Kongborner i Skijrnenne, þeir taka ecke betur Vara a Tign sinne enn so, ad þeir selia hana fyrer Glis Veralldarennar eins og Born þau er kaupa vilia þad er þeim vænt um þyker fyrer dijra Dooma. O! hversu vijsare og vollduigre munu þa hins eilijfa Konungs Syner og Brædur verda i hans Rijke, þvi þeir munu Englana dæma seiger Paulus, 1. Cor. 6. Þad er Dioflana, þeir munu Gud þeckia so sem þeir verda af honum þeckter, og sia han og hans Dijrd, ecke so sem i Speigle edur Raadgatu eins og hier, helldur Auglite til Auglitis, 1. Cor. 13. Og er þo hin minsta Þecking sem einn einfalldur Guds Dijrkare hefur a Christo hier i Lijfe, miklu vijsare enn allt Manna-Vit Heims Spekinganna, þvi Paulus seiger, 1. Cor. 1. Ad Gud hafe giort Speke Veralldar þessarar ad Heimsku, og ad Heimska Guds sie Monnum hyggnare, og Veikleike Guds Monnum oflugre. Þegar Magt heidenna Manna gieck sm hædst, og Vijsdoomr Gydinga stood i Blooma sijnum ad þeirra Hyggiu, þa voru hiner so vollduger, og þesser so vijser, ad þeir heingdu Konung Dijrdarennar uppa Gaalgann, hveriertveggiu sier til Skammar og sijns Hofdingia Fiandans Rijke til Nidurdreps, so han hefur alldrei vidriett sijdann. Þannig er Makt Myrkranna og Skynseme Holldsins, þau eru Volæde hia Guds Barna Veikleika, og Heimska hia þeirra Einfelldne i Guds Augum, sem einn er vijs og alleina volldugur, Rom. 16. Og þo nockur være einvallds Drottenn yfer ollum Heime þessum, og visse alla Nætturu Hlutanna, hvad munde þad vera hia þeirre Dijrd, þeirre Speke og þeirre Sælu sem hin minnste i Himnarijke er prijddur med, þvi ef hann er meire enn Johannes Baptista, hvers Lijke ei var af Konu fæddur, Matth. 11. Þa munu hiner na skammt til þess, jafnvel i Haadeige Magtar sinnar. Og hefe eg nu so talad fyrer ydur Br. M. um hina fierlegustu Averte Drottens Uppstigningar, hverrar hun fyrste heyrer honum sialfum til, sem er ad han er inngeingenn i sijna Dijrd, og eigum vier ad glediast þar af, ad han er farenn i burtu hiedann, ef vier elskum han so sem han sagde fordum vid Læresveinana, fierdeil-

is þar vier erum ecke hlutlauser þessarar Dijrdar, hann so sem frumgieteñ og eingieteñ
Sonur hins hæsta, hefur teked hiñ mesta Arf, mꜳ oss ei nægia þad Wttleidingunum,
ad vier erum Samarfar Christi og Erfingiar eilijfs Lijfs, Rom. 8. Mꜳ þad ei duga
oss Landrꜳdà Moñunum, ad vier hofum Arfs-Von i omælañlegrar Dijrdar eilijfre
Þijngd? 2. Cor. 4. Gud hefur gi.fed sijnum Syne Endemork Veralldarennar til
Arfleifdar, Ps. 2. Ecke so Fioll og Dale, Jord og Skooga, Votn og Sioo, og allt
hvad þar iñe bygger, so sem hañs elskulega Brwdur sem hañ hefur wtvaled af ollum
Þioodum og Tungumꜳlum, ꜳdur eñ Grundvollur Veralldareñar var lagdur, Eph.
1. Þess hofum vier noted Auningiarner, sem liggium under hinu ytsta Heims-Skau-
te þessu; Vier erum hañs Arfur, og hofum vier sialfum oss alldrei betur vared. Hin-
er adrer Avexterner heyra oss Monnunum til, hann hefur rijkuglega wthellt yfer oss
heilogum Anda, so vier riettlætter fyrer hanns Nꜳd yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs,
Tit. 3 Hann situr til Guds hægre Handar, og bidur fyrer oss, Rom. 8. So ad allar
vorar Bæner eru jꜳ og Amen. Hann hefur opnad oss Himeneñ og tilbwed oss þꜳ
Sælu-Vist er eg fyrer skomu umtalade. Nu þar Gud Fader i sijnum Syne, Guds
Sonur af Fodurnum sendur, og heilagur Ande sem af bꜳdum þeim framgeingur, þad
er oll heilog Guddoomsins Þreñing hefur audsijnt oss þvilijkañ Kiærleika, sem ꜳdur er
sagt i Drotteñs Uppstigningu, þꜳ stijgum nu upp aptur ꜳ moote honum i vorum Hug-
skotum, hañ hefur vort Holld upphafed; Lꜳtum hañ ecke forgiefens hafa sendt ofann
siñ Anda til vor aptur, ef vier erum upprisner med Christo, þꜳ leitum þess sem þar uppe
er, hvar Christur situr til hægre Handar Fodursins, Col 3. Þar sem ydar Fiesioodur
er, þar er ydar Hiarta sagde Endurlausnareñ, Matth. 6. Ef vier hofum medteked hei-
lagañ Anda, sem hañ hefur rijkuglega wthellt yfer oss i Endurgieningar Vatns-
Sꜳnum, hvar skyllde þꜳ vor Fiesioodur vera nema i honum? J hverium ad byggia
aller Fiesiooder Vitskunnar? Col. 2. Postular Drotteñs horfdu upp i Himenenn
epter honum, Act. 1. Lyptum og Augum vorum upp frꜳ þessum jardneska Hiegooma,
og skynium þad sem þar uppe er, Lyptum þeim til Hædaña hvadañ oss kiemur Hiꜳlp-
enn, forsmꜳum Heim þenna med ollu þvi sem i honum er, þvi hann mun fyrerfarast;
Gaungum þvi wt af Heimenum, ad ecke tortijnunst vier med honum.

Drotteñ hafde Læresveinana wt til Bethania, þegar hann stie til Himens, Luc. 24.
Hvert hann er fareñ, þad vited þier og Veigeñ þecked þier; Joh. 14. Bethania merker
fꜳtæks Mañs Hws; Ef þier vilied epter honum uppstijga, þꜳ giorest andlega vol-
ader, þviad slijkra er Himnarijke, Matth. 5. Falle ydur Rijkdoomur til, þꜳ fested ei
Hiarta ydar vid hañ; Giored fꜳtækum gott, so þier sieud i Gude rijker, og þeir med-
take ydur i eilijfar Tialldbwoder, Luc. 16. Elias foor nakeñ til Himna, 2. Reg. 2. So
nieiged þier og slijta frꜳ Hiarta ydar allt veralldlegt Yferlæte, ef þier vilied honum
fylgia. Drottenn var nakeñ krossfestur, nakenn var hann i Lijkblæuñe vafeñ, hann
skilde hañ epter i Grofeñe. Nakeñ hefur hann upprised, nakeñ uppstijged, jafnvel þo

hann hafe klæddur sijnst fyrer Læresveinunum; Þu ætt og ad krossfesta hinn gamla Mannenn, þu ætt ad greptrast med Christo, og uppriisa med honum, Rom. 5. ædur enn þu fær uppstigeð. Afklæd þig og so med honum; Læt ecke eina Flijk Veralldlegra Muna þijngia Hiarta þitt, so þu meiger fliwga upp i Hæderner eins og annar Ern epter þijnum Frelsara; Brwka so Heimenn, ad þu ecke vanbrwker hann. Slijt fra þier alla Elsku til Veralldarennar; Læt ecke hennar Þwnga-Voru draga þig nidur þegar þu ætt ad stijga til Himens hvar vor Borgar-Riettur er, hvadann vier og væntum Drottenns Jesu Christi, Phil. 3. Honum med Fodurnum og H. Anda sie Lof, Prijs og Heidur umm Allder Allda, Amen.

# Siötta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 15. og 16. Cap.

JEsus sagde til sinna Læresveina. Enn þa ed sa Huggarenn kiemur, hvern eg mun senda ydur af mijnum Fodur, sem ad er Sannleiksins Ande, hvor af Fodurnum framgeingur, hann mun bera Vitne af mier, og þier munud mier Vitne bera, þviad þier hafed i fra Upphafe hia mier vered. Enn þetta tala eg þvi til ydar, so ad þier hneirlest ecke. Þviad þeir munu forboda ydur, og sa Tijme kiemur, ad hver hann lijflætur ydur, sa meinar sig ad giöra Gude þægt Verk. Og þetta giöra þeir ydur, af þvi þeir þeckia hverke Fodurenn nie mig. Enn þetta tala eg þvi til ydar, ad nær sw Stund kiemur, ad þier minnest þess, ad eg sagde ydur þad. Enn þetta sagda eg ydur eige i Upphafe, þvi eg var hia ydur.

## Exordium.

INgenn kann tvennur Herrum ad þioona, þvi annadhvert hatar hann þann eina, og elskar hinn annann, edur ad hann adhyllest þann eina, og forsmaaer hinn annann; þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mammona, seiger Endurlausnarenn, Matth. 6. Enn þad sem hann hier seiger umm Mammon, hver ad er Gud þessa Heims og hanns Barna, þad vill hann sagt hafa umm sialfann Heimenn. Omogulegt er under eins Gude ad þioona og so Heime þessum, þad eru tveir so olijker Hwss-Bændur, ad hver þeirra rekur annars Þienara i burtu fra sier, og þad þess vegna, ad þeir so olijker eru; þar fyrer aavarpar St. Jacob Postule, Veralldarennar Paafugla þannig, 4. Cap. Þier Hoor-Kallar og Hoor-Konur, vited þier ecke, ad Heimsins Vinaatta er Guds Ovinaatta? Fyrer þvi, sa sem vill vera Vinur Heimsins, hann gierest Guds Ovinur. Og fyrer þvi, ad þessu er nu so vared, þaa hlioota Guds Born adskilianleg Mootlæte og Hormungar ad lijda, Umm hvert Esus eg hefe nockud fyrer skommu

 talad,

talad, er eg ofta ad goodann Stad funded hafe i ydar Hiörtum. Enn sökum þess, ad margur sa ed vill Gude þocknast, hann þoler liwflega þad sem Gud leggur sialfur a, so sem eru Siwkdoomar, Faatækt, Astvina Misser og annad þvilijkt: Enn þad sem af Manna Hende kiemur, þad er oss bagara ad þola, og optlega upptendrast vort Hiarta af Reide og Hatre til þeirra, af hverium vier meigum nockurn Ojöfnud lijda, sierdeilis nær þad fram vid oss kiemur fyrer Sakleyse, edur og i stadenn þess, er vier gott hugdunst giora, slijkt er ad sonnu manulegt, og eingenn lær þad odrum, Manna a medal, þviad flester eru so lynder. Enn ef vier at giætum, ad þad kiemur eckert fram vid Guds Born, sem ad ecke sie epter hanns Forsioa og Tillaatseme, þa eigum vier þvi eins vel ad taka sem kiemur af Mannanna Hende, so sem hinu er hann sialfur a oss leggur, þvi ecke einn Titlingur fellur a Jordu aan vors himneska Fodurs Vilia, Matth. 10. Þvi mun oss þa nockurt þad henda sem ad hann ecke vill ad vid oss fram kome? Og þetta er þad sem ad Drottenn Jesus syrer-seiger sijnum Læresveinum i þessu heilaga Evangelio um Offsoknet vondra Manna, og seigest þess vegna tala þad til þeirra, ad þeir hneixlest ecke, og ad nær sw Stund kiæme, ad þeir þa minntust þess, ad hann segde þeim þad, og vill hann þad sama sagt hafa ollum sijnum Bornum um allann Heimenn. Þvi vil eg wt af þessum Spaadoome Drottens, sierdeilis tvent Hugleida i þetta sinn, sem er. 1. Ad vier sieum skyllduger til ad giegna þvi med Þolenmæde, er vier lijdum af vondum Monnum Sakleysesins og Guds vegna. 2. Ad vier eckert rangt giorum til ad umflija þeirra Ofbellde.

Hier til hialpe oss goodur Gud, Fyrer sinn Son JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

Þeir Munu Forboda Ydur Seiger Drottenn, Og Saa Tijme Kiemur, Ad Hver Hann Lijflætur Ydur, Hann Meinar Sig Ad Giora GUDE Þægt VERK. Vid hveria sagde Frelsarenn þetta? Vid sijna elskulega Læresveina, hverier honum aan Efa hafa af Monnum kiæraster vered, hverier ed hofdu hanns Vitne um þad ad Faderinn elskade þa af þvi þeir elskudu sig, og allt þetta rættest a þeim sin vonlegt var. Hver sin athugaar Hwt strokur St. Paals, 2. Cor. 11. Faangelse Peturs, Act. 12. Lijflaat hinns elldra Jacobi, Act. 12. Og Beinbrot hinns yngra. Ja, hversu ad aller Guds heilager Menn og Vottar Jesu Pijslar eru herfelega wtleikner, so sem lioost er af Christenndooms Sogunum: Hann mun þad jaata, ad eckert Ord Drottens sie a Jordu falled. Nu fyrst honum þocknast hefur ad laata sijna kiærustu Vine þetta lijda af vondum Monnum, þvi skyllder þu og ecke fyrer Guds Saker lijda vilia, þad sem einhver ohlutvandur vid þig aflaga giorer? Og taka þvi so sem odrum Krosse af Drottens Hende. Ad sonnu reiner ecke a þad fyrer oss i þessu faatæka Lande ad þola Offsookner edur Lijflaat fyrer Evangelii Lærdoom edr Christi Vidurkienningu, samt eiga Menn þo Gud ad dijrka med goodum Verkum, med þvi ad hialpa hinum saklausa, og þeim sem Oriettenn lijdur til Riettarens, mootstanda þeim sem illa giora, og margur lijdur Oriett fyrer Sak-

se, og fyrer þad sem hann med soddann hætte gott giorer, enn aller þeir er þann Veg lijda, þeir lijda fyrer Guds saker. Gud hefur boded ad hiaalpa þeim sem Raangindenn lijda og underþryckter eru af Ofrijkis Monnum: Villt þu ecke frelsa hinn faangada sem til Dauda er dæmdur, og þann sem ad liggur vid Lijflaate, þar þu seiger: Sia vier þeckium ecke þenna, meinar þu ecke, ad hann sem rannsakar Hiartad, hann merke þad? Og hann sem tekur Vara aa Saalu þinne, hann þecke þad? Mun hann ecke giallda hverium Manne epter Verkum sijnum? seiger Salomon, Prov. 24. Þetta vill nu hinn ædste Doomare hafa sagt þeim sem meire Maattar eru og kunna ad hiaalpa þeim sem Oriett lijda, seiged mier: Mun hann Sykn-saka vera ef hann gioerer þad ecke? Nei, litlu betri enn hinn sem Oriettinn giorde, enn þott hann meigi Arsaksum mæta þar fyrer, þaa aa hann þad ad lijda med Þolennmæde, fyrer Guds saker.

Gud hefur boded ad elska Naungann, og þad ecke einasta med Orde og Tungu, seiger Postulenn, helldur med Verke og Sannleika, 1. Joh. 3. Enn hvad er tijdara i Heimenum, helldur enn Vanþacklæte fyrer Goodgiordernar. Drambsemme ohlutvandra Manna er so haavor og so rijklundud, ad hun þyckest eingum vera umm neitt skylldug, hversu miklar Velgiorder sem hun þiggur, og alla Hlute vill hun med Sialfs-Skylldu hafa, enn gielldur hin verstu Laun fyrer allt undannfared, ef ecke er Grædge hennar fullnægt i hverium þeim Hlut er hun hafa vill. Full er Verollden af slijkum Sialfs-Byrgingum, þeir sem nu fyrer slijku verda, sem margur er, þeir lijda Guds vegna, þvi þeir lijda fyrer þad sem Gud hefur boded, hvert þeir meiga ecke ogiort laata, ef þeir vilia christner Menn heita, og Guds Viner, þvi hver sem sier sinn Broodur Naud lijda og apturlykur sitt Hiarta fyrir honum, hvernig maa Guds Kiærleiki i honum vera? Seiger Johannes, 1. Pist. 3. Og meiga þeir þad ecke reikna þo ad Heimurenn gialldi illu aa moote goodu, þvi Paulus seiger, Rom. 12. Ef Ovin þinn hungrar, þaa gief honum ad eta, og þyrste hann, þaa gief honum ad drecka, og meigum vier ecke vera vandare hier umm enn Fader Myskunsemdanna, hver ad i giegn sinne owtseigiannlegre Goodgyrne þoler hina mestu Ofock af syndugum Monnum, og lætur þo rigna yfer vonda og gooda, og sijna Sool upprenna yfer raanglaata og riettlaata, Matth. 5. Þvi skulum vier ecke meina, Br. M. ad þetta sie alleina sagt til Postulanna, edur þeirra sem lifdu aa þeim Dogum, þvi eingenn er svo Stiett sem ad nockur Madur lifir i, ad eige mæti hann Andstreyme og Adkaste Verallдar, ef hann leggur Kapp aa ad giora Verk Drottins Guds sijns trwlega. Þvi er æ verr og midur, ad þeir eru flester sem skioota þessu Omakenu hiaa sier, uppaa þad þeir meige i Fride vera: Hvad er ecke einn Guds Ords Þienare, ef hann er vandlætingasamur i sijnu Embætte? Mun honum ecke Ovilld og Mann-Hatur bwed vera? Enn seiged mier: Mun hann þar fyrer meiga laata af ad straffa, ogna og aaminna? Edur elska þaa og þeirra Velferd er honum so illa launa hinn mesta Velgiorning, er af syndugum Manne kann vid annan giordur ad vera? Mun hann ecke meiga þeinkia hid sama og Paulus? Er hann sagde, Gal. 1. Hefde eg hijngad til Monnum þocknast, þaa

være eg ecke Christs Þienare. Og þetta er riett ad taka siñ Kross uppa sig og fylgia Jesu epter, Matth. 10. Saa giorer vel sem lijdur med Þolenmæde þad Gud aa hann leggur, og hañ gietur ecke af sier kastad, enn saa giorer eñ þaa betur sem med swsum Hugageingur i Bardagañ aa moote Fiandanum og hañs Verkfærum, þar hañ kyñe þo ad skioota sier undañ, sem marger giora, hañ er eiñ Guds Kappe, og maa vænta sier þeirrar Krediu sem Gedeon fieck af Englenum fordum, Drottenn er med þier þu Hetia, Jud. 6. Hvad skulu Menn tala um̃ einn riettvijsann Doomara, ef Menn eiga þo fyrer mörgum þvilijkum Raad ad giora i hreckvijsre og skynlausre Olld þessare. Eñ ef nockur er saa, er vanda vill sitt Embætte med Roksemd og Stioornseme nockurre, og hallda uppe christelegum Riettendum, þaa er honum ecke einasta aa Haalse leiged af þeim er þvi mæta, sem ecke er so ad undra, þvi blindur er hver i sialfs sijns Sök, helldur og af þeim er þad eckert vidkiemur og eige skynia hvar um̃ þeir dæma; Jaa, mæter Aaraasum af þeim er sialfir ættu hvad mest Riettenum fram̃ ad fylgia, hverier ad brwka Logeñ eins og Reikne-Peninga, þaa er Meñ laata merkia so mikla edur litla Tolu, sem Meñ sialfir vilia. Aller þeir ed nockrum O-skunda fyrer verda af so hreckvijsum og heimskum Moñum, þeir lijda fyrer Guds saker, þvi hañ er saa ed sagt hefur fyrer Muñ hiñs vijsasta Konungs; saa sem riettlæter hinn ogudlega og sakfeller hinn riettlaata, þeir eru bader eins Svijvirding fyrer Gude, Prov. 17. Og eru ecke alleina þeir ed i Guds Stad vandlæta eiga med Ordum, edur þeir sem yfir Riettiñ skipader eru, þessum Mootgaangje vondra Maña undervorpner, helldur hefur Diofullenn sijn Verkfære nærre þvi hveriu Hwse, til ad spilla Christneñe og goodum̃ Sidum. Eiñ vandlaatur Hwsboonde maa slijku mæta af sijnum Hiwum, af sijnum Bornum aa stundum, jaa, af ödrum wt i fraa, sem ecke hyrda um̃ ad vanda Raad sitt, og aamæla þeim er adra vilia hafa aptur af illu, giefa þeim stijfinn Ord, og kalla ad þeir eige eckert med sig, þeir mune brwka sijna Sidu þeim ad þackarlausu. Þetta er ecke lijtel Skap-Raun, Born M. fyrer þaa sem ottast Drottiñ og aangrast af ad sia ogudlegt Framferde, og sia fyrer þeirra tijmañlegar og eilijfar O-farer enn faa þo eige vid þeim giort sokum Þvermoodsku og Straakskapar hinna er þeir villdu leidriett hafa, jaa, þad er þeim meira Angur helldur eñ margt þad er aa sialfum þeim liggur. Eñ allir þeir er fyrir þvilijkt lijda meiga nockurt Adkast, Illyrde edur annad verra, þeir lijda fyrer Christi saker, þvi Gud hefur skipad ad uppala sijn Born i Lærdoome og Um̃vondun Drottenns, Eph. 6. Hann hefur boded ad vier skulum leidrietta þaa er viller fara med hoogværum Anda, Gal. 6. Jaa, saa ed þad ecke giorer nær hañ sier siñ Broodur villt fara, hañ samþyckest honum, og giorer sig Hluttakara i añarlegum Syndum, 1. Tim. 5. Og hefi eg nu þañig sijnt, Br. M. ad sierhver eiñ af oss gietur aatt Hlut i þessum alvijsa Spaadoome Drottenns, ef vier vilium þyckia fyrer Gud edur vandlæta i hanns stad, þvi alldrei þrijtur þar Andskotans Born þau er giefi þeim Orsök þar til er Drotteñ ottast, og eyra þvi illa ad hañs Dijrdarfulla Nafn sie vanvirdt, hañs Ord forsmaad og hañs Setningar vijsvit-

vitande under Footum trodner, og þo ad Monnum sie ohætt uppa Lijf og Lands-Vist, þa er þad eige þeirra Giædsku ad þacka, sem allt gudlegt Skick og Riettende forsmaa, þvi hann sem ad hatar eiñ Guds Ords Þienara fyrer heilsusamlega Kieñingu, edur eiñ Yfirvallds-Mann fyrer riettann Doom, ja, hañ sm bolvar Fodur og Moodur, Hws-bændum edur odrum þeim sem hañ leidrietta vill, hañ er ecke langt fra þvi ad taka Lijf ed af honum, edur reka hañ wr Lande, ef hañ þad þyrde vegna Hefndareñar. Nu er þessu so vared sem eg sagt hefe Brædur mijner, og þvi verdur eige mootsagt, enn allt þetta eigum vier þoleñmoodlega ad lijda fyrer Guds Saker, og ecke hatast vid þa er vier meigum þola þad af, helldur giora skylldu vora med Þolennmæde. Giætum þess er Frelsareñ seiger hier i Gudspiallenu: Ad þeir ed giore þetta, Meine sig ad giora Gude þægt Verk, so kuña og hiner skynlauser ad vera, ad þeir ætle sier sie Oriettur gior, og þeir ed þeim vel vilia, giore þetta af Offsa og Illgyrne, lat þier þo til Hugar koma synd-ugur Madur, ad þad er oriett fyrer Gude þijnum, hverium þu þioonar, ad hatast vid so farædar Mañeskiur, þvi þeir eru ecke Haturs, helldur Medaumkunar verder, hversu volldugar edur vijser, hversu rijker edur sterker sem þeir eru, þa eru þeir allra Skiepna vesælaster, er so hafa gleymt Gude og siñe Velferd, ad þeir skynia ecke hvad þeim er til Gagns edur Ogagns. Þetta giora þeir seiger Frelsarenn, af þvi ad þeir þeckia hverke Fodurenn nie mig.

Ef ad Hundur bijtur nockurn, edur Hestur slær hann, honum kañ Madur ecke so ad reidast so sem einum Mañe sem Gud hefur Vit og Skyn giefed, enn hiñ ogudlege, sa ed seiger i sijnu Hiarta, þar er eingenn Gud, Ps. 14. Hañ er argare eñ Hestar og Mwlar, hverium Meñ hlioota Beitsle og Bitel i Muñ ad leggia, Ps. 32. Og þvi skyllde eg þa vilia hefna mijns Vansa a soddann Andskotans Viñu-Dijre, sem ei veit hvad þad giorer? Meñ lata Oods-Mañs Verk vera saklaust vid Kongeñ epter Logunum, og þvi skylldu Meñ þa ecke hafa vidlijka Myskun vid hañ, sem so er yfirgiefeñ i frealeitt siñe, ad hañ hverke þecker Gud nie hañs Christ? Og ecke miklu helldur leitast vid ad leid-rietta hañ, helldur enn vilia hanns Olucku. Lijt til þijns Endurlausnara, þar ed hann hieck a Krossenum, og beidde fyrer Ifirtrodslu-Moñunum, ja, þeim er giordu a moote honum þa allra stærstu Svijvirding, sem nockurn Tijma hefur frameñ vered a mille Himins og Jardar, og þo villde Bruñr Giædskuñar lata þetta fyrir Afbotun gyllda; Þeir vita eige hvad þeir giora, Matth. 27. Og hversu lijted er þad nu sem þu maatt lijda af þeim sem ecke eru kañskie ollu syndugre eñ þu fyrer hañs Skulld, hia þvi sem hann leid saklaus þinna vegna. Þar fyrer, nær sem einhver Veralldarennar Sonur mootmæler oss, þegar vier giorum Guds Verk, þa hugleidum hvilijk Vegsemd þad er ad lijkiast hañs eingietnum Syne i þvilijku, og spillum ecke þeim Heidre med Oþoleñ-mædeñe, þvi ef vier giorum þad viliuger, þa hofum vier Laun, eñ giorum vier þad nauduger, þa er oss þad þo uppalagt, seiger Paulus um sig, 1. Cor. 9. Og þeinkium ecke ad Læresveinneñ sie yfir Meistaranum, hafe þeir Hwss-Fodureñ Beelzebub kallad,

hvad munu þeir giora vid hans Heima-Mnne? Matth 10. Og þessa Jhugan munum
vier læta spekia Hiarta vort, ef vier meir ængrunst af þvi sem Gude er i þessu æ moot-
giort, helldur enn siælfum oss, og blondudum ecke hverurveggia þessu samann. Og mæ
pad ecke letia oss, þoott ad lijted vilie ærorkast vid vora Tilhlutan i Guds Stad. Heyr-
um hvad siælfur Christur seiger, Esa. 49. Enn eg sagda, eg erfidade forgiefens, og fyr-
erkiæmi so mijnum Styrkleika fyrer eckert og til onijtis, þo ad mitt Mælefne sie Drott-
ens, og mitt Embætte mijns Guds, enn þar um ber Raun Vitne, hvernig hann blessadur
Holldenu iklæddur lagde allann Hug æ Guds Eyrende. Hver hefur þvilijk Moot-
mæle, Hædungar, Brixlaner, og allra Handa Ovyrdingar þolad fyrer Guds Verk
sem hann? Eckert er tijdara i Heimenum, enn þad, ad hann skipast ecke vid þeirra Ad-
giorder, sem Guds Eyrende reka, samt vill Gud þad þo giora læta, sijnu Nafne til
Dijrdar, og þeim til Nota er þad medtaka, enn hinum til þess stærre Fordæmingar, og
mæ þig einu gyllda syndugann Mann, med hveriu Moote þu Gud dyrdkar. Drottenn
Jesus visse ad Judas var Glotunarennar Sonur, samt talade hann Guds Eyrendi fyr-
er honum, advarade hann þad sama Kvolld og hann sveik hann um Noottena, Joh. 13.
Aminnte hann i þvi hann sveik hann, Matth. 26. Þu verdur fyrer Ovyrdingu af Heimen-
um, enn seig mier; Er nockur Virding stærre? Nockur Nafnboot so fogur, so sem Guds
Barn ad heita? Nu seiger Endurlausnarenn, Matth. 5. Blessed þeim er ydur bol-
va, giored þeim gott sem ydur offækia, so ad þier sieud Born ydar Fodur sem æ Himn-
um er, þar fyrer, hver sem hugleider eilijfa Himnarijkis Glede og Fognud Guds Barna,
og ecke rænger Sannsogle Christi, honum mun lijted þykia fyrer ad lijda nockr Hallmæle
og Aræaser af vitlausum Monnum hier i Heime fyrer þad dijrdlega Verdkauped, sem er
nooglegt æ Himnum, Matth. 5. Hier til lijtur David er hann seiger, Ps. 27. Eg
munde snart hafa yfergiefed mig, ef eg eige tryde ad eg siæ munde Giædsku Drottens
æ Lande lifande Manna. Og vilium vier þeirra Dæmum fylgia er Jesus talade þetta
vid og þeirra Samþioona, þæ skulum vier ecke finna, ad þeir hafe stoorum oþolenn-
mooder edur reider vorded, nær þeir voru falsklega æklagader fyrer Herrum og Lands-
doomurum. Hvad skal eg tala um hid saklausa Lambed, Guds eingietenn Son, þeg-
ar þeir sogdu hann være Samverskur og hefde Dioſulenn, Joh. 8. Svarade hann
alleina þessu: Ecke hefe eg Dioful, helldur vegsama eg minn Fodur. Þegar Judas
sveik hann, Vinur, hvar til komst þu hijngad? Matth. 26. Þvode Svikarans Fæt-
ur, Joh. 13. Skommu ædur enn Dioſullenn foor i hann; Þegar Biskups Þienar-
enn sloo hann, Joh. 18. Hafe eg illa talad, þæ bevijsa þad, og hafe eg satt sagt Hvar
fyrer slær þu mig? O þier aller hans Viner! oll hans Born, aller hans Læresveinar,
aller sem vilied honum i Dijrdenne eptersylgia; Komed hijngad og læred af honum,
þvi hann er hoogvær og af Hiarta lijtelætur, Matth. 11. So var hann þolennmoodur
sem ecke visse af Synd, 2. Cor. 5. og ætte þo alls Valld, bæde æ Himne og Jordu,
Matth. 28. Enn þu sem daglega syndgar og ecke forþienar annad enn Straff, munt þu
ecke

ecke jmta ad Gud hafe allañ Riett til ad straffa þig? Ja, þad munt þu ad vijsu jatag. Eñ seig mier, mun hañ þa ecke frialst eiga med hveriu moote ad hañ typtar þig, mun Barned nockud sijsla um vid Fodureñ, hvert helldur ad hañ straffar þad m z Hende eda ur Vende? Þad heyrdest ecke a Job, Cap. 1. Hver ofs er settur fyrer Þoleñmædenar Epterdæme, hvert helldur ad Gud liet Elldeñ falla af Himne og brenna hañs Eigur, ellegar ad þeir af Caldea og Saba rændu hañs Gotze; J ollu þessu syndgade ecke Job seiger Rieningeñ, helldur sagde hañ: Gud gaf og Gud aftook; Sie Nafned Drottens lofad ad eilijfu. Þad er ein hræsnisfull Þoleñmæde ad seigast vilia þola allt þad sem Gud leggur a, eñ vilia eckert Moñunum lijda, eins og þeir giore nockurt þad er hañ leyfer þeim ecke. Sa sem lijflataft a, hañ fyrergiefur Bodlenum, eñ slær allre Skulldene uppa Doomarañ; Nu gietum vier ecke giefed Gude Skulldena, þvi vier jatum ad vier hofum til alls þessa uñed sem hañ a ofs leggur, og þvi Kylldum vier þa reidast hañs Bodlum sem ern vonder Meñ? Þo hañ leyfe ad þad a ofs framkome sem hañ visse ad þeir af sialfs Dadum mundu oriett giora, sierdeilis þar vier erum sialfer vonder, þar fyrer hvert su sem þad er oriettvijst af þeirra Hende, þa er þad af Guds Alfu riett, og eckert añad eñ vor forþient Laun; og vilie einhver þvi ecke trwa ad Gud stioorne i þañ Mata Verkum omilldra Maña, sijnu Nafne til Dyrdar, enn sijnum Bornum til Leidriettingar, (þvi allt verdur þeim til Gooda er Gud elska, Rom. 8.) Hann lese þad er stendur i Bæn Postulaña, Act. 4. J Sañleika komu þeir samañ yfer þiñ H. Son Jesum, hvern þu smurt hefur, Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Jsraels Foolke, til ad giora allt þad er Hond þijn og þitt Raad hafde aasett ad skie skylldé. Hafe nu Guds volldugа Hond, epter sijnu alvijsa Raade stioornad ogudlegra Maña Verknade og Athofnum i Fordæmingu sijns eingietens Sonar hier til Sælu hialpar og Myskunar, christeñ Madur, þa lat þig ecke undra þo hañ stijre þeim til ad aga þitt lauslata og drambsama Holld, til ad temia þig lijsadañ Kalf, eins og Ephraim, Jer. 31. hier til andlegrar Heilsubootar, helldur miñst þess nær ed vonder Meñ þier rangt tilgiora, ad þu hafer þad med þijnum Syndum forskulldad, og nunt þu bradlega snwa þvi Hatrenu er þu fær til hañs, er vid þig afgiorde, a þijna eiagin Synd, m z harmþrwngnum og sundurknosudum Anda, þad er þad Offred sm Gude lijkar, Ps. 51. So giorde David Konungur, 2. Sam. 16. Er Simei bolvade honum, og kastade Steinum a hañ, eñ Abisai sagde: Þvi skyllde þesse daudur Hundur bolva mijnum Herra Konungenum? Eg vil fara og taka hañs Hofud af, eñ Konungureñ svarade: Hvad hefe eg med ydur hier Born Zeruja, hafe Drotteñ skipad honum, bolva þu David, hver vill seigia? Þvi giorer þu þannig? Og er nu so wttalad um hinn fyrra Partenn.

Hvad hinum sijdare Partenum vidvijkur, þa a ofs þad sagt ad vera, ad vier eigum fyrer eingum Mañe soddañ Virdingu ad bera, edur ad nockurs Mañs Elsku edur Otta so miked ad lata, ad vier þess vegna styggium vorn Gud a moote Samvitskuñe.

Þad er oss vitanlegt Br. M. ad noogu eru margar Synder vorar sem oss henda af vorꝛ eigen Holds og Bloods Tilteigingu til ad fordæma oss, þo ad ecke styggium vier hinn gooda Gud med þvi ad taka synduga Men̄ fram̄ fyrer hann. Gud bijdur i sijnu H. Logmaale; Þu skallt ecke hafa annarlega Gude fyrer mier, þad er hid fyrsta og hid ædsta Bodord, Matth. 22. Og þegar þad er broted, þaa eru øll broten̄, enn hvad giora Menn, þegar þeir giora alla Hlute ad Man̄an̄a Villd, hversu ogudleger sem þeir eru, en̄ kasta Guds Bodordum aa Bak sier aptur? Er þad ecke ad dyrdka eitt lifande Skwrgod? Jaa, þan̄ sem er verre en̄ eitt Skwrgod, þvi einn Tre-Stobbe er saklaus þo hann sie dyrdkadur: Hiaa-Trw Mannan̄a giorer han̄ ad Svijvirdingu, en̄ saa sem ottar ødrum til ad giora Odyggder og sierhvad þad sem Gud hefur ban̄ad, han̄ er Diøfull, og saa ed han̄ dyrdkar, han̄ dyrdkar Diøfulen̄, þu seigest ecke dyrdka han̄ þo þu giorer þad sm̄ han̄ bijdur, þu viter ad Gud sie ædre og øllu betre, og han̄ ein̄ eige ad dyrdka, þad er illt ad þu veitst þad, þad vill fordæma þig en̄ þaa meir, helldr enn ef þu þad ecke visser. En̄ seig mier; J hveriu er nu Guds Dyrdkun in̄efalen̄? J þvi ad trwa aa han̄, elska han̄ og ottast, og giora epter han̄s Bodordum. Enn seig mier aptur: Hvern ottast þu meir, Gud edur Man̄en̄, nær þu hrædest han̄ sem ecke kan̄ ad deyda nema Lijkhaman̄, en̄ forsmaaer Gud sem Lijfe og Saalu gietur kastad i eilijfan̄ Elld, Matth. 10. A hvern trwer þu meir, nær þu þykest einkis Þurfe, er þu hefur Man̄sins Vinaattu, aa medan̄ þu hræsnar fyrer han̄s Borde, en̄ so lijted reider þu þig uppaa Gud sem þig skapad hefur, fædt og forsorgad, ad þu vin̄ur þad til ad missa hana ecke, ad þu giorer alla Hlute sem Gud ban̄ad hefr? Hvern elskar þu meir? Er þu villt jafnvel fara til Helvijtis fyrer Man̄en̄, en̄ fyrer Guds saker stendst þu ecke ad sia han̄s Reide-Svip, er þu meinar ad hafa nockud af þinne tijman̄legre Velferd i Hende sier. O Vei! O Vei! Er ecke þvilijkt ein hrædeleg Afguda-Dyrdkun, og miklu verre en̄ øll Svijvirding Heidingian̄a þeirra er af Gude eckert vissu? Paulus seiger, 1. Cor. 8. Ad Skwrgoded sie eckert, og hrædd vist þeir þo Skwrgoden̄ er þau dyrdkudu, en̄ christner Men̄, hverium Gud er i Holldenu openberadur, þeir ottast Men̄ena meir enn Gud, jafnvel þo han̄ sie allt i øllu, og þykiast vel hafa komed kaupe sijnu, ef þeir faa sellt Guds Vinaattu fyrer Mannsins Kiærleika, edur til ad um̄flya hanns Oblijdu. Drotten̄ seiger fyrer Mun̄ Oseæ Spaamans, Cap. 2. um̄ Gydingan̄a Samkundu; Hun þecker ecke ad eg er saa sem gief hen̄e Korned og Mustena og Oliuna, og eg fæ þeim aanægianlega Sylfred og Gulled, af hveriu þeir giora Baal, hversu vel aa þetta heima hiaa þeim, er hin̄ goode Gud veiter alla Hlute yferfljootan̄lega til Notkunar, en̄ þeir ecke einasta wtsiwga Hws Eckna og føduꝛlausra, Matth 23. og selia hin̄ volada fyrer ein̄ Skoo, Amos. 2. Helldur og giora sier einn Afgud af þessu i Hiarta sijnu, hvert ed vera ætte Mustere H. Anda? 1. Cor. 6. Þad er Svijvirding Foreydslun̄ar i helgum Stad, og þad er þeim ecke noog ad þeir dyrdke han̄ einsamler, helldr eins og Nebucadnezar liet wthroopa, ad hver Madur under Lijfs Straff skyllde dyrdka Bel, so vilia þeir fyrer þessa Svijvirdingu af øllum heidꝛ

rader

rader verda, og ad aller hlijde þeirra Bode og Banne, hversu sem þad er oriett og o-
gudlegt, og þesse Varmeñe ottast Menn framar eñ Gud og hañs Sañleika, edur hvad
er tijdara eñ þad? Ad nær eiñ Lijtilmagne ꜳ vid eiñ Maktar-Mañ, þorer eingeñ Muñ-
ñum upp ad lioka, eingeñ Sañleikañ ad vitna, þeir hlaupa i Felur, og hafa adskiliañ-
leg Undañbrogd til þess ad Odyggdiñ verdi ecki stroffud, eñ Sañleikuriñ i Lioos leiddur,
ja, giefa sig helldur Fiandanum sijnum Fodur, helldur eñ ad þeir stygge hinn vollds-
uga, og jafnvel ꜳ stundum þann sem þeim kañ eckert Meiñ ad viña; ecke er þetta Christ-
enndoomur, bærelegra mun einum ærlegum Heidingia verda ꜳ Doomsins Deige,
Matth. 11. helldur enn þvilijkum Diofulsins Hamhleipum. Hvad kunna Menn þo
ad sia þad ꜳ einum daudlegum Mañe, hversu volldugur sem hañ er, ad Menn ottest
hañ meir eñ Gud? Hañ kañ ad fyrra þig allre þiñe Aleigu, þad gietur og Gud ꜳ Augna-
Bragde, hann kann ad steipa þier wr Heidre þijnum, mun Gude nockud bægt um þad
vera? Hañ gietur sett þig i Fiotur og Jꜳrn, Gud gietur sleigid þig med skiædum Siwk-
doome, hann gietur tekid Lijfid af þier, og er þo ecke hætt vid þvi Lande voru, eñ Gud
kañ ad deyda eilijfum Dauda, og setia þꜳ er hañ forsmꜳ, i þad Fꜳngelsi hvadañ eing-
enn Endurlausn er, Matth. 18. Hvert er nu meira? Eg vil taka til þess mesta Skad-
rædis er Meñerner kuña ad giora, þad er Daudeñ, eñ hvad er hañ hia Helvijti? Þad
er so ognarlegt, ad eg er viss um, ad ef nockur mætte sia Pijsler fordæmdra, munde
hañ hlaupa wt i Þusund Daudans Hættur, til þess hañ sæi þær alldrei optar, og þo flya
Menn med Seglum og Arum undann einne Vatns-Boolu, sem þo kann ecke
ad skada oss, nema ꜳ lijkhamlegre Velferd, og þad þo ecke framar eñ Gud leifir hanum.

Nu ef þu ætter allt þad er þu kiærast hefur ad missa, fyrer hvern er þier skylldara ad
missa þad? Fyrer Gud edur hinn ogudlega? Mun Madurenn hafa skapad þig? Hef-
ur hann giefid þier Lijfid? Hefur hañ forsorgad þig frꜳ Moodur-Lijfi? Hefur hann
giefid þier Gotz og Peninga? Hefur hann upphafid þig til Heidurs? Hefur hañ vernd-
ad þig og allt þad þier vidkiemur? Mun eige lijkara ad þu missir þad hanns vegna ef
missast skal, sem gaf þier þad i fyrstunne, og þvi hefur ollu vid Makt hallded, allt til þessa
Dags, helldur enn hiñs sem þier gaf eckert af þessu? Þvi þad hann kannskie gaf þier, þad
took hann af Guds, og jafnvel þo hañn hafi stolid þvi frꜳ Nꜳunganum, og er vijsast-
ur til ad taka þad frꜳ þier aptur og lꜳngtum meira, þad fyrsta honum rennur i Skap
vid þig, þvi so er Vinꜳtta Heimsins. Eg vil eige þar um tala, ad sꜳ sem hræder einn
til ad giora oriett einusinne, hann hefur hañ fyrer skulldbundeñ Præl i ollum Skom-
um og Odyggdum sijdañ, og vilie hañ ecke, þꜳ er honum Oluckañ bwen; þvi so plagar
Heimur þessi ad launa sijnum Þienurum; ja, hañ skal ecke vinna sier hiñ miñsta O-
hagnad til ad forsvara hañ ef hañ yrde af odrum þar um sooktur, helldur mun hañ svara
eins og Gydingar Judæ, hvad kiemur þad vid oss? Sia þu fyrer þvi, Matth. 27.
Og kuña þeir sier ecke betre Side, helldur eñ þeirra Foringe Diofulleñ, þvi so breiter hañ
vid þꜳ er honum tiænast til Þioonustu, hañ teiger þꜳ fyrst til Syndarennar, og launar

þeim sijdañ med eilijfu Helvijtis Bæle, og þañig er þad ad ottast Mennena framar enn Gud. Eñ hvernig launar nu Gud aptur þeim er stoduger standa i hañs Þionustu, og ecke ottast Mañeñ? Þad mæ oss af Dæmunum kuñugt vera; Hañ launar øllum good-um Launum bæde hier og eilijflega, satt er þad ad mørg eru til þess Dæme ad hañ hef-ur giefid sijna Astvine i Mannaña Valld, þo alldrei so ad hann ecke hafi verid þeim til annarar Handar. Eg er viss uñ ad St. Paull, er hañ stood fyrer Festo og Agrippa, Act. 26. hefur unad miklu betur Hag sijnum helldur eñ hver af hañs Aklagendum, hver-ia Reidiñ og Hatrid so plægadi ad þeir eyrdu eingu nema þeir feingiu honum i Hel kom-ed, annars hefde hañ ecke oskad þeim ad þeir væru þvilijker sem hañ. Þegar hañ hafde i 14. Daga hrakist i Siæfar-Olguñe, og aller orvæntu sier Lijfs, sende Drottenn sinn Engel til hanns, Act. 27. Og liet seigia honum, ottast ecke Paall, þier byriar ad koma fyrer Keysarann, og hversu ad hinn mættuge Gud hafi mættugur i honum verid fyrer Keysarans Doome, þvi lijser hann, 2. Tim. 4. seigande: J mijnu fyrsta Forsvare var eingenn hiæ mier, helldur yfirgæfu mig aller, eg oska ad þad verde þeim ecke til-reiknad, eñ Drotteñ var hiæ mier og styrkte mig so ad Evangelii Bodskapur yrde full-komnadur fyrir mig, og þad heyrdu allar Þioodir, og eg vard frelsadr af Muñi Leonsins. Og þo ad Gud tale ecke so bersijnelega vid oss æ þessum Døgum, so sem hañ þæ talade vid Paal, þæ talar hañ samt i sijnu H. Orde, og dregur allañ Efa af þvi ad sæ sem hon-um treyster i øllu ærlegu, øllu riettvijsu, øllu Guds Eyrende, hañ mun alldrei til Skam-ar verda, þo hann sijnest ad hafa oss i Mannanna Valld giefid uñ stundarsaker, þvi þad Ord stendur stødugt, Gud þecker þæ sem hanns eru, seiger Postulenn, 2. Tim. 2. Drottenn er minn Styrkur, eg ottast ecke, hvad mun mier Madurenn giora? Seiger David, Ps. 117. Eiñ goodur Fader þegar hañ hefur strijkt Barned, þæ kastar hañ æ stundum Vendenum i Elldenn og brenner hañ, og so breiter Gud vid Skælkana, hver-ia hañ brwkar optlega til ad hyrta sijn Børn med, þvi skylldu Menn þæ ottast þæ, nær Menn hafa so sterkann, so riettvijsann og so giædskurijkañ Forsvars Mañ sem Gud er? Þad mun gæanga þeim eins og St. Paall spæir, 1. Tim. 3. uñ Villu-Meñina æ sijnum Døgum, hvernig hañ samlijkir þeim Jañes og Jambres er mootstoodu Moysi, so stan-da þesser i giegn Sañleikanum (seiger hañ) fordiarfader Meñ i Hugskotum, fræhverfer Trwñe: Eñ þeir munu eige meiru framkoma, þviad þeirra Fæsiña mun øllum opeñ-ber verda so sem og hinna vard. Og þo ad Guds Astviner ecke eige ad fagna yfir O-lucku Fiandmaña siña, miklu helldur bidia Gud ad giefa þeim Leidrietting til Ydranar, sem Paulus bijdur, 2. Tim. 2 Og seigia: Verde þiñ Vilie, þæ samt er þetta ein obrygd-ul Huggun fyrir þæ sem reka Guds Eyrendi nær þeim mootmælt verdr, ad hañ er þeirra Styrkur sem ad jafnvel seiger til Siæfar-Hafsins: Hijngad skallt þu komast og ecke leingra, hier skulu þijnar stolltar Bylgiur leggia sig, Job. 38. nær vier erum i Vinætt-u vid hañ, þæ kañ eingiñ Ovinur ad granda oss, og nær hañ er Ovinur, kañ eingiñ Vinur ad hiælpa oss, þvi skyllde eingeñ voga hid miñsta moote Gude ad giora fyrer Otta edur

Elſku ſaker vid hanns Ovine, þeir vega aller minna enn eckert, Pſ. 39. J mier hafid þier Frid, enn i Heimenum hafid þier Angiſt, vered otrauder, eg heſi Heiminn yfirunnid ſeiger Freiſarenn, Joh. 16. Hvad kunna oſs Mennerner ad giora, oſſækia oſs, fi: flettra, hallmæla, bryxla og vanvirda; Eg vil þad allt þuſundſinnum helldur lijda, enn ad vita mier i minſta Mꜳta Von hañs Oblijdu, þvi ad flija undañ Mañſins Vallde undꜳr Guds Reide, þad er ad hlaupa undañ Snæ-Lioosinu til ad verda fyrer Reidarſlagenu, hverſu miklu betra er, jꜳ miklu gledelegra alla Hlute ad þola fyrer Chriſti Nafns ſaker, epter þeirre Mælingu ſem hañ velt ad ſierhver eiñ bored gietur, og oſs mun þarfſlegaſt, jꜳ, dijrdarſamlegaſt og fagnadarſælaſt verda, þꜳ vier munum i hanns Rijke med honum eilijfum Sigre hroosa, þvi hver ſem hitt wtvelur, hann mꜳ ad þeſſu tveñu vijſu gꜳnga, añadhvert eilijflega ad fyrerfaraſt med Heimenum, edur ad taka ſo mikla Ydran fyrer þad ſem hañ liet epter Heimenum ꜳ moote Guds Vilia, ſem kañ ad ſambiooda þeirre Ohamingiu er hañ hugdeſt ad umflija. Þad ſie fiærre ad eg ſelie þier mijna Fodurleifd ſagdi Naboth vid Achab fordum, 1. Reg. 21. er hann faladi hañs Vijn-Gard til Kaups; þad forbiode Gud, miñ Herra Jeſu, ad eg ſelie þañ himneſka Arf ſem þu hefur mier afrekad med þijnu allra-helgaſta Bloode, fyrer Veralldarennar Frid, hver ad er Reide og Fiandſkapur i giegn Gude; hvad er eiñ Vatns-Drope hiꜳ Siꜳfar-Hafinu? Hvad er eitt Sand-Korn hiꜳ allre Heims Bygdenne? Hvad eru Mootlætingar þeſſara Tijma hiꜳ þeirre Dijrd ſem vid Guds Born mun opennber verda? Rom. 8. Hvad er hin lietta Byrde þeſſarar ſtundlegu Armædu hiꜳ eilijfre Þijngd Dijrdareñar? Gud giæfi Meñ villdu hier um þeinkia, þꜳ munde þeim ſijdur ofbiooda allt Yfirlæte og Skarkaſe Verallarennar Sona, hverier ad eru eiñ Gufa er ſieſt um ſtundarſakir, ſeiger Jacob, Cap. 4. og hverfur ſijdañ, eñ ſꜳ eiñ er ſtadfaſtur ſim varpar allre ſiñe Ahyggiu uppꜳ hañ, ſem alltijd er hinn ſame, og hvers Ar ad þrotna ecke, Pſ. 102. Þar fyrer vil eg ſeigia med Poſtulanum: Eg em vel til Frids i Veikleikanum, i Forſmꜳnenne, i Naudunum, i Offooknunum, i Angiſtinni fyrer Chriſtum, þvi þꜳ eg em veikur, þꜳ em eg mꜳttugur. Þetta Siñe og Hiartalag virdſt þu O Gud! ad veita ollum þijnum Bornum ſem ꜳ þig vona, og beriaſt under Merkium þijns Sonar i Utlegd þeſſari, þar til þu iñleidir oſs i eilijfa Himnarijkis Viſt til ad medtaka þijn Nꜳdar Fyrerheit med ollum Guds Bornum. Veit oſs þad og gief himneſke Fader fyrer Arnan og Forþienuſtu þijns eingietens Sonar Jeſu Chriſti, Amen.

# A Hvijtaſunnu Hꜳtijd.

## Gudſpialled, Joh. 14. Cap.

OG Jeſus ſagde til ſinna Læreſveina. Hver hañ elſkar mig, ſꜳ mun vardveita mijn Ord, og Fader minn mun elſka hañ, og til hanns munum vid koma, og hiꜳ honum Viſtarveru giora. Eñ hver hañ elſkar mig eige, ſꜳ vardveiter ecke mijn Ord.

Ord. Og þad Orded sem þier heyrdud, er ecke mitt, helldur Fødursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur, a medann eg var hia ydur. Enn Huggarenn sem er hinn heilage Ande, þann er minn Fader mun senda ydur i mijnu Nafni, hañ skalsfur mun kienna ydur alla Hlute, og minna ydur a allt þad sem eg sagda ydur. Miñ Frid læt eg hia ydur, miñ Frid gief eg ydur, eige so sem Heimurenñ giefur, þa gief eg ydur. Ydvart Hiarta hryggest ei nie skielfist. Þier heyrdud þad eg sagda ydur, eg fer burt og kiem aptur til ydar, ef þier elskudud mig, þa gleddust þier vid þad, ad eg sagde ydur, ad eg fer til Fødursins, þvi ad Faderenn er mier meire. Og nu sagde eg ydur þad, ádur fyrre enn þad skiedur, so ad þier trydud þvi, þa ed þad være skied. Hiedann i fra mun eg ecke tala margt vid ydur, Þviad þessa Heims Høfdinge kiemur, og med mig hefur hann eckert, Helldur so ad Heimurenñ þecke þad eg elska Fødurenñ, og þad eg giøre so sem Faderenn hefur mier boded.

## Exordium.

I Exodi Bookar 25. Cap. Talar Drottenñ þannig um sijna Vist medal Israels Sona: Þeir skulu giora mier einn Helgedoom, og eg skal bwa a medal þeirra. O miñ Gud! Hvilijkir eru þessir þijner Velgiorningar? Þad mætte noog þykia ad øll Natturann ber Vitne um Guds O-wtsegiannlega Giædsku, ad Himinarner framtelia hañs Dijrd, og ad Festingenn kunngiører hañs Vegsemd, Ps. 19. So ad Menn kyñu ad leita ad honum af hañs Skiepnum, og ad hañ hefur ecke læted sig vera an sijns Vitnisburdar, þar hann veiter oss gooda Hlute, giefande oss Regn af Himne ofañ, og hagkvæma Tijma til ad bera Avoxt, uppfyllande Hiortu vor med Fædslu og Fognude sem Paulus seiger, Act. 14. Noog mætte allt þetta þykia seige eg, þo ecke hefde hin ogrijpannlega Hatign sett Boolfestu sijna medal syndugra Jardar-Madka, sem eru Dupt og Aska. Nu þyker oss þesse Vegseind Israels Sona forkunnar væn og vegleg, Br. mijner so sem hun og i Raun og Sannleika er; Enn vier høfum þo i Christo ollu meira þeiged, þvi Dijrd hinns sijdara Musteresins, sem er hanns Christne hier a Jordunne, hun er vordenn miklu meire enn hinns fyrra, so sem Drottenn spade fyrer Muñ sijns Þienara Haggæi, Cap. 2. Edur hver Hlutur ma þar vid jafnast, ad Orded vard Holld og byggde med oss, Joh. 1. Ad i einum Adams Syne bijr øll Fylling Gudddoomsins lijkamlega, Col. 2. Ad Guds eingietinn Sonur er hluttakande vordenn Hollds og Bloods, eins og Sñna-Bornenn, Ebr. 2. Enn þo ad þetta sie Upphaf og Grundvollur Heilsugiafarennar, þa munde oss ecke ad fullu stoda Holldtekia Drottenñs, nema hanns fødurleg Giædska hefde giort enn framar

vid

vid oss, og effter þad er hann lofade hia Zach. Cap. 6. seigande: Sia eirn Mann, hvers Heite ad er grænn Kvistur, hann mun bloomgast i sijnum Stad og uppbyggia Drottins eitt Mustere, 1. Cor. 3. Þad er Guds Kyrkia i Mannanna Hiortum, i hverium Christur bijr fyrer Trwna, Eph. 3. Og hann er þar sialfr Kiennemadr i sijnu Haasæte og Raad Fridarens a mille beggia, Zach. 6. Nu þo ad þesse Naavist Guds sie ollum Monnum frambodenn, þaa naade þad Drottenn, ad so faaer verda hennar hluttakande! enn hvad velldur þvi? Nema ad Menn leggia ei miog Kapp þar a ad innbiooda þessum Gieste. Vier hofum hanns Ovine inne hia oss, med hveriun hann vill ecke Samsæte eiga, þeim vilia Menn ecke wthijsa, og þvi missa þeir hanns Naalægdar og Velgiorninga, er so lynder eru: Enn so ad aller þeir ed leggia nockurn Hug a þetta, meige vita med hveriun Kostum honum meige innbiooda, þaa hefur Jesus þad sagt med berum Ordum i upplesnu Gudspialle, þar hann seiger: HVor Hann Elskar Mig, Sa Mun VARDVEITA Mijn ORD, Og FAder Minn Mun Elska Hann, Og Til Hanns Munum Vid Koma, Og Hia HOnum VJSTarveru GJora. Þesse dijrmætu Ord vil eg nockud framar yfervega fyrer ydrum Kiærleika, og af þeim framtelia þaa hellstu Hlute er eiga ad locka Hiortu vor til ad elska Gud hinn ypparsta Gooda, framm yfer allt annad. Hann virdest ad kveikia i oss sijna Elsku, so vier þetta Eyrende so framkvæmt gietum, ad honum sialfum lijke, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingenn.

HVær eru Verallder Br. M. Onnur sijneleg, i hverre vier lifum, onnur er þar uppe, hvadann vier væntum Frelsarans Jesu Christi, umm hveria St. Petur talar ad i henne mune Riettlæted byggia, 2. Pet. 3. Hina siaum vier mz lijkhamleguin Augum, þessa med Trwarennar, Þvi Trwenn er Vera þeirra Hluta sem koma munu, Hebr. 11. Og hun sijner þad sem ecke er sijnelegt. Hvert sem vier nu helldur rennum Saalarenar edur Lijkhamans Augum, og lijtum i krijng oss med Athygle nockurre, og Gaumgiæfne þeirra Hluta er fyrer oss bera, þaa gietur christenn Madur ecke hia þvi sneidt, ad elska Gud allra Hluta Skapara framm yfer alla Hlute. Lijt christenn Madur, a hinn fagra Skapnad Heims þessa, hversu kostulegur hann er, hann hafa heidner Menn a Latinu kallad Mundum, fyrer hanns Fegurdar Saker, og Grikker i sama Maata Cosmon, sokum hanns Prijde. Athuga hin fogru Himensins Lioos, hversu þeim er vijslega nidurskipad, þau hafa sinn afmarkadann Gang allt fraa Verallldarennar Upphafe, allt til þessa Dags, so alldrei hefr enn nu broted Noott nie Dag, Vetur nie Sumar, Hita edur Kullda i hagkvæmann Tijma, Gen. 8. Vird fyrer þier Naatturu Dijranna, Fuglanna, Fiskanna, Grasanna, hver so eru prijdeleg, ad Salomon i allre sinne Dijrd var eige so skrijddur sem eitt af þeim, Luc. 12. Enn seiged mier: Fyrer hvern hefur Gud allt þetta skapad? Seiger ecke David, Ps. 8. Þu hefur sett hann (Mannenn meinar hann) yfer þijn Handaverk, og lagt alla Hlute under hanns Fætur. Sagde ei Drottenn Gud i Upphafe Skopunar? Drottned yfer Fuglum Loptsins og Fiskum Siaafarens,

Gen. 1. Itrekade hann ecke hid sama epter Flooded vid Noa og hañs Epterkomend-
ur ? Gen. 9. Sagde ei St. Pꜳll, ad hann hefde af einu Bloode giort allt Mannkyn?
Act. 17. Ad þad byggde alla Jardar-Krijngluna, og hañ hafe afmarkad Tijmana ut
sijnu Bode, og sett Endemørk Byggdum Maña ? Seig mier, christeñ Madr: Hvern
skyllder þu helldur elska eñ þañ, er so vel hefur til þijn giort wt af einskiærre Giædsku
siñe, eñ eingre þiñe Forþienan ? Þyker þier nu nockud inndællt edur elskuverdt ꜳ þess-
um Guds Skiepnum sem hañ hefur lagt under þijna Fætur, þier til Nota og Epter-
lætis, þꜳ gleym' ecke ad elska hañ þo um̃ fram̃ alla Hlute sem þetta hefr þier giefed, þad
heiter ad fara aptan ad Sidunum, ad þacka Þienaranum, sem færer þad sem Hws-
boondeñ giefur, edur ad virda Ambꜳttena meir eñ Drottninguna. Eñ stærre Oriett-
ur er Gude gior i þvi, ad elska hanns Skiepnur fyrer þad gooda sem hann hefur sæmt
þær med, fram̃ yfer hann sem er Brunnur og Uppspretta alls hinns gooda. Lꜳt þvi
sꜳ christenn Madur, ad þu temier þier Lunderne St. Pꜳls, er hann sagde, Phil. 3.
Ad sønnu reikna eg alla Hlute Skada ad vera fyrer Yferburde Þeckingarennar Jesu
Christi mijns Drottenns, vegna hvers eg hefe alls ꜳ mis fared, og reikna Þreck ad
vera, so eg ꜳviñe Christum. Þegar þu hefr nu þañig hiñ meira Heim i giegnum skodad,
og þu sier eckert i hønum þad er ei drage þig jafnvel naudugañ til ad elska hiñ gooda
Gud fram̃ yfer alla Hlute þꜳ skoda og hiñ miña, sem er Madureñ, þad ert sialfur þu,
hañ er og med tvennu moote andlegur og lijkhamlegur. Lijt fyrst til þess lijkhamlega;
Hver hefur myndad þig i Moodur-Lijfe? Hver hleypte þier þar samañ eins og ødrum
Oste ? Joh. 10. Þad giørder ecke sialfur þu, ecke Forelldrar þijner: Þijnar Hendur
hafa giort mig og tilbwed mig seiger David, Ps. 119. Hver hefur leidt þig wt þadañ so
dꜳdsamlega i Lioos þessa Heims? Hver hefur giefed þier heilbrygda Sꜳl i heilbrygd-
um Lijkhama ? Alijt hversu þinn Skapnadur er vegsamlegre enn allra añara Dijra ꜳ
Jørduñe, hver þo ecke hafa Gud ꜳ neiñ Veg styggdañ, eñ þu reiter hann til Reide dag-
lega. Þocknest þier nu nockud ꜳ sialfum þier, og þyke þad vænt og veglegt sm̃ Gud hef-
ur til þijn lagt, so sem þad og er i allañ mꜳta, þꜳ lꜳt hañ þo fyrer gꜳnga er giørde þig
so veglegañ, og sæmde Drottnara allra Hluta under Himnenum, med siñe eigeñ Mynd
i fyrstu Skøpun. Athuga hvad hañ hefur þier meira giort, hañ hefur ecke slept þier for-
stødulausum iñ i Verøldena; J hønum lifer þu, ert þu og hrærest þu, Act. 17. Hann
hefur giefed þier alla Hlute ꜳnægiañlega til Notkunar, Act. 14. Hann lætur sijna H.
Engla, Ps. 91. þꜳ himnesku Anda þieona þier og vardveita frꜳ øllu vondu, øllum
Slisum, allre Ogiæfu, jafnvel midt i Syndeñe, hveria þu gietur ecke vid þig skiled alls
so leinge ad þu ert i Holldenu: Eru þeir ecke aller þioonustusamer Andar, seiger Post-
uleñ til Hebr. 1. wtsender þeim til Þioonustu er Sꜳluhialpena erfa skulu? Jꜳ, And-
skoteñ sialfur sagde epter Davids Munne vid vorn Frelsara, Matth. 4. þad sem satt
var, og þo i illre Meiningu; Skrifad er, sagde hañ, ad hañ mune biooda Englum sijn-
um um̃ þig, ad þeir bere þig ꜳ Høndum sier, ad ecke steiter þu Foot þinn vid Steine.

Seig

Seig mier: Hver finna Vina edur Vandamaña tekur so Vara ꝏ þier, hverium er so mïog um̃ þig hugad? Skullder þu ecke hata Fodur og Moodur, Syne og Dætur fyrer hañs Skulld, Luc. 14. ad þu mætter verda hañs verdugur. Elska þvi ecke jafnvel þitt Lijf allt i Daudañ hañs vegna, sem þier hefur Lijf og Lijkhama giefed, og vert miñugur þess er Christur seiger, Matth. 10. Sꝏ sem fiñur sijna Sꝏlu, hañ mun tapa heñe, og sꝏ sem tapar Sꝏlu sinne miña vegna, hann mun finna hana. Eg vil ei margt tala um̃ Sꝏlena, sem er hiñ ædre Partur vors Skapnadar, miñst ꝏ christeñ Madur, hvad añ þu ert, Lijkhameñ er ad soñu af Leyr Jardar, eñ Sꝏleñ af Gude (med hveriu moote veit hañ best sialfur) og mest fyrer þꝏ Skulld seiger Lucas 3. Cap. Ad Adam hafe Guds Sonur vered, þvi sialfur Gud blies lifande Anda i Mañsins Naser, Gen. 2. Ef vier erum nu skylduger ad elska Fodur og Moodur, af þvi þau hafa oss gieted og fædt i Heim þeña; Hvad miklu framar er þad skylldugt, ad vier leggium alla Ast ꝏ hañ, af hvers Dijrdar-Liooma vier og vor Ande i Fyrstuñe kveiktur er. Vel talar St. Pꝏll hier um̃, Act. 17. seigande: Nu, þar vier erum Guds Affspreinge, þꝏ byriar ad vier ei þeinkium, ad Gud lijkur sie Gulle og Sylfce edur Steinum, nie vel smijdadre Lijkneskiu edur Maña Þaunkum. Eñ so sem þad er ovidurkvæmelegt, sem Postuleñ hier um̃ talar, so er þad og Afgudadijrdkun stoor og merkeleg Gudlostun, ad elska nockud af þessu jafnframt honum, og mꝏ þad ollum heilvita Monnum sialfsagt vera, hvllijkur Glæpur þad sie ad lꝏ so gofugañ Hlut sem Sꝏleñ er, til Þrælkunar Syndeñe, edur Veralldareñar Munum, hver ed mun fyrerfarast med ollu þvi sem i heñe er, þar fyrer amiñer Johañes nærsta heilnæmlega, seigande: Elsked ecke Heimeñ, nie þad sem i Heimenum er; Ef nockur Heimeñ elskar, þꝏ er ecke Kiærleike Fodursins i honum, 1. Joh. 2. Eñ Gud, af hverium Sꝏla vor innblꝏseñ er, hann blijfur, og hañs Ar þrotna ecke, Ebr. 1. Athuga hin skynlausu Dijreñ, þo þau sieu dꝏdsamlega skopud, þꝏ hafa þau ecke Skyn ꝏ þeim Hlutum er fyrer þau bera; Ei rañsaka þau sitt Edle, ecke er Framsijne hiꝏ þeim mikel, eingeñ Hæverska, Sidseme, Adgreining goods edur ills, og allra sijdst Þecking Skaparans. Skyllder þu nu ecke syndugur Madur elska hann fram̃ yfer allar Skiepnur? Er so miked meira hefur lagt til þijn helldur enn añara Skiepna, sem ad Sooleñ er Saurnum biartare, þar Madureñ er eitt Dijr fullt af Rꝏde og Skilninge, hañ kann Grein ꝏ illu og goodu, hañ gietur wtvaled hvert hañ vill, hañ veit hvad soomer edur ei, hann einn kann ad læra ad þeckia Vilia sijns Herra, hann hefur uppfunded allañ Hagleik, allar Kunster og Lister i Heimenum, hann hefur wtreiknad Himensins Hlaup, og veit Tijma og Stunder fyrerfram̃, hann skygnest inn i Leynda-Dooma Nꝏtturunnar, so ad Guds o-wtseigianleg Vitska, sem Nꝏtturuna hefr skapad, wtbrijtur sig i Skynseme Mannsins um̃ allt Nꝏtturunnar Rijke, epter þeim Mꝏta sim̃ hun fær vidteked i þessum daudlega Lijkhama; Eñ þo er þad fyrer ollu, ad hun þecker Gud siñ Skapara, og ꝏ hañ Kost ad trwa ꝏ hañ sier til Mykunar og Sꝏluhialpar, i hveriu ad er iñefaleñ Endurskopun hiñs iñra edur andlega Mannsins.

Þeink til þess christeñ Madur, ad þu fædest i þeña Heim Reideñar Barn, og daudur i Syndunum, Eph. 2. Þvi hvad sem af Hollde er fædt þad er Holld, Joh. 3. Eñ Hollð og Blood erfa ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Eñ Gud hefr af oumrædelegre Elsku til þijn, endurgieted þig til eiñar lifande Vonar, 1. Pet. 1. og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. so þu meiger Guds Barn kalladur verda og Samarfe Jesu Christi, og til þessa hefr hañ ecke vared Gulle nie Silfre, helldur sijns eingietens Sonar dijrmætu Bloode, þvi so seiger Paulus, Act. 20. Ad Gud hafe med sijnu eigeñ Bloode Hiordena endurleyst, og þetta giorde hann þegar þu enn varst hañs Ovinur, Rom. 5. Madureñ maatte seigiast aan Guds i Heimenum epter Falled, so sem Paall um Heidingiana talar, Eph. 2. aadur enn Gud took Adam i Saatt aptur. Allt hanns Hyske maatte kvijda vid ad deya, eñ skamast sijn ad lifa, eñ hañs o-utseigañlegu Giædsku og hinum diupu Myskunar Ydrum, (i hverium hann vitiade vor uppruñeñ af Hædum, Luc. 2.) Þeim er ad þacka ad vier hofum frijañ Tilgaang til Haa-Stools Myskunareñar, Act. 5. og skomunst vor ecke, þvi hañ skamast sijn ecke ad kalla oss sijna Brædur, Ebr. 2. Vier kvijdum ecke vid Daudanum, þvi hvert sem vier lifum eda deyum, þaa erum vier Drotteñs, Rom. 14. Og þo vier deyum sem aa hañs Nafn truum, þaa skulum vier samt lifa, so vier erum þess fullorugger, ad hverke Daude nie Lijf, hverke Englar nie Hofdingia-Stiett, nie Vellde, hverke Hæd nie Dypt, eda nockur oñur skopud Skiepna, fær oss skiled vid þañ Kiærleika sem er i Christo Jesu Drottne vorum, Rom. 8. Hvad sijnest ydur, Br. M. skylldum vier ei biooda honum allar Aster, er vier hofum so otelıande Velgiorder þeiged af? Hañ ed fyrergiefur oss daglega so margar Synder, hañ ed ecke vill gleyma oss, þo ad Mooдureñ gleyme sijnu einasta Barne, Es. 49. Hvers Hiarta ad brestur so hann hlijtur oss myskunsamur ad vera, Jer. 31. Þad fyrsta vier snuum oss til hañs ... ollu Hiarta. Þañig breiter hañ vid vorn innra Mann, og so sem hann forsorgar þañ ytra edur Lijkhamañ, so lætur hañ ecke helldr hinn aan Forsorgunar. Þad kieñer Jesus oss i Textanum, er hann seiger: Hver Sem Elskar Mig, Hañ Vardveiter Mijn Ord. Matur er Mannsins Meigeñ, seiger Ordtæke gamallt, eñ so sem Lijkhameñ ecke þrijfast kañ aan Fædsluñar, so kañ og ecke Saaleñ aan Guds Orda, þvi þau eru heñar Foodur; Þar fyrer seiger Endurlausnareñ ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Er saa nockur er elskar einhvern, ad hann hate hañs Maal? Fiærre er þvi, helldr kieppumst vier vid ad eiga sem optast Tal vid þaa er vier unnum vel, þar fyrer, ef vier seigumst Gud elska, þaa afrækium ecke hañs Ord. Meñ hallda ad saa Lijkhame sie ecke heilbrygdur sem velger vid Matnum, og hverium hañ verdr ecke til Notkunar; Dylst og ecke þat vid christeñ Madur, ad þijn Saala er ecke heilbrygd, og ecke elskar þu Gud, so sem byrjar, ef þu hefr Leida aa hañs Orde, og þykia þeir Tijmar leingster er þu aatt ad hlijda þvi. Eñ hvad seiger Paulus hier um? 1. Cap. 16. Bolvadr vere saa sem ecke elskar Drottenn vorn Jesum Christum, þad er, hann mun eilijflega fyrerfarast, og ecke einasta er þad Merke þeirra er Gud elska, ad þeir vardveita hañs Ord, helldur er þad Avoxtur hañs

Elsku. Enn hvad er ad vardveita hanns Ord? Pad er ad giora epter þeim,ef ecke ad fullu, þvi pad er syndugum Manne omøgulegt, samt eigum vier ad leggia alle Kapp þar a,enn Elskann til Guds er ecke ydiulaus, hun orkar þvi,ad Guds Bodord verda ecke þwng, so sem Johannes seiger, 1.Pist. 5. So ad hver sem Gud elskar,hann hefur sijna Lysting i Logmaale Drottenns,og talar um hanns Vegu Daga og Nætur,Ps.1. Verdur so Ydkanenn ad Nattúru fyrer þeim sama Manne,og hañ um sijder einn Ande med Gude, 1.Cor.6. Endurnijadur epter Mynd þess er hann skapad hefur, Col.3. Enn þvi velldur Elskann til Guds, ad oss þyker Fæda þesse sætare enn Huncang og Hunangs Seimur,Ps.19. sem Von er til,þar vier finnum i þvi Krapt epterkomande Alldar, Hebr.6. nær vier tijnum þaa Molana er detta af þvi himneska Borde,med Trwarennar Munne. Þvi skylldum vier þaa ecke um alla Hlute fram̃ stunda Elskuna til Guds er so margt gott med sier færer.

Eg vil ei tala um̃ þad,er hier stendur i Gudspiallenu: Og Fader Minn Mun Elska Hann. Eingenn kann ad seigia þad,hvad gott þad sie ad vera elskadur af Gude,nema hann,sem Gud elskar; þvi ef nockur elskar Gud,hann er fæddur af honum seiger Paall, 1.Cor.8. Og þegar riett-trwud Manneskia hefur sijna Unadsemd i Drottne,og gledur sig i hanns Elsku meir enn i nockru Giestabode,þaa finnur hun hversu gott er ad vera af Gude elskadur,þviad vor Elska a Gude,er Avoxtur hanns Elsku til vor,þær kunna ecke ad skilia helldur enn Soolen̄ og Byrtan̄,þad vottar saa Læresveiñ sem Jesus elskade, 1.Pist.4. Vier elskum hann þess vegna,ad hann elskade oss fyrre. Hver sem þeinker med sier, hversu vijs, hve mattugur, hve giædskufullur, hvad obrygdull,hversu trwr ad Gud er,hann mun seigia ad Abraham hafi goodur Hlutur i Skaut fallid,þegar hann var Guds Vinur kalladur, Jac.2. Enn ecke atte Abraham, ecke Lazarus, Joh.11. Ecke Postular Christi,Joh.15. alleina þetta Nafn,helldur aller Abrahams Syner epter Andanum, Rom.4. Pad eru aller riett-trwader sem elska Gud, þeir eru eins vel til þess borner,þeim tilheyrer um̃ Alldur og Æfi þad Fyrerheit er Gud gaf Abraham,Gen.17. Ad hann villde vera hañs Gud og hañs Sædis epter hañ; þann vantar faatt sem Konungureñ elskar,hañ gietur sæmt hañ med Tign og Heidri,hañ gietur veitt honum Fullsælu Fiear,hañ gietur laated hañ lifa ad Munudum sijnum, epter þvi sem hann er lyndur til,eñ þo gietur hañ ecke giort hañ fullsælañ,ei megnar hañ ad faa honum alltijd Heilsuna aptur ef hun missest,ei gietur hañ giefid honum Samviskuñar Frid,og allra sijdst maa hann honum Himnarijked veita. Eñ hvad vill hann vanta sem Gud hefur til Vinar,hann rædur einn fyrir ollu þessu. Eg veit Menn seigia,ad Guds Viner sieu optlega vesæler, siwker, saarer, ofsookter, underþryckter,og a alla Vegu adþreingder; Enn þad er eckert Stoormerke fyrer Gud, ad hann laate Vine sijna una vel Hag sijnum, nær þeim ad Oskum geingur eins og Abraham, Isaac, Jacob, David,Salomon og adrer fleire,enn þegar hañ lætur Postulana,ganga glada wt fraa Raadenu nær þeir Hwdstrykter voru,Act.5. Þaa Daniel sijngur Guds Lof i Leona-

Grofiñe, Dan. 7. Þa Paulus og Sylas eru̇ kꝏtir i Myrkva-Stofuñi, Act. 16. Þa
sia Meñ hversu goodur hañ er, hversu hañs Elska viñur alla Hluti, hvilijkur sa Fridur
eñ er sem Verolldiñ ma ei giefa, og hvad mattugur hañs Kraptur er i Breiskleik-
anum. Gud nadi ofs auma synduga Meñ! hvad viñum vær ecke fyrer Hiegooman
i Verolldeñe, sem ofs lyster til? Hvad sparar hiñ stoorlꝏte fyrer Metord? Hinn A-
giarne fyrer Aud? Hinn heiptræki fyrer Topun Ovina sinna? Og sinn er vid hver-
Heimskuna bundeñ, og þegar Meñ eru so med miklu Erfide komner til añars meira,
þa gieta þeir þo ecke sagt: Et og dreck Saala mijn, Luc. 12. Og Dijred a Morkeñe
sem hefur sitt Fooſtur, er sællra eñ þeir, þvi þad ber ei Ahyggiu fyrer Morgun Deigen-
um, eñ ad na Guds Vinattu, hyrda so fꝏer uñ, jafnvel þo þa sie allt feinged, þa
hun er feingeñ, þvi hañ elur Oñ fyrer sijnum og veit hvers ad þeir vid þurfa. Allt þetta
fꝏrer Guds Elska med sier; eñ uppa þad ad Frelsareñ lꝏte ofs vita hversu heitt hañ
elskar þa er hañ elska og varveita hañs Ord, þa seiger hañ hier: Og Til Hañs Mun-
um Vid Koma Og Vistarveru Hia Honum Giora. Er ei so, Br. M. ad vier heim-
sækium þa giarnañ er vier kiæra hofum? Epter þessum miañlega Plagsid talar Christ-
ur, hañ þarf ecke ad ferdast laanga Vegu til ad heimsækia ofs, þvi hann er Gud, hann er
allstadar, hañ er ecke laangt fra sierhveríum einum af ofs. Enn Frelsarinn kallar hier
ad koma til vor, þegar hann kiemur med sinne Verkan og Afstgiofum i Hiartad; hann
hafdi skomu adur sagt i þessum Capitula: Eg mun bidja miñ Fodur ad hann sende
ydur Auda Sañleikßins, sa er blijfi hia ydur ad eilijfu, Joh. 14. Eñ hier seigest hañ a-
samt Fodurnum vilia sialfur koma, so sem Von er til, þvi hvar Fader og Sonur er,
af hverium Andeñ framgeingur, þar er og sialfur Andenn. Christur seigest vilia sijna
sig þeim er sig elska, eñ hañ sijner sig ecke nema fyrer H. Auda, þvi hann er þad, er vitnar
uñ hann og leider ofs i allann Sannleika. Þegar þu nu, christenn Madur, situr under
Heyrn Guds Orda, og þu fellst a þad sem þar er af Guds Alfu talad; þegar þu ydrast
þinna Synda, sem þier verda þar fyrer Augunn leiddar; þegar þu trwer þo, ad hvar
sem Syndenn yfirgnæfir, þa mune Nadenn yfirgnæfa miklu framar, Rom. 5. Þegar
þu fær Leida a Syndenne og kappkostar ad lifa nyum Lifnade; þegar þu i Mannraun-
unum fær Huggun nockra af þeirre Sælu-Von sem þeim er heitenn, er bera Krossiñ
epter Christo; Þegar þu hræreſt til Medaumkunar yfir hinum volada, og til Vand-
lætingar moote hinum ogudlega, nær þitt Hiarta brennur i þier, Luc. 24. Er hann talar
vid þig i sijnu Orde, og þu vid hañ i þijnum Bænum, þegar þu wteys þijnu Hiarta fyr-
er honum, og hañ eys þar iñ aptur Hugsvolun sijns Anda; og i einu Orde ad seigia,
þegar þu fiñur i Hiarta þijnu Elskuna til Guds og Naungans, sm alldrei kuña ad skilia,
þegar þu allt þetta fiñur, þa matt þu fullviss uñ þad vera, ad oll heilog Guddoomsins
Þrenning er ad Vistum med þier, og þu kant ecke ad fara a mis vid þad, ad þu siert
Guds Barn, Rom. 8. Ecke einasta seigest Endurlausnareñ asamt sijnum Fodur vilia
koma til vor, helldur Vistarveru hia ofs giora. O! hvilikt er þetta, Br. M. Hvadann

kiemur mier þad ad Mooder Drottens mijns kiemur til mijn? sagde Elisabeth fordum vid Mariam, Luc. 1. Eñ meir er þad ad sialfur Drotteñ Drottnaña vill til vor koma; ecki so sem hañ kom i Holldid med Þrælß Mynd, helldur med sijnum Guddooms Krapti i vor Hiortu; eñ þad er eñ þa mest ad hañ vill Vistarveru hia oß giora. Þegar vorer Viner heimsækia oß, þa tefia þeir siallda leinge, og þeß kiærare sem þeir eru oß, þeß meira Angur láta þeir oß epter ad Skilnade, eñ Christur hefur lofad, ad hañ vilie ecke láta oß eper eina, helldur vera hia oß allt til Veralldareñar enda, Matth. 28. Ef vier yfirgiefum hañ ecke, þa mun hañ oß alldrei yfirgiefa, nema vier slockvum Andañ, 1. Teß. 5. þa mun hañs Lioos i oß æfiñlega breña, og vier i vorum Anda gloandi verda. Vorer Viner giora oß kostnad, þa þeir vitia vor, jafnvel þo þad telie eingenn epter þeim sem hann elskar; enn hinn almaattuge og alleina rijke Konungur Dijrdarennar er ecki kostnadarsamur þar sem hañ er ad Heimbodi; hann færer oß allß Nægtir med sier, þvi allt Sylfur og Gull er hanns, og oll Dijriñ a Morkiñi, Ps. 50. Ecke vill hañ neinum tilseiga ef hañ hungrar, eñ ef hañ lætur sijna Elskendur vanta þetta, so sem hañ opt giorer, þa giefur hañ þeim i stadinn Allsnægta; þad Siñi er lætur sier sijna Luckn nægia, hvad St. Paall kallar Aviñing Gudhrædsluñar, 1. Tim. 6. Og þau þiggia eins vel af honum eiñ Bita Braudß, so sem full Hwß Audæfa. Þegar Christur umgieckst hier a Jordunne, kom hañ alldrei so i nockurs riet-trwadß Mañs Hwß, ad hann ei kiæmi med Bleßan. Hañ var eñ ecke i Heimeñ boreñ, þa hañ kom i Hwß Zachariæ og Elizabethar, og þau asamt Barnenu i Moodurkvidi fylltust af heilogum Anda, Luc. 1. Hañ kom i Hwß Peturs og færde Moodur hañs Heilsu sijna, Matth. 8. Hann kom i Capernaum og gaf hinum Limafallssiwka sijnar Synder kvittar, so hañ spratt upp og gieck, Matth. 9. Hann kom i Jairi Hwß, og færde hanns Doottur Lijfid aptur. Hann kom i Landsalfur Tyri og Sidonis, og rak Diofuliñ wt af Doottur hiñar Canaanisku, Matth. 15. Hann kom i Hwß Zachæi, og gaf þvi Hwsi Velferd a þeim sama Deige, Luc. 19. So þad maa satt um hañ jaata sem Petur sagdi, ad hañ hafi geingid um kring, giort gott, og grædt alla sem underþryckter voru af Dioflinum, Act. 10. Enn ef hann þvilijkt giorde þegar hann bar vorar Synder og erfidade i þeim, Es. 43. Hvad miklu stærre Hlute mun hann nu giora, þar hann situr til Kraptarens hægre Handar, og er þo ad Vistum med oß asamt Fodur sijnum og H. Anda? Hier um maa eg seigia eins og Paall, Rom. 5. Ef vier erum sætter vid Gud þegar vier vorum hanns Oviner, fyrer Dauda hañs Sonar, þa munum vier eñ framar nu i Saatt komner hoolpner verda fyrer hañs Lijf. Gud bleßade ObedEdom medañ Ork Drotteñs var i hañs Hwsi, 2. Sam. 6. Hier er Ork Saattmaalans a millum Gudß og Mañá Jesus Christus, sem er Naadar-Stooll fyrer hañs Blood, Rom. 3. Hvada Bleßan mun honum ecke fylgia? Mig skal þad ecke undra þo ad Gudß Bornum i hverium hañ bygger, þyke lijted koma til Yfirlætis Veralldareñar, þar hañ sem bijr i Himnenum, hverium ad þioona Þusund og tijusiñum Hundrad Þusund H. Engla, hann hefur bwed sier Vist;

Þeirra Hiarta hier a Jorduñi, sem hañ elska og hañs Ord vardveita. Þesse er su oñur Verolld, er eg i Upphafi talade uñ, hver ed uppbyriast hier i Naadenne enn fullkomnast sijdar i Dijrdenne, þaa Gud verdur allt i ollu, uñ hveria Esajas Spaamadur Cap. 64. og Paall Postule samsaga verda, Cor. 2. Ad þad hafi ecke Auga sied og ecke Eyra heyrt, og ei hafi þad i nockurs Manns Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hafi þeim fyrerbwed er hann elska. Hana ad byggia, hennar niootande ad verda, og i henne eilijft Lof ad sijngia vorum Gude, sem oss hefur Sigurenn giefid, unne oss sialfur hann fyrer Son sinn Jesum, AMEN.

# Annann Dag Hvijtasunnu.

Gudspialled, Joh. 3. Cap.

Jesus sagde til Nicodemum. So elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ eingietiñ Son, til þess, ad aller þeir sem a hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur ad þeir hafi eilijft Lijf. Þvi eige sende Gud siñ Son i Heimeñ, ad hañ fyrerdæmde Heimenn, helldur ad Heimuriñ frelsist fyrir hañ. Hver a hañ trwir, fyrerdæmist eige. Enn hver hañ trwer eige, hañ er nu þegar dæmdur, þvi hañ trwer ecke a Nafn eingietins Guds Sonar. Enn þessi er Doomurenn, ad Lioosid kom i Heiminn, og Mennernir elskudu meir Myrkrid enn Lioosid, þviad þeirra Verk voru vond. Hver sem illa giorir, hann hatar Lioosid, hann kiemur og eige til Lioossins, ad eige straffist hanns Verk. Enn hver sem Sannleikann giorer, hann kiemur til Lioossins, so hanns Giordir verdi kunnar, þvi þær eru i Gude giordar.

Exordium.

Drwudum er allt mogulegt, seiger Ritningenn, Marc. 9. Þad hefur Christenn doomureñ fram yfir adra Speke, ad hañ verkar alla Hlute med Guds Krapte. Sijnast mætte ad Abraham Fader Trwadra hafi vered nockud holldlega sinnadur, þegar hann sagde vid Gud, er hann hiet honum sinne Giædsku; Hvad villt þu giefa mier? Eg em barnlaus, Gen. 15. Þviad i þad sinn hefur Guds Vinur ecke lited nema epter tijmannlegre Farsælld, enn Gud giorde betur vid hann, þvi hann þeckte hañs Hiarta, og gaf honum ecke einasta eiñ Son vid eiñe alldradre Kvinnu, Gen. 21. helldur og þar ad auke einn Son af hanns Lendum, i hverium ad blessadar eru allar Þiooder, Gen. 22. Þad er Jesus Christus, Matth. 1. Gud blessadur um Allder, enn þo fæddur af Fedrunum epter Holldenu, Rom. 9. Sa sem hann a, hann er alldrei barnlaus, alldrei arflaus, alldrei hialparlaus, þvi hann a þann, hver ad er Drottenn sem er maattugur til ad hialpa, hverium Gud hefur giefid Endemork Veralldarennar til Arfleifdar, Ps. 2. Þad Barn sem oss er fædt og þann Son sem oss er giefinn,

Vieslnn, aa hvers Herdum ad er Hofdingia-Doomurenn, hvers Nafn hann kallar und-
arlegur, Raad, Hetia, Styrkur, Fader Eilijfdareñar, Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Þeña
sinn eingietiñ Son seiger sialfur Sonurenn ad Faderinn hafi wtgiefid fyrer Heiminn i
þessa Dags Evangelio, til þess ad aller þeir sem aa hann trwa, skule ei fyrerfarast,
helldur hafa eilijft Lijf; Af hverium dijrmætu Ordum eg vil tvennt hugleida. 1.
Hversu vegleg ad sie þesse Gaafa. 2. Hvar til hun gagne oss.

Þu goodi Gud, sem oss hefur hann sialfur overdugum giefid, styrk oss med Naad
þijns Anda, ad vier mættum þetta dijrmæta Eyrende so frañkvæma ad þier lijke,
fyrer Jesu Christi Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Meñ plaga ecke alleina ad virda eina Gaafu af þvi, hversu dijrmæt hun er i sialfri
sier; helldur og hinu, af hveriuñ hun er giefiñ, og med hveriu Giedi ad hun er
wtilaatenn: Eg virdi meir þañ Skeink sem giefiñ er af Konungenum, helldur
eñ af mijnum Lijka, og sa er mier hvad kiærastur, er eg þigg af Fødur mijnum edur Vin
þeim sem er eins og sialfur eg. Nu heyrum vier i Textanum, ad þesse Astgiøf sie fraa
Gude komiñ, eckert kañ þvilijkt ad seigiast edur nefnast, so miklu ædre sem Gud er ollum
sijnum Skiepnum, so miklu er þesse Skeinkur dijrdlegre ollu þvi er adrer giefa, eige
sijdst fyrer hañs Skulld sem giefid hefur. Land-Stioornarenn i Epheso, er hañ villde
stilla til Frids Borgar-Mwgeñ, sem Demetrius hafdi uppæst aa mooti þeim St. Paale,
Act. 19. Hañ kañ eckert gylldara til ad sefa þaa med eñ þad, ad hañ sagde, ad Bijlæte
hiñar miklu Dianæ i Epheso væri af Himnum ofañfallid. So var nu Andskotiñ kropt-
ugur i Bornum Vantrwarennar, ad Heidingiar skipudust alleina vid þad, sem aadur
vorn so olmer ad Ærslum giegnde, af þvi þeim þootte þad Soomi so mikill, ad þeirra
Vulltrwe skyllde fraa Himnum komenn vera. Ættum vier þaa ecke, christner Meñ, ad
leggia hina mestu Vyrdingu, Ast og Elsku aa þad sem vier vitum komed vera fraa hinum
sanna Gude, hver ed ollu stioornar bæde aa Himne og Jordu, og jafnvel þad sem vier
aa ollum hañs minstu Gaafur, sem þo eingar litlar eru, auk helldur þad, ad hañ hefur giefid
oss sinn Son. Jacob seiger, ad oll good Giof og oll fullkomenn Giof kome ad ofann
fraa Fødur Liosaña, Jac. 1. Eñ af hveriu Giede ad Fader Liosanna hafi oss giefid
þessa Giof sem er ollum meire, þad seiger hann oss sialfur i Gudspiallenu med þess-
um Ordum: So Elskade Gud Heimeñ. Laangt vorum vier fraa þvi synduger Ormar,
utlæger fraa Gude og hañs Helgedoome, ad þad være nockurt hiaa oss nema Syndeñ
ein er mætti hræra Gud til Medaumkunar, auk helldur hañ kyñi ad elska oss fyrer nockra
vora Verdskulldan edur Agiæte. Mañeskiañ var so aa sig komiñ epter Synda-Falled,
ad Ritningeñ talar þar so um epter mañlegum Plagsid, Gen. 6. Gud ydrade þess ad
hañ hafdi Manninn skapad, og samt elskadi hann oss þo so, ad hañ gaf oss ecke nockra al-
meñelega Gaafu, so sem þegar hann lætur rigna yfir vonda og gooda, og Soolina upp-
renna yfir raanglaata og riettlaata, Matth. 5. Helldur sinn eingietenn Son, og þad ad

fyrra Bragde, aadur enn vier høfdum Vit aa, edur nockra Atburde til ad elska hann. J þvi er Kiærleikureñ, seiger Johannes, 1. Pist. 4. Cap. Ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hañ elskade oss og wtsende siñ Son til Forlijkunar fyrer Synder vorar. Eg ætla ad vorum fyrstu Foreldrum yrde nærsta Raadfaatt i Paradijs, þegar þau høfdu Gud styggdañ, mundu þau hafa nockra Vidleitne ad blijdka hann? Mundu þau gieta hitt uppaa þetta guddoomlega Vijsdooms Raad? Ad Gud skyllde Madur verda til þess ad forlijka Heimeñ vid sialfañ sig, svavijs voru þau til þess, Atburderner voru þeir einer ad fela sig, þvi þau voru nakeñ, Gen. 3. Og ad bera Skulldena af sier hvert uñ sig, þesse voru Urrædeñ einasta. O hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Speke! Rom. 11. Sneiña brautst wt hin guddoomlega Elska af hañs Hiarta, strax er hañ hafde lagt hiñ riettvijsa Doom aa Manneñ ad hann skyllde deya, lagde hann þaa lyknarfullt Boot med, ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Høfud, Gen. 3. Þetta sitt myskunar-rijka Fyrerheit hefur hann efnt i Sendingu sijns eingietens Sonar hijngad i vort auma Hold fæddañ af Kviñuñe, eñ þaa þegar vier vorum hañs Ovinner, Rom. 5. þegar vier eñ þaa vorum dauder i vorum Syndum, þesse er hin guddoomlega Elska er Drotteñ prijsar hier i Gudspiallenu, og þad ecke uñ Skør fram, þvi Paulus talar hier uñ, Rom. 8. Ad Gud hafe ecke þyrmt sijnum eingietnum Syne, helldur giefed hañ wt fyrer oss alla, hann sparade hañ ecke til ad fædast i Armood, ecke til ad verda Land-Flootta, ecke til ad þola Skañer og Hæduṅgar af þeim sem hañ took undañ eilijfre Skøm og Hædung, ecke til ad lijda Krossens Dauda fyrer þaa er hañ deyddu, og ecke til ad þola Helvijtis Pijsler fyrer þaa sem høfdu giørt Samband vid Daudañ og Saattmaala vid Helvijte, Esa. 28. Hañ sparade hañ ecke fyrer Syndena sem Gude alleina illa lijkar, Ps. 5. helldur giørde þann, i hverium hønum alleina velþocknast, ad Synd, jafnvel þo ecke visse hann af Synd, 2. Cor. 5. Eingeñ elskar nockurn meir enn þad, ad hañ giefur sitt Lijf wt fyrer hañ, seiger Lausnareñ: Eñ Gud elskar siñ Son eins og sitt eiged Lijf, þviad hañ er Lioome hañs Dijrdar, Hebr. 1. Hann er saa sem er i hañs Skaute; Eñ fyrer þvi, ad Gud kuñe ecke einsamañ ad deya, liet hañ sinn Son deya i mañlegu Hollde, i mannlegre Naatturu er hañ af Fedrunum hafde. Hver fyrer þvi ad i hønum bijr øll Fylling Guddoomsins lijkhamlega, Col. 2. Þaa heiter hañ saa Madur sem hønum er nærstur, Zach. 13. Jaa, hañs Sonur, jafnvel epter Manndoomenum, ecke eiñ Sonur, er sie Ættleidingur, so sem vier erum fyrer hañs Skulld, helldur Guds himneska Fødur naatturlegur Sonur fyrer Jbwd Guddoomsins, þvi Texteñ seiger, ad hann hafe wtgiefed sinn eingieteñ Son. Hvad ecke aa ad skiliast epter Guddoomenum alleina, helldur og epter Manndoomenum eingu sijdur, þviad i hønum hefr hañ Kvøl og Dauda lided, og allt þad er hañ vañ til Arnadar og Myskunar syndugu Mannkyne. Eingeñ vill missa siñ Son, Jacob villde ei voga sijnum yngsta Syne i þaa Hættu, ad laata hann fara med sijnum Brædrum ofañ til Egyptalands, þo þeir neyddu hann þar uñ, Gen. 42. og þeim læge Lijfed aa. Enn Gud gaf oss siñ Son

o-bedeñ, og ofurselldi hañ i Daudans Kvol fyrer oss, sem ecke vorum Syner, helldur Reideñar Born og af Natturuñe til Satans Prælar, Eph. 2. Kvinnañ sw sem umgetur, 1. Reg. 3. Hun villde helldur ad sw sem ecke var Mooder skyllde eignast sinn Son, helldur eñ Lijfed være af honum teked, so miog elskade hun sitt Lijfs Afkvæmi, hun villde viña þad til, ad Ovina sijn mætte hafa Glede af Barnenu, so þad mætte þo Lijfe hallda, þvi heñar Yður tendrudust upp sijns Sonar vegna, seiger Rituingeñ. Enn hiñ eilijfe Bruñur Giædskuñar vitiade vor fyrer sijn Myskunar Yður, og elskade so Heimeñ ad hañ wtgaf siñ eingieteñ Son i Daudañ, uppa þad, ad aller þeir sem a hañ trwa hefdu eilijft Lijf. Þegar Drotteñ spaer um Giædsku sijna, er hañ vilie audsijna sijnu Foolke fyrer Christum og i Christo, þa tekur hañ so til Orda, Malach. 3. Eg skal tiaa þeim Myskunsemie, so sem eiñ tiaer Myskun sijnum Syne þeim er stundar hann. Miñ Herra og miñ Gud! Vier meigum þad med Kiñ-Roda medkieña, ad þu hefur sijnt oss meire Myskun enn þijnum eingietna Syne a hañs Dauda-Deige; Hann vard ecke bænheyrdr er hañ beidde, ad Reideñar Kaleikur mætte fra sier takast, Matth. 26. Ja, ecke þo hann beidde i heilar þriar Reisur: Enn hvers vier bidium þig i hañs Nafne, þad villt þu veita oss, Joh. 16. Þad skal skie, (þad eru þijn eigeñ Ord) ad adur eñ vier bidium þa villt þu bænheyra, Esa. 65. Þiñ eingieteñ Sonur fieck einga Vægd, jafnvel þo eingeñ kyñe ad straffa hañ um nockra Synd, Joh. 8. Eñ vier hofum Myskun odlast sem til allsills hofdum unned. Þiñ Sonur fieck eckert ad svala sier med i hiñne bitru Pijnu nema Gall og Edik, Matth. 27. Later þu oss nockud til Handa bera til þess ad lijkiast honum; Later þu oss drecka hañs Kaleik, Ps. 116. hier i Nadeñe, þa kriddar þu hañ med Svolun þijns H. Anda. Þu dreiper a oss med Sætleik Epterkomande Alldar, og leider oss fram ad ferskum Votnum: So miklu betre Koste hofum vier nu Prælarner ad bwa vid, eñ þiñ eingieteñ Sonr. Hver er sa af oss ad hañ ecke hafe þar hañ meige Hofde sijnu ad halla? Matth. 8. Hver er so offooktur, pijndur og kvaleñ sem hañ var? A hverium hefur þvilijk Hegning leiged? Satt er þad ad hañ er iñgeingeñ i sijna Dijrd, Luc. 24. ad ollu þessu afloknu: Eñ vier sem ad varla drepum hinu miñsta vors Fijngurs i þiñar Reide-Flood, Luc. 16. sem gieck yfer Hofud honum; Vier skulum og iñganga i hañs Dijrd ef vier trwum a hañ, og er þad Maala sannast ad vier viñum so lijted sem eckert til þeirrar Dijrdar sem hañ hefur oss med siñe Kvol afrekad; Þo vier bærum Jobs Kaun, Job. 2. Og Giheſi Lijkþrai allt fra Vogguñe til Grafareñar, hia þvi sem hañ þolad hefur fyrer vorar Synder, honum sie Lof, Dijrd og Heidur um Allder, Amen. So hefe eg nu allt hijngad til nockud talad um Algiæte þessarar himnesku Gæfu; Eptersylger ad tala um hennar Gagnseme.

Nytseme eins Hlutar metum vier af tveñu, añad hvert ad hañ gagnar oss til ad umflija hid vonda, edur til ad odlast hid gooda. Hverttveggia fiñum vier i Utsendingu Guds eingietens Sonar: Þad fyrra kienner hann oss i Gudspiallenu med þessum Ordum: Ad Aller Þeir Sem A Hañ Trwa Fyrerfarest Ecke. Tveñt hefur og Drott-

eñ til þess giort, ad þeir skule ecke fyrerfarast sem æ hañ trwa. Fyrst þad, ad hañ hef-
ur lided þeim til Epterdæmis, þad annad, ad hañ hefur lided þeim til Forlijkunar. Um
þid fyrra talar St. Petur, 1. Pist. 2. seigande: Christur er dæeñ fyrer oss, og hefur
oss epterlæted þad Dæme ad þier gænged i hañs Footspor. Þegar hinn gamle Adam
sem bijr i oss, æ ad leggia wt þau dijrmætu Ord sem Paulus skrifar, Rom. 8: Ad sæ
sem ecke þyrmde sijnum eigeñ Syne, helldur gaf hann wt fyrer oss alla, hvar fyrer skyllde
hann ecke giefens veita oss alla Hlute med honum? Þæ skilur hañ þau um þad sem hon-
um lijkar; Honum þyker ecke miked koma til þess Lijfsins Brauds sem af Himnum er
ofann komed, Joh. 6. Hann vill Kiot hafa, Num. 11. Og er ecke til Frids ella, þad er
Sælgiæte Holldsins og þess Munadur, hann etur sig fullañ þar af, þar til þad geingur
wt um hanns Naser og sælgar þeim er ala hann so kappsamlega, so þeir drepast Þu-
sundum samañ, og verda Helvijtis Ellds-Matur ad sijdurstuñe: Enn þegar Paulus
nefner hier alla Hlute, þæ meinar hañ þæ ed Sæluñe gagna, þad er audsært af ollum
þessum sama Capitula, hvadañ Ordeñ tekeñ eru; Hvar af vier siæum, Br. M. ad
ecke er Guds Sonur oss til þess sendur; ad vier skulum læta epter Holldenu þess
Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Ef vier vilium æ Guds Son trwa, so vier fyrerforunst
ecke, helldur so sem hañ er einusinne dæeñ Syndeñe, seiger Paulus, Rom. 6. Þad er fyr-
er Syndena, og deyr ecke framar, so eigum vier heñe daglega ad deya, og med honum
Daglega ad upprijsa, ad vier ei framar lifum i heñe, so sem hann hefur sigrad Heim-
eñ, so eigum vier ad forsmæ Heimeñ, og so sem hañ hefur wtsnarad Dioflenum og trod-
ed hañ under siña Barna Fætur, Rom. 16. So eigum vier ad reka hañ wt wr Hiarta
voru, med ollu hanns Hyske. Vier eigum ecke ad hafa eina Klauf epter æ Egypta-
Lande, Exod. 10. Helldur brenna upp þañ Amalechita med ollu hanns Gotze kviku og
daudu, 1. Sam. 15. Med sannre Ydran og Aflæte Syndaña, so ei verde Israels Rijke
fræ oss teked. Þad kieñer oss Paulus, 1. Cor. 11. Ef vier dæmdum sialfa oss, þæ yrd-
um vier ecke dæmder, enn þegar vier dæmunst af Drottne, þæ verdum vier leidrietter,
so ad vier ecke fordæmunst med Heimenum. Þañig er oss nu Christur sendur til Ept-
erdæmes, bæde i Lifnadenum og so i Krossburdenum; Hverutveggia er omissande til
þess ad umflya Topmena; Eñ forgiefens hefde hañ lided oss til Epterdæmis, nema
hañ hefde lided oss til Forlijkunar, hvar fyrer til Forlijkunar? Þvi vier vorum mis-
sætter vid Gud, hvers vegna? Fyrer Syndena; Hvad hafde Syndeñ forþienad?
Eilijfañ Elld med Dioflenum og ollum hanns Arum. Hver hefur Syndena burt-
teked? Þad hefur Guds Sonur giort, er hañ bar hana uppæ Tried, seiger Petur, 1.
Pet. 2. Þvi sagde Johañes Skijrare, er hañ leit Christum koma til sijn; Siæed þad
Guds Lamb sem i burtu ber Heimsins Synder, Joh. 1. Til þessa þyker Heimenum lijt-
ed koma; Eg trwe hañ dyliest vid ad þar mune so heitt i Satans Badstofu, sem Prest-
arner seigia, añars mundu Menn ecke bidia sier og odrum so optlega Helvijtis, sem Meñ
giora; Eñ vilied þier ecke trwa þeim, þæ trwed Guds Orde, trwed Ritninguñe. Eg

veit ad ydur þyker þad lijted Heimsins Bornum, ad þier skulud alldrei um̃ Efe Gud sia i Dijrdenne, þvi þier hafed alldrei sied hann nie hyrdt um̃ ad sia i Naadenne, enn so þyker Paale þad miked ad hann seiger: Ogudleger munu straffast med eilijfre Glotun, fiarlæger Auglite Guds og Mætte hanns Dijrdar, 2. Theſſ. 1. Enn hlusted til hinns ad þar mun verda Op og Tanna-Gnijstran, Luc. 13. Þeir munu eta sijnar Tungur wt af Pijnu, Apoc. 16. Þessar Pijsler eru vægdarlausar, Jac. 2. Og ecke so sem þessa Heims Mootlæte, hvar Menn faa nockra Linun a stundum; Þeirra Ormur mun ecke deya, og þeirra Elldur ecke wtslockna, Es. 66. Þad er eilijf Smaan, Dan. 12. Eilijf Hegning, Matth. 25. Og Þoka Myrkranna, Jud. v. 13. Sem um̃ Eilijfd er tilbwenn hinum ogudlegu, 2. Pet. 2. Ef þier nu hafed nockra lijkamlega Tilfinning, ef þier varla lifad gieted þaa ydur vantar Sælgiæte ydar og veniulegann Adbwnad, ef þier gieted ecke af ydur bored nær þier faaed Hofudverk edur Sijdu-Stijng, hvad mun þaa verda i Ellds-Dijkenu sem vellur af Ellde og Breñesteine; Apoc. 21. Ef ein lijtil Vanvirda er þier so kalled i þessu Lijfe, kvelur so ydar Hiarta, ad þier svijfest einkis til ad hefna ydar, hvad mun þaa verda hin eilijfa Skom̃? Þier munud þeinkia ad eingeñ hafe yfer odrum ad stæra sig a þessu Forsmaanareñar Lande, eñ giæted þess ad þier munud kveliast i Augsijn H. Engla, Apoc. 14. Hverra Lagsmeñ ad eru Guds utvallder, er þier Foot-troded hafed i ydar Velmagt. Þier munud sia alla heilaga i Guds Rijke, Luc. 13. Eñ ydur wtkastad, ja, margañ þañ sem þier oriett giort og uppsvelgt hafed, og ecke reiknad verdugañ ad þurka ydar Skoo, þa munud þier sia til Bords sitia med Abraham, Isaac, og Jacob i Rijke Himnaña: Þegar hiner fordæmdu Glotunareñar Syner sia þetta fyrst, þaa mun Osundar-Ormureñ taka til ad bijta af Alvoru, þaa mun ecke duga ad sefa hann med Lijflaate Abels, Gen. 4. Nie Mansale Josephs, Gen. 37. Edur Draape Naboths, 1. Reg. 21. Þvi hann mun alldrei deya, Es. 66. Og Vilied þier ecke odrum Guds Monnum trwa hier til, og seiged: Ad hverke Esajas, Jacob, Petur nie Judas hafe vered i Helvijte, ad þeir kunne þar fra ad seigia, (so sem margur Gloopur lætur sier um̃ Munn fara) þaa trwed þo Guds Syne. O þier hin vantrwada Kynslood! Hañ var i Helvijte þegar hañ kvaldest fyrer ydar Synder, so þier skylldud ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf. Eingeñ kann betur ad seigia oss hvernig þar er haattad, helldur enn hañ sem þad hefur tilbwed handa Diosleñum, hann ed sialfur hefur þolad Helvijtes Pijsler, hañ ed sialfur er þaangad ofañfareñ til ad predika Ondunum i Fangelsenu, 1. Pet. 3. Þad er til ad straffa þaa. Hann er Guds Sonur, hann ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Allt Valld er honum giefed bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Og vard Helvijte honum þo so heitt, ad hann sveittest Bloodenu, Luc. 22. Og hroopade a Krossenum: Gud Minn! Gud Minn! Þvi Hefur Þu Yfergiefed Mig? Matth. 27.

O! Vatns Boola, O! Hey-Straa! munt þu þaa gieta bwed vid þeñañ fortærande Elld? Og þu skallt þar þo eilijflega bwa, nema þu ydrest og trwer a Soneñ, Joh. 3.

Vilied þier nu ecke Guds Syne trwa, þvi þad er so gamallt, ad hönum er lijtt trwad af Heimenum, þa trwed þo Dioflunum, þier erud vaner þeim ad trwa þo þeir ljwge, giored þeim ecke þann Oriett ad trwa þeim ecke, nær þeir satt seigia. Þegar Drottinn rak hina morgu Diofla wt af hinum Oda Gadareno, Marc. 5. þa bædu þeir hañ ad skipa sier ecke i Underdiwpinn, Luc. 8. þad er i Helvijte, þvi so kallast þad, Apoc. 9. og vijdar, so kvidu þeir vid þeim Loga, sem alvaner voru Kvolunum. Seig mier, mun þier ecke bregda vid, ef þier yrde ad Skyndingu burt kypt wr ollu þijnu Sælgiæti og steypt i Helvijte og Kvalernar eins og hinum rijka? Luc. 16. J þetta Sinn toludu Dioflarnir Alvoru, þvi þeir ræku sitt eigid Eyrendi, enn ad þier ljwga þeir, syndugur Madur, og mæla upp fyrir þier Helvijti eins og adra Konungs-Holl, trw þeim ecke, þvi Fadir þeirra er Lygari i fra Upphafi, hann stood ecke i Sannleikanum, ei helldur þeir, þar fyrer eru þeir i Helvijte ofann steipter, og bundner Myrkranna-Hleckium, 2. Pet. 2. Til ad frelsa oss fra þessum Oskopum er nu Guds Sonur wtgiefinn, til þess er hañ fæddur, hwdstryktur og a Krossinn negldur; enn Gudspialled seiger oss enn nu meira, Helldur Ad Hann Hefdi Eilijft Lijf, stendur hier. Þad er vitanlegt af St. Páls Ordum, Eph. 2. Ad vier fædunst dauder i Syndenne, þad natturlega Lijf færer med sier andlegann Dauda. Nær tokum vier til ad deya? Þegar vier lifnum i Skijrnenne, fiñur Mooder vor christeleg Kyrkia med oss fyrst eitt andlegt Lijfs-Mark, fyrer hvern? fyrir hann sem af Gude er wtgiefinn til þess ad Heimurinn skylldi hafa eilijft Lijf, so seigir Páll, Tit. 3. Ad Gud hafi rijkuglega wthellt yfir oss heilogum Anda fyrer Jesum Christum vorn Heilsugiafara, so ad vier riettlæter fyrer hanns Naad yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs; eñ sa sem skal eilijfs Lijfs niota, hañ verdur hier i Lijfi fyrst ad lifa andlegu Lijfi, þad hlootum vier i Skijrniñi, sem sagt er. Þess gietur St. Petur, er hañ seiger, ad Gud hafi endurgietid oss til lifande Vonar, 1. Pet. 1. Enn þad kann audvelldlega aptur ad missast, so vel sem þad lijkhamlega, nema hiñ iñri Madurinn, sem i fyrstuñi er eins og Briooststmylkingur a sig komiñ, nema hañ sie daglega nærdur og endurnijadur, þvi lætur Paulus þetta fylgia hvert odru seigandi, Tit. 3. Ad Gud hafi oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena og Endurnijungar heilags Anda. Þennann andlega Voxt og Þroska odlunst vier eins vel fyrer Christum so vel sem hid andlega Lijf i fyrstunne; þad kienner oss Paulus, Eph. 2. seigiande: Vier erum Guds Verk skapader i Jesu Christo til goodra Verka, hver Gud hefur tilbwed ad vier gaungum i þeim. Sálen velldur þvi ad Lijkhameñ vex, ecke giorir þad Fædslan alleina, helldur er hun so sem nockurskonar Medal, i hveriu ad verkar Mañsins Ande honum til Þroska, þar til hañ fullvaxeñ er. Christur er vort andlegt Lijf, hañ er Lijf hiñs iñra Mañsins. Fædann er Guds Ord, i þvi verkar hann med sijnum Anda, þar til vier naum ad vaxa epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 4. Og þetta andlega Lijf, er mest soolged i Deydingu Holldsins, þau tvo eru hvert a moote odru; Eins Lijf er añars Daude, hiñ gamle Madureñ og hiñ nije, sem epter Gude er

skap-

Kapadur, þeir berast Bana-Spioot epter, enn svo er Munurinn, ad hinn gamle fær sialgad hinum nija i einu, so hann a stundum alldrei vidraknar aptur, enn hinn nije fær alldrei so drepid hinn gamla, ad hann ecke aptur gange. Til fanga verdur hann tekinn fyrer Guds Krapt, enn alldrei verdur honum so fyrerkomed, ad ei briootist hann um so leinge vier erum i Holldinu. Vel sie þeim er gieta lagt hin sterkustu Fiotur a hann, og þvi kallast hann daudur, þegar hann nær ecke ad framkvæma sijnar Gyrnder, þegar Menn hepta Reidena og Gyrndena, og adrar Tilhneigingar sem af þeim vaxa med Christi Anda, þa heiter hinn gamle Adam daudur, þvi lijsir Paulus er hann seiger, Col. 3. Þier erud dauder og ydar Lijf er foolged med Christo i Gude. Hver hefur nu afrekad oss þetta Lijf? Þad hefur Christur sem ad er vort Lijf, ed var utgiefinn i Daudann fyrer oss, so vier hefdum eilijft Lijf. Þad vottar Paall enn aptur, Gal. 2. seigiande: Eg em Kross-festur med Christo enn lifi þo samt, ecke eg nu, helldur lifir Christur i mier, enn þad eg lifi i Holldenu, þad lifi eg fyrer Tru Guds Sonar er mig elskad hefur og utgiefid sialfann sig fyrer mig. Af þessu Lijfi framkiemur hid eilijfa Lijf sem adur er sagt. Menn biooda ecke daudum Monnum til Bords, helldur lifande, so mun og eingenn bordsettur verda med Abraham Isaac og Jacob, nema Daudinn hver ad er Sendebode, hitte hann lifande i Christo. Hier seiger i Gudspiallenu, ad Gud hafi so elskad Heimenn: Þad er alla Menn, þvi allir vill hann ad hoolpnir verdi, og komist til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Enn þvi velldur Fiandmadurenn, sem er Mordinge Salnanna, ad hanns guddoomleige Kiærleike fær þvi ei til Vegar komed, ad aller hoolpner verde. Þvi stendur hier, ad þetta eilijfa Lijf hlotnest þeim alleina sem a Guds Son trua, enn hvilijk Gafa er þetta Lijf Born mijn? Vier kunnum ecke ad leida oss i Hug nie Hiarta hvilijkt þad sie nema hvad vier af Guds Orde heyrum, nema hvad Guds Ande sijner oss so sem fyrer Speigel og i Radgatu, 1. Cor. 13. Þegar hann lætur oss þad smacka, og vekur i oss Sætleik epterkomande Alldar, þad er Gnoogt Fagnadarens og gledelegt Lijferne til Fodursins hægre Handar, Ps. 16. Vorer Lijkhamer verda Englunum jafner, Luc. 20. Ja, samlijker Christi dijrdlegum Lijkhama, Phil. 3. Þeir munu einkis vid-þurfa, el Fædslu nie Fatnadar, þvi Guds Rijke er ecke Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Þeir munu Dijrdenni iklædder verda, og skijna eins og Sool i Rijke sijns Fodur, Matt. 13. Vorar Saler munu i oumrædelegum Fognude lifa, 1. Pet. 1. Dijrdleiger Hluter verda i þier talader þu Borg Drottenns, seiger David, Ps. 87. er hann spaer um Christnena, enn Paulus seigest hafa heyrt i hinum þridia Himne oumrædeleg Ord sem eingiinn fær ut-talad, 2. Cor. 12. Veralldarennar Sælgiæte er alldrei so miked, alldrei so margvijslegt, ad ei fae Menn Leida a þvi, þeir sem hafa sijna Unadsemd þar i, verda þo ad kridda þad med Aflate nockru. Einn skal hungra adur enn Maturenn smackar vel, hann skal þyrsta adur enn Dryckurenn þyker honum goodr, enn i Sælu Himnanna er eckert Aflat, eingiinn Bid epter nockru, þvi so sem Englarner sia jafnann Guds Fodurs Andlit, Matth. 18. So mun-

um vier og giora þar vier erum Englunum jafner, i hverin oll Sæla er foolgenn. Job
i ollum sijnum Mañ-Raunum huggar sig þar vid einasta, ad hañ muni siñ Endurlausn-
ara siaa med þessum Augum (seigir hañ) Job. 19. þad er med sijnum lijkhamlegum Aug-
um. Þegar Paulus hafdi eitt Sinn verid i Himnenum og sied Guds Dijrd, þad var
honum so minnisstædt, ad hañ wr þvi villdi alla Hluti lijda fyrer Christi Sakir, og þau-
lg eru þeir lyndir sem Gud opinnberar sijna Dijrd i Hiartanu med Von epterkoman-
di Dijrdar. Eñ ef þañig er vort Fangelsi, B. M. hvilijkt mun þa Kongs Rijkid verda?
Þad er ecke ad undra, þo hin sanna Guds Kyrkia stynie og Andvarpe i Himenum
epter Guds Barna Sælu, Rom. 8. þar Guds Andlit lijsir yfir henni, þo ei siaum
vier hann hier Augliti til Auglitis, helldur so sem i Speigle og i Raat-Gaatu, 1. Cor. 13.
Aristoteles var eitt Sinn spurdur ad, hvad Frijdleikinn væri, enn hann svarade, ad
þad være fyrer blindann Mann ad spyria ad. O oss auma! Þo oss af ollu Hiarta
laange eptir ad siaa hinn lifanda Gud, þaa faa Menn þad ecke fyrir Blindu Holldsins, og
er þo Epterlaungun þessi, miklu inndælli enn allur Fognudur Veralldarennar. Gud
hafdi lagt mikid til Moysen, og prijdt hann med kostulegum Gaafum fram yfir adra
Menn, og þo var hann ecke ánægdur, nema hann mætti siaa Gud, þad var honum ecke
noog ad tala vid hann, eins og Madur vid Mann, Exod. 33. Helldur villdi hann og siaa
hanns Dijrdar-Liooma, hefdi hann þad maatt, og lifa. Hvilijk er nu Guds Barna
Sæla i eilijfu Lijfi, og miklu meire, ædre og dijrdlegre, eñ ad nockur syndug Tunga faae
wt-talad. Hugleided nu christnir Meñ, hvilijka Astgiof Meñ þeigid hafa i Utsendingu
Guds eingietins Sonar, hann er wtgiefinn til þess ad ei skylldud þier fyrerfarast, ecke
brenna i hinum glooande Helvijtis Ofni, ecke verda Lagsmenn Dioflaña i Myrkranna
Fangelsi, ecke bera eilijfa Skom og Forsmaan, sem þier med ydar Syndum hafid for-
þienad; hann er wtgiefinn til þess ad þier hafid eilijft Lijf; Eilijfa Sælu, eilijfann Fog-
nud og Unadsemd um Alldir Allda, hvar þier siaa munud so sem þier erud sienir, og
þeckia so sem þier fræddir verdid, 1. Cor. 13. Þier munud siaa Guds Haatign er ydur
hefur skapad, gledia ydur i hanns Elsku er kuzvdi hann til ad giefa ydur þenna sinn Son.
Þier munud siaa ydar Frelsara, er ydur hefur leyst med sijnum Dauda wr eilijfu Dauda,
þier munud siaa ydar Holld og Blood upphafid aa Guds Tignar-Stool honum til hæg-
re Handar; Þier munud siaa H. Anda framgaangandi af Fodur og Syne, þañ gooda
Anda Guds sem ydur hefur endurgietid, endurnijad, leidt i allann Sannleka, straffad i
ydur Syndina, huggad ydur aptur, styrkt ydur i Mootgaanginum, og þaa munud
þier fyrst siaa, ad Harmkvæle þessara Tijma voru ecki verd þeirrar Dijrdar sem ydur er
þaa auglijst, Rom. 8. Born mijn, hveriu vilied þier nu gialla fyrer þessa stooru Elsku?
Hvers krefur hann af ydur? Einkis nema ad þier elskid hann aptur i moot, hvar med
verdur þad giort? Ecke med Orde og Tungu helldur eñ Naaungañ, helldur med Verke
og Sannleika, 1. Joh. 3. Gude vár Alvara ad giefa oss sinn Son. Laatum oss vera
þad Alvora ad elska hann aptur. Ef þier elskid mig, þaa vardveited mijn Bodord, seiger
Christ-

Christur, Joh. 14. Giorum so, þaa leatum vier hañ sioz, ad vier elskum hañ; edur ef riett skal seigia, vier sioaum þad sioalfer og finnum þad, Þvi ecke þarf hañ ad leitast epter hvert vier elskum hañ, sem rañsakar Hiortun og Nijrun, eñ ef vier vilium vita sioalfer hvert vier elskum Gud edur ei, þa sporum eckert fyrer hañs Skulld, eins og hañ þyrmde ecke sijnum eingietnum Syne fyrer vora Skulld, þviad i þvi auglijste hañ sijna Elsku. Breñum upp allar vorar Tilhneigingar med Elskuñe til hañs, hun er eiñ Elldur, ef vier erum Abrahams Syner, Joh. 8. Ef vier hofum Trw Abrahams, þa giorum Abrahams Verk, Jac. 2. Hañ villde sooruforra sijnum eigeñ Syne og trwde Gude ad hañ munde kuña ad giora hañ lifande af Daudum, Rom. 4. Giorum eins, offrum Gude þvi sem oss kiærast er, þad er Vilieñ vor; Leatum ecke epter honum eins og David Syne sijnum Adoniæ, þegar hañ sea ad hañ villde rijkia; Hañ var so Barn-sear, ad hañ neñte ecke ad angra hañ; Breytum i ødru epter David, eñ ecke i þessu, helldur drepum vorn Vilia þegar hañ vill giora Uppreist a moote Guds Vilia, og seigium: Verde þinn Vilie, þaa mun Gud hann aptur lifande giora med sijnum Vilia, so ad vier vilium þad sem hañ vill, og ad hañs Vilie framkvæmest a oss, sem er sea ad vier eignumst eilijst Lijf; Þad veite oss Gud Fader af Naad sinne og Myskun, i Jesu Nafne, AMEN.

# Pridia Dag Hvijtasunnu.

Gudspialled, Joh. 10. Cap.

JEsus sagde til Phariseaña: Sañlega, sañlega seige eg ydur. Hver hañ geingur ei iñ um Dyrnar i Sauda-Hwsed, helldur stijgur hañ iñ med ødrum Hætte, sea er Þioofur og Spillvyrke. Eñ sea sem geingur iñ um Dyrnar, hañ er Hyrder Saudaña, fyrer honum lijkr Dyra-Vordureñ upp, og Sauderner heyra hanns Rodd. Og hann kallar sijna Saude med Nafne, og leider þaa wt, og þaa hann hefur sijna Saude wtleated, geingur hañ framm fyrer þeim, og Sauderner fylgia honum epter, þviad þeir heyra hanns Rodd. Eñ ødrum añarlegum fylgia þeir ecke epter, helldur flya þeir fra honum, þviad þeir kienna ei añarlega Rodd. Þessa Mals-Grein talade Jesus til þeirra, eñ þeir vissu eige hvad hañ sagde þeim. Þaa sagde Jesus eñ aptur til þeirra: Sañlega, sañlega, seige eg ydur, ad eg em Dyr Saudanna. Og aller hverier hellst sem fyrer mig komu, þeir voru Þioofar og Spillvyrkiar, og Sauderner hlijddu þeim eige. Eg em Dyrnar, ef nockur geingur iñ um mig, sa mun frelsast, hañ mun og ganga wt og iñ, hann skal og fiña sitt

 Food.

Foodur. Eñ Ploosureñ klemur ei til añars eñ hañ stele, drepe og fordiarfe. Enn eg er komeñ til þess, ad þeir hafe Lijf og fulla Nægd.

Exordium.

ERt þu sa sem koma mun, edur eiguin vier ad vænta eins annars? Sögdu Johannis Læresveinar vid Christum, Matth. 11. Er þeir voru sender fra sijnum Meistara til ad spyria ad, hver hañ være. J hverium Ordum þad er ad athuga, ad Messias hefur nefndur vered a þeim Dögum SA SEM KOMA MUN, Añars hefde þesse Spurning vered nockud myrk og o-skilianleg. Þu ert Christur Sonur Guds, hann sem koma skal i Heimenn, sagde Martha fordum vid Lausnarañ, Joh. 11. Og munde hun ecke hafa avarpad hann þañig, hvern hun þeckte komenn ad vera, nema Messias hefde so almennelega kalladur vered. Þetta ma vijdar sia i nija Testamentesins Bookum, og hafa vijser Menn Gydinga i þessu sited til Spadoomaña i gamla Testamentenu, hvar ed so adkvedur um Messiam, ad hañ mune koma, so seiger Esajas: Sia ad Gud ydar Hefnd kiemur, ydar Endurgialld, hann kiemur til ad frelsa ydur, þa munu og Augu hinna blindu uppliwkast, og Eyru hinna daufu opnast, þa mun hinn hallte dansa so sem Hiortur, og Tunga hinns mallausa sijngia, Esa. 35. Til hvers Spadooms medal annara Frelsareñ bender Johannis Læresveinum, er þeir friettu hañ ad, hvert hañ være sa sem koma munde. Þetta upplijser þau Ord er vor Endurlausnare talar i þessa Dags Evangelio, er hañ seiger: Ad aller þeir sem fyrer hann komu hafe vered Þioofar og Spillvyrkiar, hvar hañ meinar epter mijnum fasfroodum Skilninge þa, sem fyrer hañ komu og eignudu sier Nafn hiñs mikla Hyrders og villdu frelsa Gydinga af Vallde Romveria, enn beñudu ad giefa Keysaranum Skatt, þvilijker voru Theudas og Judas Galilæus, um hveria Gamaliel talar i Postulaña Giorninga Book 5. Cap. Enn hvernig sem þvi er vared, þa talar Drotteñ hier ecke um Spameñena er voru Riettlætesins Predikarar og spadu um hañs Tilkomu, og toludu af hañs Anda, helldur añadhvert um þessa sem nu hefe eg nefnt, edur einhveria þeirra Lyka, þo Sögurnar greine ecke um þa: Enn fyrer þvi ad Drotteñ visse fyrer, ad epter sijna Hiervist a Jordune mundu upprijsa Fals Christar og Fals Spamenn, ecke sijdur eñ fyrer sijna Tilkomu i Heimeñ, þeir ed koma mundu til Guds Barna i Sauda-Klædum, enn innra voru þeir glepsande Vargar, Matth. 7. Þa seiger hañ hier i Gudspiallenu, hvert ad sie Merke hinns sañs og mikla Hyrders Saudaña, epter hverium adrer Hyrdarar eiga ad breita, er hann sett hefur yfer Hiardernar, Act. 20. so og a sijna Saude, er hanns Raust alleina epter erfylgia. Vier vilium af Gudspiallenu þetta tveñt hugleida. 1. Hvernig Kiennendunum eige hattad ad vera. 2. Hvernig Tilheyrendurner eige ad skicka sier. O! Þu sem ert hiñ mikle Hyrder Saudanna, fyrer Blood þess eilijfa Testamentis, Herra Jesu Christe, styrk oss hier til med Fulltijunge þijns gooda Anda, bænheyr oss fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

Utlegg-

## Utleggingen.

Ar vor Endurlausnare nefner HYRDER i Gudspiallenu, þa meinar hañ i fyrstu sialfañ sig, þvi hañ er Hoefdinge Hyrdarana, sem Petur vottar, 1. Pet. 2. Aller adrer Hyrdarar hafa sitt Embætte af hønum, þeir sem ad hanns Vilia eru setter yfer Hiordena, þvi byriar ollum þeim hañs blessudu Dæme ad fylgia, og er þad sierdeilis þrent sem þetta heilaga Gudspiall vijsar oss til, sem er. 1. Ad þeir sieu inn um Dyrnar geingner, þad er riettelega kallader. 2. Ad þeir læte Sauden a heyra sijna Raust. 3. Ad þeir gange undann þeim. Hvad hinu fyrsta vijdvijkur, þa seiger Paulus ad sonnu, Hebr. 5. Eingeñ take sier þeñañ Heidur til, helldur sa sem kalladur verdur af Gude so sem Aaron. Hvilijk Kallan brwkast ad soñu ecke nu, og jafnvel ecke i gamla Testamentenu epter þad Gud skipade Konungana yfer sitt Foolk. Spa-Meñena kallade hañ ad soñu, enn Kieñemeñerner voru af Konungunum setter. So skickade Salomon Kongur Zadoch Kieñemañ i Stad Abiathars, 1. Reg. 2. Og Josaphat tilsette Prestana i Hwse Drotteñs, 2. Chron. 17. Olle þad þvi, ad a medañ Gud hafde sialfur Stioornena i Israel, þa skipade hañ ollum Hlutum fyrer Medalgaungu Moysis og añara sinna Þienara, sijdañ hefur hann feinged Konungunum þvilijkt i Hendur, og odrum Valldstiettum, epter þvi sem hveriu Lande hagar. So var og Aaron bæde kalladur og vijgdur fyrer Medalgaungu Moysis, Exod. 28. Drottenn Jesus kallade ad soñu sijna Postula sialfur, Matth. 10. Eñ epter hañs dijrdarfullu Himnafør voru hañs Kyrkiu Þienarar af Moñum kallader, þvi Matthiam og Barnabam twvolldu Postularner, jafnvel þo Hlutureñ ad Guds Vilia fielle yfer Matthiam, Act. 1. Biskuparner i Epheso voru af Monnum kallader, ecke sijdur enn þeir sem Titus Crijtar Biskup nidurskipade um Borgernar, Tit. 1. Og kallar St. Paall ad þeir sieu af H. Anda setter yfer Hiardernar, Act. 20. So skickudu þeir Paulus og Barnabas Olldungana i Lystris og Iconio, Act. 14. Og þesse Skickan hiellst allt þaangad til Gud gaf sijnum Sofnudum christeñ Yfervolld. Þetta seige eg til þess, ad eingenn Guds Þienare efest um sijna Kallan, þegar hañ er af christelegu Yfervallde kalladur, sem Gud hefr þetta umboded, nema hañ hafe med Svikum og Prettum, Gaafum og Mwtum stolest iñ i Sauda-Hwsed, þa er hañ eingu betre eñ Þioofur og Spillvyrke, og hefur sier eingrar Guds Adstodar ad vænta i sijnu Kalle og Embætte, hversu vel sem hañ þykest ad sier vera. So eru þeir nu af Gude kallader, sem eru af Konungenum kallader, edur þeim sem hann hefur þad Valld i Hendur feinged, þvi hañ er Guds Umbods Madur a Jorduñe, eñ þeir hañs, sem af hønum setter eru, þo med þvi moote, ad þeir ecke brwke nein oleifeleg Medol hier til, og er þad ecke lijtil Huggun fyrer þañ sem a daglega Mootstodu ad veita Satan og vondum Moñum hañs Þienurum, ad hann er af Gude kalladur i þa H. Stiett, þvi mattugur er Gud ad vardveita sijna Þienara er hønum treysta, og ei brestur hañ Viliañ til þess, þeir eru skrifader i hañs Hondum, Esa. 49. Hver vill þeim granda, fram yfer þad hañ leifer. Eg vil um þar seigia eins og

 Bileam

Bileam sagde um̃ Jsrael fordum: Þui skyllde eg bolva honum? Hinn sterke Gud bölvar honum ecke, þui skyllda eg stugga vid honum? Jehova stuggar ecke vid honum, Num.23. Eñ hañ leifer eckert nema þad sem er til hañs mikla Nafns Dijrdar, og þeim fyrer bestu, er honum af Trw og Dyggd þioona, og er Sæmd ad taka þui af hañs Hende, hverium sem honum lijkar þui ad skipta, þeir meiga ad vijsu tilreikna sier þad sem Paulus um̃ sig skrifar, er hañ seiger: Eg veit hverium eg hefe trwad, og eg em fullvissa, ad hañ er mæattugur ad vardveita þad sem eg hefe honum til-trwad, 2.Tim.1. Nu er þad ecke noog, Br.M. ad Meñ sieu kallader, nema Meñ giöre og Guds Verk med allre Athygle. Judas var kalladur, Matth.10. og gieck i fyrstu iñ um̃ Dyrnar, þui hañ hafde medteked þetta Embætte med þeim, sagde Petur, Act.1. Eñ hañs Service vard i Eyde, og hañs Biskups Dpom medtook eirn añar. Og þui vil eg tala um̃ i odru Lage, hvernig oss byrie ad fooſtra Guds Saude. SAUDerner Heyra Hañs RODD, seiger i Textanum. Drotteñ talar hier epter Sidveniu Gydinga Lands og añara Landa, þar ed Hyrdararner brwkudu og eñ nu brwka i Dag eina Hlioods-Pijpu til ad kalla samañ Saudena, so ad þo margar Hiarder sieu æ Beit i einu Haglende, samt þecker hver ein Hiord sijns Hyrders Must, og skilur sig wr odrum Sauda-Flock nær hun læter. Ef Rodden skal heyrast, þaa skulu Meñ hroopa. Þetta Ord, RODD, þijder optlega Kieñingu i Ritningune. Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemörku, seiger Esajas.40. Hvad Johañes Baptista þijder uppa sig og sijna Kieñingu, Joh.1. Þui skipar og Gud Kieñemoñunum ad upphefia sijnar Radder so sem adrar Bæsuner, Esa.58. Þad er hin andlega Hyrders Pijpa, hveria ad hañ, sem er hiñ mikle Hyrder Saudaña, Hebr.13. hefur oss sijnum Smala-Moñum i Hendur feinged, hvers Eign ad Sauderner eru; Eñ til þessa heyrer mikel Kostgiæfne og Astundan, Br.M. Ætled ecke ad þad mune einu gyllda hvad þier hrooped; Noog Hæreyste meiga Meñ heyra æ stundum, þad þijtur um̃ Eyrun eins og añad Stoorvidre, enn þui er ecke so hættad sm̃ Þytnum er kom yfer Postulana, Act.2. J hverium ad bioo H. Ande, þui þad er ecke Guds Ord sem sumer Meñ tala i helgum Stad, eñ hañ bygger allt jd i sijnu Orde er hañ i fyrstu iñblies i Hiortu Postulaña og añara Guds Manna: Þad er eins og Sterkvidred sem Elias sañ i Hellrenum æ Guds Fialle Horeb, 1.Reg.19. Þad klauf i sundur Fiolleñ og braut Klettana, eñ Gud var þo ecke i Vedrenu, so eru Kieñingar sumra Maña, þær skafa iñañ Eyrun æ Foolkenu, eñ eckert kiemst i Hiartad, þui þar er eckert af Skynseme, eckert af Ræde, og eckert af Guds Orde, þad er Skij fyrer utañ Regn, so sm̃ Judas Postule talar um̃ Guds Dijrdkun sumra Maña. Hvad mun valda þessu Br.M? Þui Meñ hyrda so lijted um̃ ad safna þui i Korn-Hlodu Hiarta sijns, er Guds Hiwum byriar ad giefa. Drotteñ kallar þañ Þioon sælañ, Luc.12. er giefur þeim siñ Verd i riettañ Tijma. Hier af mæ siæ hvad stoor Framsijne og Arvekne ad heimtest af einum Guds Ords Þienara, sæ sem æ ad giefa hverium einum i riettañ Tijma þad honum ber, hañ mæ adgiæteñ og ecke tromlætur vera; Sie nockur

ur, sturladur, sie hann ofroodur, sie hann hyrdulaus, sie hann Þverbrotinn, sie hann efasamur; ad ollu þessu aa eiñ Guds Þioon ad giæta, og laata eckert Verk, einga Syslan edur Umsvif tijmaňlegra Hluta sig hindra fraa, ad giefa sierhverium af þessum i riettañ Tijma þad þeim ber, ef hann vill giora Verk Drottenns Guds sijns trwlega. Og nema vier so giorum, þaa er ecke ad dyliast þar vid, ad vier munum ecke einasta Launeñ missa, helldur og þar aa ofañ straffader verda, so sem hiñ vonde Þioon er groof sitt Pund i Jordu, Matth. 25. Vered þvi kostgiæfner, og ætled ecke ad þad sie noog ad vier hofum Hroos af Monnum, þvi ef vier leitum epter þvi, þaa erum vier ecke Christi Þienarar, Gal. 1. Og uñ allt fram þaa lærum sialfir Guds Vilia ad þeckia, af hañs Orde, þar i aa eins Guds Þienara Kieňing foolgeñ ad vera, ad kieña Moňunum ad þeckia Syndena, ad saa hana kvitta og ad fordast hana. Holldum vier ecke so i Brwskap vorum, ad þo Foodrid sie gott, þaa varde miked uñ hvernig þvi sie hagtært, ætlum; ecke ad þad mune vera odruvijs i andlegum Hlutum. Meñ seigia ad Foolkid skule ecke Syndga, eñ þo giora Meñ aa stundum ecke so skilmerkelega Grein aa millum goods og ills, so hinn faafroode lære ad þeckia Syndena, og þad velldur þvi, ad margt þad sm̃ Lloott er verdur Dyggd hallded, edur ad miñsta Koste eingeñ Okostur. Menn seigia þeir skule ecke syndga, enn ei seigia Meñ so glogt hvernig þeir skule varast Syndena, edur leggia þeim Raad af Guds Orde, hvernig þeir skuli siaa sig vid þeirri edur þeirri Synd, er einhver kañ ad vera hneigdur til. Meñ seigia ad þeir skule ecke syndga, eñ tala nærsta dauflega þar uñ, hvad hver Synd epter sig leider. Guds Reide nefna Meñ ad soñu, enn ræda ecke so skilmerkilega uñ þad, fyrer hver Verk hun opiñberast af Himnum ofañ yfir Mannanna Born, jafnvel þo Meñ siaae þau daglega fyrer Augum sier: Og nær Menn þannig breyta, ætla sumer ad vel sie predikad Guds Ord, og ad þeir sieu gooder Verka-Menn i Christi Akre, eins og hañ hafi ecke sialfur Merke sett uppaa sijn Ord, þar ed hañ seigir, ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Eñ sumra Maña Kieñingar eru daudt Hiegooma-Rugl, og aflar meir Bana enn Lijfs. Þegar St. Paall er ad tala Maale voru, 1. Cor. 9. Ad Menn skule hafa Upphellde af Þioonustuñe, þaa færer hañ til sijns Maals þaa Logmaals-Grein er stendur, Devt. 25. Þu skallt ecki mwlbinda þad Naut sem þreskir: eñ eg ætla ad ei þurfi ad mwlbinda oss suma, þegar Guds Eyrende aa ad tala, vær giorum þad sialfir aa stundum, edur og Otteñ edur Fie-Gyrndeñ, eñ þegar eta skal rijsum vier Mwleñ af, og uppfyllum so þad sem Drotteñ seiger fyrer Muñ Ezechielis uñ Voku-Meñena i Juda: Aller eru þeir maallauser Hundar og kuña ecke ad giellta, Ezech. 56. Eñ þessir graadugu Hundar verda þo alldrei sadder. Þetta vil eg hafa sagt þeim ed brwka Nafn Evangelii til Abata alleina, og þad er þo allt añad enn Evangelium er þeir tala. Ecke þannig Brædur mijner! helldur filged Bode Peturs er hañ seiger, 1. Pet. 5. Foostred Guds Hiord sem ydur er aa Hendur fasenn, og giefid giætur ad heñe, ecke af Naudung helldur sioslega, verande ecke skieñelegs Avinings gijruger, helldur med swsum Huga, og ecke so sem drottnande yfir Sofnudunum,

um,helldur so sem þeir ed sieu Fyrermyndan Hiardarennar. Gud hefur sett oss yfir Hiord sijna,þvi eigum vier Hyrdarar ad vera og ecke Drottnar,þvi eiñ er vor Drotteñ Jesus Christus hinn mikle Hyrder Saudaña,þad maa og eingenn Afsokun vera þo sumer hafi lijtel Laun ; Hvad hafde Paulus og Barnabas, og hiner Postularner ? Sꜳ sem Þioonar Christo fyrer lijted,hañ hefur stærra Lien af Gude þeiged enn hiñ sem hefur yfirflootanlegt,so eg þore ad seigia,ad hañ mun fegur skijna i Dijrd sijns Herra enn hiñ þo bꜳder giore þeir eins vel Skylldu sijna. Giætum og i þridia Mꜳta þess sem Petur miñer oss ꜳ,ad vier sieum Fyrermyndan Hiardaña. Þad er almennelega hallded,ad af oheilum Forelldrum kunne ecke heilbrigt Afkvæme gieted ad verda ; nu eru Kiennemennerner andleiger Fedur allra þeirra sem þeim til=trwad er, enn ef þeir eru lijtt vander ad Hlut sijnum,og hyrda ecke um̃ hvernig þeir lifa,og eru i þann Mꜳta and=lega vanheiler,hvernig meiga þeir Gude andleg Born fæda ? Sonakorn mijn seiger Paulus vid þꜳ i Galatia,med hveria eg aptur ad nyu þwngbweñ er,þar til Christur myndast i ydur,Gal.4. Eñ hvernig gietur Christur vorded i þeim myndadur,hverra Mooder, þad er Kiennemannsins Sꜳl, afneitar ollu christelegu Athæfi, enn blijder Dioflenum i ogudlegu Framferde,og þo ad Gud kunne ad framkvæma sitt Verk i sumra Tilheyranda Hiortum fyrer Nꜳd sijns Anda sm̃ ad verkar i Ordenu,þꜳ er þad ecke hinum̃ rꜳngsnwna Kienne=Fodur ad þacka ; ad sonnu hefur haun med siñe Þioon=ustu verid Medal til,ad hun er i Skijrninni endurfædd ; verda mꜳ og ad hann tali þad eitthvad af Predikunar=Stoolnum,er heyrer til Sꜳluhialpar og Lifnadarens Bet=runar,eñ hvad gagnar þad ? Þegar hañ hvad mest ꜳmiñer og eggiar ꜳ hinar and=legu Dyggder,Kiærleikañ,Myskunsemena,Hoogværdena,og i einu Orde ad seigia ꜳ Deydingu sijns Holldsog Bloods,þꜳ sijner hañ þo i Verkunum,ad þeim Hlutum sie omogulegt af Stad ad koma er hañ bijdur af Predikunarstoolnum,leggiande so þad Ok ꜳ Herdar Læresveinaña,er hañ ecke snerter med hinum miñsta Fijngre,Matth.23. Fyrer þvi Drotteñs Kiennemenn, verum ecke eins og Vordur þær ed standa ꜳ Heid=um uppe,og vijsa ad sonnu Veigenn, enn ecke fara þær wr Stad so þær leide hiñ Veg=farande til Hybijla, ecke eins og Klucka,sw er hꜳnger fyrer Kyrkiu=Dyrum,hun kall=ar Foolked til samans til Guds Orda Heyrnar, enn sialf heyrer hun eckert. Treyste og eingenn þar uppꜳ, ad hanns Embætte sie heidarlegt, edur ad hann hafe Guds Um̃bod ꜳ Hende, nema hann gꜳnge verduglega þeirre Kallan hvar inne hann er kalladur, Eph.4. Mꜳlmurenn i eiñe brostenne Kluctu kann goodur ad vera,enn samt er hun ecke miog hæf til Þioonustugiordarennar,so er og Embætted jafnann heidar=legt,enn þad lijdur Vanvirdu ꜳ stundum fyrer Oskyckun og illa Breitne þess sem þad Starf er ꜳ Hendur faled. Edur seiged mier ; Hvad kunna Tilheyrendurner ad þeink=ia annad um̃ hann, sem ei giorer nema bender med Fijngrenum til Guds Vegar, eñ sialfur geingur hann ecke, helldur enn þad, ad annadhvert meine þesse Madur eckert af þvi hann talar, edur og ad sꜳ Gud, er hann ki enner, mune ei vera so miog vandur ad

Lijf=

Lijfernis Hꜳttum syndugra Manna sem hann seiger? Lꜳte Menn sier þvi ecke nægia þar med, ad þeirra Kienningu er hroosad, jꜳ, ecke þo hun sie mikillrar Hroosunar verd i sialfre sier; nema Menn framkvæme þad i Verkunum er Menn tala med Munnenum. Eg vil hier um vidlijkt seigia, og Endurlausnarenn fordum vid Læresveinana, Luc. 10. Fagned ecke af þvi ad Andarner eru ydur undergiefner, helldur af þvi ad ydar Nøfn eru skrifud ꜳ Himnum. So vil eg seigia: Gledjest ecke so þar af, ad þier hafed af Gude þeiged goodar Gꜳfur til ad kienna, helldur meir af þvi, ef ydar Søfnudur leidriettest, geingur ꜳ Guds Veige, elskar Gud og hanns Ord, ef hanns Rijke uppbyggest ꜳ medal ydar, enn Andskotans verdur nidurdreped. Gledjest af þessu Br. M. og legged allt Kapp þar ꜳ, hvad ydur audvelldlega takast mun, ef þier fylged Bodi St. Paals, er hann skrifar til Timotheum: Vert Fyrermyndan hinna trwudu i Ordenu, i Umgeingnenne, i Kiærleikanum, i Andanum, i Hreinlijfenu, 1. Tim. 4. Og hefe eg nu nockud talad um Skylldu Kiennemannanna. Epterfylger med fꜳm Ordum ad seigia um Tilheyrendanna Skylldu, hun er tvofolld, ein vid Gud, og ønnur vid hanns Þienara, hinn sijdare hꜳnger af hinne fyrre; Og þvi vil eg fyrst þar um tala.

Hier stendur i Gudspiallenu: Sauderner fylgia honum epter, þvi þeir þeckia hanns Raust. Eg hefe nockrum sinnum þar um talad i Book þessare mijner elskannleiger, hvad oss eige ad knya til þess ad heyra Raust Drottenns sem er hanns Ord, þvi vil eg þess færra þar um tala i þessum Stad, jafnvel þo alldrei sie good Vijsa of opt kvedenn. Hier stendur, Ad Sauderner Fylge Hyrdernum Epter, Af Þvi Ad Þeir Heyra Hanns Raust: Hvad er þad, honum epter ad fylgia? Hyrderenn er Christur, þad er ad fylgia honum epter, ad lifa christelega. Hvad er ad lifa christelega? Þad er ad hallda Guds Bodord, ef ecke fullkomlega sem omøgulegt er, þꜳ þo ad þvi leite sem oss er møgulegt. Hanns Matur og Dryckur var ad giora hanns Vilia sem hann sende; So ꜳ oss eckert so kiært ad vera sem ad giora hanns Vilia, Joh. 4. Elska skallt þu Drottenn Gud þinn, þad er hid ædsta og Mesta Bodord, Matth. 22. Enn hvad seiger Christur? Joh. 14. Ef þier elsked mig þꜳ vardveited mijn Bodord. Hann vegsamade Guds H. Nafn fyrer Mønnunum: Ef vier vilium honum epter fylgia, þꜳ lꜳtum oss þad fiarlægt vera ad misbrwka hanns Nafn til ad leggia þad vid Hiegooma, enn þo miklu sijdur ad liwga vid þad, sveria edur Fiolkynge fremia. J einu Orde ad seigia, Christur sem ecke var Logmꜳlenu undergiefenn, hann uppfyllte allt Logmꜳled; So eigum vier af fremsta Megne ad æfa oss i Hlijdne allra Guds Bodorda, og ecke skamta oss sialfer hvad miked edur lijted vier vilium hallda þar af. Ecke ad elska alleinasta Fodur og Moodur, enn hata alla adra, ecke ad vera einasta meinlaus i Umgeingne, og goodvikenn vid Nꜳungann, enn kreinkia hanns Hwsfrw edur Frænd-Konur, ecke alleina ad vakta sijn Augu fyrer Lauslæte, enn stela þo Nꜳungans Gotze og svijkia hann i Kaupum og Solum. Ecke er þad noog ad lꜳta hanns Fiemune kyrra, enn baktala hann þo og ofrægia, jꜳ, liwga uppꜳ hann Lijtum og Skømmum; Bera Fals-

Vitne

Vitne ꜳ moote honum, edur neita honum Sannleikans Vitnes, sem er allt hid sama. Ecke duger þetta, Br. M. Ecke er þad Christo epter ad fylgia, þvi sꜳ sem er sekur i einu af Bodordunum, hann er brotlegur i øllum, Jac. 2. Þar fyrer, er ad vijsu ad gꜳnga, ad sꜳ sem lætur epter sier nockud af þessu, og dryger þad vijsvitande ꜳ moote Samvitskunne, hann er ecke af Christi Sauda-Hwse. Hvad er hann þꜳ? Hann er Brꜳd Ulfsins, sem er Andskotenn, og mun honum ad eilijfu Herfꜳnge verda, nema hañ snwe aptur, enn hvernig vill hann fꜳ þad giort, nema hann heyre Raust hinns gooda Hyrders, nær hann kallar. Þvoed ydur hreinsed ydur, taked ydar Illsku-Breitne frꜳ mijnu Auglite, lꜳted af illu og læred gott ad giora, Es. 1. Þesse er hanns Raust, og ef þier af Hiarta ydrest ydar vondra Verka, og lꜳted ydr ꜳngra ad þier hafed Gud styggdann, þꜳ lætur hun enn þꜳ hærra, er hann seiger: Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiꜳder, eg vil endurnæra ydur; Taked ꜳ ydur mitt Ok og læred af mier, þviad eg em hoogvær og af Hiarta Lijtelꜳtur, og munud þier finna Hvijld Sꜳlum ydrum, Matth. 11. Þesse er Raust hinns gooda Hyrders i allre Ritningunne, i ollu Guds Orde, og þannig ꜳ eins Hroopanda, eins Predikara, Raust ad vera i Eydemorku Veralldar þessarar. Þier vited B. M. ad vier daglega syndgum; Lastanna Greiner sprettꜳ ydduglega wt wr þeirre Molld sem vier erum giorder af, sijdan Fiandmadurenn sꜳde þar Illskunnar Sæde, þær verdur af ad høggva, so odt sem þær vaxa. Med hveriu þꜳ? Med Guds Orde sem er eitt tvijeggiad Sverd og framgieck af hanns Munne, er Johannes sꜳ gꜳnga ꜳ mille Lioosastiakanna, Apoc. 1. Guds Ord er eiñ Elldur, sꜳ ed breñer upp oll Saurende Syrnda og Lasta sem oss eru medfædd, þad er einn Hamar, er sundurmer Hiortu vor, so þau verde Bwstader Guds, og sundurknosar vorn Anda, so hann verde þad Offred sem Drottne lijkar, Ps. 51. Hier um̃ talar hann so hiꜳ Jeremiam, 23. Er ecke mitt Ord so sem Elldur, seiger Drottenn, og so sem einn Hamar sꜳ ed Klettenn i sundur molar? Guds Ord er einn Elldur sem sagt er. Aaron sagde fordum sier til Afbotunar; Minn Herra, eg kastade Gullenu i Elldenn, og þar vard af þesse Kꜳlfur, Exod. 32. Riett-trwads Manns Hiarta er hveriu Gulle dyrmætara, kostum þvi i þennann Elld, þar af mun sialfkrafa vaxa einn Kꜳlfur, ecke Svijvirding Egyptalands so sem Aarons Kꜳlfur, helldur ein lifande Foorn og Gude þacknæmeleg, sem eru Kꜳlfar Vara vorra, Os. 14. Þesse er sw skylldann er vier eigum Gude ad giallda, og giolldum vier, ef satt skal seigia, Br. M. ecke i hanns, helldur i vorar Þarfer. Jardnesker Hyrdarar fæda Saudena fyrer Ullena og Mioolkena, enn Drottenn fæder sijna Saude fyrer alls eckert; Einkis krefur hann af þeim, nema ad þeir skule ottast sig og elska, og ætte þad ecke ad vanta christner Menn, þvi ef vier elskum vora Lꜳnar-Drottna fyrer þad þeir giefa oss Fot og Fæde, og vinnum þeim alltijd þo nockud til Þarfa. O! þvi skylldum vier þꜳ ecke elska hinn gooda allsheriar Drottenn, er ecke einasta fæder og foostrar Lijkama vora, helldur og elur Sꜳler vorar ꜳ þessu himneska Manna, sꜳ ꜳ sijns eingiet-

ens Sonar Hollde og Bloode, sem er Lijffins Braud af Himnum ofann komed, Joh. 6. Verum þvi ecke so illgiarner a moote sialfum oss, ad vier dausheyrunst vid þessa gooda Hyrders-Raust, hver ed soostrar oss i lystelegum Gras-Haga, og leider oss ad ferskum Votnum, Ps. 23. Oll syndugs Manns Olucka kiemur þar af, ad hann lier ecke Guds Raustu Eyrun, hvernig meiga þeir trwa nema þeim sie Predikad? seiger Paall, Rom. 10. Enn eg maa spyria, til hvers skulu þeir predika, nær eingenn vill heyra? Og hvernig a Guds Ord ad verka i Hiartanu nær þad kiemst ecke i giegnum Eyrun, sem eru Dyr Hiartans. Lamparner voru fyrst kveikter i gamla Testamentenu adur enn Reykelsed var tendrad, Exod. 27. Og so verdur Skilningurenn fyrst ad upplijsast, ad Manneskiann þecke Gud og sialfa sig adur enn Gyrndenn kviknar, og Audmyktenn lifnar til ad afneyta sialfum sier, enn elska Gud. Enn hvar er slijka Guds Giof ad faa, nema i hanns H. Orde, þau eru Lampar þeir, Ps. 119. Sem Reykelse vorrar Ydranar, vorrar Trwar, vorrar Bænar, Reykelse Elskunnar til Guds og Naungans skal tendrast med, so þeirra Ilmur stijge upp fyrer Guds Haasæte og samteingest þar Drottenns Forþienustu oss til Forlijkunar. Og er nu so wt-talad umm Skylldu vora a moote Gude vorum i þessu.

Enn hvad vora Skylldu ahrærer vid Kiennendurnar sem oss eru i Guds Stad setter, þa er hun nærsta mikel. Eg mun þykia vermælltur vered hafa umm þeirra Skylldu i hinum fyrre Parte Rædu minnar, og vil eg þvi vikid hafa til þeirra sem ecke taka Vara a sijnu Embætte, og lijted hyrda umm hvernig þeir kienna edur lifa; Enn Gude eru Packer ad kunna, ad hann hefur giefed oss marga sijns Ords Kiennendur, þa ed bæde predika þad hreint og klaart, og so prijda Kienninguna med lastvoru Framferde. Þesser hafa stooran Myndugleika af Gude, Born mijn. Hia þeim a þad heima sem Drottenn seiger, Luc. 10. Hver hann forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig. Ecke er oss ad þeim ad leita, sem ecke finnest mannlegur Breiskleike hia, Gud hefur nærsta vægdarsamlega hondlad vid oss i þvi, so sem ollu odru, ad hann hefur ecke sendt oss Engla af Himnum til ad kienna oss, þvi vier mundum ecke standast þeirra Naalægd, helldur syndugа Menn eins og vier erum, og hefur prijdt þaa med Englanna Nafne, Malach. 2. Til ad laata oss vita, ad þeir sieu hanns Sendebodar til vor, hveria hann vill laata medtaka i sijnu Nafne, hverke Petur nie Paall edur nockur annar af Postulunum voru aan mannlegs Veikleika. O! hvad munum vier þaa vera, sem eingann veigenn erum þeirra Lijkar. Kiennemennerner i gamla Testamentenu attu ad forlijka fyrer sijnar eigenn, adur enn þeir offrudu fyrer Foolksins Synder, Hebr. 7. Enn ei ad sijdur villde Drottenn ad Foolked skyllde þeim hlijded og undergiefed vera, so ad hann seiger: Hver sem ecke vill Kiennemannenum hlijda, hann skal deya, Devt. 16. Nu þo ad þetta Logmaal sie af-teked, ad so miklu leite sem Lijkhamans Straffe vidvijkur, þaa er þad samt og adur vijst, ad hver sem ecke hlijder einum Drottenns Kiennemanne i ollu þvi sem hann honum i Guds Nafne riettelega bydur, hann deyr andlegum Dauda,

hann er ecke christelegrar Kyrkiu lifande Limur, hann er daudur i Synd þeirre
er hañ vill ecke rœda Boot œ, og nema hann hlydnest Drottenns Þienara og ydrest af
Hiarta œdur enn hann deyr, mun hann eilijfum Dauda deya. Þier vited hvad Drott-
enn sagde fordum Daga um̃ Phariseos og Skriftlærda, Matth. 23. Ad Menn skylldu
giora epter þvi sem þeir segdu, eñ ecke epter þvi sem þeir giordu, af þvi þeir sœte œ Moy-
sis Stoole: Hversu miklu framar byriar oss þœ ad hlijda rœdvondum Kiennemon-
um er undann oss gœnga i Otta Drottenns, og eru ostraffanleger sem Paulus ad
Orde kiemst, 1. Tim. 3. Þad er, hveria Menn ei kunna ad straffa fyrer nockurn Glæp
edur hneixlissama Umgeingne, þo ei sieu þeir fyrer Gude syndlauser. So eigum vier
nu vorum Kienne-Fedrum ad hlijda, i þvi þeir oss biooda Guds og sijns Embættes
vegna, eins og siœlfum Gude, þvi þeir eru Verkanautar Christi, og Rœdsmenn hañs
Leyndardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Þar fyrer seiger og siœlfur Christur,
Luc. 10. Hver ydur heyrer, hann heyrer mier.

J odru Lage eigum vier ad heydra og elska vora Kienne-Fedur. Þvi bijdur Paulus
oss, 1. Tim. 5. seigande: Þeir Olldungar sem vel forstanda, halldest tvofalldligs(þad
er mikils) Heidurs verduger, allra hellst þeir sem ervida i Ordenu og Lærdoomenum,
so sem eru trwlynder Kienne-Fedur medal vor Br. M. Og þvi skylldum vier ecke heid-
ra Guds Sendeboda, ef vier hann heidrum? Hvilijkt er þœ Rænuleyse sumra Mañ-
a, er þeir hatast vid sijna Kienne-Fedur af þvi þeir straffa hiœ þeim Synder og Leste, og
vilia hafa Sœlum þeirra hoolped wr Glotunenne? Þar finnast oqudleger Skœlk-
ar, er ecke svijfast ad leggia Hendur œ sinn Sœlusorgara, þeir ed skiema hann wr i
Ordum sijnum leynt og lioost. Hvad er ad giallda Jllu gott ef þvilijkt er ecke? Hvad
er ad giora Uppreist œ moote Gude, ef ecke er þetta? Og eru þeir eingu betre sem Magt-
ena hafa, og soddann Glæpe ecke einasta ohengda lœta, helldur og taka slijka Ohæfu
i Forsvar, sem Dœme munu tilgiefast. Vel er þad satt, ad Guds Þienare œ alla Hlute
ad lijda fyrer hañs Saker, eñ þo mœ hañ beidast Riettar sijns nær so vid ber, þvi ecke ein-
asta hañ, helldur og hañs Herra er i slijku vanvirdtur. O hvilijkt Nidurdrep er þad
Christi Rijke, þegar soddañ Gudleyse er ecke straffad af þeim sem þar til Valld hafa af
Gude og Koningenum! Ægyptsker stroffudu þañ œ Lijfenu, sem ecke hiœlpade ein-
um Ferdamañe wr Ræningians Hondum ef hañ kyñe; Giæte þeir ad þvi sem Magt
hafa til ad straffa þœ sem Guds Þienurum ofbiooda med Orde edur Verke, hvilijk
Guds Reide yfer þeim hœnger, i hveriu Fœre þeirra Lijf og Sœl vera mune, þegar
hanns Hefnd vaknar einhvern Tijma, nær þeir ecke hiœlpa þeim i riettre Sok, sem af
Gude eru setter til ad hiœlpa Sœlum ohlutvandra Manna wr Kverkum Satans,
sem er Ræninge Sœlnaña. So eru þeir og nockrer, sem Andskoteñ hefur so blindad
med Foolskunne, ad nær einn Christi Þienare seiger þeim til Syndaña, vilia þeir ecke
þiggia Guds Lijkhama af hañs Hende, þeir giora sier Þusund Mein fyrr eñ þad skule
œ þœ gœnga, og sæta giarnañ þeim Tijma, nær einhver añar flytur Guds Þioonustu

i Kyrkiunne. Þessa eru mörg Dæme, þvi verr, og þetta giöra sumer af þeim, ed seigast vera nockud, þo ei kunne þeir Presteñ um nockra Sok ad klaga, og nefna þetta Samvitsku Veike sijna, hvar i þeir fara ei miog villt, þvi Diofulleñ plaagar Saaler þeirra med Heipteñe, sem þeir leggia aa þann er þeir ættu nærst Gude og Konungenum ad elska, seiged mier, mun ecke Satan hlæia ad slijkum Daarastap? Og mun ecke Drotteñs Lijkhame fordæma þaa merkelega, nær þeir stelast til ad medtaka hañ med soddañ Hiartalage moote sijnum Kienne-Fodur? Mun ecke hanns dijra Blood, med hveriu Syndareñ er endurkeyptur hroopa Bolvan i Himeneñ yfer þeim. Þad Auga sem spottar sinn Fodur, edur forsmaaer Hlijdne Moodur sinnar, þad munu Hrafnarner wtkroppa, seiger Salomon. Eñ seiged mier, eru ecke riettsiñader Kieñendur Fedur vorer? Prov.30. Seiger ecke Paulus, 1.Cor.4. Eg hefe gieted ydur i Jesu Christo fyrer Evangelium. Þeir eru og riett-kallader þessu Nafne sem gooda Forstodu veita, þvi so sem vorer lijkhamleger Forelldrar eru Medal til ad framkvæma Natturuñar Verk, so eru og hiner andlegu, sem eru riettsinnader Ordsins Þienarar, Medal til þess, ad framkvæma Guds Verk i oss, sem er ollu ædra, þvi aa þaa eingu sijdur ad elska og virda. Enn þad kalla eg ad hinn graaduge Hrafn Diofulleñ hafe alla reidu þeirra Saalar-Augu wtkroppad, sem hata so nockurn Guds Ords Þienara, sem er hañs Fader, ad hañ vill ecke þiggia af honum þaa Guds Þioonustu er hañ aa ollum Christi Limum ad veita, og giörer sig þañig Guds Rijkis Overdugañ. Heyred þvi St. Paals Ord af Pistlenum til Hebr. Cap.13. Hlijded ydar Leidtogurum og heyred þeim, þeir ed vaka yfer ydar Saalum, so sem þeir ed þar fyrer eiga Reikningskap ad giöra, so þeir giöre þad med Fognude og ecke med Andvarpan, þvi þad er ydur oþarflegt. Þad er hinn ædste Fognudur Guds Ords Þienara, sem vilia trwer finnast, ad þeir sjae nockud aorkad med sijnu Erfide, og þvi kallar Paulus þaa i Philippis sinn Fognud og sijna Coronu, Phil. 4. Þvi seigest hann ecke þurfa Hools-Briefaña vid, er hann skrifar Corinthiis til, þviad þeir sieu sitt Brief skrifad i Hiarta sijnu, sem skiled og lesed verde af ollum Monnum, 2. Cor.3. Aptur er þad hin mesta Sorg, nær þeir faa eingu til Leidar komed vid suma Menn, nær þeir sjaa fyrerfram, ad þeirra Sauder vegna Þvermoodsku siñar deya wt af fraa þvi heilnæma Foodre Guds Orda, ecke tijmañlegum, helldur eilijfum Dauda. Augustus Keysare sagde um Born sijn, er skickudu sier illa, og midur enn hanns Tign soomde, ad þau være sijnar þriaar Akomur. So meiga trwer Guds Þienarar seigia um þad Illgresed er Diofulleñ saaer nidur i Guds Akre, sem þeir eru yfersetter. Þad eru þeirra Akomur, þeirra Meinsemder, þad eru Illsku-Kijle og Graftrar-Mein sem eta i kringum sig med vondum Dæmum, og eitt Swr-Deig, sem spiller ollu Deigenu ef til vill, nema þau læknud sieu.

Þridia Maata eigum vier Saalusorgurum vorum ærlegt Upphellde ad veita, þad baud sialfur Drotteñ hiaa Matth. Cap. 10. Er hann sende þaa wt ad predika; Verdugur er Verka-Madureñ sinna Launa, sagde hann. Þad hefur hann itrekad

fyrer Munn St. Paals, hver Þo erfidade sialfur med sijnum eigeñ Hondum, so hañ ecke leggde Þijngsle a Sofnudenu i Corintho; Hañ seiger i hinu fyrra Sende-Brefe til Þeirra, Cap. 9. Hver fer nockurn Tijma i Hernad uppa sinn eigeñ Kostnad? Hver plantar Vijngard og etur ecke af hanns Avexte? Hver fæder Hiordena og etur ecke af Miolk Hiardarennar? Þier seiged vel Br. M. vier giorum so, vier giolldum Kiennefedrunum Þad Logeñ oss tilseigia, Þad er satt, morgum fer vel i Þvi, Þeir eru og sumer er meira giora enn Log Skylldañ bijdur, og hafa Þeir hia Gude Launa ad vænta sem ecke vill lata einn Vatus-Dryck olaunadañ vera sem giefenn er i Læresveins Nafne, Matth. 10. Þad er jafnvel hid minnsta sem hanns Þienurum er til gooda giort, um hveria hann sier i lage talar i Þessum Stad, Þo Þad og meige til skatækra heimfærast. Enn so munu aptur a moot finnast Þeir sem ecke eru so miog adgiætner i slijku, Þeir ed greida Þad Þeim greida byriar med illu, med Eptertolum, med Rangsleitne i Þvi er sijst hagar, og a hinum ohentugasta Tijma, og Þyker Þad nærre Þvi verst allra Skullda loked, sem gollded er Drottenns Þienurum, og kalla ad Prestar hafe ecke miked fyrer sijnu Braude. Ecke giet eg sagt ad Þvilijkar Manneskiur elske miog Saaler sijnar, Þvi annars mundu Þeir hyrda meir um sinn Saalusorgara. Lijted vita Þeir af hvad Kiennemannlegu Embætte fylger, hver Mæda, hver Umhyggia, hver Astundan, ef Þad af Alvoru nockurre giort er. Seiged mier: Mun Þad lijtel Mæda ad Þeir vaka yfer ydar Saalum med Bænenne til Guds? Med Kostgiæfne i hanns heilogu Orde sem ydur skal predikast? Munu Þeir hrista Þad Foodur wt af Ermeñe, er sierhverium ydar giefa skal i riettann Tijma? Mun ei Þurfa Omak og Adgiætne til ad Þeckia so hvern einn af Þeim sem Guds Þienara er tiltrwad, ad hann giæte boded Þad hverium einum sem honum er hagannlegast? Leggia ydar Kiennefedur ecke optlega sitt Lijf i Hættu fyrer ydar Velferdar Skulld? Meiga Þeir ecke taka a sig Þaa Þyckiu og Ovilld vondra Manna, nær Þeir seigia Þeim til Syndanna? Byriar Þeim ecke ad Þvijnga sinn eigenn Lijkhama ad ecke predike Þeir odrum, og verde sialfer ræker? 1. Cor. 9. Og hvad allra Þijngst er, ad Þeir skulu giora hinum alvallda Doomara Himens og Jardar Reikningskap fyrer Saaler ydar a Deige alls Hollds og svara til ef nockur tapast, hvert Þad er af hanns sialfs Vijtum edur Kiennemannsins Vanrækt. Villied Þier seigia mier Þaa ad eiñ Prestur viñe ecke fyrer sijnu Braude? Edur honum sie ofgiefed Þad hann nijtur. Þier seigest giallda Þad Þier erud skylldugir, so er Þad fyrer Monnum; Eingeñ kañ meira wt ad heimta. Eg seige ecke helldur ad Þier skulud giefa Þeim fram yfir Skylldurnar, sem noog Upphellde hafa, og sialfer ættu helldur ad leggia af vid adra enn taka fra Þeim. Eñ hina er viña Þurfa Bake brotnu, Þeir og Þejrra Born og Kvinnur fyrer Lijfs-Næringu siñe, sokum lijtels Upphelldes, sem vijda er, Þaa ættu Meñ ad Þeckia framar odrum so sem Paulus bijdur, 1. Thess. 5: Seigande: Eg bid ad Þier Þecked Þaa sem erfida a medal ydar, og ydur Forstodu veita,

og

og Kieña ydur, og ad þier hafed þa yfir Maata kiæra fyrer þeirra Verks-Skulld. Ad þeckia, merker hier ad Elska, so sem Postuleñ leggur þad sialfur wt, ecke einasta med Orde og Tungu, helldur med Verde og Sañleika, 1. Joh. 3. Eg þecke mijna Saude, og eg þeckest af mijnum, seiger Jesus, Joh. 10. So sem Gud þecker oss, þad er elskar, so eigum vier ad þeckia vora Kieñe-Fedur: Eñ hvernig þecker Gud oss? Þañig, ad hañ giefur oss alla Hlute ønægañlega til Notkunar, 1. Tim. 6. So eigum vier ad meddeila þeim ollum Giædum sem oss uppfræda i Ordenu, Gal. 6. Hvad medtokum vier af Guds Hende fyrer þeirra Medalgaungu? Andlegt Foodur Saalna vorra. Heyred þa hvad Paulus seiger hier um, 1. Cor. 9. Ef vier hofum saad ydur hid andlega, er þad þa miked, ad vier uppskierum ydvart hid Lijkhamlega? Þu gielldur allar Skylldur Prestenum, þad er gott, hañ kañ ei meira ad heimta; Eñ ef þu sier þiñ Saalusorgara Naud lijda, hungra, þyrsta edur klædlijteñ vera, og þu hialpar honum ecke, ef þu hefur Raad þar til, þa hefur þu eingañ Veigiñ loked þijna Skylldu Gude, sem er bæde þiñ og hañs Drotteñ; Þvi ef Postuleñ seiger, ad Guds Kiærleike sie ecke i þeim ed so breyter vid einhvern añañ sem naudstaddur er, 1. Joh. 3. Hversu mikid mun hañ vera i þeim er so giorer vid siñ Kieñe-Fodur, sem honum er framar odrum Banda bundeñ. Hugsa þvi ecke med þier, ef þu att fatækañ Saalusorgara, þañ er ræker sitt Embætte; Hvad er mier vandara eñ þeim sem lifa i odrum Sofnudum? Þegar eg gielld og gief eins og þeir, þa hefe eg afloked Skylldu miñe; Þvi Gud hefur giort betur til þijn eñ hañs, sem eckert þarf af ad legga vid siñ Kieñe-Fodur, þar hañ hefur giefed þier Orsok til ad leggia Skulld iñ hia sialfum sier, ecke þess vegna, ad hañ kuñe nockrum skylldugur ad verda, helldur Saker siña Fyrerheita. Eg Paall hefe skrifad med miñe eigeñ Hende, eg skal betala, sagde hañ fordum i Sende-Briefenu til Philemonem; Eñ eg er Gud alleina rijkur; Eg hefe talad fyrer Muñ mijns eingietens Sonar, ad eiñ Vatns-Dryckur i Læresveins Nafne skule ei olaunadur vera, seiger Drotteñ, Matth. 10. Sa sem vill sialfum sier vel, hañ giore vel vid siñ Kieñe-Fodur; Sa sem sialfañ sig elskar, hañ elskar Saalu sijna; Hver ed sijna Saalu elskar, hañ elskar Gud sem hana skapad og frelsad hefur; Sa ed Gud elskar, hañ elskar hañs Þienara, sa ed hañs Þienara elskar, hañ sier ogiarnañ ad þeir Naud lijde, ef hañ fær vid þvi giort. Þar fyrer, sa sem vill sialfum sier vel, hañ vilie under eins sijnum Saalusorgara, sem honum er i Guds Stad settur. Eñ Gud Allsheriar, sa ed er Fader vor allra, hañ stioorne oss so hier i Naadeñe, bæde yfirbodnum og undergiefnum, ad vier þeckium so hver añañ, ad vier um sijder af hinum ædsta Biskupe og Hyrder Saalna vorra, mættum þeckter verda, og iñleidder a Land lifande Maña; So þar verde eitt Sauda-Hws og eiñ Hyrder. Þad bænheyre hiñ naaduge Gud, fyrer Jesum Christum, A M E N.

